# SÝNISBÓK

# ÍSLENZKRAR TUNGU

OG

# ÍSLENZKRA BÓKMENNTA

## Í FORNÖLD,

ÚT GEFIN

AF

KONRÁÐI GÍSLASYNI.




KAUPMANNAHÖFN.

Á kostnað Gyldendals bókaverzlunar (F. HEGEL).

Prentað hjá J. H. Schultz.

1860.

XX

# FORMÁLI.

## I.

### *E f n i  í  t ö l u - r ö ð.*

---

(*Stjarna fyrir framan merkir, að þær greinir, sem hún er við sett,* (*t. a. m.* I *og* B-*kaflinn í* XI) *sjeu ekki prentaðar nema hjer; enn stjarna fyrir aptan, að þær greinir hafi ekki birzt á prenti fyr enn eptir það þær voru búnar í þessari bók* (*t. a. m.* II *og kaflinn* $389^{10}$—$392^{23}$ *í* XI C).

*"ÁM." merkir handrita-safn Árna Magnússonar; enn "GS." merkir hið gamla handrita-safn í hinu konunglega bókahúsi í Kaupmannahöfn. Næsta talan fyrir aptan "ÁM." eða "GS." merkir brotið* (*2* = *tveggja blaða brot; 4* = *fjögra blaða brot; 8* = *átta blaða brot; 16* = *sextán blaða brot*). *Tölur, sem þá koma, merkja stað bókarinnar í safninu. Dæmi: "ÁM. 4 674 A"* = *674 A meðal bókanna í fjögra blaða broti í handrita-safni Árna Magnússonar.*

*Um skinnbækurnar 226, 623, 625, 655, 677, 1812, sb.* F r u m p a r t a  í s l.  t ú n g u  í  f o r n ö l d,  e p t i r  K o n r á ð  G í s l a s o n, *Kmh., 1846, bls. ix-xi, l-lxii, lxvii-lxxxv, xciii-xcix, cix.*)

---

*I. — (*bls. 1-5*) — ÞÁTTR AF ÞORSTEINI TJALDSTÆÐINGI, *eptir þeim kafla af Flateyjarbók, sem á að gizka er ekki ritaður fyr enn snemma á 15. öld.*

II.* — (*bls. 6-41*) — HALLFREÐAR SAGA, *eptir skinnbókinni ÁM. 2 132 frá fyrra hlut 14. aldar.*

III.* — *(bls. 42-58)* — SAGA AF ÞORSTEINI SÍÐU-HALLS SYNI, *eptir ÁM. 2 142, sem er papp-írsbók, rituð af Ásgeiri Jónssyni eptir skinni, sem nú er glatað. Um eyðuna* $57^{27}$ *segir Ásgeir "Her wantar vist* ij *blod i Memb:".*

*IV. — *(bls. 59-63)* — FRÁ HELGA OK ÚLFI, *eptir þeim hluta Flateyjarbókar, sem eldri virðist vera.*

*V. — *(bls. 64-103)* — VERALDAR SAGA, *eptir skinnb. ÁM. 4 625, frá síðara hluta 13. aldar.*

*VI. — *(bls. 104-105)* — STÓRÞING, *eptir sama hand-riti.*

*VII. — *(bls. 106-107)* — KENNIMANNSSKAPR, *eptir sama handriti.*

*VIII. — *(bls. 108-252)* — RÓMVERJA SÖGUR, *eptir skinnb. ÁM. 2 226, frá síðara hlut 14. aldar. — Efnið er mestallt úr Sallustii Jugurtha og Catilina og úr Lucani Pharsalia.*

*IX. — *(bls. 253-380)* — ÚR RÓMVERJA SÖGUM, *með annari meðferð á efninu (9 brot:* A, B, C, D, E, F, G, H, I), *eptir handriti, sem virðist vera skrifað fyrir miðju 14. aldar og fyllir skinn-bókina ÁM. 4 595 A-B, nema B* $12^{3}$*—*$14_{1}$*, sem er frá síðara hlut 14. aldar, og*

*X. — *(bls. 381-386)* — UPPHAF RÓMVERJA (I, II), *er prentað eptir.*

(*)XI.(*) — *(bls. 387-399)* — ÚR KARLAMAGNÚSS SÖGU (A, *B, C [*bls.* $389^{10}$ *Oddgeirr* —$392^{23}$ *kóngs**], D*, *E), *eptir skinnb. ÁM. 2 180 C, hjer um frá 1400. Það er einkennilegt um þessa bók, að þar er svo opt einfaldur sam-hljóðandi fyrir tvöfaldan (sjer í lagi* n *fyrir* nn, *einkum í niðurlagi orða); og er þess ekki við getið í mismunagreinum.*

*XII. — *(bls. 400-406)* — ÚR KIRJALAX SÖGU, *eptir*

*ÁM. 4 489 og 589 A, sem báðar eru frá 15. öld; og eru þær á sumum stöðum bornar saman við pappírsbókina ÁM. 4 532. Skinnbókinni 489 lýsti Brynjólfur Snorrason í Annaler for nordisk Oldkyndighed, 1850, bls. 3.*

*XIII. — *(bls. 407-409)* — PARADISUS, *eptir skinnb. ÁM. 8 194, sem vera mun á aldur við ÁM. 2 180 C* (*sjá* XI) *og lesa má um á 3.-5. bls. í Symbolis E. C. Werlauffs. (Skinnb. 194 er nú 52 blöð.)*

*XIV. — *(bls. 410-415)* — AF ÞRIMR KUMPÁNUM, *eptir skinnbókunum ÁM. 4 657 B, 335, 586. Báðar hinar fyrri (657 B og 335) munu vera frá þriðja fjórðungi 14. aldar, enn 586 frá síðasta fjórðungi hennar.*

*XV. — *(bls. 416-418)* — INDVERSKIR GIMSTEINAR, *eptir 657 B* (*sjá* XIV).

*XVI. — *(bls. 419-427)* — AF MEISTARA PERO OK HANS LEIKUM, *eptir 657 B og 586* (*sjá* XIV *um þær báðar*), *og ÁM. 4 343 frá niðurlagi 14. eða upphafi 15. aldar.*

*XVII. — *(bls. 428-432)* — AF KÓNGSSYNI OK KÓNGSDÓTTUR, *eptir 657 B (sjá* XIV).

*XVIII. — *(bls. 433-435)* — ÚR CLARUS SÖGU, *eptir 657 B* (*sjá* XIV), *með samanburði við 1) skinnbókina ÁM. 4 589 D, sem vera mun frá 2. fjórðungi 15. aldar; 2) pappírsbækurnar a) ÁM. 2 179, b) 31 í safni Rasks.*

*XIX.,*XX. — *(bls. 436-437)* — TÍU UNDR EGIPTALANDS *og* TÍU LAGA-ORÐ, *eptir ÁM. 4 310, sem sjálfsagt er ritud á síðara hlut 13. aldar.*

*XXI. — *(bls. 438-446)* — FABELLA ALEXII CONFESSORIS, *eptir ÁM. 4 623, á að gizka frá miðri 13. öld.*

*XXII. — *(bls. 447-456)* — ÚR LEIZLU DUGGALS, *eptir fjórum skinnbókum ÁM. 4 624 og 681 A-C, sem allar munu vera frá síðara hlut 15. aldar.*

*XXIII.,*XXIV.,*XXV. — *(bls. 457-458, 459-467, 468-469)* — GREGORII (MAGNI) DIALOGORUM IV 26. 36 *(þ. e. fjórðu bókar 26. og 36. kap.)*; GREGORII MAGNI IN EVANGELIA HOMILIA XXIX, *og* SPAKMÆLI, *þ. e. upphaf spakmælagreinarinnar framan til í hinni ágætu skinnbók ÁM. 4 677 — sem þessar þrjár greinir eru prentaðar eptir.*

*XXVI. — *(bls. 470-475)* — ÚR LÆKNINGABÓK, *eptir ÁM. 4 655 xxx.*

*XXVII. — *(bls. 476-479)* — STJÖRNUMÖRK, *eptir GS. 4 1812. Höndin á þessari grein virðist vera hjer um bil frá miðri 14. öld.*

XXVIII. — *(bls. 480-483)* — FRÁ LÍFLÁTI BALDRS, *(Gylfaginning 49), eptir Konungs-Eddu (GS. 4 2367) — sem ritað virðist undir niðurlag 13. aldar —, með samburði við SnE. I 172—180.*

XXIX. — *(bls. 484-486)* — FRÁ AGLI TUNNADÓLGI, *eptir handritum Heimskringlu.*

XXX. — *(bls. 487-488)* — FRÁ HARALDI (SIGURÐAR SYNI) OK BRŒÐRUM HANS, *eptir Sögu Ólafs konungs ens helga (Christiania, 1853), með samburði við Heimskringlu (Kmh. 1777____) og Fornmanna sögur.*

XXXI. — *(bls. 489-491)* — AF HARALDI OK STÚF, *eptir skinnb. ÁM. 2 66, frá síðara hlut 14. aldar (sjá formálana við Fms. VI og VII), með samburði við þau brot af þessari frásögn, er finnast í Morkinskinnu (sjá* XXXII).

XXXII. — *(bls. 492-499)* — FALL HARALDS, *einkum eptir Morkinskinnu (GS. 2 1009), frá síðara hlut 13. aldar, og skinnb. 66 (sjá* XXXI).

XXXIII. — *(bls. 500-504)* — ÚR KNYTLINGA SÖGU (A, B, *eptir handritunum, með samburði við Fornmanna sögur.*

XXXIV. — *(bls. 505-509)* — ÚR ÍSLENDINGABÓK, *eptir handritunum, með samburði við Íslendinga sögur hinar síðari (Kmh., 1843——).*

XXXV. — *(bls. 510-525)* — ÚR NJÁLS SÖGU, *eptir skinnbókunum ÁM. 2 132 (sjá* II) *og 133, 4 466 og 468, GS. 4 2868 og 2870. Sb. formálann við latínsku Njálu (Nials-saga, Havniæ 1809). Þó er sú röng ætlun í þeim formála, að skinnbókin 466 sje rituð í Norvegi* (hunc codicem in Norvegia ante medium seculi xv. scriptum esse existimat Johnsonius): *það liggur í augum uppi, að 466 er ekki síður íslenzk, enn allar hinar.*

XXXVI. — *(bls. 526-533)* — ÚR LÖGUM (1. LÖGSÖGUMANNS-ÞÁTTR. 2. LÖGRÈTTU-ÞÁTTR. 3. UM ERFÐIR. *Sb. Grágás, útg. af Vilhjálmi Finsen, Kmh. 1852). 1. og 2. grein eru prentaðar eptir GS. 2 1157; enn 3. grein eptir 1157 og ÁM. 2 334. Báðar þessar ágætu skinnbækur eru frá síðara hlut 13. aldar.*

XXXVII. — *(bls. 534-544)* — ÚR VÖLUSPÁ, *(þ. e. Völuspá öll - að því leyti sem hún finnst í skinnbókunum -, nema 38 vísuorð, sem í eru: a. dverga-nöfn; b. 15* ok *eða* auk; *c.* nú hefi ek dverga——rètt umb talða; *d.* þar vas)· *Neðanmáls er* **R** = *(Sæmundar-Edda í) GS. 4 2365,* **H** = *(Völuspá í) Hauksbók (ÁM. 4 544),* **r** = *(Snorra-Edda í) GS. 2 2367 (sb.* XXVIII), **u** = *(Snorra-Edda í) Uppsala-bók,* **w** = *(Snorra-Edda í) Orms-bók,* **x** = *(Snorra-Edda í) ÁM. 4 756. Erindið* **Surtr ferr sunnan——** *(sem hjer er hið 59.) finnst á*

*tveimur stöðum í Snorra-Eddu, og merkir α fyrra staðinn, enn β hinn síðara.*

XXXVIII. — *(bls. 545-548)* — ÚR HÁVAMÁLUM, *eptir* **R** *(sjá* XXXVII*), með samburði við útgáfurnar.*

XXXIX. — *(bls. 549-552)* — ÚR HUGSVINNSMÁLUM, *eptir hinu prentaða kvæði, útg. (ásamt latínska frumritinu) af Dr. H. Scheving (Viðey, 1831). Hugsvinnsmál í skinnbókinni 624 (sjá* XXII*) skortir mikið við útgáfuna. Enn til að sýna dæmi mismunarins, hef jeg tekið úr skinnbókinni nokkur orðatiltæki, er til sanns vegar þótti mega færa.*

*XL. — *(bls. 553-554)* — ÍSLENDINGA DRÁPA, *þ. e. 11 fyrstu vísurnar, eptir skinnbókinni ÁM. 4 748. Á aptasta blaði þessarar bókar eru 26 erindi og nærri 2 vísuorð framan af drápunni, með hendi frá fyrra hlut 14. aldar.*

*XLI. — *(bls. 555-556)* — ÚR MÁRÍU DRÁPU, *eptir skinnbókinni ÁM. 4 757, sem varla er stóru yngri, enn frá miðri 14. öld.*

*XLII. — *(bls. 557)* — ÚR PÈTRS DRÁPU, *eptir skinnbókinni ÁM. 4 621, sem á að gizka er frá miðri 15. öld.*

*XLIII. — *(bls. 558)* — ÚR ANDREAS DRÁPU, *eptir 194 (sjá* XIII*).*

*XLIV. — *(bls. 559-560)* — CECILÍU KVÆÐI, *eptir ÁM. 16 429, hjer um bil jafngamalli og 621 (sjá* XLII*).*

---

# II.

## *Efni í stafrofsröð.*

---

# III.

## *Um ritshátt o. s. frv.*

---

G*reinirnar* I—XI, XIII, XIX—XXI, XXIII—XXVII, *eru prentaðar þannig, að allt er svo óbreytt sem orðið gat það er sýna þótti framburð eða annars kostar þótti vera merkast í handritunum.*

*Hinar greinirnar eru færðar til stöðugri stafsetningar; enn þó ekki allar á einn veg, heldur svo, að* XXXVII *er elzt að ritshætti, þá* XXXVIII, *þá* XXXIV *(þó með hljóðvarpinu* á—ó), XXXVI, XXXII — *enn* XII *einna yngst, og hinar þar á milli með misjöfnum hætti eptir undirstöðu hverrar greinar. — Tvíhljóðandinn* ay, *sem hjer er við hafður (fyrir* ey*) í hinum forna ritshætti, finnst t. a. m. 1) í elzta handritinu af Elucidarius (ÁM. 4 674 A) á 59. bls.:* ayra at vesa auga. *2) í Íslendingabók á þremur stöðum:* kaypti *(Ísl. I $11^{25}$)*, Ay(firð)inga *($17^{1}$)*, Frayr *($19^{24}$). Þar að auki er auðsjeð, að* Aisteins *($3^{11}$)*, Raikjarvík *($4^{17}$)*, Minþaksairi *($4^{18}$)*, naizlo *($6^{14}$)*, draimþi *($7^{8}$)*, aiksk *($7^{26}$)*, grai *($11^{4}$)*, Fraija *(í sömu línu), er mislesið úr* Aysteins, Raykjarvík, Minþaksayri, nayzlo, draymþi, ayksk, gray, Frayja, *líklega af því* a *og* y *hafa verið dregin saman í einn staf og fremri álmunni á* y *verið úr sleppt. Til þessa bendir ritshátturinn* najzlo *(Ísl. I $366^{12}$)*, drajmþi *($367^{12}$)*, ajcſc *($368^{10}$), osfrv.*

*Í* I—X, XIII, XVI, XVIII—XXI, XXIII—XXVII, *eru kapítula-fyrirsagnir ekki úr felldar þar sem þær voru í handritunum, enn prentaðar með minna letri. Kapítulatölunum hefur útg. við bætt.*

*Greinarmerkja-setning er í bók þessari öll minni og ókrappari enn tízka er til: þótti nauðsynjalítið að búta sundur upp tekið mál þegar það rennur áfram viðstöðulaust enn orðin sjálf sýna til hlítar hver að sjeu liðamót þess.*

# IV.

## *Skýring*

*nokkurra talna og merkja í bók þessari.*

---

1) *Tölur utanmáls vísa til skinnbókanna, og merkir meiri talan dálk við* VIII *og* XI, *enn blaðsíðu við* V—VII *og* IX—X *og* XXI; *minni talan merkir línu.*
2) *Það, sem var illt aflestrar í handritunum, eða skrifað var ofan í, er hjer prentað með skáletri.*
3) *Það sem stendur milli* " *og* " *(t. a. m.* $184^{24.26.27}$*) er tekið eptir handritunum svo nákvæmlega sem orðið gat. Annars kostar eru* ‚———' *höfð sem tilvísunarmerki, og* '———' *innan í þeim (t. a. m. á 412. bls.).*
4) ı = i *eða* í; *enn* ȧ, ȯ, u̇, ẏ = a, o, u, y, *eða* á, ó, ú, ý.
5) . . . *eða* — *merkir niðurfall upp tekins máls (ἀνακολουθία).*
6) — — — *(eða fleiri stryk) merkja, að eitthvað sýnist úr fellt af gáleysi í handritunum.*
7) *Við vísuenda í* XXXVIII *og* XXXIX *er haft* -, *enn ella langt stryk (t. a. m.* $455^{8.22}$, $515^{15.23}$*), til að sýna, að eitthvað sje úr fellt með ásettu ráði af útg.*
8) = =, = = =, *o. s. frv., sýnir, að eitthvað sje skafið út (meira eða minna, eptir því sem runan er lengri eða skemmri), enn ekkert skrifað í stað þess.*
9) ⌒⌒, ⌒⌒⌒, *o. s. frv., sýnir, að eitthvað hafi ekki orðið lesið.*
10) | *merkir línu-skipti í skinnbókinni; enn*
11) || *dálka-skipti eða blaðsíðu-skipti.*
12) [ ] *merkir í sundurlausu máli, að það, sem þar er í sett, virðist ekki vera upphaflegt. Í vísum er* [ ] *haft fyrir* ( ) *þar sem* ( ) *er komið á undan.*
13) oo, ooo, *o. s. frv., merkir göt á bókfellinu.*
14) *Stjörnu-röð merkir eyðu í frumritinu (t. a. m.* $57^{27}$*) eða að þar vanti blöð eða blaðhluta. (Sb. niðurlag 554. bls. Þar merkir strykið það sem úr er fellt með ásettu ráði af útg., enn stjörnurnar það sem vantar í skinnbókina).*

*Þau merki, sem nú skal telja, finnast einungis neðanmáls:*

15) μ *sýnir, að orð eða grein, sem það er við sett, standi á spássíu í frumritinu t. a. m.* $65_{23}$).

16) + *merkir "þessu er við bætt af útg." (á 1. bls., t. a. m., stendur 2. línan ekki í Flateyjarbók).*

17) = *merkir ritshátt í frumriti, að því leyti sem honum varð náð með því letri sem til var*[α]*, t. a. m.* $99_9$: "páfadóm = pava dō" *er sama sem* "páfadóm *er ritað* pava dō *í skinnbókinni*".

18) > *sýnir, að það sje getgáta, sem á undan því fer. Dæmi* ($67_{13}$): *1)* "kenndu > kend", *þ. e.* "kenndu *er sett í staðinn fyrir* kend "*(sem stendur í skinnb.)*"; "skemmðar >", *þ. e.* "skemmðar *er* "*sett í staðinn fyrir það, sem stendur í skinnb., og ekki verður* "*sýnt með þeim stöfum sem völ eru á*".

19) < *merkir 1)* "*þarf*" — *eða* "*þykir þurfa*" — "*leiðrjettingar*" (*t. a. m.* $138_{13-14}$); *2)* "*þarf*" — *eða* "*þykir þurfa*" — "*leið-*"*rjettingar í*" (*það sem á eptir fer; t. a. m.* $273_{16.17}$).

20) ⌣ *er haft fyrir* "*eða*".

21) ∽ *merkir* "*líkist í frumritinu*" (*dæmi* $76_{24}$: "er ∽ ei", *þ. e.* "er "*líkist* ei *í skinnb.*").

22) § *er haft neðanmáls við* XXXVII *og merkir* "*fyrir þetta (sem hjer* "*fer á undan) stendur*" ———— "*í skinnbókinni*".

23) *Stjarna og (sumstaðar)* ⊙ *merkja samanburð eða tilvísun til skilnings-auka.*

---

α) *Í* I-III *og* XII *er þó haft* s *fyrir* ſ, *eins þar sem til er reynt að þræða frumritin.*

# V.

## *Leiðrjettingar.*

---

*Ekki hefur vantað viðleitni á að forðast villur í bók þessari; enda eru hjer nú allar til týndar, sem fundizt hafa, svo þær gjöri sem minnst ógagn, og er þó engin þeirra stórkostleg — sumar ekki annað enn það sem haggazt hefur* e p t i r *lagfæringar undirbúnings-arkanna, þó meðferðin hafi verið góð í prenthúsinu.*

(*$3^4$ merkir 4. línu á 3. bls.; $42_2$ merkir 2. neðanmáls-grein á 42. bls.; osfrv.*)

$3^4$: ósk *á sjálfsagt að vera* kveðju.

$42_2$: *vantar* > *fyrir framan* Fragment.

107 *ofanmáls:* KENNIMANNSSAPR *les* KENNIMANNSSKAPR.

$108_3$: *ætti* Sallustius *heldur að vera* Salustius; *því það er só ritsháttur, sem tíðkast í skinnb.* (*sjá t. a. m. $174^{24}$*). *Enn þó lík ósamkvæmni í meðferð útlenzkra nafna kynni að finnast á fleirum stöðum, stæði það ekki á miklu, þar eð ritsháttur skinnbókanna er jafnan sýndur* (*annaðhvort í málinu sjálfu eða neðanmáls*).

*Í VIII. grein* (*Rómverja sögum*) *þykja mjer* n ú *líkur til að* konungr *eigi heldur að vera* kóngr (*og sama er að segja um margar prentaðar fornbækur. Orðið finnst mjög sjaldan í handritunum öðruvísi enn bundið*).

*Í sömu grein* (*og má vera víðar*) *eru stundum tannstafir niður felldir fyrir framan* s-*hljóð; enn þá er þess við getið neðanmáls* (*sb. t. a. m. $211_{10.12}$*).

$145^1$: Cirenenses ok *les* Cirenenses, ok.

$401^2$: Kirkjalax *les* Kirjalax.

$487^{15}$ hefni- *les* ‘hefni-.

$505^1$ *á að vera* XXXIV.

$533^{18}$ er *les* es.

$534_{24}$ *hefur* " *farizt í prentuninni fyrir ofan* g *í* gs.

540 *ofanmáls:* VÖLUSPA *les* VÖLUSPA.

546 *innanmáls:* 8 *les* 80.

„ *í 100. vísuorði:* er *les* es.

---

# I.

## ÞÁTTR AF ÞORSTEINI TJALDSTÆÐINGI.

Úlfr hjet maðr er bjó á þelamörk, hann var hersir. [Gulþir hjet maðr, hann bjó á Fíflavöllum í Tinzdal.] Son hans hjet Ásgrímr. hann átti þorkötlu er kölluð var bringa. Ásgrímr tók vit föðurleifð sinni ok var hinn mesti mannsómamaðr. Enn er Ásgrímr fór í víking þá var kona hans vanheil ok vildi Ásgrímr láta út bera barnit. Hún varð lèttari umm kveldit er hann skyldi fara umm morgunenn. Ásgrímr kvaddi til þræl sinn ath grafa sveininn. Hann svaraði 'mun ei ráð ath búa gröfina?' Ásgrímr kvað þath vel mega. enn sveinn lá á gólfinu. þá heyra þeir ath sveinninn kvað:

Leggit mög til móður,
mjer er kalt á gólfi.
hvar sje sveinninn sæmri
enn ath síns föður ernum!
þarf ei járn ath eggja
nè jarðarmen skerða.
lèttit ljótu verki,
lifa vil ek enn með mönnum.

---

2 +. 3 Úlfr > lfr. 4 Tinzdal ⌣ Tunzdal. 14 mög > miog.

þá mælti Ásgrímr 'víst skaltu lifa frændi ok munt verða 'hinn mesti merkismaðr af þessum fyrirburð'. síðan ljet Ásgrímr hann vatni ausa ok var kallaðr þorsteinn. þá var Haraldr enn hárfagri kóngr yfir Noregi ok hafði mjög lagt land allt undir sig ath sköttum. hann heimti til sín þann mann er þórormr hjet ok var kóngsfrændi ok bjó í þrömu. Kóngr mælti 'ek veit ath ei hafa skattar 'goldizt af þelamönnum. nú vil ek ath þú heimtir af 'Ásgrími syne Úlfs hersis, því ath öngum gef ek upp 'mína skuld. enn þath hefi ek sannfregit ath þeir feðgar 'hafa mikenn áhuga haft síðan er ek fekk Noreg með svo 'miklu starfi þá vil ek hann hafa með öllum skyldum'. þórormr kvezt mundu fara erinda kóngs 'enn lítt seigir 'mjer hugr umm ath þeir muni svara'. Kóngr mælti 'þá 'skal vita hvorir ríkari eru, enn mæl til alls vel í fyrstu'. fer hann nú ok hittir Ásgrím, ber upp kóngs eryndi ok krefr þar þvílíks fjár sem annars staðar 'nú gjörit yðr 'ei endimi ath halda réttu fyrir kóngi'. Ásgrímr svaraði 'þat hygg ek ath mínir frendr siti á þessum eignum skatta- 'lausum. enn þótt kóngr sjá ágirnist meira enn menn 'viti dæmi til þá vil ek þó frjáls vera ok eingan skatt 'gjalda'. þórormr kvezt ætla ath hann mundi óvitrlega fyrir búast 'ok hefir þeim mönnum ei veitt ath deila kappi 'vit kóng sem ekki hafa verit óríkari menn enn þú ert'. fer þórormr á kóngs fund ok seigir honum svo búit. Kóngr mælti 'skjót munu vær gjöra skiptin þá, vær 'munum eignast land hans ok lausafé enn ætla honum 'leingd af jörðu' ok kvaddi til þóri ármann sinn ath gjöra til hans. Enn er þórormr var í bruttu frá Ásgrími átti Ásgrímr þing vit bændr ok mælti 'þath er meiri von 'ath kóngr sjá taki þunglega voru máli. nú vil ek senda 'honum gjafir enn ei skatt ok gjöri ek þat fyrstr minna

---

25 þórormr > þoromr. 30 meiri > mirj. 32 gjöri > giora.

'manna'. Síðan valdi hann til sendimenn ok færa kóngi gjafir, þath var hestr gauzkur ok þar með mikit silfr. koma sendimenn fyrir kóng ok mæltu 'Ásgrímr herser 'sendi yðr góða ósk ok ríki yðru. enn hann hefir spurt 'orðsending yðra um skatt, enn hann vill ei hann gjalda, 'heldr hefir hann sent yðr margar vingjafir'. Kóngr mælti 'berit aptr gjafir hans allar, ek skal kóngr í þessu landi 'ok setja lög ok rètt enn ei hann'. Nú verða sendimenn aptr ath fara vit svo búit. ok á þessi stundu kom þórir ok ljet Ásgrímr þings kveðja. þá stóð Ásgrímr upp ok mælti 'vita munuð þjer ákall vit oss af Haraldi kóngi. 'hygg ek nú hjer vera komna velflesta bændr af þelamörk 'þá er ráðamenn eru. nú vil ek ath vær verðum samdóma 'fyrir kóngsmönnum ath ei brjóti þetta á mjer einum. er 'þat mest von ath kóngr leggi fjandskap á þann er fyrir 'beitist. nú vil ek vita svör af yðr.' Bændr ljetust hann hafa feingit formælanda fyrir sig 'enn ekki er oss um 'skatt ath gjalda'. 'þá veli þjer yðr þann' sagði þórir 'sem vest gegner. hafa margir þeir borit lægra hlut fyrir 'Haraldi kóngi er svo mundi sýnast sem hvergi mundi 'hafa minni hamingu ok hafa þó lágt fyrir honum farit'. Ásgrímr svaraði 'á þath vil ek sáttr vera sem aðrir bændr 'vilja'. Enn þingit var sett vit skóg nökkurn. enn er þingit raufst þá mælti þórir vit þræl sinn 'gakk þú til 'ok drep Ásgrím ok leita þegar í skóginn'. Hann gjörir svo, leitar fram í milli mannanna ok hjó hann þegar banahögg ok svo hafði kóngr ráð til sett. enn bændr drápu þegar þrælinn. enn þórir komst þó nauðuglega í skóginn undan ok síðan til skips, fer nú á kóngs fund ok seigir honum sem komit var. Kóngr mælti 'trautt mun fást 'hugfullari þræll, ok því fjekk ek hann til ath ek vissi 'ath sá mundi feigr er hann vægi, enn sárt vilda ek leika

4 ósk? 11 munuð > muud.

'alla þá er mjer brjótast í móti'. Þorsteinn Ásgrímsson var í hernaði ok var manna gjörviligastr mikell ok sterkur. enn er hann kom heim úr víkingu kvomu menn á fund hans ok seigja honum líflát föður hans. Þorsteinn svaraði 'bitu hann enn ráðenn Haralds kóngs. enn brátt mun eptir 'verða ætt vára ef Haraldr kóngr skal einn fyrir sjá'. Síðan varði hann föðurleifð sinni í silfr ok lausafè ok kvezt ætla ath hann mundi ei keppa vit Harald kóng. Enn þá var för mikel til Íslands ór Noregi eptir þau stórvirki er menn ráku harma sinna. Nú bjóst Þorsteinn til Íslands ok með honum Þorgeirr bróðir hans x vetra gamall ok Þórunn föðrsystir þeirra fóstra Þorgeirs. Enn er búit var skip til hafs þá mælti Þorsteinn vit fèlaga sína 'þath mundi faðir minn ætla þá er hann ljet mik ei 'út bera ath ek mundi nökkuð minnast ath hefna hans ef 'hann yrði ei sóttdauðr. nú þó ath ei komi þar niðr sem 'vera skyldi þá er þó ei ámælisvert ef jáfnmenni kemr 'fyrir. nú vil ek fara í Þrömu til Þóris' ok svo gjörir hann, koma þar á náttarþeli ok tóku hús á þeim. Þá mælti Þorsteinn 'nú skulu menn þath vita ath ek ætla 'hjer til föðurhefnda ok vilda ek hafa þar til yðvart lið-'sinni'. enn þeir sögðust honum veita skyldu slíkt er þeir mætti. Síðan slá þeir eldi í bæinn ok brann þar inni Þórir ok sveit hans öll. Enn umm morgunenn höggva þeir upp búit ok bera til skips, láta í haf eptir þath, ok ljezt Þorsteinn nú fúsari í haf ath láta enn þá ath honum væri því brugðit á Íslandi ath hann hefði ei hefnt föður síns. Þeir láta nú í haf ok kom hann skipi sínu í Rangárós. Enn sá maðr var fyrir sveit er Flosi hjet ok var Þorbjarnar son. hann var landnámsmaðr. ríða menn til skips. kom þar Flosi ok kannaðist hann þegar vit Þorstein ok spurði hann hvað hann hafi til rekit ath fara út hingað.

28 hann +.

Þorsteinn mælti 'ek hefir farit sem sumir aðrir heldr 'skyndeliga af Noregi með vandkvæði ok nú í sökum vit 'Harald kóng. nú vildi ek hjer staðfestast ok vera frjáls'. Hann kvað slíkt þá menn henda 'sem ekki vilja láta yfir 'drífast, enn vær skulum þjer vel fagna'. Hann nam land ath ráði Flosa fyrir ofan Víkingalæk ok út til móts vit Sinnhaga, bjó í Skarði enu eystra. hann átti Þórdísi dóttur Gunnars Sigmunda sonar Sigurðs sonar ens rauða er fjell vit Sandhóla. Sighvatr enn rauði átti Ingibjörgu dóttur Eyvindar lamba Berðlu-Kára sonar systur Finns föður Eyvindar skáldaspillis. Sonr Þorsteins ok Þórdísar var Gunnar. Þorsteinn var dreingr góðr ok sjer gnógr umm alla hluti. Þat er sagt ath skip kom í Rangárós þath er fylgdi ósvipr mikill ok sjúkleiki ok sá menn vit ath koma til þeirra ath ei feingi menn illindi af þeim ok fór svo umm hríð. Enn er Þorsteinn frá þetta kvað hann mönnum ei sama ath þeir færist af bjargleysi. fór þá Þorsteinn á fund þeirra ok spyr með hverju móti væri sótt þeirra. enn þeir sögðust vorðnir fyrir gjörningum 'enn nú vill 'eingi á sjá með oss'. Þorsteinn mælti 'mun ei þat vænst 'ath þjer farit með oss?' Enn er þeir koma heim kvað Þórdís ekki meðal-endimi í vera hvað hann tók til ok vildi flýja bæinn. enn Þorsteinn kvað ei þath skyldu ok bjó eitt tjald skammt frá bænum. því var hann kallaðr Þorsteinn tjaldstæðingr. Nú gjörðist hallæri mikit yfir þeim svo eingi máttí hjá þeim vera nema Þorsteinn einn. ok ekki var atæfi þeirra friðligt, því ath sá þeirra sem leingst lifði fal silfr mikit ok vildi ath eingi nyti. Þorsteinn átti síðar Þórdísi Sigfúsdóttur. þeirra son var Skeggi faðir Gunnars föður Skeggja föður Lopts föður Gunnlaugs smiðs.

---

1 sem +. 9 Sighvatr = Sıghu̇. rauði > 'rauðá. 11 skálda-spillis > skalldaspıllıztt. 14 fylgdi > fylgı. 24 hann +.

# II.

## HALLFREÐAR SAGA.

---

1. Þorvaldr hèt maðr ok var kallaðr skiljandi. hann bjó í eynni Ylfi á Hálogalandi. hann átti konu þá er þorgerðr hèt ok var Hallfreðar dóttir. Galti hèt bróðir hennar. hann var ríkr maðr ok bjó í Sogni. Synir þorvalds voru þeir Óttarr ok þorkell silfri, ok var þorkell laungetinn. Ingjaldr hèt maðr er þar bjó enn í eynni. Hans son hèt Ávaldi. Óttarr var með Ingjaldi. Sokki hèt víkingr einn mikill ok illr viðreignar. hann fór víða með hernaði ok var vinr Gunnhildar sona (því at þeir voru þá yfir Noregi). hann kom um nótt á bœ þorvalds ok segir mönnum sínum at þar muni gott fang í hendr bera er auðigr maðr bjó firir ‘ok skulu vèr bera eld at bœnum’ ok svá gera þeir. þorvaldr gekk til dyra ok spyrr hverr firir eldinum rèði. Sokki sagði til sín. ‘Hvers gjöldum vèr at?’ sagði þorvaldr ‘ek man eigi mótgerðir mínar við þik’. Sokki svaraði ‘ekki förum vèr víkingar at því, viljum vèr hafa líf þitt ok fè’. ‘Á því munu þèr nu vald eiga at sinni’ sagði þorvaldr. Nú sækja víkingar at bænum með eldi ok vápnum, ok lýkr svá at þorvaldr brann þar inni við xv menn en nokkurir komuz brott ór eldinum. víkingar tóku fè þat allt er þeir máttu með

komaz. Sumt lið Sokka fór til bæjar Ingjalds ok lögðu þar eld í hús. hann gekk til dyra ok beiddi mönnum útgöngu, en þess var engi kostr. þá gekk Ingjaldr at sveinunum Óttari ok Ávalda ok mælti ‘þat er líkaz at ‘liðin sè mín örlög, en gjarna vilda ek koma ykkr ór ‘eldinum ok mælti þið njóta leingri forlaga, skal ek skjóta ‘ykkr út um laundyrr ok veri ykkr nóg efni til seld at ‘hefna þessa ef þið fengit nokkura uppreist’. þeir svöruðu at vera mundi vilinn til ‘en eigi sjáum vit efni okkur til ‘þess at svábúnu’. Síðan var þeim skotið út um laundyrr einar ok komuz þeir með reyk í brott ok hlaupa út á eyna. en firir gný ok eldsgangi ok þat er þeir voru eigi feigir, þá komaz þeir undan ok til eins bónda er þar bjó í eynni. Óttarr mælti þá ‘viltu flytja okkr til lands?’ Bóndi kenndi þá ok flutti þá til lands. þar komu þeir er síldferja var, ok menn á, norðan ór Vágum. þeir sögðuz vera fátekir sveinar ok koma sèr þar í þjónostu. þeir fara þar til er þeir koma suðr um Sognsæ. þá segja sveinarnir at þeir vilja þar inn í fjörðu ‘eigu vit hèr ‘frændr firir’. Stýrimaðr mælti ‘þat skal nú sem þit vilit. ‘eða munu þið hèr eigi verr komnir en þar sem vèr ‘tókum ykkr? hafi þit vel þjónat ok munu þið brátt brugðnir ‘við meira’. Síðan skildu þeir. Síð dags komu þeir til Galta móðurbróður Óttars ok settuz utarliga. Galti gekk at þeim ok spurði hverir þeir veri. Óttarr sagði satt til þeira. ‘þá er skaplig kváma ykkur’ sagði Galti ‘ok ‘gangit til sætiss’. þar voru þeir í góðu yfirlæti vij vetr eða viij ok gerðuz gjörviligir menn. þá var Óttarr á Fitjum er Hákon konungr fèll en Gunnhildar synir tóku ríki. þat var einn dag er Galti mælti ‘svá virði ek Óttarr ‘sem þú sèr firir ykkr fóstbræðrum ok venti ek at þú ‘verðir framkvæmdarmaðr. en nú er sú öld í Noregi at

5 vilda ⌣ vildi. 12 gný > gný gný. eldsgangi > elldzgangangı. 20 vilit > vıllıt. 26 kváma > kvíama.

'ek treystumz eigi at halda ykkr hèr með mèr. nú vil 'ek fá ykkr kaupeyri ok skulu þið sigla vestr til Englands 'ok vita hverneg þat vill takaz'. Óttarr kvaz hans ráðum hlíta vilja. selt hafði Galti jarðer þeira ok tekit firir lausafè. Nú fara þeir ór landi fóstbræðr Óttarr ok Ávaldi vestr til Englands ok afla sèr fjár. iij vetr eða iiij voru þeir í siglingum til Englands ok áttu þá stór-fè. þeir fóru þá til Orkneyja ok voru þar vel metnir af góðum mönnum. Óttarr mælti þá til Ávalda 'þat leikr mèr í skapi 'at kaupa íslandsfar ok ráðaz þangat, en þó vilda ek at 'vit hefndim áðr feðra okkarra en vit losnaðim brott með 'öllu'. Ávaldi bað hann firir sjá. Síðan keyptu þeir sèr skip gott ok rèðu þar menn til ok sigla nú til Noregs ok komu í Sogn til Galta ok sögðu hánum sína ætlan. Galti svaraði 'þat berr vel til. Sokki liggr hèðan skammt í 'brott á einu skipi ok sefr á landi um nætr í einu lopti. 'skal ek fá ykkr mann þann er allt er kunnigt firir ok 'Sokki mun sízt varaz'.

2. Capitulum. Nú fóru þeir frá skipi sínu Óttarr ok Avaldi ok sá maðr með þeim er Steinn hèt. þeir komu síð um kveld at bé þeim er Sokki svaf at um netr ok Sóti bróðer hans. Steinn fór einn til bejar ok kom sèr brátt í tal við þá Sóta ok drakk með þeim um kveldit. ok er þeir gengu til svefns ok upp í loptið, þá gerði Steinn þeim Óttari vísbending. þeir Sóti voru vij saman í göngu ok komu í loptið ok ætluðu at afklæðaz. þá koma þeir Óttarr at ok leggr hann þegar með sverði til Sokka neðan under brynjuna ok svá upp í smáþarmana ok fekk Sokki þegar bana. Ávaldi hjó með sverði til Sóta ok af hánum báða þjónappana. síðan hljópu þeir út allir ok lètu myrkrit geta sín. þeir komu til skips síns ok hèldu þegar í haf ok fengu góðan byr ok þótti þeira ferð all-skörulig orðit hafa. Gunnhildr spyrr þetta ok kvað þat mein at hón hafði eigi þá menn augum leitt er vini hennar höfðu drepit ok skammat 'en ek veit þó' sagði hón 'hverir gört

'hafa'. þeir Óttarr komu í Blönduós firir norðan land ok voru þá numin lönd öll. Óttarr keypti land í Grímstungum í Vazdal at þeim manni er Einarr hèt ok gaf hánum við kaupskipit. Óttarr gerði bú. Ávaldi var með Óttari hinn fyrsta vetr. Um várit keypti hann land at Knjúki í Vazdal. hann fekk þeirar konu er Hildr hèt dóttir Eyvindar sörkvis. Dóttir þeira hèt Kolfinna. hón var ven kona ok ofláti mikill. Óláfr hèt maðr er bjó at Haukagili. hann var auðigr maðr ok átti þá konu er þórhalla hèt ok var dóttir Ævars ens gamla. Aldís hèt dóttir þeira ok var skörulig kona. hennar bað Óttarr ok fekk með miklu fè. Son þeira hèt Hallfreðr, en annarr Galti. Dóttir þeira hèt Valgerðr ok var allra kvenna fríðuz. Óláfr at Haukagili fóstraði Hallfreð ok var hann vel haldinn þar. hann var snemma mikill ok sterkr kallmannligr ok skolbrúnn nokkut ok heldr nefljótr jarpr á hár ok fór vel. skáld var hann gott ok heldr níðskárr ok margbreytinn. ekki var hann vinsæll. þorsteinn Ingimundar son var þá höfðingi í Vazdal. hann bjó at Hofi ok þótti mestr maðr þar í sveitum. hann var vinsæll ok mannheillamaðr mikill. Ingólfr ok Guðbrandr voru synir hans. Ingólfr var venstr maðr norðanlands. um hann var þetta kveðit:

Allar vildu meyjar
með Ingólfi ganga
þær er vaxnar voru.
'Vesol er ek æ til lítil!'
'Ek skal ok' kvað kerling
'með Ingólfi ganga,
'meðan mèr tvær of tolla
'tennr í efra gómi'.

Haustboð var efnat í Grímstungum ok knattleikr. Ingólfr kom til leiks ok mart manna með hánum neðan ór dalnum.

---

27 kerling > kerlingar.

veðr var gott ok sátu konur úti ok horfðu á leikinn. Valgerðr Óttars dóttir sat upp í brekkuna frá ok konur hjá henni. Ingólfr var at leiknum ok fló knöttrinn upp þangat. Valgerðr tók knöttinn ok lèt koma under skikkju sína ok bað þann sækja er kastað hafði. Ingólfr hafði þá kastat. hann bað þá leika, en hann settiz niðr hjá Valgerði ok talaði við hana allan þann dag.

3. Af Ingólfi. capitulum. Nú var slitið leiknum ok fóru menn heim þeir er eigi voru í boði. Síðan vandi Ingólfr kvámur sínar í Grímstungur til tals við Valgerði. Óttarr kom at máli við Ingólf ok mælti 'eigi gez mèr at 'kvámum þínum ok spurt muntu þat hafa at vèr höfum 'eigi setið um skapraunir eða skammir. muntu komaz 'at ráðahag við hana ef þú vill'. Hann kvaz mundu vera sjálfráði ferða sinna hvat sem Óttarr segði, lèt svá at eins skipaðan dalinn at hann kvaz engis manns nauðarmaðr vera skulu. Síðan hitti Óttarr þorstein ok bað hann halda svá son sinn at hann fengi enga ósæmð af hánum 'því at þú ert vitr maðr ok góðgjarn'. þorsteinn svaraði 'víst gerir hann slíkt í móti mínum vilja ok heita vil ek 'þèr mínu umtali' ok skilja þeir við þat. þorsteinn mælti til Ingólfs 'annan hátt hafi þèr en vèr höfðum á unga 'aldri, gerit yðr at ginnungum er höfðingja efni erut. lát 'af tali við dóttur Óttars bónda'. Ingólfr kvað við hans umtal batna skyldu ok lèt þá af kvámum fyst í stað. Síðan orti Ingólfr mansöngsdrápu um Valgerði. Óttarr reiddiz því mjög, ferr enn at hitta þorstein ok kvað sèr nú leitað mikillar skapraunar 'nú bið ek at þú lofir mèr at stefna 'syni þínum, því at ek nenni eigi at kyrrt sè'. þorsteinn svaraði 'meðallagi er þat ráðligt, en eigi vil ek banna 'þèr'. þá mælti Jökull bróðer þorsteins (því at hann var þar hjá) 'heyr á endimi! þú mundir stefna oss frændum

---

14 vera > ver.

'hèr í sveit! skaltu fá ófagnat!' Jökull bjó uppi í Tungu í Vazdal. þorsteinn sýndi enn góðvild sína ok setti menn til með þeim á Húnavaz þingi en bauð handsöl firir son sinn. þorsteinn bað þess at Óttarr yndi því at hann dæmdi um drápumálit ok þat er milli þeira var. þessa fýstu menn Óttar ok varð þat at sættum at þorsteinn skyldi einn gera. Síðan mælti þorsteinn 'skjót ero hèr mín ummæli, 'mun ek sjá firir hvárumtveggjum hversu sem ykkr líkar. 'ek geri hálft c silfrs til handa Óttari, en hann skal selja 'jarðer sínar ok ráðaz í brott ór þessi sveit'. Óttar kvaz eigi vara at hánum mundi slíkr ójafnaðr gerr vera. þorsteinn kvaz eigi síðr firir hans hlut sèt hafa, við skaplyndi hvárratveggju. ok eptir þat rèz Óttarr suðr í Norðrárdal ok bjó fyrst á Óttarstöðum. þá var Hallfreðr son hans nærr xx manni. hann lagði hug á Kolfinnu Ávalds dóttur, en Ávalda var lítið um þat ok vildi gipta hánum dóttur sína, en Hallfreðr vildi eigi kvænaz. Ávaldi ferr at hitta Má vin sinn er bjó á Márstöðum ok sagði hánum til vandræða sinna. Hann svaraði 'hèr mun fáz ráð til. 'ek skal fá mann til at biðja hennar. maðr heitir Gríss 'ok er Sæmings son, hann er vinr minn ok býr at Geita'skarði í Langadal. hafði hann verit út allt í Miklagarð 'ok fengit þar miklar semdir. hann er auðigr maðr ok 'vinsæll'.

4. Gipt Kolfinna. Nú sendi Márr orð Grísi ok kemr hann á Márstaði. Márr mælti 'ráð hefi ek hugat firir þèr. 'þú skalt biðja Kolfinnu dóttur Ávalda. þar skortir eigi 'fè ok er hón kostr góðr, en mèr er sagt at Hallfreðr 'Óttarson eigi tal við hana jafnan'. þetta var áðr en Óttarr fór norðan. nú koma þeir Márr ok Gríss til Ávalda ok voru vij saman. þeir settu úti spjót sín. Gríss átti gullrekit spjót. nú sátu þeir at málunum ok fylgdi Márr

12 sèt = séćt. 18 hánum > hann. 20 mann > ma mān.

firir hönd Gríss. Ávaldi kvað Márs forsjá á skyldu vera 'ef yðr "lız ɔa", ok mun yðr eigi frá vísat'. ok í þat mund komu þeir Hallfreðr ok förunautr hans ok sá spjótin. Hallfreðr mælti 'komnir munu hér menn nokkurir um 'langan veg, ok gættu hesta okkarra, en ek mun fara til 'dyngju Kolfinnu' ok svá gerir hann. hann settiz hjá henni ok spurði hvat komit veri 'en engi þekkt mun mér á 'þeim vera, því at þeir munu biðja þín ok trúi ek at þat 'mun eigi vel verða'. Kolfinna svaraði 'láttu þá firir því 'sjá er ráða eigu'. Hann svaraði 'finn ek at þér þikir nú 'þegar biðill þinn betri en ek'. Hallfreðr setti hana í knė sér úti hjá dyngjuvegginum ok talaði svá við hana at aller sá þeir er út gengu. hann sveigir hana at sér ok verða þá einstaka kossar. Nú koma þeir Gríss út. hann mælti 'hverir ero þessir menn er hér sitja á dyngjuvegg-'inum ok látaz svá kunnliga við?' Gríss var heldr óskyggn ok súreygr. Ávaldi svaraði 'Hallfreðr er þar ok Kolfinna 'dóttir mín'. Gríss mælti 'er þetta vandi þeira?' 'Opt berr 'svá til' kvað Ávaldi 'en þú verðr nú þetta vandræði af 'at ráða er hón er þín festarkona'. Gríss svaraði 'auðsætt 'er þat at við mik vill hann nú illt eiga, ok er slíkt til 'hræsni gert'. Nú ganga þeir Gríss til hesta sinna. þá mælti Hallfreðr 'vita skaltu þat Gríss at þú skalt fjandskap 'minn hafa ef þú etlar þér þenna ráðahag'. Márr mælti 'engiss munu þín orð metin Hallfreðr um þetta mál ok mun Ávaldi eiga ráð dóttur sinnar'. þá kvað Hallfreðr vísu:

Svá nǫkkvi verðr sökkviss
sannargs troga margra
ægilig þess augum
allheiðins mér reiði,

---

28 nökkvi verðr sökkviss < nekkvi verðr sökkvis(s) — nökkvi verðr sekkvis(s).

sem ólítill úti,
ills mest við för gesta,
(stæri ek brag) firir búri
búrhundr gamall stúri.

'ok hirði ek ekki blót-Márr' sagði Hallfreðr 'hvat er þú 'leggr til'. Márr sagði, ef hann flimtaði hann, at hann skyldi hart í móti taka. Hallfreðr kvaz ráða mundu orðum sínum. hann kvað þá vísu:

"Raða rækımeıðar.
"randalıðs at bıðıa.
"ótti eınga dottur.
"avalldz er þat skalldı.
"sıð mun svrz vm bıða.
"ma gæta menn tıl hennar.
"kuanar bẏrs af keẏrı.
"kolfinnu mer renna."

Hallfreðr reið þá í brott ok var reiðr. Márr mælti þá 'ríðum eptir þeim' ok svá gera þeir ok voru ix saman, fekk Ávaldi þeim ij menn. Óláf fóstra Hallfreðar grunaði um ferð þeira Gríss ok Márs. hann sendir þegar eptir Óttari, ok er þeir finnaz segir Óláfr hánum at Hallfreðr mun manna þurfa. Nú er at segja frá Hallfreði at þeir ríða ij undan en ix eptir. Hallfreðr sèr eptirreiðina ok mælti 'rennum eigi leingra undan', þeir voru þá komnir hjá holti einu, bjugguz þeir þar við ok brutu upp grjót. nú koma þeir Gríss at ok sækja at þeim, en þeir verjaz alldreingiliga. en þó kom þar sem mælt er at ekki má við margnum ok verða þeir Hallfreðr handteknir ok bundnir báðer. þá mælti Gríss 'menn ríða hèr at oss ok ero eigi 'færi en xxx, ok má vera at sigrinn verði skammærr'. þeir Gríss sneru aptr ok riðu þá undan hart ok yfir ána, ok var þar götuskarð í bakka ok vígi gott. þar nema

3 búri > bruðı. 5 ekki +. 14 ma ⌣ sua.

þeir staðar. þá koma þeir Óttarr at ánni. Gríss kvaddi Óttar ok spurði hvat hann vildi. Óttarr mælti ‘hvar er ‘Hallfreðr frændi minn?’ Gríss svaraði ‘hann er bundinn, en ‘eigi drepinn, hjá holti því er vér fundumz’. Óttarr svaraði ‘óvirðuliga hafi þér við hann búit, eða viltu unna mér ‘eindæmiss firir þetta?’ Gríss kvaz hans orð mikils virða skyldu, ok at því sættuz þeir ok skildu við svá búit. Óttarr ríðr nú aptr á veg ok finnr Hallfreð ok leysir þá félaga. Óttarr mælti ‘eigi er ferð þessi virðulig *orðin* ‘frændi’. Hallfreðr kvað eigi lofa mega ‘ok eigi hirði ek ‘faðer hversu þú gerir gerð þessa ef Gríss á eigi Kolfinnu’. Óttarr svaraði ‘Gríss skal konu eiga alls hann ‘trúir mér til, en þú frændi skalt fara utan ok leita þér ‘meiri semdar’. Hallfreðr svaraði ‘hverr mun mér þá trúrr ‘ef faðirenn bregz? nú skal þat fyrri at hendi beraz at ‘ek bjóða Grísi hólmgöngu þegar ek sé hann’. Nú ríðr Óttarr heim en Hallfreðr til Haukagils. Óláfi þótti illa orðit hafa ok þótti Hallfreðr ótrúligr at halda sættir ok sendi orð Óttari at hánum leiz vandræðalíkligt. þá komu orð til Hallfreðar at faðer hans veri sjúkr ok kvaz vilja finna hann ok gera skipan sína. Hallfreðr kom ok þegar lét Óttarr taka hann ok fjötra ‘ero nú ij kostir: annat ‘hvárt at sitja í fjötrum eða láta mik einn ráða firir þína ‘hönd’. Hallfreðr svaraði ‘eigi hefir þú þó í tveim höndum ‘við mik, en heldr muntu ráða en ek sitja hér í fjötrum’. þá var fjöturrinn af Hallfreði látinn. Márr hafði inni boð þeira Gríss ok Kolfinnu ok fór hón til búss með Grísi út til Geitaskarðs. ekki voru miklar ástir af hennar hendi við Grís. Oláfr at Haukagili fýsti mjög Hallfreð frænda sinn utan at fara ‘skal ek fá þér fé svá at þú megir vel ‘fara með góðum mönnum’. Faðer hans fýsti hann mjög

26 af Hallfreði látinn < látinn af Hallfreði. 29 Grís > gris. Haukagili > hakagili.

utan at fara. Óttarr lauk upp gerð með þeim Grís ok gerði c silfrs Hallfreði til handa. Hallfreðr vildi þat eigi hafa ok mælti sva 'sé ek elsku þína við mik faðir. munu 'þér þessu ráða, en svá segir mér hugr um at vár vand-'ræði verði löng'. þá fór Óttarr einum vetri síðarr suðr til Norðrárdals.

5. Capitulum. þetta sumar ferr Hallfreðr suðr til Hvítár, ok er hann kom til skips kvað hann vísu:

"Fvss em ek enn þott ossu.
"áfoll drepı stalı.
"ınıog skýtr maurnar vakrı.
"mınnaz vıð kolfinnu.
"þvıat algrvndar endız.
"áttgoðrar mer troðu.
"betr vnnum nu nýtıa.
"nærr en heıtıd veri".

Hallfreðr fór utan ok til Noregs. hann sótti á fund Hákonar jarls ens ríka er þá réð Noregi, gekk firir hann ok kvaddi hann. Jarl spurði hverr hann veri. Hann kvez vera íslenzkr maðr 'en erendi er þat herra at ek hefi 'kvæði ort um yðr ok vilda ek hljóð fá'. Jarl svaraði 'líkligr ertu til at vera höfðingjadjarfr maðr, þann veg 'ertu í bragði, ok skaltu víst hljóð fá'. Hallfreðr kvað kvæðit, ok var þat drápa, ok flutti vel ok sköruliga. Jarl þakkaðe hánum ok gaf hánum exi mikla silfrrekna ok góð klæði ok bauð hánum með sér at vera um vetrinn ok þá Hallfreðr þat. Um sumarit ferr Hallfreðr til Íslands ok kemr firir sunnan land ok hafði þá mikit fé. Síðan var hann í för nokkura vetr ok var aldri firir norðan land. ok eitt sumar er hann kom af Íslandi þá lágu þeir við Agðanes. þar hitta þeir menn at máli ok spurðu tíðenda. þeim var sagt at höfðingjaskipti var orðit í Nor-

20 íslenzkr = ıslendzkr. 29 för < förum.

egi. var Hákon jarl dauðr, en Óláfr Tryggva son kominn í staðinn með nýjum sið ok boðorðum. þá urðu skiparar á þat sáttir at slá í heit ok skyldi gefa Frey fé mikit ef þeim gæfi til Svíþjóðar en þór eða Óðni ef til Íslands kemi, en ef þeim gefi eigi í brott þá skyldi konungr ráða. þeim gaf aldri í brott ok urðu at sigla inn til þrándheims ok komu við höfn þá er á Flagða hèt. þar lágu firir mörg langskip. Veðr gerði mikit um nóttina af hafi svá at eigi hrifu akkerin við. þá mælti einn af langskipa mönnum 'þesser menn ero illa stadder á kaupskipinu 'ok mun þeim eigi duga er veðrit stendr þar á sem þeir 'liggja ok skulu vèr róa til þeira'. þeir gengu á skip xxx manna ok sat einn í stafni, ok er þeir komu til kaupskipsins mælti sá er í stafninum sat 'þèr erot illa komnir 'ok er hèr óhreint firir ok skulu vèr greiða ferð yðra'. sjá var mikill vexti. Hallfreðr mælti 'hvat heitir þú?' Hann svaraði 'ek heiti Akkerisfrakki' ok er þeir töluðuz þetta við þá gekk í sundr akkerisstreingrinn, en sá er í stafninum sat kastaði sèr þegar firir borð ok kafaði eptir streingnum í storminum ok náði þegar. var þá upp dregit akkerit. þá kvað Hallfreðr stöku þessa:

Færum festar várar,
ferr sjóroka at knerri,
svörð tekr heldr at herða.
hvar er Akkerisfrakki?

Ólpumaðr svaraði:

Enn í ólpu grænni
ek fæ dreing til streingjar
þann er hnakkmiða hnykkir.
hèr er Akkerisfrakki.

þeir reru firir skipinu í gott lægi. ekki vissu kaupmenn hverr þessi hafði verit, en síðarr var þeim sagt at kon-

---

25 hvar = h$^r$.

ungrinn sjálfr hafði hjálpat þeim. Eptir þat lögðu þeir inn til Hlaða. þar var Óláfr konungr firir ok var hánum sagt at þessir menn mundu vera heiðnir ok nýkomnir af Íslandi. hann stefnir þeim á sinn fund, ok er þeir komu þar taldi konungr trú firir þeim ok bað þá kasta forneskju ok illum átrúnaði en trúa á sannan guð skapara himins ok jarðar. Hallfreðr svaraði máli konungs ‘eigi ‘mun þat kauplaust konungr at ek taka þann sið er þú ‘boðar’. Konungr mælti ‘hvat er til mælt?’ Hann svaraði ‘þú skalt mik aldri láta þèr af höndum hvat illt sem mik ‘hendir’. Konungr svaraði ‘þann veg verir þú í bragði ‘at fárs mundir þú svífaz ok mart láta þèr sóma’. þá gekk Hallfreðr í brott ok vildi síðarr við konung tala. Konungr spyrr þá hvar Íslendingr veri ok bað ganga eptir hánum. Nú kom Hallfreðr til konungs annan tíma. þá mælti konungr ‘tak nú skírn ok skal þat nú til vinna er þú beiddiz, ‘eða hvat heitir þú?’ Hann kvaz Hallfreðr heita. ‘þú ert ‘einarðligr maðr ok sköruligr ok þjóna eigi lengr fjand‘anum’. Hallfreðr svaraði ‘sú er bæn mín önnur herra ‘at þú halder mèr undir skírn’. Konungr sagði ‘þú beiðiz ‘svá margs at eigi má við þik fáz’. þá mælti byskup ‘ger ‘þetta sem hann beiðiz, því meira gerir guð firir þína ‘skyld sem þú gerir fleira til eflingar kristni guðs’. Eptir þetta heldr konungr Hallfreði til skírnar ok fær hann síðan í hendr þorkatli nefju bróður sínum ok Jósteini ok lèt þá kenna hánum heilug fræði. þetta sannar Hallfreðr í kveði því einu er hann orti um Óláf konung:

**Hlaut ek þann er æztr var einna**
**(ek sanna þat) manna**
**unð niðbyrði Norðra**
**norðr guðföður orðinn.**

6. Capitulum. Nú var Hallfreðr með konungi um

---

8 þat ⌣ þèr. 15. kom > kom kom. 16 beiddiz ⌣ beiðiz. 30 unð > vnðer. niðbyrði > nıðbýrðra.

hríð ok orti um hann flokk ok bað sér hljóðs. Konungr kvaz eigi hlýða vilja. Hallfreðr svaraði 'þú munt því ráða, 'en týna mun ek þá þeim fræðum er þú lèz mèr kenna 'ef þú vill eigi hlýða kvæðinu, ok ero þau fræði ekki 'skáldligri er þú lèz mik nema en kveðit er þat er ek 'hefi um þik ort'. Óláfr konungr mælti 'sannliga máttu 'heita vandræðaskáld ok skal heyra kvæðit'. Hallfreðr flutti sköruliga kveðit ok var þat drápa ok er lokit var mælti konungr 'þetta er gott kveði ok þigg af mèr sverð 'búit. en vandgætt mun þèr til þess, því at engi fylgir 'umgjörðin, ok haf svá iij daga ok iij nætr at engum 'verði mein at'. þá kvað Hallfreðr vísu:

"Veıt ek vısu skreẏtı.
"vıð lendr mer sendı.
"nauktan hıor vıð nockua.
"nu flaustr burar austra.
"verða hıollt fırır herðı.
"hofum gram kera framdan.
"skelkıun þa ek of skıalga.
"skrautlıgr konungs nautı".

Vel gat Hallfreðr varðveitt sverðit ok allmjög lofaði hann goðin ok kvað mönnum þat illa takaz er menn löstuðu þau. hann kvað þetta svá at konungr heyrði einn tíma:

Hitt var fyrr er harra
Hliðskjálfar gat ek sjálfan
(skipt er á gumna giptu)
geðskjótan vel blóta.

Konungr mælti 'all-ill vísa ok bæt yfir'. Hallfreðr kvað enn:

Öll hefir ótt til hylli
Óðins skipat hljóðum,
algildar man ek aldar
iðjur várra niðja,

---

30 ótt > ort.

en trauðr (því at vel Viðriss
vald hugnaðiz skaldi)
legg ek á frumver Friggjar
fjón, því at Kristi þjónum.

þá mælti konungr 'all-mikinn hug leggr þú á goðin ok 'er þat illa virðanda firir þèr'. þá kvað Hallfreðr vísu:

"Haufum haulda reıfar.
"hrafn bloðz goða nafnı.
"þess er ol vıð lof lýða.
"lóm ór heıðnum dómı."

Konungr sagði 'ekki batnar um ok kveð vísu til yfirbóta'. Hallfreðr kvað vísu:

"Mer skýlı freýR ok freýıa.
"fıarð let ek adul nıarðar.
"lıknız gravm vıð grımnı.
"gramr ok þorr enn rammı.
"krıst vıl ek allrar astar.
"erumk leıð sonar reıðe.
"valld a frægt vnd folldar.
"foður eınn ok guð queðıa".

þá mælti konungr 'slíkt er vel kveðit ok betra en ekki 'ok yrk enn'. Hallfreðr kvað vísu:

Sás með Sygna ræsi
siðr at blót ero kviðjut.
verðum flest at forðaz
fornhaldin skaup norna.
láta aller ýtar
Óðins orð firir róða.
nú em ek neyddr frá Freyju
niðjum Krist at biðja.

Óttarr hèt maðr upplenzkr. Kálfr hèt bróðer hans. þeir voru hirðmenn konungs ok vaskligir menn ok vel metnir

3 frumver > lof. 23 Sás > Sa er. 31 upplenzkr > vpplendzkr.

af konungi. þeir öfunduðu Hallfreð ok þótti þeim hann hafa of mikinn gang af konungi. ok eitt kveld er þeir drukku slógu þeir í deilu mikla ok var konungr hjá ok bar konungr viðtal þeira í hag Óttari því at hann sá at hánum endiz eigi þrætan við Hallfreð ok gekk brott síðan. ok eptir þat sló í kappmæli með þeim, en svá lauk með þeim at Hallfreðr hljóp upp ok hjó Óttar banahögg með exinni Hákonar naut. Kálfr þreif Hallfreð ok menn með hánum ok settu í fjötur. en þat voru lög at þann mann skyldi drepa er mann vægi í konungs herbergi. Síðan fundu þeir konung ok kváðu þá sýnaz hvat manna Hallfreðr var ok sögðu hann bleðja mundu ætla hirðina ok rægðu hann nú sem mest máttu þeir til þess at konungr bað láta drepa hann um morgininn eptir. Kálfr varð við þetta glaðr ok um daginn eptir leiddu þeir hann út ok til dráps. Hallfreðr mælti 'hvar er konungr?' þeir svöruðu 'hvat mundi þik þat skipta? dæmðr ertu nú til 'dauða'. þá mælti Hallfreðr 'er sá dauðr er ek vann á?' þeir kváðu svá vera. Hallfreðr mælti 'ef sá er nokkurr 'hèr við staddr er ek hefir vel til gert þá launi þat svá 'at leiði mik þar í nánd sem konungr er ok vil ek þakka 'hèrvist mína'. þá kom þat framm sem mælt er at hverr á sèr vin með óvinum ok voru þeir þar at við þat kennduz at hann hafði vel til gört ok leiddu hann þar hjá er konungr var ok byskup, ok er Hallfreðr kom gegnt þeim þá mælti hann 'minniz þess herra er þèr hètuð at segja 'mik yðr aldri afhendan ok verðit eigi heitrofa við mik ... 'sá annarr hlutr at þú ert guðfaðir minn'. Sigurðr byskup mælti við konung 'lát hann njóta slíkra hluta'. 'Svá skal 'vera' segir konungr ok bað þá þegar leysa hann. Nú var svá gert ok líkaði Kálfi all-þungt. Nú var Hallfreðr enn með hirðinni ok kom sèr brátt vel, en þó var konungr

13 mest > mest mest. 17 dæmðr ⌣ dæmdr. 19 þeir > þat.

færi við hann en áðr ok bætti þó víg þetta firir hann. Þat var einn dag at Hallfreðr gekk firir konung ok fèll til fóta hánum. Konungr sá at hann felldi tár ok spurði hvat hánum þótti svá mikit. Hann svaraði ‘nærr fellr mèr ‘reiði þín ok henni vilda ek af mèr koma’. Konungr sagði ‘svá skal vera. þú skalt fara sendiför mína eptir jól ok ‘skulu vit þá sáttir ef þú kemr ferðinni framm, eða hvárt ‘áttu sverð þat er ek gaf þèr?’ ‘Á ek víst herra ok aldri ‘hefir þat kom*it* í umgjörð’. Konungr mælti ‘þat samir vel ‘at vandræðaskáldit eigi vandræðagripinn, eða muntu kunna ‘at nefna sverð í hverju vísuorði?’ Hallfreðr sagði ‘við ‘man ek leita ef þèr vilit, ok allt mun ek til vinna at ‘koma af mèr yðvarri reiði’. Konungr mælti ‘kveð nú þá’. Hallfreðr kvað þá vísu:

“Eıtt er suerð þat er suerða.
“suerð auðgan mık gerð.
“firır suıpnıorðum suerða.
“suerð ott mun nu verða.
“muna vansuerðat verða.
“verðr em ek þrıggıa suerða.
“ıarðar mens at ẏrðı
“vm gıorð at þ' suerðı”.

Konungr þakkaði hánum ok kvað hánum mikla íþrótt í skáldskap sínum ok gaf hánum umgjörð *mj*ög vandaða ‘ok þó at svá beri til’ sagði konungr ‘at þik h*en*di þat ‘víti at þú komir eigi under borð eða til kirkju þá skal ‘þèr framarr upp gefa en öðrum’. Hallfreðr þakkaði konungi. Eitt sinn var þat at konungr spurði hvar Hallfreðr veri. Kálfr sagði ‘hann mun enn hafa vanda sinn at blóta ‘á laun ok hefir hann líkneski Þórs í pungi sínum af ‘tönn gert ok ertu of mjög dulinn at hánum herra ok ‘fær hann eigi sannreyndan’. Konungr bað Hallfreð þangat

---

1 víg = v̇.

kalla ok svara firir sik. Hallfreðr kemr þar. Konungr mælti ‘ertu sannr at því er þèr er kennt at þú blótir?’ ‘Eigi er þat satt herra’ sagði Hallfreðr ‘skal nú rannsaka ‘pung minn, hefi ek hèr ekki undanbragð mátt hafa þó ‘at ek vilda’. Nú fannz engi sá hlutr í hans valdi er til þess veri. ‘þetta er dauðaróg’ sagði Hallfreðr ‘ok mun ‘Kálfi at illu verða ef ek nái svá til hans. hann kom mèr ‘enn fyrri til dauða’. Konungr mælti ‘eigi er ykkr saman ‘vært, ok skal Kálfr fara til búa sinna, en þú Hallfreðr ‘skalt fara sendiför mína til Upplanda til þorleifs hins spaka. ‘hann vill eigi við kristni taka ok skaltu drepa hann eða ‘blinda ella. (hann er dóttur son þorleifs Hörða-Kára sonar). ‘skal ek til leggja mína giptu ok haf menn svá marga ‘sem þú vill’. Hallfreðr kvað ferðina órífliga ‘en allt at ‘einu skal fara sem þèr vilit, en Jósteinn móðurbróðer ‘yðvarr vil ek at fari með mèr ok bekkjunautar mínir ‘þeir sem ek kýs til svá at vèr sèm saman iiij ok xx’. ‘Ger sem þèr líkar’ sagði konungr ‘en sent hefi ek fyrri ‘menn til þorleifs ok hafa þeir engu til leiðar komit því ‘er ek vilda at veri’. Síðan riðu þeir Hallfreðr brott frá konungi ok til þess er þeir komu í skóg þann er skammt var frá bé þorleifs. þá stigu þeir af hestum sínum í rjóðri einu. þá mælti Hallfreðr ‘hèr skulu þèr bíða mín ‘til hinnar þriðju sólar, en fara þá aptr ef ek kem eigi ‘hèr’. Jósteinn bauð at fara með hánum. Hann vildi þat eigi. Hallfreðr tók þá stafkarls gervi. hann lèt leggja lit í augu sèr ok sneri um á sèr hvörmunum ok gerði mikla brýtni á yfirlitum sínum. langan bagga hafði hann á baki ok var þar í sverð hans konungs nautr. hann gekk nú at be þorleifs ok at haugi þeim er hann sat á ok var þat snemma dags. þorleifr heilsaði hánum ok spurði hverr hann veri. ‘Ek er fátekr maðr einn’ sagði hann ‘kom ek til konungs ok vildi hann mik til trúar brjóta, ‘en ek hljóp á brott leyniliga ok drap ek áðr einn konungs mann. nú vilda ek biðja þik nokkurrar ásjá’. þor-

leifr svaraði fá um þat, en spyrr hann margs um lönd eða hafnir. Hann leysti ór öllu fróðliga. Þorleifr mælti 'var nokkurr sá maðr með konungi er Hallfreðr heitir?' Hann svaraði 'heyrða ek hans getið ok sjaldan at góðu'. Þorleifr mælti 'sá maðr dreymir mik jafnan, en þó er 'þat ómerkiligt, en koma munu konungs menn hingat brátt, 'en hann Hallfreðr er svá manna at ek skil sízt hvat 'manna at er at frásögn manna, ok horfinheilla er mèr 'hvat sem eptir kemr'. Þá grunar Þorleif hverr maðrinn var ok vildi upp standa, en Hallfreðr þreif til hans ok rak hann under sik er hann var miklu sterkari. Þeir ultu ofan firir hauginn ok varð Hallfreðr efri. hann setti hæl á augat Þorleifs ok hleypti ór hánum auganu. Þorleifr mælti þá 'konungs gipta fylgir þèr, en við þik hefi ek 'lengi áhugafullr verit, en nú er þat framm komit, en 'veit ek at þú gerir konungs boðskap at blinda mik eða 'drepa, en nú vil ek biðja þik at þú gefir mèr annat auga, 'en ek vil gefa þèr kníf ok belti (ok er hvártveggja góðr 'gripr) ok koma þèr þó at liði ef svá berr til ok ertu 'ekki ólíkligr at þurfa þess við'. Hallfreðr kvaz eigi vilja svá brjóta konungs boðskap at þiggja af hánum góðgripi til þess, kvaz heldr vilja taka þat á sik at gefa hánum annat augat. Þorleifr þakkaði hánum ok skildu þeir at því. ferr Hallfreðr til sinna manna ok varð þar fagnafundr. Þorleifr gekk heim til bæjar ok sagði engum manni áverkann fyrr en þeir voru langt á brottu. Þeir Hallfreðr riðu leið sína þar til er þeir komu til Kálfs um farinn veg. Þá mælti Hallfreðr 'drepa skal þenna enn illa 'mann'. Jósteinn mælti 'ger eigi þat, blöndum eigi giptu 'við úgiptu'. Hallfreðr svaraði 'eigi hefir hèr at högum 'verit til skipt: góðr dreingr er meiddr, en mannfýlan lifir' ok þreif hann höndum ok stakk ór hánum augat. Kálfr

13 Þorleifs ⌣ Þorleifi. 19 gripr > grımr.

varð hryggr við. Hallfreðr mælti ‘nú sýnir þú enn grey‘skapinn’. Síðan fóru þeir brott ok komu til konungs ok sat hann at tafli. þeir kvöddu hann. Konungr spurði tíðenda. Hallfreðr sagði alla sögu konungi. Konungr mælti ‘vel hefir þú gert ok sýn mèr augat’. Síðan tók Hallfreðr augat Kálfs. Konungr mælti ‘hvar fekktu slíkt auga?’ ‘þetta er þorleifs auga’. ‘Nei’ sagði konungr ‘fleira ‘muntu unnit hafa en ek bauð þèr’. Síðan sýndi hann auga þorleifs. þá mælti konungr ‘þetta er hans auga ‘ok er enn ekki betr en hálfgert’. Hallfreðr mælti ‘nú ‘galt ek Kálfi er hann stangaði mik spjóts-oddinum þá er ‘hann leiddi mik til bana’ ok segir nú allt sem farit hafði. Konungr mælti ‘viltu nú fara til þorleifs öðru sinni?’ Hallfreðr sagði ‘eigi vil ek þangat fara, en fara vil ek ‘til Kálfs ok stinga ór hánum annat augat’. Konungr kvað þar standa skyldu. tók Hallfreðr þá semdir með konungi.

7. Af Hallfreði. Capitulum. þat var eitt sinni er Hallfreðr var firir konungi at hann mælti ‘leyfi vilda ek ‘hafa í sumar at sigla austr til Eyrar, kaupferð’. Konungr sagði ‘eigi skal þat banna þèr, en svá segir mèr hugr ‘um at eigi sè þèr óannara aptr til mín en þèr er í brott ‘ok mart mun yfir þik líða’. Hallfreðr sagði ‘til þess verðr ‘nú at hætta’. Síðan fór Hallfreðr á brott. hann spurði at Sigvaldi jarl var höfðingi mikill. Hallfreðr kemr á fund hans ok kvez hafa ort kveði um hann. Jarl spyrr ‘hverr ertu?’ Hann segir. ‘Ertu skáld Óláfs konungs?’ ‘Svá er’ sagði Hallfreðr ‘ok vilda ek hljóð fá’. Jarl mælti ‘hví mun mèr þat eigi vel sama er Óláfi konungi líkar ‘vel?’ Hallfreðr kvað kveðit ok var þat flokkr. Jarl þakkaði hánum kveðit ok gaf hánum gullhring þann er vá hálfa mörk ok bauð hánum þar at vera með sèr. Hallfreðr þakkaði hánum boð ‘en til Svíþjóðar skal nú fyst fara’.

---

6 hvar = hʳ. 28 Óláfi = olaui.

Jarl bað hann ráða. þat sama haust fór hann í Vík austr ok brutu þar skipit austan fjarðar ok týndu miklu fè. þaðan fór Hallfreðr til Konungahellu ok dvaldiz þar um hríð. ok einn dag er Hallfreðr gekk úti at kaupstefnu þá gekk maðr í móti hánum. þeir kvödduz ok spurði Hallfreðr hverr hann veri. Hann kvaz Auðgísl heita ok kominn vestan af Englandi 'ok skortir mik eigi fè, eða er þetta 'Hallfreðr vandræðaskáld?' Hann kvað svá vera. 'Ek hefi 'frètt' kvað Auðgísl 'at þú hefir hitt í fjártjón, eða viltu 'slá kaupi við mik at fara austr til Gautlands með mèr 'til vetrvistar, en ek skal gefa þèr x merkr silfrs til 'fylgdar, því at mèr er sagt at þín fylgd sè fè kaupandi'. Hallfreðr kvaz þat vilja. Vegrinn var óhreinn ok hurfu margir aptr. þeir Hallfreðr höfðu v klyfja hesta ok einn at ríða. fóru nú austr á markernar, ok einn dag sá þeir at maðr fór móti þeim. þeir spurðu hverr hann veri. Hann kvaz Önundr heita. hann var mikill vexti ok kvaz vildu fara með þeim ef þeir gæfi hánum leigu nokkura 'ero mèr hèr vegir allir kunnigir'. Auðgísli kvaz lítið um hann, lèz eigi vita hverr þegn hann veri. Hallfreðr var eggjandi at við hánum veri tekit ok þat varð ok skyldi hann hafa xij aura silfrs. Hallfreðr var þá sem gildastr, en Auðgísl var við aldr. Nú fóru þeir sem leið lá. Önundr fór firir um daginn ok komu at sæluhúsi um kveldit. þá mælti Hallfreðr 'nú munu vèr eiga þrenn 'verk, ok skaltu Önundr viða heim (þú hefir exi mikla), 'Auðgísl skal eld gera, en ek skal vatn sékja'. þá mælti Önundr 'þat er þá bezt at viða ótæpiliga til húss, því at 'margir þurfa eldiviðinn þeir er hèr koma'. Hallfreðr kvað þat vel sagt. þá mælti Auðgísl 'fúsari vera ek at 'taka vatnit, en þú gerðir eld Hallfreðr'. 'Látum þá svá 'vera' sagði hann. Síðan kveykti hann eldinn, en Önundr fór "m; býrðı" ok gerði þat hverr er boðit var. Hallfreðı þótti þeim seint verða. hann grúfði at eldinum oк hafði kastat belti sínu á háls sèr ok var þar knífr mikill er

mönnum var þá tíðt at hafa ok var knífrinn á bak hánum. Nú kemr Önundr inn með byrði. hann hleypr þegar at hánum Hallfreði ok hjó til hans tveim höndum með exinni ok kom í tygilknífinn, en Hallfreðr greip til fóta hánum ok hét á guð ok mælti 'dugi þú mér Hvítakristr ef þú 'ert svá máttugr sem Óláfr konungr segir lát eigi þenna 'mann stíga yfir mik'. síðan réttiz Hallfreðr upp undir hánum með fulltingi guðs ok giptu Óláfs konungs. tók hann þá Önund upp ok rak niðr svá mikit fall at hann var í óviti ok hraut exin ór hendi hánum. Hallfreðr hafði sax eitt lítið ok brá því ok þá vitkaðiz Önundr. Hallfreðr spyrr 'hefir þú drepit Auðgísl?' Hann kvað svá vera. þá lagði Hallfreðr saxinu í gegnum hann ok dró hann út ór skálanum en byrgði síðan fast, ok um nóttina bran Önundr á hurðina en Hallfreðr stóð við innan ok gekk því til dags. Um morgininn fann Hallfreðr Auðgísl dauðan við lækinn ok tók af hánum kníf ok belti ok hafði með sér. hann bjó um Auðgísl eptir siðvenju. sá hann nú at Önundr mundi verit hafa illvirkinn ok drepit menn til fjár sér ok þat hús var auðigt at fé ok varningi. Hallfreðr kvað þá vísu:

**Ól ek, þar er aldri véla**
**auðgildanda vildag,**
**hyrjar njót á hvítu**
**hrafnvíns á fé mínu.**
**vann ek til góðs við grenni**
**gunnmáss sem ek kunna,**
**en fúrskerðer færði**
**fjörtál at mér hjörva.**

Síðan reið hann austr á fjallit ok hitti illar leiðir.

8. Fjörráð við Hallfreð. At kveldi eins dags heyrði hann við felldan ok reið þagat eptir. þá varð rjóðr firir

—

2 með +. 15 bran ⌣ brau < brauzt. 25 mínu > sínu.

hánum ok var þar maðr ok hjó við. hann var búandligr ok rauðskeggjaðr skolbrúnn ok heldr illmannligr. sjá maðr heilsar hánum. Hallfreðr spyrr hverr hann veri. Hann kvaz Björn heita 'ok far með mèr til gistingar'. Hann þiggr þat. Björn var allbeinn við hann. Bóndi lá í lokhvílu, en Hallfreðr í annarri. Hann grunar Björn ok stóð upp undir tjaldit með brugðit konungs naut ok í því lagði Björn í rúmit en Hallfreðr hjó hann banahögg. Húspreyja bað menn upp standa ok taka þenna glæpamann. Menn báru klæði á vápn Hallfreðar ok var hann handtekinn ok bundinn. Síðan voru send orð þeim manni er Ubbi hèt. hann átti sèr bróður er Þórir hèt. hann var þar höfðingi. hann átti dóttur er Ingibjörg hèt. hana hafði átt Auðgísl ok var hinn mesti kvennskörungr. Nú koma menn til fundar þessa at dæma Hallfreð, þar kom Þórir ok Ubbi ok Ingibjörg, ok kom þat ásamt með þeim at hafa Hallfreð til blóta. Hann gekk at Ingibjörgu ok kvaddi hana ok kvaz hafa þar gripi er Auðgísl hafði sendt henni. Hón sagði 'kenni ek gripina'. Hann sagði henni alla söguna ok kvað hann vísu:

"Svá hefk hermıla harmı.
"hugballdr ı gný skıallda.
"baugs erum suıpr at sueıgı.
"sár lınz rekıt mınna.
"en lofhnuggınn lıggıa.
"let ek balldr roðıns skıalldar.
"ekk hefnda sua ockar.
"auðgıslı hıa dauðan".

Ingibjörg spurði vandliga at um atburði.

"Ekk bar elldaskrauckuıs.
"aulnaskeıðs af reıðı.
"lagða ek hendr at hundı.
"hundz glæuara mundar.

7 konungs naut < sverðit konungs naut. 21 harmı ⌣ harmí.

"stendr eı sa sendır.
"sıðan hlackar skıða.
"bál rauð ek ýggıar ıela.
"ıels vıð þıoða velum."

Ingibjörg mælti 'sè ek at þú munt með sönnu fara ok 'skaltu fara heim með mèr'. fór Hallfreðr heim með henni ok var þá stirðr af böndum ok lèt hón næra hann. þau Þórir ok Ingibjörg sendu menn á fjallit ok fundu þar þau merki öll er Hallfreðr hafði sagt. var þat allmikit fè er þaðan var flutt. var þat allra samþykki landsmanna at Hallfreðr tæki fè þat er Önundr hafði átt ok hèldu þeir mikit tal af hánum. Hallfreðr lagði hug á Ingibjörg ok bað hennar. Hón svaraði 'eigi mun þá vel firir öllu 'sèt er þú ert kristinn ok hèr útlendr, en þú skalt finna 'föður minn ef þú vill'. Hann gerir svá ok tjár þetta firir Þóri ok verða þeir vel á sáttir. gekk svá til at Hallfreðr fekk Ingibjargar ok unni mikit. þar stóð saman auðr mikill ok hafði Hallfreðr þar virðingar miklar. þat hafði hann helz til trúar at hann blès í kross yfir drykk sínum áðr hann drakk, en fátt söng hann. Eitt sinn talaði hann firir Ingibjörgu 'ek ætla mèr at fara á fund Óláfs Svíakon'ungs ok færa hánum kveði er ek hefir ort um hann'. Hón kvaz ætla at hann mundi heyra vilja lofit.

9. Capitulum. þat sumar fór Hallfreðr til Svíþjóðar ok kom á fund konungs ok kvaddi hann. Konungr spyrr hverr hann veri. Hann segir til sín. Konungr mælti 'víða ertu nefndr ok skáld göfugra manna'. 'Kveði hefi 'ek ort um yðr ok vilda ek hljóð fá'. Konungr játti því. Síðan flutti hann kveðit. Konungr bauð hánum með sèr at vera ok gaf hánum góðar gjafir. Hallfreðr kvaz eiga bú ok konu í hans skattlandi 'ok vil ek þangat vitja'. Konungr bað hann vel fara. Hallfreðr kom aptr til konu

3 ıela ◡ fela. 14 sèt = séét. 15 gerir > gerırır.

sinnar. þar var hann ij vetr. ok á hinum þriðja vetri var þat eina nótt at hánum þótti Óláfr konungr koma til sín ok var reiðuligr ok kvað hann mjög kasta kristni sinni ‘far á fund minn ok lið þitt’. Hallfreðr andvarpaði mjög er hann vaknaði. Ingibjörg spyrr hvat hann hefði dreymt. Hann segir henni ‘eða hversu mun þèr um gefit? viltu ‘nokkut fara með mèr? á ek þèr mikit gott at launa ok ‘þá fenga ek þèr helzt ömbunat ef þú tekir við trú’. Hón sagði ‘þess er ván at þik muni þangat lánga ok skil ek ‘at sá mun vera siðr miklu betri ok mun ek með þèr ‘fara’. Auðgísl hèt son þeira ok var hann þá tvævetr. Þau fara á fund Óláfs konungs ok tók hann vel við Hallfreði ok ávítaði hann þó mjög ok bað prest skripta hánum. Ingibjörg fæddi þá sveinbarn ok hèt sá sveinn Hallfreðr ok gaf faðer hans hánum nafn sitt. var þá Ingibjörg skírð ok synir hennar báðer. Óláfr konungr mælti þá við Hallfreð ‘nú skaltu bæta yfir við guð er þú hefir lengi ‘verit með heiðnum mönnum ok gengit mjög trúnni.’ Hann kvaz þat gjarna vilja ok orti uppreistardrápu, gott kveði. Þann vetr andaðiz Ingibjörg ok þótti Hallfreði þat allmikill skaði. Um várit sagði hann konungi at hann lysti at sjá Ísland. Konungr sagði at þat skyldi sem hann vildi ‘hefi ek þik reynt at góðum dreing, en koma mun ‘þar at þú munder heldr vilja með mèr vera at því skaplyndi sem þú hefir. en þessa gripi skaltu þiggja af mèr: ‘pellsskikkju hring ok hjálm, því at óvíst er um fundi ‘okkra. lóga eigi gripunum’ segir konungr ‘því at með ‘þèr skulu til kirkju fara, en í kistu leggja hjá þèr ef þú ‘andaz í hafi’. hringrinn stóð iij aura. Hallfreði þótti mikit firir skilnaði við konung. Auðgísl son Hallfreðar fór austr til þóriss móðurföður síns. Hallfreði syni sínum fekk hann fóstr gott. Hallfreðr lèt í haf. hann kom skipi

---

18 trúnni < af trúnni. 28 þèr skulu > mer skulu.

sínu í Kolbeinsárós eptir þing. hann mælti til skipara sinna ‘ferð liggr firir mèr suðr um heiði at finna föður ‘minn ok skulu vèr ríða xij saman’. Nú var skip upp sett, en þeir ríða á brott xij saman ok sneru vestr til Langadals. þeir voru aller í litklæðum ok stefndu til selja Gríss. Kolfinna var þar ok konur nokkurar hjá henni. þar voru fleiri sel ok stóðu selin í Laxárdal milli Langadals ok Skagafjarðar. Sauðamaðr Kolfinnu sagði at xij menn riðu at selinu ok voru aller í litklæðum. Hón sagði ‘þeir ‘munu eigi kunna leiðina’. Hann sagði ‘kunnliga ríða þó’. Nú koma þeir til seljanna. Kolfinna fagnar vel Hallfreði ok frètti tíðenda. Hann sagði ‘tíðendi ero fá, en í tómi ‘munu sögð vera ok vilju vèr hèr í nótt vera’. Hón svaraði ‘þat vilda ek at þú riðir til vetrhúsa ok mun ek ‘fá þèr leiðsögumann’. Hann kvaz þar vera vilja. ‘Gefa ‘munu vèr yðr mat’ sagði hón ‘ef þèr vilit þetta eitt’. Nú stíga þeir af hestum sínum ok um kveldit er þeir voru mettir sagði Hallfreðr ‘þat ætla ek mèr at liggja ‘hjá Kolfinnu, en ek lofa fèlugum mínum at breyta sem ‘þeir vilja’. þar voru fleiri sel ok er svá sagt at hverr þeira fengi sèr konu um nóttina. En er þau komu í sæng Hallfreðr ok Kolfinna spyrr hann hversu mart veri um ástir þeira Gríss. Hón kvað vel vera. Hallfreðr sagði ‘vera má at svá sè, en annat þiki mèr finnaz á ‘vísum þeim, er þú hefir kveðit til Gríss’. Hón kvaz engar kveðit hafa. Hann sagði ‘ek hefi litla stund hèr ‘verit ok hefi ek heyrt vísurnar’. ‘Lát mik heyra’ sagði Kolfinna ‘hverninn verki sá er at mèr er kenndr’.

“Leggr at lýsıbrecku.
“Leggıar ıs af grısı.
“kuol þolır hlın hıa hanum.
“heıtr ofremdar sueıtı.

---

10 þó < þeir þó ⌣ þeir.

en dreypilig drúpir
dýnu rán hjá hánum
(leifi ek ljósra vífa
lund) sem álft á sundi.

‘Ekki er slíkt bót annars ok mikit undr at hraustr maðr ‘vill slíkt gera’. Hallfreðr sagði ‘enn hefi ek heyrt aðra’:

þrammar, svá sem svimmi
sílafullr, til hvílu
fúrskerðandi fjarðar,
fúlmárr á tröð báru,
áðr en orba stríðir
ófríðr þorir skríða
(hann era hlaðs við gunni
hvílubráðr) und váðer.

Kolfinna sagði ‘ekki mun Gríss yrkja um þik ok semdi ‘þér betr at óvingaz eigi svá við hann því at eigi veit ‘hvar manni mætir’. Hallfreðr kvað vísu:

“Lıt mun halr enn hvıtı.
“hıalm grandr fırır bur skalm̄.
“hann muna aura. eẏrar.
“an ok strutr enn granı.
“þott orfþægır eıgı.
“ofrıðr stavðul vıðan.
“hırðandı nẏtr hıarðar
“hıorfangs ok kuı langa”.

Kolfinna styggðiz þá við. Hallfreðr kvað vísu:

“Kolfinna lez kenna.
“kueð ek vm hlut þenna.
“huat queða vıtru vífi.
“vallda fẏllt af skálldı.
“enn af vngum suanna.
“auðhnẏkkıanda þẏkkır.

3 leifi < leyfi. 9 fúrskerðandi > fúr skıðandı.

"oð em ek giarn at giarn at greiða
"ganga dýrligr angi."

Smalamaðr reið brott um nóttina ok sagði Grís hvat komit var, en hann reið heiman við xx menn. Snemma um morgininn búaz þeir Hallfreðr ok áðr hann steig á hest kvað hann vísu:

"Litt hirða ek lautar.
"lundr hefir hett til sprunda.
"viggs þótt verða hogginn.
"vañ ihondum suaña.
"ef ek næða sif slæðu.
"soma karms meðal arina.
"matkað ek hoss um hosa.
"lind oftrega bindaz".

Síðan hljóp hann á bak ok brosti. Kolfinna mælti 'hví 'brosir þú nú?' Hann kvað vísu:

"Vetkað ek hitt huat verða.
"ver gloðar skal troða.
"rennu ást til vnnar.
"vnnar dags a munni.
"ef fiolgegnir fregna.
"fagnendr iotuns sagna.
"flo ek af galltar grisi.
"geit belg huat mik teitir.

Hallfreðr vildi gefa Kolfinnu skikkjuna konungs naut, en hón vildi eigi þiggja, ok áðr þeir riðu brott kvað Hallfreðr vísu:

Heim koma hirðinaumur
(hams er góðr á fljóðum)
sævar báls frá seljum
sléttfjallaðar allar.

13 um? 30 sævar = sæfar.

nú sel ek af, þótt ýfiz
ölbekkjar syn nakkvat,
(hverr taki seggr við svarra
sínum) ábyrgð mína.

Eptir þat ríða þeir á brott.

10. Af Hallfreði ok Grís. Nú kemr Gríss til seljanna. Kolfinnu var skapþungt. Gríss sá þat. hann kvað vísu:

Nú þikkir mér nokkurr
námskorð vera orðinn
“lıt ek a sumt vm sueıtır”
sveimr̨ meðan ek var heiman.
hér hafa gestir görva
(gengr út kona þrútin)
[þerrir sjáligr svarri]
slaug þungliga [augu].

þar var með Grísi Einarr son þóris þrándar sonar. Gríss vill eptir ríða, en Kolfinna latti ok kvað eigi víst hvárt hans hlutr batnaði við. Gríss vill þó eptir ríða. þeir riðu framm hjá Auðólfsstöðum til Blöndu. þá voru þeir Hallfreðr komnir á miðja ána. þá skaut Gríss spjóti til Hallfreðar, en hann tók á lopti ok skaut aptr til Gríss, en Einarr brá við exi. spjótið kom firir brjóst Einari ok fekk hann bana. Gríss kvað Hallfreð renna. Hann kvaz eigi mundu fara lengra en af ánni ok bað þá at sækja, en Gríss reið eigi at. þá lögðu menn þat til at Hallfreðr skyldi béta Grísi firir ósóma þann allan er hann hafði gert hánum. Hallfreðr spyrr hvers hann beiddiz. Gríss svaraði ‘því munda ek una ef ek hefða hringa báða jarls ‘naut ok konungs naut’. Hallfreðr sagði ‘fyrr mun annat ‘at beraz’ ok skildu við þat. Hallfreðr reið suðr til bróður síns, en þá var faðer hans andaðr, ok var þar um vetrinn. ok um várit er hann fór norðr þá rak á firir þeim hríð.

---

2 nakkvat < nekkvat. 11 heiman < heima. 12 görva > gerua. 24 ánni = áanı.

Hallfreðr kvað þat vera gjörningaveðr. þeir riðu ofan eptir Vazdal þar til at firir þeim varð einn garðr ok spruttu þar upp xx menn. þar var kominn Márr af Márs-stöðum. hann hleypr firir Hallfreð, en Hallfreðr höggr þegar til hans, en Márr brá firir blóttrugli ok varð hann ekki sárr. Hallfreðr reið þá ór garðshliðinu. Márr kallaði 'sækjum at þeim'. Hallfreðr kvað vísu:

"Mıog tegaz sueımasockuır.
"snót verð ek þegns fırır hotum.
"ver munum dag huern dýrra.
"dulrækınn mık mık sækıa
"helldr mun hælı balldrı.
"hrævınz fırır þvı mınna.
"van erumz slık atsleíkıa.
"sınn blottrýgıl īnān".

skildu þeir við svábúit. Húnröðr hét maðr er bjó at Móbergi. Gríss var þingmaðr hans. þorkell krafla bjó þá at Hofi, en Ingólfr var dauðr. þenna vetr orti Hallfreðr vísur um Grís. ok er Gríss frá þat fór hann til móts við Húnröð ok bað hann ráðagerðar 'því at Hallfreðr herðir 'at eins fjandskap við mik'. Húnröðr sagði 'þess fýsi ek 'þik at þú búir mál til ok stefnir Hallfreði til Húnavaz-'þings'. Gríss gerði svá, reið suðr um várit til Hreðuvatz því at þeir Galti ok Hallfreðr bjuggu þar þá. Gríss stefndi Hallfreði um víg Einars til Húnavatzþings. ok er þeir voru brottu mælti Galti við Hallfreð 'hver er tilætlan þín um 'mál þetta?' Hann svaraði 'ek ætla at sækja traust þor-'kels mágs míns'. þeir riðu sunnan um várit ok voru saman xxx. þeir gistu at Hofi. Hallfreðr spurði þorkel hvert traust hann skyldi þar eiga. þorkell kvaz mundu veita at málum ef boðin veri nokkur semd. Nú koma menn til þings ok á þinginu gingu þeir Hallfreðr ok Galti til búðar þorkels ok fréttu hvar koma skyldi. Hann sagði 'ek mun bjóðaz til gerðar ef þér vilit þat hvárir-

'tveggju ok mun ek þá leita um sættir'. ganga þeir nú út ór búðinni, en Brandr Ávalds son bróðir Kolfinnu lá á búðarveggnum. hann hjó Galta banahögg í því er hann gekk út. Hallfreðr sagði þorkatli vígit. þorkell gekk með hánum til búðar Gríss ok bað hann framm selja manninn 'ella munu vèr brjóta upp búðina'. þá hljóp Hildr móðir Brands í dyrrnar ok spyrr hvat þorkell vildi. Hann segir eyrindit. Hildr mælti 'eigi mundi þèr þat í 'hug at drepa son minn þá er ek skaut þèr undan skikkju-'skauti mínu ok firrða þik bana eptir víg Glæðiss þá er 'þeir þorgils ok þorvaldr vildu drepa þik'. þorkell mælti 'liðit er nú þat, gangi konur út ór búðinni ok viljum vèr 'leita mannsins'. Brandr var faldinn ok komz hann svá út ok hittiz hann eigi. þorkell kvað hann farinn mundu til búðar Húnröðar. Hallfreðr mælti þá 'grunr er mèr nú 'á um liðveizluna ok býð ek nú Grísi hólmgöngu'. Gríss kvað hann þat boðit hafa "fyʀ". þá kvað Hallfreðr vísu:

"þa mun reẏndr at radnu.
"róghnẏckıandınn þıckıa.
"míns at malma sennu.
"mınn hugr vıð kolfınnu.
"ef sua at órr a eẏrı.
"vppsatrs boðı mata.
"vel hẏggıum þat vıggıar.
"vısar mer at grısı".

Gríss hafði í hendi sverðit þat er Garzkonungr hafði gefit hánum. Hallfreðr sá einn dag hvar Kolfinna gekk. hann kvað vísu:

"þıckı mer er ek þeckı.
"þunn ısunga gunnı.
"sem fleẏ brautar flıotı.
"fleẏ meðal tueggıa eẏıa.
"en þa er ser a sagu
"saums í kuenna flaumı.

"sem skrautbuın skrıðı.
"skeıð með gýlldum reıða".

Þat var um nóttina áðr þeir skyldu berjaz at Hallfreðr svaf í sæng sinni. hánum þótti Óláfr konungr koma at sèr ok þóttiz hann verða feginn ok þó hræddr. konungr mælti 'svefns er þèr, en þó mun þèr sem þú vakir. þú 'ætlaz ógott ráð firir at berjaz við Grís við ill málaefni, 'en hann hefir svá firir mælt ok beðit guð at sá ykkarr 'skyldi sigr fá er betri málaefni hefði. haf ráð mitt. tak 'með þökkum at engi hólmganga verði ok bæt fè. en á 'morgin er þú ert klæddr gakk út á holt þat er hjá þing-'staðnum er þar sem götur mætaz. menn muntu sjá ríða ok 'haf við þá tal ok kann vera at þèr þikki þá annat meira 'vert en hólmganga Gríss ok hirð eigi þótt hánum þikki 'sem þú hræðiz'. Hallfreðr vaknar ok íhugar hvat firir hann hefir borit ok segir þeim manni er hjá hánum var. Sá svaraði 'hræðiz þú nú grísinn, ok veri betra at ha*f*a 'tekit fyrr gott ráð þá er hann mælti vel til, en nú mun 'virðt af óvinum þínum sem þú þorir eigi at berjaz'. Hallfreðr mælti 'virði þat hverr sem vill. hafa skal ek 'ráð Óláfs konungs, þau munu mèr bazt gefaz'. Um morgininn gekk hann út á holtið ok sá menn ríða í litklæðum at sèr. Hann spurði þá tiðenda, en þeir sögðu fall Óláfs konungs. Hallfreði varð svá við sem hann veri steini lostinn ok gekk þegar heim til búðar með miklum harmi ok lagðiz þegar niðr í rúm sitt. Þá mæltu Gríss menn at hánum yrði lítilmannliga. Gríss svaraði 'þat er ekki 'á þá leið. minna sóma hafða ek af Garzkonungi ok þóttu 'mèr þau mest tíðendi er ek missta höfðingja míns — 'er heit lánardrottins ást, ok er gott er ek skal eigi

3 þeir > þeır þeır. 12 sem > se. 24 Hallfreði ⌣ Hallfreðr.

‘berjaz við konungsgiptuna, vil ek enn at þorkell dæmi ‘sem ætlat var’. þorkell mælti ‘ek mun nú taka máli firir ‘Hallfreð ok sætta ykkr’. þessu játti Hallfreðr. þat er gerð ‘mín’ sagði þorkell ‘at víg Einars komi firir víg Galta ok ‘þar með heimsókn við Kolfinnu firir manna mun. en ‘firir Gríssvísur skal Hallfreðr gefa Grísi grip einn góðan’. þá kvað Hallfreðr vísu:

“Avðs hef ek ıllrar tíðar.
“alldreıngılıga fıngıt.
“mık hefır gæddan gullı.
“gramr ok ȷarl ok framdan.
“ef glapskẏlldır gıallda
“gıalfrteıgs ok hefeg eıgı.
“maurk fırır mınztan verka.
“matuısum skal ek grısı”.

þorkell bað hann hætta verkanum ‘ok lát framm grip ‘nokkurn þótt eigi sè af konungs nautum’. þá lèt Hallfreðr framm hringinn Sigvalda naut ok skildu at því.

11. Af Hallfreði. capitulum. Síðan fór Hallfreðr suðr um heiði ok fekk búit í hendr Valgerði systur sinni, en hann fór utan í Kolbeinsárósi ok kom við Orkneyjar. þaðan fór hann til Noregs ok kom á Sognsæ um vetrnátta skeið ok spurði þá at um fall Óláfs konungs. Hann orti þá Óláfsdrápu ok er þetta stef í:

“Nu ero oll vm orðın.
“auð lond at gram dauðan.
“allr lemz frıðr af fallı.
“flugstẏGs sonar trẏggua”.

Hánum þótti svá mikit um fall Óláfs konungs at hann undi engu ok ætlaði suðr til Danmerkr eða austr til Svíþjóðar. þeir lögðu í einn leynivág. þat spurði Hallfreðr at Eiríkr jarl var þaðan eigi langt á brott á land upp. þat gerði

5 mun +.

hann sèr í hug at drepa jarl þótt þegar veri hann drepinn. ok um nóttina dreymdi hann at Óláfr konungr kemi at hánum ok mælti 'þetta er ónýtt ráð er þú ætlaz firir, 'yrk heldr drápu um jarl'. Um morgininn eptir gekk Hallfreðr á bé þann er Eiríkr jarl var ok at stofu þeiri er jarl drakk inni. Hallfreðr var kenndr. hann var tekinn ok færðr jarli. Jarl vildi láta drepa hann firir þat er hann meiddi þorleif spaka ok bað fjötra hann. en er fjöturrinn var borinn at hánum þá þreif hann til ok hnykkti af þeim er á hann skyldi leggja ok laust í höfuðit svá at sá hafði þegar bana. Jarl bað þegar drepa hann at hann gerði eigi fleira illt. Gamall maðr reis upp utar á bekkinn ok gekk firir jarl ok bað hann gefa Hallfreði líf, ok var þat þorleifr enn spaki. þá mælti jarl 'þat er ok 'ómakligaz at þú biðir hánum griða, eða mantu eigi at 'hann meiddi þik?' þorleifr svaraði 'þat vil ek herra at 'Hallfreðr hafi grið'. Jarl kvað svá vera skyldu sem hann vildi. þorleifr tók Hallfreð í sveit sína. hann mælti við Hallfreð 'viltu at ek dæma með jarli ok þèr?' Hallfreðr kvaz þat gjarna vilja. 'þá skaltu yrkja kveði um jarl ok 'haf gert innan þriggja nátta'. Ok er iij nætr voru liðnar þá færði Hallfreðr kveðit, ok er þetta upphaf á:

"berr er hroðr at heýra.
"hıalldr auñ vm þık gervan".

Jarl launaði hánum vel kveðit 'en ekki vil ek þik með 'mèr hafa sakir Óláfs Tryggva sonar'. þorleifr bauð Hallfreði til sín, ok þangat fór hann. þorleifr reyndiz hánum hinn bezti dreingr. Ok at sumri fór Hallfreðr út til Íslands ok kom skipi sínu í Leyruvág firir sunnan land. þá bjó Önundr at Mosfelli. Hallfreðr átti at gjalda hálfa mörk silfrs húskarli Önundar ok svaraði heldr harðliga. kom húskarlinn heim ok sagði sín vandræði. Hrafn

---

9 hnykkti > hnýckı. 30 gjalda +.

kvað slíks ván at hann mundi lægra hlut bera í þeira skiptum. ok um morguninn eptir reið Hrafn til skips ok ætlaði at höggva streingina ok stöðva brotferð þeira Hallfreðar. Síðan áttu menn hlut í at sætta þá, ok var goldit hálfu meira en húskarl átti, ok skildu at því. Annat sumar eptir áttu þeir Hallfreðr ok Gunnlaugr ormstunga ferð saman ok komu á Melrakkaslèttu. þá hafði Hrafn fengit Helgu. Hallfreðr sagði Gunnlaugi hversu hánum hafði vegnat við Hrafn. Hallfreðr var leingstum í ferðum ok undi sèr engu eptir fall Óláfs konungs. hann fór til Svíþjóðar at vitja Auðgils sonar síns ok fjár síns. hann ætlaði þar at festaz. þá var Hallfreðr nærr fertugum manni er hann ætlaði til Íslands at sækja fè sitt. Hallfreðr son hans var þá með hánum. þeir höfðu útivist harða. Hallfreðr jós at sínum hlut ok var þó sjúkr mjög. ok einn dag er hann gekk frá austr*i* settiz hann niðr á ásinn ok í því laust áfall hann nið*r* í skipit ok ásinn ofan á hann. þá mælti þorvaldr ‘er þèr bróðir erbitt við ‘orðit?’ Hann kvað vísu:

“Hnauð vıð hıarta ok sıðu.
“hreggblasnum mer ası.
“sua hefır ẏðr at oðru.
“afall tekıt vąrla.
“meıŕ hnauð mınum knerrı.
“mıog er ek vatr of latınn.
“muna vrþægın eıra.
“alldan sınu skalldı”.

þeir þóttuz sjá sótt á hánum ok leiddu hann aptr ept*ir* skipinu ok bjuggu um hann ok spurðu hversu hánum segði hugr um sik. Hann kvað vísu:

Sprund mun hvítri hendi
hördúki um brá mjúka

---

32 hördúki > haur duks.

(fljóð gat fremdar æði)
fjölerrin mjög þerra,
ef dauðan mik meiðar
morðveggs skulu leggja
(áðr var ek ungu fljóði)
út um borð (at sútum).

Þá sá þeir konu ganga eptir skipinu. hón var mikil ok í brynju. hón gekk á bylgjum sem á landi. Hallfreðr leit til ok sá at þar var fylgjukona hans. Hallfreðr mælti 'í 'sundr segi ek öllu við þik'. Hón mælti 'viltu Þorvaldr 'taka við mèr?' Hann kvaz eigi vilja. Þá mælti Hallfreðr ungi 'ek vil taka við þèr'. Síðan hvarf hón. Þá mælti Hallfreðr 'þèr son minn vil ek gefa sverðit konungs 'naut, en aðra gripi skal leggja í kistu hjá mèr ef ek 'öndumz'. Litlu síðarr andaðiz hann ok var í kistu lagðr ok gripir hans með hánum, skikkja hjálmr ok hringr, ok skotið síðan firir borð öllu saman. Kistan *kom* í eyna helgu í Suðreyjum ok fundu sveinar *ábóta*. þeir brutu upp kistuna ok stálu fènu, *en sökktu lí*kinu í fen mikit. Ábóta dreym*di* þegar um nóttina at Óláfr konungr kémi at hánum. hann var reiðuligr ok kvað hann illa sveina eiga 'hafa þeir brotið skip skálds míns ok stolit fè hans 'en bundit stein við háls hánum. nú haf þú sannar sögur 'af þeim, ella munu *yðr* ∼∼∼ *hver undr*'. ∼∼∼ voru sveinar ∼∼∼∼∼ it frelsi. *Lík Hall* ∼∼∼∼ *kirkju ok var grafit* virðul ∼∼∼∼ kalekr ∼∼∼∼∼∼en alt*aris*klæði *af* skikk∼∼∼∼ *kur* ór *hjálminum. þeir Þorvaldr* ∼∼∼∼∼ *Ottarsstaði ok voru þar* ∼∼ ∼∼∼ um sumarit. En *Hall* ∼∼∼∼∼∼ *kalladr* vandræðaskáld. *hann v*∼∼∼∼∼∼maðr. Er mart m*anna* frá hánum komit. *Ok*∼∼∼∼∼∼*llf*'.

23—30. ———————— sögur af þeim, ella 'mun yðr henda hver undr'. Síðan hvarf konungr frá

---

1 æði > oæði.

honum, en ábóti vaknaðe. lèt hann taka sveinana, en þeir gengu þegar við því er á þá var borit. var þeim þá sú sök upp gefin. Lík Hallfreðar fannst ok var grafit virðuliga þar at kirkju. Kalekr var ger ór hringinum, en altarisklæðe af skikkjunne, kertastikur ór hjálminum. Þeir Þorvaldr tóku Ísland um haustit ok voru á Óttarstöðum um vetrinn. Síðan fór Þorvaldr utan, en Hallfreðr setti bú saman á Óttarstöðum ok bjó þar. var hann ok kallaðr vandræðaskáld sem faðir hans. hann varð göfugr maðr ok mikilmenni ok eru margir menn frá honum komnir.

---

# III.

## SAGA AF ÞORSTEINI SÍÐU-HALLS SYNI.

---

1. *** hverfingunni ok váro þau drepin bæði. Þetta sumar ætlaði Þorsteinn utan með Þorleifi ok váro búnir fyri þing. Þá var um rætt, hverjom hann mundi fá í hendr goðorð sitt. Þorsteinn svaraði ‘verit myndi ‘þat hafa at ek mynda eigi leitat hafa víða ef Þórhaddr ‘veri jafnner . . . en nú veit ek ei, at þessum mála‘vöxtum sem nú eru . . . hefir hann ok flesta luti til, ‘bæði vit ok harðfengi . . . er nú fæð með okkr’. Svo er sem mælt er at ferr orð er um munn líðr ok koma þessi orð til Þórhadda. Hann ferr þegar á fund Þorsteins ok mælti ‘vel gezt mér at orðum þeim sem ek hefi spurt, ok gerum ‘svo vel ok setjom niðr fæð þá sem á hefir verit með okkr, en ‘tökum upp nýtt vinfengi; ok ef þér sýniz þat ráð at ek ‘taka við goðorði þínu, þá skal ek boðinn ok búinn til ‘þess starfs sem þú vilt mik til nýta’. Þorsteinn kvað þetta vel mælt ok tók Þórhaddr við goðorðinu á þingi ok skildo með vinátto. fór Þorsteinn utan ok kom við Orkneyjar. Þá réð fyri eyjonum Sigurðr jarl Hlöðvers son. hann fagnaði vel Þorsteini ok bauð honum til sín; ok hann var með jarlinum of vetrinn, vel metinn. ok er váraði þá spurði jarl Þorstein hvárt hann vildi fara

---

2 Fragment Saugu Þorsteins Siþu Hallz sonar. 10, 14 okkr > ockor. 23 hvárt > hvert.

með honum í hernat eðr vildi hann eptir vera. Þorsteinn kaus at fara ok var stafnbúi á skipi jarls ok var enn hraustasti maðr á skipi sem hann væri vanr því starfi. Þorsteinn var maðr ráðugr ok vitr ok frækn, ok bað jarl hann lengi með sèr vera síðan hann kannaðiz við ætt hans ok hann vissi frændsemi þeirra í milli — því at Þórey Özurar dóttir var móðir Halls á Síðu en Özurr var son Hrollaugs Rögnvalds sonar af Mæri, Torf-Einarr jarl var son Rögnvalds jarls af Mæri en faðir Þorfinns jarls hausakljúfs föður Hlöðvers jarls föður Sigurðar jarls. en Sigurðr jarl herjaði víða um sumarit um Skotland ok frýði engi maðr Þorsteini framgöngu ok hugar, flutti þetta hvártveggja fram mál Þorsteins — ætt hans ok hraustleiki. jarl drap mart óþjóða-fólk en sumt flýði undan á skóga, ok fór jarl víða um Vestrlönd ok brenndu. Síð um haustit fór hann heim til Orkneyja ok hafði þá kyrrsetu iij mánuði ok gaf þá vinum sínum góðar gjafir. Jarl mælti þá við Þorstein ‘góða fylgð hefir þú mèr veitta ok drengiliga, ok þigg af mèr öxi gullrekna, hana samer þèr at bera’. Þorsteinn þakkar jarli, því þat var en mesta gersemi. Þetta haust kom Brennu-Flosi til Orkneyja ok hans menn ok fóro skipti þeirra Sigurðar jarls sem segir í Njáls sögu.

2. Þenna vetr bjóz Sigurðr jarl til Írlands ok þá barðiz hann við Brján konung ok hefir sú orrosta frægst verit fyri vestan haf bæði at fjölmenni ok stórtíðindom þeim sem þar urðu. ok er jarl bjóst heiman, spurði hann Þorstein, hvárt hann vildi fara. Þorsteinn kvað sèr eigi annat sama enn fara ok fylgja honum í háskanum ‘er oss þikkir gott at hafa hóglífi með yðr í friðinom’. Jarl þakkaði honum orð sín. Þeir fóro síðan til Írlands ok börðuz við Brján konung ok urðu þar mörg tíðindi í senn sem segir í sögu hans. Þar fèllu iij merkismenn

---

19 þigg > þygg. 26 fjölmenni > fiolm̄. 28 hvárt > hvert.

Sigurðar jarls ok þá bað jarl Þorstein bera merkit. Þá mælti Þorsteinn 'ber sjálfr krák þinn jarl'. Þá mælti einn maðr 'rètt gerir þú Þorsteinn, því at af því hefi 'ek misst iij sonu mína'. Jarl tók merkit af stönginni ok lèt koma milli klæða sèr ok barðiz þá alldjarfliga ok litlu síðarr heyrðu mælt í loptinu 'ef Sigurðr jarl vill sigr 'hafa, þá sæki hann á Dumazbakka með lið sitt'. Þat *** fylgði jafnan jarli ok svo var þá. Þar fèll jarl í þeirri atlögu ok mart lið með honum. ok í þessu drap Bróðir Brján konung. en Óspakr bróðir hans tók hann ok hleypti út þörmunum ok leiddu hann of eik eina ok dó hann svá. Þá urðu mörg tíðindi senn í manna látum. Þorsteinn ok þeir nokkorir saman námu stað við skóginn. Þá mælti einn maðr 'hví flýr þú eigi Þorsteinn?'. Hann svaraði 'því at ek tek eigi heim í kveld þó at ek flýja'. Þorsteini váro grið gefin ok fór hann aptr til Orkneyja ok þaðan til Noregs ok kom til hirðar Magnúss konungs Óláfs sonar ok gerðiz hans hirðmaðr ok var ólíkr þeim er heima spyrja tíðindin, at búum sínum. hann var með mörgum ríkum mönnum ok vel virðr ok þótti enn mesti ágætismaðr. hann var ok enn mesti rausnarmaðr í búi ok vel mátti bær hans jafnaz við ríkra manna herbergi. Þorsteinn var vinhallr ok glaðr ok lítillátr vitr ok þolinmóðr djúpsær ok langrækr en grimmr mótgerðarmönnum sínum góðr við ölmusur ok alla þá er hans þurftu en ina stærri menn bar hann opt ofríki þá er hann var hèr á landi. uppruni hans var merkiligr. hann fekk sèr ok góða mægð ok traust þeirra Vápnfirðinga. en er hann hafði iij vetr utan verit ok var orðinn frægr mjök þá fór hann út higat. þá var Þorsteinn tvítugr er hann var í Brjánsorrosto. hann kom út í Fjörðum austr fyri leið of haustit ok fór heim til búss síns ok urðu honum fegnir frendr

6 heyrðu < heyrðu menn. 25 ölmusur > ölmusr. 28 Vápnfirðinga > vapnfyrðinga.

hans ok vinir ok allir hans þingmenn. en meðan Þorsteinn var utan þá hèlt Þórhaddr vel þingmenn hans. þar með fekk hann mikit af fè Hauks, ok et fyrsta sumar er hann tók fjárheimtuna var honum goldinn ketill mikill ok góðr. ok er þeir funduz um skiftin urðu þeir vel á sáttir þar til er ketillinn kom upp, þá mælti Þórhaddr 'þenna grip 'vil ek hafa til míns búss en þú haf annat fè í móti'. Haukr kvaz eigi missa mega ok kvað hann þó mega vel við una er honum var gefit allt ok eigi sannlíkt í mót at mæla at hann hefði. Þórhaddr kvað svá vera en lèt þó fleirum mönnum nauðsyn til kalla en honum einum. reið hann í brott. þá kom Guðleif at í því ok mælti 'eigi 'myndir þú á katlinum hafa haldit ef ek hefða ráðit ok 'mun þat illa gefaz við ofsa föður míns ok ríði eptir 'honum ok biði hann hafa ketilinn'. Haukr mælti 'engi 'þörf er þess ok mun heimt annat ef annat er veitt'. Hón mælti 'eigi vilda ek hætta til órráða föður míns ok kauptu 'heldr þèr annan ketil'. þá var riðit til fundar við Þórhadd ok boðinn honum ketillinn. 'Illt er ráð' sagði hann 'at Haukr hafi ketil, en vær manom fara með váro máli 'sem oss líkar'. Haukr spyrr þetta ok þótti honum vel. Guðleif kvað illt mundu af leiða. ok et næsta haust lèt Þórhaddr reka af fjalli yxn v er Haukr átti ok xxx geldinga ok lèt drepa ok mælti at svo skyldi segja Hauki at þetta veri nokkorr lutr af ketilverðino. Hauki þótti ósæmiliga til sín gert, en mátti ekki at hafa meðan Þorsteinn var í brottu, ok þótti sèr illa launat fjártillagit. Guðleif kvað mikit at gert, en kvaz vilja hætta til þess at þá veri kyrrt. vel var Þórhaddr til annarra manna þar um sveitir ok hugsaði rètt milli manna. ok annat haust lèt Þórhaddr reka fè jafnmart af fjalli þat er Haukr átti ok drepa í bú sitt ok bað enn segja Hauki at þat var nokkorr lutr af ketils-verðino. Haukr kvaz eigi vita hvat hann

11 kalla < katla. 22 illt > illa. 33 hvat < hvar.

ætlaði til um rán við sik, kvaz sakna Þorsteins vinar síns. nú liðu þau misseri. ok et þriðja haust bjóst Þórhaddr til fjallgöngu ok allir synir hans ok lèt þá reka af fjalli c geldinga ok x yxn er Haukr átti ok lèt slátra í bú sitt. þetta mæltiz illa fyri. í öðru lagi hèlt hann sèr til ymsa skulda. Haukr leitaði ráða við Guðleifu hversu með skal fara. Hón kvað óhægt um at ráða ofbeldi hans at svá búnu ‘mun Þorsteinn brátt til koma’.

3. Þetta sumar kom Þorsteinn út sem sagt var ok leið framan til leiðar ok ríðr Þorsteinn með marga menn til leiðar. Þar kom Þórhaddr ok fjölmenni mikit ok ræddu menn um mál sín ok hèraðsstjórn, kvaz Þorsteinn spurt hafa at Þórhaddr hefði vel fylgt fyrir utan mál Hauks — þat kvað hann ónýtt standa svá búit. Þórhaddr kvað þá mága mundu á þat sættaz sjálfa, en kvað þó fleirum hafa gagn at orðit. Þorsteinn kvað þat makligt at hvárr rèði sínu ‘nú mun ok vel fundit at ‘ek taka við goðorði míno’. Þórhaddr svaraði ‘þetta ‘skyldir þú fyrri talat hafa en lögskil færi fram, en nú ‘samir betr at selja goðorð af hendi á várþingi áðr lögskil ‘fara fram, enda þarftu ekki goðorð í vetr’. Þorsteinn reiddiz mjök er hann náði eigi goðorðinu ok skildu við þat ok leið sumarit ok vetrinn ok leið at vorþingi. ok áðr Þorsteinn reið heiman mælti Ynghvildr kona hans ‘eigi er makliga með ykkr Vápnfirðingum ef þú skalt eigi ‘bera hærra nafn en einn bóndi’. ok er þeir Þorsteinn nálgaz þingit mælti Þorsteinn ‘hèr manom vèr nema ‘staðar ok bíða Þórhadds, ok eigi skulum vit Þórhaddr ‘báðir koma á þetta þing ef ek næ ei goðorði míno’. Litlu síðarr kom Þórhaddr ok synir hans ok riðull manna. Þorsteinn spratt upp ok bað hann selja af höndum goðorðit ok rètta fram höndina ‘eða ella skolom vit reyna

6 Guðleifu < Guðleif. 17 hvárr < hverr. 25 Vápnfirðingum > vapnfyrðingum. 29 næ < nái.

‘með okkr’ kvað eigi hæfa at bændr veri ræntir en höfðingjar svívirðir ok taldi mjök á hann um skipti þeirra Hauks ok kvað hann eigi Hauk svívirða heldr ok dóttur sína. Þórhaddr kvað hann djarfan ‘heldr er sannara at meiri svívirðing gerir þú Hauki er þú gengr í sömu sæng hjá konu ‘hans hvert sinn er þú gistir þar ok launar svo Hauki góðar ‘gjafir’. Þorsteinn svaraði ‘vel lýgr sá er með vitnum lýgr ok ‘væntir ek at eigi fáir þú vitni til at ek hafa nè eina ‘mannskonu tekit, er þat bæði at ek em vel kvæntr enda ‘em ek henni trúr. gjör nú skjótt um at þú sel fram goðorðit eðr annarr skal verri’. Þórhaddr svaraði ‘ákafr ‘maðr ertu ok eigi mjök stilltr ok muntu ná goðorði þínu ‘þó at þú heitiz eigi til ok eigi gerði faðir þinn svo þá ‘er hann missti Ljóts sonar síns á alþingi þá mælti hann ‘þó allt vægiliga ok var þat þó mannraun en þetta engi’. nú áttu margir lut í ok tók Þorsteinn við goðorði sínu á þingi. fóro fram lögskil, ok at þinglausnum í þingbrekku stóð Þorsteinn upp ok mælti ‘kunnikt er mönnum ‘um skifti þeirra Hauks ok Þórhadds, ok ef slíku skal ‘fram fara þá eru bændr mjök forystulausir; skal ok ‘Þórhaddr brátt vita at ek em ríkari en hann ok ‘lýsi ek því Þórhaddr at þèr er ætlaðr bústaðr á þeim ‘bæ er á Stræti heitir á Berufjarðarströnd ok skaltu á ‘brottu verða af Rannveigarstöðum með allt þitt áðr hálfr ‘mánaðr sè liðinn ella skal ek færa þik á brott með engri ‘vægð, en eigi skaltu flýja ór hèraði at mínu ráði nè ‘synir þínir því at vèr erum makligstir Austfirðingar ‘at hræra um ykkur vandræði, en ef þèr farit ór hèraði ‘án mínu ráði þá skal ek verja innihöfn ykkra ok segja ‘þá upp er yðr taka’. Þórhaddr kvað óráðamannliga til orðs tekit ‘ok mætti svá á standaz at lítil gæði stæði af ‘minni innivist ef oss er allmjök til þreingt, enda hefi ek

1 okkr > ockor. 2 svívirðir > svívyrðir. 26 at < án. 27 Austfirðingar > austfyrðingar. 28 ykkur > yckar.

‘sjálfr ráðit bústað mínum hèr til’. þorsteinn kvað nú svo vera skyldu sem hann hafði mælt ok skildu at því. fór þórhaddr heim ok gussaði ekki, leið svo fram um nokkorar stundir, mælti þórhaddr at þorsteinn myndi eigi kunna dagatal ****** hauGi hans um nóttina. nú leið sú nótt. ok er hann ætlaði kyrru fyri at halda kom þar þorsteinn með xv menn ok kvaz því eino hafa heitit þórhaddi er hann skal efna. ok þenna morgin snimma kom inn smalamaðr þórhadds ok sagði honum at xv menn riðu at bænum ‘en þú sagðir at þorsteinn myndi eigi daga- ‘tal, en mèr líz sem hann mun koma nú’. þórhaddr mælti ‘stöndum upp ok neytum vápna, mart mun í geraz áðr ‘vèr erum drepnir’. ok er þorsteinn kom at garði þá stigu þeir af baki ok kvað þorsteinn eigi skyldu spilla túni Hauks. gengu þeir þá til bæjar ok var þeim sagt at þórhaddr myndi inni bíða ok synir hans, en hurðir váro aptr. þorsteinn gekk at dyrum ok mælti ‘ef þórhaddr ‘má heyra mál mitt þá býð ek engan úfrið ef hann gengr ‘út ok vill í brott fara’. þórhaddr bað hann at sækja. en þorsteinn kvaz spara menn sína til þess at ganga á vápn þeirra ‘skulum vèr bera eld at húsum, en bæta Hauki ‘húsbruna’. þeir gerðu svo ok báru eldinn at. þorsteinn leyfði konum útgöngu. nú gerðiz brátt svæla mikil í húsum ok reykr tók at vaxa. þá mælti Helgi ‘illr dauði ‘þykki mèr at brenna inni sem melrakkar ok vil ek heldr ‘út ganga til griða eða þola járn at öðrum kosti’ ok svo gerði hann. ok svo sem þeir komu út þá lèt þorsteinn binda þá en gera þeim ekki annat síðan var bú þeirra í brott fært ok reka fè á Stræti. lèt þorsteinn skifta þar öllu í helminga ok varð svo at vera sem þorsteinn vildi ok bjó þórhaddr á Stræti, en þorsteinn fór heim til Hofs. váro nú orð ger Hauki ok tók hann þar við fè

---

14 skyldu > skylldi. 15 bæjar > bæar. 16 bíða > byða. 32 ger > gerð.

sínu. varð nú af nýju fjandskapr með þórhaddi ok þorsteini ok mest af þórhaddi er hann var svo mjök nauðigr, gerðiz nú orðflaug mikil af þórhaddi ok sonum hans til þorsteins ok váro þeir enir mestu fársmenn í orðum. Einn aptan kom þar maðr til gistingar sá er Grímkell hèt. hann var flökkunarmaðr ok hróps-tunga mikil. þórhaddr gerði sèr tíðhjalat við hann ok dvaldiz hann þar um hríð. þórhaddr kaupir at honum at hann skal fara á vestanvert land ok bera þar upp rógmæli um þorstein Halls son með því móti at þorsteinn veri kona ena ix. hverja nótt ok átti þá viðskifti við karlmenn. ok yfir þessa flugu gein Grímkell ok fór yfir landit vestr ok hrópaði þorstein ok fór síðan svo vestan yfir rógmælit. þetta fór svo at rógmælit kom ner í hvers manns hús ok lögðu óvinir þorsteins á hann óvirðing mikla hèr fyrir en vinir hans hörmuðu. Kolr bróðir hans gekk fyrz í berhögg við hann um þetta mál, var hann þá á vist með honum ok hafði komit út um sumarit. Kolr mælti eitthvert sinn við þorstein 'finnr þú nokkot til frændi hverr 'fjandskapr við þik er hafðr ok fáheyrð ok undarlig upp'lostning, eru ok því vinir þínir færri við þik enn verit 'hafa en sumir gera glott at, er ok þetta mál sett með 'miklum fjandskap ok látit sem vestan sè at komit en ek 'hygg at nær þèr mun boðinn upp rísa, ok má slíks eigi 'of hefnt vera'. þorsteinn svaraði 'klækis efni eru í höfð, 'er ok líkaz at illan enda eigi, ok alls fjandskapar varði 'mik annars af þórhaddi ok sonum hans heldr enn þessa'.

4. *** hèt maðr er bjó í Breiðdal at Kleif. með honum var á vist sá maðr er Steinn hèt ok var kallaðr *** steinn. hann rèð betr drauma enn aðrir menn. hann telldi ok manna bezt *** "up" í Hlíð í Lóni. Ingjaldr hèt maðr. hann bjó á *** þess er bjó á Berunesi á Aðalbóli. hann var góðr bóndi *** dvalðiz meðan at Kleif. þórhaddr var

---

9, 13, 14 rógmæli(t) < ragmæli(t).

þá kátr mjök ok mælti at þeir mundi tefla ‘því mèr er ‘sagt at þú teflir manna bezt, en ek hendi ok gaman at ‘því’. Steinn bað hann ráða. þeir tefldu ok hafði Þórhaddr ekki við. hann mælti þá ‘eigi er of mikit sagt af þessi ‘íþrótt þinni ok manom vit nú hætta at tefla því at ek á ‘önnur eyrindi við þik’. Steinn spurði hver þau væri. Þórhaddr mælti ‘þat er mèr sagt at þú ráðir manna bezt ‘drauma ok vil ek þat reyna því at mik hefir mart dreymt ‘undarligt ok er mèr forvitni á at vita hversu þú ræðr’. ‘Ógerla kann ek drauma at ráða en eigi er þat ólíkligt ‘at þik dreymi mart því at þú mælir mart’. Þórhaddr mælti ‘þat dreymdi mik at ek þóttumz hlaupa með stöng ‘upp at fjallinu frá Stræti ok yfir gryfjor nökkvarar ok ‘götur en ek þóttumz þar niðr koma er heitir í Hvarfi’. Steinn sagði ‘þat ætla ek at þá ráða ek rètt draum þinn ‘at yfirhlaup mani verða í ráði þíno um rèttar götur, þat ‘er þá er þú hverfr frá rèttu ok tekr upp rangt, en þat ‘má verða þèr ljái þess hugar at hverfa aftr ok em ‘ek þar hræddr um’. Þórhaddr mælti ‘lítt ræðr þú í hag ‘mèr’. Steinn svaraði ‘seg mèr þá eina drauma at þú ‘vill at ek ráða eptir því sem ek ætla at vera muni’. ‘Sá var annarr draumr minn’ sagði Þórhaddr ‘at ek sá ‘tungl ij ok fór annat at venjo en annat var í fjalli at ‘húsbaki ok þóttumz ek taka þat ok eta ok þóttumz ek ‘leifa af lítinn mána ok hirða í pússi mínum’. Steinn mælti ‘undarligr er draumr þinn, en sjá þikkjomz ek ‘hvat hann er. þar hefir þú etit heims undr ok merkir ‘þat glæpyrði þín þau er fram fara af munni þínum ok ‘muno enn eigi öll mælt þau sem þú hirðir í hjarta þínu ‘er þú hirðir sumt af tunglino’. Þórhaddr mælti ‘eigi er ‘munlikt um þat er mik má henda. enda má vera at eigi ‘sè góðs efni í. Sá var enn iij. draumr at ek þóttumz

---

6 önnur > o̅nr. 14 götur > gotr. 16 götur > ġavtr.
31 mik má < mik man.

‘vera í smiðju ok gera spjót en synir mínir blèsu at ok ‘þótti mèr aldri soðit verða til loks en spjót varð ávallt ‘úr’. Steinn mælti ‘þat eru gómaspjót yður ok orð sem ‘þèr mælit ok sindrar af of allt land ok mun yðr þikkja ‘aldri fullger ok ert þú upphafsmaðr at en synir þínir ‘fylgja því’. Þórhaddr mælti ‘sá er enn iv. draumr minn ‘at ek þóttumz ganga í aðra smiðjo ok þá brá því við ‘er mèr þótti undarligt at ek þóttumz þar finna mik fyrir’. Steinn svaraði ‘svo er ok at í aðra smiðju er komit um ‘ráð þitt enn verit hefir þá er þú hafðir mannvirðing ok ‘goðaheill, en nú hefir þú fjandskap margra manna, ok ‘er eigi ólíkligt at þú finnir sjálfan þik fyrir at lyktum.’ Þórhaddr svaraði ‘sá var draumr minn enn v. at ek þótt‘umz ganga til sjávar þar sem var saltsviða mikil ok ‘synir mínir með mèr ok þóttumz ek eta glóanda salt ok ‘drekka sjáinn við’. Steinn mælti ‘þat merkir svívirðingar‘orð þín’. Þórhaddr mælti ‘alllítt hlífir þú mèr í drauma‘ráðningunni’. Steinn kvaz ráða eptir því sem hann ætlaði at vera mundi. Þórhaddr mælti ‘sá er enn vj. draumr ‘minn at ek þóttumz ganga frá bæ mínum ok synir mínir ‘með mèr ok koma milli bjargs ok sjóvar ok þótti mèr ‘sem boði nokkorr lysti oss í bjargskoru nokkora ok þótti ‘mèr mjök þröngt at oss. þá þótti mèr svá löng höndin ‘á mèr at ek þóttumz seilaz upp á bjargit ok svo kom‘umz ek upp á ok síðan tók ek á móti sonum mínum ok ‘heimta ek þá til mín ok stóðum vèr þá allir saman á ‘bjargino’. Steinn svaraði ‘þar sem hendr þínar váro ‘lengri enn at hætti ok eðli — þat sýniz í því at langar ‘muni verða fyrir þínar tiltekjór ok draga þar eptir þèr ‘sonu þína á þat óráð, ok þar sem þèr stóðut á bjargi ‘þá mano þèr alla yðra björg undir fótum troða’. Þórhaddr mælti ‘þenna draum ætla ek góðan’. Steinn kvað svo ganga mundo sem hann sagði. Þórhaddr mælti ‘sá

3 yður > yðr. 14 sjávar = siafar. 31 alla >.

'var enn vij. draumr at ek þóttumz fara leiðar minnar ok 'fara hjástig hjá götunni ok koma á brekkur nokkorar á 'bak bænum á Stræti, en mèr þótti þorsteinn Halls son 'ganga undir niðri rètta götu'. Steinn kvað þat auðsætt at þorsteinn gengi rèttan stig 'en þú rangan í ykkrum 'skiftum ok mun hann koma upp undir þèr at lyktinni'. þórhaddr mælti 'sá var draumr minn enn viij. at mèr 'þótti tungan svo löng í mèr at ek þóttumz krækja henni 'aptr í hnakkann ok fram í munninn öðrom megin'. Steinn svaraði 'þat er auðsætt at þèr mun tungan um höfut vefjaz 'í helzta lagi'. þórhaddr mælti 'sá er hinn ix. draumr 'minn at ek þóttumz vera á fjalli því er Gerpir heitir, 'þat fjall er í Austfjörðum, ok þaðan sá ek um mörg 'lönd en hvergi í nánd mèr því at myrkri laust yfir allt'. Steinn mælti 'þar er þú vart á fjalli því er Gerpir heitir '— þat sýniz mèr at ráð þitt var gerpiligt þá er þú 'vart með goðorð þorsteins ok veittir mörgum bæði í 'fjártillögum ok málafylgjum, en nú gefr þèr glámsýni er 'þú hefir illt ráð upp tekit ok þú sèr eigi satt um þat er 'hjá þèr er en þat sèr þú glöggt er fjarri þèr er.' þórhaddr mælti 'sá var enn x. draumr minn at ek þóttumz 'koma á mót fjölmennt ok þótti mèr sem kastat veri í 'fyrirskyrtu mèr járnum þeim sem rær heita . . . en 'enir stærri menn járnbútum þungum . . . ok fèllu niðr 'rærnar'. Steinn mælti 'þess get ek til at sættarfundr 'mani lagðr með ykkr þorsteini, ok væntir mik at smærri 'menn ok alþýða mani gott til leggja með þèr ok láta 'þik njóta þess er þú vart þeirra formælandi, en enir 'stærri menn mano því öllu niðr slá er þèr er til gagns 'ok virða meira fjandskaparorð þín'. þórhaddr mælti 'sá 'er hinn xj. draumr minn at ek þóttumz fara upp eptir 'Breiddal ok hafa svo mikinn faðm at ek þóttumz mega 'vöndla upp allt hèraðit.' Steinn svaraði 'þar muntu hafa

2. brekkur > breckr. 16 þat sýniz mèr < þar sýniz. 23 -skyrtu > -skirtu. 32 Breiddal ɔ: Breiðdal.

‘alla héraðsmenn í fangi þér ok í móti þér í sínom ráðum’. Þórhaddr svaraði ‘sá var enn xij. draumr minn at ek ‘þóttumz fara ór Breddal Hjarðarskarð ok til bæjar þess ‘er í Þroti heitir ok þótti mér sem ekkja nokkor byggi ‘þar ok þóttumz ek drepa fótum í þúfu ok falla en mér ‘þótti Þorsteinn ríða um þvera gǫtuna í móti mér’. Steinn mælti ‘eigi kemr mér þat á óvart at þú farir Hjarðarskarð ‘ok drepir fótum í banaþúfu ok þrotnir þar.’ Þórhaddr kvað eigi ólíkligt at hann yrði eigi langær, ok hættu nú talinu. síðan fór Þórhaddr heim.

5. Nokkoru síðarr áttu héraðsmenn lut í ef nokkorar vonir veri sátta ok báðu Þorstein til koma. Hann kvaz ætla at til lítils mundi koma at tala um mál þeirra Þórhadds ‘en ef tala skal um héraðsstjórn þá mun ek koma ‘þótt Þórhaddr sé þar ok synir hans.’ Þessi fundr var á Berunesi. kom þar Þorsteinn ok fjöldi bónda ok létu fyrst talat um héraðsstjórn, hversu fara ætti, ok urðu á þat vel sáttir. Þá mælti Órækja Hólmsteins son Bessa sonar Özurar sonar Brynjólfs sonar ens gamla (hann var frendi Þórhadds) ‘þik kveð ek at þessu Þorsteinn ef nokkot skal ‘mega til sætta tala með ykkr Þórhaddi, viljom vér þar ‘allan lut í eiga ok ekki til spara hvárki fé né annat, ‘máttu á þat líta at þeir frendr veri þér til margs vel ‘fallnir en þetta mun þér at engri svívírðu verða ok eigi ‘minnkar höfðingskap þinn orð þeirra ferlig.’ Þá fylgðu at aðrir héraðsmenn ok túlkuðu mál Þórhadds ok kvóðu Þorstein af því mundu fá frama, segja Þórhadd góðan hug hafa á lagt at fylgja hans málum þá er hann var eigi við. Þá svaraði Kolr bróðir Þorsteins ‘undarlig er ‘slík eptirleitan fyrir hönd Þórhadds þess manns er svo ‘illa hefir fyrir sér gert ok allir þeir feðgar’. ok svá svöruðu þá þegar margir til, frændr Þorsteins ok vinir. Þá mælti Þorsteinn ‘eigi þarf hér mart um at tala, eigi

---

3 Breddal ɔ: Breðdal. bæjar > bæar.

'manom vit Þórhaddr sættaz'. ok fór sættarfundrinn sem Steinn gat. Þórhaddr mælti 'eigi skulum vèr þar ok mörg 'orð til leggja, en vita skaltu þat Þorsteinn at ek em 'draumamaðr mikill ok ei ólíkligt at brátt ræsi suma en 'allir mano eiga nokkorn stað. mik dreymdi þat at hvíta-'björn mikill fór af hafi utan ok ljóp yfir höfut oss feðgum 'hèr á Berunesi ok rann síðan á braut með brekkum 'nokkorum löngum, en síðan sá ek at refr nokkorr skautz 'úr urðum ok banaði birninum, ok ráð þú Þorsteinn'. Þorsteinn kvaz eigi ráða mundu draum hans ok ekki tal eiga við hann. Þórhaddr svaraði 'ek skal þá ráða at slíkt 'sem flýgr yfir at öðrum mönnum þá veit ek at þú hefir 'þungan hug á mèr ok kann verða at þèr verði auðit at 'verða minn skaðamaðr ok sona minna ok er þat gott at 'taka dauða af slíkum manni sem þú ert hjá því sem af 'vændismanni sem standa mun yfir þínum höfutsverðum. 'en sá var annarr draumr at mèr þótti Þorsteinn sem vit 'ættim mat saman ok synir mínir ok var hverjom várom 'deildr hálfr hleifr brauðs en öllum saman suflit ok þótti 'mèr sem vèr ætim vora hleifa til loks feðgar en Þorsteinn 'hefði etit brauðsuflit allt frá oss ok hálfan sinn hleif, ok 'ráð þú Þorsteinn þenna draum'. Þorsteinn spratt upp ok kvaz ei ráða mundu drauma hans. Þórhaddr kvað sèr sparat mundu at ráða 'ok skal svo vera ok ræð ek 'svo at vær feðgar manom brátt lúka várom lífdógom ok 'muntu Þorsteinn nema frá oss lífsbjörgina ok kann þó 'vera þú eigir skammt ólifat'. ok skildu síðan fundinn ok fóro menn heim ok óx ávallt óþokki með þeim. Þenna vetr átti Þorsteinn heimanferð norðr til Vápnafjarðar at hitta Skeggbrodda mág sinn. Kolr bróðir hans fór með honum ok nokkorir menn aðrir ok váro þar um hríð ok váro þeir mágar jafnan á tali. Broddi leysti Þorstein í brott með góðum gjöfum. ok er þeir fóro norðan um

---

16 höfutsverðum = havfutsv'þū. 20 vora = v'.

Smjörvatzheiði þá hrapaði maðr þeirra fyrir brekku nokkora ok hló Þorsteinn 'at ok margir menn aðrir er manninn sakaði eigi. Þá mælti Kolr ‘undarlikt þikki mèr bróðir ‘er þú mátt hlæja slíkt orðtak sem Þórhaddr hefir mælt ‘við þik ok muntu aldri hefna vilja ok beint er þèr farit ‘sem ólmum dýrum er smádýrum verða at skaða ok ferr ‘“sklokr” þeirra víða ok fýkr fyrir vindi ok mun ek hefna ‘verða’. Þorsteinn kvað eigi betr at meir veri eggjat en kvaz sjaldan setit hafa svívirðingar ok eigi annarra við þurft at hefna. kvomu heim ok váro heima of vetrinn. en of várit öndurt fór Þorsteinn suðr at fjárfari síno ok at hitta þingmenn sína. Þar var á mikil ok kvámuz þeir þó vel yfir ok hittu Þórhadd öðrum megin er þeir kvámo af ánni. hann fór með klyfjahross ok spurði hversu yfir ána veri. Þorsteinn kvað honum ófært einom saman ‘ok ‘skal ek fá til kná menn at fylgja þèr’. Þórhaddr lètz þat þiggja mundu ok þótti þó undarligt er hann veitti honum þenna forbeina ok komz Þórhaddr yfir. en er Þorsteinn var at spurðr hví hann gerði þetta þá svaraði hann ‘þeir hafa fáir lutir verit er mèr hafi meira um verit enn ‘at koma Þórhaddi heilum yfir ána því at ek ætla honum ‘annan dauða enn drukkna’. Þorsteinn fór heim, ok litlu síðarr dreymdi Þorstein at Jóreiðr móðir hans kom at honum. hón var Þiðranda dóttir, en hón var þá öndut. hón spurði ‘ætlar þú nú brátt til sættarfundar við Þórhadd?’ Hann kvaz ei þat hafa í hug sèr. ‘Viltu hefna þá?’ sagði hón. Hann kvaz þat hugsat hafa. Hón mælti ‘eigi þarftu ‘þá lengr at fresta, því at eigi mun fyrri niðr falla ill‘mælit enn hefndin ferr fram’ ok kvað þá vera ráð um daginn eptir ‘tak ok öxar þínar báðar jarlsnaut ok Þiðr‘andanaut ok haf þá í hendi til hefndanna er þyngri er ‘í hendi, því at Þiðrandanautr hefir opt vel gefiz þótt

---

7 sklokr < slokr(?). fýkr > fikr. 23 dreymdi > dreimdi. 31 þyngri > þingri.

'hón sè eigi jafnfögr sem hin'. Síðan vaknar hann ok þóttiz sjá svipinn hennar er hón gekk í braut. Þann dag var ofviðri mikit. Þorsteinn tók öxarnar ok jafnvætti í hendi sèr ok var Þiðrandanautr þyngri ok þótti honum eigi þó þess von. Síðan bjóst hann til ferðar ok stígr á ferju, fóru til Hofshólma ok tóku þar langskip gott ok reyru út ór Álftafirði snimma of morgin. Þeir váro xviij saman ok fóro svo norðr til Landsness. Þorsteinn var heldr úkátr áðr enn boði fèll yfir skipit hjá Æðasteini ok fylldiz skipit undir þeim ok jósu þeir upp ok gladdiz Þorsteinn síðan ok þótti þetta vel verða er þeir stýrðu undan háskanum. ok er Þorsteinn var heiman farinn varð varr við austmaðr hans er á vist var með honum. hann hafði verit fyrr með Þórhaddi. þat varð hans tiltæki at hann ljóp á fjörðinn. ok er hann kom til fjarðarbotnsins ok hitti menn þá spurði hann tíðinda, þá var hann svo móðr at hann fekk eigi mælt meira enn þetta þá fèll hann niðr. Þeir Þorsteinn koma norðr undir Bakka á Berunesi ok hittu sauðamann Ingjalds ok spurði Þorsteinn hvat þar væri gesta. Hann mælti 'mèr er eigi laun á, 'þeir eru hèr Helgi Þórhadds son ok bræðr hans Þor-'varðr ok Naddr, en ek hygg at Þórhaddr sè at Þorkels 'á Berunesi ok Ásbjörn með honum.' Þorsteinn mælti 'vel ferr þèr frásögnin' ok skilduz at því.

6. Nú skal segja frá Þorsteini ok mönnum hans at þeir sneyru til bæjar á Karstaði ok gengu undir húsgafl allir saman. þá mælti Þorsteinn 'vitu þèr þann málavöxt 'um ferð vára at ek ætla til hefnda minna harma, en ek 'vil at eingi yðvarr veiti mèr lið í móti Þórhaddi nema 'líf mitt liggi við, því at ek vildi allra þeirra bani verða. 'vara ek yðr því við at reiði mín liggr við ef eigi er 'svo gert'. Þorsteinn gekk til dyra ok kvaddi burðar ok kom Ingjaldr út ok heilsar Þorsteini. Hann spurði hvat

---

4 þyngri > þingri. 20 er +. 26 bæjar > bæar.

þar veri gesta. Ingjaldr varð fárr við ok sagði þó. þorsteinn svaraði ‘er eigi þat at þeir geriz mágar þínir synir ‘þórhadds ok hitti dætr þínar? bið þá út koma ef þeir ‘vilja at vær talim um sættir várar, er nú eigi fjölmenni ‘boðit’. Bóndi kvað gott ef svo væri at þeir sættiz. hann gerði svá, gekk inn ok sagði þeim at þorsteinn veri kominn úti ok vildi tala við þá. Helgi kvaz eigi vita hvárt honum veri þat nokkut í hug. þorvarðr kvaz vilja út ganga ef þorsteinn veri einn ok gekk hann út ok Naddr, en Helgi var hóti seinni. ok er þeir kvámo út bað þorsteinn þá niðr setjaz ok tala. þorsteinn gekk frá at jörva nökkvarum ok þeir eptir ok kvað hann ei mundu vera allskammt talit ok kvað því hæfa at sitja. þorvarðr settiz niðr, ok var enn vörpuligsti maðr, ok í því er hann settiz niðr hjó þorsteinn Nadd banahögg, en í því er þorvarðr vildi upp standa hjó þorsteinn hann banahögg áðr hann kæmiz á fætr. Í því kom Helgi út ok ljóp undir stein einn er þar var í túninu ok varðiz þaðan. hann var bæði mikill ok sterkr ok garpr enn mesti. þorsteinn sótti at honum ok áttuz við um hríð. en Sigurðr enn auðgi hèt maðr er í ferð var með þorsteini, hann ljóp at Helga ok lagði til hans með sverði, en í þessu hjó þorsteinn til Helga með öxi ok veitti honum bana, en kvað Sigurð illa hjá sitja en kvað við hann mesta vorkunn ok kvað engum öðrum skyldu hlýtt hafa ‘en þó ‘veitta ek honum bana’. Sigurðr kvaz eigi lengr þolat hafa atgang þeirra en *** bróðir Jóreiðar faðir Helga ok Gríms Droplaugar sona. Hallkatla var móðir þorkels Geitis sonar í Krossavík. Óluf hèt systir Halls á Síðu, hón var móðir Kolbeins Flosa sonar þórðar sonar freysgoða at Svínafelli. Ljótr son Halls átti Helgu dóttur Einars frá þverá ok var þeirra dóttir Guðrún er átti Ari

8 hvárt > hv᷎t (ɔ: hvert). 25 hlýtt > hlitt. 27 faðir > fauður. Helga > Helgu. 28 var +.

Þorgils son af Reykjanesi. Annarr son Halls var Þorsteinn er nú hefir verit frá sagt um hríð. Þriði son Halls var Egill. hann átti Þorlaugu dóttur Þorvalds ór Ási ór Hjaltadal. Þeirra dóttir var Þorgerðr móðir Jóhans biskups ens helga. Kolr var enn iiij. son Halls. hann átti Álöfu dóttur Özurar frá Breiðá. Dóttir Halls var Gróa er átti Teitr son Gizurar hvíta. Þeirra son var Hallr faðir Gizurar föður þeirra Magnúss biskups ok Þorvalz föður Gizurar. Ingvildr hét dóttir Halls. hana átti Eyjólfr son Guðmundar ens ríka af Möðruvöllum. Þeirra dóttir var Þórey móðir Sæmundar ens fróða föður Lopts — — — föður Sæmundar í Odda. Teitr Ísleifs son átti Jórunni. hennar móðir var Þórdís dóttir Þorvalz Halls sonar af Síðu. Þorgerði dóttur Halls á Síðu átti Þorgrímr son Digr-Ketils. Gró dóttur Halls átti síðan Snorri Kálfs son, en eptir hann átti Gró Þorvarðr krákunef. Þórdísi dóttur Síðu-Halls átti Þórðr Haldórs son ór Forsárskógum. ok lýkr svo þessi sögu er frá Þorsteini er sögð.

---

17 lýkr > likr.

## IV.

## FRÁ HELGA OK ÚLFI.

Sigurðr jarl Löðvers son rèð fyrir Orkneyjum. hann var höfðingi mikill. Maðr hèt Úlfr illi. hann bjó í Sauðey í Orkneyjum. hann var mikill hermaðr ok fylgdi nafni. Haraldr hèt maðr er bjó í Rinansey. Helgi hèt son hans. hann var efniligr ok vænn í ásjónu. hann mælti til föður síns ‘skipa vilda ek at þú aflaðir mèr ok vilda ek herja ‘á Skotlandsfjörðu ok vita hvat fyrir legðiz.’ Hann svarar ‘þat má ek gera ok er þat ungra manna siðr.’ Síðan herjaði Helgi ok fer vel með hernaði sínum þótt hann veri heiðinn þá voro þó eigi allir jafnir. ok er Helgi var í burtu ór Orkneyjum þá ferr Úlfr inn illi til Rinanseyjar ok hittir Harald ok mælti ‘lendur þínar vilda ek ‘kaupa, þær falla mèr vel í hag, enn ek skal fá þèr lausafè ‘fyrir.’ Haraldr kvezt eigi mundu honum eignir sínar selja, kvezt eigi þess vita ván at hann ætti eigi þar vist nè veru. Úlfr kvez ætla öðru sinni er hann kæmi at hann mun verða laust at láta þat er kraft verðr. Eftir þat skildu þeir. Fám nóttum síðar kom Úlfr á óvart ok

---

9 á < í. 17 ætti > ætt. 20 óvart > vart.

tók Harald höndum ok kvez ætla at þau umskipti mundi nú verða at hann mun láta bæði löndin ok lífit ok lèt Úlfr síðan drepa hann. þetta verk mæltist illa fyrir. ok er Sigurðr jarl spurði, lastaði hann verkit. Úlfr kom á fund jarls ok sagði honum. Jarl segir at honum líkar illa slík tiltekja 'ok vil ek at þú bætir frændum sæmiliga'. Úlfr kvað hann mundu því ráða enn kvað sèr mart hafa verit í mót gert af Haraldi. Nú varð eigi mjök eptir gengit málinu er Helgi var eigi í eyjunum. Maðr hèt Bárðr fagri frændi Úlfs illa. hann var vinsæll maðr ok vel at sèr ok var þó opt með Úlfi. eitthvert sinn mælti Bárðr til Úlfs 'ekki munu vit samhuga verða: þú slæst á 'illvirki ok er þat fjarri mínu skaplyndi ok mun ek í 'burt ráðaz'. Úlfr svarar 'þat er nú meðallagi ráðligt 'meðan málum er ekki sett enn Helgi Haralds son er í 'víkingu'. Hann kvaz þó fara mundu ok býr sik með skipi ór Rögnvaldsey. ok í því er hann er búinn þá sigldi Helgi at eyjunum ok hafði þá spurt dráp föður síns, heitr nú á menn sína at þeir drepi Bárð, kvað hann skyldastan mann Úlfi einnhvern. Bárðr bjóz við ok kvaz ekki til saka hafa gert við hann enn sagðiz eigi vilja frændsemi í sundr segja við Úlf. síðan berjaz þeir ok fellr Bárðr þar því at Helgi hefir mikit lið. ok er Ulfr spyrr þetta safnar hann sèr liði. enn er Sigurðr jarl frèttir þetta stefnir hann Helga á sinn fund ok er þeir finnast mælti jarl 'þú hefir gert illt verk í móti hörmum þínum 'ok leitaðir eigi eftir þinni sæmd með voru ráði, var nú 'áðr sættum á komit ok þèr sæmd huguð.' Helgi svarar 'þá skal enn vera allt á yðru valdi, enn úkunnigt var 'mèr um sætt þá'. Jarl mælti 'þat mun ek vilja at gera 'sætt með mínum mönnum hèr í eyjunum'. ok síðan heldr Helgi í burt. Úlfr gerir þegar menn til hans með ij skipum ok hittust eigi ok var Helgi fyrr heim kominn til búa sinna ok frètti þetta ok kvez ætla at honum mundi engi ró í eyjunum ok seldi jarðir sínar ok bjó sik

burt ok kvað þá vel þó þeir Úlfr hittist ef hann vildi eigi hlíta dómi jarls sem hann gerði sik beran í. Síðan snýr hann til búa Úlfs ok var hann eigi heima. Helgi rænir þar ok tekr í brott dóttur hans er Helga heitir ok kvað sèr slíkt helzt henta í föðurbætr. Hón bað hann þat eigi gera 'því at faðir minn mun þráliga eftir sækja'. Hann kvaz hætta mundu til þess. síðan fór hann suðr um eyjar. enn er Úlfr spyrr þetta fer hann eptir honum með mörg skip ok kvaz opt hafa hefnt minni svívirðingar. enn er þeir hittust þá börðust þeir ok var Helgi liðferi ok rudduz skip hans enn hann varðiz vel ok varð sárr. enn er náttaði þá gerði á storm veðrs ok er þat hans fangaráð at hann hleypr fyrir borð með dóttur Úlfs ok lagðiz með hana frá skipunum ok kemz svá til lands í náttmyrkri ok í skóg ok sá þar eld ok einn mann við. Helgi spyrr hverr sá veri. Hann kvaz vera bóandkarl einn 'ok veit ek deili á 'þèr ok fórtu vel með hernaði þínum við oss smábændr'. Helgi sagði honum svá sem var um sína hagi. Bóndi þessi hèt þorfinnr ok veitti hann Helga um vetrinn allt slíkt er hann þurfti ok gafz þeim báðum vel. Helgi kvaz vilja gera brúðlaup sitt til Helgu í hans húsi. þorfinnr kvað þat dælligt enn ekki virðuligt. enn þat fór þó fram ok líðr vetrinn af hendi. þá kvaz Helgi vilja leiga jörð af bónda ok kvaz ætla at vera mundi annat hvárt at Úlfr mun deyja skjótt eðr hann mun finna hann. Nú leigir hann jörð ok gerir bú. Síðan spyrr hann at Úlfr var dauðr. Helgi átti son við konu sinni Helgu ok hèt hann Bárðr. hann var vel í lýðsku ok siðlátr, vænn maðr ok gjörr at sèr. ok er ij vetr liðu þá fara þau Helgi aftr til Orkneyja ok taka við eignum sínum bæði þeim er Úlfr hafði átt ok þeim er Helgi átti eftir feðr sinn Harald ok skorti nú eigi fè. ok er Bárðr son hans var xij vetra vildi hann á burt ok kvaz vilja afla sèr fjár. Helgi

5 helzt = helltz. 22 dælligt = dælıgt.

kvað hann enn ungann til ferða. Bárðr mælti ‘vit erum ‘úskaplíkir faðir minn’ sagði hann ‘ok vil ek til þeirra ‘þjóða fara er mèr er sagt at trúi á sjálfan himna guð’. Helgi kvað hann ólíkan Úlfi móðurfeðr sínum. Síðan fór hann ok kom til eins bónda mjök í fjarlægð ok kvaz vilja vinna fyrir honum. Bóndinn kvað sèr þat vel líka. Hann sat at fè ok vann sèr einn enn bóndi var harðla ríkr. Sveinninn var lítt klæddr enn þó fór sýslan vel fram ok kvaz bóndi mundu gefa honum kú í kaup sitt. Hann kvaz þat vilja ok ferr hann nú til skógar um daginn. ok í skóginum mætti hann stafkarli einum. þessi bað Bárð gefa sèr kúna til Pètrs þakka. Bárðr svarar ‘þú kannt vel at ‘biðja ok skyldi Pètr þessi verða vinr minn, enda skal ‘ek gefa honum kúna’. Bárðr kom enn til bónda ok vann fyrir honum ok fóru þau misseri enn betr fram um fè bónda ok fekk honum þá enn kú aðra. fór enn sem fyrr at stafkarlinn kom með sama hætti ok beiddiz enn kýr fyrir Pètrs skyld enn Bárðr gaf honum. Bóndinn spurði hvat af varð kúnum. Bárðr sagði þá hafa er þurftu. Meðr þessum bónda var Bárðr hinn þriðja vetr ok gætti enn fjár ok voro þá nær tvau höfuð á hverju því er hann átti ok lukti hann Bárði kú enn þriðju. kom enn á sama degi stafkarlinn til hans í skóginum ok kvaz enn vilja þiggja þessa kú í Pètrs nafni. Hann veitti þat þegar ok gaf kúna. þá mælti þessi maðr til Bárðar ‘nú vil ek fara ‘höndum um þik’ ok svá var ok þótti honum sem dofi færi ór hverju hans beini. síðan mælti hann ‘hamingju-‘maðr muntu verða’ ok þá setti hann bók á öxl honum ok sá Bárðr þá víða um lönd. þá mælti stafkarlinn ‘þikki ‘þèr nú launaðar kýrnar?’ ‘Svá er vist’ sagði Bárðr. síðan sá hann um allt Írland. þá mælti enn hinn komni maðr ‘þikki þèr þá launaðar kýrnar ef þú hefir vald jafnvíða

9 Hann > ok. 10 ferr +. 21 tvau > tua. 22 kú enn < kú ena ⌣ kú enu. 32 jafnvíða > ıafn vıdā.

'sem nú sér þú?' Bárðr kvað svá vera. 'Hér er nú kominn 'Pétr postuli' sagði hann ok gaf hann honum þá plenarium 'ok skal ek svá launa þér kýr at vit skulum aldri skildir 'vera'. Síðan fann Bárðr bónda ok sagði honum þenna atburð. Bóndi kenndi hann trautt, svá var hann bjartr ok hamingjusamligr, ok bauð honum at þiggja af fé sínu slíkt er hann vildi. Hann bað bónda klappa sér einn stein ok svá var gert. var hann þá skírðr enn settiz síþan í þann sama stein ok varð allmikill dýrðarmaðr. Eftir nokkur ár liðin varð hann biskup á Írlandi ok hinn mesti höfþingi. þar kom til hans faðir hans ok móðir, bræðr ok systr, ok gæddi hann þau öll mörgum góðum hlutum. launaði allsvaldandi guð honum sem öllum öðrum sitt lítillæti sem hann sjálfr vottar at hverr er sik lægir í augliti skaparans þann skal hann sjálfr upp hefja. Faðir ok móðir Bárðar fóro aptr til Orkneyja ok náðu öllum eignum sínum ok bjuggu þar til elli. ok lýkr þar þessi söghu.

---

# V.

# VERALDAR SAGA.

---

I 1. Moyses hêt guþs dýrlingr í Gyðinga fólki sá er fyst hóf "na neý lekasta" sýslu at rita helgar "bókr" um guþs stórmerki. þat ero v bekr er hann gerði: en fyrsta frá upphafi heims framan til sinnar eifi, en fórar of þau tíþendi er urðo um *hans* daga. þær eru undirstöðr allra heilagra ritninga bæði í fornum lögum ok nýjum. en þar hefr *hann* þá sögu er guð skapaði himin ok jörð, ok er í þeim freðum mörkuð all skepna himnesk ok jarðlig.

2. Svá segja helgar bækr at guð skapaði á sex dögum alla skepno. Enn fysta dag skapaði hann alla hluti sýniliga ok ósýniliga, ok var þá engi skepna greind önnur frá annarri: saman *fór* þá allt, himinn ok eldr, vatn ok jörð, í þvílíku rúmi sem nú fylla fjórar höfoðskepnur. Á þeim degi váro allir englar skapaðir. ok þegar er inn hesti engill sá fegrð sína þá vill*tiz hann ok varð inn* ver*sti guð* anskoti ok þeir englar all*ir er* ep*tir honum*

---

2 +. 3 Gyðinga > heıdınga ⌣ heıðınga. 6 eifi > ıefı ⌣ ıøfı. 7 þær ⌣ þer. 8 lögum +. nýjum = nýgıvm. 9 hefr +. sögu ⌣ sögo. er guð ∽ eıg$^{7}$. 10 freðum < atkvæðum. all ⌣ oll (ɔ: öll). jarðlig = ıarlıg. 12 fysta ∽ fyıka.

*h*urf*o*. svá er kallat sem inn tíundi *lu*tr *hafi* fariz *af*
englum guð. — Á öðrum degi veraldar skapaði *guð*
*hi*min ok *sk*ildi vötn *þau er* yfir himni er frá þeim *er í*
*himni eru*, ok var *þá* öll önno*r* skepna líkamlig lokin í
himn*inom innan* svá *sem karni* í notar skurni. — Á þriðja
*degi* skildi gu*ð vötn ok* jörð ok skrýddi jörðin*a* viði ok 2
grasi. — Á fórða degi skapaði guð sól ok tungl ok allar
stjörnur, at þau mætti deila degr ok mánuðr ok misseri ok
lýsa heim þenna. — Á fimmta degi skapaði hann öll
sækykvendi ok fiska ok fogla alla. — Á sètta degi skapaði guð öll jarðkykvendi, ok síðarst skapaði hann manninn
í líkende guþs sjálfs í því at honum er gefin önd
skynsamlig ok mannvit meira en hverjo kykvenði annarra.
eru til þjónustu við hann sköpuð öll önnor kykvenði ok
til ynðis etluð, ef hann vilði lýðni veita skapara sínum;
en öll angursemi sú er maðrinn kennir síðan af kykvenðunum eða annarri skepno guðs hefir af því orþit at hann
vildi eigi guði lýþa ok þjóna. Ynðisstaðr sá var görr
í austanverþum heimi er Paradisus hetir. sá staðr er fjarlegr harðla þeim jörþum öðrom er nú eru byggþar af
mönnum. sá staðr er fegri ok fríðare öllom öðrom löndom.
þar sprettr einn mikill brunnr. sá er harðla gróðrsamr ok
vökvar allan þann stað. en ór þeim brunni renna þjóðár
fjórar hingat í heim í kunnleik mönnum. þeirra er ein Ganges,
önnur Tigris, þær ero báþar austr í Asia. in þriðja er
Nilus, hún fellr um Bláland allt en síðan um Egiptaland
ok þaðan í sj*á*. in fjórða er Evfrates er fellr fyrir austan
Gyðingaland. *Í Paradiso er*u alls kyns aldintrè ok eru 3

---

5 *karni* ɔ: *kjarni*. í +. 6 skrýddi > ſkyrdı. viði > *vıldı*.
7 sól >. 8 þau > þa. deila degr > d. egr. misseri ok
> mıſſerı at. 11 jarðkykvendi > ıard ſkýkvendı. 12
líkende ⌣ líkinde. 14 við >. 19-20 fjarlegr = fıarllegr.
22 harðla > harlða. 23 stað. en > ſtaðen ⌣ ſtaðrn.
brunni *μ*. 24 kunnleik +. 25 báþar > þar ⌣ þat. 26
fellr > fell.

einna gez þau er annat hetir lífstrė en annat kallat fróðleikstrė góðs ok ills. í þann dýrþar-stað var settr inn fyrsti maðr. ór hans síþu sofanda tók guð eitt rif ok fylldi rúm rifsins með holði, síþan samdi guð konu fagra ór rifinu ok gaf hana karlmanninum til samveldis ok ynðis þess at af þeim mætti menn alaz. hann gaf þeim nöfn ok kallaði karlmanninn Adam en konuna Evam ok bað hann þau frævaz ok fylla heiminn af sínu kyni. þau Adam ok Eva váro eigi langa stund dags í Paradiso áðr þau bruto boðorð guþs ok váro þegar á brot rekin þaðan. þessir lutir allir váru gervir á sètta degi af guði. — En þá er algervir váru himnar ok jörð ok öll prýði þerra, þá er svá at kveðit at guð hvíldiz af öllom verkum sínum á sjaunda degi ok blezaði inum sjaunda degi ok helgaði daginn. þann dag halda Gyðingar helgan í viku hverri jam-skyllega sem rètttrúaþir menn halda drottinsdag. Inn fyrsti dagr veraldar er þrim nóttum fyrir Benedictusmesso. Jamdægr er [ok] at Rúmverja tali Benedictusmesso, þat er inn iiii. dagr veraldar, ok þá var sól sköpuð ok öll
4 himintungl. Inn vi. dag veraldar var Adam skapaðr. sá inn sami er ok píningardagr várs drottins: er sú sögn Beða prests ok margra annarra skynsamra manna at á þeim degi árs ok svá viku var guðs sonr píndr til lausnar öllo mannkyni sem Adam hafði fyrifarið sèr ok allri sinne ætt í ólýðni við guð. — Ok þá er þau Adam ok Eva váro sett svá sælliga í Paradiso at þeim var engis vant ok þau náðu at mæla við guð ok helga engla þá bauð guð þeim varna við aldintrė því er fyrr var nefnt er hèt fróðleikstrė ok sagði at á þeim degi mundu þau missa þeirar sælu er þá höfðu þau sem þau bryti guðs boðorð ok vera ráþin til

---

2 dýrþar > ðyrþar. 3 ór > oc. 7 kallaði > kallðı. 11 gervir = gerfır. 14 inum sjaunda > ınv̄ ata. 16 rètttrúaþir > rettravþır. 17 þrim >. 20 dag > daga. 21 píningar > pınıgar. er sú sögn Beða prests > (bæðıt p. ⌣) bæða p. 24 fyrifarið ⌣ fyrirfarið. 27 engla >.

dauþa því at þau váru skylð at lýsa lýðni ok lítillæti við guð. en sá fjandi er orþinn var djöföll af björtum engli ok rekinn ór himinríkis fagnaði í alls-vesöld helvítis af ofmetnaði sínum hann öfunðaði þá sælo mannsins er hann vissi sik frá rekinn. síþan kveykði hann orm einn at mæla við Evo. taldi hann þat at engu munðu verþa er guð hafði mælt ok hæt þeim bana ef þau æti epli af trènu, sagði heldr þat mundu af geraz at þau mundu guði lík verþa ok vita beði gott ok illt, ok sagði guð þess fyrmuna þeim ok hafa því bannat þeim aldinit. Eva tók við 5 því vèlræði beði af ágirni ok veggirni, tók síþan aldinit ok át, gaf þá sumt búanda sínum, ok át hann sem hón. en eptir þat kenndu þau líkams losta ok skemmðar þeirar á liðum sínum er hórdómi fylgir. ok er guð spurþi þau hví þau hefði boðorð hans brotit ok leitaði ef þau vildi játa glæp sinn ok iðraz þá komu þau svör af þeim at Adam hèlt á hönd Evo völdum þess verks en hún kenndi orminum. en síðan sagði guð hvárotveggja þeira víti þat er þau mundu fyrir hafa syndina: at Adam skyldi ala önd sína við víl ok erfiði, kvað hann opt mundu lítil erfiðislaun taka þó at hann orkaði á jörðina sèr til bjargar unz hann mundi í jörðina hverfa ok at moldar auka verþa; en konuna kvat hann skyldu liggja undir ríki ok drottnun karlmannsins ok ala börn við sárleik ok verki. en síðan rak hann þau í brot ór Paradiso ok setti engla sína at verja þann stað með eldi brennanða svá at þangat kom engi maðr fyrr en Jesús Kristr leiddi þangat önð þjófs þess er líf sitt lèt á krossinum hjá drottni. Adam ok Eva byggðu síþan í austrhálfo þar sem Ebron hetir. þau gátu ii sonu þá er annarr hèt Abel en annarr Kain. ok er þeir váro menn fulltíða, þá geriz

---

5 kveykði hann > kýevðı ⌣ kýcvðı. einn = ·ı·. 13 eptir +. kenndu > kend. skemmðar >. 14 hórdómi > horðomı. 15 vildi > vlldı. 16-18 at Adam————hvárotveggja þeira +. 19 ala > alla. ok +. 21 til > tı. 23 drottnun > ðrotnvn. við > v.

Kain akrverksmaðr, en Abel getti sauða. þá færði hvárr-
tveggi guði fórnir, Kain af akra ávexti, en Abel frum-
6 burði hjarþar sinnar. en af góðvilja ok gæzko þá guþ fórur
Abel. þat öfunðaði Kain ok lagði fjandskap á bróður sinn
Abel. Guð bað hann stöðva synð þá er honum lèk í
hug. en hann hafði at engu guþs áminning ok varð hann
síþan bani bróþur síns. þat kom heiptarblóð fyst á jörð.
Síþan var Kain rekningr frá guði ok allt þat mannkyn
er frá honum kom. en Abel er dýrkaðr í öllum helgum
bókum, ok er fyrir því kallaðr frumváttr guþs at hann var
fyrst veginn helgra manna fyr guþs sakir. Adam ok Eva áttu
mörg börn. Adam lifði dcccc vetra ok xxx vetra. Seth
hèt sonr hans sá er lifði dcccc ára ok xii. hann var guþs
maðr. Hann átti þann son er Enos hèt ok lifði dcccc ára
ok v. Hans son var Kainan ok lifði dcccc ok x ára.
Hans son var Malaleel er lifði dccc ok lxxxx ok v ár.
Hans son var Jareð er lifði dcccc ok lx ára ok ii ár. Hans
son Enoch. hann var í heimi ccc ok lx ok v ár. Enoch
var ástvinr guðs. hann tók guð ór heimi hèðan ok lifir
hann enn — hefir guð hirðan hann í fagnaðarvist þeiri er hann
einn veit — ok skal enn koma í heiminn síðarla ok ganga
í móti Antichristo. en áðr hann hvarf hèðan þá ritaði
hann nokkur orð um dómadags ógnir þau er á bókum
7 finnaz. Hann átti þann son er hèt Matusale ok lifði dcccc
ok lx ok ix. Lamech var hans son er lifði dcc ok lxx ok
vii ár. Nói hèt hans son, hann lifði fyrir flóðit dc ára ok síðan
ccc ok l. hann var í örkinni xii mánuðr ok x daga meðan

---

1 akrverksmaðr > akrv̄maðr. 3 fórur = forv̄ (< fórnir). 4 lagði > ſagðı. fjandskap = fıanſkap. 7 heiptarblóð > heītar bloð. 10 fyrir > f. kallaðr +. 11 helgra = hellg̊. 13 xii > xv (xu). 14 dcccc > dccc. 15 var > v. 17 ára > ar. ii ár > var (uar). 18 son < son var. v ár > var. 20 hann í > ı. 21 veit ⌣ vett. skal > ſkl. 22 hèðan > heðan þan. 25 lxx > lx. 26-27 síðan ccc ok +. 27 í örkinni +.

flóðit stóð yfir. þessir x langfeðgar váro allir patriarche í fysta aldri heims. Svá sem vi eru skepnodagar svá eru ok vi aldir heims þessa frá upphafi til enða. Enn fyrsti aldr heims er taliðr frá upphafi til Nóaflóðs, þat eru ii þúsundir ára ok cc ok lx ok ii ár. Á þeim tíðum váro menn langlífir svá at margir höfðu lítit fátt í m ára, váro stórir sem risar ok váro synðgir ok siðlausir flestir allir nema fáer menn. Nói átti iii sonu þá er hann hafði ccccc ára. þeir hètu svá: Sem, Kam, Jafeð. Guð mælti við Nóa ‘þik virði ek mann góþan ok rèttlátan í mínu augliti, en ek iðrumz er ek hefi manninn skapaðan’ kvað guð ‘því at alðýðan er höll til illsku ok synþa. nú hefi ek ráþit at drekkja öllu mannkyni ok öllum þeim kykkvendum er á jörðu fæðaz. en þú Nói’ kvað hann ‘skalt gera örk ýr trjám ófú*gjörn*um, þriggja hundraða álna langa, ok fimmtigi álna breiða, en xxx álna djúpa. hana skaltu bika alla 8 utan ok innan. þú sjálfr skalt ganga í örkina ok kona þín ok synir þínir iii ok konur þeira, ok tvenn kykendi af hverjo kyni óæt, en sjau þau er æt eru af tegunð. þú skalt hafa alls kyns mat með þèr í örkinni til fæzlu þèr ok öllu því er með þèr er. örkin skal vera því mjóri er ofarr er ok eigi ofan meiri en álnar yfir at mæla’. Nói gerði alla luti sem guð bauð honum. sá farkostr var í smíð tíu tigi vetra áðr algerr veri.

3. IIa etas. Annarr aldr heims þessa hefz þar er Nói ok kona hans ok þrír synir hans ok þeira konur gengu í örkina ok alls kyns kykvendi með þeim svá sem guð bauð Nóa. Í þeim aldri heims eru talit “.d.c.c.c.c ara oc . xl oc . ıı . ar”. Síþan tók at rigna ór himni xl daga ok xl nátta en sjórinn æstiz at móti ok gerþi

1 stóð yfir >. 2 skepnodagar > ſkepnoðagar. 2-3 ok vi > oc vıı. 3 fyrsti ∽ fyıſtı. 5 lx < xl. 6 í +. 9 svá > ſav. 15 ófú*gjörn*um >. 19 sjau > ſıv. 21 öllu > ollv̄. 25 IIa > ıı’. 28-29 “.d.c.c.c.c ara oc . xl oc . ıı. ar” < m lxx ára ⌣ cc lxxxx ii ár. 29 himni > hīmı.

vötnin svá djúp at þau váro xv álna á inum hestum fjöllum. þá drukknuðu síþan menninir allir ok öll kykvendi nema þau er í örkinne váro með Nóa. en örkina reiði um haf innan fyr vindi xii mánuðu ok x daga. Síðan lèt guð þverra vötn ok lönðom upp skjóta. þá
9 lèt Nói fljúga rafn ór örkinne ok vita hvárt lönð veri upp komin, en hann kom eigi aptr. Litlu síþar lèt Nói út fljúga dúfu af örkinni. hón kom aptr at aftni dags ok hafði í munne sèr viðsmörskvist með grenu laufi. síþan beið Nói vii daga ok lèt þá enn fljúga út dúfuna ok kom hón eigi aptr. Örkin varð lanðföst á fjöllum Armenie. þá gekk Nói ór örkinne ok kona hans ok synir hans ok konor þeira ok öll kykvendi er þar höfðu verit. þer tóku síþan at vinna jörðina ok æxla mannkynit í heiminum. Guð bauð Nóa ok sonum hans at neyta þeira kykvenða allra er nú eru æt kölluð, bannaði hann þeim at eta kjöt með blóði. þá var síþan sènn regnbogi svá sem friþar mark á meðal guðs ok manna, en eigi fyrir flóðit. Nói gerþi altara fyrstr allra manna guði ok færði honum fórnir, en guð blezaði honum ok þá fórnir hans. Frá þessum iii sonum Nóa er komið allt mannkyn. þær þjóðir eru komnar frá Kam er byggðu suðrhálfo heimsins; en þer frá Sem er austrveg byggðu, ok þaðan er
10 Gyðingalýðr; en þær þjóðir frá Jafeð er norðrhálfu byggðu. þat var eino sinni at Nói gerþi víngarþ ok drakk vín af [jarðar] ávexti hans ok lagðiz niðr síþan eptir drukkinn ok sofnaði í tjaldbúð sinne ok varþ hann berr svá at eigi váro hulð karlsköp hans. en Kam sonr hans sagþe breðrum sínum til ok hló at. þeir Sem ok Jafeð tóku möttla á axlir sèr ok lèto falla á beran likam föður sins ok huldu karlsköp hans ok horfðu frá meðan ok sá eigi

2 drukknuðu > ðrvcnvðv. 4 reiði ɔ: reiddi. 8 hón >. aftni = afnı. 13 höfðu *μ*. 17 sènn > ſem. 25 víngarþ > vıngþ. 26 ávexti = avexſtı. 27 í tjaldbúð > ıtıallbavð. 30 á axlir > axlır. 31 horfðu > horfv.

á liðu hans. en þá er Nói vaknaði veitti hann makligt formeli sonum sínum fyrir þat viðlífe er hvárir höfðu haft við hann. En er mannfjölde óx í heiminum af nýju þá óxu ósiðir í heiminum enn sem fyrr bæði í hórdómi ok í ofmetnaði. þá urðu þau tiltæki nökkurra manna at þeir gerþu kastala ok þat mannvirki at þeir hugðoz mundo ganga í himin upp, því at þeir spurðo til þess at guð hafði drekkt öllum heimi í Nóaflóði er fólkit var illa siðat, ok hugðuz mundu geta sín við flóðinu, en etluðu sèr ekki bella mega. en guð hnekkði svá því ofmetnaþarverki at engi þeira mátti skilja hvat annarr mælti, ok stukku þeir í brut af þessum býsnum á síns vegar 11 hverr ok gerþoz þaðan af svá margar tungur í heiminum sem þeir váro, en þat eru ii ok lxx, en áðr var Ebreatunga ein. þessir váro langfeðgar í öðrum aldri heims ok patriarche: Nói ok Sem, Arfaxat ok Cainan, "sal" ok Heber er Hebrei eru frá komnir. í húsi Heber hèlz in sama tunga sem áðr hafði mælt verit; af hans nafni hetir ebreska sú tunga er á Gyþingalandi er mælt. eptir Heber var sonr hans "salec", en þá "ragav". í þann tíð váro blótuð goð fyst. eptir "ragav" var "servch", þá var Nachor, þá var Thare faðir Abraham.

4. Tertia etas. En þriði aldr heims þessa hófz at önðurðri æfi Abrahams ok er talðr til þess er David tók konungdóm yfir Gyþingafólki. í þeim aldri eru tölð dcccc ok xl ára. Abraham var höfðingi austr á lanði því er Kaldea heitir. þeir váro þrír breðr: Abraham ok Aran ok Nachor, ok er fjölmenni mikit komit frá þeim öllum. í þann tíma tók alþýðan at blóta skurðgoð ok fyrir því at þeir Abraham og Aran breðr vildu eigi blóta þá 12 var þeim báðum skotið í elð brennanda en eldrinn mátti ekki gera at Abraham fyrir sakir verðleika hans ok helgi

8 fólkit var > var folkıt. 9 geta = getta. 13 heiminum > heīnv̄. 14 var +. 15 langfeðgar > langfedar. 23 Tertia > tertı'. 27 Kaldea = calldea.

en Aran lèt þar líf sitt í eldinum ok átti eptir einn son er Loð hèt. Síþan bauð guð Abraham at fara af fóstrlanði sínu ok frá frendom ok bað hann leita lanz þess er vèr köllum Jórsalaland ‘ok mun ek’ kvað drottinn ‘bleza þèr Abram ok fylgja þèr ok vinum þínum, ok ‘munu margar þjóþir frá þèr koma ok í þínu kyni munu ‘blezaþar vera allar þjóþir’. Abram fór síþan með Loð bróþursyni sínum ok byggþu á Jórsalalandi ok gerþiz síþan svá mikill ástvinr guþs at hann er kallaðr dýrstr allra höfuðfeðra várra ok frá honum eru komnir allir guðs dýrlingar í Gyðingafólki ok svá er at kveðið at í hans faðm fari allar helgar andir þer er ór þessum heimi líða. Guð gaf honum alls kyns auðæfi ok ríki mikit at þessa heims tign. Hann byggþi mjög í nánd því er nú
13 stendr Jerusalem. en Loð frendi hans fór byggðum í þann lut lanzins er stóðu Sodoma ok Gomorra. þangat fóro konungar herskildi ór austrveg ok vágo sigr á þeiri þjóð er þær borger byggðu ok fengu þar mikit herfang ok þar varþ Loð í því herfangi ok öll æiga hans. en er þat spurþi Abram er Loð var hertekinn þá stè hann í herkleði sín ok húskarlar hans með honum, átján menn ok ccc, ok fóro síþan eptir hermönnunum ok komu þeim á óvart ok drápu mart manna af þeim en tóku herfangið allt ok svá Loð með allri eigu sinni. en þá er Abram fór heim ór herförinne þá kom í mót honum Melchisedec er var konungr ok kennimaðr guþs ok ferði lofs fórnir guði Abraham ok vín ok þakkaði guði þann sigr er Abram hafði fengit. en Abram gaf honum tíund af herfangi sínu. Hitt var litlu síðarr at guð lèt rigna eldi ok brennusteini yfir Sodoma ok Gomorra ok svá hèroð þau er í nánd váro ok sekkþi þeim svá at þar er vatn er borgirnar
14 höfðu staðit. svá refsaði guð hórdóms ósóma er þar hafði verit berari ok djarfari en í öðrum stöðum ok með meira ósóma en menn viti dæmi til. en guð laysti Loð ór þeim

3 sínu ⌣ síno. 4 mun +. 8 á +. 11 kveðið >. 14 nánd > nad. er +.

manntapa fyrir sakir gæzku hans ok þeirar alúþar er guð hafði við Abram föðurbróður hans. Abram tók af guði fystr boðorð til umskurðarskírnar. hann markaði sig sjálfan því hrenlífis marki ok allt sitt hyski. þat mark gekk svá langt fram í hans kyn at Kristr drottinn var því marki merkðr sjálfr a inum átta degi aldrs síns. Abram tók með því boðorþi þann auka nafns síns at síþan hetir hann Abraham, en áðr hét hann Abram. Honum ólsk sonr þá er hann var tíræðr. sá hét Isaac. en þá er hann var frömvaxti þá freistaði guð, hvessu lýþinn Abraham vildi honum vera, á þá lund at hann bauð honum at sæfa son sinn Isaac, ok fera hann guði í fórn, þann er hann unni sem lífi sínu. en Abraham dvalde eigi at gera sem honum var boðit. hann fór með son sinn á fjall þat er guð vísaði honum til. þá batt hann son sinn ok lagði síþan altara. eptir þat reiddi hann sverð brugðit at honum. en engill guð stöðvaði höggit. síþan var rútr einn fastr á milli viða ok var sæfðr ok ferðr guði í fórn. en Ysaac gekk undan. Guð drottinn blezaþi Abraham enn af nýjo fyrir þetta verk. en sjá lýðni hans er at minnum höfð síþan. Abraham lifði c ára ok lxx ok v ára. Ysaac gerþiz erfingi Abrahams beði at auðæfom ok mannkostum. hann fekk kono, þá er hann var fertugr at aldri, þeirar er Rebecca hét ok átti við henne ii sonu, tvíbura. hét annarr Esau en annarr Jacob. Sú þjóð er komin frá Esau er kölloð er Idomeus, en Gyþingalýðr frá Jacob. þá er Ysaac var gamlaðr ok óskyggn þá blezaþi hann syni sínum Jacob ok sagði honum marga luti fyrir þá er síþan komu fram um hans kyn en hann hugðiz við Esau þeim blezunar-orþum mælt hafa ok gerþiz þaþan af óþokki mikill milli þeira breðra langa stund. Jacob var alúþarvinr guþs

1 gæzku > gækv. 4 sjálfan > ſiaflan. 5 ſvá > sa. 8 ólsk > olık. 10 frömvaxti = fraṽ vaxſtı. hvessu = hveſv. 11 at hann > a hann. 16 brugðit > brvðıt. 23 var > v. 24 sonu > ſonṽ.

svá sem faþir hans ok föðurfaþir. hann lifði c ára ok xl ok vii ár. hann átti xii sonu ok er frá þeim kominn allr
16 Gyþingalýðr. þeir váro vi sammæðra: Ruben ok Simeon, Levi, Judas, Isakar ok Zabulon. Frá Judas var Kristr drottinn várr kominn ok af hans nafni eru Gyþingar Judei kallaðir. En þeir váro ii sammeðra Jósep ok Benjamin. þeir váro ambáttarsynir “dán” ok Neptalin, Gath ok Asser. Ok er þeir óxo upp þá unni Jacob Jósep mest sinna sona. þat funðu breðr hans ok öfunðuðu hann svá mjök at ekki kváðu þeir gott orð at honum. þat æxlti mjök óþokka þeira er hann sagði drauma sína þá er hann draumði ok þeir réþu til þess at hann mundi verða yfirmaðr breðra sinna. Síðan seldu þeir hann sem þræl fyrir xx penninga en sögðu Jacob þess líkende at dýr hefði banat syni hans. en Jacob grèt síþan son sinn langa æfi. Jósep var færðr á Egiptalanð ok var þar þræll kallaðr. hann fekk svá mikla virðing af drottni sínum at hann seldi Jósep alla sína eigu til varðveizlo. en drottning hans girtiz hans ok vildi samræði eiga við hann, en hann lèt eigi at þeim glæp eggjaz. ok er hón fekk þat eigi þá ló hón á
17 hann og regði hann við drottin sinn ok því næst var Jósep í myrkvastofo settr ok þar haldinn nökköra vetr. Guð fylgði hans ráþi þá sem fyrr. hann rèð drauma hirðmanna konungs ii ok spáði öðrum bana en öðrom aptrkvámo til hirðvistar ok metnaðar slíks sem hann hafði fyrr af konungi. þat gekk eptir sem hann rèð draumana til um hvártveggja. Tveim vetrum síþarr dreumdi Farao konung ii drauma á einne nótt ok urðu eigi ráðendr til áðr Jósep var heimtr ór myrkvastofo af áminningo byrlans þess er Jósep rèð fyr drauminn. þá var hann leiddr

4 Levi, Judas > levı ȷvðaſ. 5 drottinn > ðrotın. Judeı > ıvðeı. 11 þeira er ∽ þeıra eı. draumði > ðravmðı. 13 þeir +. 16 kallaðr >. 18 varðveizlo = var veızlo. 21 drottin > ðrotın. 22 nökköra = nockavra. 24-25 aptrkvámo > aptr kavmo. 27 vetrum > vettrv. 28 drauma > ðravma. 30 drauminn = .d..

fyr Farao konung ok sagði konungrinn honum drauma
sína. en Jósep rèð til eins báða: at vetr vii munði koma
með þjóðári svá miklu víða um lönd at engi maðr mundi
muna þvílíkt fyrr, en eptir þá vii vetr munu koma aðrir vii
vetr með svá miklo óárani at í enskis manns minni mundi
slíkt verit hafa fyrr. Jósep talþi þat sitt ráð at konungr
setti til nokkyrn vitran mann ok hagspakan er varþveitti
afgang jarðarávaxtar þann er eigi þyrfti at neyta þá vii
vetr ina ársömu ok veri afgangrinn sparaðr hinum vii 18
óárans vetrum er eptir munðu koma ok kvað hann þá
mundu lanzfólkit hjálpaz ef svá veri gört. Konunginum
fèllu vel í skap ráð hans ok setti síþan Jósep forráðs-
mann ok höfðingja yfir lanzfólkit. Brátt skipaðiz árangr-
inn eptir spásögu Jóseps. Þá lèt hann gera hlöþur stórar
í hverjo hèraði ok reiða þar í korn þat er eigi þyrfti at
neyta eptir ok þótti kornit eigi ónægra en ægisandr. ok
liðnum þeim vii vetrum tók árangr at spillaz ok óx sultr
víða um lönð. drifu menn þá flokkum á Egiptaland til
matkaupa. þá lèt Jósep upp lúka kornlöþum ok lèt selja
hverjom sem nauzyn átti til bæði utanlands ok innanlands
því at hvergi gat matkaup annarstaðar. ok er liðin váro
nökkur misseri óárans þá komu bræðr Jóseps x, en Benja-
min var heima með feðr sínum. þeir gengu fyrir Jósep
ok lyto honum sem aðrir menn ok kenndu hann eigi. en
hann kenndi þá ok hafði þó túlk á meþal þeira. hann
gerþi þá alla gagnrædda ok hafði í höptum iii daga, en
bað eigi koma í augsýn sèr nema þeir hefði vit sèr bróður 19
sinn þann er þá var heima. en eptir þat lèt hann þá
heim fara með klyfaða asna sína ok hafði þó æptir Sy-
meon bróður þeira í höptum. þeir fóro heim við svá búit
ok sögðu sína för óbeina. ok er þat var þrotið · er keypt
hafði verit þá fara þeir öðro sinne ok höfðu Benjamin

4 þvílíkt ∽ þvílıtt. 5 svá +. 13-14 árangrinn = arangn. 14 lèt = leıt ⌣ lett. 17 árangr = aṅangr. 19 lèt = leıt ⌣ lett. 22 óárans = o harannſ. 27 bad < bad þá.

með sér. þeir gengu enn fyrir Jósep ok féllu á kné fyrir honum. en hann gerþi þá enn gagnredda sem fyrr. en áðr þeir skildiz þá sagði Jósep til sín ok gerþi þá stórfegna er þeir kenndu hann. Hann bað þá fara eptir feðr sínum ok flytja þangat allt lið sitt ok alla sína eigu ok lèz hann þar mundu fá þeim alla reiðu. Jacob kom síþan á Egiptaland með öllu liði sínu ok var þar fagnafyndr með þeim feðgum. þar váro þeir allir feðgar meðan þeir lifðu. Frá þeim kom mart mannkyn á því landi ok höfðu þar ina beztu kosti meðan Jósep lifði. en hann lifði lengst þeira feðga ok var grafinn með mikilli dýrð á Egiptalandi. — Hér tekr til in fyrsta bók Moyses.

5. Frá Joseph ok bræðrum hans. Eptir annlát Jóseps
20 gerðiz konunga skipti á Egiptalandi ok urðo þeir konungar er eigi vissu deili á Jósep nè hans kyni ok tók þá versna rèttr þeira frenda. váro þeir þá þjáðir í alls kyns þrelverkum, barðir ok beystir af lanzmönnum at umboði konungs. svá var boðit af konungi at öll sveinbörn af Israel kyni veri út borin á ána er Nilus heitir en því meir óx kyn lýðs þess á landi þar er meir var við leitat at mýja. þar óx upp maðr sá er Moyses hèt í kyni þeira. Bróðir hans hèt "ááron" en Maria systir hans. Guð vitraðiz Moises á þá lund ið fyrsta sinn at hann mælti við hann ór runni þeim er honum sýndiz allr loga ok brann eigi. Guð bauð honum þat erendi at hann feri til fundar við Pharao konung ok segði honum þau guð orð at hann vildi at fólk Israel fóri á brot af landi at frálsu ok veri eigi þrelkat þar lengr. en konungr vildi eigi lýða guð orðum. þá gerþi inn helgi Moyses mörg stórvirki af guð krapti. býsnir komu yfir landit stórar, en guðs fólk fekk ekki af þeim vandreðum. þat var eitt undr á Egiptalandi at vötn öll urðu at blóði. annat váro pöddor

---

9 landi >. 16 frenda > fenda. 24 hann +. er ∽ ei.
31 vandreðum < vandreði.

margar. þriðja váro flögur þer er ciniphes heita. fjórða
váro þer flugur er "cinomia" heita. fimmta drepsótt. sétta 21
var bólnasótt. sjaunda var hagl stórt með eldingum. átta
var locusta. níunda var myrk þat er þreifa mátti um.
tíunda var dauði alls frumburþar á Egiptalandi bæði manna
ok fénaðar. Á þeirri nótt var Gyðingalýðr allr í húsum
sínum ok át hold lambs þess er guð bauð þeim at sæfa
á þeim sama aptni ok þeir riðu blóði lambsins á ofdyri
húsa sinna ok báða dyristafi. Litlu síðarr lét guð opna
götu fyrir þeim Moises í gegnum Sjóinn Rauþa ok gengu
þeir þar í gegnum þurrum fótum en áðr var djúpr sjór.
en Farao konungr ok herr sá er honum fylgdi fór eptir
þeim ok vildi draga þá aptr ok þjá enn sem fyrr. þar
drykknaði Farao konungr ok allr herr hans svá at engi
maðr komz lífs á land. Síðan gekk Moyses ok synir
Israel í óbyggð. en leiðarvísi þeirra var stólpi sá er stóð
ór himni ofan ok á jörð niðr ok var á honum skýs litr
um daga en elz of netr. sá stöpull fór fyrir þeim þá iiii
tigu vetra er þeir váro á leiðinne Egiptalanz ok Jór-
dánar. margar aðrar jarteinir gáfoz þeim í þeiri för af 22
guðs trausti ok jartegnum ok árnun Moyses: vatn hljóp
ór hellu einne er Moyses laust á vendi sínum, en þeim
var áðr vatnfátt; at þeim rigndi fezlu ór himni þeirri er
manna heitir, þat er í munni sem hunang. þeim váro
gefin lög er menn kalla Moyses lög þá er hann hafði áðr
fastat fjóra tigi daga á fjallinu Sina. þar váro x laga orð
á tveim hellum rituð. Moyses lét gera tjald þat er kallat
er Sættartjald ok marga aðra luti gerþi hann guði til
dýrðar. þá var gör örk sú er köllut var Lögsmálsörk.

---

1 flögur = flavgvr. ciniphes ᔕ emıfes. 3 sjaunda > Sıavda. 4 þreifa = þreıva. 8 lambsins > lābſıſ. 16 leiðarvísi þeirra ᔕ leıdar ẏıſȷ þeırıa. 19 leiðinne < leiðinne á meðal. 21 hljóp > hıop. 23 rigndi > rıgdı. himni > heīnı. 29 gör +. köllut > lavllvt.

hón var gulli varit utan. í henni var hirð skjóla sú er ï
var manna ok lagahellur ii ok vöndr "ááron" bróður hans
sá er laufgaðiz í þurrum sandi á einni nótt. tjaldit var
þakið utan með vaðmálum ok gærum en innan var búit
inum dýrstum vefjum. í því tjaldi váro guði fórnir færðar
á hverjom degi. Moyses var orþinn svá bjartr á fjallinu
23 af guðs viðmæli at menn máttu eigi í gegn honum sjá
nema hann hefði huldu fyrir anliti sèr eða augum. hann
var svá í delleikum við guð of allt viðrmeli sem engi
maðr hafði áðr verit. Sú jartein gerþiz í för þeira Moyses
þá er þeim var mein at ormum ok eitri þeira þá lèt
Moyses gera orm af eiri ok draga upp í trè hátt ok hans
manna hverr er þangat renndi augum til eirormsins varð
heill þó at áðr veri kvaldr af eitri. Þá er synir Israel
ok Moyses komu til Jórdánar þá heimti guð Moyses frá
öðrum mönnum á fjallit Sina ok andaðiz hann þar en
guð hirði lík hans þar er menn fundu eigi.

6. Miraculum. Eptir annlát Moyses tók Josue fóstri
hans höfðingja nafn yfir Gyðingum. hann gerðiz inn dýr-
ligsti maðr ok gerði margar jartegnir í guðs nafni. Af
hans jartegnum gengu synir Israel yfir Jórdán þurrum
fótum. Lögmálsörk var borin út á ána miðja. þá rann áin
til sávar ofan þaðan frá en fyrir ofan óx áin svá sem
hátt fjall en allir hermenn gengu fyrir neþan. síðan er
24 þeir komu yfir ána þá fèll hón at venjo til sævar. Þat
varð enn at fèllu borgarveggir allir þeir er váro um Jerico
af hornblestri ok herópi. Síþan áttu þeir margar orrustur
vit þær þjóðir er fyrir váro landinu ok eignuðoz þeir
Josue allar þær jarðir er guð hafði heitit Abraham. Einu
sinne var þat at Josue dvaldi sólina mjög langa stund
svá at hón gekk eigi fram at venju, því at honum var

---

1 henni >. 11 er ꝏ ei. 19 höfðingja > hodıngıa. 21 Jórdán > hafit ravda. 23 sávar = ſafar (ɔ: sjávar). 25 sævar = ſæfar.

áðr dagfátt til sóknar þeirar er þá átti hann. Josue skipti öllu landinu með ættum Gyðinga, hverjar borgir eða hèruð hafa skyldi hver ættin. þat landaskipsti hèlz alla æfi síðan meðan Gyþingafólk byggði þat land.

7. Frá *dómendum*. Eptir Josue tóku at stýra Gyðingafólki tólf menn er dómendr váro kallaþir hverir eptir aðra ok stóð þat ccc ára ok v ár. Í þeiri sveit váro þeir Samson inn sterki, Gedeon ok Samuel spámaðr. Margir váro þeir helgir menn ok leystu opt guþs fólk undan hernaði heiðinna konunga með guðs trausti. Gedeon vitraðiz guðs engill að hann mundi leysa Gyðingalýð ýr heiðinna manna höndum. Hann bað guð at þat veri sannat með því at hann mundi leggja ullarreyfi í layka- 25
garð ok fèlli dögg á reyfið en garðrinn veri þurr, ef guþs vili veri til at fólkit veri leyst; ok þat veitti guð honum. þá bað hann aðra nótt at dögg fèlli á garðinn allan en reyfið veri þurrt, ok svá varð. En þá er þessi merki urðu hvártveggi þá fór hann með lítið lið at guðs boðorþi til sóknar í móti miklum her. þeir höfðu í hægri hendi blástrhorn en í vinstri hendi leirkurkur ok ljósker í, ok síþan er liðit sótti í nánd herinum blèsu þeir í hornin en brutu leirkrukkurnar ok skinu þá vit ljósin ok lögðu fjandr þeira á flótta þegar allir. Samson dómandi var svá sterkr at hann brot borgarliðs umbúning af handmagni sínu einu ok bar á fjall upp. Á dögum Samuel spámanns tóku Gyðingar sèr konung er Saul hèt. hann var inn fyrsti konungr Gyðinga. Cis hèt faþir hans. hann var góþr öndurþa efi sína en illr ofanverþa. hann var konungr ".x.x. vetͬ".

8. Enn fjórði aldr heims hófz þá er David tók konungdóm ok er taldr til herleiþingar Babilonis, þat eru

---

7 ccc < cccc. 8 spámaðr > ſpamͬdr. 11 að? 12 bað *µ*. 23 þeira > þeır. 30 Enn > N.

cccc vetra ok lx ok v vetr. David var konungr xl ára.
hann var vígðr til konungs í *ó*sku sinne af þeim guðs
26 vin er Samuel hét. David var smalamaðr áðr fyrir búi
föður síns í Beðleem ok svá mjög lengi síþan ok efldi
guð hann til margra þrekvirkja: hann reif í sundr kjapta
ins óarga dýrs ok hann brot bjarnar ramma af handmagni
sínu þá er hann getti sauða föður síns ok hann felldi
Goliat risa með slöngusteine ok tók svá af guðs fólki
skemmd ok ótta. En þá er Saul konungr sá at David
fekk tíðleik ok metnuð af verkum sínum þá lagði hann
öfund ok fjanskap á hann ok leitaði opt við at drepa
hann ok David varð lengi landflótti af heiptúð konungsins
ok bar hann vel ok þolinmóðliga ok lítillátliga. þat var
tysvar at David lét Saul ór færi ganga þá er hann átti
kost at drepa hann. en er hann frá Saul konung fallinn
í orrustu þá grét David dauþa hans sem ins bezta vinar
síns. David tók konungdóm eptir Saul ok var vii vetr
konungr í Ebron yfir kyni Juda at eins, en iii vetr ok
xxx í Jerusalem yfir öllu kyni Israel. Guð gaf honum
sigr hvar sem hann átti sóknir við óvine sína. hann var
vegsamaðr af mörgom manndýrðom ok mest af lítilæti.
hann hafði spáleik af inum helga anda. David gerði bók
27 þá er Saltari heitir er alls kyns lof er guði sungit. þann
glæp hendi David at hann tók konu ríðara síns ok átti
lag við hana en réð honum banaráð. þá senði guð Nathan
vin sinn at ávíta konunginn. Síþan fekk David mikla
iðrun, en guð lagði refsing á hönð honum til yfirbótar
þá at Afsalon sonr hans gerði uppreist í mót honum ok
David varð landflótti fyrir honum: þeir áttu margar orr-
ustur ok féll Afsalon í inni síðurstu. Við þeiri konu átti
David son þann er Salomon heitir ok spakastr maðr hefir
verit ok allir konungar Gyðinga eru frá komnir. Salomon

17 vetr +. 20 óvine > ovme. 24 ríðara ⌣ riddara.
29 varð *μ*. 30 féll > fella.

gerði guði til dýrðar þat hús er bazt hefir verit ok ítarligast. þat var gert utan hvítum steine en innan var þat þakit gullspöngum svá at ekki var at sjá í refrið nema gull eitt. ker váro þar mörg ok kertistikur ok margar aðrar gersimar af brenndu gulli gervar. hús þat var í smíð vii vetr ok vii mánuðr ok vígt á inum átta mánaði ins átta ársins þaþan frá er smíðin var byrjuð. mustari þat er Salomon lèt gera í J*ór*salaborg er kallat Templum Domini eða Salómons mustari. Hann gerði iii helgar bækr. 28
þó hendi Salomon mikla úhamingo í elli sinni af eptirlætislífi við heiðnar konur þer er hann unni of mikit. þó venta menn honum miskunnar af guði at því er helgir menn ræða um: Ambrosius ok Augustinus ok Jeronimus. Eptir Salomon var konungr sonr hans Roboam. Undan honum hvarf mikill luti Gyðingafólks ok tóku sèr konung þann er Jeroboam hèt. Hann gerðiz blótmaðr ok mjög svá allir þeir konungar er hans ríki höfðu hverr eptir annan. Eptir Roboam var Abia sonr hans konungr at Jórsölum, þá Asa hans sonr, þá Josaphat sonr hans. þaþan frá váro konungar ór kyni David yfir Jórsalaríki hverr eptir annan, svá sem guð hafði heitið honum, til herleiþingar Babilonis: [síþan] tók ávallt konungdóm sonr eptir föþur meðan konungar hèldoz í Gyðingafólki. Sumir váro þeir guðs vinir en flestir váro syndgir ok villtoz frá guði til blóta ok annarra ósiða margra at því er helgar bækr segja. Í þeiri tölu váro helgir konungar ok dýrligir: Ezechias ok Josias er bazt manna hèlt páska í þann tíð. Á dögum inna efsto Jórsalakonunga kom Nabogodonosor Babilonis konungr með her sinn á Jórsalaland ok brot alla Jórsalaborg ok svá Salómons mystari. þaðan tók hann fjárlyti mikla ok ferði í Babilon. hann hafðe at herfangi 29
Jeconias konung ok allan Jórsalalýð með honum. Í þeirri

---

7 ársins > arınf. 13 Jeronimus > eronım'. 17 höfðu > hof. 24 flestir >. 28 Nabogodonosor > nabogonofor.

herleiþingu var Daniel spámaþr ok þeir Annanias ok Zakarias ok Missael er ortu Benedicite í ofni fullum af brennanda elde. Um konunga æfi váro flestir helgir spámenn uppi í Gyþingafólki þeir er jarteignir gerþu. Helias var í fyrsta lagi. hann gaf líf dauþum mönnum ok hann rèþ fyrir veþrum með guþi bæþi til árs ok óárans. hann lèt koma eld ór himne yfir blótmenn ok brunnu þeir í þeim eldi. hann fastaþi xl daga svá sem Moyses hafþi fastaþ. eptir þat var hann hafiþr í lopt upp af einglum í elligri kerru ok er hann nú hirþr öþrum mönnum í hvílð mikilli. hann mun koma í sýn við menn fyrir dómadag ok mun hann píndr vera til bana af Antichristo, ok þeir Enok báþir. þá er upp leiþ á æfi Gyþinga óxu blót ok aðrir ósiðir í Jerusalem af konungum ok öllum Gyðingalýð svá at þeir blótuðu börnum sínum til djöfla þakka. en guð sendi spámenn sína Ysaiam ok Jeremiam ok marga aðra at ávíta þjóðina um ósiðu ok sægja þeim at hefnd hörð mundi yfir þá koma ef þeir hyrfi eigi af. Gyþingar ráko fjónum alla guðs vini þá er hans erendi boðuðo.
30 Eptir Helias var fóstri hans Heliseus spámaðr er mörg tákn gerði. Fjórir eru kallaðir inir meiri spámenn: Ysaias ok Jeremias, Ezechiel ok Daniel. þeira hverr hefir gerva mikla bók af tilvísun heilags anda. Aðrir xii eru kallaþir inir minni ok eru þessi þeirra nöfn: Osee, Amos, Jonas. Micheas, Johel, Naum, Sophonias, Abbakuk, Aggeus, Abdias, Malachias, Zacharias. þeir hafa allir haft heilags anda gipt — ok lýkz þar inn fjórþi aldr heims.

9. Hinn fimmti aldr. Sá var inn fimmti alðr heims er hófz í Babílonar herleiþingu en laukz í hingatkvámu Jesu Christi drottens várs. Í þeim aldri eru talit d vetra

6 veþrum > feþrum. 8 sem +. 16 en >. 22 Ezechiel > ezechıaſ. 23 gerva = gerfa. heilags = heılax. 24 minni > meırı. nöfn = nopn. Osee = Oſéé. 26 Zacharias +. heilags = heılax. 27 lýkz = lýgz. 29 Babílonar > babılona.

ok lxxx ok ix vetr. þau tíþendi gerþuz á inum v. aldri heims at allr Gyþyngalýþr var hertekinn af Nabogodunusor konungi austan af Babilon en Jerusalem var brotin öll til jarþar og Templum Domini brotin og brennd en hertekit allt gull ok gersimar er váro saman komnar guði til dýrþar. Konungrinn Sedecias ok allt stórmenni Jórsalaborgar var herleitt í Babilon ok þjáþir þar vii tigi vetra. Í herfangi urþu teknir guðs vinir nökkörer þeir er í guðs trauste ok hans nafni gerþu margar jarteinir til þess aþ hugga þann enn auma lýþ er þar þjónaþe heiþnum konungum. þar var Daniel spámaþr einn af 31
þeim er þat meinlæti lagþi á hönd sèr á ung*a* aldri í konungs höll at hann hafþi eigi aþra fæzlo enn ertr ok vatn. en guþ gaf honum svá mikla spekt — ok mannvit meira ok getspeki enn öþrum mönnum — at hann sagþi konunginum draum sinn þat er hann munde eigi sjálfr at segja ok síþan rèþ hann til þeirra stórtíþenda er síþan gerþuz um alla veruld. konungr hóf hann til enna mestu metorþa ok gerþi hann sèr kærastan allra manna eptir þersa jarteign. annan draum konungs rèþ hann til þers at konungrinn mundi verþa at gjalti ok lifa sem dýr eþa fènuþr úti á skógum vii vetr fyrir sakir ofmetn*a*þar síns ok ofstopa, en eptir þat kvað hann konunginn vitkaz mundu ok koma aptr í ríki sitt, ok gekk svá eptir. Eptir Nabogodunosor hèlz konungdómr í kyni hans um nokkurra konunga efi unz Baltasar konungr var veginn. Eptir þat var Darius yfirkonungr. Daniel varð fyrir öfund vándra manna af því at Darius hafði á honum elsko mikla ok virðing. en öfundarmenn bettu svá konunginn vèlum at nær varð hann þeim Daniel nauðigr í hendr at selja. en þeir settu hann í gröf með inum óörgum dýrum þeim er

4 brotin og brennd < brotit og brennt. 5 er < er þar. 9 gerþu +. 12 ung*a* ⌣ ungs. 15 at +. 16 draum +. þat ɔ: þann ⌣ þar. 22 ofmetn*a*þar > of meþn*a*þar. 28 hafði á +. 30 nauðigr > navdgan.

svelt váro til þess at þá veri þau ólmare en áðr. guð sá
til vinar síns at hann var heill ok ómeiddr ner viku með
32 dýrunum en þau lágu hjá honum viku fastandi. mat sendi
guð honum þangat: þat færði honum Abbakuc spámaðr
af Gyðingalandi svá, at engill guð bar hann á einu auga-
bragði ok svá aptr. þeir Sidrac ok Misael ok Abdennago
váro fóstbreðr ok frendr Daniel er Baltasar hèt öðro
nafni. þeim var skotit í eld brennanda at ráði Nabogo-
dunosor konungs ok bundnir rammliga í eldinum, brunnu
bönd af þeim en þeir gengu lausir í eldinum ok sungu
guði lofsöng þann er Benedicite er upphafit. guðs engill
kom í eldinn hjá þeim ok stökkði loganum frá þeim.
Eptir Darium var Cirus frendi hans yfirkonungr. Cirus
var konunga baztr, þó var hann heiðinn. At hans lofi
fóru Gyþingar aptr til Jórsalalands. Jesus hèt kennimaðr
göfogr er höfþingi var í förinni. þeir tóku síþan upp
at bæta Salómons mustari er brennt hafði verit, gerþo
þeir þat upp með sama vexti en skrauti minna en fyrr
hafði verit. þeir váro at kirkjugerð þeirre xl ok vii
vetr af því at þeir urþu at verjaz þjóðum þeim er tálma
vildo verk þeira. þá stýrðu byskupar Gyðingafólki langa
æfi síþan þeir komu aptr ór Babilon. Eptir Cirum var
Cambises sonr hans konungr í Babilon inni nýjo á Egipta-
33 landi ok er hann stundum kallaðr Nabogodunosor. á
hans dögom var "holofernvf" hertugi hans veginn, honum
banaði Judid heilög ekkja. Eptir Cambises hèlz Babilonis
ríki til þess er Alexander inn mikli Grikkja konungr felldi
Darium konung ok eignaðiz allt ríki hans. Alexander
kannaði alla syðrhálfo heims ok barðiz við marga konunga
ok hafði jamnan sigr. hann lagði ok á háls konungom ok
lèt þá draga kerru undir sèr um borgir. Alexander var

5 Gyðingalandi >. 11 lofsöng > lof ſavg. 12 frá > frā. 19 xl ok vii < vii (◡ iiii ◡ xx). 20 þeir ∽ þeu. 22 ór > ı. 27 mikli >. 30 ok á háls konungom ok >

yfirkonungr xii vetr. hann drakk eitr til bana í Babilon. hann lèt gera höfuðborg þá á Egiptalandi er Alexandria hetir. Alexander skipti ríki sínu með xii mönnum ok váro þeir allir konungar eptir hann. þaþan hefz Grikkjaríki þar til er Rúmverjaríki hófz. Eptir Alexander var Tholomeus konungr á Egiptalandi ok þaðan af hèt hverr sem einn konungr Tholomeus öðru nafni á Egiptalandi svá sem fyrr meirr hèt Pharao. Tholomeus inn fyrsti var konungr xl vetra.

10. Frá konungum. Antiokus hèt konungr grimmr ok illr á Sýrlandi. við hann er kennd borg sú er Antiokia heitir er hann lèt gera. hann tók konungdóm þá er liðit var c ok "xxx. ok .III." vetr þaþan frá er Alexander eignaðiz Babilon. Antiokus gekk hart á hönd Gyðingum ok saurgaði Jerusalem ok svá Templum Domini í blótum heiðinna goða. marga Gyðinga píndi hann til bana þá er halda vildu guðs lög þar til er Math*atias* ok synir hans 34
gengu í móti honum. fyst drápu þeir sendimann Antiokus ok gerðiz Mathathias höfðingi Gyðinga. en eptir hann var Judas Makabeus sonr hans höfðingi Gyðinga. hann háði margar orrostor við heiðnar þjóðir ok hafði ávallt sigr ok vörþu þeir breðr oddi ok eggju lög sín ok lönd. þeir bræðr unnu stór verk svá at engir hafa verið meiri afreksmenn nè sigrselli í Gyðingafólki. þeira frænda var síðarst "ravnan" sonarsonr Mathathias höfðingi, en hans líf þraut litlu fyrir hingatburð Krists.

11. Frá skurgoðum. Belus hèt konungr í útlöndom. af honum hafa blót hafiz því at hann var dauðr blótaðr. eptir honum var skurgoð gert þat er sumar þjóðir kalla Baal en Gyðingar nefna Belzebub ok lèto þeir at í byggi höfðingi allra djöfla. Ninus hèt sonr Beli. hann lèt gera

---

12 heitir ⌣ hettir (ɔ: hetir). 16 til +. 25 "ravnan" ɔ: Johannes Hyrcanus.

Ninive borg þá er mest hefir verit ger í heiminum. Ninus átti þá konu er Semiramis hét. hón lét gera Babilon ina gömlo í þeim stað sem Babel hafði staðit. svá hét stöpull sá er risarnir gerðo ok hugðoz þaðan mundu ganga upp í himin, hugðoz þeir ok haldnir mundu vera þó at flóð
35 yrði slíkt sem Nóaflóð hafði verið. Fjögur hafa konungríki máttkuz verit í veröldu áðr Rúmverjaríki hófz. eitt var ríki Assiriorum í Ninive. annat var ríki Kaldeorum í Babilon frá dögum Nabogodonosor konungs. þriðja var Persarum ríki þaðan frá er Cirus var konungr. Grikkja ríki var it fjórða siþan Alexander inn víðförli var konungr.

12. Frá "mathıe 7 fılıȷ eıus." Siþan sonarsynir Mathathie önduðuz þá höfðu Gyðingar þá eina höfðingja er fátt er í bókum frá sagt. Aristobulus hét yfirmaðr Gyðinga ok kallaðiz hann bæði konungr ok byskup ok svá váro kallaðir allir þeir höfðingar er frá Aristobulo váro komnir ok svá allt þar til er Herodes konungr heiðinn hafði ríki yfir Gyðingum at ráði Rúmverja í þann tíma er Kristr var borinn ok var hann illr konungr ok grimmr.

13. Sú hefir orrusta verit mest ok ágæzt í heiðnum bókum er Grikkir unnu borg þá er Trója hetir. sú orrusta hófz litlu eptir daga Moyses eða Josue. Priamus hét konungr í Trójo. synir hans váro þeir Ektor ok Alexander ok Elenus, Deiphobus ok Troilus. Alexander tók konu af Grikklandi þá er Elena hét. hón var ákafa fögr. hana átti Menelaus bróðir Agamemnonis Grikkjakonungs. þeir bræðr efldoz at liði ok fóro til Trójo með xvii skipum miðr en tólf hundruðum tíræð*um*. Priamus hafði ok
36 ógrynni liðs, sótti til hans fjöldi kappa ok höfðingja. Í liði Trójomanna váro mestir kappar Ector ok Troilus synir

---

1 heiminum = heīnv̄. 2 Semiramis > ſımeramıſ. 6 slíkt = ſlıgt. 10 Cirus > Cıruſ. 14 Aristobulus > Arıſtobolvſ. 16 Aristobulo > arıſtobolo. 24 Deiphobus > deıpheb'. 26 Agamemnonis > Agamenonıſ.

Priami ok Eneas mágr hans. En í Grikkja liði váro þeir mestir kappar Acilles ok Aiax ok Diomedæs. Spekingar þeira váro þeir Nestor ok Ulixes. Grikkir sátu x vetr um Trójo áðr borgin yrði unnin. Í bardögum þeim er þeir áttu fèll mikill hluti liðs hvárratveggjo ok fèllu þar flester allir höfðingjar. þar fèllu synir Priami allir nema Helenus. ór Grikkja liði fèll Akilles ok Palamedes. þá er farnir váru mjög forstöðumenn Trójo nema Priamus, en hann vildi aldregi upp gefaz, þá sviko þeir Antenor ok Eneas Priamum ok luku upp borgina of nótt fyrir Grikkjum. þá var Priamus konungr felldr ok mikill luti borgarliðs, en Antenor ok Eneas ok Elenus komuz undan. Grikkir brutu Trójo alla en brenndu síþan. Menelaus hafði Ælenu konu sína með sèr ok þeir Agamemnon konungr bróþir hans. Eptir orrustuna rèð Antenor ok synir hans ríki því er Frigia heitir ok Trója hafði í verit. Helenus sonr Priami eignaðiz litlu síþarr ríki þat er Æpirus heitir. Með honum fór frá Trójo Hecuba móþir hans ok Andromaca 37 er átt hafði Ector bróðir hans. Stundo síðarr eignuðoz synir Ectoris Trójoríki með fulltingi Helenus föðurbróður síns. Eneas fór á brot af Trójolandi ok með honum faðir hans gamall er Anchises hèt ok sonr hans er Askanius hèt eða Iulus. Eneas fór víða ok fekk hvergi staðfesto áðr hann kom á þat land er Italia hetir. þar felldi hann kappa þann er Turnus hèt. hann var sonr Daunus er ríki hafði í þeim stað er nú er Rúmaborg. Eneas gekk at eiga Lavinia dóttur Latinus konungs er látinutunga er við kennd því at "Nicostā" kona hans fann látínu-stafrof. Eneas var konungr á Italialandi iii vetr. Eptir hann var konungr Ascanius sonr hans xxx ára ok vii ár. hann

3 sátu ⌣ sáto. 5 þar > þʳar. 16 því ∽ þat. heitir ⌣ hettir (ɔ: hetir). 17 Æpirus > æphır'. 18 Andromaca ∽ Andromacıa. 25 Daunus ∽ danıvſ ⌣ ḋamvſ. 27 Lavinia > lavınea ⌣ lavınea.

gerði borg þá er Alba heitir ok stendr skammt út frá
Rúmaborg. Í þeirri borg hèldo þeir langfeðgar xv kon-
ungdóma allt til þess er þeir Romulus ok Remus bræðr
gerðo Rúmaborg. þá rèð Romulus Remum bróður sínum
bana en gaf borginne nafn af sínu nafni ok kallaði Roma.
Romulus hafði þar ríki xxx ára ok viii ár. þaþan frá
höfðu Rúmverjar konunga yfir sèr til þess er Tarquinius
inn mikilláti var konungr. hann rak Brutus rúmverskr
38 höfðingi ór konungdómi fyrir sakir illsku hans ok ofmetn-
aðar. Eptir þat váro ii höfðingar yfir Rúmverjom á
hverjo ári, þeir váro consules kallaðir. Svá læð fram
cccc ok xl ok iiii ár ok rèðu þá stund alla consules
Rúmverjom. Á ofanverðri þeiri tíð váro iii höfðingar
settir yfir Rúmverja her. einn var Pompejus inn mikli,
annarr Marcus Crassus, þriði var Julius Cesar. Pompejus
Magnus fór í austrveg ok barðiz þar við marga konunga
ok hafði jafnan sigr. hann skattgildi Gyðinga undir Rúm-
verja, ok margar aðrar þjóðir. Markus Crassus fór á
Serkland með sinn her ok háði þar margar orrostur. hann
var þar handtekinn af Babilonis mönnum. þeir drápu hann
með því at þeir steyftu vellanda gulli í munn honum ok
báðu hann þat hafa ærið er hann þyrsti ey ok ey til.
Julius Cesar fór norðr um fjall ok háði margar orrostor
við Saxa ok fór hann norðr á England. Tíu vetr var
Julius Cesar fyrir norðan fjall ok skattgildi öll þau ríki
undir Rúmverja er þar eru. Eptir þat gerðiz missætti
með þeim Pompejo ok Julio. þeir elldoz at liði mjög
svá of allan heim ok áttu orrostor stórar. Sú var mest
ok öfst er þeir börðuz í [tesla] Thessalia. þat er á Bolg-
aralandi. þar varð allmikit mannfall. ok hafði Julius sigr,
39 en Pompejus flýði á Egiptaland ok venti sèr þar trausts

---

12 cccc ok > cccc ok ok ⌣ cccc u. iiii ⌣ vii. xl ok iiii ár < lx ok i ⌣ lx ok viii. 13 höfðingar > hofdıg[r]. 21 steyftu >. í munn >.

af Tholomeus konungi en hann sveik Pompejum í tryggð ok drap hann. Síþan fór Julius til Egiptalands ok vildi Tolomeus ok svíkja hann. Tholomeus drukknaði í á þeiri er Níl heitir ok var þá áðr yfirkominn í orrosto af Julius. Þá gaf Julius Egiptaland Cleopatre drottningu systur Tolomei ok frillu sinni ok réð hón því lengi síðan. Julius Cesar var fyrstr Rúmverja yfirkonungr alls heims. Af hans nafni var hverr konungr Cesar kallaðr sá er þat ríki hefir haft. Julius setti misseristal ok talþi til hlaupárs svá sem látínumenn telja nú. Af hans nafni tók mánuðr sá nafn er heitir Julius en áðr hèt Quintilis. Julius hafði ríki v ár ok hann var veginn í höfuðhofi í Rúmaborg. hann var særðr v sárum ok xx. Brutus hèt maðr en annarr Cassius er upphafsmenn váro at drápi Julii. Eptir dauða Julii váro þeir höfðingar heimsins Augustus Octavianus ok annarr Antonius. hann hafði ríki fyrir utan haf, en Augustus fyrir norþan. Antonius læt eina systor Augusti ok gekk at eiga Cleopatra drottning á Egiptalandi. þaðan af urðu þeir ósáttir Antonius ok Augustus. þeir áttu iii orrostur miklar. Antonius var yfirstiginn 40 ok banaði sèr sjálfr með eitri ok svá Cleopatra kona hans. Þaðan frá varð Augustus einn keisari yfir öllu veraldar ríki. Hann setti frið um allan heim ok lèt rita allra manna nöfn. Af hans nafni heitir mánuðr Augustus sá er áðr hèt Sextilis. Augustus hafði ríki vi ár ins sètta tigar.

14. Sexta etas. Hinn sètti aldr heims er frá því taliðr er Kristr var borinn ok til enda veraldar. Þá hafði Augustus verið keisari ii vetr ins fimmta tigar er Jesús

---

1 af ∽ ap. Pompejum > pō peıo. 3 drukknaði > ðrvenaðı. 4 yfirkominn > ıy̋fır komın. 15 dauða > ðavða. 18 Cleopatra > Clepatra. 20 miklar > mklar. 21 Cleopatra ∽ Clopatra. 27 Sexta > ſex’.

Kristr var borinn. Í þann tíð var Herodes konungr yfir Gyðingom heiðinn at burðum. hann lèt drepa börn í Bedleem ok vall litlu síðarr möðkum í hel. Eptir hann var Archelaus sonr hans konungr yfir Gyðingalandi, en hann regðu Gyðingar við Augustum ok rak Augustus hann af konungdómi ok í útlegð ok dó hann þar. Síþan setti Augustus iiii höfðingja yfir Gyðingafólk. þá rèð Pilatus jarl fyrir Jórsölom; en Herodes konungr er tetrarcha var kallaðr. hann rèð fyrir Galileahèraði. hann var son ins illa Herodis. hans kona var Herodias er Philippus bróðir hans hafði áðr átta. þau hjú ollu lífláti Jóans baptista. sá inn sami Herodes samþýddiz við Pilatum um písl drottins várs. Herodem færði Gajus keisari í útlegð ok dó hann þar. Eptir Herodem tetrarka var Herodes
41 Agrippa sonr Archelaus konungr yfir Gyþingom. hann lèt höggva Jacobum postula bróður Johannes postula ok hann hafði í böndum Pètr postula þá er guðs engill leysti hann ór myrkvastofo. litlu síðarr drap guðs engill Herodem ok dó hann svá.

15. De Tiberio. Eptir Augustum var Tiberius keisari stjúpsonr hans xx ii ár. hann var undirhyggjomaðr mikill ok drakk mjög. Á hans dögum var Jesús Kristr krossfestr. þat mislíkaði mjög Tiberi keisara ok vildi hann láta Jesús hafa í goþatölo, en öldungar Rúmverja vildo því eigi trúa. Eptir þat er Tiberius var andaðr þá var Gajus keisari iiii ár. hann var maðr vándr ok grimmr. hann vildi sig láta göfga sem guð. við allar þjóðir var hann illr ok allra verstr við Gyðinga, hann lèt setja upp skurðgoð í Jórsalaborg ok bauð at alþýða skyldi þau dýrka. af hans ráðum var svá mjög þröngt Pilato jarli at hann banaði sèr sjálfr sinni hendi. Gajus framdi náliga allt

---

4 Archelaus > archıla'. 10 Philippus > phılıpp'. 15 Archelaus > archıla'. 23 Tiberi < Tiberio.

munuðlífi ok hann fór mjög með gjörningar "heidni" menn hans vágo hann. Claudius var keisari því næst xiii ár ok vii mánuðr. hann var góðr ok sigrsæll. á hans dögum gerþi Matheus guðspjall sitt á ebreska tungo ok á dögum Claudii settiz Pètr postuli í páfastól í Rúmaborg. Nero 42
var keisari eptir Claudium. hann var síðarsti keisari ór kyni Julius Cesar. Nero banaði móður sinni ok bróþur sínum ok fóstra sínum er Seneca hèt ok honum hafði baztr manna verit. Nero lèt ekki úgert í hórdómi þat er mönnum hefir heimsligast í hug komit at drýgja sín í milli. hann var keisari xiii ár ok vii mánuðr. Nero bauð fyrstr ófrið kristn*um* mönnum. hann lèt krossfesta Pèt*r* postula ok hálshöggva Paulum. litlu síþar ærþiz Nero ok varð at gjalti. ætla menn at dýr hafi rifit hann í sundr úti á skógum. Vespasianus var því næst keisari x ár, ríkr maðr ok harðráðr. þá var Titus sonr hans ii ár varla full — honum unni hvert barn — ok lèz týna hverjom degi þeira er hann gerþi eigi nökkvat ágetlikt verk ok gott. Titus var ok miskunnsamr um fram aðra heiðna konunga. þeir Vespasianus feðgar fóru með her sinn á Gyðingaland ok settuz um Jórsalaborg á páskatíð. Jerusalem urðu hvers kyns býsnir áðr Rúmverja herr kom þangat ok fleira illt gekk yfir Gyðingalýð en yfir neina þjóð aðra áðr borgin yrði unnin ok upp gefin: þar átu menn börn sín ok hvers kyns óæti annur fyr sultar sakir, þar dráþuz 43
sjálfir borgarmenn til lítils matar. Í umsætu Jórsalaborgar laust Titus xii kappa með xii örum. Eptir þat brutu Rúmverjar Jerusalem alla til jarðar ok hvert hús er í henni var svá at engi steinn lá þar sem áðr. kom þat fram þá sem Kristr drottinn várr sagði um auðn Jerusalem

6 Claudium >. síðarsti > fýſtı. 7ʹ banaði > bañadı. 15, ?0 Vespasianus > Veſpaſi'. 21 Jerusalem < í Jerusalem. 24 átu > attu. 25 kyns > kýn. 27 örum > aýrv̄. 30 auðn > avðv.

litlu áðr en hann veri pínðr. þá váro allir Gyþingar reknir á brot af Jórsalalandi ok margir í ánauð seldir nær of allan heim. þat var ii vetrum [síðar] minnr en fjórum tigum vetra eptir píning Krists. Eptir Titum var Domicianus, inn yngri bróðir hans, keisari xv ár. hann bauð ófrið kristnum mönnum næst eptir Neronem. hann setti Jóan postula í vellanda viðsmjör, ok er honum varð ekki mein at því þá lèt keisari færa postula guðs í útlegð í ey þá er Padmos heitir. þar sá Jóan postuli himna sýn, ok hèt sú bók Apokalipsis er hann gerþi þar. á því ári var Domicianus veginn at ráði öldunga í Rúmaborg. Nerva var keisari xv mánuðr eða xvi. at hans lofi fór Jóan postuli ór útlegð ok til Effesuborgar ok gerþi þar guþsspjall sitt. Trajanus var keisari xx ár ok vi mánuðr. Rúmverjaríki hafði heldr minnkaz síþan Augustus var keisari, en Trajanus æxti þat mjög á marga vega á sínum dögum. í þann tíð var úfriðr kristnum mönnum ok lèt Clemens páfi líf sitt fyrir guþs sakir at boði Trajanus. þó var honum mart vel gefit, ok um hann er þat ritað at Gregorius “pp” hafi þegit önd hans ór helvítis kvölum. Helius Adrianus var keisari xxi ár. hann lèt upp gera Jórsala-
44 borg ok bauð at hón skyldi Elia heta af hans nafni. hann kúgaði Gyðinga er þeir váro áðr ólýðnir ok bannaði þeim vist í Jórsalaborg. þaþan frá váro keisarar þeir er fátt er frá sagt. Antoninus inn mildi var keisari xx ok iii ár. þá var Markus Antoninus — — — Verus xviiii ár. of hans daga var ófriðr kristnum mönnum. Elius Aurelius Kommodus xiii ár. Elvius inn gamli vii mánuðr. Septimius xviii ár. þá var ófriðr kristnum dómi. þá váro þær Perpetua ok Felicitas beittar dýrum til bana. Antoninus Bassianus Caracalla vi

3 fjórum > fimm. 5 xv > xvii. 12 mánuðr > ar. 24 í +. fátt er > fat. 25 Antoninus > Antonivſ. mildi > mikli. ok iii +. 26 Antoninus > antonivſ. xviiii > xviii. 27 Elius Aurelius Kommodus > lvci' antoni' komodvſ. 28 Elvius > Elivſ. vii <. mánuðr >. Septimius > Cermvſ ⌣ Cermvſ. xviii > xiii. 30 Antoninus Bassianus Caracalla vi > Antonivſ baſſvſ Caracarla ·xx·.

ár. Macrinus i ár. Marcus Aurelius iiii ár. Aurelius Alexander xiii. á hans dögum var úfriðr kristnum mönnum. Mammea hèt móþir hans. hón varþ kristin af orðum Oregenis prests. Alexander var vel við móður sína ok af hennar sökum þvarr ófriðr við kristna menn. Maximinus iii ár. — — — Philippus ok "phılıpıcvſ" sonr hans vii ár. þeir feðgar váro báðir vel kristnir. Decius var keisari eigi alla ii vetr. hann drap báða Philippum, ok af fjandskap við þá bauð Decius inn mesta ófrið kristnum mönnum. þá var Fabianus "p̄p" líflátinn fyrir guþs sakir ok Ciprianus erkibyskup. Gallus var keisari ii ár. honum gekk at óskum allt í upphafi síns ríkis, en því næst bauð hann ófrið kristnum mönnum ok týndi þaðan af bæði ríki sínu ok lífi. Valerianus ok Gallienus sonr hans xv ár. þeir buðu ófrið kristninne. því næst varð Valerianus hertekinn af konungi þeim er Sapor hèt ok var síþan blindaðr ok 45
hafðr allan aldr í ánauð ok óvirðing. Sapor konungr stè á bak honum áðr hann stigi á hest sinn en Valerianus skyldi standa undir fótum honum á höndum ok knjám ok í þeiri ánauð dó hann. af býsnum er Valerianum hendo varð Gallienus reddr ok gaf frið kristnum mönnum. á dögum þeira urðu miklir skaðar á Rúmverjaríki. í þann tíð lèt Stephanus "p̄p" líf sitt fyrir guþs sakir ok því næst Sixtus "p̄p" ok Laurencius erchidjákn at ráði konungs þess er Decius hèt. Claudius var keisari i ár ok ix mánuðr. hann vá sigr á þjóðo þeiri er Gothi heitir. Aurelianus var — — — ok vi mánuðr. hann bauð ófrið kristnum dómi. honum gekk elding svá ner at býsn eru að. litlu síðarr var hann á förnum vegi veginn. Tacitus var keisari vi mánuðr ok var drepinn. Florianus iii mánuðr varla fulla. Probus vi ár ok iii mánuðr. hann gerði frið fyrir norðan fjall

---

1 iiii > ııı. 3 móþir hans > moþır hanſ moþır. 4 móður >. 5 Maximinus > Maxım'. 6 vii < vi ⌣ v. 21 Gallienus > Galerıan'. 23 Stephanus > stepan'. því > ı þ'.

ok rak fyrir víkinga er þeir höfðu gert ófrið langa stund. Carus ok synir hans Carinus ok Numerianus ii ár. Numerianum drap mágr hans sá er Aper hét. honum banaði Dioclecianus sinni hendi í hefnd Numeriani. Dioclecianus ok Maximianus Herculius váro keisarar xxi ár.
46 á þeira veldi var mjög blómi langa rið. en á ofanverðum dögum sínum buðu þeir ófrið kristnum mönnum. í þann tíma hófz víþa ófriðr í Rúmverjaríki ok þá var mestr ófriðr guðs kristni ok lengst samfast. á einum mánaði váro í Rúmaborg ok í þorpum þeim er þar liggja til xvii þúsundir manna af lífi teknir fyr guþs sakir. þá váro þessir menn píndir: Gajus "pp" ok Sebastianus, "Tıber eı'" ok Pantaleon, Vitus ok Vincencius, Cosmas ok Damianus ok Herasmus. Dioclecianus kastaði niðr ríki sínu ok þótti eyvitar maðr. í þat mund dó Maximianus. Maximus systursonr Diocleciani ok Maxencius sonr Maximianus kölluðuz keisarar v ár. þá váro þeir píndir Marcellus "pp" ok Ciriacus ok Timotheus.

16. Constantinus sonr Constantii ok Heleno var keisari xxx ár ok x mánuðr. hann háði margar orrostur áðr hann eignaþiz allt Rúmverjaríki. á hans dögom öndurþum var ófriðr kristnum mönnum. Constantinus var líkþrár í þann tíð. þá kom Silvester "pp" ok skírði hann, en í skírninni varþ keisarinn heill af líkþrá. en Constantinus efldi síðan mest allra manna guþs kristni. hann lèt kirkju gera í Latran Jóani baptista ok Johanni postula. þar er "pp"stóll. Pètrs kirkju lèt hann ok gera í þeim
47 stað sem Pètr var krossfestr. Páls kirkju lèt hann gera fyrir utan Latran þar sem hann var höggvinn. í

---

1 þeir < þar. langa > lang. 2 synir hans > ſ. hanſ var. 3 Numerianum > Numeranum. 4 hendi > hend. 5 Herculius > hercvltvſ. xxi > xx. 8 ófriðr > ofrıd. 12 Tıber eı' ⌣ Tıber cı'. Pantaleon > pantaleē. 15 Maximianus > Maxımıam' ⌣ Maxımıanı'. systursonr > ſonr. 16 v < viii. 20 hann >. 24-25 Constantinus > conſtantı'. 26 Latran ∽ ſataran.

Rúmaborg lèt hann gera þá kirkju er heitir Jerusalem ok þar lèt hann vera kross drottins várs. Constantinus lèt gera Agneskirkju at bón Constancie dóttur sinnar. Laurencius lèt hann kirkju gera. Marcellino ok Petro lèt hann kirkju gera ok þar lèt hann leggja lík Helenu móþur sinnar í dýrlikt leiði. Constantinus keisari setti at allir byskupar skyldo lýða "p̄p" svá sem konungar keisara ok hann gaf alla Rúmaborg undir "p̄p"veldi. Síþan lèt hann gera mikla borg ok af hans nafni heiter sú borg Constantinopolis. þar er keisarastóll. sú er æzt allra borga í Austrríki. Á dögum Constantini hóf Arrius prestr villu utan af Alexandria þa at hann talði son guðs ok helgan anda minna vera guði feðr ok taldi son ok helgan anda skepnu en eigi skapara, ok var af því sem hann eyddi allri þrenningu guðdómsins en hann vildi trúa á guð í einingu at eins. eptir hánum hurfu margir menn í skilningu. Arrius varþ bráðdauðr ok gekk ór sèr öllum iðrum. þeim dauða hans leyndu lengi vinir hans. en er fjöldi manna hafði fallit í þá villu er Arrius "pp" hafði tekit þá hafðu byskupar þing í borg þeiri er Nicea heitir. 48 á því þingi var Silvester "p̄p" ok Constantinus keisari ok átján byskupar oc ccc. á því þingi var þat skýrt gert at faðir ok sonr ok heilagr andı er einn guð í þrenningu, ok er sonr guð, ok heilagr andi guð, ok er þó einn guð, en eigi þrír. á því inu sama þingi var settr allr kristinn dómr, en þeir menn váro allir bannsettir er á mót mæltu þeiri trú er þar var skýrð eða þeim boðorðum eigi lýða er þar váro upp tekin. Constantinus sendi Helenu móþur sína, at leita at krossi drottins várs, til Jórsala. af hennar atkalli ok tilvíson þess manns er Judas hèt var kross drottins várs tekinn ór jörþu crucismesso á vár. Eptir Constantinum váro keisarar synir hans Constancius ok Constantinus ok Constans.

---

2 vera > gera. 12 hann +. 16 hánum ⌣ honum. 20 er + 22 átján > ıatıan. 31 váro > v̄. 32 keisarar = kei̅.

Constancius lifði þeira lengst myklu. hann villtiz í trú ok vildi alla menn færa til þeirar trúar er Arrius prestr bauð. Constans bróðir hans fylgdi fast réttri trú meðan hann lifði. þeir bræðr höfðu ríki xxiiii ár ok v mánuðr ok xiii daga. í þann tíma var Athanasius byskup mestr mótstöþumaðr villumönnum. Julianus níþingr var keisari
49 i vetr ok viii mánuðr. hann var í æsku kristinn ok lektor at vígslo. síþan kastaði hann kristnum sið ok gerþiz fjölkynnigr. hann gerþi bækr í mót guðligum krapti ok dó með guðlöstun ok lèt marga menn pína þá er kristnum sið vildu fylgja. Julianus fekk sár af guþs krapti ok dó með því. þat er mælt at lík hans velli í biki í útlöndom. Jovianus góðr höfþingi ok vel kristinn — hann hafði ríki viii mánuðr. Valentinianus ok Valens bróþir hans váro keisarar xi ár. Valens var villumaðr ok hèlt mjög á Arrius villu. hann flæði ór bardaga í þorp eitt ok var þar í eldi brenndr af þeim mönnum er Guthi eru kallaðir. á þeim tíþum var Hilarius byskup ágetr af kenningom sínum ok jartegnum. Valentinianus dó fyrr en Valens. þá höfðu synir Valentiniani ríki með fæðurbróður sínum iii ár, Gracianus ok Valentinianus. Valens bauð at munkar skyldu fremja ríðaraskap eða ellegar vera barþir stöngum í hel. Gracianus ok Valentinianus höfðu ríki vi ár. Gracianus gaf ríki Theodosio. hann háði margar orrostur við heiðnar þjóðir ok var allsigrsæll. á þeim tíþum var Martinus Túronsborgar byskup ágæztr manna af hæilagleik sínum ok táknum þeim er hann gerþi. Maximus hèt konungr á Bretlandi. hann fór með her sinn á Frakkland ok
50 beitti vèlum Gracianum svá at hann var veginn í borg þeiri er i Lugdunum heitir. síþan rak Maximus Valentini-

1 Constancius > Conſtantın'. 2 prestr = p. 7 i > ıı. 13 Jovianus > ȷovıman'. 14 Valentinianus ∽ Vaſtınıan'. 16 þorp > þrop. 17 brenndr >. 21 iii > ııı. 22 ríðaraskap > rıdara. 23 vi < vii ⌣ viii. 28 Bretlandi > breelandı. 30 Lugdunum ∽ lvndunvm.

anum ok Jústíno móður hans á brot af Italia. hón var villt í trú Arrii prests ok spillti mjög fyrir búanda sínum ok svá syni. þeódosíus inn mikli var v vetr konungr í Austrríki með Graciano, en eptir hans daga var hann keisari xi ár. honum til handa flýði Valentinianus inn yngri, en Theodosius færði hann á rètta trú ok efldi hann til þess at hann hefndi bróður síns ok drap Maximum við borg þá er Aquileia heitir. í þann tíð dó Justina drottning. síþan felldi Theodosius víking þann er Eugenius hèt ok sèr hafði eignat Rúmverjaríki. á þeim tíþum var Ambrosius byskup í Meilansborg harða tíðr ok ágætr. þá var ok Jeronimus prestr allágetr af fróðleik sínum. Arcadius ok Honorius synir Theodosius höfðu ríki xiii ár, Honorius ok með honum Theodosius inn yngri xv ár. í þann tíma eignaþiz Alarikus konungr Gothorum Rúmaborg. hann brenndi nokkurn hlut borgarinnar ok dó litlu síþarr. í þann tíð fanz heilagr dómr Stephanus frumvátts Jesu Christi svá sem vitrað var Luciano presti. Theodosius inn yngri sonr Arcadii var keisari ii ár ok xl. á hans dögum andaðiz Augustinus byskup, ágætr kennimaðr 51 utan af Affrika. Eudocia kona Theodosii færði helgan dóm Stephani til Rúmaborgar ok er hann nú þar dýrkaðr í kirkju Laurencii. Marcianus [ok Faustinianus] höfðu ríki vii ár. í þann tíð fanz höfuð Jóans baptista út á Jórsalalandi svá sem hann sjálfr vísaði til munkum ii. Leo inn ellri var keisari xvii ár. Leo inn yngri var keisari i ár. Zenon var keisari xvij ár. á hans dögum fanz Barnabas postuli svá sem hann sjálfr vísaði til ok þar með

---

1 af Italia ∽ apıtalıa. 2 prests = ·p·. 3 v > ·vı·. 5 til? 7-8 Maximum > Maxımā. 8 Aquileia = aqlegıa. 9 drottning >. 10 hafði >. 12 prestr = ·p·. 13 Arcadius > Archadıvſ. 14 með >. 16 hlut +. 17 tíð >. frumvátts > frv̄ vtz. 18-19 Theodosius = Teodoſıvſ. 19 Arcadii > archadíj. ii ár ok xl > vı. ar ok. xx. 21 Eudocia > Evdoxıa. 26 xvii > ıı. i > xvıı.

guðspjall Matthei postula af sjálfum honum skrifat. í þann tíð eignaðiz Theodoricus konungr Godorum Rúmaborg. Anastasius var keisari viii ár ok xx. hann hvarf í villu þá, er Euticheshóf upp, ok bauð ófrið kristnum mönnum. Euticheş sagði svá at Jesús Kristr sonr guðs, er sannliga er bæði guð ok maðr, sè nú guð at eins en engi maðr. Justinus inn ellri var keisari átta ár. á hans dögum svelti Theodoricus Jóan "p̄p̄". litlu síþarr drap hann höfðingja ii rúmverska: annarr hèt Simmachus, en annarr Boëthius. litlu síðarr varð Theodoricus bráðdauðr. í þann
52 tíð vann Benedictus ábóti í Monte Cassın alls kyns jartegnir sem Gregorius "p̄p̄" segir frá í bók þeiri er Dialogus heitir. Justinianus inn mikli systursonr Justini var keisari xxx ára ok viii ár. hann sigraði margar þjóðir þær er áðr spilltu Rúmverjaríki, svá at aldri mögnuðoz þer síþan, bæði Vandali ok Godi er flest illt gerðu áðr. Justinianus lèt gera lögbók mikla. í þeiri bók samdi hann saman in fornu lög ok inu nýjo kristin lög svá at allir menn mætti ein lög halda í hans ríki. sú bók heitir Codex Justinianeus ok standa enn þau lög [eru] víða í Suðrríki sem býðr í þeiri bók: lèt hann fylgja öll ný lög þau er hann setti ok heitir sú bók "novella". Justinianus lèt gera í Miklagarði guþs mustari þat er á Girka tungu heitir Agia Sophia en vèr köllum Egisif ok er þat hús bazt gert ok mest í öllum heimi svá at vèr vitim. Justinus inn yngri var keisari ix ár. við hann ok við hans konu Sophiam var Narses öldungr rægðr af Rúmverjom fyrir öfyndar sakir svá at þau tóku af honum öll metorð

1 Matthei = matheı. 3 viii < vii. 4 Eutiches (ɔ: Eutyches) = evtıces. kristnum > crıstınvm. 5 Eutiches = Evtıces. 6 eins +. 8 svelti > ſvelletı. 9 Simmachus (ɔ: Symmachus) = ſımac᾽. 10 Boëthius = boıecı᾽. 13 Justinianus > Jvſtınan᾽. 16 Godi (ɔ: Gothi) > G ·ėodı. illt +. 20 Justinianeus > ıvſtınıana. 21 fylgja >. 22 er +. 23 á Girka = agrka. 25 heimi = heī. 26 ix > xı. 27 Sophiam ∽ ſophrā. 28 honum +. metorð > metod.

fyrir róg vándra manna ok lifði hann litla stund síþan.
Narses eyddi öllu ríki Gotorum ok drap konunginn Tuti- 53
lam at umboði Justiniani ins mikla. Tiberius Constan-
tinus var keisari viii ár. á hans dögum var Gregorius
sendimaðr páfans, Pelagi, í Miklagarði ok hafði mikil met-
orð af Tiberio keisara ok öllum góðum mönnum. þá
skýrði hann Jobs bók svá sem Leander bað hann til,
byskup. Mauricius var keisari xx ár. á hans dögum tók
inn helgi Gregorius páfadóm. hann sendi Augustinus
byskup til Englanz er kristnaði mestan luta þess lands ok
hafði byskupstól sinn í Cantarabyrgi. á dögum Gregorii
“p̄p” gerði Agilulfus Langbarða konungr mörg vandræði
Rúmverjom áðr Theodolinda kona hans bað hann af láta
at herja á Rúmverja, ok honum sendi Gregorius “p̄p” bók
þá er Dialogus heitir ok páfinn gerþi. Focas var keisari
viii ár. hann gaf Bonifacio “p̄p” blóthús þat er Pantheon
hét. hann rensaði þat af blótum ok gerði at Máríukirkju
ok allra heilagra. þaþan af hófz allra heilagra messo hald.
í þann tíð herjaði Kosdrói konungr á Jórsalalandi. hann
tók kross drottins várs á brot ór Jerusalem ok gerði
mart illt. Heraclius var keisari xxxi ár. hann vá sigr á
her Kosdróa ok drap hann sjálfan. síþan færði hann kross
drottins várs aptr í Jerusalem ok á þeim degi er haldin
crucis messa á haustið er inn helgi kross kom aptr í Je- 54
rusalem. — — — Heracleonas ok móðir hans Martina höfðu
ríki iiii mánuðr. Constans var keisari xxvii ár. hann villtiz
í trú ok lét færa Martinum “p̄p” í útlegð fyri því páfinn

3 Tiberius >. 5 páfans > pavavaf. 7 bók +. 8 xx > xxı. 9 páfadóm = pava dō. 10 lands >. 12 Agilulfus > Agıv lf'. 13 Theodolinda > theolında. 15 páfinn = pavın. 16 Bonifacio > beınfacıo. Pantheon = panteon. 20 Jerusalem > erufalem. 21 mart >. xxxi > xxvı. 23 í +. á +. 25 Heracleonas > heraclonaf. 26 iiii mánuðr > ·ıı· ár. Constans > Conſtantın'. xxvii > xx· vıı·. 27 því < því at. páfinn = pavfın.

stóð í mót villu þeiri er keisarinn bauð. Martinus andaðiz í útlegð í þeim stað er "cersona" heitir ok verða þar margar jartegnir at hans helgi. Constans kom í Rúmaborg ok rænti þar mörg heilög mustari búningi ok fjárlutum ok víða plokkaði hann menn með ráni. hann var veginn í lögu. Eptir hann var keisari Constantinus son hans xvi ár. á hans dögum var fundr byskupa í Miklagarþi "cl". þá váro villumenn fyrireknir ok ræṫtiz Georgius patriarcha er áðr hafði villu fylgt. Constantinus keisari fylgdi fast trú rèttri. hann lèt Jóan byskup sendimann Agatho "p̄p" syngja sèr messo inn átta dag frá páskadegi. Justinianus inn yngri var keisari x ár. af honum stóð fastríki mikit, en síþan villtiz hann í trú ok var rekinn í útlegð. á hans dögum andaðiz Nicholas byskup af Mirrea ok í þann tíð tók Villibrordus byskups vígslo af Sergio "p̄p" ok var hann síþan erchibyskup í Trekt á Fríslandi. Leontius var keisari iii ár.
55 í þann tíð var Cudbertus byskup á Englandi ágetr af heilagleik sínum ok jartegnum. Tiberius hafði ríki vii ár. eptir hann kom Justinianus aptr í ríki sitt ok var síðan með Tiberio syni sínum vi ár keisari. hann lèt höggva Leontium ok Tiberium er ríki hans höfðu sèr eignat svá at fjöldi manna sá bana þeira. í þann tíð kom Constantinus "p̄p" í Miklagarð at orðsendingu Justiniani ok var honum harðla vel fagnat. þá tók Justinianus corpus domini ór hendi "p̄p"num ok fal sig under bænir hans. síþan sendi Justinianus her sinn at drepa Philippikum er hann hafði áðr sendan í útlegð ok latti þess mjög "p̄p". síþan hvarf herr sá til handa Philippiko ok fór aptr til Miklagarðs með honum. þá var Justinianus drepinn. En

---

3 Constans > Conſtantın'. 6 lögu ⌣ logu. 7 hans xvi > ın fyrra c̄ ſtantını· xvıı·. 9 Georgius > Gregorı'. 16 vígslo = vıxlo. erchi- ∽ eıth-. 17 Leontius > leo. 18 Cudbertus ∽ cvdb̓t'. Englandi ∽ eıglandı. 21 vi > ·vıı·. 22 Leontium > leonē. 26 domini ∽ dvmını.

Philippicus hafði ríki i ár ok v mánuðr. hann var inn mesti villumaðr meðan hann var. Anastasius tók Philippikum ok blindaða hann. hann var keisari iii ár ok var vel trúaðr. Theodosius var keisari i ár. hann átti orrostu mikla vit Anastasius ok var hann handtekinn ok sór eiða Theodosio ok var at hans ráði Anastasius vígðr til prests. í þann tíð eyddiz villa sú er Philippicus hafði upp tekit ok olli Theodosius því. Leo var keisari xxiiii ár. í þann 56
tíma var Ljúðbrandr Langbarða konungr ok færði hann bein Augustini utan af Sardinia í "eÿ" þá er "papıa" heitir ok lèt ítarliga um búa í Pètrskirkju. Constantinus var keisari xxxv ára. Leo x ár. Hirene drottning með syni sínum x ár. Constantinus einn vii ár. Hirene ein v ár. Niceforus ix ár. — — — Michael curopalates ii ár. Leo inn ermski vii ár. Mikael ix ár. Á dögum þessa keisara gengu Langbarþar ok margar þjóðir aðrar yfir Rúmverja ríki. þeir beiddu opt keisara þá er váro [er] í Miklagarði sèr liðveizlo. en þeir mátto eigi Rúmverjom at liði verþa fyrir því at þeir höfðu svá mikit vandræði at trautt máttu þeir halda sínu ríki fyrir heiðnum þjóðum er á hendr þeim gengu því síðr máttu þeir öðrum at liði koma. þaðan frá sóttu þeir traust þeira höfðingja er fyrir norþan fjall váro á Frakklandi, ok síþan er Pipinus tók konungdóm yfir Rúmverjom at vilja Stephani "p̅p̅" þá hurfo Rúmverjar undan Miklagarðs konungom. höfum vèr þaðan engar sannligar sögur síþan Rúmverjar hurfo undan þeim. síþan kallaz hvárr þeira öðrum meiri: stólkonungr í Miklagarði ok keisari á Saxlandi. — þessir eru langfeðgar Karls ins mikla, keisara. Örnólfr byskup heilagr af Metis; Ansigius 57

1 i ár ok v > ·ıı· ár ok ·vı·. 2 Anastasius > Anſtaſıvs. 3 blindaða < blindaði. 4 Theodosius = Teodoſı'. 6 Theodosio = teodoſıo. prests = ·p̄·. 8 Theodosius = teodoſı' (< Anastasius). xxiiii > ·xı·. 9 færði ◡ farði. 11-12 Constantinus var keisari xxxv ára. Leo x ár. > leo ·c̄ ſtantın' v̄ keī. xxx v. ára. 15 gengu +. 28 Karls ∽ karſſ. ins > ın. 29 Metis = mettıs.

hertogi; Pippinus; Karolus, hann var konungr í Frakklandi; hans son var Pippinus faðir Karlamagnúss keisara. Pippinus konung vígði Bonifacius erchibyskup af Meginzoborg ok síþan var hann vígðr af Stephano páfa. Karl inn mikli son Pipini var keisari fystr þeira er fyrir norþan fjall hafa verit — — — xlv ára, en xvii ár keisari. hann kórónaði Leo páfi inn fyrsta jóladag í Pétrskirkju í Rúmaborg. þá kallaði allr lýðr þrysvar 'Karli inum mikla 'keisara Rúmverja af guði kórónuðum haldiz sigr ok 'langt líf'. Eptir hann var sonr hans Ludovicus keisari vii ár ok xx. hann hló aldregi at því er sagt er. þá var son hans Lodovicus ok bræðr hans með honum iii: Lotharius, Karolus ok Pippinus, xxx vi ár. — — — þá var "arnalldvſ" son Karolimanni xii ár. hann vá sigr á Danakonungum Godefrido ok Sigefrido er áðr höfðu herjat um allt Saxland ok Frakkland, hann drap af þeim c þúsunda. Eptir "arnalldvm" var Ludevicus sonr hans keisari xii ár. þá hafði Konráðr Konráðs son ríki vii ár. þá Heinrekr hertogi xvii ár. Hans son var Otto inn mikli er ríki hafði xxx viii ára. hann brot Danavirki ok kúgaþi
58 Harald Gorms son til at taka við kristni. Otto sonr hans hafði ríki ix ár. Otto sonarson ins mikla Ottonis hafði veldi xviii ár. honum banaði kona með eitri í Rúmaborg, en hann hafði áðr látit drepa búanda hennar er Crescentius hét. Eptir hann var Heinrekr hertogi af "benara"-landi keisari xxiii ár. þá son hans Konráðr inn mildi xv ár. því næst var son hans Heinrekr inn mildi keisari xvii ár. hann lét gera Máríukirkju í Spíru ok hann átti iii-vetr Gunnhildi dóttur Knúts ins ríka, ok með honum

---

8 Karli > Carclı. 12 iii ∽ v̇. 13 Lotharius > lothrıvſ. 14 hann > hans. 19 xvii > ·vııı·. 22 sonarson > ſon. Ottonis = ·O·. 24-25 Crescentius > Greſcent⁷. 25 hann > hanſ. beııara ⌣ þenara. 27 var +. mildi > mılldı v̇. 29 Knúts = knvz.

fór Knútr til Rúms. þá var Heinrekr il ára. hann brot Rúmaborg af missætti þeira Gregorius "p̄p" ins sètta með því nafni. Eptir hann var Heinrekr sonr hans keisari xviiii ár. hann andaðiz í Trekt. Því nest var Liuderus hertogi af Saxlandi keisari. hann var Lotharius kallaðr. hann færði Innocencium "p̄p" í stól sinn ok hann rak Rogerium Sikileyjar jarl af Púli. Lotharius var keisari xiiŕ ár. Konráðr var keisari er Gizurr Halls son var suðr. En því næst Friðrekr.

---

3 sonr > b̄oþ̄ (ɔ: bŕóþiŕ). 4 xv̈iiii > ·xvii·. Trekt ∽ teekt. 7 af +. 8 xiii > iii. Konráðr ∽ kånradr ⌣ kanradr.

---

VERALDAR SAGA, 16 ($101^{3-8}$): hann var keisari iii ár ok var vel trúaðr. Theodosius var keisari i ár. hann átti orrostu mikla vit Anastasius ok var hann handtekinn ok sór eiða Theodosio ok var at hans, ráði Anastasius vígðr til prests. í þann tíð eyddiz villa sú er Philippicus hafði upp tekit ok olli Theodosius því. < hann var keisari iii ár ok var vel trúaðr. í þann tíð eyddiz villa sú er Philippicus hafði upp tekit ok olli Anastasius því. Theodosius var keisari i ár. hann átti orrostu mikla vit Anastasius ok var hann handtekinn ok sór eiða Theodosio ok var at hans ráði Anastasius vígðr til prests.

---

# VI.

## STÓRÞING.

---

Frá boðorðum höfuðfeðra. Fjögur hafa stórþing verit
þau er skylt er kallat at halda þau boðorð er þar hafa
boðin verit af helgum feðrum. Eitt í Niceaborg á dögum
59 Constantini keisara. þá var Arrius fyrirdæmdr ok villa
hans af ccc ok xviii byskupum. Annað var í Constanti-
nopoli um daga Graciani keisara ok Damasi "p̄p̄". þá var
Macedonius fyrirdæmdr ok villa hans af c l "·ııı·" bysk-
upum. Macedonius taldi helgan anda eigi guðdóm hafa.
Eð þriðja þing var í Epheso-borg á dögum Theodosii keis-
ara ok Celestini "p̄p̄". þá var Nestorius fyrdæmdr ok
hans villa af cc byskupa. sú var villa hans at hann taldi
annan guð en annan mann ok taldi hann af því Krist
drottin mann at eins vera en eigi guð. en sú er rétt
trúa at hann er báði guð ok maðr. Eð fjórða þing var
í Chalcedon á dögum Marciani keisara ok Leonis páfa.
þá var Eutiches fyrirdæmdr ok villa hans af cccccc bysk-

---

2 +. 3 stórþing = ſtor þıng. 4 skylt er > ſkyllt. 10 anda +. 11 Epheso-borg = efpheſo borg. Theodosii = teodoſíj. 12 Celestini > celeſtıv̄. 13 hann >. 14 því +. 17 Chalcedon > callcıdonıæ. 18 Eutiches = Evtıeeſ. villa > vlla.

upa ok xxx. Eutiches taldi þat at sonr guðs var guð ok maðr meþan hann var hèr í heimi, en nú kallaði hann hann mundo hafa horfit í guðdóm ok taldi son guðs guð at eins vera en eigi mann. en heilög trú játir at hann er bæði guð ok maðr — faðir, sonr ok heilagr andi.

1 Eutiches = Evtıceſ. 2 kallaði hann > kalldı.

# VII.

## KENNIMANNSSKAPR.

---

1. Frá kennimanns*skap*. Kennimannsskapr hófz í inni fornu æfi síþan "aaron" var byskup kallaðr yfir Gyþingum svá sem guð bauð Moysi. þeir bræðr váro ór kyni Levi sonar Jacobs, Ysaacs sonar, Abrahams sonar. þaðan váro
60 allir yfirbyskupar Gyþinga ór kyni "aaronſ" hverr eptir annan þar til er kristinn kennimannsskapr hófz. Í inni nýjo æfi var fyrstr í byskups veldi Jacob postuli í Jórsalaborg. Byskupa allra er páfi æztr sá er sitr í Rúmaborg í Pétrs sæti ok til hans á öll kristni at lúta: skal hann um alla dæma en engi um hann. Fjórir erkibyskupar eru patriarke kallaðir. einn er í Jerusalem ok var þar fyrstr Jacob postuli. annarr er í Antiochia. þar hóf fyrst byskupdóm Pétr postuli. Ignacius var þar næstr byskup eptir hann. þriði var í Alexandria á Egiptalandi. þann sætti enn Pétr postuli. Marcus guðspjallamaðr var þar byskup næst eptir hann. þaðan er færðr stóll patriarke í Fæneyjarborg. fjórði patriarke í Miklagarði.

---

2 +. 6 sonar, Abrahams ∽ ſonr Abæhās. 14 Antiochia = antıockıa. 15 Pètr = ·p·. 16 Alexandria > alexnad'a. 17 var +.

2. Páfa sæti. Petrus postuli var inn fyrsti páfi í Rúmaborg. hann sat í því veldi v ár ok xx, ok ii mánuðr ok iii daga. hann var krossfestr í Rúmaborg af Nero inum illa, keisara, ok lèt hann svá líf sitt fyrir guðs sakir á sama degi sem Páll postuli. þat var xxxviii árum eptir píning drottins várs. Linus ok Cletus eru báðir í páfa tölu hafðir. þeir váro byskupar undir veldi Pètrs postula ok frömdu þat allt í sínum byskupdómi er hann bauð þeim. báðir váro þeir píndir fyrir guðs sakir. Linus hafði 61 byskupdóm xi ár ok iii mánuðr ok xii daga. Cletus var byskup xii ár ok i mánuð ok xi daga. Clemens tók "p̄p̄"dóm at boðorði Pètrs postula með því veldi öllu sem drottinn gaf Petro. Clemens sat í Pètr stóli ok "p̄p" veldi svá sem allir aðrir "pp̈" hafa sætit síþan. hèðan frá eru taldir "p̄p" með nafni ok þat með hvè lengi hverr hefir verit; en ekki er í þessi bók frá þeim sagt fyrir utan þá er píndir hafa verit fyrir guðs sakir.

| | ár | mánuðr | daga |
|---|---|---|---|
| "Clem̄ſ v̇. p̄p̄ | ıx. | ıı. | x. |
| "anaclet' | xı. | ıı. | x. |
| "Evarıſt' | ıx. | x. | ıı. |
| "Alexand' | x. | vıı. | ıı. |
| "Sıxtvſ | x | ıı. | ı. |
| "Thelefpher' | xı. | ııı. | xxıı. |
| "Jgnıvſ | ıııı | ııı. | vııı." |

1 Páfa = pava. Petrus > Petvrs. 6 páfa = pava. 7 Pètrs = ·p·. 13 drottinn >. í Pètr stóli = ıpetr.ſtollı. 18 mánuðr ∞ mavvdr. 24 Thelefpher' < Telesphorus. 25 Jgnıvſ < Hyginus.

# VIII.

## RÓMVERJA SÖGUR.

---

(445) 1. Svá segir Sallustius í sinni frásögn. Ek mun þær orrostor rita er Rómverjar hèldu í móti Jugurtha konungi af Numidia (þat er vestr í Africa ok kallaz Serkland hit mikla). ek rita fyrir þí þau tíðindi at þeira orrostor hafa verit snarpar ok miklar ok enn fyrir því at fyrst var móti farit tignarmönnum Rómverja sveitar af ofdrambi ríkissmanna með ágirnd ríkissins ok öfund sín í millum (þeir lestir hafa verit bæði á himni ok á jörðu skaðsamligstir) ok fór þat framm með svá mikilli úvizku at orrostor innanlandsmanna aleyddu nær allt ríki Italielands. Enn fyrr en ek segi upphaf þessar frásagnar, mun ek rita þá luti er fyrr gerðuz, til þers at þá verði skilnari frásögnin. Eptir þat er Rómverir höfðu sigrað Annibalem konung vestan af Carthagoborg ór Africa, hinn ágjætasta ... Publius Scipio hèt sá jarl er þat gerði (hann var hinn yngri með því nafni: föðurfaðir hans hafði ok þat nafn: þeir váro agjætir menn, ok var Publius fyrri kosinn til tignar

---

2 +. 3 Sallustius > sebaſtíus. 5 vestr = uſtr. Africa = affrıca. 11 svá +. úvizku = vvítzku. 15 Rómverir = romuír. Annibalem >. 16 Carthagoborg = cartago borg. Africa = affrıca. 16-17 Publius Scipio > Puplíus cıpo. 19 Publius = puplıus.

en hann hefði aldr til at rómverskum lögum) hann var kallaðr eptir þat Africanus . . .

2. Hèr byrjaz upp Rómverja sögur. Af Masinissa konungi. Masinissa hèt konungr í Numidia. hann var mikill vin Publi; því tók hann mikinn metnað af Rómverjum, svá at þeir settu hann höfðingja ok konung yfir öll þau ríki er Publius Scipio hafði unnit ok svá þau ríki er Annibal hafði átt ok enn þers konungs er Syphax hèt ok hann hafði átt í Africa. (meðr þersum Masinissa var þá staddr Publius Scipio er hann dreymdi draum þann sem síðarr er skrifaðr í Macrobio ok mikil speki var í.) enn vinfengi ok trúleik hafði hann alla æfi viðr þá. Micipsa hèt son Masinisse er konungdóm tók eptir hann. enn aðrir synir hans önduðuz ungir: Mastanabal ok Gulussa. Micipsa konungr átti ij sono: Adherbalem ok Hiempsalem. Son Mastanabalis hèt Jugurtha. hann var í upphafi bæði mikill ok sterkr at afli ok fríðr sýnum ok þó miklu sterkari í brjósti ok at viti ok sköruligleik öllum. enn meðr því at hann var frilluson þá vill Micipsa konungr ekki ríki gefa honum, enn fæddi hann upp svá sem sína sono. sú var náttúra ok venja Jugurthe at hann spillti sèr æigi í leti nè eptirlæti líkamans, heldr gerði hann sem þar er siðvenja til — at ríða í skóga eðr reyna skeið við jafnaldra sína, ok var hann æ fremstr í öllum hlutum, ok slíkir lutir drógu hann í mikinn kjærleika. fyrst vandiz hann at veiða leo æða önnur stór dýr: var hann æ fremstr í öllum

2 Africanus = affrıcanus. 3, 4 Masinissa > Maſſımıſſa, Maſſımíſſa. 5 Publi = puplı. 7 Publius Scipio > puplíus cıpo. 8 Annibal > elmıbal. Syphax > ſelualín. 9 Africa = affrıca. Masinissa > Maſſímıſſa. 10 Publius Scipio > puplıuſ cıpo. 12 Micipsa > Mıſſepſa. 13 son ⌣ sonr. Masinisse > maſſımıſſe. 14 Mastanabal > Manaſtabıle. Gulussa. Micipsa > Gullfıſſa. Mıſſepſa. 15 Adherbalem > aterbalem. Hiempsalem = híemſalem. 16 Mastanabalis > manaſtabıle. 19 Micipsa < Mıſſepſa.

veiðiskap ok bar þó seálfr minnst hól á. af þessum lutum varð Micipsa konungr glaðr ok ætlaði sínu ríki mikla hjálp ok stoð verða mundu at atgervi Jugurthe. enn er kraptr Jugurthe óx af aldri ok íþróttum, tók konungi at þyngja af elli enn synir hans váro lítt framm komnir at aldri ok atgervi. tók hann þá at óttaz fyrir hönd sona
446 sinna er þeir váro minni til vits ok mannanar enn Jugurtha. enn fyrir þat hræddiz hann mest at þat er náttúra margra manna at girnaz ríkit ef nokkurr þikkir kostr á vera ok ferr hugrinn þá mjök rasandi at fylla vilja sinn. hann sá ok at Jugurtha mundi vera til færr ef hann vildi konungr geraz at hefjaz upp til ríkiss, enn þótti honum nægja mega at vera meðalmaðr í öllum lutum. enn hann fann at alþýðan unni honum: ok þó at hann lèti drepa hann meðr nokkurum brögðum, þá var hann hræddr um at þar gerðiz úfriðr af ok sá at æigi mundi hlýða at hrinda til jarðar jafn-vinsælum manni af öllu fólki ok muni meira ráð at vísa honum í nokkurn mikinn háska.

3. Hèr segir af Jugurtha. Á þersum tíma fóro Rómverjar í Spania með her sinn þar sem heitir Numancia. var Publius Scipio höfðingi fyrir her þeim. Rómverjar senda nú orð Micipsa konungi at hann sendi þeim her, bæði riddara ok fótgöngulið, ok svá gerði hann. hann setti Jugurtham höfðingja yfir her þann ok hugsaði með sèr at hann mundi í þessum háska falla, svá frammgjarn sem hann var í öllum mannraunum, elligar mundi ofbeldit hnekkja hamingju hans ella mundi torvelt verða at fyrirkoma honum. enn þetta gerðiz aðra leið en hann hugði, því at þá er Jugurtha kom til Rómverja gerðiz hann snarpr áræðis ok góðr órlausnar. skjótt gerði hann sèr kunnigt skaplyndi Publi Scipionis ok svá hans mótstöðumanna.

---

2 Micipsa > Mıſſepſa. 19 Jugurtha > Jugurtho. 21 Publius Scipio > puplíus cıpo. 22 Micipsa > miſſepſa. 31 Publi Scipionis > puplı cıpo.

brátt var hann svá kjærr Publio at hann kallaði Jugurtham til alls starfs; enn hann var bũinn til alls háska þers er hann vildi.* Jugurtha bar mikla áhyggju fyrir hvat hann mætti þat helz gera er Rómverjum væri mestr styrkr at ok þar til sparði hann hvárki vás nė erfiði ok æigi lífsháska. svá kom hann sėr í kjærleika við höfðingja ok alla aðra Rómverja, en úvinir hans hræddu hann allra mest. hann var hinn sterkasti til vápns ok hinn skjótasti til áræðis. enn af því vísaði Publius Jugurtha þar til sem mest þurfti at hann var raustastr ok hann fann at aldri únýttuz ráð hans nė ætlan. var hann af þersu mest elskaðr af honum ok öllum herinum. virðu ok svá allir at hann ynni honum mestan sigrinn. hann var ok hinn mildasti af fė ok hinn lítillátasti við alla menn.

4. Frá Rómverjom ok Jugurtha. Í þenna tíma váro í her Rómverja margir tignir menn ok ótignir þeir er meira virðu mútugjöfina enn mannkosti ok váro slægir ok ótryggir. þeir töldu jafnan fyrir Jugurtha ef Micipsa konungr andaðiz í Numidia at enginn væri jafn-val til fallinn at setjaz í ríkit sem Jugurtha ok sögðu hann hafa alla luti til at vera yfirmaðr slíks ríkiss 'ok vit þat með 'sönnu at í Rómaborg ero allir lutir falir við fė'. Enn síðan er unnin var Numancia sneriz allr herrinn aptr til Rómaborgar. ok at skilnaði kallar Publius Scipio Jugurtham til sín á torgi ok gaf honum stórmannligar gjafir ok játaði honum sinni fylgd ok styrk ok lofaði hann mjök fyrir öllum Rómaborgarlýð þeim er þar var. síðan leiddi Publius hann á einmæli ok rėð honum heil ráð ok mælti svá 'elska þú vináttu Rómverja opinberliga enn gef 'þeim æigi stórar gjafir leyniliga ok vit þat fyrir víst at 'þat er æigi gott at kaupa at fám er margir eigu. en ef

---

1 Publio = puplio. 9 Publius = puplíus. 15, 18 Jugurtha > Jugurtho, íugurtho. 18 Micipsa > Míſſepſa. 19 enginn = engín. 24 Publius Scipio > puplius cipo. 28 Publius = pupli'.

'þú vill í góðum meðferðum haldaz svá sem þú hefir oss 'sýnt þá er þèr ríkit innan handar. enn ef þú rasar fyrir 'ráð framm ok reyniz óstaðfastr þá missir þú fèit ok lífit'.

447 5. Frá Micipsa konungi. Nú sendir Publius Jugurtham aptr til Micipsa konungs með brèfum þeim er svá segja 'Jugurtha frændi yðvarr er svá vel reyndr í öllum 'orrostom ok ráðagörð at hann er þar fyrir kjærr oss 'ok öllum Rómaborgar höfðingjum, því eigut þèr honum 'val at fagna af sínum verðleikum. þakkar ek yðr ok 'þetta meðr várri vináttu. hèr hefir þú ok makligan mann 'þèr ok líkan Masinisse feðr þínum'. ok er konungr hafði þersi brèf yfir lesit, er hann sannfróðr vorðinn af þeim tíðindum sem görz höfðu í herförinni ok hófuz nú af nýju áhyggjur hans er svá mikil gipta ok frammgangr spurðiz Jugurthe. hugsar hann nú at göra til hans sem bezt ok trygga hann svá, með sinni ástsemd, við sono sína. hann leiðir nú Jugurtham til arfs eptir sik með sonum sínum at þriðjungi. enn eptir fá vetr liðna tók Micipsa konungr sótt í elli sinni. ok er sú sótt leið at honum þá kallar hann til sín sono sína Adherbalem ok Hiempsalem ok Jugurtham frænda sinn ok marga aðra sína frændr ok vini ok segir svá 'þú Jugurtha, minnz þers nú er ek tók 'þik lítinn svein í mína hirð ok gjæzlu, föðurlausan ok 'eignarlausan, ok áttir öngva tiltölu til arfs nè ríkiss at 'lögum várum, ok gerða ek þik jafn-kjæran sonum mínum, 'ok fyrir þá sök væntir ek þik mèr ok þeim altraustan 'til alls þers er þú orkar; því at svá vel ok vegsamliga 'fórtu með her í Numancia at ek hygg mínu ríki mikinn 'styrk at þèr munu vera, ok þú sýndir Rómverjum svá 'mikla fremd þína at í Hispania gerðir þú kunnigh nöfn

3 fèit > fé. 4 Micipsa > Mıſſepſa. Publius > puplı'. 5 Micipsa > Mıſſepſa. 8 eigut = eıg᷑. 11 Masinisse > Maſſímıſſe. 18 Micipsa > Mıſſepſa. 20 Adherbalem > atherbalem. Hiempsalem = híemſalem. 23 gjæzlu = gıætzlu. 28 her < þèr.

‘vár ættmanna. enn með því at mjök ero komnir endadagar ‘lífs míns, fær ek þér í hendr styrkt ríki ok minnir ek ‘þik á at þú sèr stjórnsamr ok haldir vel vinfengi viðr ‘þína landsmenn. minnz þú ok valgörninga minna hversu ‘ek hefir þik hafit af lágum ok litlum til ríkis ok ver ‘styrkr fyrir sonum mínum, frændum þínum, því at þú ‘ert bæði fyrir þeim at afli ok viti ok aldri fær þú þèr ‘hollari vini enn þessa bræðr ef þú vill til þess stunda ‘enn í hverri deilu beraz þeim völd á hendr er fyrri ‘rýfr rèttindin. enn þit bræðr, Adherbal ok Hiempsal, heyrit ‘nú: tignit ok elskit vel þenna mann ok líkit eptir hans ‘íþróttum ok ráðum at allr lýðr megi sjá at ek hefir kjæra ‘fóstrsyni upp fæðt’. Jugurtha svaraði val öllum hlutum þeim sem konungr talaði, þó at honum væri sumt ekki at skapi, því at hann vildi þá æigi styggja skaplyndi konungsins svá krankr sem hann var. Micipsa konungr andaðiz litlu síðarr.

6. Af stefnu konunga ok ráðagjörð. Eptir þat hafa konungarnir stefnu sín í millum um skipan ríkissins. ok er þeir settuz niðr á tignarstólinn þá settiz Hiempsal til hægri handar bróður sínum. hann var grimmr maðr ok skapstórr. hann fyrirleit móðerni Jugurthe ok vildi hann at Adherbal bróðir hans sæti í milli í hinu hæsta sæti því at hann sagði Jugurtha þat ekki eiga. enn Adherbal tók til hans ok bað hann sitja ‘ok væg honum, bróðir, fyrir ‘aldrs sakir’. enn þó kom hann honum trautt til þers. nú tala þeir um ríkissstjórnina. þá mælti Jugurtha at slíta skyldi quinquennium, sem opt hafði siðvenja til verit þá er örvasa konungar höfðu andaz at slíta alla dóma þeira ok ráð innan v nátta hinna næstu. þá svaraði Hiempsal 448

---

1 enn > Eñ Eñ. 10 Adherbal > atherbalem. Hiempsal > híemſalem. 16 Micipsa > Mıſſepſa. 20 Hiempsal > hıemſalem. 23. 24 Adherbal > atherbalem. 28 quinquennium > quınquínſum. 30 Hiempsal > Híemſalem.

ok kvað sèr þat val líka ‘því at jafnvel til þers þriðjungs ‘er vær ættim í ríkinu leiddi Micipsa konungr þik’. þetta orð tók fastara hjarta Jugurthe enn nökkurn varði ok frá þeiri stundu var Jugurtha mjök hugsjúkr um með hverjum vælræðum hann skyldi drepa Hiempsalem, enn þó at kveldiz þar um hríð í þá setr hann þó eitt ráð í hug sèr. enn at þeiri stefnu er nú var getit ok sundrþykkit hófz með þeim konungunum þá urðu þeir á þat sáttir at skipta skyldi ríkinu ok lausafè ok var þar ákveðin stund ok stefnudagr. nú fóro þeir konungarnir í þá staði er næstir váro hinum mestum fèhirzlum ok tóko herbergi sèr hverr. Hiempsal fór í kastala þann er Thirmida hèt ok tók sèr herbergi í þers manns húsi er var sverðberari Jugurtha konungs ok var honum einkar kjærr. þenna mann lokkaði Jugurtha konungr með stórgjöfum ok góðum heitum at hann byði til sín Hiempsali konungi ok biðja hann svá skipa öllum hlutum sem hann ætti seálfr. enn er konungrinn var til hans kominn ok hann hafði tekit meðr luklum ok varðhaldi herbergjanna ‘þá kom þú til mín með þeim vælum at þú megir þar inn ‘leiða mína riddara leyniliga, því at ek man þar koma með ‘miklu liði’. á þeiri sömu nátt leiddi Jugurtha inn mikit riddaralið í konungsherbergit. ok sem þeir komu í kastalann brutu þeir upp herbergin ok leita konungsins ok drepa suma menn sofandi enn suma í viðrtökunni ok rannsaka öll herbergi ok gera mikinn gný ok glamm. enn er Hiempsal konungr heyrði úfriðinn þá hljóp hann í eitt lítit hús einnar þjónostukonu at forða sèr því at honum var staðrinn mjök úkunnigr. þar fundu þeir hann ok hálshjöggu, færðu síðan Jugurtha höfuðit. nú spurðiz þersi

2 Micipsa > Mıſſepſa. þik > þık tıl. 5 Hiempsalem = hıemſalem. 6 at < at hann. 11 fèhirzlum = fe hírdzlū. 12 Hiempsal > Hıemſalem. 13 Thirmida > thırínda. 16 Hiempsali > híemſale. 27 Hiempsal > hıemſalem.

glæpr um allt Africam ok gerðiz ótti mikill um allt ríkit ok svá óttaðiz Adherbal ok hans vinir. hleypr nú allr lýðr í ij staði: fylgdu fleiri Adherbali, enn Jugurtha hafði lið betra.

7. Frá sendimönnum til Rómaborgar. Nú dregr Jugurtha her saman sem mestan má hann ok ríðr á borgir ok tekr með valdi enn sumar váro upp gefnar, tèr nú öllum sinn vilja berliga at hann ætlar sèr einum allt Numidiaríki. Adherbal sendir menn til Rómaborgar ok gerir höfðingjum kunnigt dráp Hiempsalis bróður síns ok hamingjuleysi sitt. enn hann dregr her saman sem mestan má hann ok þikkiz öruggr at fjölmenni sem var. ok nú faraz þeir at móti konungarnir ok tókz hin snarpasta orrosta ok fekk Jugurtha sigr enn Adherbal flýði norðr til Provinciam ok þaðan til Rómaborgar. Jugurtha tók nú allt ríkit undir sik ok gerðiz konungr yfir. hann hugsaði nú um þat stórræði er hann hafði upp tekit ok óttaðiz mjök reiði Rómverja því at hann þóttiz ekki afl hafa við þeim. enn sú ván þótti honum helzt til at hann vissi at Rómaborgar höfðingjar váro ágjarnir enn hann hafði of lausafeár með sèr. ok á fám dögum samnar hann saman miklu gulli ok silfri ok sendi þat til Rómaborgar ok býðr þat fyrst fornum vinum sínum enn síðan bauð hann at honum skyldi kaupa aðra nýja vini með fènu hvern er mátti meðan fèit vannz til. enn er þeir komu til Rómaborgar þá gáfu þeir fyrst húsbónda sínum gjafir enn síðan höfðingjum ok lokkuðu alla saman til vináttu 449
ok liðsemdar við Jugurtham. ok með þersu fekk hann vináttu Rómverja: veittu honum sumir lið fyrir fengit fè enn sumir fyrir vánina ok skipaðu þeir svá ráð fyrir at

---

1 Africam = affricam. 2 Adherbal > aterbalem. 3 Adherbali > aterbalem. 9 Adherbal > Aterbalem. 10 Hiempsalis > hiemſalem. 14 Adherbal > aterbalem. 15 Provinciam > fimíz. ⌣ funíz. ⌣ fnuíz.. 19 helzt = hellz. 21 of = óf.

Jugurtha skyldi þessi skuld æigi þungt falla. enn er sendimenn vissu hugi höfðingja þá beiddu þeir stefnulags við þá ok fengu þat. enn er Adherbal kom þar þá mælti hann ‘heyrit þèr samriddarar feðr míns Micipsa konungs. faðir ‘minn bauð mèr á deyjanda degi at ek skylda hafa forsjó ‘fyrir Numidiaríki því at yðvart vald stendr þar yfir, ok ‘jafnan bað hann mik koma rómverskum lýð at gagni ok ‘standa í stað frenda minna, ok ef ek gerða þat mætta ‘ek at freálsu vera konungr í Numidia. nú gerða ek þetta ‘boð feðr míns, enn Jugurtha tók mik brott af ríki ok ‘öllum auðæfum Masinisse. enn svá kjærr sem hann er ‘yðr þá er hann hinn mesti glæpamaðr er sólin skínn á ‘ok mjök fyrir utan yðvart ráð. seáit nú í hvert áfelli ‘þèr hafit rasat: því at mèr sýniz sem rèttindin skríði nú ‘í skeiðir enn rangindin efliz ok upp hefiz. því at þèr ‘vitit enn æigi hverr Jugurtha vill vera, verðr ek nú ‘nauðigr at sýna yðr mína nauðsyn. ero þeir flestir höfð‘ingjar at því at eins koma til yðvar at þeir sè sigraðir ‘af yðr í orrosto ok hafi öngvan annan útveg en at leita ‘miskunnar af yðr; enn várt forellri kom svá til yðvar ‘at þèr várut í úfriði við Karthagomenn ok þurftut þèr ‘þá þeira fullting. nú látit mik æigi lengi bíða þurfa ‘yðvars styrks. ef ek kann æigi hann at fá — er þó nógt ‘at ekki veri til at telja við yðr annat enn mitt vandræði ‘at ek var skömmu ríkr ok konungr enn nú hefir ek ‘látit fè ok frið, frændr ok frelsi, ok ríkit með. Jugurtha ‘drap bróður minn, frænda sinn, ok gerði hans ríki sèr at ‘herfangi. hann tók ok mitt ríki ok föðurleifð, enn ek ‘komz nauðuliga undan. vinir mínir ok frændr ero kross‘festir, sumir kastaðir í munn óörgum dýrum, en þeir ‘fáir sem lifa ero byrgðir í myrkvastofum svá at þeim er ‘verra líf enn dauði. nú væri þat allra yðvarra vegsemd

---

3 Adherbal > aterbalem. 4 Micipsa > Miſſepſa. 11 Masinisse > Maſſimíſſe. 21 Karthago = kartago.

‘at rètta minn luta þar sem allar þjóðir þeóna yðru valdi ‘ok óttaz yður stórvirki. þat kenndi mèr Micipsa konungr ‘faðir minn at ek skylda öngum þjóna utan Rómverjum ‘ok sagði hann yðr mundu mèr vera ærna forstoð í móti ‘mínum úvinum. heyrit nú stýrendr alls heims! fyrir krapt ‘ríkiss yðvars ok yðvarn sóma, hjálpit mèr ok látit mèr ‘æigi orð feðr míns at hègóma verða ok látit æigi minnka ‘ríki Numidiemanna um yðra daga, þat er þeir eigu með ‘rèttu at hafa, fyrir glæp Jugurthe ok bana várra manna, ‘ok hrindit af oss sterkliga þessu vandræði’. nú þagnar konungr. enn sendimenn tala fá orð, því at þeir treystuz meirr fègjöfum sínum enn málaefnum: sögðu þeir at konungr Hiempsal var drepinn af landsfólkinu fyrir grimmleik sinn enn sögðu Adherbalem hafa gört her á hendr Jugurtha fyrr ok yrði síðan forflótta fyrir honum ok sögðu hann nú kjæra þat er hann gat æigi haldit sik fyrir honum til jafna ‘haldi Rómverjar hann nú fyrir þann mann sem ‘þeim líkar ok þeir hafa reynt hann’. sleit með því þinginu at engi virði meira kvein Adherhalis enn glæp Jugurthe.

8. Frá Lucius sendimanni ok Jugurtha. Annan dag eptir sitja höfðingjar yfir þessum málum ok fylgja þeir allir máli Jugurthe er fè höfðu þegit at honum: var þat mikill fjöldi höfðingja ok fylgdu þeir honum með öllu 450
kappi ok únýttu alla frammburði Adherbalis. enn þar í móti váro nökkurir þeir er sèr ljetu kjærri rètta dóma enn fègjafir ok vildu lið veita Adherbali enn hefna Hiempsalis. enn þó kom svá um síðir at sú sveitin rèð dóminum sem mútuna hafði þegit ok var því þat dæmt at senda skyldi x menn vestr í Africam ok skyldu þeir skipta

---

2 Micipsa > Mıſſepſa. 13 Hiempsal > hıemſalem. konungr Hiempsal < Hiempsal konungr. 14 Adherbalem > atherbálem. 19 Adherbalis > atherbalem. Jugurthe > ıugurtí. 20 Jugurtha > Jugurto. 24 Adherbalis > atherbalem. 26 Adherbali > atherbalem. 26-27 Hiempsalis > hıemſalem. 29 Africam > affrıcam.

ríkinu í helminga, því er Micipsa konungr hafði átt, milli þeira Jugurthe ok Adherbalis. sá maðr var fyrir þeim er hèt Lucius Opimius. hann hafði drepit ij consules saklausa "Gaíū fobū" ok "marchū plato". enn er Lucius kom í Numidiam þá tók Jugurtha með honum æfar vel því at Opimius hafði áðr veitt honum liðsinni í Róm ok þá nú þar fyrir stórar gjafir. Jugurtha hèt honum miklu gózi ok bað hann halda undir sik ríkinu ok sèr hvern sendimanna lokkar hann með stórum fègjöfum svá at fáir af þeim halda þar um sannindum. þeir skiptu svá ríkinu: at Jugurtha hafði hinn eystra lut þann er liggr móti Mauritania, sá var fjölmennari ok betri; enn Adherbal hlaut þann er hıgat liggr móti Njörvasundi ok var sá hluti betri fyrir sakir borga, húsa ok hafna. — Svá segir Sallustius frá þessu landaskipti. þar er heilt fólk, ok þolir vel vás ok erfiði, ok vel fært. Africa gengr allt vestr at úthafinu ok norðr at Miðjarðarsjó ok austr til Nílar. þar urðu flestir menn ellidauðir, nema fyrir vápnum deyi æða dýr drepi; enn sealdan verða menn þar sóttdauðir. svá er sagt í bókum Hiempsalis konungs at í Africa byggðu fyrst þær þjóðir er Getuli heita ok Libies ok fædduz við dýrahold. þeir höfðu öngvan höfðingja ok ekki hús ok engin lög ok lifðu sem einn fènaðr ok lágu þar sem þeir komu at kveldi. enn er Ercules dó í Hispania, sem Serkir segja, ok herr hans var saman

---

1 Micipsa > Mıſſepſa. 2 Adherbalis > atherbalem. 3 Opimius > epíneus. 4 Gaíū fobū < Gaium Gracchum. marchū plato < Marcum (Fulvium) Flaccum. 5-6 Opimius > Epíme᾽. 12 Mauritania (⌣ Mauretania) > maurıtan̄ía. Adherbal > atherbalem. 15 Sallustius > Sebaſtı᾽. 16 Africa > Affrıca. 17 norðr > ſudr. 20 Hiempsalis > hẏemſalıs. 21 Africa > affrıca. Getuli (ɔ: Gaetuli) > gotıle. 22 Libies ɔ: Libyes.

samnaðr af öllum þjóðum ok tungum þá dreifðiz liðit ok leitaði sèr landskostar. af þessum her fóro til Africa nokkurir menn, Medi, Perse ok Armenii, ok byggðu nærri Miðjarðarsjó ok Perse þó næstir úthafinu. þeir hvelfdu skipum sínum ok höfðu þau fyrir hús, enn þeir máttu æigi kaupferð reka til Hispaniam fyrir hafstormum ok tungu ókunnri. þeir dreifðuz til Getulis at kvánföngum. af þeim kom sú ætt er menn kalla Numidas; þeir byggðu landit með þorpum ok húsum. Medi ok Armenii gengu til Libias ok blönduðuz við þá. þeir gerðu sèr borgir ok kastala ok höfðu kaupferðir yfir á Spania ok sem fólkit fjölgaðiz þá váro þeir snarpari er byggðu með seónum. Libies váro harðari menn enn Getuli. Fenices heita þær þjóðir er nær byggðu sjónum austr frá Carthago til Egiptalands. þeir gerðu þessar sjóborgir: Hipponem, Hadrumetum ok Leptim ok margar aðrar. Katabathmos heitir þar er skilr Africam ok Egiptaland. enn suðr við "vthafít" standa þessar borgir: fyrst "cırenen. colonía. ok trícon" er mest er allra þeira. þar ero ij firðir illir yfir at fara er Sirtes heita: millum þeira er Leptis. þar næst "phılon": þangat til höfðu ríki Carthagomenn "Eñ ſıdan Rıkıa ſ̊kneſk̃ı = = = "ok ımórgū odrū ſtóðū allt tıl maurıtañíam þeım ẽ ınumi- "dıa v̊. redu f² hıſpaníj. ok v̇ þat þeıra R̊". enn upp frá Numidia ero Getuli ok byggja þeir í smáhúsum hèr 451
ok hvar enn sumir rekaz úti með sitt búferli þar sem liggr Bláland hit mikla ok brennr þat af sólu. enn í þann tíma

2 Africa > affrıca. 3 Medi > Medíj. Perſe > perſı. 4 Perse > perſı. 8 Numidas > numídıes. 9 Medi > Medíj. Armenii > armeníe. 14 Carthago = cartago. 15 Hadrumetum > harm̄tū. 16 Leptim > leppoím. Katabathmos > Katabahínon. 17 Africam > affrıcam. 19 cırenen. colonía. ok trícon ɔ: Cirene (Cyrene), colonia Thereon (Theraeon). 19 ij > íij. Sirtes (Syrtes) > cıreí. 20 Leptis > lentıſ. phılon ɔ: Philenon are (Philaenon arae). 21 Carthago = cartago.

er þessi saga gerðiz settu Rómverja höfðingjar víða sína menn yfir Serklands hèruð ok Carthago ok þau ríki er þeir eignaðuz síðarst í Africa, enn undir Jugurtha konungi var fjöldi Getulismanna ok Numidiaríki allt til ár þeirar er Mulucha heitir, enn Bocchus konungr rèð Mauritania. — Nú fóro sendimenn heim þeir er skipat höfðu ríkinu.

9. Frá Jugurtha ok Adherbale. capitulum. Jugurtha sèr nú at hann hefir tekit betri ömbun fyrir glæpina enn hann varði. skilr hann nú at þat er satt er honum var sagt í Numancia at allir lutir ero falir við fènu í Rómaborgarríki ok nú treystiz hann vinmælum sendimanna ok eggjaz nú af nýju upp á Adherbalem því at hann er spakr ok ekki svá mikill bardagamaðr nè svá grimmr sem Jugurtha ok meðr því at hann kenndi hann vera í miklum styrk var hann þar fyrir óttafullr. Jugurtha ferr nú með miklu liði ok ætlar at Adherbal muni hefnaz vilja ok berjaz við hann. enn Adherbal treystiz betr Rómverjum enn þarlandsmönnum ok sendi hann menn til Jugurtham ok beiddi hann yfirbóta. enn Jugurtha gaf honum í móti hót ok heitan ok veitir sendimönnum stórar átölur. fara þeir við þat heim ok sögðu þat Adherbali, enn hann vildi heldr þola ágang því at liðit hafði honum áðr illa gefiz í bardaganum. ok er Jugurtha fann þetta þá samnaði hann liði ok ferr á ríki Adherbalis ok leggr undir sik kastala ok borgir. ok er Adherbal vissi at annat hvárt varð at flýja æða í móti at horfa þá samnar hann liði ok finnaz þeir Jugurtha við kastala þann er Cirta heitir nær sjó

---

2 Carthago = cartago. 3 Africa > affrıca. 4 ok Numidiaríki > Numıdıa R. v. 5 Mulucha > maulukam. Bocchus > bach'. Mauritania > mauritan̄ía. 7 Jugurtha > Jugurtho. Adherbale > Aterbalem. 12 Adherbalem > aterbalem. 16 liði ok < liði — — — ok. Adherbal > atherbalē. 17 Adherbal > aterbalē. 21 Adherbali > atherbalē. 24 Adherbalis > aterbalem. 25 Adherbal > aterbalē.

ok var þetta árla dags ok vildu þeir æigi berjaz fyrr enn um daginn eptir. enn at miðri nátt ljópu riddarar Jugurthe í herbúðir Adherbalis at þeim úvörum með lúðrum ok ópi ok drápu mestan luta hers Adherbalis enn hann komz nauðuliga undan í kastalann Cirtam með fám riddarum. enn Rómverjar hèldu kastalann með miklum styrk: þeir byrgðu hliðin ok meinaðu mönnum Jugurthe inn at ganga ok hèldu þeir Adherbalem með sèr.

10. Frá Jugurtha konungi ok Adherbale konungi. Nú settiz Jugurtha um kastalann ok sækir at með alls kyns vígvælum er honum kom í hug ok vildi unnit fá kastalann áðr enn aptr kjæmi sendimenn Adherbalis konungs þeir er hann hafði sent til Róms fyrir bardagann. enn er höfðingjar í Róm spurðu þessi tíðindi ór Numidia þá sendu þeir iij menn vestr í Africam ok segja orð höfðingja ór Roma at konungarnir skyldu sættaz ok gera frið millum sín. sendimenn komu til Jugurtha konungs ok sögðu honum orð höfðingja ór Roma svá sem þeim var boðit. enn hann sagði sèr vera kjærasta allra luta vináttu Rómverja ‘vita þeir ok hversu ek hefir reynz hinum ‘beztum mönnum í Róm — fyrst hinum ágjæta Publio ‘Scipioni. ok af þeim mínum frama tók Micipsa konungr at ‘hefja mik til ríkiss ok var hann þó æigi sonlauss áðr. ‘nú því meirr sem ek hefir hafiz af mínum framaverkum ‘því verra þikki mèr at þola vansæmd af Adherbale þar ‘sem hann vill sitja um líf mitt enn svá sem ek varð varr ‘við svik Adherbalis fór ek með her minn at móti honum. ‘hygg ek Rómverja æigi munu banna mèr at hefna mín ‘á úvinum mínum sem allar þjóðir gera. enn þegar þessi

---

1 árla < síð. 3, 4 Adherbalis > aterbalē. 8 Adherbalem > aterbalem. 9 Jugurtha > Jugurtho. Adherbale > Aterbalē. 12 Adherbalis > aterbalē. 15 Africam = affrıcā. 21-22 Publio Scipioni > puplıo cípo. 22 Micipsa > Mıſſepſa. 25 Adherbale > aterbalem. 27 Adherbalis > aterbalem. 28 mèr > m̄ m̄.

'úfriðr líðr af skal ek senda menn til Rómaborgar þá er
452 'þeim kunni at segja ágirni Adharbalis'. síðan fóro sendimenn heim. enn Jugurtha tók nú af nýju at sækja at kastalanum ok fær lítit at gert því at hann var harðla sterkr. hann lèt gera sterka trèkastala ok hafa til at sækja at kastalanum með; svá lèt hann ok grafa undir múrana ok ljetti aldri atsókn nætr ok daga. enn er Adherbal sá at kastalinn mundi unninn verða sendir hann menn með brèfum til Rómverja þeim er svá vátta.

Heyrit Rómverjar, samriddarar feðr míns. æigi af minni ágirnd þarf ek svá opt at krefja yðr liðs heldr skyldar mik nauðsyn þar til því at Jugurtha stríðir mèr með svá miklum ofstopa at hann hefir hertekit mitt ríki enn byrgt mik inni í einum kastala svá nauðuliga at ek veit æigi hvárt oss meinar meirr sultr eða vápnaleysi ok lítt hjálpa mèr nú velgerningar Micipse konungs feðr míns eðr Masinisse míns föðurföður ok þeirra þeónosta sú er þeir veittu yðr. enn ekki rita ek um illvirki Jugurthe. nú hjálpit mèr fyrir yðvarn manndóm ok haldit yðra eiða við mína forfeðr ok rèttit minn luta því at mèr man yðr liðveizla skjótt verða of sein ef þèr dvelit lengr.

Enn er brèfin váro upp lesin þá vildu sumir höfðingjar þegar senda her í Africam. enn vinir Jugurthe löttu mjök, því at svá gekk fèmútan ríkt at æigi varð lögunum náð. enn þó litlu síðarr var sendr í Africam Marcus Skaurus er einn var ágjætastr í Rómaborg. ok er hann kom í Africam sendir hann menn til Jugurtha at hann vill hitta hann. ok er Jugurtha vissi at svá ágjætr höfðingi var kominn ok þat með at hann vildi hitta hann = = = = = = = = = = = = = = = = = = = = = = = hann

2 Adharbalis > aterbalē. 7 Adherbal > aterbalem. 16 Micipse > miſſepſe. 17 Masinisse > maſſimiſſe. 20 yðr ɔ: yður. 22 Africam = affricam. 25-26 Africam Marcus Skaurus > affricam Marcuſſ kaur'. 27 Africam = affricam.

tekr nú þat ráð at hann sækir at kastalanum með öllu afli ok fær ekki at unnit. kastalamenn spyrja ekki til sendimanna, þikkir þeim þá seinkaz liðveizlan, sækir þá fastr hungr at þeim ok vænta sèr nú griða fyrir sakir Rómverja ef þeir gefaz upp því at Jugurtha hafði þat opt boðit þeim. þeir telja þat jafnan fyrir Adherbali at hann skuli upp gefaz ok skilja sèr lífs grið ok lima ok skjóta öllu sínu máli á vald Rómverja. enn þó at konungi væri allt annat kjærra enn at trúa fagrmælum Jugurthe þá vissi hann þó at nú var undir kastalamönnum vörnin ok fyrir þeira bæn var þat af ráðit at þeir gáfuz upp ok gengu á vald Jugurthe. ok var þegar í þeim griðum Adherbal konungr drepinn ok allir hans menn, enn Rómverjar fengu grið.

11. Frá Gaius Memmius ok Jugurtha. þessi tíðindi spurðuz nú til Rómaborgar ór Numidia ok gengu þar at vinir Jugurthe at þessa yrði æigi hefnt ok þat samþykktu flestir. Gaius Memmius hèt sá maðr er þá var ráðinn til tignarnafns: hann var leiðr höfðingjum fyrir sína einurð ok bermælgi. hann svaraði svá þessu máli 'fyrir sakir 'mútu ok svika tali þèr þetta. ok þó at þèr hafit nú vald 'til at dæma sem þèr vilit, þá munu guðin æigi láta þann 'dóm svá rangliga dæmdan yðr vítisslausan verða'. ok nú eptir þessi hans orð var þat samtekit af senatoribus at her skyldi senda í Numidiam ok skyldu ij consules vera fyrir herinum: hèt annarr Publius Scipio enn annarr Lucius Calpurnius Bestia. enn er Jugurtha frètti þetta görir hann menn til Rómaborgar með fègjöfum til liðs sèr einn veg ríkum sem fátækum því at hann hugsaði í Róm alla luti mega með fè kaupa. fyrir þessi ferð váro ij synir
hans. enn er þeir komu til Rómaborgar verðr varr við 453

---

3 liðveizlan = lıdueítzlan. 6 Adherbali > aterbalem. 13 Adherbal > aterbalem. 15, 18 Memmius = m̄íuſ. 26 Publius Scipio > puplıuſ cıp°. 26-27 Lucius Calpurnius > Daſſıus lucıuſ. Calpurneuſ. 27 Jugurtha = Jugurta.

þá Calpurnius Bestia ok segir höfðingjum at þat var ráð at þeir næði æigi at ganga í borgina. höfðingjar sögðu at með því skyldu þeir ná inngöngu í hana ef Jugurtha vildi gefa upp ríkit 'enn ef þeir fara enn sem hinir fyrri með fè ok mútugjafir ok ætla þar með at svíkja oss þá 'skulo þeir æigi koma í borgina ok verða brottu af Italia 'innan næstu x daga'. ok er sendimenn spyrja þetta snúa þeir heim aptr. enn Lucius Calpurnius Bestia "ok Manılíus puplı' cip°. bua" nú her Rómverja ok fara fyrst til Sikileyjar ok þaðan í Africam. ok þegar er þeir koma í Numidiam herja· þeir ok leggja undir sik víða landit. ok sem Jugurtha spyrr þetta sendir hann menn til þeira með fègjöfum. ok af mikilleika fjárins sýktiz Calpurnius í huginum, leggr hann þá stefnulagh við Jugurtham ok selduz gısla meðan stefnan stóð. Jugurtha kemr nú í herbúðir Rómverja ok talaði fyrst um þat hversu hann var hrópaðr í Róm af sínum verkum ok kvað ráðna vera sína handgöngu við Calpurnium ok "puplīū". annan dag eptir váro þeir á stefnu ok tala þá hvárir til annarra þat er at þótti ok sættuz at því at Jugurtha gaf sik ok sitt ríki upp í vald Rómverja ok hann skyldi gefa þeim xxx fíla ok marga hesta ok mikit fè annat ok klyfja fílana með gulli ok silfri ok ágjætum klæðum ok fá þetta fè í hendr Sextio questori. enn þeir Lucius Calpurnius fóro heim til Rómaborgar at vita við höfðingja hvárt standa skyldi sætt sú er þeir höfðu gert við Jugurtham. enn er þeir sögðu höfðingjum sættina þá sá þeir at þeir Calpurnius váro sviknir með fègjöfum ok töluðu með sèr hvárt

---

1 Calpurnius > calpurne'. 8 Lucius Calpurnius > Daffiuf luci'. Calpurneus. 10 Africam > affricā. 13 Calpurnius > Calpurneus. 18 Calpurnium > Calpurneū. 24 Sextio questori > Sexto quertori ⌣ Sexto quercori. Calpurnius > Calpurneus. 27-28 Calpurnius > calpurne'.

þeir skyldu rjúfa þessa sætt ok drepa Calpurnium ok "puplíum" eða skyldi eptir leita hverir höfðingjar fleiri væri meðr þeim í svikum. enn þat snöri þeim af rèttu er þeir vildu æigi ganga at Skauro er í ráðum hafði verit með þeim hèr um. ok er Gaius Memmius sá at þetta samþykktiz með þeim ok hann var hataðr af höfðingjum fyrir rèttlætis sakir ok bermælgi enn elskaðr af alþýðu þá þingaði hann við höfðingja ok fýsti hefnda, enn þeir dvöldu órskurðinn. hann talaði þá af löngu ranglæti höfðingja ok ofmetnaði ok æsti þat sem mest mátti hann, svá mælandi.

Margir lutir letja mik enn sumir hvetja at tala nökkut fyrir yðr um yðvart framferði ok munda ek fyrri þegja ef æigi væri svá mikil nauðsyn at birta yðr slægðarverk þau er þèr kallit þolinmæði. enn þat hvetr mik mest til er gjæzkan snýz í óþarfliga ágirnd. mèr þikkir illt at segja hversu höfðingjum hefir vorðit á þessum x vetrum af drambi várra manna eðr hversu hneistir þèr erot eða hversu niðr ero drepnir landvarnarmenn várir allir æða hversu mjök hjörtu vár ero spillt af hugleysi ok heimsku enn vilit þó æigi upp rísa undir brotnir af yðrum úvinum ok erot þèr við þá hræddir er heldr ætti við yðr hræddir at vera. enn þó at svá sè þá girniz hugr minn þó upp at rísa í móti afli lyginnar ok nú man þat reynt verða hvárt ek vil þat fótspor ganga sem faðir minn gekk fyrir mèr ok ófyrirsynju hafit þèr völd yfir öðrum er hugblauðir erot ok kúgaz látit fyrir yðrum undirmönnum. mörg vandræði váro þá með Rómverjum er Tiberius Gracchus vildi öngum nema sèr einum ætla öll ríki Rómverja ok var drepinn fyrir þat ok margir aðrir eptir hans dæmum enn sumir í myrkvastofu settir. hyggit at ósómanum: yðrir úvinir 454

1 Calpurnium > calpurneū. 5 Memmius > m̄íus. 10 æsti þat < æsti lýðinn. 16 gjæzkan = gıætzkan. (17 x < xx.) 28 Gracchus > alu' (⌣ alın') Grakuf.

rembaz í mót yðr enn sumir þeir er drepa yðra menn beiða sèr tignarnafna af yðr enn sumir hrósa sèr af ránfenginu sem af sínum sigri. þrælarnir ef þeir ero fèkátir þola æigi yfirboð sinna drottna. heyrit þèr er bornir erot með ríkinu seálfu: allar þjóðir munu hæða yðr, ok því skemmiligarr sem hverr görir þá er hann því öruggari því at yðvart hugleysi samþykkir með glæpamönnum alla hluti þá er þeir fremja. nú ferr svá, Rómverjar, at þèr erot náliga undir brotnir er áðr hafit alla aðra undir brotit. þèr várot stýrendr alls heims enn nú verðit þèr fegnir er þèr náit lífinu at halda. nú ero yðrir samriddarar ok eiðbræðr drepnir niðr sem búfè enn borgir yðrar ok ríki hertekin. rísit upp, góðir drengir, ok hrindit af yðr þessu brigzli ok ámæli ok er þó varla hefnt at allir várir úvinir sè niðr drepnir því at yfrinn styrk ok afla höfum vær yfir allar þjóðir at stíga ef manndómrinn bilar æigi. ok munum þat lengi sem illa er með oss gert.

þersa luti talaði Gaius Memmius jafnan á þingum ok bað Lucium Cassium — hann var þá pretor í Róm — at hann færi með Jugurtha í griðum til Róms til þers at hann segði hverir fè höfðu tekit af honum til dóms.

12. Frá Rómverjom ok Jugurtha konungi. Ok sem þetta fór framm í Róm var þat tíðinda í Numidia at þeir sem eptir váro settir af her Calpurnii görðu sumir at dæmum síns höfðingja ok tóku fè til þess at gefa Jugurthe aptr ríkit enn sumir ræntu þá er í friðinum skyldu vera. enn er Cassius pretor höfðingi Rómverja kom til fundar við Jugurtham eptir því sem eggjað hafði Gaius Memmius telr hann fyrir honum at hann gefi sik upp í vald Rómverja ʻþví at alþýða manna í Róm hefir gefit

3 sínum > ſınū ſınū. 18 Memmius = m̄íuſ. 19 Cassium > caſſū. pretor ∽ p̄cor. 22 Jugurtha > Jugurtho. 24 Calpurnii > Calpurnei. 27 Cassius > Caſſus. pretor ∽ p̄cor. 29 Memmius = m̄íuſ.

'trú sína til þess at þú skulir þar grið hafa, ok þar til 'hefir ek ok játat mína trú er sumum mönnum þikkir 'nökkurs verð'. ok af þersum fortölum ferr Jugurtha með Cassio til Rómaborgar ok klæddr sem einn fátækr riddari. hann vænti sèr mikillar liðsemdar af "puplio cipo" sakir gjafa þeira er hann hafði sent honum. ok er þeir komu í Rómaborg þá stefnir Gaius þing ok komu þar margir höfðingjar ok mikit fólk ok er almúgrinn svá geystr á Jugurtham at hann vill þegar láta binda hann enn sumir drepa hann utan hann segi hverir fè höfðu tekit til at fylgja málum hans enn Gaius Memmius vill at Rómverjar haldi orð sín ok spilli æigi almenniligri trú er honum var seld. Gaius Memmius minnir nú Jugurtham á þau illvirki sem hann hefir gert í Numidią við föðurbróður sinn ok sono hans ok biðr hann segja hverir honum hafa trausti heitit til slíkra luta ok nefna þá er hann hafði fè gefit til liðveizlu ok segir honum þá miskunnar ván ef hann gerir svá. síðan stóð upp Gaius Bebius höfðingi lýðsins: hann bað Jugurtham konung þegja ok svara öngu. enn allr lýðr er á var þinginu geystiz at Jugurthe með ópi ok eggjan ok vildu at hann nefndi svikamennina. enn á því þingi rèðu þeir er rangara höfðu ok vernduðu sakirnar.

13. Frá Massiva ok Rómverjom. capitulum. Sá maðr var í Roma er Massiva hèt, son Gulusse sonar Masinisse konungs. þersi maðr hafði verit með Adherbale konungi ok komz undan í Cirta þá er konungr fèll: fór hann þá til Rómverja. Rómverjar telja nú um fyrir honum at hann beiði ríkissstjórnar í Numidia enn Jugurtha væri af dæmdr ríkinu fyrir sakir sinna glæpa. Spurius Albinus var

4 Cassio > caſſo ⌣ caſſo. 11 Memmius > manlíuſ. 13 Memmius = m̄íuſ. 17 liðveizlu = lıdueítzlu. 18 Bebius > benlíuſ. 24, 25 Massiva > Maſſína, maſſína. 25 Gulusse > gullfiſſe. Masinisse > maſſimíſſe. 26 Adherbale > atherbale 30 Spurius Albinus > Maſſíua.

þá consul ok honum hafði til handa hlotnaz at vinna
455 Numidiam, en Minucio at vinna Macedoniam. hann byrjar upp þetta mál. Jugurtha verðr þessa varr ok vill æigi bíða hans. hann bauð þá Bomilcar frænda sínum ok virktavin at gefa honum fè til at hann dræpi Massiva. Bomilcar gínn nú yfir þessa flugu ok sitr um Massiva. ok einn af hans mönnum varð of veiðibráðr ok ljóp at Massiva ok ætlaði at drepa hann ok varð hann tekinn ok píndr til sagna: gekk hann þá við at Bomilcar hefði eggjat hann til þessa. ok fyrir þetta var Bomilcar útlægr af Rómaríki enn æigi drepinn því at hann var þar í griðum með Jugurtha af Rómverjum. enn er Jugurtha varð opinberr at þersum svikum þá sneruz honum allar sínar fègjafir til öfundar. Jugurtha skaut á brott Bomilcar frænda sínum á laun (hann fekk Rómverjum níu tigi gísla) því at Jugurtha vissi ef Bomilcar væri drepinn mundu æigi margir til verða at þjóna honum. ok fám dögum síðarr ferr Jugurtha út af Róm til Numidia því at höfðingjar báðu hann sem skjótaz í brottu verða. ok er Jugurtha reið út af Róm þá segja menn at hann sneri aptr hestinum til borgarinnar svá mælandi ‘sè hèr nú borg fala þá er skjótt ‘mun fyrir faraz ef hón finnr kaupa sinn’.

14. Frá Albinus Spurius. capitulum. Albinus Spurius býr nú her Rómverja í Africa ok vill hafa unnit sigrinn áðr enn skiptingardagar kjæmi, annat hvárt drepit Jugurtham eðr handtekit. enn er Albinus kom í Numidiam þá sendir Jugurtha honum boð at hann þarf æigi at herja því at hann vill ganga á hans vald ella flýja landit ok ríkit. hann býr þó her sinn svá sem til bardaga ok segir

2 Numidiam >. Minucio > mínuteo. byrjar > býıar. 4. 5. 9. 10. 14. 16 Bomilcar > bolmıſkara. Bolmıſk̄. bolmıſk̄, bolmıſkar. bolmíſk̄. 24 Africa = affrıka.

sínum mönnum at hann mun þora at berjaz við Rómverja. Albinus veit nú varla við hverju búaz skal ok dvelz svá stundin. váro þeir ok sumir menn er sögðu at Albinus mundi vita þersi ráð með Jugurtha. enn er at leið skiptingardögum þá fór Albinus til Róms svá sem skylda bar enn setti fyrir herinn Aulum bróður sinn meðan. enn í Roma hófz þá deila millum höfðingja hverr consul skyldi vera. Publius Lucullus ok Lucius Annius höfðingjar lýðsins kostuðu sem mest at hinir sömu væri, ok þetta misþykki stöðvaði kosninginn svá at enginn varð kosinn á þeim misserum. ok af þersi dvöl vænti Aulus sèr nökkurs tignarnafns, sá er var yfir herinum í Numidia, ok því herðir hann hug sinn ok ætlar at berjaz við Jugurtham ok elta hann ór ríkinu. hann kallar til sín herinn ok ferr til kastala þers er Suthul heitir: í honum váro hinar dýrstu fèhirzlur Jugurthe: kastalann mátti æigi vinna meðan kostr var í honum því at hann stóð á einu háfjalli. nú sækir Aulus at ok getr ekki gert at kastalanum. Jugurthe þikkir um vert þat er Aulus gerði af kunnustuleysi. þá sendi hann honum orð ok þó með nökkurri slægð ok kveðz heldr vilja ganga á hans vald enn hann færi lengr slíku framm. hann sendi opt menn með þersum orðum ok lèt sem hann hræddiz Aulum ok ferr með her sinn um nökkura leynistıga sem hann óttaðiz Aulum. ok af því trúði Aulus at hann mundi sættum taka. Jugurtha sendi þá enn boð Aulo at hann vildi sættaz með hann ok þó leyniliga ok sagði at þá vissi færi hvat þeir talaði. hann sendi ok menn bæði dag ok nátt at freista Rómverja með fègjöfum ok biðr þá æigi berjaz í móti sèr heldr flýja í fyrstu þegar lúðrar kveða við. ok eina nátt kemr Jugurtha váveifliga með her mikinn ok sækir at herbúðum

---

7 hverr > hur. 8 Publius Lucullus > puplius lucillus. ok > edr. Annius höfðingjar > annuf. Hofdíngi. (10 enginn = engín.) 15 Suthul > fithil. 16 fèhirzlur = fehirðzlur. 20 þó >. 22 með +. 31 váveifliga ⌣ vóveifliga.

Auli. enn Rómverjar óttaz þys þenna ok óp ok flýja sumir enn sumir vápnaz. um náttina var skýjat um allan himin
446 ok sá þeir æigi hvárt ráðligra var at flýja eða við at taka. enn þær sveitir er fèit höfðu tekit hljópu til Jugurtha ok váro þat ∼∼∼∼manna: þær þjóðir heita Ligures: enn ij flokkar ok xix hundrað gáfu upp fyrir Jugurthe herbúðir. nú hlaupa Numide á þá sem harðaz enn Rómverjar flýja á fjallsháls nökkurn er þar var nær. um morgininn mælti Jugurtha við Aulum ‘nú heldr ek þèr ‘matlausum ok inni byrgðum með her þinn. enn þó at ‘vær eigim alls kosti við þik þá skal ek þó manndómliga ‘gera því at þèr skulot grið hafa ef þú vill sættaz með ‘oss ok skulo þèr verða í brottu ór Numidia innan x ‘daga’. enn þótt þessir kostir veri skemmiligir ok harðir þá gekk Aula svá nær ótti dauðans at konungrinn einn varð at ráða sættinni. ok er þetta spyrz til Rómaborgar þá urðu allir óttafullir enn sumir hörmuðu skaða síns ríkis er nú sneri til Rómaborgar flóttinn sem aldri fyrr. enn allir váro Aulo reiðir ok óttaðuz um sitt frelsi er hann hafði gengit vápnaðr til sættar með mikilli skömm. Albino þikkir nú mikil skömm at ferð bróður síns ok ferr til fundar við senatores ok spyrr hvárt halda skal sætt við Jugurtham. enn senatores sögðu sætt skyldi engin haldaz er fyrir utan þeira ráð var gör. nú lætr Albinus skora manntalit ok heimtir at sèr allan styrk sem hann má skjótaz ok ferr þegar í Numidiam ok var Rómverjum mjök í móti skapi er hann fór með svá mikinn her brott. enn þótt hann væri gjarn at berjaz ok hefna bróður síns þá þikkiz hann þó æigi til færr at berjaz með þenna her ok sat hann því um kyrrt at þessu sinni í Róm.

15. Frá Mamilio ok Metello. capitulum. Mamilius

---

5 Ligures > lıgı. 7 Numide > Numídıe. 10 þinn ⌣ þessum. 15 Aula < Aulo. 22 senatores > ſenatoṡ. 23 senatores > ſenatı. 27 skapi > ſkapí motı ſkapı. 31 Mamilio > Manuluſ. Mamilius > Manulus.

Limetanus hèt einn voldugr maðr í Roma. hann talaði fyrir Rómverjum at þeir skyldu eptir leita af hverjum ráðum Jugurtha hafði hafnat boði höfðingja eða hverir fè höfðu þegit af honum eðr hverir eltaz ljetu frá vápnum sínum eðr hverir undan skutuz friðinum. þersum orðum var seint svarat af mörgum mönnum, því at margir kenndu hèr sitt mark á; heldr settu þeir til marga menn at stöðva þessa eptirleitan. nú urðu margir óttafullir af spurning Mamili. þá váro iij menn spurðir hvárt Marcus Skaurus hefði fè þegit þá er hann fór með Calpurnio. — — — enn Tiberius ok Gaius Gracchus vildu leiða alþýðuna í þat frelsi sem fyrr hafði hón haft, því at þat hafði mest afskeiðis gengit fyrir sakir friðar ok ágirni höfðingja er æigi vildu geyma lög ok rètt almúgans. því görðuz ber rangindi hinna tignu manna því at þeira frændr hinir fyrri höfðu mikit ríki unnit undir Rómverja í Serklandi. enn þeir menn er fyrir ámæli urðu hrædduz mjök ok leitaðu sèr trausts af frændum sínum ok vinum ok gengu síþan at Tiberio ok drápu hann, enn fám vetrum síðarr Markum Fulvium ok Gaium Gracchum. þeira ættmenn ero Gracchi kallaðir ok hefndu þeir meðr manndrápum á tignum mönnum ok görðu hvárir á öðrum stór-slög ok váro sumir drepnir en sumir brott reknir. enn ef segja skyldi alla þeira bardaga þá þryti fyrri stundina enn efnit. Enn eptir sætt Auli ok flótta hans manna þá váro Metellus ok Silanus gervir consules ok hlutuðu þeir um hèruð sín í millum ok hlaut Metellus at sækja til Numidiam. hann var harðr maðr ok þótt hann væri enginn vin sumra ríkissmanna þá var hann þó með lèttri frægð. enn síðan er hann gekk til þeirar tignar var hann linr ok 457

1 Limetanus > límítanus. 9 Mamili > manuli. 10 með Calpurnio > ı mot Calpneo. 11 Tiberius > liberíus. Gracchus = grakus. 20 Gracchum = Grakū. 21 Gracchi > cuí. 22 stór-slög >. 26 Silanus > fillanus. 28 enginn = engín.

samþykkr sínum kompánum bæði Silano ok svá öðrum, enn þó *lagði* hann mesta stund á at semja herinn til orrosto. hann trúði illa þeim forna her sem fyrr hafði verit í Africa. ok er Metellus hafði búit her sinn vestr í Africam með ráði höfðingja þá væntu allir góðs af honum því at hann var ekki reyndr at fègirni. enn er hann kom í Africam selr Spurius Albinus honum í hendr allan herinn ókunnan ok úvígligan ok óþolinn við háska ok erfiði ok þann sem djarfari var meðr tungu enn með hjarta: meirr var höfðingjum ván af þeim únáða ok áhyggju heldr enn liðsemdar. nú hugsar Metellus þat þó at stundin tæki at skemmaz til skiptingardaga þá vill hann þó heldr bíða bardaga ok semja riddara svá sem siðvenja hafði til verit hinna fyrri höfðingja ok ætlaði at svá mundu hvessaz hugir þeira. — enn í fyrstu er Albinus kom í Numidiam ok spurði ófarar hersins ok skömm bróður síns þá ætlaði hann at temja herinn ok berjaz. hann hèlt saman liðinu í herbúðum ok færði þær einar herbúðir er æigi mátti annan veg sakir vista. hann ljet halda vörðu eptir siðvenju ok ganga undir merkjum. leikarar ok trúðar váro margir í herinum enn þorparalýðr sá er þar var spillti ökrum manna ok fóro í þorpin ok ræntu fè enn börðu menn ok flest görðu þeir þat er ferligt var. — enn Metellus var æigi úkjænni at koma af herinum þersi úvenju enn í orrosto scálfri. hann skipaði at enginn skyldi leikari vera í herinum ok enginn skyldi þá selja soðinn mat eðr bakat brauð ok enginn þorpari skyldi hafa eyk nè þeónostumann hvárki í herbúðum nè fylkingum, enn öðrum mönnum setr hann þann skammt sem honum sýniz. hvern dag flutti hann herinn framm á leið ok jafnan at aptni lèt hann díki grafa umhverfis herbúðirnar. hann lèt ok gera traust virki svá sem úvinir hans væri hjá honum ok

1 Silano > ſıllano. 4 Africa = affrıca. 5, 7 Africam = affrıcam. 8 úvígligan ◡ óvígligan. (25, 26. 27 enginn = engın̄, engín.) 29 skammt ∽ skaı̄t.

hann ljet jafnan vörðu halda um nætr. hann skynjaði optaz scálfr um þá. jafnan fór hann meðr fylktu liði. Metellus var stundum í öndverðu liðinu enn stundum síðarst eðr hér ok hvar ok skynjaði um hvern lut ok hvar hverr ætti undir merki at vera því at jafnan var undir merkjum gengit. Rómverjar báru sjálfir vist ok vápn. ok á litilli stundu stöðvaði hann svá ókynni hersins, meðr erfiði enn æigi með refsingum, at hermenn treystuz ok styrktuz.

16. Frá Metello ok Jugurtha konungi. Enn er Jugurtha spyrr hvat Metellus hefz at þá ætlar hann at hann muni svá grandvarr sem hann var. nú óttaz Jugurtha ok nú hit fyrsta vill hann með sönnu upp gefaz ok sendi menn til Metellum með lítillátligum orðum biðjandi sér lífs ok griða ok sonum sínum frelsis, enn allt annat gefr hann í hans vald. enn meðr því at Metello var kunnig lausyrði Numidiemanna þá talar hann meðr sendimennina leyniliga ok lokkar sér hvern með fögrum orðum ok fégjöfum at þeir komi Jugurtha á hans fund með lífi en heldr dauðum enn æigi 'ok segit honum at hann man 'sættir fá ef hann kemr til mín'. fám dögum síðarr ferr Metellus með herinn í Numidiam: þat hérað var allt fullt með mönnum ok fénaði. hertogar ok aðrir ríkismenn fóro á mót Metello ok færðu honum hveiti ok aðra vist: þeir buðu honum alla sína þjónostu. enn æigi at síðr ferr hann svá varliga sem honum væri víss úfriðrinn: hann lèt halda njósnir langt í frá sér alla vega. Metellus var 458
í öndverðri fylkingh ok þar með valit lið fótgöngumanna ok bogmanna ok þeir menn sem slöngur höfðu. Gaius Marius var síðarst með riddara sveit. enn Jugurtha bjóz við mikilli slægð því at enginn maðr vissi hvárt hann vildi halda frið eðr æigi; æigi vissu þeir ok hvárt honum

---

8 erfiði > erıfıðı. 12 muni > muní æıgı. 16, 24 Metello > Metallo, metallo. (31 enginn = engín.)

var skaðvænna því at honum váro allir stıgar kunnigir ok mjök kjænn með orrosto. skammt frá veg þeim er Metellus fór var kastali sá er Vaga hèt: sá var einn fjölmennastr í Numidia: þangat sækja kaupmenn af ýmissum löndum ok mest af Italia. þagat vill Metellus fara ok vita at hann fái unnit staðinn því at þat var höfuðstaðr landsins. þeir fá nú unnit kastalann ok eptir þat ljet hann þangat flytja bæði vist ok herklæði ok ætlaði kastalann sèr til mikils traustz. enn at þessu görvu sendi Jugurtha menn með brèfum á fund Metelli at biðja sèr lífs ok griða ok sonum sínum ok bauð alla luti upp í hans vald. enn Metellus freistaði sendimanna með fègjöfum ok fortölum at blekkja þá sem hina fyrri at svíkja Jugurtham ok bað þá svá segja konungi at Metellus vill æigi níta handgöngu hans. ok er þeir koma til Jugurtha finnr konungrinn at Metellus setr ráð í móti öllum hans vælum. Jugurtha samnar nú her saman ok ferr leynistıgu nokkura á veg Metelli ok ætlar til samkeypiss við hann. þat var í þeim luta ríkissins er Adherbal hafði átt, xx mílur í frá á þeiri er "carpſes" heitir. á millum árinnar ok fjalls þers er þar var lá vegr manna Metelli. hann setr menn sína víða um heiðina í kjörr nökkur. Bomilcar setr hann yfir fíla sína ok suma sveitina fótgöngumanna ok kennir honum hversu hann skal með fara; en hann sjálfr var nærr staddr fjallshlíðinni með sína riddarasveit ok eggjar þá: biðr þá nú muna hina fyrri framgöngu 'ok munu vær 'annat hvárt hljóta þenna dag sigr æða bana'. Metellus var með sínu liði skammt frá her Jugurthe ok veit hann ekki til hans. Metellus sèr at hálsinn er undarliga vorðinn ok getr at líta hvar hestarnir gengu í runnunum því at þunnr var skógrinn ok svá lágr at æigi huldi hestana:

3 Vaga > vacka. 5 Italia > ýtalía (ꝏ ýtaľa). 19 Adherbal > aterbalem. 21 Metelli > metellıſ. 22 nökkur ⸗ nóckr. Bomilcar > Bolmíľkar. 30 runnunum > ʀuñínū. 31 æigi ⌣ ækki.

nú máttu þeir Metellus æigi seá þá enn þó vissi hann at umsátin var. þá setti Metellus sinn hinn hægra fylkingararm í móti umsátinni ok lætr hann þrífalt standa: hann skipar bogmönnum sínum þar fyrir. ok fór Metellus með liði síno enn sá kappi er Marius hèt fór síðarr með suman herinn.

17. Frá bardaga Jugurthe konungs ok Rómverja. capitulum. Jugurtha sèr nú at hin síðarri fylking Metelli var komin framm um allt lið hans; enn þat var æigi minna enn ij[a] mílna leið er lið Jugurtha konungs var. nú gengr Jugurtha konungr ofan af hálsinum ok tekr milli þeira ok fjallsins ok lætr kveða við lúðra með ópi ok atgangi ok vill vita ef Rómverja fylkingar svigna fyrir. Rómverjar tóku val við; enn síðan hófuz þeir undan ok skutu á þá ok særðu marga menn; enn æigi máttu þeir höggum við koma. svá höfðu Rómverjar hart kennt þeim at Numide flýðu æ undan hvar sem Rómverjar komu framm. ok þá hlupuz þeir á riðlum ok görðu hvárir öðrum mikit mannspell. enn Numide váro svá skjótir sem hundar: flýja þeir nú undan, enn Rómverjar drápu mart manna af þeim. Metellus sá nú at Rómverjar váro djarfir ok kjænir til orrosto, enn Numide váro hræddir ok þó góðir bogmenn, 459
ok tók nú at heimta herliðit saman í fjórar fylkingar (því at sumt liðit sat uppi í brekkunni ok hvílir sik þar). hann bað þá berjaz val ok drengiliga. Jugurtha konungr bað nú sína menn endrnýja orrostona ok duga mannliga. nú vissu Rómverjar aldri hvar hann mundi framm koma því at hann flýði þaðan ávallt sem þá kom hann framm enn hann kom þar jafnan framm sem sízt varði. — Bomilcar fór með fílana sem honum var boðit ok með bogmannaher.

---

10 lið > leid. 17, 19, 22 Numide > Numıdıe, Numídıe, numidıe. 23 tók > tº. 29 Bomilcar > Bolmílk. 30 bogmannaher ⊙ $134^{28}$.

hann sér hvar Rutilius fór framm til árinnar. Bomılcar ferr í mót Rutilio. Rutilius sér at reyk leggr upp á himininn, enn þeir sá æigi herinn fyrir skógum ok ætla fyrst at vera muni vindr. enn litlu síðarr urðu þeir varir við at úfriðr var ok taka þeir at vápnaz ok standa fyrir herbúðum sínum. enn er hinir komu runnu þeir at. verða Numide nú seinni í atlılaupinu þeir er með fílana fóro ok varð þeim æigi saman komit sem þurfti fyrir því at skógrinn var þröngr, enn Numidis var at fílunum mestr styrkr. ok sem fílarnir hvarfa um skóginn renna Rómverjar at þeim sem fastaz ok drepa nú hvern um þveran annan. dróz þá enn saman mikill flokkr Numidarum ok var nú mjök komit at nátt: heyra nú hvárir annarra lúðra ok heróp enn þó varð enginn bardaginn sakir náttmyrkrs. hælaz nú æigi síðr blauðir enn fræknir at val hafi framm gengit.

18. Frá Metello ok Jugurtha konungi. capitulum. Nú sitr Metellus í herbúðum hinar næstu iij nætr ok lætr binda sár sinna manna. hann þakkar mönnum sína fylgd ok gefr þeim gjafir er honum þóttu þers verðir ok nú sendir hann menn í Numidiam at njósna um ferðir Jugurthe konungs. verða þeir skjótt við þat varir at Jugurtha hefir liðsdrátt ok býz til bardaga. Metellum grunar nú at Jugurtha muni enn berjaz vilja. Rómverjar spyrja ok hvat Metellus hefz at ok þikkir þeim þat feginsaga er hann hefir tamit herinn eptir siðvenju hinna fyrri höfðingja. ok er þeir höfðu þetta sannfrétt þá offra þeir fórnir goðunum í Rómaborg því at þeir höfðu áðr verit mjök ræddir um þenna úfrið. Jugurtha konungr njósnar enn um ef Metellus sendir nokkura menn frá herinum ok ætlar þegar at veita þeim áhlaup. stundum ljóp hann á Metellum, enn

1 Bomilcar > Bolmıſk̄. 6 runnu < runnuz. 7 Numide > numídıe. 9 Numidis > Numídíȷs. 12 Numidarum > numídıorū. (14 enginn = engıṅ.) 17 Metello > Metellū.

stundum á Marium, stundum á þá er eptir fóro: enn þegar við þeim var snúiz þá flýðu þeir því at þeir váro svá skjótir at enginn hundr nè maðr tók þá. litlu síðarr verðr Jugurtha varr við at Marius ferr til vistakaupa í eitt hèrað er heitir "ȷtaron". Jugurtha ferr nú þangat með miklu herliði. enn er Rómverjar verða þessa varir hlaupa þeir í borgarhliðin ok verjaz þaðan. ok sem bardaginn tekz þá eggjar Jugurtha borgarmennina at þeir skulo sláz á bak Rómverjum 'ok ef þèr gerit svá þá freálsit þèr alla 'oss'. enn þat þorðu borgarmenn með öngu móti. nú gerir Marius svá harða hríð at allir runnu fyrir honum — — — til Zamam. þersi borg stóð á slèttum ok var meira vígi í múrinum enn í grundvelli borgarinnar. í þessi borg var gnótt manna, vista ok vápna. Metellus setz um borgina með her sinn. hann setr höfðingja yfir hver d manna. þeir sækja nú fast at borginni með alls kyns vígvælum. enn borgarmenn færðu ofan á þá grjót ok helltu þar með biki ok brennusteini ok skutu á þá logandi staurum. margir menn urðu ok særðir með handskoti ok öðrum skotum ok jafn-mikill háski var þeim er nærr gengu sem hinum er fjarri váro. enn þó skilduz þá deigir frá dugandis 460 mönnum.

19. Frá bardaga Jugurtha konungs ok Rómverja. Á þeim tíma er sem mestr var bardaginn við Zamam kemr þar konungrinn Jugurtha með fylktu liði sínu á þá úvara er geymdu borgarhliðanna. Jugurtha hljóp þegar á þá ok braut virkisshliðit ok gekk inn í herbúðirnar. tóku þá sumir Rómverjar frá enn sumir dugðu. var þar mart manna drepit ok sært. enn xl af þessum fjölda ljópu upp á haugh einn ok vörðuz svá at hverr af Numidis sem á þeira fund kom þá dó skjótt. enn er Metellus berst sem

1 fóro > v̊. (3 enginn = engīn.) 12 Zamam > tamañíam. 23 Jugurtha > Jucurto. 24 Zamam > tamañíam. 29 xl > lx́. fjölda +. 30 Numidis > Numıdıȷs.

djarfligaz þá sèr hann á bak sèr flótta sinna manna. hann sendi nú til herbúða Gaium Marium með sínar sveitir ok bað þá hjálpa Rómverjum svá at þeir yrði æigi sigraðir. Marius gerir skjótt þetta boð. finnr Jugurtha þá æigi fyrr enn herrinn kemr at þeim, ok varð þeim seint at hlaupa yfir díkit. taka nú undan hverr sem mátti. sumir váro drepnir í díkinu enn sumir ljópu millum herbúðanna í þröngina ok váro þar drepnir. enn allir þeir sem lífit þágu flýðu með Jugurtha konungi. Metellus hvarf frá borginni þegar er náttaði ok fór þá til herbúða sinna. ok um daginn eptir skipaði hann herinum þar fyrir herbúðirnar sem á var laupit ok skipti höfðingjum til at gjeta hliðanna. en hann ferr til borgarinnar ok berst þar. enn annan dag eptir veitir Jugurtha áhlaup til herbúðanna ok verðr þar snarpr bardagi. Metellus sækir fast at borginni ok svá váro hans menn ákafir at þeir váro gjarnari at særa aðra enn at hlífa sèr. enn þá er nokkut hlè varð á bardaganum þá sá borgarmenn hvar riddararnir börðuz við herbúðirnar. þá glödduz þeir mjök ok þóttuz vita at þar var konungr þeira. ok er Marius sá gleði þeira lèt hann minnka sóknina ok lèt þá skynja hvat er þeim lysti. síðan lèt hann bera stiga at borginni ok gekk þar upp með marga menn. enn er borgarmenn sá þetta bera þeir á þá stórgrjót ok brutu stigana: váro þar sumir lamdir enn sumir drepnir ok snöru við þat frá. Metellus sèr nú at þat var ekki ráð at sitja lengr um þersa borg ok svá þat at hann kemr öngum bardögum á við Jugurtham nema með áhlaupum. sneri hann nú frá borginni ok setr sína menn í aðrar borgir er hann hafði fyrr unnit. hann sendi ok menn til Bomilcar er mestr trúnaðarmaðr var Jugurthe með miklum fègjöfum at færa honum hann annat hvárt lífs eðr dauðan. Metellus fær skjótt snúit hans lyndi því at hann var bæði

2 sendi > ſneríz. 10 náttaði > mornadí. 13-14 annan dag eptir <. 30 Bomilcar > bolmíſk.

áhlýðinn ok svikmall ok því tekr hann með þeim orðsendingum. ok einn tíma talar hann með Jugurtham konung ok spurði hvárt honum sýndiz æigi ráð at hann gjæfiz upp í vald Rómverja ‘ok hafit þèr nú fengit úsigr í mörgum ‘orrostom ok mart fólk drepit ok hertekit fyrir yðr ok ‘eytt víða landit’. konungr hlýðir á fortölur hans ok sendir menn til Metellum ok vill gefaz í hans vald. Metellus stefnir þá at sèr höfðingjum sínum ok hinum beztum mönnum. var nú þat ráðit at Jugurtha skal senda Metello M punda silfrs, ef hann vill þá sættaz, ok alla þá fíla, sem hann á, vápn ok hesta. þetta görir Jugurtha í stað. Metellus býðr öllum grið ok frið þeim er honum á hönd vilja ganga ok ero þeir allir leiddir bundnir á hans fund í Provinciam enn sumir flýðu í Mauritaniam til Bocchum konungs ok vildu æigi ganga á hönd Metelli. — — — nú sèr Jugurtha sik ræntan mönnum ok vápnum ok miklu fè. hann hugsar nú sinn skaða. svá minniz hann ok hvern skaða hann hefir gört Rómverjum ok frestar fyrir þann 461 ótta marga daga at ganga á hönd Metello. enn æigi treystiz Jugurtha at halda bardaga ok ljet fallaz ór konungdóminum ok í þrældóm ok þóttiz nú ósynju eytt hafa miklum styrk er hann hafði þá upp gefit: ræðr þat ór at ganga æigi á hönd ok vill halda upp orrosto eptir öllu sínu megni.

20. Frá Metello consule ok Gaius. Nú berr þat til tiðinda í Róm at þá er at skiptingardögum kom tóko þeir Metellum til consulem, skal hann ok hafa einn allt Numidiam. Gaius Marius fór þenna tíma í þann stað er Utica heitir ok færir þar guðunum fórnir ok leitar eptir um örlög sín. en guðin sögðu honum at yfir hann skyldi ganga mart ok ógurligt ok mjök ágjætligir lutir ok hann

10 M = Ḿ (< cc þúsunda). 14 Provinciam > numanciam. Mauritaniam > mauríta͞níam. Bocchum = bochū. 25 Metello consule > Metellū ɔſulē. 29 Utica > vtuc.

mundi langt um framm verða alla sína ættmenn. Gaius var ekki af miklum ættum. hann styrkiz nú mikit af fyrirheitum guðanna ok treystir þegar sem mest á allar hamingjuraunir ok ganga honum allir lutir farsælliga. honum kom ok í hug at beiðaz at verða consul, þóttiz hann til þers vera val fallinn bæði fyrir sakir vits ok allrar atgörvi. hann var ok mikill bardagamaðr ok hinn spakasti at viti. hann þoldi vel vás ok erfiði ok á allar íþróttir var hann hinn röskvasti. ok þegar hann hafði fengit riddaranafn af Rómverjum þá görðiz hann öllum hugþekkr bæði sakir mildi ok frækníeiks. enn æigi hafði hann enn áræði til borit at beiðaz at verða consul. enn nú sakir þers at guðin höfðu honum vísat til þeirar tignar þá vill hann ok freista at hann fái hana: biðr nú Metellum orlofs at fara til Róms. enn þótt Metellus hefði ærinn manndóm þá hafði hann þó þann löst sem flestir tignir menn hafa at hann vildi seálfan sik mestan ok mælti 'ek vil minna 'þik á at þú hefir æigi burði til at beiðaz slíks'. nú reiddiz Marius ok þótti Metellus forsmá sik: lastar nú jafnan Metellum fyrir höfðingjum ok hann skyldi löngu hafa unnit Jugurtham 'enn nú dregr hann einart undan sakir 'atferðarleysis Metelli'. enn mörgum þóttu hans orð sannlig vera. í herinum var sá maðr er hèt Gauda son Mastanabalis sonar Masinisse. þenna hafði Micipsa annan til arfs leitt ok var sjá drjúgum hálf-ærr. hann beiddiz at sitja í hásæti hjá Metello en hann vildi þat með öngu móti. þenna mann eggjar Marius til at hrópa Metellum, enn sagði hann vera vel til konungs fallinn ef Jugurtha væri drepinn enn þat mundi skjótt verða ef hann yrði consul. Gauda gerir sem hann var beðinn. Marius lokkar ok Rómverja til at skrifa til Rómaborgar sakir Metelli enn

23 Gauda > Gaıda. 23-24 Mastanabalis > Manaſtabıle. 24 Masinisse > Maſſímíſſe. Micipsa > Mıſſepſa. 28 sagði > ſegdı. 30 Gauda > Gaída.

beiddiz at Marius væri görr consul. þetta líkaði mörgum val ok fluttu hans mál því at lýðrinn var gjarn til nýjungarinnar. Jugurtha býz nú til bardaga ok eflir borgir sínar at veggjum ok múrum. hann lætr ok búa vápn sín ok kaupir hvar sem hann kann at fá ok vildi fyrir hvern mun hrinda af sèr þessum úfriði. hann freistar enn með fèboðum þeira er í borgunum sitja ok eflir nú sinn styrk eptir öllum mætti.

21. Frá Jugurtha konungi ok Rómverjom. capitulum. Sú borg er Vaga heitir gekk fyrst undir Rómverja. til hennar ferr Jugurtha með her sinn ok býðr borgarmönnum fè. enn þó at þeir væri þjónostumenn Rómverja þá var þeim þó vel við Jugurtham ok ljetu lokkaz ok sóru honum 462 trúnaðareiða. ok hinn þriðja dag frá því er eiðarnir váro svarðir þá var heilagt haldit um allt Numidiam. Numide bjóða þá til sín þeim er kastalann byggja ok svá sjálfum greifanum er Turpilius Silanus hèt, ok á þessu boði váro allir Rómverjar drepnir hvar sem staddir váro utan Turpilius einn. enn alþýðan er vissi þetta ráð ... þótti sá fremstr er verst gat gert Rómverjum. enn rómverskir riddarar er sá þenna atburð vissu æigi hvert þeir skyldu flýja. svá váro Numide grimmir at þeir ljetu öngvan lífs undan ganga af Rómverjum nema Turpilium. enn þat er æigi greint með hverjum hætti hann komz undan, enn hitt er skrifat at honum þótti betra ljótt líf með löngu ámæli enn deyja sæmiliga með sínum kompánum. ok sem Metellus spyrr þetta verðr hann bæði hryggr ok reiðr. um kveldit eptir sólarfall kallar hann út ór herbúðum allt þat lið er með honum hafði verit um vetrinn: enn þat váro $\overline{\text{vı}}$ ok

9 Jugurtha > Jucurto. 10 Vaga > vacka. 15 Numide (~ Numverjar ⊙ 595 A: ener num uerſku haofðıngıar þeſſer ſkıllder uoru numuerſker) > Romverıar. 17 Tùrpilius Silanus > tıpullíus ſıluanus. á (= a) < at. 18-19 Turpilius > tıpullıus. 22 Numide > Numídıe. 23 Turpilium > tıpullíum. 29 $\overline{\text{vı}}$ ɔ: 6000.

dc lx ok vi menn; hann hafði ok Numidas með sèr þá sem honum á hönd höfðu gengit. Metellus bað þá búaz sem skjótaz ok fóro alla náttina sem mest máttu þeir, ok um morgininn koma þeir á nökkura litla hæð. Metellus talar þá fyrir liðinu ok biðr þá vel framm ganga. hann skipar nú riddörum sínum til atgöngu: lætr Numidas fyrst ríða ok þar næst gangandi menn ok hafa ekki merki fyrr enn hann býðr þeim. borgarmenn ætla aptr at lúka borgarhliðum. enn Metellus ok hans riddarar geta fyrri tekit hliðin, slá nú upp merkjum ok æpa heróp, drepa nú alla utan þá er flýðu í heilög hof undan — einn veg váro drepnir karlar sem konur ok svá börn enn fèit allt tekit at herfangi. Turpilius greindi nú svikin öll ok hversu hans kompánar váro drepnir. enn at síðarstu var greifinn hálshöggvinn ok var hann ættaðr af því hèraði er Latium hèt.

22. Hèr segir frá Jugurtha konungi ok Rómverjum. capitulum. þat er sagt at Jugurtha hafði grun á Bomilcar frænda sínum fyrir þat er hann hafði eggjað hann handgöngu við Rómverja. enn Bomilcar sat um konung bæði nátt ok dag því at hann hugsaði at hann mundi sæta afarkostum ef hann kjæmi æigi fyrri sínum svikum framm. enn þessi svikræði vóxu honum í augu ok tók þann mann til samlags með sèr er Nabdalsa hèt, ágjætan mann ok vinsælan við alþýðu: hann var ok fyrir herinum jafnan er Jugurtha var æigi við. þeir kveða á með sèr hvern dag þeir skyldu svíkja konunginn. ok er þeir finnaz hræddiz Nabdalsa glæpinn. enn Bomilcar harmar í hug sèr er hann kom æigi svikunum framm. hann sendi nú brèf Nabdalsa ok bað hann æigi vera svá hverflyndan. enn er brèfin komu var Nabdalsa kominn í sæng. hann gat æigi

1 dc lx´ > d´. xl. Numidas > Numıdıes. 6 Numidas > Numídıe. 13 Turpilius > Tıpullíus. 15-16 Latium > laıcto ⌣ laıcıo. 17 Jugurtha > Jucurto. 18, 20, 28 Bomilcar > bolmıſkar, Bolmıſkar.

út lesit fyrir svefni er mjök sótti at honum. einn hans þeónostumaðr· gekk í því inn í tjaldit ok tók upp brèfit er niðr var fallit ok las. ok sem hann skildi at konunginum váro þersi svik hugut fór hann þegar ok sagði honum þetta vælræði. ok sem konungrinn vissi þetta lèt hann drepa þá menn alla er í þersum svikum höfðu verit með Bomilcar ok Nabdalsa ok svá sjálfa þá ok leiddi svá öðrum at svíkja sinn lánardrottin. þaðan af var Jugurtha aldri óttalauss svá at náliga var hann hálf-ærr fyrir hræzlu 463
sakir.

23. Frá Metello ok Mario ok Jugurtha konungi. capitulum. Metellus sèr nú at þrotin var sú ván at Bomilcar mundi Jugurtham af ráða. gefr hann nú orlof Mario at flytja sitt mál við Rómverja. enn þeir tóku hvárstveggja orðum vel. enn þó fannz þat á at allir váro meirr sinnaðir Metello enn Mario utan sá höfðingi er hèt Titus Mancinus Manlius. ok þat varð loksins at hann rèð með rangindum ok þrældóm at Mario var gefit consulatus ok Numidia til stríðs móti Jugurtha konungi. enn þagat hafði áðr verit ætlaðr sá consul er hèt Marcus Decius Paulus. Nú er frá því at segja at Jugurtha hefir týnt flestum hinum beztum sínum höfðingjum: suma hefir hann seálfr látit drepa, enn sumir flýja fyrir ótta sakir frá honum því at enginn vissi hvárt hann vildi flýja eða berjaz. enn hvernveg sem hann fór þá var honum í móti skapi. Metellus flytr nú her sinn í mót Jugurtha. ok þegar er þeir finnaz tekz þar orrosta hin snarpasta ok sú fylking sem Jugurtha hafði tók val við, enn allir aðrir flýðu. enn er konungr sèr þetta þá flýr hann ok treystuz Numide meirr fótum enn vápnum. þeir flýja í eina sterka borg er Thala heitir.

7 Bomilcar > bolmıſkar. 11 Jugurtha > Jugurto. 12 Bomilcar > bolmíſkar. 13 ráða = R̊. 16 Mancinus > man̄íús. 18 consulatus > ɔſulatū. 23 enginn = engín. 29 Numide > Numıdıe. 30 Thala = thalá.

Metellus sótti eptir þeim mikit torleiði ok margar torfærur landsins ok lèt þar í marga röskva drengi. enn þó um síðir kemr hann framm til borgarinnar Thale at þeim úvörum. ok er Jugurtha vissi þetta treystiz hann æigi at halda bardaga við Rómverja ok flýði um náttina ór borginni með allt þat fè er hann komz með ok hafði hvergi haldanda hug utan fór sem einn kaupmaðr því at hann trúði illa landsmönnum ok ætlaði svá at forðaz óttann at enginn skyldi vita hans náttstað. nú sem Metellus sèr at borgarmenn ero búnir til bardaga leggr hann til með sinn her ok sitr um borgina xl daga. hann lætr gera til hjól með járn ok hleypir því at borginni ok brýtr svá veggina. ok er höfðingjar borgarinnar sá hana unna fara þeir í konungshallina ok bjóða þangat öllu stórmenne ok gera sik þar víndrukkna, bera síðan at eld ok brenna sik þar inni í hallinni. enn Metellus náir borginni ok fær hann þar hit mesta herfang. setr hann nú sína menn yfir borgina.

24. Frá Metello ok hans mönnum ok af Jugurtha konungi. Á þessum tíma komu sendimenn til Metellum ór þeiri borg er Leptis heitir ok báðu hann fá sèr til landvarnar nokkurn höfðingja í móti víkingi þeim er herjaði á þá ok Amilcar hèt. þersi borg gekk undir Rómverja þá er Lucius Calpurnius stýrði Rómverjaher. Metellus sendi nú til þeirar borgar iiij flokka ok þann höfðingja fyrir er Gai*us* hèt. þersi borg var fyrst gör af Sidoniis ok var þar góðr friðr milli borganna. tveir firðir ganga inn sínum megin staðarins hvárr. þeir heita Sirtes. þat er yzt í Africa. í þenna tíma váro Carthagoborgar menn ríkastir í Africa. Cirenenses-menn váro áðr ríkastir. þeir áttu miklar deilur um ríkit, Carthagomenn ok

7 hug = huG (∽ hus). 8 enginn = engín. 18 Jugurtha > JuGurto. 20 Leptis > lepıs. 22 Amilcar > almıkar. 23 Calpurnius > Cal$\overset{2}{\text{p}}$neus. 26 Sidoniis > ſýdonıs. 27 Sirtes > Cırtes ⌣ Circes. 28 Africa = affrıca. Carthago = cartago. 29 Africa = affrıca. Cirenenses > Cırentes. 30 Carthago = Cartago.

Cirenenses ok váro með þeim miklir bardagar bæði á sjó ok á landi ok höfðu ymsir sigr. enn síðan sættuz þeir ok skiptu með sèr ríkinu ok hlutu Carthagomenn meira enn Cirenenses minna. Enn er Jugurtha hafði látit borgina Thalam þá sá hann lítinn sinn styrk at rísa í 464
móti Metello. flýði hann þá til þeira þjóða er Getulì heita. þeir váro grimmir ok vissu lítit skyn á Rómverjum. þeim skipaði Jugurtha undir merki sitt. hann gaf fè vinum ok frændum Bocchi konungs til liðveizlu ok hann sjálfr ferr til hans ok biðr hann liðsinnis á móti Rómverjum ok tjár fyrir honum allan vanda síns máls. Jugurtha konungr hafði áðr átt orrosto við Bocchum konung. ok nú búaz konungarnir til orrosto móti Rómverjum ok ætla at sækja kastalann Cirtam. enn Metellus flýr æigi ok æigi ferr hann í móti heldr býr hann her sinn til orrosto ok ætlar at berjaz í móti Numidis ok setr herbúðir sínar skammt frá kastalanum. Metellus spyrr nú at Marius hefir fengit consulatum ok fær honum þetta svá mikils at hann leggz náliga í rekkju ok fyrir þá sök mest at þá var drjúgum unninn sigrinn. enn nú þótti honum illt at hætta liði sínu í háska ok vinna sigr fyrir aðra. hann sendir nú menn til Bocchum konungs ok bað hann vera sinn vin ok annarra Rómverja. Bocchus konungr tók þat með þökkum ok sagðiz gjarna vildu vera vin Rómverja. líðr nú svá framm stundin.

25. Frá Marius ok hans fortölum. Nú hafði Marius tekit tignarnafn, sem fyrr var sagt, meirr eptir ákafa lýðsins enn rèttindum. hann var harðr maðr ok grimmr ok kveðz þetta tignarnafn hafa kúgat af Rómverjum öllum ok marga luti aðra mælti hann til þeira grimmliga. hann

1 Cirenenses > cirentė. 3 Carthago = Cartago. 4 Cirenenses > cirenſes. 6 Getuli > Getule. 9 Bocchi = bochı. liðveizlu = lıd ueítzlu. 12 Bocchum = bochum. 13 ætla > ætlar. 14 Cirtam ∽ circam. 16 Numidis > Numídíjs. 22 Bocchum = bochũ. 23 Bocchus = Bochus.

býr nú her sinn út í Numidiam á hendr Jugurtha konungi. margir váro fúsir til at fylgja Mario einkum fyrir sakir örleika hans ok allrar annarrar atgörvi. þá var skoraðr herrinn ok reiknað manntal. hann kvaddi þá húsþings ok talaði fyrir lýðnum á þersa leið 'heyrit þèr hinir kurteisu Romani. margir 'biðja sèr tignarnafna enn ero þó þorparar at eins eðr ráns-'menn. þat byrjar þeim er höfðingjar vilja vera at vera röskir 'af fènu enn grimmir sínum úvinum. vær höfum nú yfrit 'herlið ok skyldum vær þers njóta. hafa Rómverjar ok jafnan 'verit grimmir ok snarpir áræðiss. látum Numidas þat segja 'eiga at vær kunnim vel at berjaz ok ætlum oss sigrinn 'enn æigi þeim er eptir oss koma. miðlum nú ekki várum 'úvinum nè eitt af várri sæmd. enn ærit langt er nú talat 'fyrir svá röskum mönnum sem þèr erot'. ok sem Marius hefir lokit sínu örindi þá fann hann at hugir manna höfðu harðnað ok æ sem hvatligaz býz hann í Numidiam. ok er hann kom fekk Publius Rutilius honum í hendr þann her sem haft hafði Metellus. enn Marius setr þann höfðingja yfir herinn er Aulus Manlius Crassus hèt. Metellus hafþi brott flýit ór augsýn Marii ok vildi æigi sjá þá hluti er eyrun mega æigi bera at heyra. Marius fór "ıeítt h̃ad er vtıka heıt⁷" ok lèt þar ræna fè öllu enn drepa hvert mannsbarn. Enn er Metellus kom til Rómaborgar var þar val við honum tekit enn þó æigi svá sem hann hugði, ok er niðr hafði lagz sú hin mikla öfund er þeir höfðu haft til hans fyrir atflutning Marii þá var hann kjærr öllum mönnum bæði ríkum ok fátækum. Marius geymdi vel sinnar sveitar ok stillir hina hörðu enn herðir hina blautu. hann njósnar um ferðir Jugurthe konungs ok hans manna. reyndiz þat jafnan at hann var bæði vitr ok

10 Numidas > numídıe (∽ nunníðıe). 17 Publius Rutilius > puplíus vtılí'. 19 Aulus > paul'.

harðdrægr. Jugurtha ok Getuli veita opt Rómverjum stórar árásir. ok við kastalann Cirta berjaz þeir Marius 465 ok konungrinn Jugurtha ok komz Jugurtha þar svá nauðuliga undan at hann lèt öll vápn sín ok var þá enginn kostr á at berjaz við hann. ok eptir þenna hinn fagra sigr ferr Marius til þeirar borgar er "vacca" heitir, er ríkuz var ok fjölmennuz í öllu Numidia, ok vann hana. hann vann ok margar borgir aðrar ok síðan sneri hann til þess kastala er Capsa heitir. hann var torsóttligr. þenna kastala reisti Hercules Libis. þangat var mikit torleiði xxx mílna ok hlífði þat mest at menn þorðu varla fyrir ormum þeim sem þar ero at sækja kastalann. þar náði ok æigi vatni. enn þat er "natura" höggormsins at vera æ því grimmari sem hann þyrstir meirr.

26. Hèr segir af Marius ok Rómverjom. Marius girniz nú mjök til at vinna þenna kastala því at hann var klókr maðr til bardaga. þessi kastali var sterkari enn borgin Thala er Metellus hafði unnit. Marius leitar nú til með öllum vælum ok um síðir fekk hann unnit kastalann ok lèt drepa þar náliga hvert mannsbarn enn tók of fjár í gulli ok í brenndu silfri ok dýrðligum klæðum. verðr hann nú stórum ágjætr af þersum sigri er hann hafði unnit svá sterkan stað at enginn fekk unnit áðr enn hann. ok eptir þenna sigr vann Marius marga kastala þá sem æigi váro upp gefnir; sumir váro brenndir. svá mikil hræzla stóð hans úvinum af honum at allir óttaðuz hans nafn. hann ferr nú til þess staðar er æigi var auðveldligri at vinna enn Capsa. skammt frá ánni Mulucha er skilr ríki konunganna Jugurthe ok Bocchi er fjall eitt ok veggr hárr umhverfiss enn slèttur miklar um utan ok var sterkara vígi fjallit seálft enn nökkurr borgarveggr

---

2 Cirta ∽ circa. 4 enginn = engín. 10 Libis (Libys) > libies. 21 of = óf. 23 enginn = engín. 28 Mulucha > mucka. 29 Bocchi = bochi.

því at þat var furðuliga hátt ok einn veg mátti at komaz. þetta vígi vildi Marius gjarna vinna því at hann vissi at þar mundu vera miklar fėhirzlur Jugurthe konungs. enn borgarmenn höfðu fyrir gnótt vápna ok vista. Rómverjar gerðu sėr víða fleka ok báru upp í þröngina. enn borgarmenn veltu ofan á þá stóru grjóti ok logandi eikisúlum ok stóð þar Rómverjum af svá mikill háski at sumir váro lamdir enn sumir drepnir sumir flýðu frá í brott. Marius færr nú áhyggju marga daga hvárt hann skyldi frá hverfa eða treysta enn meirr á hamingjuna. í því bili kom þar einn riddari "er láger h^t". hann hafði komit til hans í Numidia. hann fór annan veg frá herinum til árinnar at taka vatn. hann sėr í berginu at þar váro steinar sem triza væri gör. hann gengr stein af steini upp í bergit ok sėr hann þá víða ok var ekki til handafestis en hann vildi gjarna fara lengra. hann sėr millum steinanna hvar trė eitt stóð, er ilex heitir, mikit ok kvíslótt ok hanga sumar limarnar niðr enn sumar greinaz út í frá ij megin. hann fær náð limunum ok skreiðiz svá ýmiz upp með berginu eðr með trėnu. hann komz upp á bergit ok sá at þat var slėtt ofan ‚enn Numide váro allir öðrum megin á kastalanum ok gá ekki um þetta. nú ferr hann hinn sama veg aptr til liðs Marii ok segir honum hversu háttað var. ok þegar sem Marius vissi þetta þá velr hann af liði sínu "·v̄·" lúðrsveina ok setr fyrir þann "hỏfdíngia "er liges h^t" ok bað þá alla hlýða hans ráðum. "Liges" bað þá alla vera skólausa ok hattlausa enn hafa skjöld ljettan ok númverskan af húðum görvan á millum herða ok þar með sverð. "Liges" tók í móti þeim sem úfræknari váro ok bar vápn þeira ok önnur plögg. ok er þeir kómu

---

3 fėhirzlur = fehirdzlur. Jugurthe > ju^2gthi. 17 ilex > ylex. 21 Numide > numidie. 22 á kastalanum > árinar. 25 ·v̄· (ɔ: 5000) < v. 28 númverskan > romuſkan (⊙ 141[15])
30 bar > baru.

upp á bergit þá setja þeir upp merki sitt ok slá upp 466 herópi miklu. enn Numide vita æigi hverju gegndi er þeir sá Rómverja nær alla laupa þar vápnaða: slær nú ótta á þá. enn Marius sækir nú at ákafliga ok getr brotit allar vælar þeira: komaz þeir svá upp á bergit ok drepa hvert mannsbarn, einn veg konur sem karla ok svá börn. Marius verðr nú af þessu verki stórum ágjætr er hann hafði unnit svá sterkan stað sem enginn hafði sik fyrr til borit. hann tók þar ok mikit herfang í gulli ok brenndu sylfri ok dýrligum klæðum. Ok í þenna tíma er Marius hafði unnit kastalann kom af Róm sá maðr er hét Lucius Silla. Marius hafði sent hann at samna liði af því héraði er Latium heitir. Lucius var af hinum beztum ættum í Róm, enn þó váro hans ættmenn flestir drepnir fyrir sakir öfundar annarra manna. Lucius var góðr klerkr bæði á látínu ok á girzku. hann þoldi val vökur ok erfiði. hann hafði þá nafnbót er questor heita. öll ráð hans sneruz honum til hamingju þar til er hann hélt bardagha við Rómverja sjálfa. hann var djúpsær ok vitr ok undirhyggjumaðr mikill. enn þá luti sem hann hefir gert veit ek æigi hvárt meirr er skammsamligt at heyra á eðr frá at segja. ok er hann kom í Africam þá er hann úkunnr flestum mönnum þar ok nýrr til orrosto. hann var þegar áhyggjufullr um sína sýslu ok atferð. enn ekki var þat hans "natura" sem margir ríkir menn gera at ámæla hertogum eðr öðrum höfðingjum. af slíkum íþróttum varð hann kjærr Mario ok öllum mönnum öðrum.

27. Frá bardaga Marius ok Jugurtha konungs. Frá því er nú at segja at Jugurtha hefir látit kastalann Capsam. hann skrifar til Bocchum konungs ok biðr hann liðveizlu

---

2 Numide > numídıe. 8 enginn = engín. 13 Latium > laıto ⌣ laıco. 17 questor (quaestor) = queſtʳ. heita < heitir· 22 Africam = affrıcam. 28 Jugurtha > Jugurto. 29 Capsam > kapſan. 30 Bocchum = bochū. liðveizlu = lıðueítzlu.

ok heitr honum þriðjungi af Numidiaríki ef hann vildi í móti rísa. Bocchus konungr verðr enn lokkaðr til með fègjöfum ok samnar nú miklum her Maurorum. ok sem konungarnir hittaz ráðaz þeir í móti Mario. Mauri, Numide ok Getuli fylkja ekki, heldr hlaupa þeir riðlum á þá ok berjaz sem ákafaz. enn Rómverjar hinir fornu ok hinir nýju taka röskliga við ok stóðu fast ok var mikit mannfall í hvárratveggju liði. váro Rómverjar hálfu færi enn þó berjaz þeir röskliga. verða Rómverjar þó nökkut forviða ok hopa undan á einn hól ok tóku þaðan við röskliga. var nú hin ákafasta orrosta ok fèllu nú margir Mauri ok Getuli, enn Numide flýðu nökkurir. enn þó sömnuðuz saman margir Mauri ok gera enn mikla atsókn. þeir váro grimmir ok miklir bardagamenn. fellr nú mart manna af Rómverjum. enn meðr því at þá gerðiz myrkt af nátt þá urðu þeir at hetta hvárt er þeir vildu eðr æigi ok fóro Numide nú til herbúða sinna ok ljetu kynda stóra elda í herbúðunum. myrkt var mjök úti af nátt. Marius sèr nú til eldanna ok gleðz nokkut í huginum. hann biðr alla sína menn vápnaz ok svá gera þeir: sækja nú at með ópi ok eggjan. enn Numide váro ölmóðir ok vöknuðu æigi við góðan draum ok váro þeir drepnir nær allir enn þeir flýðu sem lífit þágu. Marius tók þar mikit herfang í gulli ok silfri ok fásènum dýrgripum. enn Jugurtha konungr flýði á eyðimerkr ok forðaðiz svá Rómverja. Marius varð af þessi orrosto stórum ágjætr er hann sigraði svá mikinn her með fámenni, því at í öngum bardaga varð jafn-mikit
467 mannfall þeim er í Numidia hafði bariz verit. Nú ferr Marius til sjóborga þeira er hann skyldi hafa vetrsetu í. Marius stýrði val herinum bæði í þeim orrostom er hann hèlt við Jugurtham ok mörgum öðrum. hann sparði æigi

---

2 Bocchus = Boch'. 4, 12, 16, 21 Numide > Numídíe. numidie, numídie. 28 þeim > þeim.

við sik erfiði, vás ok vökur er hann var við tamdr um framm aðra menn.

28. Frá orrosto Marii ok Jugurthe konungs. Nú kom Marius at þeim kastala er Cirta heitir ok fyrr var getit. þat var iiij náttum eptir bardagann. þá komu njósnarmenn til hans er sögðu honum með sannindum at Jugurtha ok Bocchus konungr ætlaðu at halda meðr hann orrosto ok at þeir höfðu nú saman dregit mikinn her Maurorum, Numidarum ok Getulorum manna ok mundi at morni þar koma. ok er Marius spurði þetta býr hann herinn til orrosto ok biðr alla menn liggja með vápnum um náttina. ok um morgininn er vígljóst var vorðit kveða við lúðrar: ríða nú Mauri framm ok þar á Rómverja sem Lucius Silla var fyrir með riddaraliðit. þar mátti seá mörg stór högg er þessi hinn ungi maðr Silla veitir ok hans kompánar. enn Mauri váro miklu fleiri. þar var ok sjálfr konungrinn Bocchus. Mauri váro ok góðir bogmenn ok þar af fá menn Silla mikinn háska. á vinstra fylkingararm Rómverja sækja Getuli. þeir váro miklir bardagamenn ok vel vápnaðir. fyrir þeim var sá höfðingi er Volux hèt; hann var son Bocchi konungs laungetinn. Numide með konunginum Jugurtha sóttu þar at sem fyrir var sjálfr Marius consul með meginherinn. verðr nú hin ákafasta orrosta með miklum vápnaburð ok skjótum dauða margra ágjætra manna. Silla gekk hart framm svá at fylkingar Bocchi konungs bognuðu fyrir. ok sem þetta sèr konungrinn Jugurtha ríðr hann framm á Rómverja ok höggr niðr á ij hendr menn ok hesta. hann kallar er hann sá sína menn flýja undan Rómverjum ok Silla 'ófyrirsynju flýit þèr því 'at meðr þessu mínu sverði fellda ek Marium'. hann hèlt

3 Marii > Mario. 7 Bocchus = bochus. 9 Numidarum > Numídiorū. 17 Bocchus = boch'. 20 Volux > valıng̃ ⌣ valmg̃. 21 Bocchi = bochı. Numide > Numıdıe. 25 Bocchi = bochı.

upp alblóðgu sverðinu: meðr því hafði hann drepit einn höfðingja Rómverja er hèt Marienus. viðr þessi orð Jugurthe dvínaði atsókn Rómverja enn Mauri ok Getuli dirfðuz í atsókninni ok riðu framm á vinstra fylkingararm Rómverja. enn þar var sá höfðingi fyrir er hèt Aulus Manlius. svá dirfðuz Numide í atsókninni at Rómverjar flýðu áðr enn sjálfr Marius kom til. ok er Rómverjar sá höfðingja sinn heilan treysta þeir hamingjunni ok herða hugina meðr eggjan Marii: taka þeir nú at berjaz með öllu afli. Silla ok Marius gengu svá hart framm at allir hrukku fyrir ok litlu síðarr flýðu allir Mauri ok Numide enn Getuli hèldu upp orrosto ok görðu Rómverjum allharða hríð. enn þó um síðir flýðu þeir fyrir sakir liðsmunar. konungrinn Jugurtha var einn eptir millum sinna úvina ok barðiz svá röskliga at enginn þorði at honum at ganga því at hann klauf í sundr bæði menn ok hesta. enn sakir mæði varð hann at flýja. Silla rekr nú flóttann. þar varð svá mikit mannfall at á xẍx mílna var svá þakit af mannabúkum at hvergi mátti á berri jörðu ganga enn allir dalir váro fullir af mannablóði. Silla fekk af þessum bardaga mikla frægð ok setti Marius hann næstan sèr at öllum metorðum sem makligt var. Marius tók nú mikit herfang í gulli ok gripum ok góðum vápnum.

29. Hèr segir af Marius ok Bocchus konungi. Eptir
468 þenna bardaga ferr Marius í Cirtam sem hann hafði áðr ætlað. ok litlu síðarr komu þar sendimenn Bocchi konungs til herbúðanna at hitta Marium ok sögðu honum kveðjo Bocchi konungs ok þat með at hann vildi vera vin Rómverja þaðan af ok friða svá fyrir ríki sínu ok sonum sínum. Marius tók þessu val ok sendi Lucius Silla ok

---

5 Aulus > paulus. 6, 11 Numide > Numıdıe, Numídíj. 15 enginn = engín. 24 Bocchus = Bochus. 26. 28 Bocchi = bochí, bochı.

Aulum Manlium til Bocchum konungs at binda frið við hann. enn er þeir komu þar tók konungr æfar val við þeim ok bundu sættargörðina. eptir þetta fóro þeir Silla aptr með ágjætum gjöfum. Jugurtha konungr fréttir nú at Bocchus konungr mágr hans hefir snúiz til vináttu við Rómverja. hann gerir enn sem fyrr at hann lokkar til vini konungs at telja þat fyrir honum at hann haldi vináttu sinni við Jugurtham. þeir sömu sneru hug Bocchi konungs frá vináttu Rómverja at sinni. Á þessi tíð býr Marius her sinn til at vinna einn sterkan turn, er Jugurtha átti, ok var þar at um hríð. enn um síðir gat hann unnit turninn. nú hugsar Bocchus konungr enn sitt ráð ok sèr at honum veitir þungt at berjaz við Rómverja ok hann hefir látit fyrir þeim mikit lið: ræðr nú þat af at hann sendir Rómverjum "x́x́x́." manna með mikit fè at gera frið við þá. enn Getuli komu at sendimönnum ok ræntu þá öllu því góðsi er þeir skyldu Rómverjum fært hafa, enn þeir komuz nauðuliga undan til Sille er Marius hafði sett yfir herinn meðan hann vann turninn. þeir biðu Marii xl daga áðr hann kjæmi heim. ok er þeir koma á hans fund bera þeir upp örindi sín ok vináttuboð Bocchi konungs. Marius vill æigi taka sætt af konunginum utan þat sè samþykki allra senatorum. ok eptir þetta fóro sendimenn til Róms ok fá þau andsvör af senatoribus at Bocchus konungr skal í friði vera ok halda ríki sitt af Rómverjum ok vera þeira þjónostumaðr. nú fóro sendimenn í Numidiam ok sögðu Mario sættargerðina. hann sendir nú Sillam með sendimönnum at staðfesta þenna frið við Bocchum konung. þeir fóro nú veg sinn. ok einn

1 Aulum > paulum. Bocchum = bochū. 5 Bocchus = bochuſ. 8 við > v̇ v̇. Bocchi = bochı. 12 Bocchus = boch᾽. 17 Rómverjum > ſendí m̄. 20 xl > vı́. 21 Bocchi = bochı. 25 Bocchus = boch᾽. 29 Bocchum = bochū.

dag kom at þeim váveifliga Volux konungsson með M riddara. þeir fóro dreift at sem mest skyldi sýnaz lið þeira. Rómverjar tóko vapn sín ok bjögguz við úfriðinum. enn konungsson sendir menn til þeira at segja þeim at Bocchus konungr hefir sent þá til traustz við Sillam. ok at kveldi komu þeim njósnir at Jugurtha konungr væri þaðan skammt með úvígan her. nú óttaz Rómverjar ok segja at Volux konungsson muni búa um svik viðr þá ok biðja Sillam drepa hann. Silla mælti 'þess sver ek við 'almátt allsvaldanda þórs at Volux skal mörgum pínslum 'vera píndr til bana ef hann er sannr at þessum svikum'. Volux felldi tár fyrir hræzlu ok afsakar sik. enn Jugurtha varð æigi búinn at berjaz. því at liðit kom æigi at honum. nú komu sendimenn til Bocchum konungs ok tók hann ágjætliga við þeim ok settu frið. þetta fréttir Jugurtha, at Bocchus konungr hefir brugðit við hann vináttu sinni. tók hann nú þat ráð at hann sendir menn með fégjöfum at bjóða honum hálft Numidiam til liðveizlu 'ok ætla ek' segir meistari Sallustius 'at Bocchus konungr muni mjök 'hafa velkt í huginum hvárt hann skyldi heldr selja Sillam 'í hendr Jugurthe eða Jugurtham í hendr Sille'. Jugurtha bíðr með herinum sendimanna. Lucius Silla berr nú fram sín örindi fyrir konung at hann var sendr af Mario ok Rómverjum til sættargörðar. Bocchus konungr beiðir sér x nátta frest til andsvara ok fór Silla nú til herbúða. ok um náttina fyrir stefnudaginn sendir konungr eptir Sille. ok er þeir finnaz ganga þeir á eintal. þá mælti konungr 'guði = = = = = er mín hafa svá geymt í hernaði
469 'ok í orrostom at ek veit nú öngvan konung mér samtíða

1 Volux > velor. M > ććć. 5 Bocchus = bochus. 8, 10, 12 Volux > velor. 12 hræzlu = hrædzlu. 14 Bocchum = bochū. 16 Bocchus = boch'. 18 liðveizlu = lıdueıtzlu. 19 Sallustius > ſebaſtíus. Bocchus = boch'. 21 Jugurthe > jugurto. 24 Bocchus = Bochus.

'jafn-voldugan fyrir allra luta sakir; enn gjarna vil ek 'þó með yðr frið hafa ef mitt ríki er þá ákallslaust ok 'pyndinga í alla staði'. þá svaraði Silla 'góði herra. mjök 'hefir hamingjan yðr mikla sett. enn ef þèr vilit Rómverja 'vináttu hafa þá er þat fyrst til at vinna at koma Jugurthe 'konungi í várar hendr ok hafa þar fyrir hálft Numidiam 'ok yðvart ríki með náðum ok á þat ofan vára vináttu. 'enn hitt er yðr of megn at halda stríð við oss Rómverja 'er áðr höfum sigrað allan heiminn'. Bocchus konungr tók því seint at svíkja Jugurtha mág sinn. enn þó kom svá at hann játaði öllu því er Silla vildi. ok með þessu falsi skilja þeir Bocchus konungr ok Silla.

30. Hèr segir frá æfilokum Jugurthe konungs. Annan dag kallaði Bocchus konungr Aspar sendimann Jugurthe til sín ok bað hann þat segja Jugurthe at Rómverjar vilja gera frið ok sætt með hann. sendimaðrinn ferr ok segir þetta Jugurthe ok kemr aptr til Bocchi konungs á ij^ja^ nátta fresti með þeim örindum at Jugurtha vill gjarna frið hafa ok hann er mjök mæddr af orrostum ok biðr Bocchum konung svá fyrir sjá at Silla komi í vald Jugurthe ok vænti hann ef hann hefir þvílíkan mann í sinni geymslu at Rómverjar munu þá æigi rjúfa sætt við hann fyrir því at slíkan mann sem Silla er vilja þeir æigi missa. Bocchus konungr kvelz nú kvikr í huginum hvárn hann skal upp taka at svíkja Sillam eðr Jugurtham. hann hefir nú stefnur við ymsa þá, Sillam æða Aspar sendimann, ok heitr nú hvárumtveggja góðu. nú kemr stefnudagr sá er þeir höfðu settan með sèr konungarnir. görir nú Bocchus konungr orð Sille leyniliga at hann komi ok gefi ráð til hversu Jugurtham skyldi svíkja. fær Bocchus konungr

9, 12 Bocchus = Boch', boch'. 13 æfilokum = æuılokū. 14 Bocchus = boch'. 17 Bocchi = bókı. 20 Bocchum = bochū. 23 vilja > vılĺa. 24 Bocchus = Bok'. 29, 30 Bocchus = boch'.

nú njósn af at Jugurtha er skammt brott þaðan með fá menn. Bocchus konungr fór í mót honum ok þeir Silla ok bíða á einum hóli enn setja her í leyni umhverfiss. Jugurtha konungr kom nú þar við fá menn ok váro flestir slyppir. Bocchus konungr lætr nú blása í lúðra: drífa þá menn at alla vega ok drepa þar alla menn Jugurthe enn taka hann höndum ok reka í bönd ok fjötra ok færði Silla hann bundinn Mario. í þenna tíma höfðu Rómverjar margar orrostor fyrir norðan fjall við Franzeisa. þessir váro höfðingjar fyrir Rómverjum: Quintus Cepio ok Gneus Manlius. allt til daga "Eraclíj" urðu Franzeisar at lúta Rómverjum. enn er unninn var sigrinn í Numidia ok þat spurðiz til Rómaborgar at Jugurtha var görr handtekinn þá var Marius gerr consul áðr enn hann kjæmi heim ok á kveðit þegar þar með at hann skyldi herja upp á Franz. Jugurtha konungr var settr í myrkvastofu ok í járn Kal. Januarii. í þenna tíma þótti Rómverjum mest sitt traust þar sem Marius var ok allr sinn sigr ok fullting undir honum vera. Hèr hverfr Sallustius frá sögunni. enn þó segir í bókum Rómverja at Jugurtha var bundinn leiddr í Róm ok at dómi höfðingja var hann píndr mörgum pínslum ok hvarmarnir váro svá gjörsamliga slitnir ok skornir af hans augum at hann skyldi öngvan svefn mega fá enn at lyktum var honum steypt í hit fúlasta fen er til var ok lauk svá hans æfi.

31. Hèr segir af orrosto Marius ok Lucius Silla. Nú er Marius gerr consul. var honum þá fenginn í hendr upp á Franz mikill herr. hann átti margar orrostor í Gallia ok hann sigraði þær þjóðir er Cimbri heita ok margar aðrar. Á þessum tíma var Silla görr dictator í Rómaborg. var honum ok fenginn í hendr mikill herr

2, 5 Bocchus = Boch'. 10 Cepio (Caepio) > ſkıpro. 10-11 Gneus Manlius > Mark'. Manlıo. 19 Sallustius > Sebaſtíus. 29 Cimbri > tıberíj.

móti konungi þeim er Mithridates hèt. hann var ríkr 470
konungr ok rèð fyrir Ponto. enn er Silla var kominn út á Púl með herinn þá kom Marius norðan um fjall með her sinn ok sigr mikinn ok stóru herfangi. ok er hann spurði at Silla hafði tekit með herstjórn öfundaði Marius þat er hann var svá ríkr gerr. hann talar svá opinberliga fyrir höfðingjum ‘ef þèr vilit fá mèr hálfan ‘her þann er Lucius Silla hefir man ek fara í mót Mithri-‘dati konungi ok skal ek hann skjótt í böndum hafa’. ok með því at Marius var frægr af sigrsæli þá hann þersa bæn af höfðingjum ok váro þá menn sendir til Silla með þessum örindum. hvarf Silla þá aptr með allan herinn. ok er þeir finnaz þá veitir Silla honum atgöngu. varð þar mikil orrosta ok áköf ok lauk með þí at Marius flýði ór borginni ok hljóp í hraun þat er heitir Minturnensis ok varð þar handtekinn. enn Silla setti hann í myrkvastofu ok skipaði einum Franzeis at drepa hann. ok þá er hann lauk upp myrkvastofunni komz Marius út hjá honum ok flýði brott í Africam ok var þar lengi. enn Lucius Silla tók þá með öllum herinum ok átti margar orrostor við Mithridatem konung. hann barðiz ok við þær þjóðir er Athenienses heita: þat er í Grecia: ok vann þar ágjætan sigr. Í þenna tíma var sá maðr með her Silla er hèt Pompeius Magnus ok þat fann Lucius Silla at hann var um framm alla menn þí setr Silla Pompeium næstan sèr at virðingu ok jafnan var hann þá fyrir herinum er Silla var æigi nær. þó var Pompeius þá ungr. hann var snimma mikill ok sterkr, forseáll ok val hugaðr ok manna vitrastr. Enn er Marius hafði lengi verit í Africa sneri hann aptr í Romam ok margir útlægir menn

---

1 Mithridates > $\overset{7}{m}$ıdaces. 8-9 Mithridati > $\overset{7}{m}$ídace. 14 mikil > mıkıll. 15-16 Minturnensis > maturnenſís. 19 Africam = affrıcam. 21 Mithridatem > $\overset{7}{m}$ídacem. 24 Magnus = magnuſſ. 25 þí = þíj. 30 Africa = affrıca.

með honum. ok er Marius kom til Rómaborgar þá hjálpaði honum sá maðr er Cinna hèt: hann var consul: hann kom Mario í borgina. Marius drap alla menn Sille þá er hann fann í Róm þat sinni. einn hans riddari drap þann höfðingja er Bebius hèt ok bar hans höfuð víða um borgina — sá hafði verit hinn mesti vin Sille — hann hèlt í hárit, ok at lyktum kastaði hann því í altari gyðju nökkurrar er Vesta hèt. Fimbria hét einn Marius maðr er drap marga ágjæta menn ok hans fèlagar: þeir drógu víða hræ þeira um borgina. Scevola hèt einn gamall höfðingi ok tiginn: hann drap einn riddari Marii fyrir þat er hann vildi æigi kyssa á hönd honum. Svá segir meistari Lucanus at sá dagr sè Rómverjum langminnigr er Marius kom í Rómaborg þat sinni; því at manndráp váro um alla borgina: enginn var svá gamall nè ungr at fyrir þat fengi grið: svá váro tignir menn drepnir sem lýðmenni — ok öngum var þar þyrmt: svá stóð blóðit í hofunum at þat draup niðr af veggjunum.

32. Frá viðskiptum þeira Lucius Silla ok Marius. Silla spyrr nú kvant sinna manna — skiptir síðan herinum: lèt eptir suman í Pontus ok setti þar yfir Pompeium Magnum, enn hann ferr með meira lut hersins í Romam. enn þeir hans menn er undan komuz flýðu út á Púl. enn er þat spyrr Marius fór hann eptir þeim ok drap þar marga er heitir Sacriportus. ok er hann kom aptr til Rómaborgar gekk hann at með öllu afli ok krafði senatores til þess at gefa sèr consulatum. enn er Marius spyrr at Silla er á veg kominn til Rómaborgar þá leitar hann sèr trausts ok bauð "famnítiko" konungi at koma undir hann öllu Rómaríki ef hann veitti honum styrk svá

---

2 Cinna > ſímía 5 Bebius > Rebı'. 7 í < á. 8 Fimbria > Fimbíus. 10 Scevola > Senoſa. 15 enginn = Engín. 20 kvant = kuant. 21 Pontus > pontís. 25 Sacriportus > ſacripontū.

at hann fengi sigr. enn er þeir funduz Lucius ok Marius varð þar snörp orrosta ok varð Marius handtekinn ok lèt Silla fyrst höggva af honum hendr ok fætr ok stinga 471 út augu hans ok síðan lèt hann marga vega pína hann til dauða. enn þat var allra manna mál at engi maðr hafi þolt jafn-hraustliga allar pínslir; því at æ var hans hjarta stöðugt svá at þat gátu þeir aldri bleytt meðan lífit var með honum. enn eptir dauða Marii drap Silla hans menn alla þá er hann náði, enn allir flýðu undan þeir er lífit þágu. nú sendi hann eptir sínum mönnum þeim er flýit höfðu ór Róm ok svá eptir þeim er fylgt höfðu Mario. komu þeir þá fjölmennt á hans fund ok væntu sèr miskunnar af honum enn hann ljet höggva þá alla Marius menn. synir Marii váro vij: þeir váro kallaðir "mariani": alla þá dæmdi Silla í eilífa útlegð. af þessum manndrápum varð svá mikil auðn tiginna manna í Roma at Silla skipaði öllum völdum með sínum mönnum ok svá eignunum með at hverr hans manna hafði allt þat er hann beiddiz. ok er þetta allt var fullgert þá settiz hann í kyrrsæti ok lagði tignina í consulatu ok endaði svá líf sitt. enn eptir hans dauða vildu borgarmenn æigi veita honum gröft innanborgar hjá öðrum tignum mönnum heldr var hann jarðaðr utanborgar þar sem heitir Marsheiðr ok var þat gert sakir illvirkja hans. Opt sýnduz þeir Marius ok Silla ok þó optaz fyrir borgarmönnum sjálfum því at þeir höfðu mest illt í borginni unnit í manndrápum. enn eptir dauða Sille fóro synir Marii aptr í Romam; váro þá teknar eignir af þeim mönnum er Silla hafði gefit í borginni enn þeir seálfir útlægir eðr drepnir. þat sá nú höfðingjar í Róm at svá mátti til bera optarr at einn fengi vald yfir öllu Rómaríki svá sem nú hafði Silla fengit ok sýndiz þeim þat höfuð-úráð at leggja niðr

20 consulatu > confulato. 23 Mars > Mr'.

tignina sem hann hafði gört. var hann nú hataðr af öllum bæði höfðingjum ok hirðmönnum: þótti þeim æigi örvænt at þeir fengi þetta vald er minni tignar váro en öngum mun vitrari, ok hrædduz þeir at þat mundi frammgengt verða því at fornir spádómar sögðu svá at undir einvald mundi koma Rómaborg. Pompeius Magnus sá sem fyrr var getit var fóstrson Sille hins ríka. hann var nú einn ríkastr maðr af Rómverja höfðingjum. hann hafði sigrað Mithridatem konung ok marga aðra konunga í austrvegi því at hann var höfðingi þess hers er í austrhálfuna stríddi. nú hófuz enn af nýju tíðindi í Rómaborg því at þar var enn annarr höfðingi ágjætr er hèt Gaius Julius Cesar. hinn þriði var af þeim ágjætastr: Markus Licinius Krassus. fjórði var Marcus Kato: hann var mestr spekingr í Rómaborg.

33. Frá Lucius Katilina ok hans kumpánum. Salustius segir at sá maðr var í Rómaborg er hèt Lucius Katilina. hann var af tiginni ætt. hann var styrkr at afli ok hugdjarfr, ranglátr ok fègjarn. kjærr var honum úfriðrinn ok mest innanborgar með frændr sína ok kunna menn. þolinn var hann með vás ok erfiði, slægr ok brögðóttr í ráðum. mildr var hann af fè enn girntiz alls þess í staðinn er aðrir áttu — ofsamaðr ok ákafr í öllum hlutum. honum kom þat í hug at Silla hafði fengit einvald yfir Rómaríki ok at hann skyldi freista at hann fengi slíka uppreist ok þar öngvan lut til spara. glutraði hann þá gózinu svá at hann var innan lítils tíma mjök svá fèlauss. tók hann þá lán af ríkum mönnum í borginni: fekk hann þau nóg svá at hann hafði þá enn auð fjár. enn er bæði var eytt hans fè ok því sem hann hafði af láni tekit undirstendr hann
472 at ekki görir at dvelja við. aflar hann sèr þá sveitar.

---

9 Mithridatem > mertlıadem ⌣ mercladem. 13 Licinius > katíni'. 15 Katilina > katelın'. kumpánum = kūppanū. 16 Katilina > katelín'. 28 hafði >.

váro þat bæði duflarar ok drykkjumenn. sumt váro raufarar ok ránsmenn. allir þeir sem hann tók í sitt samlag höfðu eitthvert vandræði um at vera. enn þótt siðsamir menn kjæmi nokkurir til hans þá urðu þeir skjótt slíkir eðr verri. Katilina sækir marga höfðingja at vináttu því at hann þóttiz þess þurfa sakir sinna úspekta. enn þeir váro til þers auðsóttir því at hvat er hann girntiz af þeim ok þeir af honum var hvárum til reiðu. Katilina hafði mörg skipti við konur þau er rækilig þóttu í þeira lögum. þat var eitt hof er átti gyðja sú er Vesta hèt. þar var ein tigin mær til þjónostu með goðit. þersa mey tók Katilina. Aurelia Orestilla hèt ein göfug kona í Róm. hón var allra kvinna fríðuz ok stórauðig at fè. hennar bað Katilina. enn hón vildi æigi eiga hann. hón átti sèr son frumvaxta ok hugði at hann mundi henne verða ómjúkr ok hennar frændum. litlu síðarr var þessi sveinn dauðr, ok var þat margra manna mál at Katilina seálfr mundi hafa drepit hann. síðan fekk hann Orestille. Lucius Katilina var maðr föllitaðr, illa eygðr, laushöfðaðr ok úvitrligr í yfirbragði: gekk stundum skjótt enn stundum seint. honum þótti sèr nú mikil ván at fá consulatum ef hann beiddiz: hugsar nú at treysta á hamingjuna at hann fengi einvald í Rómaborg, því at þá var enginn herr í Italia því at Pompeius Magnus var þá í Asia með allan her Rómverja; var þá ok ekki forsjál höfðingjasveitin með slíkum svikræðum sem hann ætlaði með höndum at hafa. Lucius Cesar ok annarr Gaius Figulus váro þá consules.

34. Frá Katilina ok hans höfðingjum. capitulum. Eptir Kalendas Januarii átti Katilina stefnu meðr sína

5. 8. 11 Katilina > katelínus. Katelín', katelın'. 12 Orestilla > rıſtılla. 13, 17 Katilina > katelín', katelın'. 18 Ore´stille > Rıſtılle. Katilina > katelın'. 23 enginn = engín. 27 Figulus > tígulus. 28 Katilina > katelínuſ. hans > han. 29 Januarii > íuníj. Katilina > katl'ínus.

menn ok eggjaði þá til áhlaupa ok illgörða: segir nú at fólkit var lítt við búit er þat vissi sèr engiss ótta vánir. enn er hann hafði kannat hvers þeira vilja er honum þótti sèr mests styrks af ván komu þessir allir af höfðingjasveitinni í einn stað: Publius Lentulus (Sura), (Publius) Autronius, Lucius Cassius Longinus, Gaius Cethegus, Publius ok Servius (Sille), (Lucius) Vargunteius, Quintus Annius. Markus Porcius Leca, (Lucius) Bestia, Quintus Curius. enn þessir váro af riddarasveitum: Markus Fulvius (Nobilior), Lucius Statilius, Publius Gabinius (Capito), Gaius Cornelius. margir menn váro þar ok komnir af borgum ok þorpum þeir sem eigi ero hèr nefndir ok samvitandi váro þessa ráðs. Pompeius Magnus var úvin hans er þá rèð öllum meginher Rómverja: eggjaði Katilina hvern mann til mótstöðu við hann því at hann ætlaði sèr einvald yfir Rómaborg ef Pompeius væri frá ráðinn.

35. Frá Lucius ok Katilina. capitulum. Í þenna tíma váro consules Lucius Tullus ok Manius Lepidus. enn þeir Publius Autronius ok Publius Silla váro í því ráði at taka vald yfir alþýðu ok váro báðir ráðnir til at taka consulatum. enn er vart varð við ráð þeira váro þeir báðir hálshöggnir því at svá buðu lög Rómverja at svá skyldi með alla gera þá er alþýðunnar rètt vildu undir sik draga. Gnaius Piso hèt einn höfðingi er rèðz til þessarrar sveitar: hann var djarfr maðr ok snjallr. gekk þá Lucius Katilina

5-6 Publius———Autronius > Puplíus letulus. antoni'. 6 Cassius Longinus > Capíus. langíus. 6-8 Cethegus——— Markus > tetogus Puplíuſ ceruíuſ. Gamícíus q̈ntus. Anneuſ Markuſſ. 8 Porcius = Portı'. Leca, (Lucius) Bestia > lenta (⌣ leuta ⌣ leota). Beſtıuſ. 9 Markus = Markuſſ. 9-10 Fulvius (Nobilior) > Fluuíus. 10 Statilius > carelíus. Publius > Pallíus. (Capito) +. 14 Katilina > katl'ın'. 17 Katilina > katelınū. 18 Tullus > tullı'. Manius Lepidus > markus lepıdo. 19 Publius Autronius ok Publius > pullus antoníus. ok pullus. 25 Katilina > katl'ínus.

á stefnu ok hans menn. enn þat rèðz ór meðr þeim at þeir skyldu báðir ganga í höfuðhof í borginni, Lucius Katilina ok Gnaius Piso, með sínar sveitir. at þersu ráði váro flestir höfðingjar leyndir. ok at teknum tignum þá sendu höfðingjar Gnaium Pisonem með her í Spania at vinna þat. enn er þers varð varr Katilina þá færði hann 473 stefnudaginn ok ætlaði at bíða til þers er Gnaius kjæmi heim aptr. enn Katilina kom með sína sveit í ákveðinn tíma, enn Gnaius kom æigi ok varð þí ekki af þessi ráðagörð. Gnaius fór í Spaniam sem ætlað var ok hitti þar Krassum ok latti hann þessarrar ferðar en hann fór sem áðr ok átti þar margar orrostor ok vann jafnan sigr. þat var einn dag er hann fór leiðar sinnar at ij spænskir riddarar veittu honum atgöngu ok drápu hann: enn hann hafði áðr hertekit þá ok gefit þeim grið ok váro þeir nú í hans flokki. enn er Katilina frètti at þetta ráð hafði æigi dugat görði hann enn stefnulag við sína menn ok bað þá halda teknu ráði ‘því at vær erum nú opinberir ‘orðnir at því ráði sem æigi varð frammgengt. er oss því ‘þat ráð at gera nú sem flest þat er várr frami sè þá ‘meiri enn áðr, ok leggi hverr sitt líf með annars: því ‘at oss er engin friðarván af Rómverjum ef þeir fá vald ‘yfir oss, svá brýnar sem þeir munu kalla sakir — fjárrán ‘ok fjörráð ok marga aðra úspakliga luti er vèr höfum ‘gert’. lauk hann svá sinni ræðu.

36. Hèr segir af Katilina ok hans mönnum. Sem Katilina hafði talat þílíka luti þá þökkuðu honum allir hans menn makliga því at þeir höfðu með sèr nóga illa hluti enn ekki gott: spurðu nú Katilinam hvert verkkaup þeir skyldu taka ef þeir fylgdi honum í þessu vandræði.

2 höfuðhof = hǒfud hóf. 3, 6, 8, 16 Katilina > katl'ín', katl'ínus. 26 Katilina > katolino. 27 Katilina > katl'ın'. 29 Katilinam > katl'ín [am].

hann svaraði ‘höfðingjar hafa látit skrifa nöfn sín á tabulis, ‘enn ek man láta brjóta þær ok gera aðrar tabulas yðr ‘til sæmdar. þér skulot taka alla meistaradóma ok kenni‘mannatign ok yðr skal allt at óskum ganga’. síðan sneri hann málinu á hönd góðum höfðingjum ok lastaði þá, enn lofaði sína menn ok beiddi af þeim svardaga. síðan sóru þeir honum eiða at enginn þeira skyldi viðr hann skiljaz. hann lèt þá gefa þeim vín at drekka ok blandaði með mannablóði: þat var þeim skenkt í stórum silfrskálum. enn er allir höfðu drukkit sem vant var á hátíðum þá lýsti hann fyrir þeim hvat þeir höfðu drukkit at enginn þeira skyldi þora at segja eptir honum.

37. Frá Quintus Curius ok frillu hans. Quintus Curius er nefndr einn höfðingi er verit hafði í þessu sambandi. hann hafði fyrr verit prófaðr at illum verkum enn höfðingjar höfðu tekit hann ór tign sinni því at hann var mjök lyginn enn ekki djarfr til vápns: hann vildi ok öngu leyna hvárki eptir sèr nè öðrum. Fulvia hèt ein tigin kona er lengi hafði verit frilla hans. enn er fè hans tók at þverra þá afræktiz hón hann. ok er Curius hafði komit sèr í þessa sveit þá hældiz hann fyrir henne at hann mundi mikil gjæði mega veita henne: stundum ógnaði hann henne með vápnum ef hón væri honum æigi hlýðin. enn er hón varð vís þessa ráðs þá leyndi hón þí æigi borgarmennina sína kompána. Antonius hèt einn höfðingi er verit hafði í þessum ráðum ok svardögum: af hans orðum kom enn upp þessi ráðagerð.

38. Hèr segir frá Tullio ok Catilina. capitulum. Rómverskr maðr hèt Tullius Cicero. hann var þorparaættar ok þó hinn mesti íþróttamaðr. hann hafði beðit consulatum enn höfðingjar höfðu því háðuliga svarat. enn er kom at

---

7, 11 enginn = engín. 15 prófaðr = prouadr. 18 Fulvia ∽ Fulına. 28 Catilina > Catelíno. 29 Cicero ∽ tıc̄o.

skiptingardögum þá fær hann njósn af at nokkurir menn mundu hefjaz til úfriðar í borginni: þá buðu þeir Tullio þersa tign ok var hann af þeim gerr consul. Catiline 474 skaut nú skelk í bringhu, er hann spurðe þetta, ok beiddi at taka consulatum ok etlaðe, ef hann feinghe þat, at þeir Antonius skyldu hafa báðir saman, er nú hafðe með Tullio, ok hugðist síðan at svíkja Tullium. en hann var vitr maðr ok sá viðr hans bragðvíse svá at hann hèt Fulvie fè til at hún skyldi segja honum frá Catilina allt þat er hún vissi ok hún feinghe "tǿkt" af Curio unnasta sínum. Tullius lèt ok sína menn halda vörðu yfir sèr bæði opinberliga ok leyniliga. nú er skiptingardagar komu þá hafði Katilina hvárki hagliga gört "bǿn" til hertogatignar nè til umsáta við Tullium consulem. tók hann þá þat ráð upp at ganga í bardaga með Tullium ef hann fengi styrk til. sendi hann þá Gaium Julium á Púl til allra þeira manna er hann mátti sèr nökkurs trausts af vænta. hafði hann þá ok mikla umsát við Tullium ok hann ætlaði at brenna upp alla Romam. gekk hann nú með alvæpni, ok allir hans menn, bæði nætr ok daga. ok nú sendi hann mann til Marcum Porcium ok lèt þá kalla alla höfðingja til stefnu þá sem í þersu ráði váro bundnir ok segiz hafa sent eptir liði út á Púl ok vill nú í stað ganga at Tullio. Gaius Cornelius ok Lucius Vargunteius játuðu honum at ganga at húsum Tullii ok drepa hann ef færi gjæfi á. enn er Quintus Curius vissi þetta þá hrósaði hann þessu þegar fyrir Fulvie fylgjukonu sinni. enn hón fór þegar til Tullium ok bað

---

3 Catiline > Catalíno. 5 beiddi = beidi. 6 hafa = hafua 9 hèt Fulvie > gaf philene fe till at hann skylldi gefua hene. til = till. 10 Catilina > catelino. tǿkt ɔ: teygt. 13 Katilina > katelin̉. 21-22 Porcium ∽ portíū. 25 Vargunteius > varentímus. 27 Fulvie ∽ fulíne.

hann vara sik. enn er Katilina ok hans menn komu í garðinn þá váro byrgð öll hliðin ok komuz þeir hvergi inn ok hurfu aptr með svívirðing.

39. Frá Manlius ok Katilina. Á þersum tíma var Manlius í Tuskania ok hafði þar stefnulag við landsmenn vegna Katiline ok taldi fyrir þeim hversu Silla hinn ríki hafði sæmt þá ok hversu Rómverjar höfðu rænt þá friði ok frelsi ok fènu með. Nú er Tullius fekk sanna njósn af samdrætti hersins þótti honum vandi at hendi kominn því at hann þóttiz æigi lið til hafa at gjæta bæði borganna ok annarra staðanna. enn höfðingjar báðu hann halda borgina ok geyma hana sem bezt. fám dögum síðarr á einni stefnu las upp brèf sá höfðingi er Lucius Senius hèt: þau kvað hann sèr send hafa verit ór Tuskania: stóð þat þar á at Gaius Manlius hefði dregit saman úvígan her ok út á Púl væri ok mikill samnaðr ok ætlaði hvárirtveggju á hendr þeim. þá sendi hann af stefnunni Quintum Metellum út á Púl enn Quintum Marcium út í Tuskaniam. enn þeir váro báðir reknir aptr því at bændr vildu æigi hafa yfirför þeira. nú var þat ráðagörð Rómverja at hverr er meðr sannindum kynni at segja ráðagörð Katiline sá er áðr var með honum skyldi frjáls vera af þessu svikræði ok þiggja þó jafnvægi sitt af silfri enn hinn er áðr var freáls skyldi þiggja hálfu meira. maðr hèt Lucius Paulus er spurði Katilinam at þersu máli, enn hann þrætti í móti. kom þá svá at hann gekk á stefnu með höfðingjana seálfa. Markus Tullius consul spurði fyrst Katilinam um
475 þessi kennsl. enn hann varði sannar sakir með kávísligum

1 Katilina > katl'ínuſ. 4 Manlius > Manuluſ. Katilina > katelíno. 5 Manlius > Manulus. 6 Katiline > katl'íní. 10-11 borganna < borgarinnar. 12 á >. 13 Senius (Saenius) > Geníuſ. 15 Manlius > manulus. 18 Metellum > línum. Marcium > metıllū. 21 Katiline > katelíní. 25, 27 Katilinam > katelınū.

orðum ok miklum kyndugskap enn síðan gerði hann sik svá óðan ok reiðan at hann bannaði öllum Rómverja höfðingjum. hljópu þeir þá upp ok báðu ódáðamann í brott dragaz ok hrundu honum frá sèr. Katilina mælti þá með mikilli reiði ‘fyrir þat er þèr gerit mèr nú svívirðing þá ‘skal mín reiði seðjaz í margra yðvarra blóði’. einni nátt síðarr ferr hann brott ór borginni með fá menn til herbúða Manlii enn setti eptir þá menn er hann trúði bezt ok bað þá um þat sitja at drepa Tullium enn brenna borgina ef þeir kjæmi því áleiðiss.

40. Frá Gaius Manlius ok Quinto Marcio. Sem þetta er tíðinda í Rómaborg sendir Gaius Manlius brèf Quinto Marcio með þessum orðum ‘heyr þú ræðismaðr. ek sver ‘þers bæði við goð ok menn at ek hefir æigi vápn tekit ‘til þers at herja á fóstbræðr mína heldr öllum oss til ‘friðar ok náða’. talar hann í sínu brèfi fagrliga til allra Rómverja. Quintus Marcius svarar svá ‘ef þèr vilit biðja ‘miskunnar höfðingja þá leggit niðr vápn yðr ok farit ‘með lítillæti til borgarinnar því at þá má sjá at þèr biðit ‘æigi ófyrirsynju yðr líknar’. Lucius Katilina sendir nú brèf aptr til Romam öllum þeim mönnum er hann vænti sèr nökkurs traust af ok segir at hann var yfir stiginn af lygi ok falsi sinna fjandmanna ‘ok verð ek nú undan at ‘halda í útlegð, þó at ek viti mik úsakaðan, at æigi hafa ‘ek mína góða vini í grefi fyrir mik’. síðan sendi hann enn mörg brèf til Rómaborgar til þers manns er Quintus Katulus hèt ok eitt af þeim var svá látanda ‘Lucius Kati‘lina sendir Quinto Catulo sína kveðjo. ágjæta val þekkiz ‘mèr þín trú því at þú hefir mèr val reynz í öllum háskum. ‘því mun ek æigi dylja þik þeira ráða sem nú ero nýgör,

4 Katilina > katelın’ 11 Manlius > manuluſ. Marcio > marıo. 12 Manlius > manulus. 13 Marcio > marío. 16 fagrliga = fag$^{2}$lıga. 17 Marcius > maríus. 18 yðr ɔ: yᴆur. 20 Katilina > katelın’. 22 traust < trausts. 27-28 Katilina > katelın’.

‘at ek hefir þat fastráðit at gjalda Rómverjum öngar bætr ‘fyrir þau kennsl er þeir bera at mèr. þó at ek geta þers ‘æigi dult guð son þórs at þat sè sannindi sem þeir tala ‘til mín þá geta þeir þó enn æigi þat með lögmáli opin-‘berliga prófat. enn þótt ek vildi fleira til yðvar rita þá ‘orkar ek því æigi sakir ófrelsis. valete’. Katilina dvaldiz fá daga með Gaio Flaminio. hann gefr þá stórar gjafir sínum mönnum. ferr hann þá með mikilli vegsemd ok æru til herbúða Manlii. tekr hann sæmiliga við honum. enn er þetta spurðiz dæmdu Rómverjar þá báða útlæga. nú í annan stað jókz höfðingsskapr þeira Pompei ok Krassi ok váro þeir þá þó báðir ungir menn ok fengu hin mestu metorð því at þeir váro bæði frealsir af fènu ok frægir í orrosto: drógu þeir sik seálfir framm til metorða, var ok alþýðan gjörn til þeira. enn litlu síðarr fór Pompeius í Girklandshaf með skipaher ok barðiz við Mithridatem konung ok sigraði hann ok vann þar mörg afreksverk þau er seint verðr öll at rita því at enginn var hans jafningi í Róm um hans daga.

41. Frá Publius (Umbrenus) ok Quintus Fabius (Sanga). capitulum. Nú er at segja frá Lentulo er í þessi ráðagerð var með Katilina: hann var pretor at tign: hann dró lið saman ok sendi þann mann er Publius hèt á fund þeira manna er komu norðan um fjall ok Allobroges heita ok vildi hann koma þeim í þetta samband: enn þeir höfðu
476 farit af hendi borgarmanna sinna at sættaz við Rómverja því at þeir höfðu reiði á þeim. Publius vissi gjörla skil á þersum mönnum því at hann háfði opt verit í Gallia.

5 prófat = prouat. 6 Katilina > Katelın’. 7 Flaminio > flamínzo. 17 Mithridatem > m[7]clıdem. 18 enginn = engín. 20 Publius (Umbrenus) > Pauluſ. Fabius (Sanga) > ſaboríuſ. 22 Katilina > katelíno. pretor ꝏ p̄cor. 23 Publius > Paul’. 24 Allobroges > abıges. 27 Publius > Pauluſ.

hann hitti þá á torgi nokkuru ok spurði þá tiðinda ór borg þeira. enn þeir sögðu at höfðingjar váro þeim reiðir. hann harmaði þat ok spurði hversu ganga mundi. þeir segja at höfðingjarnir váro mjök fégjarnir. enn hann sannaði öll orð þeira ok sagði þeira svala mundu haldaz meðan líf væri í þeim 'man ek kenna yðr ráð' sagði hann 'at þér freálsiz af þeira álögum'. þeir sögðuz þat gjarna vilja. síðan bað hann þá ganga með sér ok fóro þeir til húsa þess manns er hét Decimus Brutus. þar var fyrir kona sú er Sempronia hét ok vissi hón áðr alla þessa ráðagörð; enn Brutus var æigi í borginni; ok kvaddi Publius hana til vitnisburðar með sér. síðan sögðu þau sendimönnum alla ráðagerð Katiline ok báðu þá bindaz í flokkinum meðr sér. enn sendimenn töldu á hvárutveggja tormerki ok leitaðu ráða til þess manns er hét Quintus Fabius Sanga: hann var ríkr höfðingi ok höfðu borgarmenn mikit traust á honum. enn Quintus gekk þegar til Tullium consulem ok sagði honum allt þetta. enn Tullius bað hann aptr fara sem skjótaz ok segja sendimönnum at þeir skyldu þessu hvern mann leyna 'en fari sem til flestra manna' þeira er í þessu ráði væri 'ok göri oss sem kunnigaz 'bæði mennina ok ráðin ok fara þó sem leyniligaz með'.

42. Frá Tullius ok "Gallínū". capitulum. Nú sem þetta er tíðinda í Roma þá dróz saman herr um Galliam ok út um Púl. enn menn þeir sem Katilina hafði sett fyrir herinn fóro óvissliga ok gengu með vápnum um nætr. af þersu urðu margir menn handteknir af Quinto Metello ok kastaðir inn. sá maðr er hét Gaius Murena

9 Decimus Brutus > Deciuſ bruto. 10 Sempronia > ſiforia. 11 kvaddi Publius > kualdı paulus. 13 Katiline > katelıní. 15 Fabius Sanga > ſaborı'. ſangíus. 23 Gallínū < (Gabinium <) Gabinius. 25 Katilina > katelín'. 28 Metello > Metıllo ⌣ Mecıllo. Gaius Murena > Gallíus Ruína.

tók marga menn Katiline í Gallia. Lentulus var með fjölda manna í Rómaborg af sveit Katiline. enn er þeir höfðu fengit afla þann sem þeir máttu mestan þá sögðu þeir opinberliga ráðagerð sína — at “ſa m̃ ẽ ſtat᷒ıus Gal-“nínus h̓. ſkýlldı” fara með mikit lið at borginni um nátt ok leggja at eld í xx stöðum enn sá maðr er hèt Cethegus skyldi veita atgöngu Tullio með vápnum eðr svikum at fanga hann. enn er at leið stefnunni ok allt var til búit þá þótti Cethego sem hans fèlagar frestaði of mjök atgöngu við Tullium. Tullius sendir nú “Galnínū” til fundar við sendimenn þá er fyrr váro nefndir meðr þeim örindum at þeir færi á fund Lentuli ok Kassi er höfuðsmenn váro at þessu ráði með Katilina ok segja at þeir vilja því at eins í þat ráðaz at þeir vita at þat sè satt ok sanni þat með svardögum. gekk þá Lentulus til svardaga enn Kassius hèt at sverja þegar hann kjæmi aptr í borgina. síðan fekk Lentulus þeim “ij. m̄” at fara með þeim. sendimenn segja nú Tullio alla þersa luti ok leynaz síðan brott ór borginni um nátt. síðan sendir Tullius Lucium Valerium ok Gaium Pomptinum — þeir váro pretores at tign — ok sveit manna með þeim ok bað þá fara til brúar þeirar er Mulvius heitir ok siti þar fyrir þeim Allobrogibus ok taki þá höndum ok hafa þá aptr í borgina. enn er Allobroges komu til brúarinnar laupa Rómverjar upp með herópi í móti þeim en hinir

---

1, 2 Katiline > katelíní. 4-5 “ſa m̃ ẽ ſtat᷒ıus Galnínus h̓. ſkýlldı” < þeir menn er svá hètu Statilius ok Gabinius skyldu. 6 xx < xij. 6-7 Cethegus > cetego. 9 Cethego = cetego. 10 “Galnínū” < Gabinium. 13 Katilina > katelíno. 15 með > m; mͩ. 16 Kassius > kaſſus. 20 Valerium > valternū. Gaium Pomptinum > gnarū plutonē. 20-21 pretores ∽ p̄cores. 22 Mulvius > mellına ◡ mellma. siti ∽ ſıtr. 23 Allobrogibus > albíno. 24 Allobroges komu > albın᾽ kom. brúarinnar > bruarín̄ar m; ſınū m̄m.

gefa upp vápn sín ok laupa í lið Rómverja. Volturcius eggjar nú fast at berjaz fyrst ok varðiz seálfr alldjarfliga enn þó um síðir beiddiz hann griða ok lagði vápn sín. nú sendi Gaius orð Tullio at þeir váro "baðír" í hans valdi enn hann varð því feginn. nú sendir hann eptir Lentulo ok hittaz þeir ok tók hann í hönd honum ok leiddi hann á höfuðstefnu ".Eñ adra ſína kompána ok þo ſína m̅ m; "tıl v́dhalldz". þar komu margir Romani ok leiddu þangat með sèr Volturcium ok Allobrogas. 477

43. Hèr segir frá Volturcius ok Tarquinius. Nú sem þingit var sett þá var Volturcius spurðr hvert hann skyldi fara eða hvat brèfum þat var er hann fór með. en hann duldi alls í fyrstu. þá var honum heitit alþýðu trú ef hann segði satt. hann hóf þá svá sína ræðu 'ek hefir fá 'daga verit í þersu bragði en mik báðu til þersa Gabinius 'ok Ceparius ok heyrt hefir ek Gabinium geta þers at í 'þersu ráði væri Publius Autronius ok Servius Silla ok 'Lucius Vargunteius'. enn Lentulus ok allir dylja ok kváðuz engin brèf hafa sent. Allobroges bera allt með Volturcio ok ámæla Lentulo er hann gengr eigi með orðum sínum ok minna hann á þat er hann mælti optliga ok sögðu frá spádómi Sibille hinnar vísu at af ætt "eleazár" mundu vera þeir iij menn er öðlaz mundu Rómverjaríki ok var einn Cinna annarr Silla 'enn hinn þriði sagðiz þú vera 'sjálfr: sagðir þú ok verit hafa xx vetr síðan Capitolium 'brann í Roma ok spámenn sögðu at verða mundi undr 'ok ódæmi með borgarmönnum'. þar váro framm komin

1 Volturcius > Valternus. 8 Romani = Romání. 9 Volturcium > valternū. Allobrogas > albínum. 10, 11 Volturcius > Valternuſ ᴗ Valternıſ, valternus. 15 Gabinius > Galbín'. 16 Gabinium > Galbınū. 17 Publius Autronius > puplíus antoníus. Servius > cerínus. 18 Vargunteius > vargunteus. 19 Allobroges bera > Albínus b̊r. Volturcio > valterno. 22 "eleazár" < Corneliorum. 24 Cinna > cırínía. 25 vetr > v̊etr.

bréf þau er Lentulus hafði sent Katiline ok sögðu þau allt með Volturcio. síðan váro geymdir allir svikarar. en annan dag eptir var handtekinn sá maðr er Tarquinius Lucius hét: hann var eiðbróðir Katiline ok ætlaði þá at hlaupa til hans ok bera honum njósn. höfðingjar báðu hann segja slíkt er hann vissi en hann beiddiz í móti lífsgriða enn þeir játaðu því. hann sagði þá at Markus Krassus hafði sent hann til Katilinam at hann skyldi framm halda öllum þeim ráðum sem hann hafði upp tekit ok kvað hann ekki skyldu lið vanta þó at nökkurir af hans kompánum væri handteknir. enn flestum höfðingjum þótti Krassus ólíkligr til þersa. lauk svá þersi stefnu at þeir dæmdu hann kvittan af þessu svikræði. enn Salustius kveðz heyrt hafa seálfan Krassum segja at þetta hefði Tullius gert til fjandskapar við hann. Quintus Catulus ok Gaius Piso gengu at með öllu kappi at teygja Tullium til þers at bera upp á Gaium Cesarem at hann væri í þersu bragði ok buðu honum fé til, enn hann neitaði því þverliga. ok er þeir fengu ekki af Tullio at bera þetta upp á Cesarem þá kváðuz þeir seálfir heyrt hafa af Volturcio ok öðrum mönnum ok lugu þá allt þat er þeir sögðu. enn svá komu þeir þessu falsi á lopt at riddarar þeir er vörð héldu á hofinu gengu at Cesari með brugðnum sverðum ok skóku at honum ok hræddu hann svá. enn hann gaf ekki gaum at því ok gekk sem hann hafði áðr ætlað. Síðan var lokit gjald þat er þeir höfðu heitit Volturcio ok Allobrogibus því at þeir trúðu þat allt satt
478 sem þeir höfðu sagt. Síðan sömnuðuz saman menn Lentuli ok ætlaðu at ná honum ór varðhaldinu. enn er Tullius

1 Katiline > katelíno. 2 Volturcio > valterno. 4 Katiline > katelíní. 8 Katilinam > katelínum. 15 Catulus > catullíus. 16 Gaius > gnaíus. 17 bera upp á Gaium > bıdıa lucíum. 20 Volturcio > valterno. 23 Cesari > cefare. 27 Volturcio > vlterno. Allobrogibus > albíno.

varð þessa varr þá styrkir hann varðhöldin af nýju ok boðar at sèr höfðingjum til umráða hvat af þeim skal göra er inn váro kastaðir. Decimus Junius Silanus var fyrst beðinn til at tala því at hann var þá kjörinn til consulem, enn hann kvað þat ekki sitt ráð er þeir váro inn kastaðir ok kveðz ekki mundu tala. þá báðu þeir Julium Cesarem at hann skyldi tala. hann hóf svá sína ræðu.

44. Frá tölu Julii Cesaris. ‘Allir þeir menn er dœma skulo sanna luti byrjar at þeir sè hatrlausir ok friðsamir því at óþolinmæði sigrar margs manns vizku enn þat er hugsanda um hvat dæma er. jafnan hefir Rómverjalýðr verit ófriðsamr utanlands enn aldri hafa þeir þat fyrr með höndum haft at svíkja seálfra sinna frændr enn brenna borgina sem öllum mátti mestr skaði at vera ef frammgengt yrði. hefir Lucius Katilina þessa dirfð á sik tekit ok hans menn, sem enginn annarr fyrir honum, at ræna ok reyfa innanborgar ok alla þá illa luti sem honum hefir í hug komit. undra ek er vitrir menn velkja slíkt svá lengi fyrir sèr at dæma um þá menn er svá marga illa luti hafa gert ok öngrar miskunnar ero verðir fyrir sín illvirki. er þat mitt ráð at þeir sè allir inn settir ok teknir ok komiz þaðan aldri út. enn ef æigi er svá gört þá er æigi geymt laganna ok frelsis alþýðunnar’. lauk hann svá sinni ræðu. þá stóð upp Markus Porcius Kato ok hóf svá sína ræðu. ‘heyrit þèr samráðandi mèr. hvat sýniz yðr ráð at gera af þersum mönnum er þat ætlaðu fyrir sèr at brenna borgina ok þar með frændr sína? eigi má mèr engiss þikkja um slíkt vert er várir frendr ok ættmenn hafa gert, er bæði er bannat huginum ok líkamanum at gera slíkt. ek samþykkir þat æigi at þat

3 Decimus Junius Silanus > Pecíus veníus. ſıllanus. 8 Julii Cesaris > Pecıuſ (◡ Petıuſ) veníuˢ. dœma = døma ◡ dǿma. 9 hatrlausir = hátr lauſír. 10 vizku = uítzku. 15 Katilina > katelínˀ. tekit +. 16 enginn = engín.

sè sannr örleikr at taka annarra eign ok veita þat. val ‘ok snjallt talaði Gaius Julius Cesar um hríð. enn nú vil ‘ek um þat ræða er várir landsmenn hafa saman dregiz ‘ok vilja brenna borgina ok eyða sitt fóstrland enn eggja ‘á hendr oss þat fólk í Gallia sem harðaz er í váro ríki ‘enn hertogi fjandanna er yfir höfði oss með her ok ‘eyðir váro ríki. nú vilit þèr enn miskunna þeim! nei’ sagði hann ‘verði aldri sú miskunn vár at refsa æigi slíkar ‘illgerðir. viti guðin at ek mundi enn þolinmóðliga bera ‘þótt þeir veitti oss áhlaup ef þeir þyrmdi borginni ok ‘mætti sjá skaði endrbætaz. enn nú þikkir mèr váðvænt ‘at hætta til þers er þeir sitja öllum megin um oss enn ‘margir fjandmenn várir ero í sjálfri borginni ok megum ‘vær engin þau ráð gera at æigi verði þeir varir við. ok ‘þí verðum vèr þersum ráðum sem mest at skunda at mèr ‘sýniz alþýðuhagrinn at tapan kominn af glæpum þersa ‘manna sem oss hafa búit bana enn borginni bruna. var ‘þat siðr hinna fyrri manna at dœma jafnt til dráps fyrir ‘ráðna sök sem framm komna’. síþan settiz Kato niðr enn allir menn lofaðu hans tölu.

45. Frá Markus Kato. capitulum. Eptir þat ávítaði hverr annan er þeim hafði svá úsköruliga vorðit áðr Kato
479 minnti þá á, ok dæmdu nú allir eptir orðum Katonis at þá skyldi alla drepa. — Svá segir Salustius at svá marga luti hefir hann heyrt ok lesit af stórvirkjum Rómverja er þeir hafa unnit í Asia ok þeir börðuz opt með lítit lið við mikinn her ok með volduga konunga með litlum viðbúnaði ok öttu jafnan hamingjunni með ofrefli. Girkir váro kallaðir snjallari enn þeir, enn Galli váro enn frægari kallaðir í orrosto. enn svá bar jafnan til at ágjætligr drengskapr Rómverja sigraði þetta allt. enn nú er þeir spilltuz af sællífi þá hèlzt varla rèttr alþýðunnar af löstum

15 vèr +. 18 dœma = dǿma. 29 Galli > Gallij. 32 sællífi = fælhfuí.

ræðismanna. Salustius segir at ij menn váro í Róm um hans daga ágjætir at kröptum, enn með újöfnum siðum, Markus Kato ok Julius Cesar. ok þat skal nú segja hvílíkir siðir hvárs þeira váro. Markus Kato var mest virðr af vingjæði ok af ágjætu ok einföldu lífi því at enginn var hans líki í Rómaborg um hans daga at góðfýsi ok vizku. enn Cesar var lofaðr af fégjöfum ok harðræðum ok mörgum snilldarverkum þeim er einföldum herra stóð at hafa. — Tullio þótti nú ráð at fresta æigi drápi þeira svikaranna. tók hann þá sjálfr Lentulum ok leiddi hann til dýflizu. slíkt hit sama görðu ok aðrir höfðingjar með þá er þeir höfðu haft í varðhaldi. sú dýfliza stendr þar enn í borginni í dag ok heitir "tullıana" ok er svá gör at fyrst er inn kom í skyldi ganga upp nökkut enn síðan niðr xij gráður ok allt lukt með stein: þá var enn hægindahús ok þá xviij álna niðr í jörð. sá staðr var illr ok hræðiligr ok fullr af hræum manna. enn er Lentulus var þangat leiddr þá hengdu þeir hann sjálfir, er í ráði höfðu verit með honum, at boði Tullii; enn síðan váro þeir hengdir svá sem þeira höfðingi Lentulus er var hinnar hæstu ættar Corneliorum. hann hafði haft hertogatign í Róm ok fekk hann þó makligt líflát eptir sínum tilverkum. ok slíkan sama dauða fekk Cethegus ok Gabinius. — Lucius Katilina samnaði nú her at sér. var í þann tíma með honum Manlius með þá sveit er honum hafði fylgt ok höfðu þeir alls ij fylkingar: en í rómverska fylking er talit v̄ı ok dc lx ok vi menn. enn síðan skipti hann herinum eptir sið Rómverja. enn æigi var þat meira enn dc manna er riddarlig vápn hefði; enn þat var mart er ekki hafði utan sprota ok lurka.

3 Kato = kat́o. 5 enginn = engín. 6 vizku = uıtzku. 8 einföldum < einvöldum. 18 sjálfir > ſıalf' nídr. 23 Cethegus > cetog'. Gabinius > gabínuſ. 24 Katilina > katel'. 25 Manlius > mamıluſ ◡ manuluſ. 27 v̄ı ɔ: 6000. 29 riddarlig = Rıddarlıg.

.46. Hèr segir af Antonius ok Katilina ok Rómverjom. Antonius fór með her í móti Katilina. enn er hann varð þers varr stefndi hann á fjöll upp undan því at hann vænti sèr liðs at ákveðnum tíma ór borginni. nú kom sá kvittr í her hans at upp mundu komin svikræði þeira ok Lentulus mundi drepinn vera. leystiz þá þegar mart lið frá Katilina. Quintus Metellus veitir nú umsátir Katiline þá er honum þótti líkaz at hann mundi stefna af fjallinu: náði hann þar nokkurum mönnum af liði hans. enn Antonius Gaius var æigi langt þaðan með meginliðit. hans herbúðir stóðu allt af fjallinu ok allt á slèttuna ofan ok skyldi hann taka með flóttamönnum er drægiz af liði Katiline. nú verðr Katilina varr hvar hann var at kominn, 480 at fjallgarðrinn allr var luktr hans óvinum: mátti hann nú ok æigi venda aptr til Rómaborgar, herðir nú huginn ok vill vissuliga berjaz, kallar nú saman liðit ok hefr svá sína ræðu 'heyrit nú góðir hálsar er reyndir erot at dáð 'ok drengskap ok mèr hafit jafnan fylgt í mörgum háskum 'ok borit val margar mannraunir. nú er Rómverja herr 'skammt í frá oss ok man nú verða harðr bardagi sem 'líkligt man þikkja. gangit nú fast framm því at þèr 'megut vist vita at þèr munut sæta mörgum hörðum 'pínslum af Rómverjum ef þèr verðit teknir: er ok betra 'at falla í orrosto fyrir röskum mönnum heldr enn vera 'kvaldir til bana eðr falla í flótta því at flóttamenn fá 'æigi góðan orðstír. nú ef hamingjan hefir svá fyrir sèð 'at mèr skulum hèr falla, kostit þá hinir raustu riddarar 'ok hafi hverr yðvarr mann fyrir sik. enn nú man ek æigi 'þreyta yðr í langmæli því at æigi þarf góða drengi með 'orðum upp at eggja enda stoðar huglausum hvárki fortölur

1, 2 Katilina > katelín', katel'. 7 Katilina > katel'o. Quintus Metellus > Gnaíuf metullus. Katiline > katl'o. 10 Gaius > Marc'. 13 Katiline > katelíní. Katilina > kateln'.

'nè áfrýjur'. eptir þat lauk Katilina sinni ræðu. síðan lèt hann alla menn stíga af hestum: þar var slèttr völlr: fylkti hann þá liði síno. hann skipaði Gaium Manlium fremstan til hægri handar enn hann var sjálfr undir aðalmerkinu.

47. Hèr segir af Antonio ok af Katilina. capitulum. Antonius fór með her sinn í móti Katilina. hann var sjúkr í fótum svá at hann mátti ægi ganga. hann setti þann mann til höfðingja yfir herinn er Petreius hèt. hann var legatus at tign. Antonius var á hesti sjálfr ok skipaði fremstum rómverskum riddörum ok skipti þeim í cohortes. síðan ríðr hann um herinn ok talaði fyrir liðinu: hann bað þá röskliga framm ganga 'því at nú eigit þèr 'at berjaz með vápnlaust illþýði ok verja svá fè yðvart 'ok frelsi'. Salustius segir at Antonius hafi verit meirr enn xxx vetra í her rómverskra manna ok jafnan með hinni mestu tign: hann var stundum consul enn stundum legatus, stundum dictator, stundum pretor eðr prefectus. nú lèt hann sína menn blása herblástr ok hrærði framm liðit ór stað. slíkt hit sama görði Katilina við sinn her ók skutuz þeir á í fyrstu enn síðan gengu þeir í höggorrosto. Lucius Katilina var fyrstr í fylking sinni ok hjó á báðar hendr ok var þar æ sem mest þörf var ok skipaði til alls sem bezt bar ok fekk þat orð af sem hann vann til því at hann gerði bæði verk snarps riddara ok góðs herstjóra. Petreius sèr at menn Katiline börðuz snarpliga ok stóðu svá fast at enginn þeira hopaði ok fèllu nú mjök hvárirtveggju. þá lèt Petreius ganga fram þann flokk er mest var vandaðr ok var þar ekki fólk í enn greifar ok barónar. þeir gengu í miðja fylking Katiline

1 Katilina > katel'. 5 Katilina > katelıno ok lucıus. 6 Katilina > katelíno. 8 Petreius > Feturgíuf. 17 pretor ∽ p̄cor. prefectus > p̄iectus. 19, 21 Katilina > katel'. 25 Petreius > Feturgíus. Katiline > katel'ı. 26 enginn = engín. 27 Petreius > feturgíus. 28 ekki < ekki annat ⌣ 29 enn < nema. 29 Katiline > katelíní.

ok bognaði þegar fyrir fylkingin. hljóp Katilina þá þangat
ok gekk framm svá hart at Rómverjar hrukku fyrir. af
liði Lucii Katiline féllu fyrst Gaius Manlius ok Fesulanus
ok höfðu áðr bariz vel ok drengiliga. enn er Katilina
sá at fallinn var mestr þori liðs hans ok hann var þá
eptir með fátt lið þá minntiz hann hinnar fyrri tignar
sinnar ok hljóp þá framm í miðjan her úvina sinna þar
er þeir stóðu þykkaz fyrir ok barðiz sem hann væri
481 galinn þar til er hann var stangaðr til bana. Salustius
segir svá at þá er lokit var orrostunni mátti sjá hversu
mikill kraptr fylgdi þersum mönnum. með dirfðinni, er
Lucius Katilina hafði saman dregit því at enginn þeira
leifði þann stað sem í fyrstunni hafði tekit því at hverr lá þar
sem staðit hafði ok váro framan at eins sár á þeim. enn
sjálfr Katilina var fundinn langt framm frá öðrum sínum
mönnum, ok lágu úvinir hans sem þykkaz mátti, ok blés
hann þa enn nökkut: hann hafði hit sama yfirbragð sem
þá er hann var grimmligastr til orrostu. því at af öllu
því fólki er Katilina hafði fylgt varð enginn maðr hand-
tekinn sá er nokkurs var verðr ok engi flýði því at þeir
þyrmðu hvárki sínu lífi nè fjandmanna sinna. eigi höfðu
Rómverjar ok skaðlausan sigrinn því at allir hinir frækn-
astu þeira menn váro fallnir enn sumir mjök sárir. enn
er þeir kannaðu valinn ok veltu riddörum fundu þeir þar
frændr sína ok húsbændr enn sumir úvini sína ok glödduz
þeir enn hinir hryggðuz því var um allan herinn sam-
blandit sút ok gleði. endiz svá Katilina ok hans mönnum
sín ofdirfð ok kyndugskapr er þeir tóku upp at þeir váro

1 Katilina > katelın'. 3 Katiline > katel'. Fesulanus > perſulanus. 4 Katilina > katelínus. 12 Katilina > katl'. (enginn = engın̄.) 15 Katilina > katel'. 16 hans < hans umhverfiss hann. 19 Katilina > katel'o. enginn = engín. 27 'Katilina > katl'íno.

því lægra niðr settir sem þeir klifu hæra upp enn flestir aðrir. fóro nú Rómverjar heim með fögrum sigri.

48. Hèr hefr af Lukano er þessa frásögn hefir fyrst ritað. Maðr hèt Lukanus, rómverskr at kyni. er þersa frásögn hefir fyrst ritað at upphafi ok hefr hann svá at öllum Rómverjaher var skipt í þriðjunga ok var sá höfðingi settr yfir hvern þriðjung er æztr var í Rómaborg ok váro þeir allir görvir dictatores. þar var sá einn maðr er hèt Markus Licinius Krassus: hann átti þá konu er hèt Cornelia; hón var dóttir Metelli, eins af hinum hæstum Rómaborgar höfðingjum. annarr var Julius Gaius Cesar. hinn þriði var sá maðr er hèt Pompeius Magnus Gneius ok lengst hafði ráðit fyrir Rómverjum: hann hafði “víj.” sinnum verit görr consul í Rómaborg; hann átti þá konu er Julia hèt, dóttir Julii Cesaris: Pompeius var þó miklu ellri en Julius. Markus Krassus var sendr til þeira þjóða er svá heita: Parthi, Medi ok Assiri; þat er í Asia. þessar allar þjóðir gengu í móti Rómverjum með her ok fjandskap. Markus átti með þá margar orrostor ok hafði jafnan sigr. enn um síðir varð hann sigraðr af Parthis ok drepinn meðr því at þeir steyptu gulli vellanda í munn honum ok mæltu svá ‘þyrstir þik! drekk þú nú gullit svá at þú hafir í nóg’ ok lauk svá hans æfi.

49. Hèr segir af ferð Julius. capitulum. Julius Cesar fór norðr um Mundíufjall í Saxland og Frakkland því at þeir váro áðr í vingan við Rómverja. sá höfðingi stóð mest í móti Julio er “dıkon” hèt. hann var jarl af Svafaralandi. hann hafði lagt undir sik mikit af Saxlandi ok Vindlandi ok þau lönd er þar liggja nær. Julius átti þar margar orrostor ok höfðu ymsir sigr. hann stríddi í þessum löndum “treuenſıſ. fat⁊enſıſ. bergonenſıs”.

15 Pompeius = Pompæíus. 17 Medi > Medy. Asıa > affrıka. 19 Markus = Markuſſ. 25 Frakkland = frakland. 26 vingan < úvingan. 27 “dıkon” < Divico?. 27-28 Svafara = ſuava. 31 bergonenſıs ⌣ vergonenſıs.

50. Er Pompeius barðiz við víkinga. capitulum. Pompeius Magnus fór með sinn hluta hers með skipaliði út um Girklandseyjar ok barðiz þar með víkinga ok illvirkja þá er
482 þar höfðu mart illt gört ok höfðu fjölda liðs: drap hann þá suma en alla rak hann af sjónum ok af skipunum. enn síðan hèlt hann öllu liðinu út yfir hafit ok barðiz með Mithridatem konung ok sigraði hann. þaðan fór hann í Hispaniam ok sigraði þar Sertorium konung. þaðan fór hann í Ermland ok Kappadociam ok Kaldeam ok Rabítaland ok Gyðingaland ok vann þær þjóðir allar undir Rómverja. ok hann barðiz við xxij konunga ok sigraði þá alla. af þersu varð hann stór-ágjætr. hann kom iij tíma til Rómaborgar á þersum tímum ok gengu út á mót honum consules ok senatores ok öll alþýða manna ok var hann settr í gullkerru ok ekinn svá í borgina í þórshof: þat var þá ágjætast í Rómaborg.

51. Hèr segir af orrosto Julius ok Saxa. capitulum. Nú hefir Julius agjætar orrostor með Saxa, ok um síðir fèll mestr luti liðs hans. þá sendi hann orð Pompeio mági sínum at hann sendi honum styrk af sínum her. ok er þat lið kom til Julium þá fekk hann jafnan síðan sigr. enn þó mátti hann æigi á einum v vetrum eyða öllum sínum úvinum ok Rómverja svá at hann vænti sèr slíks sóma fyrir sitt starf sem veitt var Pompeio ok því lagði hann niðr aðra v vetr af sínu sjálfræði at stýra herinum ok vildi hann æigi koma til Rómaborgar fyrr en hann hefði sigraz at fullu sem hann vildi. í þenna tíma hafði andaz kona Pompeius, enn hann fekk Corneliam er átt hafði Markus Krassus. enn eptir fall Marci sendir Pompeius orð Julio at hann færi heim til Rómaborgar ella sendi hann honum alla sína menn. Julius vildi hvárki

---

7 Mithridatem > m[7]elidem. 9 Kappadociam > kapadociam.
22 v > víj. 25 niðr < viðr. 29 Krassus = kraffuff.

göra. síðan fór hann um Saxland ok Valland ok England ok lagði undir sik öll þau ríki sem fyrir norðan ero Mundíu. en þá er Julius vildi æigi aptr hverfa er honum komu þersi orð þá görðiz þar af sundrþykki meðr þeim Pompeio ok Julio ok litlu síðarr hinn mesti fjandskapr. ok þá er x vetr váro liðnir þá fór Julius suðr til Mundíu meðr allan herinn. þá komu þau orð frá Pompeio ok höfðingjum Rómverja at þeir fyrirbuðu honum at fara meðr fjölmenni til Rómaborgar. Segir svá Lucanus at þaðan af skiptiz þat ríki með vápnum er áðr hafði eignaz allan heiminn bæði á sjó ok á landi: ok varð þat öfgu heilli er Julia fèll í frá, því at hón hefði til gjætt með feðr sínum ok bónda svá at þeir hefði æigi deilt ill-deildum því at þá skildi ekki á nema öfund ein at upphafi ok hugði Pompeius at meira mundi virðaz enn nýi sigr Julii enn hin fornu stórvirki hans. ok segir Lukanus svá at Julius vildi öngvan vita sèr meira enn Pompeius öngvan sèr jafnan, ok kveðr hann því djarfligt at dæma hvárr rèttara hafði því at guðin veittu sigr Julio enn Kato er æztr maðr ok vitrastr var í borginni gekk í lið meðr Pompeið.

52. Frá ferð Julii til Rómaborgar. Julius fór nú suðr um fjall ok hafði mikla áhyggju í skapi. hann setti herbúðir sínar við Rubicon, á þá er svá heitir. þá dreymdi hann um nátt at kona kom til hans, mikil ok ógurlig: 453
hón hafði laust hárit ok bera alla armleggina ok mælti 'hvert ætlit þèr at bera mín merki? ef þèr erot mínir 'menn ok farit með rèttu þá lofaz æigi lengra fram at 'fara'. enn hann virði svá í svefninum sem þat væri líkneskja. 'þú Rómaborg' sagði hann 'er stendr á "kartago"-'bergi ok þau goð, er allt ero til komin af Tyrklandi,

---

30 er > er er. "kartago" < Tarpeia (✻Luc. Phars. I 196).
31 ok þau < ! — þau (182[1] ... enn < ; enn).

'hafa jafnan fylgt várri ætt ok áðr váro í "albía" . . . enn 'Romulus frændi várr reisti þik af jörðu ok ertu nú æztr 'staðr í heiminum — æigi man ek til þín sækja meðr 'andligum vápnum því at hvárt sem ek vinnr sigr á sjó 'eðr landi þá em ek æ þinn þjónostumaðr ok riddari. nú 'með því at sjá úfriðr berr illa þá sè sá sekr er mèr 'bannar til þín at fara með sæmd'. um morgininn fór hann yfir ána ok á sjalft Rómaborgarland ok mælti 'hèr læt 'ek eptir friðinn ok lögin. nú skal treysta á hamingjuna 'ok biðja æigi friðar vára úvini, ok láti guðin koma á 'orrosto með oss'. enn um morgininn í sólarupprás kom hann í þorp þat er Ariminum heitir í því hèraði er "tacía" heitir ok tóko náliga upp allt hèraðit. ok þeir er hèraðit byggðu váro æigi vanir vápnum nè úfriði. ok er þeir sá merki Rómverja ok kenndu Cesarem í miðju liði þá aumkaðu þeir sik er þeir skyldu verða fyrir þersum úfriði er görðiz fyrir norðan fjallit. í þenna tíma komu af Róm margir vinir Julii þeir er Pompeius hafði gört útlaga ór borginni. þar var sa einn göfugr maðr í því liði er Curio hèt. hann mælti til Julium 'fylgt höfum vær þèr meðan 'vèr máttum, ok þínu máli, í Róm: heimt hefir ek til 'þín alla þá menn er ek mátti: ok erom vèr görvir 'útlægir af borginni því at vèr viljum heldr berjaz með 'yðr enn samþykkja þínum úvinum. nú væntum vèr at 'þinn sigr muni skipa oss á várar eigur. nú skunda þinni 'ferð því at fátt er manna í borginni ok þó allir ótta-'fullir. þú hefir bariz x vetr fyrir norðan fjall ok er þat 'lítit ríki: nú má vera at þú beriz hèr fá ár með Róm-'verja áðr þú fáir vald yfir öllum heiminum. þú ert hart 'framm eggjaðr: þèr er varnað sómans alls fyrir þinn 'sigr ok goldinn þèr fjandskapr fyrir starf ok háska.

1 "albía" < Alba (✻Luc. Phars. I 198). 12 Ariminum ∽ armímū. "tacía" < Umbria. 19 Curio > curíuſ.

‘skaltu ok ekki tvískipta her þínum fyrst at sinni. skulum ‘vær ok æigi spara oss til at fylgja þèr.’

53. ‘Hèr segir frá er Julius talaði fyrir lýðnum. Af slíkum fortölum óx mikit hans ágirni ok lætr nú setja merki sitt niðr á völlinn ok kallar þar undir allan herinn: varð þar af mikill gnýr sem ván var at. ok sem hljóð fekkz hóf Julius svá mál sitt ‘vinir várir ok ástmenn er ‘verit hafa í orrostom með oss optarr enn tölu sè hægt ‘á at koma ok haft jafnan sigr á næstum x árum . . . enn ‘nú höfum vær sannfrètt hver starfalaun yðr ero ætluð ‘fyrir sár ok sviða ok manna missi ok þann háska er þèr ‘hafit beðit. er mèr svá sagt at æigi mundi meiri viðr‘búnaðr hafðr til fjandskapar þó at Hannibal konungr færi ‘meðr her sinn til Romam sá er mestr úvin hefir verit ‘borgarinnar ok hana vildi alla upp taka. er þangat til ‘dregit allt fjölmenni þat er má ok hvert skógarkjarr er ‘upp höggvit til skipagörðar enn Cesar er kallaðr útlægr ‘ok dræpr bæði á sjó ok á landi. eða hversu mundi með 184 ‘mik gert ef oss hefði þungt fallit ok færi Saxaherr norðan ‘með ofrefli úfriðar? nú með því at oss hefir enn lètt ‘fallit þá vilja guðin reyna hvárt vèr viljum verða svá ‘miklir menn sem þau vilja oss gört hafa. Pompeius ferr ‘á móti oss, gamall maðr, ok hefir með sèr unga riddara, ‘bændr ok borgarmenn, þá sem ekki ero vanir bardaga ‘— sem er Marcellus hinn málgi ok margir aðrir hans ‘makar. enn mèr þikkir æigi ráðit hvárt þeir ungu riddarar ‘seðja Pompeium á ríki; heldr sýniz mèr sem hann muni ‘aldri niðr leggja sinn újafnað. æigi þarf ek fyrir yðr at ‘tjá hversu rangliga hann hefir dregit fè af hverjum manni ‘um allan heiminn. yðr er ok kunnigt, þá er menn skyldu ‘dæma lög sín í seálfri Rómaborg, hverja kórónu hann ‘setti yfir dómandana: þat var skjaldaðr herr ok alvápnaðr

13 Hannibal > Jbal. 30 heiminn ꝏ heímnım̄.

‘ok skyldi enginn þora at dæma annat en hann vildi. enn ‘nú hefr hann upp ófrið á gamals aldri svá sem görði ‘Silla fóstri hans at hann braut undir sik alla Rómaborg ‘með kappi ok rangindum. svá segja menn at tigres þá ‘er þau bíta hjörðina með ellrum dýrum at þau vilja aldri ‘af láta þegar blóð kemr á tenn þeim; enn ek ætla at ‘Pompeius hafi ok slíkan gráð ok þorsta til manndrápanna ‘síðan hann sleikti varmt mannablóðit af sverði Silla fóstra ‘síns at hann skyldi þá vera djarfari enn áðr. nú er oss ‘æigi sýnt hvern enda hafa mun þetta hit rangliga ríki ‘eða hvenær hann mun ætla af at láta ósómanum; enn ‘þó kann vera, svá víða sem Pompeius hefir sigraz áðr, ‘at sjá sè hans hinn síðarsti sigr at leggja mik at jörðu ‘sakir þers at ek vil æigi kasta sigrmerki mínu niðr undir ‘fætr mèr. enn þótt Rómverjar vili mèr öngva sæmd gera ‘þá væri þó sannligt at láta þá menn hafa sitt verkkaup ‘er mèr hafa fylgt ok svá mikit ríki hafa undir þá unnit ‘ok ætti þeir þangat friðar at vitja sem þeir ero fæðingjar ‘heldr enn víkingar ok vændismenn sæti í húsum þeira í ‘Róm. heilir svá’ sagði hann ‘takit upp merkin þau er ‘mèr höfum víða borit með sigrinum: því at nú verðr ‘alls at neyta: þeir eggja oss vápn at bera í móti sèr ‘er oss varna hins rètta. væntir ek at guðin munu vera ‘í fulltingi með oss; því at æigi berjumz ek mèr “emū” ‘til ríkis nè mínum mönnum, heldr skulum vèr draga ‘drottnana af borginni þá er “nu e^g bun̄” til at þjóna áðr.’

54. Hèr segir af “thefbef” ok hans ráðagjörð. Eptir þersi orð varð mikill gnýr í herinum því at þeir váro margir er eggjuðu úfriðar því at þeir girntuz á ríki ok á ránsfè. enn sumir váro þeir sem spakari váro ok stór-eignaðir at sá hversu mikit illt af mátti standa ok báðu at friðr skyldi verða ok sætt haldaz. því næst stóð upp sá

1 enginn = engín.

maðr er "thefbef" hèt ok mælti ‘þú Julius Cesar hinn ‘æzti stjórnari alls heimsins ok Rómaríkis. vær undrum ‘þat hversu lengi þú þolir þetta þínum úvinum. æigi ‘skal þik várt fullting skorta meðan vèr megum vápnum ‘valda ok mun lítil raun vera at berjaz við borgarmenn ‘vára þá er friði einum ero vanir. enn þó annars kostar ‘er hörmuligt er vær skulum sjálfir hendr á leggjaz. lát 185 ‘oss fara með þèr um Svíþjóð hina miklu eðr í Libiam ‘ok skulum vèr öll þau ríki undir þik vinna með þersum ‘höndum ok vápnum sem áðr höfum vèr sigrat með norðr-‘hálfuna allt at sjónum vestr, ok skal ek þínu boði fylgja ‘í alla staði: enginn skal sá minn vin æða borgarmaðr ‘er ek heyrir þinn lúðr í móti þeyttan — ok þers sver ‘ek fyrir þín merki ok allan þinn sigr, þó at þú bjóðir ‘at ek höggva bróður minn með sverði ok ek leggja ‘föður minn fyrir brjóst með spjóti ok ek vega með vápnum ‘konu mína barnsfulla, þá skal ek hvergi mínar hendr til ‘spara; ok þótt þú vilir ræna guðin en brenna hofin ok ‘setja herbúðir þínar við Tífr í Rómaborg, þá skal ek ‘vera forgöngumaðr; ok hverja borg sem þú vill at jörðu ‘brjóta þá skal ek heimill til vera ok jafnvel þótt þat sè ‘sjálf Rómaborg’. en er "thefbes" lauk sinni ræðu þá hèlt allt fólk upp höndum ok játaðu vilja Julii. enn er þat var ráðit at hann vildi með vápnum vinna Rómaborg ok Italialand ok berjaz á moti senatoribus þá heimti hann af nýju at sèr her norðan um fjall allt þar er hann mátti fá ok skundaði sem mest til borgarinnar.

55. Frá undrum í Rómaborg ok fyrirburðum. Nú er Rómverjar spyrja at Julius er í nánd borginni með her sínum þá gerðiz ótti mikill í Róm ok hræzla. tók þá fólkit at flýja. þat var ok sagt með at Julius var miklu meiri ok ógurligri enn fyrr hafði hann verit ok honum

---

3 æigi > = =. 12 enginn = Engín. 30 hræzla = hræðzla.

samnaðiz ór öllum ættum herr. þá flýðu höfðingjar í brott ok enginn var sá örvasi karl nė svá sjúkr at sinn son gjæti latt nökkura nátt: svá var fólkit hrætt. ok þótti mörgum þat undarligt er flýit var orrostolaust ór borginni: enn þó segir Kato at þá var várkunn á við aþra menn er Pompeius flýði sjálfr ór borginni. Í þenna tíma urðu mörg undr í Rómaborg. þá varð á sól *ok* tungli fyrst þat sem eclipsis er kallað, allt í móti eðli. *þá var* ok sėn stjarna sú er cometa heitir, í líking sverðs, ok horfði blóðrefillinn á borgina: sú stjarna er jafnan sėn fyrir stórum bardögum. þá váro ok sėnar eldingar stórar fljúga ór norðri í heiðviðri. þá sýndiz ok hafit sjálft ásýnis sem blóð eðr roðra. þá váro ok fædd hvers kyns býsn í borginni bæði af fė ok mönnum, ok margs kyns illfygli flaug ór skógum ok hreiðraðiz í borginni. þat er ok sagt at uxi einn sá er fyrir arðr var leiddr mælti ‘ófyrirsynju ‘berit þėr mik því at brátt man Rómaborg meirr skorta ‘menn en sæði “edr vapn æ̇ næġ eñ korn”. um iij nætr sá þeir ok heyrðu til vápnaðra manna mikinn gný ok háreysti. ok þeir menn sem næstir bjöggu borgarveggjunum sá fara at borginni tröllkonu mikla ok ógurliga ok hafði í hendi fork mikinn af glóanda járni, ok svá sýndiz þeim sem hón hefði borgina í faðmi sėr. þar sá menn ok um allar nætr drauga ganga: þeir Silla ok Marius höfðu með mestum grimmleik deilt sín í millum ok var því hvárigum þeirra veittr gröftr sem öðrum höfðingjum í Rómaborg; gengu þeir nú ok aptr allar nætr í sýn við menn. við þersar ógnir urðu menn mjök ræddir í Rómaborg ok
486 flýðu af þessu margir menn ór borginni. þá komu til fjölkynngismenn ok blótuðu ok gengu til frėtta við guðin ok rannsakaðu bæði manna innsteri ok svá búfjár ok

2 enginn = engín. 8 eclipsis > eclipſiñ. 15 hreiðraðiz ⌣ hreiðraðuz.

kváðuz þar ekki seá nema daprliga luti eina. sá maðr kom þangat er hét Aruns, hinn mesti galdramaðr, fullr fítonsanda ok fjölkynngi. hann blótaði griðung einn. ok er griðungrinn var höggvinn þá ljóp mikill ok kolsvartr kattr ór búkinum. ok er hann sundraði griðunginn knýtti hann ij knúta á viljunum, nær sem mannshöfuð væri, ok eignaði annan knútinn Julio enn annan Pompeio Magno ok kvað þar síðan marga fáheyrða galdra yfir: þá þrútnaði sá knútrinn ákafliga er Julio var eignaðr enn sá er Pompeio var eignaðr visnaði allr ok varð at öngu. Aruns kvað þá við hátt ok mælti 'ægi er smátt hvat guðin birta 'mér úverðugum ok ekki hefir hinn hæsti faðir þórr eignaz 'þetta blót heldr hafa helvítisguðin hlaupit í búk þersa 'griðungs ok segir mér mjök illa hugr um hversu ganga 'mun ok man þó þyngra falla enn í hug man koma'. Sá maðr var enn einn í Rómaborg er val kunni stjörnulist ok sagðiz hann sjá á himintunglunum at stórar orrostor mundu verða ok mannfall mikit ok langr úfriðr. Sá atburðr görðiz enn í borginni er mönnum þóttu mest undr í vera, at þá er ein göfug húsfrú skyldi ganga til þórshofs at biðjaz þar fyrir eptir vanda var hón numin upp í loptit langt yfir borgina ok hékk hón mjök lengi. þat sá mikill fjöldi manna ór borginni ok heyrðu at hón kvað við hátt ok mælti 'þú Apollo. hvert viltu færa mik?' (þat köllum vær sólarguð). 'ek sé nú = = = miklu' sagði hón. 'ek 'sé nú Philippos undir gnípu einni. eðr hví sætir? ek sé 'Rómverja berjaz sjálfa ok öngva stórhöfðingja at móti. 'nú fer ek út á Egiptaland ok kenni ek þar búk hinn 'mikla er þar liggr höfuðlauss á Nílar söndum. nú fer ek 'í Libiam ok sér ek þar fylkingar þær hryggar er brott 'komuz ór Emathia. nú fer ek norðr um fjall ok nú fer

2 Aruns > aranas. 8 yfir > ẏ = =. 10 Aruns > Aranas. 24 Apollo = ápollo. 26 Philippos > phılıppum. 31 Emathia > ematha.

‘ek heim til Rómaborgar ok sè ek nú bariz af höfðingjum ‘í miðri borginni ok nú sèr ek úfrið um allan heiminn. ‘nú fer ek út yfir hafit ok kennir ek enn völluna Philippi’. ok eptir þat fèll hón niðr á jörð ok lá lengi svá sem dauð. Af þersu öllu gerðiz ótti mikill í borginni ok kvenna grátr ok ungra manna. karlmenn nær allir flýðu ór borginni, sumir til Julium enn sumir til Pompeium.

56. Hèr segir af Bruto ok Katone. capitulum. Brutus hèt einn göfugr maðr í Róm. hann fór um nátt í garð Katonis er þá var æztr af senatoribus. öllum mönnum þótti með hann ódælt nema Bruto einum. hann mælti til hans ‘kraptr ok manndómr sá er nú eyðiz mjök þá veit ‘ek at þú vill æigi með hann skiljaz hvat sem yfir gengr. ‘nú vil ek leita þangat ráða sem þú ert, því at ek kann ‘mèr engin utan ek hafi þinn styrk til. nú fara sumir til ‘Pompeium enn sumir til Julium; enn þú einn skalt vera ‘minn leiðtogi hvárt er þú vill heldr at mit sèm í borginni ‘ok leitim at halda friðinn sem mèr megum eða viltu 487 ‘ganga í lið með höfðingjum ok berjaz með þeim. þeir ‘fara flestir í hernað er nokkut dregr til: sumir ero úvinsælir ok hræðaz úvini sína, sumir ero fèlausir ok vilja ‘svá afla sèr fjár ok frægðar: enginn maðr leypr til vápna ‘nema hann vænti sèr nokkurs afla eðr mikils verkkaups. ‘þèr einum trúir ek til at þú munir því at eins berjaz ‘at þat sè rèttligra. enn fyrir litit þikki mèr þèr koma at ‘hafa varðveitt þik frá mannlýtum alla þína æfi ok verit ‘saklauss við hvern mann ef nú skaltu ganga í þenna ‘hinn úskapliga bardaga er frændr ok vinir drepaz niðr. ‘æigi skyldi svá at beraz at þú særðir eðr dræpir þína ‘vini eðr náfrændr ok fyrirfæriz svá þín frægð ok mannkostir. enn fúsir munu allir at kallaz með þínum vápnum ‘særðir ok vilja svá fyrirljúga þínum ágjætum kröptum.

---

8 Katone > katonē. 22 enginn = Engín.

‘glaðan ætla ek Julium þat spyrja at slíkr maðr gangi í ‘bardaga ok man hann þat segja at Katoni líki val úfriðrinn ‘er hann vill sjálfr í ganga þann hinn háskasamliga bar‘daga. nú snýr hıgat mikill hluti liðs — consules ok ‘senatores — eðr viltu þar vera Kato ok ganga undir ‘Pompeium ok þjóni þá allir undir einn? hvat er þá nema ‘Julius sè einn frjáls manna í heiminum er hann einn ‘gengr æigi undir Pompeium. meðr því at oss sýniz síðarr ‘at berjaz fyrir sakir laga ok frelsis þá sjám fyrir hverr ‘með þèr ferr ok man ek göraz þá hvárki fulltingsmaðr ‘Julii nè Pompeii hvern veg sem sigrinn ferr með þeim’. ok er Brutus hafði þetta mælt þá segir Lukanus svá at Kato hugsaði lengi með sínu hinu helgasta brjósti ok eptir þat mælti hann ‘játi ek því, Brutus, at þat er mikill ‘váði at borgarmenn várir, frændr ok vinir, drepiz niðr; ‘en þó er þeim bezt at fylgja er manndómrinn er næstr: ‘verði eptir auðnu. er enn þat auðsýnt at hamingjuguðit ‘er reiðt oss fyrir sakir illgerða vándra manna ok rangra ‘dóma. enn ef svá vel verðr at himnaguðit eðr helvítis‘guðit vildi þat at mitt höfuð mætti leysa allra manna sár ‘þá munda ek þí feginn verða ok framm ganga í milli ‘fylkinga ok taka feginn með allra manna vápnum ór ‘hvárratveggju liði ok göra at dæmum hins góða Decii ‘ok mætti svá mitt blóð ok mín sár ok minn dauði frelsa ‘allra manna úsiðu ok yfir bæta allra verk ok illgerðir. ‘undr er hví allt fólk vill sjálfkrafa tapaz. sækit mik með ‘hörðum vápnum því at ek vil verja lögin ok halda frels‘inu ok mætti minn háls höggva til þers at friðr yrði ‘ok þá er ek em dauðr kann vera at sá hafi ríki er vill ‘orrostolaust. nú munum vær ganga undir þau merki sem ‘hèr ero upp tekin í borginni ok fylgja Pompeio því at ‘þat er enn æigi vitat at hann muni sèr eigna allan

---

2 Katoni > katone. 5 Kato = káto. 11 Pompeii > Pompei.

'heiminn þó at hann verði meiri ok til þers mun ek æigi 'vera í hans hirð at hann þikkiz einn sigr vega þótt þers 'verði auðit'. réðu þeir Brutus ok Kato þat af at fara í lið með Pompeio ok berjaz.

57. Hèr segir af Marcío ok Katone. Ein virðulig kona hèt Marcia. hón hafði verit frilla Katonis enn hann gipti hana ij sinnum. bændr hennar önduðuz báðir. hón kom þá til Katonem ok mælti grátandi 'meðan ek var á
488 'lèttasta aldri fylgda ek þínum ráðum ok giptumz ek ij 'mönnum en nú ero þeir báðir dauðir, er nú ok æigi 'nauðsynligt at fá mín sakir elli. enn þó biðr ek at þú 'görir þat yfirbragð á at þú fáir mín ok mætti þat rètt-'liga skrifaz á leiði mínu HÈR HVÍLIR MARCIA KONA 'KATONIS. lítt mun at því leitat er langt líðr hèðan hvè 'lengi okkrar samfarar hafa verit. vilda ek þjóna þèr Kato 'í herbúðum'. Kato lýddi orðum hennar ok kallaði til sín Brutum ok fekk Marcie eptir lögum ok þó með öngu skrauti eðr metorðum. Kato skar aldri hár sitt nè skapaði skegg síðan þetta missætti hófz ok enginn maðr sá hann glaðan því at hann harmaði ánauð fólksins ok úgiptu er yfir gekk. hann gjætti jafnan hófs ok rèttlætis í öllum stöðum ok engin skipti átti hann með konu sína á þessum tíma. hann vildi ok gefa líf sitt til frelsis allri alþýðu ok æigi at eins vildi hann sèr einum góðr vera heldr öllum heiminum. svá virði hann sem hungr ok þorsti væri sigr frá allri munuð. hann hafði vás ok vökur ok mikit erfiði. hann kom ok aldri ór hárklæðum ok var æ búinn til varnar fyrir sakir frelsis ok laga. hann var sannliga faðir bónda, höfðingi höfðingja, fagnaðr rèttlætis, umbót laganna: ok aldri mátti mannlöst finna í lífi Katonis.

58. Frá Pompeio ok Julio. Á þersum tíma var

5 Marcío < Marcia. Katone > katonis. 19 enginn = engín.
28 varnar > fᵛnar. 31 Pompeio > Pompeiū. Julio > Julíum.

Pompeius í Kampania við borg þá er Capua heitir. hann dró saman her þann allan er hann mátti þar fá at rísa í móti Julio. Julius fór ór Ariminum-borg ok á sjálft Rómaborgarland. tók hann þá at hefja rán ok hernað, ok mátti þat sjá at Julio þótti betra at brenna borgir ok kastala enn þeir gjæfiz upp sjálfkrafi er áttu. þeir eyddu hèruð með vápnum ok eldi ok taka sumir þat ráð at lúka aptr borgarhliðum ok búaz til varnar enn sumir gáfuz upp ok gengu á vald Julii: margir hèldu ok trúnað sinn við Pompeium ok urðu þó flestir undir brotnir af valdi Julii. vex nú meirr styrkr Julii enn nokkurum mætti í hug koma. Libo hèt einn höfðingi en annarr Silla son Lucii Sille hins ríka þers er drap Marium: hann flýði þá er honum var sagt at Julius væri kominn í hans ríki, ok segir Lukanus þat at hann barðiz æigi meðr föðurligum vápnum er hann rann þegar hann heyrði Julium nefndan. Varus, Lentulus ok Scipio — þeir fóru til Pompeium enn Julius tók upp allt þeira góðs.

59. Hèr segir frá Domitius ok Julius. capitulum.

Domitius hèt einn höfðingi. hann rèð fyrir þeiri borg er Korfiniensis heitir. hann var manna ágjætastr. hann samnaði liði á mót Julio. ok er Julius kom nær þeiri borg — þóttu þá skína allir vellir af vápnum þeira ok herbúnaði. Domitius ferr á mót honum með fylktu liði til ár þeirar er var í millum herbúðanna ok borgarinnar ok mælti svá með lið sitt ‘görum svá val — veitum hèr viðrnám ok látum ‘þá æigi komaz yfir ána orrostolaust. þat er oss nógr sigr ‘at Julius dveldiz hèr nokkura stund ok at vær verðim ‘fyrstir til at bera vápn í mót honum’. Julius sèr nú at þeir búaz til varnar ok verðr mjök reiðr ok mælti ‘eigi

---

3 Ariminum > Arabıa. 17 Lentulus > centacl's. Scipio > oppío. 19 Domitius = domícíus. Julius > Julíj. 20 Domitius = Domícíus. 21 Korfiniensis > korpíníenſis. 24 Domitius = Domícíus.

‘þikkir músunum enn ráð at flýja í holurnar ok ætla þessir
489 ‘veslingar at verja oss árbakkann ok steinbogann. enn ‘þótt hér félli sú [hin mesta] á í milli vár sem mest er í ‘heiminum |er| ok Ganges heitir þá væri vær betr til ‘fallnir at sækja enn þeir at verja, ok með öngva munum ‘vær ána dveljaz síðan mér fórum yfir Rubicon, ok sækit ‘framm drengiliga’. Menn Julii skutu nú spjótum ok gaflökum ok bogaskotum ok sóttu á ána ok varð nú orrosta hin ákafasta ok lauk svá at Domitius flýði fyrir ofrefli liðs Julii til borgarinnar ok gaf sik upp yfirkominn. var hann þá handtekinn ok leiddr fyrir Julium, ok er svá sagt at Domitius hafi haldit öllu yfirbragði sínu ok vaskleik ok rétti framm hálsinn ok mælti ‘ráði til einn hverr ‘ok höggvi drengiliga, því at nú þikki mér litlu betra líf ‘enn hel síðan ríki Julii skal yfir ganga’. þá mælti Julius ‘þó at þú vilir nú deyja þá skaltu þó lifa ok hafa þegit ‘líf af mér alla daga þá er þú lifir héðan af. várir úvinir ‘skulo nú vita héðan frá hversu gott er at koma á mína ‘miskunn. enn þat skaltu vita at ek ætla ekki til þinna ‘ömbuna hér fyrir’ bað hann þá lausan láta ok fara hvert er hann vildi ‘enn þat skal þér þungt vera at fara til ‘Pompeium eðr annarra höfðingja várra úvina’. hann svaraði ‘þat er mér þyngst at ganga undir þitt vald enn vita ‘ekki til annarra höfðingja várra’ ok þegar hann varð lauss fór hann til Pompeium.

60. Frá Pompeius ok Julius. capitulum. Pompeius spyrr þá at skammt var til liðs Julii ok ætlar at þeir muni berjaz annan dag ok talar fyrir herinum ok mælti ‘nú er saman kominn herr Rómverja sá er æigi hefir ‘sakir drambsemi sín vápn upp tekit heldr með forsjó ‘höfðingja til þers at hegna glæpi ok vandræði. veit ek ‘at þér erot nú fúsir til at berjaz ok er þat þó várkunn

---

6 Rubicon > Roben. 8 gaflökum = gafl|lókum. 9, 12 Domitius = domícíus. domícíuſ. 26 Julius > Julíj. 32 þat < þar.

‘á með yðr. nú er kominn Saxa herr norðan um fjall ok spyrjum vær at Julius hefir drepit menn vára enn suma meidda ok höfum vèr þolat þetta, en guðin láti þersa æigi úhefnt vera því at æigi var sá meiri ósómi er Katilina ok Lentulus ok Cethegus gerðu. vesallig er reiði þeira höfðingja er goðin hafa jafnat við þá hina æztu menn svikaranna scálfra er váro í Rómaborg Cinna ok Marius. þá væri vel ef hann færi slíkum dauða sem Lepidus, Carbo ok Sertorius er allir lètuz fyrir vápnum. nú þó fyrir sakir tengda várra þá væri val at æigi væri úfriðr með oss, ok hefði Krassus komit með sigri af Scithia þá mundi hann nú sigra Julium ok hans her. nú þó — látit yðr þikkja lítils verðt [þikkja] þótt Julius mágr minn kalli mik gamlan ok örvasa því at þat sakar ekki þótt höfðinginn sè ellri enn riddararnir. ek hefir fengit svá mikinn uppgangh sem Rómverjar máttu mestan veita mèr ok ekki hefir ek öðrum leift í heiminum ok æigi girniz sá smára luta er meiri maðr vill vera en ek hefir verit. hèr ero nú í liði með mèr consules ok öll fylking sú er með jörlum ok hertogum skiput. víst skammaðiz hamingjan þá engis er hón veitti Julio sigr í móti senatoribus ok þeira liði. hann talar þat alla daga hvè mikit hann hefir starfat fyrir norðan fjall þá x vetr er hann var þar ok kveðz hann þar hafa farit yfir sjóinn er fellr um heiminn allan; enn ek hyggr hann þar farit hafa yfir tjarnir þær er hann veit sjálfr hversu djúpar váro. 490
ek hygg hann ok aldri farit hafa yfir Rín ok er þat mikill hègómi er hann segir at vápnaðir riddarar hafi flýit fyrir honum með ótta ok hræzlu. enn þó þarf hann æigi at ætla at vær höfðingjar heimsins munim flýja fyrir

4-5 Katilina > katelın'. 5 Cethegus > thegus. 7 Cinna > ſılla. 8-9 Lepidus, Carbo > leuıdus. cıtaron. 9 Sertorius > corſus. 11-12 Scithia = ſıthía. 17 öðrum (= odnu) ∽ olku. 20 skiput ∽ ſkipút. 29 hræzlu = hrǽðzlu.

'honum þót mèr sèm nú mjök hrumaðir af elli. ek sigraða 'ok áðr þann konung er aldri áðr varð yfirkominn ok 'Lucius Silla hvarf frá er ríkastr hefir verit ok mestr 'orrostomaðr. ek hefir farit um allar hálfur heimsins ok 'haft sigr um alla jörð hvar sem hón liggr undir sólinni. 'ek hefir ok sigraz í Phasis ok mitt ríki hefir gengit um 'allan heiminn. ek hefir ok sigrat ok skattgilt allt Egiptum, 'Kappadociam, "Rabítam", Hispaniam, Pontum, Pamphiliam, 'Frigiam, Libiam, Judeam, Kaldeam ok allt Asiam ok Afri- 'cam, ok allr heimr hefir til mín lotit: ok nú veit ek 'æigi hvat ek hefir þat leift mági mínum Julio at hann 'megi sigr vinna á mèr utan hann sigriz nú í þersi orrosto 'er hann ætlar nú at eiga með mik afgamlan ok með 'borgarmenn sína'. þá er Pompeius hafði lokit ræðu sinni þögðu allir enn báru þó saman ráð sín er þeir spurðu at Julius var skammt þaðan með úflýjanda her, ok treystuz þeir æigi liðsafla með Julium ok fór Pompeius þá til Brandısar með Rómverjaher: þat er ein sjóborg á Púli. þá sendi hann son sinn hinn ellsta er hèt Gneius Pompeius at draga saman her um allan heiminn enn ij consulus "gneíum curíum" ok "portíum fillanam" at heimta saman skatta, landsskyldir ok "uıll"= =.

61. Frá Pompeius ok Julius ok þeira viðskiptum. Nú kemr Julius til Brandısar ok setz um hana með öllum her sínum. hann sèr at þeir Pompeius megu fara ór borginni meðr skipum ok svá á haf út ok því lèt hann stórt grjót ok stór-viðu færa í sundit. enn Pompeius lèt taka stór skip þá er vindr stóð af borginni ok reisti þar á valslöngur ok lèt reka út at stikunum ok slöngdi svá eldinum

2 ok áðr > ak aðr. 6 Phasis > pafidıs. 8 Kappadociam > kapadocıam.' Rabítam ɔ: Arabiam. Hispaniam > hy̆fpaníam (✱ ẏtalía 134[5]). 9 Kaldeam = kalldeam. 9-10 Africam = affrıcā. 18 Brandısar (= bᵗᵗndıfar) ɔ: Brundisium. 23 Julius > Julíj́. 24 Brandısar = bᵗᵗndıfar.

í stikin ok brendi upp. eina nátt fór Pompeius leyniliga á skip með her sínum ok sigldi brott. enn er hann var í brottu þá snöru borgarmenn skjótt trúnaði sínum ok á þeiri nátt luku þeir upp borginni fyrir Julio ok hans liði. þá váro tekin ij skip er Pompeius átti ok var drepit af hvert mannsbarn er á var, enn sumt lið Pompeii komz á haf út. ok segir Lukanus svá ‘þar ferr þú nú Pompeius ‘með ekki litlum flokki, ok er þat þó úskapligt at mannfall ‘mikit skuli verða á fjarrlægu landi. enn þó vilja guðin ‘æigi ræna þik föðurligum grepti á þínu fóstrlandi, heldr ‘var til þers kosit Egiptaland at Italia væri sparat til þeirar ‘úgjæfu ok hörmuligra svika meðr þílíkan höfðingja, ok ‘má Rómaborg vera úspillt ok úsaurgut af dauða þínum ‘Pompeius’. nú sigla þeir á haf ok horfa flestir framm eptir skipi nema Pompeius einn: hann lá aptr á saxit ok horfði upp til lands, ok meðan hin hæstu fjöll váro æigi vötnut. hann hafði verit lengi af mörgum áhyggjum svefnlauss, ok er horfin váro öll fjöll þá sofnaði Pompeius. hann dreymdi þá at Julia er hann hafði átt, dóttir Julii Cesaris, kjæmi at honum ok mælti til hans með mikilli reiði ‘þat kann ek at segja þèr at helvítisguðin búa þèr ‘margar vistir ok mörg meinlæti. þú vannt sigr meðan 491
‘mið várom hjóna; enn nú hefir þú skipt hamingjunni með ‘rökknaskiptinu: hafa Cornelie ekki giptusamliga gengit ‘verföngin þó at hón sè nú friðla þín. ert þú náliga ‘fauskr einn ok viltu þó flytja hana í her með þèr hvárt ‘sem þú ferr á sjó eða á landi til þess at ek mega þín ‘aldri njóta. enn hón skal þín þó æigi njóta: faðir minn ‘man angra þik um daginn enn ek um nætrnar. öngvar ‘úminnisveigar hefir ek drukkit i öðru lífi þótt þú munir mik ‘nú ekki: enn hvat er þú berst fyrir þá mun ek æ í

1 stikin > ſtıgín. 6 Pompeii > pompeı. 7 Lukanus = lukánus. 22 vant > v||vant. 23 hefir = hefu.

'miðri fylking vera, ok þers sver ek fyrir mína höfðingja 'í öðrum heimi at þú munt aldri at öngu verða mega ok 'ekki mun þín börn mega frá þér skilja, ok svá man þessi 'orrosto lúka at þú munt minn verða ok með mér muntu 'fara'. síðan fór hón í brott. enn Pompeius vaknar ok mælti mæðiliga 'til hvers kemr þér Julia at angra mik 'með slíkum draumum? því at annat hvárt er vitit ekki 'eptir dauðann ellar er dauðinn enskis verðr'. þat sama kveld kom hann öllum herinum heilum á þat land er "cumadudıam" heitir.

62. Frá ferð Julius til Rómaborgar. Julius réð nú einn öllu Rómaborgarlandi. hann sendi þann mann til Sikileyjar at heimta þar saman vistir er Curio hét. enn hann sjálfr fór til Rómaborgar með friðsamligu yfirbragði. enn er hann fór at borginni þá var ekki gert með hann sem aðra höfðingja er þeir komu heim með sigri því at engi processio var gör móti Julio ok týndi hann þeim sigri með yfirbragði en þó hafði hann þann sigr at fólkit allt var náliga hrætt með hann. enn er hann reið at Rómaborg þá kallaði hann hátt ok mælti 'þar ertu Roma, 'sæti guðanna — ok hafa höfðingjar þínir flýit frá þér 'orrostolaust ok þorat æigi at halda upp orrosto: víst sé 'guðunum þökk er þínir fjandmenn Rómaborg komu æigi 'ór austrvegi meðan þú vart höfðingjalaus, ok er þat 'skömm ok skaði er þú skyldir hafa huglausan her yfir 'þér, ok víst er þat fagnaðr er vær höfum heldr hér með 'oss byrjat þersa deilu'. nú kemr Julius í borgina með slíkri ógn ok hræzlu sem nú var frá sagt — búinn at brenna hofin enn ræna guðin. hann stefndi til sín öllum þeim höfðingjum sem eptir váro í borginni í höll eina mikla: þeir váro svá hræddir at þeir dæmdu allt þat er

10 "cumadudıam" < Candavia. 13 Curio > curíuſ. 28 hræzlu = hrædzlu. búinn = buín.

hann vildi. eptir þat gekk Julius til þers hofs er þeir kallaðu Njarðarhof. þar var hjá höll: sú var sterkliga læst... ok Erarium hèt er í var hirt allt lausafè Rómverja, gull ok silfr ok góðir vefir er saman höfðu dregit hinir fyrri höfðingjar. ok er Julius kom til hofsins þá veik hann til hallarduranna. en sá höfðingi er Metellus hèt mælti við Julium ‘æigi munut þèr upp lúka þersum durum [upp ‘lúka] at mèr lifanda, ok æigi munut þèr ræna hofit ok ‘guðin sinni eign nema þèr drepit mik. nú er þat ráð ‘Julius at bregða sverði þínu ok höggva höfuð af oss ‘borgarmönnum, ok er þat mikit frægðarverk’. Julius reiddiz mjök orðum hans ok mælti ‘mikinn hègóma mælir ‘þú at þú munir fá svá vegligan dauða: æigi man ek ‘saurga mínar hendr í þínu blóði, ok öngvan hug ber ek ‘til þers at sýna mína reiði á þèr því at æigi muntú mega ‘stýra lögum nè frelsi í móti mèr, ok æigi mun ek svá 492
‘blanda hinum hæstum lutum við hina smæstu því at lögin ‘sjálf vilja heldr vera brotin af mèr enn haldin af þèr at ‘eins’. ok er Julius hafði þetta mælt þá brutu hans riddarar herklæddir upp hurðina. þá mælti einn rómverskr riddari sá er “koctanentíus” hèt til Metellum ‘sèr þú æigi ‘at allt várt fólk er fyrir farit sakir þers ríkiss er yfir ‘gengr ok verðum vèr nú mörgum röngum lutum at lýða, ‘ok er sú líkn vár mest at margir verða svá at göra ok ‘vèr verðum öngu at níta því er á oss er lagt’. Metellus var tekinn ok leiddr til duranna, ok tóku þeir þá út auð þann er enginn hafði nær komit langa æfi ok hinir æztu consules höfðu saman dregit: hinn fyrri Fabricius er barðiz við Rómverja sjálfa ok Marius er sigraði Jugurtham konung ok vann Numidiam — ok allr sá fjárlutr sem

---

6 Metellus > metılluſ. 21 “koctanentíus” < Cotta. Metellum > metıllū. 25 Metellus > Metılluſ. 26 til duranna < frá durunum. 27 enginn = engín. 28-29 hinn fyrri — Rómverja sjálfa < Fabricius er barðiz við Pirrhum.

Pompeius hafði saman dregit um austrhálfu heimsins sá er barðiz með xxij konunga ok sigraði þá. ok segir svá Lukanus at þá hit fyrsta var Rómaborg fátækari at fènu enn Julius Cesar.

63. Hèr segir af Pompeio ok hans liðsafnaði. Nú er at segja af Pompeio at hann sendir orð öllum þeim mönnum, er honum vildu lið veita, um Greciam ok Asiam, ok dreif til hans útalligr herr. ok segir Lukanus svá at aldri um aldr muni jafnmikill herr hafa saman dregiz í einn rota ok æigi munu dæmi til at jafnmargir jarlar ok konungar hafi haft yfir sèr einn höfðingja: allr herrinn hlýddi hans boði ok banni. Nú ferr Julius með her sinn ok ætlaði í Massiliam ok Hispaniam, ok fyrir því at hann vill vinna allt fyrir norðan fjallit. hann stefnir nú til þeirar borgar er "foge" heitir ok sterkuz var. ok er borgarmenn spurðu ferð hans ok fyrirætlan þá sendu þeir menn í móti honum ok sögðu svá at ‘hvern tíma sem útlendr herr hefir gengit ‘á Rómaríki þá höfum vèr með þeim verit ok bariz svá ‘sem ritat er í yðrum annálum; enn ef þèr vilit fara í ‘úkunnar hálfur heimsins ok berjaz þar þá hafit þèr þá ‘menn með yðr er þers ero fúsir því at hvervetna um ‘heiminn drífr lið at yðr þat er ekki skirriz slík vandræði. ‘ok með slíkum vilja skyldu allir vera til yðvar ok til ‘Pompeius sem vèr erom ok mundut þit þá æigi reiðir ‘deila. nú biðjum vèr at þèr snúit frá borg várri með ‘friði. [enn meðr því at þèr vilit vinna hana ok setjaz í ‘hana þá] viljum vær at þersi staðr sè öruggr Pompeio ‘ok yðr, hvárr ykkarr sem hingat vill sækja vápnlaus, ok ‘sýnum vèr yðr svá vára trú. enn meðr því at þèr vilit ‘setjaz um borgina ok sækja hana með úfriði þá skulum

13 Massiliam > M̄ſliam. Hispaniam > hyſpaníam. 15 "foge" ɔ: Massilia (✱ Phocais in dubiis ausa est servare iuventus Non Graia levitate fidem. Lucan. III 301-302). 20 þar þá < þar — — — þá.

'vær at vísu verjaz ok fyrri munu bræðr vegaz enn mèr 'tapim konum várum ok börnum ok gangim í her með 'þèr nauðgir'. enn er Julius heyrði þetta þá reiddiz hann ok mælti 'þersir menn ætla mikinn hègóma fyrir sèr at 'þeir ætla at ek muni æigi tóm til fá at eyða þetta land 'ok brjóta þessa borg. þeir sögðu at ef ek kjæmi vápn-'laus í þessa borg at þeir mundi hana upp lúka: svá 'mundu þeir mik inni byrgja at ek munda aldri út komaz. 'nú gef ek yðr góðir fèlagar þessa borg at herfangi'. síðan ferr Julius til borgarinnar með her sinn ok sèr at öll borgarhlið váro aptr byrgð enn kóróna þykk af hjálmum, brynjum ok skjöldum var sett umhverfiss borgina 493 á vígskörðum. Julius setr nú herbúðir sínar um borgina ok lèt gera einn vegg af torfi jafnháfan borginni ok víg-skörðum: hann lèt setja upp háfa viðu tveim megin veggj-arins svá at æigi fèlli þó at þungi kjæmi á. þar var ok blótskógr einn er borgarmenn höfðu mikinn átrúnað á ok treystiz lið Julii því æigi at höggva hann. þá ljóp Julius fram at skóginum ok hjó ij höndum lund einn sterkan svá at öxin sökk at hamri öll ok mælti 'hræðiz 'þèr æigi at höggva þenna skóg: ek man bera ábyrgð 'fyrir'. þá hjöggu þeir upp allan skóginn með hræzlu ok uggðu þó meirr reiði Cesaris enn guðanna: var nú upp höggvinn allr sá skógr. með þetta urðu borgarmenn úglaðir ok mæltu svá 'hví manu guðin æigi hefna sinna 'meingerða? eða hví man svá "næk" hamingjan vándra 'manna at "þeir" megu öngum stýra nema vesölum mönnum 'einum?' Julius lèt gera ij turna á vegginum til at skjóta í borgina. enn borgarmenn vörðuz vel ok drengiliga ok slöngdu grjóti með valslöngum ór borginni svá at menn Julii máttu æigi atsókn við koma ef þeir gengu nær. Julius sá þá at hann mundi þá borg æigi unnit fá utan

22 með hræzlu > $_{m}^{d}$; hrædzlu.|hræðzlu. 26 "ɴæk" < rík. 27 "þeır" ɔ: guðirnir (guðin).

með langri umsát ok skipti þá herinum í ij staði: fór hann sjálfr í Hispaniam með sumt liðit enn setti eptir þann höfðingja er Brutus hèt ok bað hann aldri við skiljaz fyrr enn borgin væri unnin. litlu síðarr riðu borgarmenn út með öllum her sínum ok báru eld í vígi þau er Julius hafði gera látit ok brenndu upp allt. ok síðan börðuz þeir á skipum með Brutum ok varð þar hinn harðasti bardagi. sá höfðingi var í liði Bruti er Tirrhenus hèt, manna sterkastr: hann var höggvinn um þvert andlitit svá at bæði augun fyrirfóruz. enn þó at hann væri blindr þá skaut hann þó í lið úvina sinna: hann skaut með ör í brjóst einum göfgum manni þeim er Argus hèt ok fèll sá þegar á bak aptr. enn faðir hans stóð hjá honum ok bendi honum at hann lyki aptr augu sín. ok er hann sá sinn bana fyrir þá mælti hann með miklum harmi 'ef guðin 'vilja lofa mèr at ek leggja mik sjálfr í gegnum þá skal 'ek þat gera'. síðan skaut hann niðr sverðshjöltunum ok lèt fallaz á oddinn svá at í gegnum hann stóð ok steyptiz síðan fyrir borð. lauk svá þeira skiptum at Brutus fekk sigr ok var þersi hinn fyrsti sigr af mönnum Julii.

64. Hèr segir af Julio er hann fór í Hispaniam. capitulum. Nú er at segja frá Julio at hann kemr í Hispaniam ok váro þar fyrir ij höfðingjar, vinir Pompeius: hèt annarr Petreius enn annarr Afranius. þeir höfðu mikit lið ok sátu í þeiri borg er Ilerda heitir; enn á fèll millum borgarinnar ok Julii sú er "tıgna" hèt ok mátti Julius því æigi ná atgöngu at borginni. hann setr herbúðir sínar við ána sjálfa. enn annan dag eptir gekk hann upp með ánni ok ætlaði at ganga upp á hamargnípu þá er

2 Hispaniam > hyſpaníam. 8 Tirrhenus > ſirenus. 9 var > ꝩ́. 14 bendi < bendi Argus. 15 sinn < hans (– sinn bana < bana hans). 19 síðan ∽ ſıdañ. 21, 22-23 Hispaniam > hyſpanıã, hyſpaníam. 24 Petreius > peneuſ. Afranius > effrane᾽. 25 Ilerda > larda. 26 "tıgna" < Cinga (< Sicoris).

þar var ok bar framm yfir borgina. þat sá þeir Petreius ok Afranius ok rèðu í móti honum yfir ána ok vildu verja honum bergit, ok endiz með því at þeir flýðu enn Julius náði berginu. hann heimti saman liðit á bergit upp. ok litlu síðarr urðu vötn svá stór af sólarhita um várit sakir 494 snjónáms á háfjöllum at áin varð svá mikil at hón fèll hvárntveggja veg bergsins svá at Julius mátti hvárngan veg frá komaz berginu yfir ána. Julius lèt gera skip af húðum ok ljet höggva upp aldingarða þá er stóðu hjá berginu ok gerðu þar af skip ok þar með húðum ok kom svá öllum herinum yfir ána. þá fóro þeir út af borginni, Petreius ok Afranius, ok vildu sækja til borgar nökkurrar ok var þangat mjök löng leið ok öruggt vígi ef til kjæmiz. enn er Julius sá ferð þeira þá kemz hann fyrir þá með riddaraliði. enn þeir Afranius námu staðar á holti nökkuru ok fylktu þar liði sínu. töluðuz þeir þá við ok kennduz: stóðu þar bæði feðr ok bræðr. synir ok frændr, í hvárri fylking, ok margir aðrir miklir vinir; ok var næsta ráðit um stund at þeir mundu sættaz með Julium, áðr enn pc= = = eggjaði þá at þeir skyldu freista at berjaz ok sagði at skömm var í at sættaz orrostolaust ok b= = = = svá — ok yrkja þeir fyrri á til orrosto enn Julium verði. þeir felldu mart lið af honum. enn þó um síðir urðu þeir ofrliði bornir ok flýðu aptr til borgarinnar. enn Julius fekk enn riðit fyrir þá meðr hestaliði. þá komu þeir upp á sandhól einn háfan ok þurran ok fylktu þar liðinu ok eggjaðu Julium at sèr ok hans menn. enn er menn Julii bjögguz til atgöngu þá mælti Julius hátt 'gangit æigi at, því at sá bítr sárt er sèr vill æigi forða' enn þeir váro svá óðir sem hit óarga dýr ok hræðduz æigi dauðann. þetta ferr eptir því sem Julius

1 Petreius > peneus. 2 Afranius > effraneus. 12 Petreius > peneus. 12, 15 Afranius > effraneus. 20 pc= = = ɔ: Petreius. 22 b= = = = < bregðaz Pompeio.

ætlaði at þeir áttu öngvan kost á at berjaz ok tók þá fyrst reiðin at þverra enn hugrinn at minnkaz. enn er þeir váro lengi kvaldir á hólinum af hungri ok þorsta þá gengu höfðingjar fyrstir af hólinum ok með þeim allt liðit ı= = = = Julii. þá gekk Afranius fyrir Julium ok stóð á knjám fyrir [ſ= =] honum ok hélt öllu sínu yfirbragði ok mælti 'ef ek ætti kost at falla fyrir yðrum 'vápnum þá skortir mik til þers hvárki þrek nè hreysti. 'enn nú viljum vær biðja yðr friðar. æigi höfum vær ok 'hlaupit í þetta vandræði nè hafiz upp sjálfir til fjandskapar 'við yðr, heldr bar þat saman at missætti varð yðvar í 'millum ok þers höfðingja er vèr hèldum trúnað við. 'biðjum vær nú at þèr látit oss í friði heim fara til várra 'heimkynna því at vèr erom nú yfirkomnir af þèr'. ok er Julius hafði heyrt orð hans þá gaf hann þeim öllum heimleyfi blíðliga. 'Nú má þar sjá' segir meistari Lukanus 'hversu veslir þeir menn ero sem í úfriðinum vefjaz. þeir 'seldu af hendi vápn sín ok fóro síðan öruggir í borg 'sína meðr friði, enn áðr váro þeir hræddir á hverju 'dægri meðan þeir stóðu í orrosto'.

65. Frá Antonius höfðingja. Antonius hèt einn mikill höfðingi í her Julii. hann ríkti þar sem á sú fellr er Jaðar heitir í fjörð þann er Adriaticus heitir. hann vænti sèr fulltings af þeim þjóðum er þar byggðu nærri. at honum fór sá höfðingi af liði Pompeius er Octavius hèt. þá var Antonius með sinn her á bergi nökkuru er var nærri firðinum Adriatico: bergit var harðla gott vígi, enn þeir
195 váro þar harðla mjök kvaldir sakir sultar. þá kom sá höfðingi til bergsins öðrum megin fjarðarins af herliði Julii er Basilus hèt, hann sendi orð Antonio at hann mun veita honum lið ef hann kemr á hans fund. enn er þat

5 ı= = = = < til herbúða. Afranius > effraneuſ. 7 at falla +. 20 dægri > dæ= =. 25 Octavius > octauuſ. 30 Basilus > baſılíus.

spurði Antonius lèt hann göra stóra fleka með viðum ok búðum ok binda þar á utan þunna skjöldu ok tómar tunnur til þers at þat hèldi upp flotanum ef mannaþungi kjæmi á: hann læt ok gera kastala uppi á til varnar fjandmönnum: ok ætlar hann þannveg at flytjaz af firðinum Adriatico ok fara svá til móts við Basilum þegar er veðr gjæfi. enn er Octavius sá viðrbúnað hans þá lèt hann göra járnstrengi um þvert sundit ok at skipum Antonii ok ætlaði ekki at láta þá ná í brott at komaz enn enginn var annarr vegrinn. ok þegar er þeir váro búnir fóro þeir. ok sem þeir fóro á fjörðinn undu þeir upp strenginn er á berginu váro ok komuz þeir Antonius yfir fram með flotana þá er minni váro enn hinn mesta dróghu þeir at berginu til sín. þar var sá höfðingi er Vulteius hèt: hann var hinn vaskasti til vápns: hann ætlaði at höggva strenginn ok gat æigi. síðan vörðu þeir sik raustliga þó at þeim væri engin ván at sigraz. sú orrosta var hörð ok æigi löng því at nátt myrkti ok meinaði þeim svá at þeir máttu æigi lengr berjaz. Octavius setti þá menn til at geyma svá at enginn þeira leyndiz í brott. þá er menn Julii sá hversu þröngt var at þeim öllum megin þá urðu þeir daprir við sem ván var at. ok eptir miðja nátt kallaði Vulteius þá saman er á flotanum váro ok mælti til þeira ‘oss er nú gefin frelsisstund til dags ‘ok má verða at sumum þikki þat ekki langt enn hón er ‘þó nóg til at kjósa sèr þann dauða er líkastr þikkir. ‘enn sú er hugrekki mest góðra drengja at þat finniz aldri ‘at menn hræðiz dauða sinn. þèr vitut nú at mèr megum ‘nú hvergi dauðann flýja þar sem várir fjandmenn ero ‘alla vega frá oss. görum svá val – hræðumz eigi bana ‘várn. stórt verðum vær til at vinna at Julius kalli skaða

6 Basilum > baſılíum. 7 Octavius > octauuſ. 9 enginn = engín. 14 Vulteius > wlt$^{7}$n'. 19 Octavius > Octauus. 20 enginn = engín. 23 Vulteius > Wlt$^{7}$n'.

'eptir oss fá eina menn svá margar þúsundir manna sem 'hann hefir með sèr.' enn er Vulteius hafði þetta mælt þá glödduz þeir með hans orð ok biðu svá til morgins. enn er lýsti þá lögðu Pompeiusmenn at þeim ok buðu þeim grið ok sætt. enn þeir níttu þí þverliga. síðan rèðu Pompeiusmenn til bardaga. enn þeir vörðuz vel ok drengiliga. enn er Vulteius sá at þeir váro yfirkomnir þá rètti hann framm hálsinn ok bað þann kompán sinn höggva sik er næstr honum var. enn er hann fèll þá hjó hverr annan sinn vin ok frænda ok hlaut Vulteius þann dauða sem hann vildi sèr scálfr kjósa. enn Pompeiusmenn hlaupa út á flotann ok undrast er þar váro allir menn dauðir, tóku nú síðan vápn þeira ok fjárlut: ok varð þessarra manna dauði frægr nær um allan heim.

66. Frá bardaga Kurionis ok Varus ok frá Juba. Kurio er maðr nefndr, rómverskr at ætt, er var í liði Julii; hann vildi fara til Sikileyjar at heimta þar saman skatt, her ok vistir Julii: þersi Kurio kom til móts með Julium með ána Rubicon ok eggjaði sem mest at sækja Rómaborg með vápnum: hann fekk andviðri ok rak hann frá eyjunni ok yfir at landi ok setti hann herbúðir sínar á hóli nökkurum skammt frá þeiri borg er Carthago heitir
496 er ríkuz er í Africa. sá höfðingi rèð þar fyrir af liði Pompeius er Varus hèt með mikinn her. enn er Varus spurði at Kurio var kominn þá bað hann Juba skyldi fá

2 Vulteius > wlt'nuſ. 6 til > = = þa til. 7, 10 Vulteius > wlt'nus, vlt'n'. 12 undrast >. 15 Kurionis > kuríj. Varus > Varius. Juba > Julíj. 16 Kurio > Kuríus. maðr > m. 18 Kurio > kurí'. 19 Julium = julium̄. Rubicon ∽ Rubiton. 21 setti > ſettí ſetti. 22 Carthago = cartago. 23 Africa = affrica. sá > þa for hann þegar á fund Julíj. ſa. rèð þar > er þar red. 24 er Varus > ok wlturn'. Varus > wlt$^{2}$nus. 25 Kurio > kuríus. hann < hann at. Juba > juliuſ.

honum svá mikit lið sem Pompeius mundi vænta. konungr tók val máli hans ok kveðz muna þat er Curio hafði rekit hann frá Rómverja höfðingjum ok vildi hann nú þers h= =. enn er Curio spyrr at Juba var beðinn liðs varð hann mjök óttafullr. Varus ferr með her sinn ok setr herbúðir sínar skammt frá h= = = er Curio sèr þetta þá gengr hann ór herbúðum ok á völl einn slèttan ok bles í lúðr ok eggjar lið sitt til bardaga. enn er Varus sá þat þá snýr hann í mót ok berjaz þeir um stund ok lauk með þí at Varus flýði í herbúðir sínar. þat spyrr Juba konungr ok varð glaðr ok þóttiz sjá at hann mátti vinna sigr á Curio ok nú kallaði hann saman mikinn her ok riddaralið svá at menn Julii höfðu öngva njósn af. þá sendi hann þann höfðingja er Sabura hèt til herbúða Curionis ok eggja hann til bardaga at sèr. þeir gera svá. Kurio beið allan daginn ok náttina ok í móti degi þá eggjar hann lið sitt til bardaga. þeir báðu hann fyrir sjáz ok sögðu at þat fólk var svikalt ok vant at berjaz með svikum. enn Curio lèt æigi letjaz ok rèð þegar til orrosto. Sabura barðiz slæliga ok hnekktiz undan ok dróz at herbúðum. Kurio sækir at honum fast með lið sitt ok þóttiz hann hafa sigrinn í hendi sèr. ok er hann var langt kominn frá herbúðum sínum þá ljóp lið konungs öllum megin at honum ór leynum ok var nú enginn kostr at flýja. Kurio óttaz nú, ok allt liðit; enn þó bar hann þann ótta hraustliga ok eggjaði fast liðit. enn konungsmenn báru á þá grjót ok vápn svá at þeir máttu ekki nema

1 vænta +. 2, 4 Curio > curíus, curíuſ. 4 Juba > ıulíus. 5 Varus > Varíus. 6 Curio > curíus. 8 bles ɔ: blæss (∽ blès). Varus > varíus. 10 þí = þíj. Varus > varı'. 11 Juba > Juhuſ. 12 Curio < Curioni. 14 Sabura > ſaboruſ. 15 Curionis > curíj. 16 Kurio > Kuríus. 19 Curio > curíus. 20 Sabura > Saborus. hnekktiz ∽ hnecktız. 21 Kurio > Kuríus. 24 enginn = engín. 25 Kurio > Kurı'.

hlífa sèr, ok var svá mikil þröngin at líkin náðu æigi at falla ok hnè hverr at öðrum. ok er Kurio sèr at lið hans er fallit enn hann mátti æigi enda vildi hann með öngu móti flýja ok æigi á hönd ganga — hann sneri þá sverðs oddinum at sèr er hann hèlt á ok lagði í gegnum sik sverðinu. Svá segir Lukanus at Julius ok Silla keyptu undir sik Rómverjaríki með herfangi ok vápnum en þersi Curio seldi Romam með eggjan sinni ok náði þó æigi at sjá þann sigr er Julius fekk. enn þó segir meistari Lukanus at enginn maðr fæddiz í Róm hvárki áðr nè síðan sá er betr væri at sèr görr um allar íþróttir enn þersi Curio ef hann vildi rèttu fylgja.

67. Frá Lentulus höfðingja er hann talaði fyrir fólkino. capitulum. Í þenna tíma var Pompeius fyrir utan hafit í þí landi er Epirus heitir með öllum Rómverjaher. þá komu at hendi þeir dagar er kjósa skyldi consules ok skipta Rómverjaríki: í þann tíma ero nú júl haldin. hann kallar saman alla höfðingja til ráðagórðar. þá stóð upp sá höfðingi er Lentulus hèt ok mælti ‘vær eigum at geyma hversu ‘vèr ero*m* brott flæmdir frá várri borg ok hvert mannval ‘vær höfum. mèr sýniz sem hèr sè nú saman komit allt ‘hit bezta höfðingjalið Rómverja með oss þeir er öllum ‘dómum æigu at ráða. ok þó at vèr værim nú svá langt ‘norðr komnir at náttsólin skini á sumrum eðr svá langt 497 ‘suðr sem lengst má byggja fyrir sólarhita þá væri þó ‘jafnan með oss lög ok rèttindi hvar sem óvinir várir ‘væri. ok þat var enn fyrr er Rómverjar váro með Kamillo ‘hinum ágjæta ok hann sat í einu litlu þorpi er Veii ‘heitir ok hèldu sik þar fyrir sínum úvinum er tekit höfðu ‘borgina ok var þar þá Roma er Rómverjar sátu; enn er

2 Kurio > Kuríus. 8 Curio > curius. 10 enginn = engin. 12 Curio > curíus. 15 Epirus > epuro. 23 værim > fém. 28 Veii > pate.

'ok svá at þar er Rómaborg sem mèr erom hvar sem 'Julius Gaius Cesar sitr með þorpara sína ok ránsmenn. 'sumt lið hans er nú drepit svá sem Vulteius enn hinn 'ágjæti Kurio var felldr í Africa með miklu liði. enn mèr 'væntum oss fulltings af guðunum ok treystum á hamingju 'vára ok leggjum nú allan hug á at lægja úfriðinn æigi 'síðr enn þeir at vekja hann. nú ero þeir dagar komnir 'er þèr eigut með yðr tign at skipta: sýniz mèr þat ráð 'at taka til höfðingja yfir oss Pompeium, ok þótt hann sè 'nú gamlaðr þá er þó enginn undir sólinni hans jafningi 'síðan er Alexandrum Magnum leið'. at hans máli varð mikill rómr ok var Pompeius görr consul hit viij. sinn ok fenginn honum í hendr allr Rómverjaherr. síðan var þat dæmt at Juba skyldi konungr vera í Libia enn Ptolemeus á Egiptalandi; þá gafz ok frelsi borginni Focis at sitja um kyrrt ok svá borgarmönnum í Athenis. ok síðan sleit þinginu ok bjögguz allir til orrosto.

68. Frá Appius er gekk til frètta við Apollo skurðgoð. Appius hèt einn höfðingi ríkr. honum fekk mikinn ótta þersi úfriðr ok gekk í fjall þat er Parnassus heitir: þat köllum mèr miðjan heiminn. í fjallinu stóð eitt hof mikit. þar var í goð þat er Apollo hèt ok þeir trúðu at aldri mundi ljúga. þagat hafði ok sótt fyrri "pri’" konungr til frèttar ok margir aðrir ágjætir höfðingjar ok fengu þar merkilig svör. Appius bað blótmann einn ganga til frèttar með sèr viðr skurðgoðit. enn blótmaðrinn setti í hofit eina mey at svara þí sem hann mælti: hón hèt Femonoe. enn er Appius heyrði svör hennar þá skildi hann at þat var

3 Vulteius > wlternus. 4 Kurio > kurıus. Africa = affrıca. 8 eigut = eıg̉. 10 engınn = engín. 14 Juba > íulí’. Ptolemeus > tholomeus. 15 Focis (ɔ: Phocaea) > Focaſ. 20 Parnassus (> Parnassum) > parnalíum. 22 Apollo = ápollo. 26 hofit = hôfuít. 27 Femonoe > femences.

rödd meyjarinnar enn æigi Apollinis: þá varð hann reiðr ok bað hana þegja. enn mærin varð hrædd ok ljóp í undirhús eitt er þar var undir sem goðit stóð uppi yfir: þá fekk hón spáleiksanda af goðinu, er stóð yfir henne, ok mælti ‘þú Appi, ef þú vill forðaz allan háska Rómverja ‘þá far þú í eyna Euboeam ok muntu þar vera hirðr frá ‘öllum háska’. Appius gekk ór hofinu ok fór með sveit sína í eyna Euboeam ok hugði at hann mundi þar taka ríki, enn litlu síðarr enn hann kom þar tók hann sótt ok dó. enn mærin fanz vitlaus áðr vígðu vatni var stökkt yfir hana.

69. Hér segir af er Julius Cesar talaði fyrir sínum mönnum ok frá ferð hans. þá er Julius Cesar hafði undir sik unnit Hispaniam ok Britanniam þá lýsir hann því at hann vill sem skjótaz fara til Rómaborgar ok síðan út yfir hafit at þeim Pompeio. þat var mikill luti liðs hans er mjök leiddiz orrostor ok vildu gjarna fara heim ok berjaz æigi með frændr sína ok vini ok mæltu svá ‘vær ‘viljum taka orlof af yðr því at þér hafit háska bæði á ‘sjó ok á landi: várt lið er sumt fallit enn sumt flýit —
498 ‘sumt á Saxlandi, enn sumt í Hispania, sumt í Italia, ok ‘höfum vér bariz með þér náliga um allan heiminn. hvert ‘verkkaup skulum vær taka ef mér berjumz við vára borgar‘menn? nú viljum vær sjá fyrir oss at guðanna ráði’. ok eptir þat snýr í brott mestr luti liðs Julii. sem hann sér þat þá bað hann þá heyra sín orð áðr enn þeir skildi með hann. hann mælti þá ‘þér riddarar mínir vilit nú ‘með mik skiljaz — þá skulo ok allir fara þeir sem vilja ‘ok þó vápnlausir: ek vil vápnin hafa, enn þér farit sem ‘þér vilit: ek mun annaz um mín forlög: þau sömu vápn

1 Apollinis > apollonís. 5 Appi > appıe. 6, 8 Euboeam > Roboram, roboram. 14 Hispaniam > hýſpaníam. Britanniam > bríttañíam. 18 vær = Wær. 21 Hispania > hýſpanía.

‘munu mèr fá jafnmarga vini ok góða drengi. eða ætlit ‘þèr veslir menn at yðvarr flótti muni nökkut um skipta ‘minni gjæfu? svá mun yðr fara sem ánum er þær heitaz ‘með sjóinn at þær muni æigi lengr falla í hann. eðr ‘ætlit þèr at yðvart fulltingi muni nökkut minn sigr tálma? ‘aldri munu guðin sik svá lítils virða at þau láti yðvarn ‘flótta vinna mèr úsigr. svá er spáð at margir skulo þjóna ‘enn fáir þiggja. veit ek at þèr munut fúsir flýja með ‘Pompeio af þeiri ógn er mínu nafni fylgir ok þeim sigri ‘er ek hefir unnit í norðrhálfu heimsins þar sem þèr þorit ‘nú æigi at fylgja mínum sigri. vitit þèr ok þat at Labienus ‘þótti hinn mesti höfðingi undir sínum vápnum ok hinn ‘harðasti meðan hann fylgði mèr, enn nú er hann kominn ‘í annan flokk ok þikkir hann nú herviligastr flóttamaðr ‘bæði á sjó ok á landi. setit nú niðr merki mín ok flýi ‘þeir sem flýja vilja en hinir taki upp vápn ok merki ‘sem mèr vilja fylgja ok betr ero hugaðir. mun ek halda ‘upp orrosto sem áðr. en þeir sem í fyrstu tóko þetta ‘upp skulo taka makligt verkkaup fyrir sinn útrúleik: þeir ‘skulo rètta frá sèr hálsinn, enn mèr skulum þá sjá á ‘allir saman hvárt þeir hinir nýju riddarar kunna stórt at ‘höggva’. meðr þessi hans orð varð fólkit svá hrætt at enginn þorði í brott at fara: játaðu honum þá allir sinni lýðni. hann ferr nú út á Pul til Brandeisar með allan herinn ok lætr þar saman heimta öll þau skip er hann mátti fá. enn hann sjálfr reið til Rómaborgar með litlu liði ok var hann þar görr dictator ok consul af því fólki er þar var fyrir. enn síðan fór hann í þá borg er Alba heitir ok blótaði þar eptir fornri siðvenju Rómaborgarhöfðingja, ok síðan fór hann til Brandeisar. ór Brandeis fór hann með skipaherinn ok út yfir hafit til þeirar borgar er Paleste heitir. en þó var mikill herr æigi búinn ok

5 fulltingi = fultíngí. 11 vitit = Wıtıt. Labienus > alabıen̄ís. 23 enginn = engín. 32 Paleste > paleſtıa.

setti Julius þann höfðingja yfir þat lið er Antonius hèt ok bað hann koma eptir sem fyrst yrði hann búinn. Julius setr þá herbúðir sínar fyrst “m̄ bḡ þa” er Epirus heitir, skammt frá því er Pompeius hafði sett sínar herbúðir; enn ár ij féllu millum herbúðanna ok heitir önnur Apsus enn önnur Genusus. segir svá Lukanus at hamingjan fekk þann stað til at varðveita þersa hina ágætustu ij höfðingja heimsins at skirra úhæfu nokkura stund þó at meiri yrði vesöld heimsins enn þersi dvöl kjæmi til sættar: þar mátti hvárr þeira sjá annan ok talaz með um þvera ána ok minnaz á hversu lengi þeir mágar höfðu með mikilli ást saman haldit sínum tengdum. Julius var fúss til orrosto, enn honum þótti Antonius seint koma til liðs með sik: hann sendi þá orð Antonio svá segjandi
499 ‘þú Antoni, skunda hígat þó at þú vitir víst skipbrot. ok ‘ægi skiptum við nú jafnt heiminum: Cesar ok allir ‘Rómverjahöfðingjar sitja í Epiro, enn þú hefir einn allt ‘Rómaríki’.

70. Hèr segir frá Julio consul ok fiskimanni. Ok er Antonius dvaldi kvámuna meirr enn Julius vænti þá leyndiz hann eina nátt brott frá herbuðunum ok hafði einn riddarabúnað: hann gekk um náttina með sjóvar ströndu ok fann eitt skip sett upp í bergskor eina ok fest með reipi: þar sá hann hjá hús lítit grasi þakt enn byrgðar dyrr: hann knúði hurðina. þar var inni fiskimaðr einn fátækr er Amiklas hèt: hann gekk at durunum ok spurði hverr svá fátækr væri úti at hans greiða þyrfti þar um miðnætti: hann tendrar ljós ok lætr upp hurðina ok undirstendr þó ægi hversu mikit guðin veittu honum er hann hræddiz ekki — enn sú er engin borg eðr herbergi

1 hèt +. 3-4 Epirus > Epirius. 6 Apsus > appi’. Genusus > Genaſíus. 17 Epiro > epirro. 22 sjóvar = ſiofar. 26 Amiklas > amikas. 27 þyrfti = þ²fti.

er menn heyrðu nefndan Julium at úhræddir byggja. ‘ef ‘þú flytr mik norðr á Púlsland ok fylgir mínu ráði þá ‘skaltu æigi alla ván eiga undir báti þínum lengr. far þú ‘nú ok bú þik ok dvel ekki ok mun þat þín gjæfa vera ‘ef þú görir minn vilja’. ok þót Amiklas teldi mörg tor-leiði á þá fór hann ok setti framm bátinn ok búaz um skjótt: láta síðan í haf ok sigla: vindinn gerði brátt mikinn ok sjóinn stóran ok hræddiz fiskimaðrinn mjök ok vildi þar taka land sem hann mátti fyrst. Julius mælti ‘hræz æigi ógnir hafsins eðr vindinn ok sigl beint ‘undan vindinum ok stefn á Italialand. enn sú er sök til ‘hræzlu þinnar at þú veiz æigi hverjum þú fylgir, því at ‘gjæfan ok guðanna fullting man aldri við þik skiljaz. ‘nú stefnum til Kalabria því at þar at eins er sú höfn ‘at mið munum lífinu halda’. veðrit óx at eins enn náttina gerði myrkvari enn fyrr væri dæmi til því at niðamyrkr var ok drífa með eldingum ok sá þeir æigi siglutrèit ofanvert ok máttu ekki annat enn halda fyrir veðrinu. ok svá kom um síðir at Julius ætlaði at þeir mundu tapaz ok mælti ‘undr er þat er guðunum verðr svá mikit fyrir ‘at tapa mèr. enn fyrir mína virðing er mèr æigi ætlat ‘at falla í orrosto ok skal ek því heldr drukkna í sjó. ‘enn úhræddr mun ek taka þann dauða sem guðin hafa ‘hugat mèr. svá var ek næst í Rómaborg at Pompeius ‘var mèr lægri ok svá mikla tign fekk ek þar at æigi ‘ero dæmi til at nè einn rómverskr maðr hafi fengit ‘jafnmikla. enn nú biðr ek þers at enginn viti hvat af ‘mèr er vorðit ok stiga ek svá dictator ok consul yfir ‘dauðann, ok láti guðin mik öngva eptirgörð hljóta ok ‘hvergi mitt lík at landi reka ok öngva sáluelda eptir mik

---

1 byggja = bygg. 5 Amiklas > amíkas. 10 hræz = Hrædz. 12 hræzlu = hrǽðzlu. veiz = ueítz. 14 Kalabria > kalab. (27 enginn = engin̄.)

‘gerva: því at mínir úvinir munu aldri úhræddir við mik ‘meðan þeir vitu eigi vísan dauða minn’. nú minnkaði veðrit ok komz Julius til móts við Antonium ok þó mjök á úvart. enn þegar fólkit vissi at Julius var þar kominn þá sótti flest til hans þat er mátti ok mæltu ‘meðr því ‘at þitt líf er vorðit hjálp ok heilsa lýðsins ok þú ert ‘vorðinn hit hæsta höfuð heimsins þá er nær ærsl í at ‘vilja svá deyja enn mér skyldim liggja ok sofa meðan
500 ‘þú vart í slíkum lífsháska! ok ærit mjök treystir þú á ‘hamingjuna í orrostum þó at þú laupir æigi á sjóinn í ‘ófærum veðrum’. Julius býz nú sem skjótaz ok vánu bráðara kom hann út yfir hafit með öllu liði sínu í Epirum til “hoffíns”.

71. Frá Pompeius ok Cornelia konu hans. Pompeius sér nú at Julius var nær honum kominn með allan sinn afla. hann vildi flytja Corneliam konu sína í ey þá er Lesbos heitir at hón væri þar hirð fyrir öllum úfriði. enn um náttina er hann vaknaði ok hón vildi krjúpa at honum ok kyssa hann þá tók hón hendi sinni á kinn honum ok fann at hón var vát af tárum. hón var svá hrædd at hón þorði engis at spyrja hann, því at hann var ekki vanr at gráta. litlu síðarr mælti Pompeius ‘þar er nú komit at ‘litlu er betra at lifa enn deyja, því at sá hinn dapri ‘dagr mun nú brátt koma er mér höfum dvalit bæði með smá ok stóru hér til. Julius er nú mjök kominn með allan sinn afla ok sýniz mér mest ráð at flytja þik ‘frá bardaganum í Lesbos. mun þersi stund skjótt líða ‘því at nú hrata sköpin. hefir þú ærit þó at þú spyrir ‘til míns háska — því at mér samir æigi at byggja hjá ‘þér nè vakna ór þínum faðmi við mikinn lúðragang er

---

2 dauða ∽ dauðar. 12 Epirum > epırro. 14 Cornelia > cornelıā (ɔ: Corneliam). 17 Lesbos > lıſbes. 18 hann < hón. 27 Lesbos > leſbes.

‘náliga skelfr af öll jörð’. þá mælti Cornelia ‘ef þèr er ‘engis annars kostr enn flýja þá gleym þú æigi at koma ‘til mín’. eptir þat er Cornelia búin til ferðar. ok er þau skildu mátti hvárki þeira mæla orð við annat fyrir harmi. Cornelia er nú flutt í Lesbos ok var henne þar vel fagnað. síðan færði Pompeius herbúðir sínar at herbúðum Julii. ok var sú grein á at Pompeius vildi forða bardaga enn þröngva Julio til sætta enn Julius vildi berjaz fyrir hvern mun ok var þat iij daga er Julius fylkti liði sínu ok sýndi svá at hann var búinn til orrosto. enn er hann sá at hann gat æigi eggjat Pompeium mág sinn til bardaga þá tók hann upp herbúðir sínar ok vildi flytja í þann stað er Dirrhachium heitir: þat var öruggt vígi ok gerðu hamrar at utan ij megin. enn Pompeius fekk þar njósn af ok komz fyrir hann ok gat náð berginu með öllu liði sínu. ok er Julius vissi þat þá lèt hann grafa díki allt þar er leiðin lá um ok gerir þar svá vígi ok kastala ok stemmir svá stigá fyrir þeim Pompeio. enn Pompeius hafði rúm at færa sínar herbúðir ok nógan kost öllu liðinu. enn þar sem Julius hafði sett sínar herbúðir var blautlent mjök. Pompeius sèr nú at hann er mjök inni byrgðr ok setr nú herbúðir sínar sem víðaz á berginu at sem sízt skyldi vita mega hvar hann mun á leita.

72. Hèr segir af Pompeius ok Julius ok Sceva ok hans láti. Í þenna tíma kom sótt mikil í lið Pompeius. enn menn Julii sultu svá at þeir átu akrana ógörva ok grasrætr þær sem berliga váro úætar. Pompeius sèr nú at hann er inni byrgðr, enda vill hann nú æigi lengr bíða sinna úvina heldr vill hann ryðja sèr götu með sverði sínu. hann snöri nú herinum þar at víginu er næst var herbúðum hans enn first Julio: þar stóð skógr svá

---

4 orð > ord|ord. 5 Lesbos > lefbes. 13 Dirrhachium > dırachíj. 18 stemmir >. 24 Julius > Julíj. Sceva > Seua.

þykkr fyrir at æigi mátti sjá herinn: enn er hann kom at lèt hann bregða upp merkjunum öllum senn ok blása herblástr í alla lúðra sína. enn mikilli hræzlu sló á þá er
501 fyrir váro: flýðu sumir enn þeir váro drepnir er í móti tóku. Pompeius lèt skjótt fylla díkit með torfi ok grjóti ok váro nú borin merki Pompeius yfir díkit. enn menn Julii lögðu á flótta. Maðr hèt Sceva: svá er sagt af honum at þá er Julius barðiz í Saxlandi — at þersi Sceva barðiz svá raustliga at Julius gerði kórónu af vínviði ok setti á höfuð honum: ok er Sceva sá flóttann þá kallaði hann hátt ok mælti ‘hvat veldr hræzlu þersi? eðr fyrir ‘hvat flýit þèr? gjarna vilda ek látaz svá at Julius sæi á; ‘enn ef mèr verðr æigi þers auðit þá skal ek svá látaz ‘at Pompeius lofi mína reysti’. viðr þersi hans orð sneri liðit aptr ok barðiz djarfliga. enn er allir menn Sceva váro fallnir þá hlóð hann svá háfan valköst at varla mátti at honum sækja, enn sverð hans var svá slætt vorðit af stórum höggum at þat beit ekki enn þó hjó hann svá fast til at holdit morknaði enn beinin brotnaðu fyrir höggum hans. í því bili skaut maðr krókör í auga honum hit vinstra en hann sleit ór ok fylgdi þar með augat ok kastaði undir fætr sèr. var hann nú auðkenndr því at hann stóð hátt, enn sakir blóðrásar ok sára þá fèll hann niðr á jörð. þá sló herrinn Pompeius upp svá miklu fagnaðarópi at þeir mundu æigi meirr fagna þó at þeir hefði særðan sjálfan Julium. Sceva stöðvaði þá reiði sína ok mælti til þeira stilliliga ‘várir borgarmenn, sækit mik æigi ‘lengr með vápnum því at þó kann vera at mèr vinni ‘nú þörf til dauða. takit mik heldr lifanda ok færit til ‘herbúða Pompeius’. Aulus hèt einn ríkr maðr er trúði orðum hans ok vildi ganga at honum ok taka hann höndum,

---

3 hræzlu = hrædzlu. 4 sumir +. 6 yfir = ẏfuír. 7, 9, 10 Sceva > ſeua. 11 hræzlu = hræðzlu. 15, 26 Sceva > ſeua, Seua.

enn Sceva lagði hann með sverði framan í brjóstit ok fèll hann dauðr á bak aptr. Sceva mælti þa enn hlæjandi ‘galt ek þar enn einn fyrir mik ok víst er sá auðtryggr ‘er sèr væntir griða af mínu sverði ok ætlit þèr mik líkan ‘yðr er minna unnit Pompeio enn ek ann dauðanum’. nú kom Julius hèr at sem Sceva var fallinn. tóku þeir hann upp ok báru brott á öxlum sèr. lofuðu allir hans hraustleik. þeir leggja hann niðr á slèttan völl ok tóko af honum vápnin. þá mælti Julius ‘mikill harmr er þat hinn ‘styrkasti Sceva er þú máttir æigi prýða hofin með þínum ‘feng ok æigi njóta þíns sigrs með þínum lánardrottni ‘svá vel sem þú vart mèr viljaðr’.

73. Frá Pompeius ok Julius. capitulum. Nú lætr Pompeius færa þangat herbúðir sínar sem virkit var ok díkit hafði verit ok bjóz þar um sem öruggligaz. Julius hafði ekki verit við þersa orrosto. öll hans vígi váro nú brennd ok brotin ok mikit lið hans var fallit. hann undi nú stórilla við er hann sá at herr Pompeius hafði hvíld ok góðan herbúðastað. varð hann nú svá óðr at hann frýði sínum mönnum hugar ok bað þá þegar göra áhlaup á þá Pompeium. þeir fylktu á einum hóli með miklu liði. enn lið Pompeius gekk út ór herbúðum ok fylkti sumt í margar fylkingar umkringis lið Julii. varð þá ógurligr gnýr af vápnum ok lúðragangi. görði þá svá myrkt af moldryki at varla mátti sól sjá. sló þá miklum ótta á lið Julii; ok þá er þeir vildu flýja þá ljópu þeir í hendr úvinum sínum, ok svá lauk at drepit var mart manna af Julio. enn Pompeius stöðvaði sjálfr lið sitt ok vildi æigi 502
láta þar at ganga sem Julius stóð fyrir ok snýr nú til sinna manna. eptir þenna sigr tók hann upp herbúðir sínar ok flutti í brott ór Epiro ok í þann stað er Emathia

1, 2 Sceva > ſeua, Seua. 5 unnit > uítn. 6, 10 Sceva > ſeua. 13 Julius > Julíj. 23 ógurligr >. 31 Epiro > epírro.

heitir ok Thessalia öðru nafni. svá segir Lukanus at þar mundi lètt hafa öllum ófriði í þersum bardaga í Rómaborg ok lögin seálf mundu náð hafa sínu frelsi ef Silla hinn ríki fóstrfaðir Pompeius hefði unnit þenna sigr, ok kveðr hann þat illa er Julius meðr ofrkapp sitt ok glæpi skyldi deila með mág sinn svá mildan ok miskunnsaman. enn er Julius var brott farinn þá fór Pompeius með allan herinn eptir honum. enn höfðingjar báðu Pompeium snúa heim til Rómaborgar. ‘aldri mun ek göra eptir dæmum Julii ‘ok æigi mun ek koma til Rómaborgar at svá búnu: enn ‘vitja skal ek þín Roma ef ek fæ sigr: ok því flýða ek ‘at ek vildi æigi vita þitt vandkvæði. ok þó at Julius ‘vinni sigr á mèr þá mun þú þó æigi at heldr hann þýðaz’. hèr eptir ferr Pompeius með allan her sinn landveg austr í Emathiam ok setti þó herbúðir sínar langt frá Julio. Son Pompeius Magnus hèt Pompeius Sextus, enn annarr Pompeius Gneius. Pompeius Sextus var mjök hugsjúkr af þersu vandræði ok vildi gjarna vita hversu ganga mundi. þá váro margir galdramenn í Thessalia þeir er svá gerðu daginn myrkan sem nátt enn náttina svá ljósa sem dag.

74. Frá einni fjölkunnigri konu ok Pompeius Sextus. Sú kona hèt Erichtho er ágjætuz var af sinni fjölkyngi. enn hón byggði ekki í manna húsum heldr byggði hón í hellum ok gröfum dauðra manna. hón var mögr ok var hold hennar svartara enn mold ok gekk af henne illr daunn. hón var vön með göldrum sínum at vekja upp dauða menn ok láta þá segja sèr þat er hón vildi. hennar leitaði hinn ungi Pompeius lengi ok fann hana um síðir í helli nökkurum. hann kvaddi hana ok mælti ‘heil þú, ‘vegr ok prýði allra tröllkvenna. spurt hefir ek þat af

1 Thessalia > thefalia. 13 þú? 17 Sextus = vi͛. 19 Thessalia > thefalia. 22 Pompeius > Pompeiū. Sextus = víuf. 23 Erichtho > ericta.

‘þér at þú mátt mörgum lutum stýra ok forlögum manna ‘skipta með þínum kjænleik: ek vil biðja þik at þú segir ‘mér hvern enda munu hafa várir bardagar. æigi krefr ‘þik þersa einn virðingarlauss maðr ór Róm heldr son ‘hins mikla Pompeius sá er erfingi er hans ríkis. rannsaka ‘þú annars heims luti ok svá staði ok seg mér hvat falla ‘mun af váru liði’. þá svaraði Erichtho ‘miklu má ek ráða ‘um eins manns líf ok dauða enn æigi má ek gera við ‘forlögum alþýðu’. hón tekr þá líkam dauðs manns ok draga þau hann í helli þann sem hón hafði í verit áðr ok var þar náliga myrkt. enn svá mikit er sagt af hennar fjölkynngi at hón mátti náliga hræra alla jörðina ok svá hafit ok hón mátti fara í gegnum fjöll ok hamra ok hón mátti kveykja upp eldingar ok reisa upp dauðra manna fylkingar þar sem valrinn lá ok láta berjaz svá lengi sem hón vildi. Erichtho klæddi sik undarligum búningi ok magnaði sína galdra þar til er Pompeius Sextus ok hans menn tóku at óttaz mjök. þá mælti Erichtho ‘hræðiz ‘æigi þó at þersi maðr lifni um stund ok tali með oss. ‘vera má at þér hræddiz ef ek lyki upp fyrir yðr helvíti ‘ok sæi þér þar eldsfulla staði ok ár þær er þaðan falla ‘fullar með eitri eðr þá hina ógurligu höfðingja sem þar ‘ero fyrir: æigi veit ek hversu hræddir þér mundut þá ‘verða’. síðan tók hón höggorm einn ok barði þar með búkinn hins dauða þar til sem hann kviknaði. Erichtho 503
skyldaði hann til at segja slíkt er hann vissi ok hón vildi hann spyrja. draugrinn mælti ‘mein eitt er mér at því er ‘þú hefir mik upp vaktan, enn æigi mun ek segja fleira ‘enn ek veit. öllum Rómverjahöfðingjum er mikil angr at ‘er þetta missætti hófz þeim sem framm liðnir ero. enn þó ‘ero misjafnir staðir í helvíti þeir er búnir ero þeim

---

3 hafa +. 7 Erichtho > Ericta. 13 fjöll ok > fiőlhok. 16 Erichtho > Ericta. 17 Sextus = vi᷄. 18 Erichtho > Ericta. 20 ef ∽ af. 25 Erichtho > Ericta.

'mönnum er lataz munu í þersi orrosto. góðir höfðingjar 'ero hryggvir. ek sá þá feðgana Decium hvárntveggja 'dapran ok hinn góða Camillum ok Kurium hrygga ok 'svá hinn ríka Sillam. Scipio hinn góði harmaði þat er 'son hans skal falla í orrosto í Libia í þeim stað er hann 'hafði æztan sigr unnit fyrr meirr. hinn ellri Kato harmar 'dauða síns nafna ok sonarsonar. þik einn sá ek glaðan. 'Brutus hinn fyrsti consul, af hinum góðum höfðingjum. 'enn í öðrum stað sá ek glaða í píningum hina grimmu 'ok hina vándu höfðingja Lucium Katilinam ok Marium 'ok Cethegum ok aðra vánda höfðingja. helvítis höfðingi 'lýkr upp mörg sæti ok marga hella ok mörg bönd býr 'hann þeim er sigrinn hlýtr. enn þú hinn ungi maðr ber 'þá huggan heim með þèr at blíðir staðir bíða feðr þíns 'í helvíti ok hann mun hinn æzta stað fá í því ríki ok 'bið hann ekki angr göra sèr at lítillar stundar metorðum 'ok í þann stað man hverr niðr koma sem hann hefir sèr 'fyrir búit því at þersir báðir höfðingjar munu deyja þó 'at öðrum sè þvegit í Tífr enn öðrum í Níl. enn hèr mun um skiptaz yðvarr sigr'. eptir þat fèll niðr hinn dauði. enn Erichtho brenndi síðan líkamann ok kvað þar yfir marga galdra þá er enginn heyrði áðr slíka. eptir þat fór Pompeius Sextus til herbúða ok Erichtho með honum.

75. Frá bardaga Pompeius ok Julius. Síðarstu nátt er Pompeius Magnus lifði í fullum veg sínum var hann mjök hugsjúkr, ok þá er hann var sofnaðr dreymdi hann at hann þóttiz vera kominn í Rómaborg ok drifi at honum öll alþýða ok hæfi hann upp til himna með hinum mesta fagnaði. ok segir Lucanus svá at því dreymdi hann slíkt

3 Camillum > Manlíum. 4 Scipio > Cıpıuſ. 10 Katilinam > katelínū. 11 ok Cethegum > etegíum. 21 Erichtho > Ericta. 22 enginn = engín. 23 Sextus = vı'. Erichtho > erícta. 24 Pompeius > Pompeiū. Julius > Julíum. Síðarstu = Sſıdarſtu.

at þar var æ hans hugr sem Rómaborg var. ok um morgininn görðiz kurr mikill í herbúðunum ok vildi liðit gjarna berjaz ok gekk at Pompeio ok kvað hann of mjök spara mág sinn — eða til hvers hann hefði her saman dregit um allan heiminn enn láta þó aldri orrosto verða. þá gekk ok sá höfðingi fyrir Pompeium er hèt Tullius Cicero, einn af hinum ágjætustum Rómaborgar höfðingjum sakir speki ok málsnilldar. ok mælti ‘þau laun ‘höfum vær fyrir várn góðvilja, ef vær skulum ráða, at ‘þú treystir á hamingjuna; ok e== = bæn konunga ok ‘hertoga at þú megir sjá Julium mág þinn sigraðan. eðr ‘hví óttaz þú þau forlög er guðin hafa fyrir sèð? ok allt ‘várt mál felum vær nú guðunum á hendi; ok förum nú ‘til orrosto, ella munum vær með þik skiljaz. eða fyrir ‘hví viltu svá lengi þyrma mági þínum er þèr gerir illt ‘eina?’ Pompeius svaraði ‘ef yðr líkar öllum betr at berjaz ‘þá mun ek æigi lengr dvelja, ok látum nú at því góðir ‘hálsar hamingjuna einn dag allra manna forlögum ráða ‘ok mun hèr margr maðr falla á einum degi’. eptir þat leyfir hann mönnum at brýna vápn sín ok brynja hesta sína ok búa sik at öllu. enn er liðit var búit þá laust á hvassviðri með stórum eldingum ok reiðarþrumum svá 504
at menn fèllo til jarðar enn vápnin tók ór höndum þeim ok snaraði í loptit upp. fólkit var þá svá ákaft at þá er vápnin fèllu ofan ór loptinu sögðu þeir guðin sýna at þau vildu at bariz væri er þau sendu vápnin ór loptinu til manna. fór nú lýðrinn mjök rasanda. enn Lucanus segir þat líkindi at Julius blótaði helvítisguðin sèr til tignar svá marga ágjæta höfðingja sem hann drap í þersi orrosto saklausa. þat er sagt at einn vísindamaðr sá er Aponos hèt sat á fjallshálsi nökkurum um dag ok sá á bardagann

---

7 Cicero > cathero. 10 e== = < er sú. 27 lýðrinn < fólkit. 30 Aponos > appones (✻ Luc. Phars. VII 193).

ok mælti ‘nú kemr mikill dagr ok man stórt at göraz: ‘hér gangaz at móti fylkingar þeira manna sem æztir ero ‘í heiminum ok himinninn seálfr sýnir ógnir þeira’. nú fóro fylkingar framm á völluna ok þóttu náliga skína allir vellirnir, er sólin kom upp, af vápnabúnaði þeira. í vinstra fylkingararmi var Lentulus consul ok með honum hit röskvasta lið. enn í hægra fylkingararmi var Domitius sá er fyrr var frá sagt. í miðri fylkingu var sjálfr Pompeius með sitt hit bezta lið. en v fylkingar váro þar sem nökkuru var lægra við vatnit ok váro þar fyrir konungar af Syria. enn er Julius sá at fylkingar váro búnar til bardaga þá óttaðiz hann í fyrstu enn kallaði þó saman herinn ok talaði fyrir þeim ok sagði svá ‘heyrit nú riddarar er sigrað ‘hafit heiminn með minni hamingju. nú er sá dagr kominn ‘er oss hefir lengi til langat, ok neytit svá vápna sem ‘vær munim annat hvárt fá bót eðr bana. þér hafit nú í ‘hendi hverr maðr ek skal vera í kveld. ek man gjörla ‘þann dag er þér hétut mér fulltingi með Rubicon ok af ‘þeiri ván réð ek til bardaga þá er mér var varnað alls ‘sóma í Rómaborg. látum þenna dag frelsa börn vár ok ‘konur ok eignumz nú með vápnum hús ok herbergi í ‘Rómaborg. “Nu man ek rett'a mæla” því at þeir munu ‘sekir ganga er sigraðir verða. en ef þér kalliz æigi fyrir ‘mínar sakir sækja fóstrjarðir yðrar ok fé með vápnum ‘ok fáit þér aptr unnit fé yðvart ok frelsi. minniz þers ‘hvé Pompeius hélt yðr fyrr í vandræði er þér náðut æigi ‘at berjaz ok verja yðr. nú er sú bæn mín til allra yðar ‘at þér höggvit sem stærst alla þá er í móti yðr standa ‘en gefit þeim grið öllum sem flýja ok æigi vilja við horfa ‘ok lokkum þá svá til at flýja’. enn er Julius hafði lokit tölu sinni þá hlaupa þeir til ok brjóta herbúðirnar ok fylkja liði sínu ok ero búnir til bardaga.

---

7 Domitius = domicíus. 15 hefir = hefu.

76. Frá Pompeius ok Julius. capitulum. Pompeius sat á góðum hesti. hann reið fyrir framan fylkingar sínar ok sá at menn Julii höfðu fylkt liði sínu. hann talaði þá fyrir sínum mönnum svá mælandi ‘nú er sá dagr yfir oss ‘kominn er þèr fýstuz mest til at endir mundi verða á ‘þersum úfriði. minniz nú at þèr eigit at verja fè yðart ‘ok fóstrland. minniz ok þers at guðin munu allt fyrir ‘hafa sèð áðr hversu ganga mun því at þau vita hverir ‘brott skulo komaz eðr eptir liggja. væntum þers at þau ‘gefi þeim sigr er rèttara mæla. mætti þau hafa sett Ju-‘lium stjórnara yfir yðr í fyrstu ef þau hefði viljat enn ‘láta mik verða æigi svá gamlan sem ek em nú vorðinn. ‘væntir ek at þau hafi þat gört úreið at setja mik höfð-‘ingja yfir Rómaborg ok til þers dregit mik ór mörgum ‘lífsháska at ek mega verja frelsi alþýðunnar. nú er hér ‘náliga komit saman lið um allan heiminn: megum mèr ‘göra hring um þá svá at ekki mannsbarn megi á brott ‘komaz. enn ef Julius fær sigr þá verð ek útlægr. láti 505
‘guðin mik heldr falla í elli minni enn ek þjóni nokkurum ‘manni í heiminum’. at máli hans varð góðr rómr. sigu nú saman fylkingarnar. ok er menn kenduz þá genguz þar í móti feðgar ok bræðr ok margir náfrændr: stóðu þeir þá með brugðnum sverðum ok rèðu hvárigir á aðra langa stund. enn með því at ills eins varð af auðit þá skaut maðr spjóti ór liði Julii, ok segir Lukanus þann yfrit djarfan er þat görði meðan Julius hèlt kyrru sínu spjóti.

77. Hèr segir frá bardaga Julii ok Pompeii. capitulum. Nú slógu menn upp ópi miklu um allan herinn ok taka nú at ganga lúðrar. fjall þat er Olimpus heitir stóð nær herinum ok björg þau er Pangea heiṭa ok laust þar í

---

1 Pompeius > Pompeíū. Julius > Julíj. 28 Pompeii > pompeıum. 30 Olimpus > olímphus. 31 Pangea > peñes.

dvergmálanum: varð af þí ógurligr gnýr. fljúga nú bæði spörr ok spjót ok var þó með misjöfnum vilja fylgt eðr skotit: sumir vildu menn drepa, enn sumir vildu verja sik víti ok gera öngum manni mein ok fèll því fátt manna í skothríðinni. Julius ok hans menn rèðu þá til höggorrosto. liði Pompeii var fylkt svá þykkt at þeir máttu æigi vápnum ofra. enn lið Julii fór flokkum saman ok var sva brynjað at ekki gekk á ok snöru þeir æ þar at sem þeir mattu mest mannspell gera, ok segir Lukanus at Julius ok hans menn görðu orrostona enn Pompeiusmenn þoldu illa ok var þat til marks at annarra vápn váro vörm ok blóðug enn annarra köld ok þurr. nú tók at hallaz orrostan ok dreifðiz hinn útlendi herrinn ok skildi sik við höggorrosto ok skutu af bogum ok drógu sik ór þrönginni. svá mikill var vápna burðr ok grjóts um hríð at mjök var myrkt svá at náliga sá ekki. Julius hræddiz nu at rjúfaz mundi brjóst á fylkingu hans ok eggjar riddaralið þat er laust var ok biðr þá framm ríða þar er honum þótti mest þurfa ok einna mest at hinum útlenda her. varð nú hörð orrosta ok fèll mest hinn útlendi herrinn. ok er Julius hafði sigrað þá sneri hann þegar á Rómverja fylking þar sem mestr var afli Pompeius fyrir ok funduz þar enn frændr ok vinir: nam þá enn stað orrostan um stund. Julius eggjar nú enn herinn ákafliga ok tókz þar hinn harðasti bardagi. Julius lèt ok fá vápn sínum mönnum sem þeir þurftu. enn þeir sem honum þóttu æigi svá berjaz sem hann vildi þá laust hann þá með spjótshalanum. þat fylgdi ok ef hans mönnum varð mein at blóðrás ok kom hann til þá hvelfði hann yfir hendi sinni ok stöðvaðiz þegar. enn er Julius sá at sigr mundi fáz þá bendi hann þeim með hendi sinni at drepa skyldi alla höfðingja því at hann þóttiz vita at því

---

6 Pompeii > pompei.

skjótara mundi hann ná ríki í Rómaborg: var þat ok hægt því at þeir stóðu einir saman í fylking, ok var þar niðr drepit hit æzta mannval þat er var í Rómaborg. í þeiri fylking var Brutus undir riddarabúningi ok vissi Julius ógjörla hvar til hann hirti sín vápn; ok segir Lukanus svá at þar stóð vegr ok prýði höfðingjanna ok hin æzta ván frelsissins, ok kallar hann þat vel at Brutus gjætti sín í þersum lífsháska því at hann mátti þá öngu á leið koma með Julium ok æigi var þá enn vorðit ríki Julii svá mikit yfir öllum heiminum sem honum varð auðit. 'hèr fèll nú' segir Lucanus 'á einni hæð mikill 506
'fjöldi höfðingja svá alðýðunnar er æigi meðr getit'. þar lá Domitius sárr til ólífis, sá er hraustastr maðr var í liði Pompeius. nú þó at hann væri sigraðr af Julio þá varð hann því feginn er hann þurfti æigi griða at biðja. Julius kom þar at sem hann lá með útali sára ok flaut allr í blóði. 'hèr muntu með skiljaz at berjaz með Pompeio ok munu nú aðrir verða at berjaz með honum'. Domitius svaraði 'svá deyr ek at úráðit er at þú fáir sigr 'í dag ok enn ertu minni maðr enn mágr þinn ok fer 'ek svá til frænda minna framm genginna at Pompeius 'er minn hertogi ok em ek freáls fyrir þèr: unnit hefir 'ek þèr ok allan þann mannskaða sem ek hefir mestan 'mátt utan hvers manns hræzlu'. ok eptir svá talað lèt hann lífit. sva segir Lukanus at þersi orrosta væri þyngri Romaborg enn hver annarra því at í öðrum orrostum týndi hón höfðingjum ok fjölmenni enn í þersi lèt hón frelsit ok alla sæmdina: varð hèr ok svá mikit mannfall at allir vellir flutu í blóði ok fèll þó flest af liði Pompeius ok hinum útlenda her. enn er Pompeius sá at lið hans fèll ok guðin vildu svipta hann sigrinum þá gekk

---

9 var > v^r^d. 12 alðýðunnar = aldyduN^r^. 13, 19 Domitius = domıcı', Domícı'. 25 orrosta væri > ōro vær.

hann upp á hæð eina ok sá þaðan til orrostonnar ok sá þat hit mikla mannfall er varð í hans liði. þá mælti hann 'græði svá goðin heiminn at Rómaborg hafi frelsi sitt 'ok æigi drepiz niðr allar þjóðir. þótt þér gerit mik nú 'veslan af þeim heiðri sem ek hefir áðr haft ok þótt bæði 'förumz ek ok allir mínir frændr þá er þat þó lítit hjá 'allri heimsbyggðinni ok væri gott at æigi gyldi minnar 'úgjæfu öll alþýða'.

78. Frá bardaga Julii ok Rómverja. Eptir þetta stígr Pompeius á hest ok ríðr þar framm sem fylkingar hans dreifaz ok bað menn æigi vera svá óða at hverr félli þar um þveran annan; því gerði hann svá at hann vildi æigi at alþýðan félli þar fyrir hans sakir: snýr hann af því undan ok bendir öllum at honum skyli fylgja. ok segir Lucanus at engi maðr mátti sjá hræzlu á honum hvárki þá né nökkurn tíma fyrr; enginn sá ok of mikla gleði á honum þó at honum gengi vel til; ok var hans höfðingskapr ok yfirbragð svá mikit at allir undraðuz þeir er sá bæði vinir hans ok úvinir. Borg ein mikil ok styrk var skammt þaðan sem orrostan hafði verit ok sá borgarmennirnir flótta Pompeius ok hans manna: ganga þeir þá upp í vígskörð ok buðu at veita honum allt þat er hann vildi ok þeir mætti. svá segir Lucanus at þá var enn eptir hit bezta mannval ok ærna hafði hann vinsæld til at samna liði í annan tíma, enn svá reið hann frá þersi orrosto at hann var sér einum minni. Pompeius svaraði boði borgarmanna á þessa lund 'ekki þarf sá höfð'ingi í borgir at skríða er sigr hefir misst ok þiggja lið 'af þeim sem úvanir ero orrostum. veitit nú lið Julio: 'þat eitt hæfir yðr'. Julius gerði nú sem hann skipaði fyrir öndverðu: lét drepa hvern þann mann er í mót

---

3 goðin > godın̄. 15 hræzlu = hræðzlu. 16 enginn = Engín. 17 gleði á honum > á honum á honum.

honum sneri, enn er allt lið Pompeius flýði ok Julius þóttiz sigraz hafa sem hann vildi þá lèt hann blása ok hepta herinn. ok er herrinn kom til hans þá var hann kátr ok mælti ‘vær höfum unnit mikinn sigr í dag ok ‘skulot þèr nú skjótt taka verkkaup fyrir yðvart erfiði er ‘þèr hafit þolat sár ok sviða ok marga mæðu. hèr standa ‘nú opnar herbúðir er várir úvinir hafa leyft oss er ‘náliga munu fullar af gulli ok gimsteinum er Pompeius 507 ‘hefir saman dregit af austrhálfu heimsins. skundit nú ok ‘skiptit því með yðr sem þersi orrosta hefir yðr gefit’. eptir þat ferr hann í herbúðir þær sem Pompeius hafði átt ok vill vera þar um náttina ok vita hversu mikit herfang þar væri. enn þann fjárlut gat hann æigi með þúsundatali greint. enn herbúðavistin varð þeim æigi jafn-náðulig sem þeir ætlaðu; því at þá er þeir fóro at sofa í þær sængr er átt höfðu konungar æða hertogar ok náttaði sá þeir elda stóra ok ógurliga, þeir sá ok mikinn fjölda dauðra manna ganga um herbúðir alla náttina með vápnum ok ópi ok kalli með alls kyns skrímslum ok undrum ok úhreinindum þeim sem ero í helvíti, ok var þar þó mest um sem Julius var seálfr. ok þegar mornaði lèt Julius kanna valinn ok funduz þar xi Rómverjariddara einna enn annarr lýðr var ekki taldr. allan þann hinn rómverska val lèt hann brenna eptir sið Rómverja ok lèt síðan jarða bein ok ösku enn at annarra manna líkömum gaf hann öngvan gaum ok lèt hvárki grafa þá nè brenna. þat er sagt at Julius lagði mikil leiðindi á þenna stað Thessaliam ok fór hann brott í önnur lönd ok átti þar margar orrostor. Lucanus segir svá at öngu skipti um þá er fallnir váro hvárt Julius brenndi lík þeira eðr æigi eðr lèti fúna undir berum himni því at þeira líkamir urðu at

---

7 leyft < leift. 22 xi < xv (ɔ: 15000) 27-28 Thessaliam > thefaliam.

moldu hvárt sem heldr var 'vitum vér ok' segir hann 'at þar mun koma um síðir at eldr man ganga bæði yfir 'jörð ok sjó ok lopt ok hreinsa svá loptit. hvar sem þú 'leyniz þá Julius í þersu lífi eðr öðru þá munu at þér 'heimtar sálir þeira manna er féllu í Emathia. ekki ríki 'hefir hamingja manna eptir dauðann. líkami hvers manns 'hverfr í jörðina enn öndin hefir slíkt sem hón hefir fyrir 'sér gert ok því er ekki undir hvárt heldr rífa dýr eðr 'fuglar sundr líkamina æða ferst í seó eðr vatni'.

79. Frá Pompeio ok "Cornelio" húsfrú hans. At lyktaðum þersum bardaga sem nú hefir frá verit sagt fór Pompeius í eyðimörk ok hvíldiz þar um nokkura stund því at hann var bæði mæddr af elli ok áhyggju ok miklu erfiði: vissi hann ok at mjök mundi eptir honum leitað: vildi hann þá ok mikit til gefa at Julius væri af ráðinn. enn þó mátti hann þar æigi lengr vera því at liðit fór villiráða bæði um fjöll ok skóga þat er undan komz í Thessalia enn Pompeius var auðkenndr því at hann var manna virðuligastr sýnum ok þótti mönnum hans undarligt er þeir fundu hann í skóginum þar sem þeir höfðu öngvar fréttir til hans enn honum var angr at hvers manns fundi því at þeir väro margir er hann trúði illa hvern vilja til hans mundu bera enn honum þóttu menn sínir vilja minna sik upp á úgjæfu sína er þeir báðu hann höfðingja sinn vera. Pompeius ferr nú til sjóvar með lið sitt þagat sem vatn þat fellr er Peneus-straumr heitir þar sem Cornelia hafði eptir verit ok á skip farit: þeir fóro þaðan í Lesbos: ok sakir hennar áhyggju sá hón fyrst skipin er fóro til eyjarinnar ok kenndi þegar ok gekk á sjóvar bakkann ok kenndi þar Pompeium mjök

10 Pompeio ok > Pompeíí. 'Cornelio" ɔ: Cornelío ⌣ < Cornelia. 18 Thessalia > theſalıa. 25 sjóvar = ſıofar. 26 Peneus > Peneſ. 28 Lesbos > leſbes. 30 sjóvar = ſıofr.

litlausan — hann hafði skegg mikit ok hvítt fyrir hærum ok var mjök úglaðr — ok þóttiz hón vita at honum mundi þungt fallit hafa ok litlu síðarr fèll hón í úvit ok lá lengi svá sem dauð. þeir komu þar at sem Cornelia 508
lá. tók þá Pompeius höfuð hennar ok lagði í knė sèr. “Sıd”= = = upp augu sín ok kenndi hvárt þeira annat. þá mælti Pompeius ‘hví skaltu bera svá þungliga vára ‘hina fyrstu úgæfu þar sem þú ert komin af allri hinni ‘beztu ætt ok æigi er víst at annarr kvennmaðr hljóti ‘meira líf í veröldu. enn þú fylg mèr nú þí fastara sem ‘fleiri hafa með mik skiliz. öngvan skaða hefir þú fengit ‘í þessi orrosto því at ek lifi’. eptir þetta settiz Cornelia upp ok mælti með harmi miklum ‘mikil er mín úgjæfa. ‘mik hatar hin fyrri kona þín sem dauð er. mik angrar ‘ok hinn fyrri bóndi minn Marcus Krassus ok hans fráfall. ‘heyr þú minn hinn æzti bóndi ok úmakligr minni sæng: ‘hví skylda ek giptaz þèr til þess at þèr væri blíðara ‘hafit enn veröldin? kasta þú mèr nú fyrir borð því at ‘gjarna vilda ek gefa mitt líf fyrir þitt til þers at þín ‘sæmd væri þá meiri enn áðr ok þat ætla ek hvar sem ‘þú ferr eðr berst at Julia fylgi þèr jafnan ok öfundi ‘okkra góða samvist’. viðr þersa hennar ræðu felldu tár nær allir menn · þeir er við váro staddir enn sjálfr Pompeius mátti ekki mæla því at hann fèll í úvit. þangat dreif nú fjöldi fólks af borg þeiri er Mitylene heitir. þá mælti höfðingi þess fólks með Pompeium ‘sjá mun vera ‘vár dýrð er borg vár skyldi varðveita svá góða konu, ‘ok gör nú svá vel at þú dvelz hèr hjá oss þó at æigi ‘sè lengr enn eina nátt til þers at allar þjóðir dýrki síðan ‘þers meirr þenna stað at slíkr Rómverjahöfðingi hafi hèr ‘verit: liggr ok þessi ey í miðju hafinu ok þarf Julius

---

7 vára = vaka. 9 kvennmaðr = kuenm̄. 22 viðr = Wıdr. 25 Mitylene > mendm̄. 29 síðan > ſida.

‘hıgat mikinn skipastól en höfðingjar ok vinir þínir munu hér koma ok er héðan gott at búaz til bardaga í annat sinn’. við þessa ræðu varð Pompeius mjök glaðr ok mælti ‘enginn er sá staðr á jörðu er mér sé þekkri því at hér hefir ek varðveitt þann mann er mér er kjærastr, ok gjarna vil ek vera yðvarr vin, enn þó verðr ek víðara um heiminn at reka mín forlög. enn at vísu ertu sæl Lesbos at eylífu því at þú kennir konungum ok lýðmönnum mér at þjóna ok varðveita trúlyndi sínum drottni, enn ek verð at leita hvárt er ek finn hamingju æða úgiptu, ok þess biðr ek guðin at allr lýðr líkiz því fólki er hér byggir’. síðan var Cornelia borin til skips harðla rygg enn alþýða manna hélt upp til himins ok grétu ákafliga ok hörmuðu þó meirr Pompeium ok hans skaða enn brottför hennar ok mátti þó enginn kvennmaðr við hana úgrátandi skilja.

80. Frá ferð Pompeius í borgina Phaselis. Nú sigldi Pompeius í haf ok vissi úgjörla hvert hann skyldi stefna, ok er hann var spurðr hvert hann vildi sigla þá svaraði hann svá ‘sem first Emathia ok æigi skal stefna í Arabia en látum at öðru veðr ráða hvar mér komum’. þeir sigla nú sem byr gaf ok komu at sömu ey sem fyrr ok þó annars staðar. var þar fyrir mart þat fólk sem flýit hafði ór Emathia ok gekk þá Pompeius ungi móti feðr sínum ok margir konungar ór austrhálfu heimsins ok af Rómaríki þeir er æigi vildu skilja við Pompeium þó at hann væri nú á flótta kominn. konungr einn sá er Deiotarus
509 hét bauð honum sitt fullting. enn hann tók því val ok bað hann fara með þeim þjóðum at samna her er Parthi heita Medi ok Assiri ok til þeira þjóða er Pompeius hafði

---

4 enginn = Engín. 8 Lesbos > lefbes. 13 upp < upp höndum. 15 enginn kvennmaðr = engín kuenm. 27 Deiotarus > duluturus. 28 fullting = fultíng. 29 er ∽ m.

lagt undir Rómverja. Deiotarus lagði niðr konungligan búnað ok tók upp kaupmanns búnað ok fór þegar ferð sína. Pompeius siglir nú fyrir Asialand ok nam stað í sjóborg þeiri er Phaselis heitir í Pamphilia héraði ok dvaldiz þar um hríð ok fór þaðan í Ciliciam ok setti þar herbúðir sínar á sjóvar ströndu. þá var með honum mikill luti senatorum er ór orrosto höfðu flýit með Kato ok Pompeio Gneio syni Pompeii Magni. Pompeius mælti ‘þér höfðingjar mínir ok aðrir menn þeir er ek hefir ‘trúnað minn undir fólgit ok æigi vildu [skiljaz] með mik ‘skiljaz í orrosto. þó at mér hafim nú lítinn vápna styrk ‘þá vil ek nú leita ráða undir yðr hvat tiltækiligaz er. ‘ok æigi er mér enn svá fyrir komit at ek mega æigi ‘leiðréttaz af þersi svívirðing. þér vitit at Marius týndi ‘öllu liði sínu í Libia ok kom hann þó aptr með fullum ‘veg. enn hefir hamingjan minnr steypt mínum veg enn ‘hans: vær höfum enn mikit lið ok frítt ok þó skipaher ‘í Girklandshafi. vil ek nú vita af yðr hvárt þér vilit leita ‘í Libiam eðr til Egiptalands: enn barndómr konungsins ‘á Egiptalandi þikki mér ótrúligr því at trúlyndi fylgir ‘jafnan fullkomnum aldri, ok illa treystir ek trúnaði þeira ‘í Africa því at ek ætla at þeir munu minnaz sinna frænda ‘ok hvers þeir hafa misst fyrir Rómverjum. hugsit nu ‘hvárt vér skulum heldr, eðr fara i austrhálfu heimsins: ‘þar fellr á sú öðrum megin í sjó sem mest er í veröld-‘inni ok Eufrates heitir. enn öðrum megin gengr fjall-‘garðr sá er Caspia heitir [því at] þar ero hestar ok borgir ‘stærri ok sterkari enn í öðrum stöðum: nú þó at mér ‘sém þar sviknir þá man svá fréttaz um heiminn sem ‘mér höfum í sjó drukknað’. Lentulus consul ok aðrir

---

1 Deiotarus > Duluturus. 3 fyrir > $f^{ir}$. 5 Ciliciam > cılıcínam. 6 sjóvar = ſiof$^{r}$. 8 Pompeii > Pompeı.' 14 Marius > Markus. 22 Africa = affrıca. 27 Caspia (✻ Caspia claustra, Lucan. VIII 291) ∽ caſpra.

höfðingjar ráða honum at sækja til Egiptalands: sögðu at Ptolemeus var ungr konungr ok hafði áðr þegit ríki af Pompeio ok verra var at vænta trúnaðar af gömlum konungi þeim er engi gjæði hafði af honum þegit. nú fóro þeir með skipaliði af Cilicia. ok er þeir komu til Egiptalands þá spurðu þeir at Ptolemeus var við fjall þat er Casius heitir ok sneri Pompeius þagat með her sinn. ok er Ptolemeus konungr spyrr þetta þá kallar hann saman vini sína ok leitar ráðs með þá hversu hann skal fagna Pompeio. Achoreus hét einn gamall höfðingi ok mikill skörungr: hann mælti ‘“Lagus” konungr faðir yðvarr ‘var maðr trúlyndr ok mundi hann vel fagna Pompeio ef ‘hann lifði ok hér er enn sættarbréf þeira hjá oss enn ‘annat í Libia’. annarr höfðingi hét Pothinus: hann taldi þat fyrir konungi at hann mundi bæði vera frægri ok ríkari ef hann réði Pompeio banaráð ok segir réttindin gera mann lítils háttar þann er þeim vill hjálpa er hamingjan vill steypa ‘ok er þat ráð at samþykkjaz guðunum ‘ok fága æigi þá er farsælulausir ero. enn Pompeius veit ‘bernsku þína ok ætlar hann at koma þér af ríkinu. enn ‘ef þú þorir æigi at verja þat fyrir honum þá fá í hendr ‘systur þinni þeiri er í myrkvastofu sitr ok skulum vér ‘verja ríkit enn drepa Pompeium ok slíkt hit sama skulum ‘mér gera með Julium ef mér komumz yfir hann’. þersum orðum Pothini samþykktiz konungrinn, ok allir hans menn, ok virði svá sem honum stæði þetta at göra ok varð glaðr við ok kallaði til sín trúnaðarmann sinn er Achillas hét ok sendi hann til fundar við Pompeium með miklu liði at svíkja hann.

---

2, 6 Ptolemeus > tholomeus. 7 Casius > caſſus. 8 Ptolemeus > tholomeus. 10 Achoreus > Akuríus. 12 trúlyndr ∽ trulýddr. 14 Libia = lıbıá. Pothinus > fetínus. 25 Pothini > fetíní.

81. Er Achillas sveik Pompeium ok drap hann. Sem Pompeius var mjök at landi kominn kom Achillas í mót honum á litlu skipi ok bauð honum fullting konungs ok allrar alþýðu ok þar með eggjar hann Pompeium at fara á skip með sèr ok svá til konungs ok landsmanna því at skip Pompeius váro svá stór at þau máttu ekki nær ganga landinu. Pompeius trúði orðum hans ok gekk á skip með honum. Pompeius mælti ‘hafit skip vár fjarri landi ok ‘prófit svá hvat af mèr verði ok reynit svá trúlyndi víkings‘ins’. Cornelia svaraði ‘hví viltu svá skiljaz með mik? ‘eðr hví var ek æigi í bardaga með þèr í Thessalia? mit ‘skíldumz aldri þá er betr gekk, ok heldr vilda ek vera ‘í Lesbos enn fara æigi með þèr á land. eðr skal ek hvergi ‘fylgja þèr nema í hafinu?’ Pompeius fór nú með Achilla brott á litlu skipi, enn Cornelia lá út við borð í skipinu með miklum harmi. enn er Pompeius gekk af skipi kom í mót honum rómverskr riddari sá er Septimius hèt ok þá var þjónostumaðr Ptolemei konungs: hann kvaddi Pompeium. leiddu þeir Achillas hann á einmæli burt frá sínum mönnum ok bjogguz til áverka við hann. enn er Pompeius sá fyrir bana sinn þá vafði hann möttlinum at höfði sèr ok lagði saman augu sín enn hèlt at sèr öndinni því at hann vildi at þeir heyrði ekki til hans því at hann vildi æigi spilla sinni eylífri frægð með andvarpi einu. þá gekk Achillas at honum ok lagði hann með sverði í gegnum. enn hann þagði sem sauðr. Cornelia sá þetta gjörla ok mælti með miklum gráti ‘minn sæti herra. betr ‘væri nú at ek væri í Lesbos ok Julius hefði fyrri komit ‘á Nílar sanda. víst mundu þeir þann ykkarn svikit hafa ‘sem fyrr hefði komit. svá tók ek þik Pompeius at öll ‘veröldin óttaðiz þik ok þitt ríki, enn nú skiljumz ek hèr

11 Thessalia > thefalıa. 13 Lesbos > lefbes. 14 Achilla > achílle. 17 Septimius > feptímus. 18 Ptolemei > tholomei. 28 Lesbos > lafbes.

‘með þik dauðan. göri nú svá val einn hverr vin Pompeius at höggvi höfuð af mèr því at ek vil æigi lifa ‘eptir minn sæta bónda’. síðan fèll hón í óvit, enn vinir hennar gjættu hennar. ok er Pompeius var fallinn tók at láta nokkut í undum þeim er váro fyrir brjóstinu þar sem hann var með sverðinu lagðr. Septimius jók þá hverjum glæp ofan á annan: hann svipti möttlinum af andlitinu ok kvez sjá vilja hversu hann varð við banann. enn allir þeir er sá hann sögðu svá sem var at hann hèlt öllu sínu tignar-yfirbragði. síðan brá Septimius sverði ok hjó af honum höfuðit. svá segir Lucanus at þar var þat höfuð af sniðit er lengi hafði verit sæmiliga borit með sterkum æðum ok margir höfðu sinn svíra fyrir beygt. Achillas fór nú með sína sveit ok hafði höfuð Pompeius í hendi sèr: með honum fór hinn illi Septimius: ok vildu þeir sýna konungi höfuðit at hann mætti kenna hversu Pompeius var yfirlits ok var þat sett upp á eina eskistöng ok borit hátt. þar var þat höfuð at aldri hafði fræknara fæz nè fríðara ok lengi hafði val stýrt Rómverja höfðingjum ok ríki. þeir hleyptu út heilanum þegar
511 konungr hafði sèð ok báru í salt ok eitr svá at æigi skyldi fúna, enn líki Pompeius köstuðu þeir á seó út ok reiddi þar í lánni. Cordus hèt einn rómverskr maðr er þar var þá staddr. hann hafði verit fyrr með Pompeio. hann kom þar öndverða nátt ok leitaði at líki Pompeius. hann fann þat því at tunglskin var bjart. hann dró líkit á land upp ok sat þar yfir ok grèt. hann sá hvar brennt var eins ungs manns lík ok tók hann þar eld ok klauf eitt trè mikit ok fornt ok gerði af bál. hann lagði þar á líkit ok mælti ‘heyr þú hinn æzti hertogi alls Róma‘ríkiss. ef yðr er þetta bál nokkut þægiligra enn liggja

6 Septimius > Septím’. 7 ofan = ofuan. 8 kvez = kuedz. 10 tignar ⌣ ógnar (∽ ý’gnar). 10. 15 Septimius > ſeptímus. 19 fæz = fædz. 23 Cordus > Sodrus.

'í sjónum ok hamingjan mætti mèr þat veita at ek mætti 'þín hin helgu bein ok ösku færa til Rómaborgar ok bjöggi 'Cornelia þar um eptir verðleikum!' síðan tók hann upp beinin hálfbrunnin ok bar allt saman ok gróf niðr í sand ok lagði á ofan mikinn stein. síðan sótti hann stofn einn ok reist þetta þar á HÈR HVÍLIR POMPEIUS MAGNUS ER ENGINN HEFIR VERIT MEIRI HÖFÐINGI OK DÝRÐLIGRI Í HEIMINUM. Cornelia sèr nú alla þersa luti ok syrgir sik allra fastaz ok gekk síþan niðr undir þiljur ok lá þar til þess er myrkt var.

82. Hèr segir af Kato ok Pompeius. Eptir þetta kom Cato með þúshundrað skipa til þeirar borgar er Phicus hèt: borgarmenn lykja aptr borg sína ok svá hafnir sínar ok vildu æigi taka með honum, enn Kato lagði at þeim ok vann borgina ok brenndi hana. litlu síðarr lagði hann í brott ok kom þar framm sem heita Palinurus-vellir. Gneius Pompeius son Pompeii Magni hinn ellri var þar með Katone þá er Pompeius Sextus sigldi af Egiptalandi ok mættuz þeir þar. Gneius spurði bróður sinn 'hvat kanntu at segja mèr til feðr míns?' Sextus svaraði 'sæll vartu bróðir er þú vart æigi þar er ek var 'þá er faðir okkarr fèll fyrir vápnum — æigi Julii heldr 'var hann svikinn af hinum illa Egiptalandskonungi. ek 'sá gjörla er faðir minn var veginn ok þótti mèr æigi 'svá þungt víg hans sem þat er þeir báru höfuð hans á 'stöng upp til borgarinnar ok görðu þat sèr til frægðar 'en oss til harms ok skemmdar ok ætla at sýna þat Julio 'ok fá þar fyrir hans vingan. nú vitum vèr æigi hvárt 'dýr eðr fuglar hafa rifit lík hans eðr hefir bál þat hit 'leyniligha er vær sám um náttina verit gert eptir hann'.

5 sótti? 7 ENGINN = engín. 13 Phicus' > phıſon. 14 Kato = káto. 17 Palinurus > palınori' ⌣ palmori'. Pompeii > Pompeí.

enn er Pompeius hinn ellri heyrði þersa sögu þá reiddiz hann höfðingjunum ok mælti ‘snúum aptr til Egiptalands ‘ok gjöldum víkingum þersi svik. ek skal brjóta leiði ‘Alexandri hins mikla ok allra þeira konunga ok jarla er ‘þar hvíla ok kasta beinum þeira á seó út því at faðir ‘minn hefir þar öngvan sæmilighan gröft. ek skal taka guð ‘þeira er Apis heitir ok elda undir beinum Pompeii Magni. ‘svá vilda ek skilja með Egiptaland at enginn maðr byggði ‘þar’. síðan ljóp hann til skipa sinna ok mart manna með honum enn Kato stöðvar fólkit ok váro þá sögð tíðindin um allan herinn ok gaus þar upp grátr ok gaulan fyrir lýðnum svá at enginn maðr vissi dæmi til at nokkut fólk
512 hafi svá borit eins manns fráfall enn þá aukaði mikit á er þeir sá Corneliam leidda frá skipi svá fölva sem ná. hón lèt taka þau hin gullofnu klæði ok hin agjætu vápn er Pompeius hafði átt, síðan lèt hón gera sáluelda ok kasta þar á klæðunum. þar fylgdi ok gaulan ok óp mikit ok ámæltu allir goðunum. þá mælti Kato ‘sá maðr er nú ‘frá fallinn er úlíkr var hinum fyrrum mönnum at kunna ‘hóf á síno ríki svá nytsamliga at allir höfðingjar Róma-‘borgar hèldu æ sínu ríki. minniz nú þat með hann ok ‘fylgit heldr honum dauðum enn Julio lífs, ok fyrr skal ‘höggva höfuð af mèr enn ek spara þat Julio’. nú gerðiz sundrþykki mikit í herinum. Kraton hèt einn víkingr í herinum, hann skildiz fyrstr frá Katone ok fór mart lið með honum brott til skipa. Kato gekk at honum ok mælti ‘heyr þú hinn grimmi hræfugl. hví viltu enn fara ‘í víking ok leggjaz á haf út ok gera jafnmargt illt sem ‘þú gerðir áðr enn þú komt til Pompeius en hefna hans ‘ægi? þá vertu hvers manns níðingr’. Kraton svaraði ‘ef þú Kato vill fara til Rómaborgar þá viljum vèr fylgja

—

7 Apis > appes. Pompeii > Pompeı. 8, 12 enginn = engín. 24, 30 Kraton < (Tarcon <) Tarcondimotus.

'þér ok þínum merkjum'. þá ljóp fjöldi manna til skipa ok var þat allra vili at ganga á vald Julii. Kato mælti 'sér ek at þessi lýðr hefir meirr bariz fyrir ástar sakir 'með Pompeio enn til frelsis Rómaborg. hugsit þat nú at 'þèr deyit heldr freálsir enn þjónit Julio með skömm. 'enn ef þèr gerit æigi svá þá skal yðr hèr meiri frægðar 'af unna því at fyrr skulot þèr þá með mik berjaz ok 'færa Julio mitt höfuð — man hann þat ok mörgum verðum 'kaupa: megut þèr ok þat vita er fylgt hafit mínum merkjum 'at ek má æigi nærr mèr taka enn þèr kaupit yðr sæmdir 'meðr mínu höfði — enn þat er lítilmannligt at flýja ok 'hafa ekki unnit'.

83. Frá Kato ok Pompeius ok þeira ferð. Ok sem Kato lauk sinni ræðu þá sögðu allir at æigi vildu með hann skiljaz ok váro þá skipin heimt at landi ok váro þeir fastráðnir í at berjaz ok fá sigr eðr falla at öðrum kosti. þaðan fóro þeir til einnar borgar er þaðan var skammt ok unnu hana. eptir þat vill Kato fara til Juba konungs í Libiam enn sú var skemmz leið at fara um þá staði er Sirtes heita: þar var svá mikil torfæra at þar var engum manni yfir fært. enn Sextus Pompeius var eptir í þeim stað með miklu liði er "t⁷tones" heitir. síðan fór "pompeíus" í Sirtes "ok kato" þann veg er skemmstr er: þar váro sandar enn engin grös ok fullt með ormum: meðr honum fóro allir hinir beztu riddarar ok eggjar hverr annan. enn er þeir höfðu æigi lengi gengit um sandana þá kom einn dag vindr svá hvass at þeim at hjálmana sleit af höfði þeim ok máttu þeir æigi upp standa ok hèldu þeir at sèr skjöldunum ok var við seálft at þá

20 Sirtes > círces. 21 Sextus Pompeius var > ſýn⁷ pompeíus ᷣv. 22 "t⁷tones" ✱ Pars ratium —————— Torpentem Tritonos adit illaesa paludem, Lucan. IX 345-47. 23 "pompeíus" ɔ: Gneus. Sirtes > círces. "pompeíus" í Sirtes "ok kato" < Kato í Sirtes.

mundi taka upp af jörðunni ok lagði svá miklar sandfannir at þeim at þeir máttu hvergi upp standa, enn þá er létti veðrinu sá þeir öngvan leiðarvísi á sandinum utan markaðu á himintunglum ok var þat þó æigi glöggt því at þar váro sén öll önnur himintungl enn í seálfri Rómaborg. nú kom annarr dagr ok gerðiz þá sólarhiti mikill
513 er af tók veðrit ok gerðiz nú fólkinu mjök heitt ok þyrsti þat fast. einn ungr riddari sá eitt lítit vatn í sandinum ok rann til ok fyllti hjálm sinn ok færði Katoni; enn kverkr mannanna váro fullar af sandi. Kato mælti er hann tók með hjálminum 'hvárt ætlar þú at ek muna svá 'þreklauss vera at ek þola æigi þorstann sem aðrir menn?' eptir þat steypti hann niðr hjálminum. enn þeir fóro þar at sem vatnit var, ok þó at þat veri lítit þá vannz þat þó öllum herinum.

84. Frá guðinu Hammon ok Labieno. Síðan var fyrir þeim hof eitt lítit er þeir kölluðu at Garamantes varðveitti. í því hofi var Þórs líkneski. þat hafði á höfði sér svá sem fornt rútshorn ok kallaðu landsmenn goðit Hammon. ekki var þat prýtt með gulli eðr gimsteinum. enn skógarrunnr einn grænn var vaxinn umkringiss ok þótti landsmönnum þat tákna guðdóm Hammonis því at öll jörð var brunnin af sólu þar í nánd: þar váro fagrir brunnar. enn þá er dagr var lengstr um sumar þá skein sólin þvers ofan ór himninum um miðjan dag. enn fyrir hofsdurunum stóð fjöldi manna ór austrvegi ok gengu þar til fréttar með goðit. sá maðr mælti við Kato er Labienus hét 'svá 'hefir oss hamingjan til vísat at vér megum hér nú leita 'ráða við goðit með eptirleitan slíks hertoga sem þú ert 'ok vita hvern enda eiga skulo þessar orrostor eðr tor-

3 utan > uta. 5 í seálfri > avlfealfrí. 9 Katoni > katone. 16 Hammon > hamon. Labieno > albíno. 17 at Garamantes > at at garmenantes. 19 rúts ∽ Rotz. Hammon > hamon. 22 Hammonis > hamonís. 27 Labienus > albın'.

'leiði sem vèr höfum farit: þikki mèr ván at guðin muni 'öngum segja framarri enn Katoni'. nú segir Lukanus at Kato var fullr af guði ok hann mælti af hans krapti þá er hann sagði svá 'hvers viltu leita Labienus? hvárt skulum 'vær þers spyrja hversu lengi vèr skulum lifa — æða falla 'fyrir vápnum eðr verða sóttdauðir? ekki væntir ek at 'Hammon kunni slíkt at segja greiniliga. ok þóat vèr 'hafim öngar frèttir ór hofum þá þarf "gud domrın̄ hugın̄" 'engis at frètta. sagt hafa spámennirnir fyrir áðr allt þat 'sem leyft er at vita. ekki hefir guð þessa sanda látit hèr 'til þess vera at mæla við menn þótt hèr komi eðr fela 'hèr nokkur sannindi sín í þersu skrímsli. guðs sæti er 'öll skepna — himinn ok jörð ok sjór: hvat skulum mèr 'þá leita framarr við guð en þat er þú sèr eðr þèr sýniz? '[því at] þeir þurfa til lutfalla at ganga sem efanligir ero 'í sèr enn ek þarf þers æigi því at ek veit at ek skal 'deyja ok svá allir bæði styrkir ok staðlausir. lát nú sem 'Hammon hafi þersi orð talat fyrir þèr, eðr þórr'.

85. Hèr segir af Kato ok Lucanus. Kato sneri nú brott frá hofinu ok gekk æigi til frèttar með Hammonem. Kato þoldi allra manna bezt vökur. vás ok erfiði, ok þó at þeir fyndi nokkurn tíma vatn þá drakk hann síðarst af öllum. Svá segir Lucanus at heldr vildi hann öðlaz þann lut er Kato fekk þá er hann fór um Sirtes ok um Libiam enn vera ekinn iij tíma með Pompeio í gullkerru í þórshof í Rómaborg, ok hversu sem trúin eðr heimrinn skipaz þá mun æ þikkja sæmd at nafni Katonis ok hans lof man vera sungit um allan heiminn. þeir fóro nú nokkura stund þann veg sem enginn hafði fyrr farit ok berliga þótti úfærr sakir sólarhita. þar kom um síðir at 514

—

2 Katoni > katone. 4 Labienus > albínus. 7, 18 Hammon > hamon. 20 Hammonem > hamonem. 24 Sirtes > círces. 29 enginn = engín.

þeir fundu brunn einn mikinn ok víðan ok fagrt vatn í, enn þar um utan váro hinir verstu eitrormar. enn Kato beið þar til þers er ormarnir fóro í brott. hann mælti þá 'ekki skulot þèr hræðaz dauða yðvarn þó at þèr drekkit 'þetta vatn'. gekk hann þá seálfr til ok drakk fyrstr vatn af þersum brunni.

86. Hèr segir af drekum í Afrika. Í Afrika ero drekar þeir er hafa gullslit ok ij fætr enn þeir ero svá stórir ok sterkir at þeir gleypa yxnum heilum ok hinum óörgum dýrum ok hafa þeir ekki eitr í flestum löndum utan í Libia: ero þeir þar því fullari af eitri sem þeir ero meiri enn aðrir ormar. í Libia er sá ormr er dipsas heitir: enn ef hann stingr mann þá verðr þat ekki mikit sár í fyrstu, enn þegar eitr hans kemr í hold mannsins þá fær hann þorsta mikinn svá at hann má aldri seðjaz á fyrr enn hann deyr af. seps heitir einn ormr, lítill vexti, en svá meinsamr at þegar er hann stingr manninn þá rennr þegar blóð um allar sveitaborur mannsins. aspis heitir einn ormr: enn þegar hann bítr mann fær sá bana utan alla sótt. jakulus heitir einn ormr: hann flýgr svá skjótt í gegnum mann sem broddi sè skotit ok svá grimmr at enginn ormr þorir svá nær honum at vera at heyri hans hvæsu. basiliskus heitir ormr: hann hefir svá illt eitr í augum at hvetvetna hefir bana er hann lítr. amphisbena heitir ormr er höfuð hefir á hvárumtveggja endanum en hann dregr lykkjuna eptir sèr þá er hann skríðr. cerastes heitir ormr: hann hefir ekki eitr með sèr: hann er hyrndr sem sauðr: hans tunga er svá hörð sem stál, enn sá maðr sem hana hefir má varaz eitr því at hón sveitiz þegar eitr kemr í nánd henne ok er hón höfðingja eign þeira er sín vilja val gjæta. millum

---

7 Africa = affrıka, aff'ka. 22 enginn = engín. 24-25 amphisbena > Apíuena. 27 cerastes > Ceraſtus.

þersa eitrkvikenda fór Kato með her sinn, ok margra annarra, ok sá þar ryggiligan dauða sinna manna. Merkismaðr hans hèt Aulus. hann var ættaðr af Tirrhenia. hann beit sá ormr er dipsas hèt ok varð af lítil skeina svá at hann kenndi sèr engis skaða nè sárleiks í fyrstu. eitrit fór um hans allan líkam þar til sem hann fekk svá mikinn þorsta at hann mátti æigi bera ok vissi hann æigi at þat væri af eitri. hann gjætti öngrar ferðar með Katone ok ljóp einn saman með merkit ok leitaði vaz ok fann æigi. hann vakti sèr blóð í æðum ok drakk þat. Kato kom þá at honum ok lèt taka af honum merkit ok dó hann vánu bráðara. Litlu síðarr settiz "hann" á bein þeim manni er Sabellus hèt ok beit sárt, en hann sleit af sèr orminn ok drap hann. seá ormr var lítill; enn þó þar sem sárit hafði á komit þá dó fótleggrinn allr þar til er flaut í sundr vöðvinn ok leysti holdit allt af lærinu, ok á lítilli stundu bráðnaði hann allr í sundr svá at æigi mátti nokkurr sólarhiti jafnskjótt bræða snjó. Eptir þat var drepinn sá maðr er Nasidius hèt af þeim ormi er prester heitir, ok þegar hann fekk eitrið var hann svá rauðr sem blóð ok tók líkamr hans at þrútna svá at hringabrynja er hann var í rifnaði af honum ok enginn fugl nè dýr fèllu á líkam hans ok enginn maðr þurfti at veita honum gröft ok æigi þornaði hann meðan þeir sá. Tullus hèt maðr: hann leitaði marga vega at líkjaz Katoni. sá ormr beit hann er seps heitir ok þegar rann honum blóð um allar sveitaborur þar til er hann dó. Sá ormr er aspis hèt beit þann mann er Levus hèt ok dó hann þegar

---

3 Tirrhenia > tíro. 9 vaz = vatz. 12 "hann" * miserique in crure Sabelli Seps stetit exiguus, Lucan. IX 763-64. 13 Sabellus > Sabıllus. 19 Nasidius > nafıdus. 20 prester > p̄ſtes. 22, 23 enginn = engín. 24 Tullus > Turlo. 25 Katoni > katone. 26 seps * Impressit dentes haemorrhois aspera Tullo, Lucan. IX 806. 28 Levus > erlıbus.

svá sem hann sofnaði í hel. Sá ormr er jakulus hèt flaug svá snart sem af lásboga væri skotit ok laust undir kinnvanga þeim manni er Paulus hèt ok flaug ormrinn þegar í gegnum höfuðit ok út um vangann. Maðr hèt Maurus ok er eitrit kom í hönd honum ok hann sá at honum mundi æigi duga hjó hann af sèr höndina. Svá er sagt at hvar sem þeir lögðuz niðr stóðu sjaldan jafnmargir upp sakir eitrs þers er í jörðinni var ok orma þeira er neðan skriðu ór sandinum at þeim.

87. Frá náttúrum þeira þjóða er Psilli heita. Nú komu þeir um síðir til þeira þjóða er Psilli heita ok tók þá nökkut at ljetta hinum mesta háska. þersar þjóðir höfðu dýrðlig grös. þeir höfðu ok þá "naturu" at þá sakaði ekki eitrit, ok þeir kunnu þau kvæði ok galdra at eitrit lèt fyrir; ok svá mikil "nat^a" fylgdi þeim þjóðum at þótt litlu barni væri niðr kastat millum ormanna þá sakaði þat ekki, enn ef þeim var grunr at aðrir hefði komit á millum þeira þá lètu þeir orminn aspis at barninu ok ef barnit ljek at orminum þá vissu þeir at þeir áttu enn elligar veitti ormrinn barninu bana. þessi þjóð veitti mörgum mönnum hjálp við eitrinu. þeir fóro nú á mót Katoni þar er hann hafði sett herbúðir sínar í dal nokkurum. þeir reinsaðu dalinn ok ráku brott ormana: þeir gerðu elda stóra af þeim viðum er ebuli heita. margir menn í herinum váro mjök sjúkir af eitrinu. enn Psilli brugðu fyrst á ráka sínum þar sem eitrit var í komit ok nam þat þegar stað, eptir þat kváðu þeir yfir galdra sína ok gerðu menn svá heila; enn þar sem eitrit var fast í beinum sugu þeir brott ór ok sleiktu. enn stundum hræktu þeir í munn mönnum ok báðu þá niðr svelgja: ok með

4 Maurus < Murrus. 10 þeira þjóða er Psilli > Marıamrıde phılıppe. (Marıamrıde ɔ: Marmaridae). 11 Psilli > marıamrıde phılıppe. 22 Katoni > katone. 24 ebuli > ebule. 25 Psilli > phılıppı.

sinni kunnáttu ok góðvilja gátu þeir alla menn heila gert af eitrinu. Nú komu þeir um síðir framm á fagra völlu ok laufgaða skóga ok urðu því fegnir ok tóko hvíld um síðir. síðan komu þeir til "þr̄a píoda er lepres heíta" ok sátu þar um vetrinn. þar lýkr Lukanus at segja frá Katone ok hans mönnum ok tekr nú til at segja frá Julio ok hans fólki.

88. Hèr segir frá Julio ok hans ferðum. þá er Julius fór brott ór Emathia ok vildi leita eptir mági sínum ok siglir framm fyrir Frigiam þar sem Troia hafði staðit þá minntiz hann ástar við hina fyrri frændr sína ok vildi fara at seá þar sem turnarnir höfðu staðit. ok er hann kom í þann stað er Troia hafði verit ok sá herbúða staði Girkja gekk hann umkringis þar sem borgin hafði staðit. þar fann hann leiði margra tiginna manna ok hofa staði. þá kom hann i helli þann er Alexandr Parıs hafði í verit ok menn segja at Ganimedes sveinn hafi verit upp numinn til himna. þá fór Julius á hæð eina ok sá um allan staðinn ok spurði eptir þann mann er kunnigt var hvar leiði Ectoris væri. hann svaraði ‘hèr megut þèr seá hans líks ‘umbúnað ok mátt þú þar lesa eylíft lof er skáldin hafa ‘gert honum til lofs ok dýrðar. nu látit æigi öfund á ‘leika hans eylífri frægð — því at þú einn stýrir nú farsælu ‘manna, enn lof Ectoris man æigi niðr falla meðan bók ‘Omeri er uppi: þitt lof mun ok aldri niðr falla meðan ‘þær bækr ero uppi er segir frá þínum sigri, ok munut ‘þit þikkja ágjætastir ij af öllum’. síðan lèt Julius reisa alteri 516
eptir fornum sið ok bar þar seálfr reykelsi yfir til heiðrs sínum fyrrum frændum frammliðnum. síðan fór hann til skipa sinna ok sigldi framm fyrir Asiam ok lètti æigi fyrr en hann kom til Nilaróss í Egiptalandi ok lágu þar

4 "þra píeda er lepres heíta" ✻ Proxima Leptis erat, Lucan. IX 948. 8 Julio > Julíj. 10, 13 Troıa = troea.

um náttina. enn um morgininn sá þeir marga menn á ströndinni ok þóttuz æigi vita með hverju þeir fóro ok þí lèt Julius leggja skipunum upp í ána. Achillas gekk á bát við fá menn ok fór út til skipa ok gekk síðan fyrir Julium ok hafði leyniligha undir skikkju sinni höfuð Pompeius ok mælti ‘heyr þú hinn æzti höfðingi er sigrat ‘hefir allan heiminn ok því framarr at þú veiz. æigi at ‘veginn er Pompeius mágr þinn. hann kom higat ok vildi ‘samna liði í móti þèr enn mèr höfum vegit hann ok ‘keypt oss svá vináttu af yðr með hans blóði. tak nú ‘undir þik ríki Egiptalands með friði. þikkjumz ek mikit ‘verkkaup eiga af yðr at heimta er ek hefir drepit þenna ‘hinn grimma yðvarn mótstöðumann’. síðan brá hann höfðinu undan möttlinum ok tók af dúkinn; enn þat var þá úlíkt þí er sá bar er rækti, svá at varla mátti kenna. Julius sá um hríð á höfuðit ok kenndi: kom þá í skap honum bæði hörmung ok fagnaðr ok hrutu tárin um kinnr honum ok segir Lukanus at honum kjæmi meirr þat til at hann vildi engu launa þeim er drepit hann hefði. Julius mælti ‘ber á brott þersa gjöf frá váru augliti. nú höfum mèr ‘tapat hinni hæstu amban at gefa hjálp sigraðum. eðr hví ‘ertu svá kyndugr at þú ætlar nokkut gott af mèr at hafa ‘fyrir slíkt illvirki? ber aptr höfuðit til konungs þíns ok ‘seg honum at hann láti búa um með öllum veg ok sóma ‘ok samnit saman öllum hans beinum ok leggit í eina ‘steinþró ok berit þar yfir reykelsi. görir hann ok æigi ‘svá þá skal ek láta hann þers gjalda ok allt hans ríki. ‘vilda ek at Pompeius fyndi þat at mágr hans er til kominn ‘þó at mit bærim öngva gjefu til samþykkis’. eptir þat gekk Julius til hofs Isidis gyðju, en í þí hofi var fagrliga búit um leiði Alexandri Magni Girkjakonungs. Julius

---

3 Achillas = Akıllas. 7 veiz = veítz. 30 Isidis = ýſıdıs. hofi ∽ hrıfí.

fekk þá njósn af at kurr mikill var með Egiptalandsmönnum at þeim þótti illt at leggjaz undir Rómverja. hann hafði á sèr mikla vörðu ok var þó hinn kátasti. Ptolemeus konungr fór á fund hans ok fagnaði honum vel, ok þóttiz Julius nú öruggr er hann hafði konunginn í sínu valdi.

89. Frá Cleopatra ok Julio. capitulum. Systir Ptolemei konungs hèt Cleopatra, enn "lágus" konungr faðir þeira hafði gefit henne hálft ríkit með sèr ok fest hana Ptolemeo bróður sínum. enn af ráðum Achille ok Pothini er drepit höfðu Pompeium setti konungr hana í myrkvastofu ok vildi æigi eigha hana. ok er hón spyrr at Julius er þar kominn þá komz hón ór myrkvastofunni með fègjöfum ok fór á fund Julii ok bað hann styrkja sik til at hón næði ríki sínu. enn henni varð þat ekki torsótt, því at Julio rann þegar hugr til hennar ok lauk þí svá at Julius lagði hana í sæng hjá sèr, ok litlu síðarr kallaði hann til sín konunginn Ptolemeum ok sætti þau. eptir þat buðu þau Ptolemeus ok Cleopatra Julio til sín at þiggja veizlu. enn hann fór með mikilli fýsi. þar var allr konungsgarðrinn með hinum fegrstum fílsbeinum enn gólfit 517
ok strætin af hinum fríðasta marmara en veggir húsanna ok ræfr var prýtt með hinum dýrustum gimsteinum. þar var tjaldat allt með guðvef ok purpura. gráðurnar fyrir herbergjunum váro af þeim steinum er onichii heita. þjónostumenn váro þar með ýmissum háttum: sumir váro hvítir sem snjórr en sumir svartari enn jörð. ok alls kyns fegrð var þar sú sem seá mátti á jörðu, enn þó þótti Julio Cleopatra öllu fegri. þar brann hit dýrasta balsamum.

4 Ptolemeus > tholomeus. 7 Julio > Julíj. 7-8 Ptolemei > tholomei. 9 hálft > half. 10 Ptolemeo > tholomeo. Achille = akill'. Pothini > fotní ⌣ fotırí. 18 Ptolemeum > tholomeum. 19 Ptolemeus > tholomeus. 20 veizlu = veitzlu. 25 onichii (ɔ: onychii lapides) > onıchílı ⌣ omchílı. 29 öllu ∽ allv.

svá segir Lukanus at Julio þótti engis vert um allt þat fè er hann hafði áðr fengit í heiminum ok honum þótti skömm í er hann hafði bariz áðr með Pompeium mágh sinn fátækan ok æsti þá at úfriðr skyldi verða millum hans ok Egiptalandsmanna. Julius Cesar fór nú um kveldit at sofa mjök ölmóðr. hann lèt kalla til sín þann mann er Achoreus hèt. Julius spurði hann at himintungla gangi ok mörgum öðrum leyndum lutum ok mest at uppsprettu árinnar Nílar því at hann var vitr maðr, ok vöktu þeir mjök alla náttina.

90. Hèr segir frá svikræðum við Julium. Í þann tíma er Julius var at þersi veizlu bjó Pothinus vælar til at svíkja hann: sendir hann þá mann til Achillas vinar síns sem áðr hafði verit í svikræðum við Pompeium með honum. Achillas dvelr nú ok ekki ok dregr lið saman ok kom fjöldi Rómverja til liðs með honum ok varð þeim stirt at fylkja nýkomnu liði ok úkunnu er úvanir váro at vera höfðingjar heldr vándir knapar ok þeónostumenn annarra ok varð þeim af því seint til atgöngu enn myrkt af nátt ok biðu til morgins. enn er sól rann upp sá þeir Julius her fara at borginni mjök sundrdreift. Julio sýndiz litit traust at borgarveggjunum, gekk hann þá í konungshall ok byrgði hana aptr. hann hafði þá lítit lið um stundar sakir: fór hann þá í hús eitt lítit ok byrgði sik þar. ok sá hinn ríki ok hinn ágjæti Cesar er sèr lèt æigi nægja allt Rómaríki leitaði sèr nú skjóls í þetta hit litla hús er æigi saddiz áðr á hinu mesta ríki í heiminum. ok er Julius sá í hverjum nauðum hann var kominn tók hann höndum Ptolemeum konung ok hafði staðráðit at drepa hann ef hann sæi at hann kjæmiz æigi í brott ok hefna

7 Achoreus > akurus. 12 veizlu = ueítzlu. Pothinus > fotríus. 13. 15 Achillas = akıllas. Akıllas. 29 Ptolemeum > tholomeū.

sín seálfr áðr hann dœi. Julius sendir nú menn í mót herinum af hendi þeira beggja konunganna ok lèt spyrja hverr upphafsmaðr var þersa úfriðar. enn þeir Pothinus lètu þegar drepa sendimennina. síðan fóro þeir í borgina ok at þeim húsum er Julius var í. enn hamingjan veitti skjól Julio. eptir þat ljóp fjöldi manna á skip Julii ok ætlaðu svá at vinna konungsgarðinn. en hvar sem þeir leitaðu til þá kom Julius þar framm meðr meira styrk ok krapti enn mönnum mætti í hug koma: stundum varðiz hann með vápnum enn stundum með eldi; hann fekk sèr ok bik ok brennustein ok bar þar á þurran við ok skaut því loganda í skipin ok tóko þau þar af at brenna öll fyrir ofan sjó enn fólkit at falla. tók nú at slá loganum upp í hallina ok brann hvert hús at öðru; enn fólkit gekk brott í frá ok hugði at Julius mundi þar inni brenna, enn sú hall er hann var í var steinhvelfd ok gekk hvergi á. enn er myrkt var þá ljóp Julius út á skip ok heimti sik 518 með strauminum ok reykinum ór þrönginni ok kom svá til liðs síns. síðan lagði hann liði sínu út til eyjar þeirar er Faros heitir ok liggr í Nílarkvíslum. þar var í einn sterkr kastali ok vann Julius hann ok mátti hann síðan fara með sínu liði hvert er hann vildi upp eðr út með ánni enn úvinir hans máttu hvárki fara. Systir "hanſ" hèt Arsinoe. hón eggjaði þann mann er Ganimedes hèt at drepa Pothinum ok litlu síðarr drap hann Achillam enn hafði brott með sèr Arsinoe ór myrkvastofunni er hón hafði lengi í verit. síðan reisti hann bardaga í móti Julio ok veitti ymsum betr. enn sá varð hinn síðarsti at Ptolemeus flýði á skip eitt lítit ok mart manna með honum ok sökk skipit niðr ok allir þeir er á varo. enn lík kon-

---

3 Pothinus > fotıríus. 20 Faros > fárón. 23 "hanſ" < Ptolemei. 24 Arsinoe > aſenoe. 25 Pothinum > fotínū. Achillam = akıllam. 26 Arsinoe > aſenoe. 29 Ptolemeus > tholomeus.

ungsins kenndiz af því at hann var í þeiri brynju sem gör var af brenndu gulli. Ok hettir Lukanus hèr nú at segja frá þeim orrostom er Julius átti, ok hyggja menn at hann muni fyrr hafa andaðr verit en hann mætti sinni frásögn út koma.

91. Frá Julio ok Juba konungi. capitulum. Nú skal segja af þeim stórtíðindum er funduz í bókum Rómverja. þá er Julius hafði unnit allt Egiptaland· þá var hann í höfuðborg landsins er Alexandria heitir. hann gaf þá Cleopatre drottningu allt ríkit til forráða. síðan fór hann brott af Egiptalandi ok vestr í Africam. enn Juba konungr er ríki hafði í Africa dró her saman ok fór í mót honum, ok váro í liði með honum synir Pompeius Magnus ok Scipio er einn var ágjætastr af Rómaborgar höfðingjum ok mikill herr Rómverja, ok varð hin snarpasta orrosta ok mikit mannfall ok lauk með því at Julius fekk sigr enn Juba konungr hinn ríki kom á vald hans: í þersi orrosto fèll Gneius Pompeius ok Scipio ok mart Rómverja. en Sextus Pompeius flýði til Sikileyjar með þat lið er hann komz undan með.

92. Frá Julio ok hans fremðarverkum. Hinn ágjæti Kato var þenna tíma í Leptis. þar spurði hann at Juba konungr var sigraðr. þóttiz hann þá seá at ríki Julii mundi ganga um allan heiminn: en hann vildi með engu móti Julio þjóna ok var honum gefit eitr at drekka ok lèt hann svá líf sitt. eptir þessi tíðindi fór Julius með hinum mesta afla til Rómaborgar ok var þar tekit við honum með hinni mestu virðing ok var hann fyrstr einvaldshöfðingi yfir öllum heiminum ok af hans nafni var hverr einvaldshöfðingi kallaðr Cesar í Rómaborg ok hefir hann keisari verit iiij vetr ok vi mánaði enn þó sat hann

---

6 Julio > Julíj. 11 Africam = affrıcam. 12 Africa = affrıca. 14, 18 Scipio > ſippa. 21 Julio > Julíj. 22 Leptis > leptím.

æigi lengr í friði en hálft annat misseri. þat er sagt at Julius lèt gera steinstólpa einn undarliga háfan í Rómaborg af hinum bezta marmara ok var þar á skrifað nafn hans ok líkneski: þat undra menn ok með hverri væl sá steinn hefir reistr verit eðr hvárt einn er eðr fleiri, enn á steinvegginum hjá ero skrifuð ij vers er svá þýða á norrænu EF ÞETTA ER EINN STEINN SEG HVERSU REISTR ER, ENN EF FLEIRI ERO SEG þú HVAR SAMAN KOMA. á þersum misserum áðr enn Julius lètiz þá flaug elding svá nær steininum at hón laust af líkneskju Julii ok hinn fyrsta staf af nafni Cesaris ok mikit skarð ór steininum, ok er þar steinn í felldr. þat er ok sagt at litlu áðr enn Julius lètiz kom gnýr svá mikill í svefnherbergi hans at 519 allir þeir er inni váro hugðu at allt húsit mundi í sundr hrista, ok hljóp hann út ok allir hans menn.

93. Frá drápi Julii ok af spákonu. þá er Brutus hertogi sá sem brott komz ór Emathia sem fyrr var ritat sat í Rómaborg ok vildi fyrir hvern mun komaz at lífi Julii . . . í því ráði var með honum sá höfðingi er hèt Cassius. Julius var úvinsæll með höfðingja í Rómaborg því at hann var ósiðsamr ok braut þá undir sik. ok þar kom um síðir at þeir Brutus ok Kassius váro ráðnir at drepa hann. spákona ein kom at Julio ok sagði honum at hann mundi æigi lifa um framm þá kalendisdaga er þá stóðu yfir. enn þann síðarsta kal. skyldi vera fundr fjölmennr í þórshofi í Rómaborg því er þeir kölluðu Kapitolium ok fór Julius þangat með hinni mestu vegsemd ok sat í dýrðligri kerru. ok er hann kom mjök at hofinu kom maðr í mót honum ok fekk honum í hendr eitt bréf ok var læst ok bað hann lesa yfir skyndiliga, en hann gaf sèr æigi tóm til. ok er hann kom framm hjá torginu

---

20 Cassius > caſſus. úvinsæll > uínſæll. 22 Kassius > kaſſus. 28 hofinu = hofínú.

sá hann hvar spákonan sat. Julius mælti til hennar 'kerl'ing. nú ero liðnir mjök kalendisdagar ok lifir ek enn'. 'komnir ero' sagði hón 'enn liðnir æigi fyrr enn í morgin'. hann kom nú til hofsins ok gekk inn. síðan váro aptr byrgðar dyrrnar rammliga. þá gengu þeir Brutus ok Kassius at Julio ok særðu hann hálfan þriðja tög sára með rytningum ok lèt hann þar líf sitt. ok er líkit var stirðnað var höndin kropnat at brèfinu er honum hafði sent verit ok var lítt brotit innsiglit: enn þat var á at hann var varaðr við dauða sinn ok at fara i vald úvina sinna — enn þat var æigi á hverr sent hafði — því er höfðingjum skylt kallat at sjá skyndiliga yfir öll bréf þau er þeir virða sik með at taka. þat var síð dags er hofit var upp látit ok fólkit varð vart með. enn þeir Brutus ok Kassius fóro brott með skyndingu ok höfðingja ráði ór Rómaborg. lík Julii var síðan brennt, eptir fornum sið, vápn hans ok merki. enn askan var látin koma í eirknapp einn ok búit um dýrliga ok var knapprinn at sjá sem gull eitt. þersi umbúnaðr var settr upp á þann hinn háfa steinstólpa er áðr var frá sagt ok síðan heitir Petra Julii ok pílagrímar kalla Pètrsnál. Enn ef Lukanus hefði lifat þenna atburð þá mundi hann hefnt kalla Pompeius. Hinn næsta morgin eptir víg Julii sá menn ór borginni renna upp iij sólir í austri allar senn, ok er þær váro komnar millum austrs ok landsuðrs þá sóttu þær allar saman ok varð af ein sól miklu bjartari enn nokkurn tíma fyrr.

94. Frá Antonio ok Augusto Cesar. Antonius Markus hèt einn riddarahöfðingi sá er ríkastr var með Julio. hann dró lið saman ok vildi hans hefna. enn er höfðingjar urðu varir með þá fengu þeir til iii höfðingja at verja þá Brutum: hèt einn Hirtius, annarr Pansa. hinn þriði

5, 14 Kassius > kaſſus. 31 Hirtius > eiectus. Pansa > pínſa.

Augustus. systir Julii hèt "actía"; hennar dóttir hèt "octaua", hón var móðir Augusti, því var hann kallaðr Octavianus Augustus. þersir höfðingjar börðuz með Antonium í Rómaborg seálfri. í þersum bardaga fèllu þeir Hirtius ok Pansa. enn Augustus var einn yfir Rómverjaher. þar var við staddr sá höfðingi er Dolabella hèt. hann gekk í millum þeira ok sætti þá með þí at þeir skyldu vera báðir höfðingjar yfir allri Rómaborg ok fekk Antonius 520
systur Augusti. þat var skamma stund at þeir mætti báðir samt vera í Rómaborg ok skiptu þeir þá með sèr ríkinu ok skyldi annarr þeira hafa Róm ok allt fyrir norðan Girklandshaf enn annarr fyrir utan Jórsalahaf — Egiptaland ok Asiam ok öll þau ríki er Rómverjar höfðu unnit fyrir utan hafit: síðan var lutat ok laut Augustus Romam ok allt þat land er þar lá til enn Antonius fór út yfir hafit með konu sína ok herliði þí er hann hafði í þat ríki er hann hlaut. Lucius Antonius hèt maðr: hann var bróðir Antonii Marci ok var hinn mesti höfðingi: hann öfundaði mjök þat er Augustus hafði hlotit hit æzta sæti heimsins: hann fór með her at Augusto, en Augustus á móti ok þröngdi honum svá at enginn var annarr kostr enn ganga á vald Augusti. Antonius var á Egiptalandi er hann spurði þessi tíðindi. hann skildi þá með systur Augusti ok sendi hana með öngri virðing heim til bróður síns en fekk Cleopatre er verit hafði frilla Julii; þóttiz hann nú ok vita at Augusto mundi illa líka: fór hann nú út á Pul ok vildi leita sèr þangat trausts í þá borg er Brandeis heitir. en þeir váro þar fyrir Brutus ok Kassius: rèðuz þeir í lið með honum því at þeir náðu

---

1 "actía" < Atia (< Julia). "octaua" ◡ "octoua" < Octavia (< Atia). 2 Octavianus > octouíanus. 4 Hirtius > eıectus. 5 Pansa > Pínſa. 6 Dolabella > dodobella. 7 þí = þíȷ́. 17 Antonius > octauus. 18 Antonii > octoníȷ́. Marci ∽ martí. 21 enginn = engín. 28 þar > þ̅r. 29 Kassius > kaſſus.

æigi at vera í Rómaborg fyrir Augusto. eptir þat fór Augustus út yfir hafit at þeim enn þeir sneru í mót honum ok börðuz með hann í Emathia ok féllu þeir þar báðir Brutus ok Kassius enn Antonius flýði. eptir þat drógu þau Antonius ok Cleopatra drottning mikinn her saman um öll þau ríki er undir þeira valdi váro ok fóro annat sinn í mót Augusto ok funduz þeir í þí landi er Epirus heitir: þar heitir Actium strönd: ok varð hin snarpasta orrosta ok flýði Antonius enn Augustus vann sigr. ok litlu síðarr drap Antonius sik seálfr með eitri. enn eptir þat varð Augustus einvaldshöfðingi yfir öllum heiminum ok var kallaðr Augustus Cesar. nú bjóz Cleopatra af Egiptalandi ok ætlar á fund Augusti ok treystir á fegrð sína ok munuð hans, því at hann var allra manna fríðastr ok bar þat þó mest til hversu afbragðliga hann var eygðr: hann var manna kvennsamastr. hón sendi menn til hans ok vildi ná at tala með hann. en hann gjætti sín vandliga ok vildi hvárki sjá hana nè heyra. ok er hón þóttiz forsmáð í þessu þá fór hón aptr til Egiptalands ok lèt upp lúka steinþró Antonii ok settiz niðr hjá líkinu ok lèt orminn aspidem koma á brjóst sèr ok jafnskjótt beit hann hana til bana: síðan var aptr lokit steinþrónni sem áðr var.

95. Frá Augustus keisara. Enn er Augustus hafði eignaz auð þann er Antonius hafði saman dregit þá lèt hann brenna öll skuldabrèf Rómverja því at hann vildi at allir hans menn væri frealsir ok enginn ætti öðrum skuld at lúka: hann gallt af sínu fè hverjum manni sína skuld. hann bætti mjök Romam — fyrst í þí er hann lèt mörg herbergi ok hallir gera: hann lèt ok öll stræti val búa: hann efldi hana ok at veggjum ok vígskörðum umkringis:

---

4 Kassius > kaſſus. 7 Epirus > erpe. 8 Actium > actus. 16 kvennsamastr = kuenſamaztr. 27 enginn = engín.

hann talaði svá fyrir vinum sínum einn tíma 'leirborg 'vartu Roma enn ek tók þik, enn nú ertu af marmara 'nær sem mit skiljum'. Á hans dögum var hallæri svá mikit at mart fólk dó af sulti. enn Augustus var svá ástsamr við fólkit at hann lýsti þí at hann skyldi drekka eitr innan iij nátta heldr enn hann sæi svá mikla vesöld 521 fólksins. en innan þess tíma spratt upp brunnr með viðsmjör ór bergi einu svá nógliga at hverr mátti upp ausa slíkt sem vildi ok virðu Rómverjar svá at þat væri af miskunn keisarans. enn betr skildu menn virða at þat væri af guðs miskunn þeiri er varð á hans dögum þí at Jesús Christus var þá borinn í þenna heim. þat var einn dag er Augustus reið með liði sínu þá sá hann sólina miklu bjartari ok ágjætligri enn hón hafði fyrr verit enn um utan sá hann purpurligan hring með dýrðligri fegrð. hans menn sögðu at þat var af dýrð hans ok ágjæti er mönnum bar slíkt fyrir augu. 'víst þætti mér þat líkindi' sagði hann 'ef slík stórmerki birtiz á jörðinni at þat merkti 'mitt ríki því at ek em jarðligr. enn nú er á himninum 'birtiz þá ætla ek at nálgaz muni hıgat í heiminn sá hinn 'mikli konungr af himinríki er öllum lutum man vera 'ágjetari ok miskunnsamari, ok svá sem sólar geislar birta 'allan heiminn svá man hann ok birta ván þeira allra er 'hann elska, ok sá hinn purpurligi ringr man merkja þann 'dauða er hann tekr sakir mannanna ok svá sem enginn 'er endir á þeim fagra ring um sólina svá man ok vera 'endalaust hans ríki'. Augustus hefir verit mestr stjórnarmaðr allra Rómverjahöfðingja í fornum sið ok hann setti frið um allan heiminn þann er hvárki hefir slíkr verit áðr nè síðan ok af hans nafni hefir hverr sem einn Rómverjakeisari kallaðr verit Augustus enda er þat hit

---

2 enn ek ɔ: er ek. 5 þí = þıj́. 10 virða > vírdu. 25 enginn = engín.

æzta tignarnafn alls heimsins. Augustus var alls keisari vi vetr eðr vij hins sétta tigar. hann andaðiz í borg þeiri er Nola heitir: hón stendr í þí héraði er Kampania heitir. á öðru ári hins fjórða tigar hans ríkis var borinn á Jórsalalandi í "bethleem" af jungfrú sancta Maria drottninghu himins ok jarðar drottinn várr Jesús Christus skapari allra luta, ok er þat fróðra manna sögn ok áratala at þá væri liðit frá upphafi heimsins iij ok = = = = =. Ok lýkr þar nú Rómverja sögum.

---

3 Nola > accella ‿ attella. 4 fjórða < fimmta. 5 sancta Maria > ſc̄e marıe. 8 iij? lýkr = lýk̃.

# IX.

## ÚR RÓMVERJA SÖGUM.

---

### A.

orð Jugurtha sjálfs til hverir það hafa gört. en þó að svá væri gört þá semði yðr verr það en þæim er annan veg gjörði. en ef hann gefr sik upp mun hann yðr þá hlýðinn vera. en ef hann hafnar yðrum boðum munu þèr sjá hvelíkr þessi friðr er eða handganga: af þeiri handgöngu fær Jugurtha vítislæysi glæpanna en fáer höfðingjar það hið mikla fè ... en skömm ok skaðar á alþýðu rèttinum. eða þikkir þæim er dæma skolu æigi fulllengi þeira drottnon hafa verið yfer yðr? eða líka yðr þau lög eða rèttir betr en þesser, að ríkin ok hèruðin ok lögin ok dómarnir ok orrostornar ok friðrinn ok þar með aller guðligir lutir ok mannliger sè lagðir undir fá menn - eða sem nú er? en þèr Rómverjar er aldri hafið sigraðir verið af fjandmönnum heldr stýrt öllum þjóðum, er nú svá komið að yðr þikkir gott ef þèr megið halda lífinu? eða hverr yðar er sá er nú þori að forðaz undan þrælk-

---

10 mikla = mıkkla. 11 fulllengi = fullengı. 15 sè +. 19 sá er > ſa er | ſa er.

uninni? en þó að ek hyggi að sá Jugurtha enn glæpafullasti hafi enn vítislaust gjörz illvirkinn þá munda ek várkynna yðr ok þola yðra hrekkvísi, því at þér eruð várir borgarmenn, ef æigi sneriz þá sú miskunn í töpun bæði lýðsins ok laganna: ok svá mikinn örugglæik hafa þeir að gjöra illa vítislaust að æigi munu þeir af láta nema þæim sé bannað. en ef þeir skolu slíku fram fara vítislaust þá mun yðr fá langrar áhyggju ok munu þér skilja að annað hvárt mon vera verða að þér munuð gjöraz þrælar þeira eða rekaz mjök fast af höndum. þeir vilja drottna yðr en látiz vilja vera frjálsir. svá búa þeir að hina mestu vára fjandr gjöra þeir sína félaga. eða hvárt mun vera í svá mislyndum friðr eða vinfengi? fyrir því minni ek yðr á ok eggja ek á það að þér látið æigi lengr vítislaust slíkt vera. æigi er ærarium várt týnt eða brotið ok æigi eru menn ræntir hér innanborgar; en þó að slíkir lutir væri þunger þá virðiz það þegar er í venjo leggz; í enum aprasta várum fjandmanna er upp gefinn trúlæikr öldungasvæitarinnar, upp gefið ríkið várt ok, en falr látinn alþýðu réttrinn bæði hæima ok í hersýslonni. en hvað er það að gjöra allt vítislaust nema það að sá er konungr? eigi hvet ek yðr af því mjök að ek vilda heldr að það væri satt að ek hefða illa gört heldr en borgarmenn várir, heldr af því að æigi várkunnið þér vándum mönnum ill verk ok týnið af því góðum mönnum. en það styðr mest alþýðu lutinn að maðr muni lengr það er vel er gört en það er illa, því at "það er þa utekið að muna" þá letr það enn góða mann en dirfir enn illa. eigi þarf þá fulltingsins að krefja ef æigi eru mæingjörðirnar til.

—

9 annað = anað. 15 ærarium > ærrarū. 18 várum fjandmanna < várum fjandmanni ⌣ várra fjandmanna.

þessa luti talaði Gaius optliga eða þessum líka ok þess bæiddi hann að Lucius sá er pretor var í Rómaborg 2
færi eptir Jugurtha ok læiddi hann í Rómaborg í griðum þeira til þess að af hans sögn birtiz um Scaurum eða aðra þá hverir fè hefði tekið af honum. þá er þetta er tíðinda í Rómaborg þá var það í Numidia að þeir er eptir voru látnir með herinum af liði Calpurnii fylgðu siðum síns höfðingja ok gjörðu marga luti glæpsamliga: þeir voru sumir að gull tóku til að gefa aptr í hendr Jugurtha en sumir lètu laust svá að flýðu frá en sum svæitin rænti þá er í friðinum skyldi vera; svá mikið afl ágirninnar rann í hug þæim sem skæð drepsótt. En Cassius pretor eptir þá tölu er Gaius Memmius hafði eggjað hann — fór hann í Numidia ok mjög móti skapi þæim mútumönnum ok kom til fundar við Jugurtha ok telr fyrir honum að hann skal sik upp gefa að sönnu á vald Rómverja. Jugurtha varð við þetta óttafullr ok hugsaði um verk sín ok ifaði hvernig fara mundi. Cassius bað hann hræða æigi ferðina ok kvað honum betra að ræyna miskunn Rómverja en afla þeira ok sagði að öll alþýða í Rómaborg hafði sína trú til gefið 'að þú skalt í 'griðum fara. ek sel þèr ok þar til mína trú er sumum 'mun æigi þikkja verð minna en alþýðu trú' svá var Cassius frægr í þenna tíma.

2. *Frá Rómverjum ok Jugurtha.* Nú ferr Jugurtha með Cassio til Rómaborgar ok býz þvers í mót konungligri tign ok sem fátækligaz ok æigi að síðr var enn stærri hugrinn í honum. hann styrkti það mjög að hann vænti enn liðsemdar af þæim er varið höfðu sakarnar fyrir hann þá er hann var hvergi nær ok í þeira trausti hafði hann slíkt gört. nú kaupir hann miklu fè liðsemd

---

1 líka +. 7 voru látnir > uoru latn̄ voru. 8 ok +. luti +. 13, 24 Cassius > Caſſıor. 31 miklu = mıcklu.

Gaii Memmii að hann skal veita honum fullting móti öllum sökum. en er þeir koma í Romam þá stefnir þing Gaius Memmius ok þar komu aller öldungar ok allr lýðr; ok er öll alþýðan ræið Jugurtha: sum svæitin vill láta binda hann en sumir vilja láta kvelja hann, nema hann segi þegar hverir fè hafa tekið af honum til liðvæizlu eða í ráðum verið um hans illræði; en Gaius Memmius vill mæirr láta gjöra eptir tign Rómverja að þeir haldi orð sín en að æði lýðsins 'ok mýkjum svá hugi þeira' ok biðr æigi spilla alþýðu trú er honum var seld. en síðan er Gaius Memmius lèt fram læiða Jugurtha ok hljóðs var kvatt minnti hann á fám orðum um verk hans þau er hann hafði gört bæði þar í Rómaborg um fègjafarnar ok það er hann gjörði í Numidia ok svá það er hann hafði gört við fóstrföður sinn ok hans sonu ok biðr hann skýra hverir honum hafa tèð eða þjónað af þessum: þó að Rómaborgarlýðr þikkiz skilja hverir þetta hafa gört þá vilja þeir þó að hann segi berum orðum hverir þeir eru, ok ef hann seger satt þá telr hann honum vera ván miskunnar fyrir trú ok mildi höfðingja, en ef hann þeger við þá er æingi ván hjálpar þæim vinunum er hann læynir ok sakbitnir eru ok æigi honum sjálfum ok öngum hans
3 manna. en er Gaius Memmius þagnar þá stendr upp Gaius Bebius höfðingi lýðsins ok bað konung þegja ok svá þótt allr múgrinn sá er á þinginu var gæysiz að honum með ákafligu kalli eða bendi andlitinu svá sem þeir eru vanir af ræiðinni þá er um slíkt er að kæra. ok svá gjörði konungr. ok enn á þessu þingi urðu þeir ríkari er rangara mæltu ok vörðu sakarnar: svá varð lýðrinn að háði fyrir þæim sem nú var sagt, en styrkðuz hugir Jugurthe ok Calpurnio ok öðrum þeira svæitungum.

---

1 Memmii < Bebii. 23 Memmius > Mem'. 24 Bebius > bēbı' (ɔ: Bembius). 25 múgrinn = mugrın.

3. *Frá Massiva.* Í þenna tíma var í Rómaborg æinn númverskr maðr sá er Massiva hèt, son Gulusse, sonar Masinissa konungs. hann hafði verið með Adherbal ok komiz undan í Cirta þá er konungr fèll ok farið síðan til Rómverja ok var þar vel haldinn. fyrir honum telr Spurius Albinus sá er á hinu næsta ári var hertuginn eptir Calpurnium með Quinto Minucio Rufo að hann skyli bæiða öldunga ríkissins í Numidia því at hann er kominn til ríkissins ok biðja að Jugurtha sè af dæmdr ríkinu fyrir glæpi sína. því talar hann þetta að hann er nú consul ok gjarn að ræna sik í orrosto ok honum hafði til handa hlotiz að vinna Numidiam en Minucio að vinna Macedoniam. nú gjörir Massiva sem hann var beðinn ok hrærir þetta mál ok vill æigi svá búið hafa — — — ok fær æigi traust til þessa af vinunum því at suma grunaði að ærnu væri áðr að svara en sumir hrædduz orðróminn þann er á mundi leggjaz en sumir þorðu fyrir öngan mun að gjöra ok því bauð hann Bomilcari hinum mesta trúnaðarvin sínum að gjöra þetta verk ok hèt honum til enn miklu fè ok biðr hann nú halda njósnir um Massivam að sem læniligaz yrði þetta gört svá að Jugurtha yrði æigi berr ok leitaz fyrir sem mest þót nokkuru yrði sæinna gört. nú læitar Bomilcar að gjöra þetta bragð sem fyrst ok fær til slægja menn. þá er til slíks voru vel fallnir, að njósna um vegu hans ok göngur ok ætla til stundir ok staði hvenær þeir mætti að honum ganga. ok er til var gildrað ok í færi komið þá ljóp framm æinn þeira fèlaga úvarliga ok drap Massivam. þessi varð handtekinn ok var læiddr þegar fyrir consulem Albinum. hann spyrr hvi hann gjörði þetta. hann segir allt það er hann væit,

1 *Massiva* > *Maſſiue.* 2 númverskr > romuͦſkr. Gulusse ∽ gulhſſe. 3 Masinissa > maſſınıſſa. Adherbal > athbal. 4 Cirta ∽ Cırca. 18 Bomilcari > bolmıcare. 20 miklu = mıcklu. 23 Bomilcar > bolmıcar. 25 ætla '> ætlı.

ok kennir Bomilcari. ok fyrir þetta var dæmðr Bomilcar útlægr ok mæirr að rèttendum ok jafndæmi en eptir siðvenju annarra þjóða því at Bomilcar hafði komið sem aðrir Jugurtha menn á trú þeira Rómverja. en er Jugurtha var berr vorðinn í þessum glæp þá stóð hann að móti æigi að síðr hinu sanna þangað til djarfliga er hann fann að öll vinátta ok trúnaðr ok fègjafar er hann hafði átt við þá — sneriz allt það til öfundar við hann af alþýðunni. en í enni fyrri handgöngu Jugurtha hafði hann gefið sínum vinum fimm tigu gísla ok sýndiz nú svá sem hann hefði það mæirr ráðit í hag ríkinu heldr en gíslunum ok þegar skaut hann Bomilcare á braut á laun í Numidiam því at hann uggði ef þessi væri kvaliðr eða
4 drepinn að það mundi letja aðra at gjöra þvílík verk að sínu boði. en fám dögum síðarr fór Jugurtha til Numidiam því at öldungasvæitin bauð honum að fara sem skjótaz ór griðum sínum. ok þá er Jugurtha gekk út af Roma segja menn að hann liti opt aptr til borgarinnar þegjandi ok mælti að lyktum 'sè hèr nú borg fala þá er skjótt mun 'fyrir faraz ef hón finnr kaupara sinn'. Albinus Spurius býr nú herinn sem skjotaz. flytr að sèr þungann ok aðra atvinnu þá er riddararnir þurftu ok ferr í Africam sem skjótaz; því at hann vill hafa unnið sigrinn áðr skiptingardagarnir væri komnir — drepið Jugurtham eða handtekið eða að þriðja kosti gefi hann sik upp. en þar að móti tók Jugurtha að gjöra sín ráð ok sendir boð Albino að hann þarf æigi herja landit ok bregðr á það að hann muni á hönd ganga eða stundum að hann muni undan flýja ok hann hræðiz ok enn stundum býr hann her sinn til að berjaz. svá dvelr hann stundina fyrir Albino að hann

---

1 Bomilcari > bolmıcare. 1, 3 Bomilcar > bolmıcar. 10 sínum < af sínum. fimm tigu = fım tıgu ⌣ fımtıgu. 12 Bomilcare > bolmıcare. 19 skjótt = ſkıot. 20 Spurius > ſpẏrı'. 22 Africam = affrıcā.

þikkiz æigi vita við hváru búaz skal, friði eða orrostu, ok svá læikr Jugurtha hann. ‘váru þeir menn í váru liði’ segir Salustius ‘er það sögðu að Albinus mundi vita ráð ‘með Jugurtha ok fundu það til að æigi mundi orrostan ‘svá lengi frestaz ella’. en er stundinni læið fram svá að nálguðuz skiptingardagar þá ferr Albinus til Rómaborgar svá sem skulda bar honum til en setr eptir yfir herinn til stjórnar Aulum bróður sinn.

4. *Capitulum.* En í Rómaborg hófz í þenna tíma dæila með höfðingjunum um það hverir consules skyldu vera. Publius Lucullus ok Lucius Annius höfðingjar lýðsins kostoðu sem mest að enir sömu væri ok stóðu móti félögum sínum um þetta mál: ok þetta sundrþykki stöðvaði kosninginn svá að öngir voru kosnir á þæim misserum. af þessi dvöl þóttiz Aulus æiga mundu nökkura von tignar, sá er í Africa var með herinn, ok fyrir þí herðir hann sik að með herinn svá að hann ætlar nú að berjaz við konunginn eða elta hann ór ríkinu ok taka svá féhirzlur hans. ok í Januario mánaði kallar hann herinn ór vetrvistunum ok býr til orrosto ok ferr langar læiðir ok torvelligar að snörpum vetrinum ok kom til kastala þess er Suthul hæitir er konungr á ok þar eru varðvæittar hinar stærstu féhirzlur hans. en kastalinn var svá settr að af grundvellinum staðarins mátti hann æigi vinna ok æigi um hann sitja af grimmlæik — — — því at stæinveggrinn var settr á hátt fjall utanvert ok þar um utan var læirslétta ok full af vetrligum vötnum ok voru orðin mikil dý. nú gjörði Aulus flaka ok kastala hjá borginni eptir þí sem þeir voru vanir þá er þeir unnu borgir. en er Jugurtha sá að það var æinskis vert er Aulus görði af úkænsku ok af hégóma þá sendi hann

7 herinn = h̄in. 11 Lucullus > ˙lucıllus. 16 Africa = affrıca. 19, 23 fèhirzlur = fe hırðzlur. 24 að +. 25 — — — > ok æıgı um hann sıtıa.

honum orð mjök með slægð ok spotti ok lèt sem hann mundi heldr upp gefaz en Aulus færi þessu fram lengr ok svá sem hann tryði að kastalinn mundi unninn verða ok sendi opt menn til með þvílíkum orðum: en konungrinn lèt sem hann óttaðiz mjög ok fór með her sinn læynistigu ok um skóga sem hann vildi forðaz hans fund. en af þessu trúði Aulus að konungrinn vildi sættaz. þá sendi Jugurtha orð Aulo: bað hann fara frá kastala ok sækja eptir honum í læyniheruð nökkur svá sem hann vildi elta hann: skyldu þeir finnaz þar að sættargjörðinni, mundi þá færi menn vita hvað þeir rèði. nú sender Jugurtha dag ok nótt slægja menn sína að fræista Rómverja með fègjöfum, hundraðshöfðingja eða svæitarhöfðingja, ok biðr þá ef orrostan verðr að berjaz æigi móti honum eða flýja fyrstir en sumir skyldu þegar flýja ór sínum stöðum er þeir hæyrði — — —. en síðan er þessar vèlar voru allar búnar þá er það á æinni nótt að Jugurtha kemr váveifliga með mikinn fjölða hers ok sækir öllum megin að herbúðum Auli. en rómverskir riddarar óttaz þenna þys er kom að þæim óvörum: vápnaz sumir en sumir flýja en sum svæitin eggjar þá er hræddnz, en flestir óttaz því at mikill afli var kominn fjandmanna en nótt ok ský um allan himin ok var fyrir því úsýnt hvern upp skyldi taka því at óvíst þótti hvárt öruggra var að flýja eða viðr taka. en af þæim svæitum er fèið höfðu tekið þá hljóp til Jugurtha v hundruð riddarar þeirar þjóðar er Ligures hæita en tvennir flokkar þeirar þjóðar er Thraces hæitir; hundraðshöfðingi hins fyrsta merkis ennar þriðju fylkingar sá er tekið hafði sèr varnarstað gaf upp staðinn ok lèði þæim Jugurthamönnum. nú hlaupa Numide á þá ok í herbúðirnar sem harðaz. en Rómverjar flýja fúlum

---

4 til < til hans. 13 hundradshöfðingja > hvndraðſ havfðing|ıv̄. 25 viðr < viðr að. 27 Ligures > lıgurı. Thraces > traceū. 29 varnarstað > uarnad ſtað.

flótta en sumir kasta vápnunum: þeir hlaupa á fjallsháls nökkurn. en fyrir því að myrkt var ok því öðru að herrinn slóz að ræna herbúðirnar varð minna mannfallið ok verr rekinn flóttinn ok minni sigrinn. en um daginn eptir stefndi Jugurtha Aulo fund ok æinmæli ok sagði honum svá ‘nú held ek þèr ok þínum her hèr matlausum ok ‘luktum inni með várum vápnuðum her. en æigi að síðr ‘þó að vèr æigim nú alls kosti við yðr vil ek gjöra ‘mannliga ok þèr skoluð grið hafa: ef þèr vilið sætt við ‘mík þá skolu þèr ganga aller alhæilir undan ok það með ‘að þèr skoluð aller braut farnir ór Numidia áðr liðnir sè ‘x dagar’. en þó að þesser lutir væri þungir ok skammsamligir þá gekk svá að hræzla dauðans að konungr varð æinn að ráða sættinni.

5. Harmr Rómverja. En er þetta spurðiz í Rómaborg þá rann ótti á allan borgarlýðinn: sum svæitin harmaði svívirðing ríkissins en sum svæitin það er nú spurðiz flótti til Rómverja er aldri fyrr var vant en aller óttuðuz um sitt frelsi: aller voru ræiðir Aulo, ok mest þeir er snarpastir voru, er hann hafði gengið vápnaðr til sættar með svá mikilli skömm — læitað svá lífsbjargar en variz æigi með drengskap. Albinus lèt sèr mikið þikkja að skömm bróður síns, hræddiz öfund ok háska 6 ok fór til fundar við senatum ok spurði þá hvárt nú skal friðr við Jugurtham ok sjá sætt haldaz. en senatus sagði sem rètt var ok dæmði það að ængi sætt mætti haldaz utan þeira ráð. en nú í stað lætr Albinus skrá herinn, hvè mart fara skal af borginni eða af hèruðum, ok hæimta að sèr öll fullting hersins ok skyndir sem mest: nú vilja höfðingjar lýðsins að hann hafi ekki svá mikinn fjölða sem skráð er — fari heldr sem hvatligaz: ok fám dögum

3 slóź < slóz í. 4 sigrinn ∽ ſegrn̄. 9 mannliga = manlıga. 10 undan ok < undir ok, ok. 12-13 skammsamligir = ſkamſamlıg̃. 29 hersins > h̃ſın.

síðar kemr hann í Africam. en allr herrinn var í provincia í vetrvistum, farinn ór Numidia. en er Albinus kemr þar ok hann kannar siðu hersins þá finnz það að mjök er spillt hugrekki riddaranna: þeir hafa vorðit forflótta ok margir hallaz eptir fègjöfum Jugurtha en tekið upp sællifi í kyrrsetunni mæira en siðvenja hafi til verið. en þó að hann væri gjarn að vinna Jugurtham ok hefna bróður síns þá þikkiz hann æigi til færr að halda orrostonum með þæim her ok sat um kyrrt.

6. Tala Mamilii. Mamilius Limetanus hèt æinn höfðingi lýðsins í Rómaborg sá er þetta talaði fyrir lýðnum á æinu móti að þeir skyldi eptir læita af hverra ráðum Jugurtha konungr hefði hafnað boðorðum öldunga eða enn hverir fè hefði tekið af honum í sendiförum eða í ríkjunum eða hverir fílana seldi eða hverir eltaz lèti frá fílunum ok gefiz svá upp eða hverir sættirnar hefði gört í friðinum eða hverir undan hefði skoriz í orrostonni. þessi spurningu varð sæint svarað því at margar svæitir kenndu mark sitt á: hrædduz sumir háska hegninganna ef upp kæmi en þeir máttu æigi berliga synja að æigi hefði þeir samþykkz þvílíkum lutum sem þar voru talðir. nú urðu margir þá óttafuller af spurningu Mamilii. þá voru spurðir þrír menn að hvárt Marcus Skaurus hefði tekið fè, er fór með Calpurnio, ok skyldu þeir ór skera hvárt hann væri í þessi tölu eða æigi: því at borgarmenn várir ógleðjaz af flótta sumra en af kæti sumra. en þá er þessu vandmæli var fram haldit þá varð þetta með mikilli eptirgöngu lýðsins framið af þæim orðrómi er á hefði læikið sem opt kann verða þá er óvenja leggz á tiginna manna svæitina en lýðrinn þikkiz vera saklauss

---

1 Africam = affrıcam. herrinn = h̃rın. 2 vetrvistum > ueſtr vıſtū. 7 bróður = brroður. 10 Mamilii. Mamilius Limetanus > mamıllı amılıuſ lımıtan'. 13 öldunga = avlld'. 21 samþykkz = ſamþýktz. 22 Mamilii > mamıllı.

að venja svæitarhöfðingja hafði spillz ok slægð öldunganna hafði vaxið með illum atferðum fám vetrum fyrr en þetta væri af hóglífi ok af gnótt auðsins. því at áðr en unnin væri Carthago hin mikla þá hafði með höndum Rómaborgarlýðr stilliliga ok hógværliga alþýðuréttinn: æigi var þá kapp milli borgarmanna um metorðin eða forráðit því at ótti af óvinunum hélt þá borgina í góðum siðum. en síðan er óttinn hvarf braut frá mönnum þá kom eptir í staðinn eptirlæti ok metnaðrinn, þeir lutir er mennirnir elska mjög; en þá hvíldina er þeir höfðu mjög langað til meðan ófriðrinn var þá þágu þeir svá þá er þeir fengu að þá öfunduðuz þeir ok dæildu sjálfir. en síðan er tiginna 7
manna svæitin tók metorðin en borgarlýðrinn frelsið þá sneru þeir hvárutveggja í eptirlætið: dró hverr til sín það er mátti ok svá dróguz öll skiptin í tvá staði, en réttrinn landfólksins ok annarrar alþýðunnar er jafn ætti að vera varð skaddr ok skerðr, en lýðrinn svárkaði jafnan í hersýslunni af sínu fangalæysi; þá sótti ok hverr að sinn frænda eða tengðamann að koma sèr fram í virðingar þó að upp risi fyrir þæim riddarasynir eða aðrir þeir er hafa áttu; svá fór of ríkið tiginna manna með ágirninni að það var með öngum hætti nè stillingu. en þá er nökkurir funduz af enum tignum mönnum þeir er mæira virðu sanna mannkosti röngum metnaði þá tók að græinaz borgarlýðrinn til sundrþykkis ok þaðan af gjörðiz úfriðr í ríkinu. en enir tignu menn þeir er fyrir urðu ámælinu ræidduz mjög ok læituðu sèr fulltings við frændr sína ok vini ok Rómaborgar riddara ok þá er þeir mætti frá spenja alþýðunni: væittu þá svá berliga mótgöngu að þeir drápu Tiberium fyrst en fám vetrum síðar Marcum

1 öldunganna = avlldung'. 3 væri > uær. 4 Carthago = Cartago. mikla = mıckla. 13 borgarlýðrinn = borgar lýðrın. 18 af sínu > af ſınu af ſınu.

Fulvium Flaccum ok Gaium Gracchum. þeira ættir er Gracchi eru kallaðar hefndu þessa með manndrápum á tignum mönnum, ok "hvar⁷ a avðrū. gıorðu ſtor ŭk": voru sumir drepnir en sumir brott reknir. en hæilligra hefði verið að þola mæingjörðina en að hefna illa ills. en mæirr jókz tiginna manna svæitinni af þessu ótti en frami ríkissins því at sjá úfriðr týndi mörgum stórborgum fyrir oss þá er vèr keppðumz um að láta aðra sigra en ena sigruðu hefna sín. en ef ek vilda segja frá öllum borgum þæim þá mundi mik fyrr stundin þrjóta en efni.

7. Metellus gjörr consul. Eptir sættargjörð Auli ok flóttann hers várs (segir Salustius) þá var Metellus ok Silanus gjörvir consules ok hlutuðu hèruð milli sín. Metellus hlaut að sækja Numidiam, harðr maðr. en þó að hann væri æigi vinr sumra svæita lýðsins þá var hann þó með rèttri frægð ok sannri. en síðan er hann gekk til þessar tignar þá var hann linr ok samþykkr fèlagsmanni sínum Silano, en þó lagði hann mesta áhyggju til um herferð sína. hann tortryggði mjög enn forna her þann er fyrir var í Afrika ok tók því að skrá ok velja riddara ok til að hæimta hvaðan æfa ok lèt búa vápn ok allan herskap þann er þurfti í hersýslonni ok þar með atvinnu gnógliga þótt til langrar herferðar þurfti. en að gjöra þessa luti voro til hæimt fullting, að ráði öldunganna, bæði lögunautanna ok alls um Italia; en konungar sendu sjálfkrafa sinn styrk. ok fór Metellus að ráði öldunga ok allt var þetta búið í Numidia ok vettu aller borgarmenn góðs að um hans ferð fyrir sakar allra góðra íþrótta hans ok allra

---

1 Gracchum = graccū. ættir > ætt. Gracchi > graccıȷ. 2 manndrápum = mandrapū. 4 hæilligra = hæılıgra. 8 aðra > aðra aðra. 12 flóttann = flottan. 13 Silanus > ſıllan'. gjörvir = gıorſ'. 18 Silano > ſıllano. 20 Afrika = affrıka. 22 þurfti > þ́uſtı. 24 öldunganna = avlldung'. 26 öldunga = avlld'.

mest fyrir því að hann hafði ekki ræynz að fégirni svá að mannlestir fylgði því at hèr til hafði í Numidia þorrið auðæfi af ágirni höfðingjanna en aukið fjandmönnum. en er hann kom í Africa þá selr Spurius Albinus honum í S hönd herinn, úkjænan ok úvígligan ok úþolinn við háskann ok erfiði, þann er djarfari var í tungu en í höndum, rænti förunautana ok var sjálfr ránfang fjandmannanna, ústilltr að klæðabúningi: mæirr var höfðingjunum af þessum riddorum ok af þeira illum siðum annstyggð en honum væri liðsemðar vón af þeira fjölmenni. nú gjörði Metellus það í hug sèr að þó að stundin tæki að skemmaz of sumarið til skiptingardaganna þá vildi hann þó heldr bíða orrostu ok semja riddara með erfiðum svá sem siðvenja hafði til verið enna fyrri höfðingja ok ætlaði að svá mundu hvessaz hugir þeira. en er Albinus kom í Numidia ok spurði úfarar hersins ok skömm bróður síns þá ætlaði hann ok um sumarið að temja herinn ok berjaz æigi, hèlt saman liðinu í herbúðum en færði þá að æins herbúðir er æigi mætti annan veg vera fyrir vista sakir: æigi lèt hann vökur halda eptir "ſiðueni" eða ganga undir merkjum — lèt gjöra hvern sem vildi. leikarar ok trúðar voru margir í þessum her: þeir fóru of nætr ok daga að skemmta sèr; en þorparalýðrinn sá er í herinum var þá spillti hann ökrum manna eða fór í þorp ok rænti menn búfè eða mansmönnum ok keppðuz um slíkt en seldu það kaupmönnum, kæyptu vín eða annað þvílíkt: þeir seldu ok hvæiti, tóko "ſot" brauð, ok allt var það gört í várum her er ferlikt er það er segja má. en Metellus var æigi úkænni í því að koma af herinum þessum úvenjum heldr en í orrosto sjálfri. hann var með svá mikilli stillingu að hann stillti ágirnina ok grimmlæikinn til hófs. það gjörði

4 Africa = affrıca. 20 "ſıðuenı" (✱ leti: latr, -semi: -samr) < siðvenju. 27 "ſot" < sótt (ɔ: sætt)? 31 grimmlæikinn = grımlæıkın̄.

hann hið fyrsta boðorð að af skyldi takaz í herinum allar stuðningar letinnar: æingi skyldi selja í herinum bakað brauð eða soðinn mat ok æigi skyldu vera í herinum trúðar né læikarar ok æingi þorparinn skyldi hafa æyk né þjónostumann hvárki í herbúðunum né í fylkingunni. en öðrum setr hann slíkan hátt sem hann vildi. hvern dag flutti hann herinn álæiðis. hvern aptan lèt hann díki grafa umhverfis herbúðir eða stundum virki gjöra svá sem úvinir væri ávallt hjá þæim. hann lèt í sífellu náttvökur halda ok fór opt sjálfr of nætr að skynja vörðinn. þeir fóru ávallt með fylktu liði: var Metellus stundum í öndverðri fylkingu stundum í miðri stundum í ofanverðri stundum hèr ok hvar ok skynjaði of hvern hvárt hann væri í stað eða undir sínu merki því at með merkjum var optaz gengið. riddararner báru sjálfir vistina ok vápnin. ok skjótt stöðvaði hann svá ókynni hersins, með erfiðum en æigi með refsingum, að herrinn styrktiz ok stilltiz.

8. Unninn kastali af Metello. En er Jugurtha spurði af njósnum sínum hvað Metellus hafðiz að ok vissi Jugurtha þá er hann var í Rómaborg að Metellus var góðr maðr ok grandalauss ... nú óttaðiz hann um sinn lut ok nú hið fyrsta var það að hann vildi upp gefaz með sönnu ok sendir til Metellum með þarflátum orðum að þeir biði honum að æins lífs ok sonum hans en aðra luti alla leggr
9 hann á hans vald. en Metello var áðr kunnikt að sögn ok að raun skaplyndi Numidiemanna að þeir voru lausgeðir ok gjarnir nýlundunnar: nú talar hann við sendimennina annan að öðrum með æinmæli ok stundum fræistar hann þeira með fèboðum þá er honum gaf færi á ok telr fyrir þæim með hæitum marga luti er hann finnr að þeir taka þessu æigi illa að þeir komi Jugurtha á hans vald lifanda en heldr dauðum en æigi — en segja það konungi

5 í herbúðunum > h'buðunū.

að hann mun fá sættir sem hann sendi orð til. fám dögum síðarr fór Metellus með herinn óðan ok ræiðan í Numidiam. þá var þar fyrir annarr háttr en títt er þá er hers er vón: þar voru menn í smáhúsum ok í ökrum ok í annarri sýslu ok var hèraðit fullt allt af mönnum ok fènaði. af kastölum ok svá af smábæjum fóru hertogar konungs ok aðrir menn mót honum ok færðu honum hvæiti ok aðra vist ok síðan buðu þeir honum alla sína þjónostu. ok æigi að síðr fór Metellus varliga ok svá gekk hann með fylktu liði um hèraðit sem ófriðrinn væri víss hjá, lèt bera njósnina langt frá sèr alla vega ok þótti þetta hræsnimark æitt en æigi trúlig handganga ok fór um hvern stað með varúð. Metellus var í miðri fylking ok þar með honum valið svæit fótgangandi manna ok enn bogmenn ok þeir er slöngur höfðu. en Gaius Marius var með riddarasvæitum í síðurstum ferðum. en á hliðarnar skipaði hann höfðingjum flokkanna ok hertogonum ok riddara svæitunum ok enn þæim fótgangandi mönnum er hæita velites: þeir voru mjög fóthvatir ok skyldu fylgja fram riddaraherinum til liðvæizlu þæim. en með Jugurtha var svá mikil slægð að æingi vissi við hverju hann bjóz, hvárt hann mundi vilja tryggr vera til friðarins eða mundi hann vilja ræyndar orrosto, ok æigi vissu þæir hvárt þæim var skaðsamara: honum voru staðirnir aller kunnir enda var hann hinn kjænsti í orrosto — vissu þeir æigi hvárt hann var þæim hættari þá er hann var nær eða fjarri. æigi langt frá götu þeiri er Metellus fór með herinn var kastali sá er Vaga hæitir: þetta er hinn fjölmennsti kaupstaðr í ríki Numidarum manna ok þangað sækja kaupmenn af mörgum löndum ok mjög af Italia. þangað vill Metellus fara ok fræista ef hann fái kastalann ok þikkir þar gott að setja í sína menn því

11 væri > uari. 28 Vaga > úaka. 32 fái < fái unnið.

at það er höfuðstaðr í landinu. hann fær unnið staðinn ok lætr þangað flytja til hvæiti ok aðra luti þá er herrinn þarf ok ætlaði sem var að það var styrkr mikill honum er þangað sótti fjölmennt af mörgum löndum ok flutti þangað mörg gjæði. en er þetta var gört þá sendi Jugurtha enn nauzynliga orð ok bað þarfliga sér lífs ok sonum sínum ok bauð alla luti aðra upp að gefa í hans vald. en Metellus fræistaði þessa sendimanna með fégjöfum ok fortölum að blekkja sem hina fyrri að þeir skyldu svikja Jugurtham ok bað þá aptr fara til konungs ok segja að Metellus vill æigi næita handgöngu hans ok æigi hæita friði meðan hann væit æigi sannindi um orðsending Jugurtha ok herjar ekki í ríkinu. Jugurtha finnr að Metellus setr orð sín eptir verkunum varliga ok vitrliga ok það að hann er nú bæittr vélum sjálfs síns því at honum er boðinn friðrinn í orði en hann grunar hvárt svá er en nú mun snörp orrosta fyrir hendi ok hann sér að æigi má nú dvelja fyrir því að hin bezta borg hans er nú tekin ok það að fjandmönnum er nú kunnikt landit en hugir lýðsins snúnir af fégjöfum. nú tekr hann að njósna um ferðina ok vegu Metelli ok þikkir nökkur von sér sigrs af landsleginu því er fyrir er ok samnar hann að sér her sem mestum hvaðan æfa allra kynja ok ferr á læynistigu nökkura á veginn fyrir her Metelli.

9. *Viðrbúnaðr Jugurtha.* Í þæim luta landsins er Adherbal hafði átt sprettr upp á sú í suðrætt er Muthul hæitir. xx mílur frá ánni var fjall mikið en sléttur þar í milli. fjallið var mikið ok óbyggt. af miðju fjallinu gengr fram háls mjög hár: hann er vaxinn smáviði — oleastro ok mirtetis ok enn annars konar viðum þæim er vaxa á þurri jörðu þar sem sendit er. en sléttarnar millum fjallsins

---

20 hugir > hugr. 26 Adherbal > atherbal. Muthul > moluca. 29 mjög > mıag. 30 mirtetis > nurteıſ.

ok árinnar eru vatnlausar nema í nánd: þar er viði vaxið ok þar gengr optliga fénaðr ok menn. Jugurtha ferr með sinn her í fjallshálsinn þann er áðr er frá sagt ok sez þar því at þar lá fram læiðin Metelli. hann setr lið sitt dræift í kjörrin ok í upphæðina frá veginum. Bomilcarem setr hann fyrir fílana ok fyrir suma svæitina fótgangandi manna ok kennir honum hvernveg hann skal með fara. en hann sjálfr er nær fjallinu með allri riddarasvæitinni ok völðum fótgangandi mönnum ok þá eggjar hann sèr hverjar þær þjóðir er turmas hæita ok xxx manna eru í hverri turma: en eggjar hann manipulos — í þeiri svæit eru cc riddara — ok þar aðrar svæiter með: ok biðr þá vera minniga hins fyrra frama ok sigrs að þeir veri sjálfa sik ok sitt ríki fyrir ríki ok ágirni Rómverja ‘því at við þá skulum vèr nú æiga kapplæikinn er fyrir ‘skömmu sendum vèr sigraða undir ok’ segir skipt við þá hertogonum en æigi hugrekkinni ‘svá hefi ek fyrir sèð ‘um fundinn að vèr skulum vera í enum hæra staðnum ‘ok mega sjá allt fyrir um þá sem optaz gjöra hinir vitrari ‘við hina úkjænni — erum ok æigi færi: erum vèr ok ‘æigi nýjari við orrosto en þeir að fara hart saman hendrnar. ‘verðið þèr þá athygler ok skjótt búnir að renna á hina ‘rómversku þá er lúðrarnir kveða við. þenna dag skulu ‘þèr ætla annað hvárt vera munu endadag várs erfiðis eða ‘upphaf allra várra vesælða’ ok nú biðr hann hvern launa sèr fè ok vegsemd af karlmennsku ok drengskap ok biðr hvern sýna öðrum sínum fèlaga sína framgöngu.

10. Metellus var með sínu liði á fjalli því er áðr var getið ok væit hann ekki til Jugurtha: ferr hann af fjallinu læið sína ok sjá nú menn Jugurtha hans her. nú grunar Metellum að hann sè nökkura nýlyndu til hálsins

1 nánd < nánd ánni ⌣ nánd við ána. 5-6 Bomilcarem > Bolmıcarē. 10 turmas < turme. 11 en < enn. 16 undir ok’ segir < undır. Ok ſeg.[7] 21 fara < færa.

þar er hestar þeira vöfkuðu milli kjarranna því at skógrinn var svá þunnr ok lágr að æigi hulði þá vel en svá hátt til staðarins ok með brögðum setr hann herinn að þeir Metellus máttu æigi gjörla sjá. en litlu síðarr skynjuðu þeir til víss að það voru umsáter. þá skiptir Metellus liðinu ok setr saman í ena hægri hlið er nærr var fjand- 11 mönnum: lèt þrefalt standa ok setr skotmenn ok þá er slöngur hafa í hver manipulos: lætr riddaraherinn vera í armana ok eggjar þá með fám orðum að þeir skyli vel duga því at þá var skammt tóm til: læiðir þá herinn ór fjallinu á slèttuna með þessi skipan. en er hann kemr á slèttuna nam hann stað ok ætlar að þeir muni á þá laupa ór hálsinum. en er hann sá að það var æigi þá hræddiz hann að þeir mundu nökkurn veg banna honum vatnið af sínum umsátum ok kvelja þá í drykklæysi. hann sendir þann mann er Rutilius hæitir með riddorum ok fótgangandi mönnum fram til árinnar að taka sèr þar tjaldstaði ok búaz þar fyrir herinu ok kvez ætla að þeir mundi æigi træysta sèr til "þess" en heldr vilja halda þæim í mæði ok þorsta ef þeir mætti. þá ferr Rutilius fram til árinnar svá sem honum var boðið. en Metellus ferr læið sína með fylktu liði ok var fyrst í öndverðri fylkingu ok kannaði þar en nökkuru síðarr var Marius. þá fór Metellus í hina vinstri hlið fylkingar til riddara sinna ok svæitarhöfðingja ok dvalðiz þar. en er Jugurtha sá að enn síðarsti lutr liðs Metelli var kominn um fram allt lið hans — æigi var það skemmra en ij mílur er lið Jugurtha sat framm eptir hálsinum — þá gengr Jugurtha ofan með herinn ok tekr veginn millum þeira ok fjallsins að æigi nái þeir aptr í fjallið ok lætr kveða við lúðra ok væitir þæim áhlaup: sumir hlaupa á halaferðina sumir fram

8 hver = hur. 10 þá? 18 herinu < herinum. kvez = kueðz.

hægra megin sumir vinstra megin ok ganga fast að ok óðliga ok fræista ef fylkingar Rómverja svigni. en Rómverjar þeir er snarpastir voro ok harðaz tóku í gegn voru blekktir í því að þegar ljópu hinir undan ok skutu á þá ok særðu þá en Rómverjar máttu æigi höggum við þá koma. svá hafði Jugurtha kennt þæim að hvar sem Rómverjar gengi fram þá skyldu þeir hopa undan höggum en þar er Rómverjar hopaði sækja þar að ok hlaupa að hèr ok hvar — fara dræift ok láta æigi mega kringja um þá 'vèr erum æigi færi' sagði Jugurtha 'ok hvar sem 'þeir flýja æigi ok taka við læitum þá á aðra hlið eða 'þar er nökkurr dræifiz frá, en ef vèr þurfum að flýja þá 'er jafngott í fjallið ok á hálsinn eða á slèttuna því at 'hestar várir kunnu vel að renna um hrísin'. en vára menn (segir Salustius) stöðvaði það að reka flóttann að illt var yfirfarar ok oss úkunnikt. en ósýnt þótti þá um orrostona hvárir sigraz mundu því at þá tók að dræifaz várt lið ok fekk æigi haldiz í skipuninni en Numide sóttu þar fast að en sumir várer menn lètu nú fyrir en sumir gengu fram að móti ok fylgðu æigi merkjunum svá sem skipað var en þar sem hvern tók háskinn várra manna þar stóð hann ok tók í gegn: þá tók að dræifaz ok blandaz saman hvárrtveggi herrinn ok svá vápnaburðrinn ok hestarnir: þá fór ekki várt lið eptir skipun nè eptir ráðinu heldr varð þá allt að atburðum. svá fór fram mikinn luta dagsins að æigi mátti vita hverr endir mundi verða á orrostonni. erfiði ok mæði óx af hitanum svá að margir sýktuz af. en er Metellus sá að Numide sóttu minnr að þá tók hann að hæimta saman liðið í fylkingina ok iiij 12
þær svæitir er cohortes hæita ok d val þeira manna í hverri svæit setti hann mót fótganganda her — þessar

14 hrísin = hrıſın̄. 18 Numide > numıdıe. 21 háskinn = háſkın. 23 hvárrtveggi = huartueggı. 30 cohortes hæita > chórs.

sumar svæitir höfðu áðr setið uppi í brekkunni ok hvílt sik — ok eggjaði þá til mótstöðu ok bað þá æigi láta sigra sik þá er ávallt flýja því at þeir hafa ækki vígi ok herbúðir til að flýja ok ekki til varnar nema vápn sín. eigi var Jugurtha enn kyrr heldr tók hann að eggja sína menn ok að endrnýja orrosto ok tók nú enn alls á að fræista með hinum beztum svæitum sínum — studdi sínar svæitir; en Rómverjar vissu æigi hvar hann mundi fram koma því at þá er hann sá fast standa sína menn skaut hann á hina en gekk þæim nær er hopuðu. með þessum hætti keppðuz þessir ij höfðingjar hinir mestu menn jafnir í atgjörvinni en újafnir að fulltingi: Metellus hafði traustan herinn ok riddarastyrkinn miklu mæira en landið ókunnara en Jugurtha voru aller aðrir lutir hagfeldari nema riddararnir færi. en er Rómverjar sá að þeir höfðu ekki herbergi ner ok þeir máttu æigi með föstum bardaga æiga við þá en komið að aptni þá sækja þeir eptir þæim í hálsinn sem þæim var boðit. þá flýja Numide ór hálsinum: fátt féll því at þæim barg skjótlæikrinn ok það að hinum var ókunnara landið ok træystuz ekki eptir að fara.

11. Frá úsigri Bomilcaris. Bomilcar fór sem honum var boðið með fílana ok mikinn fótganganda her ok sèr hvar var Rutilius ok ferr ór hálsinum á jöfnuna þá er hinir voru um farnir. ok fór Rutilius til árinnar ok gjörir það sem honum var boðit. en Bomilcar fylkir sínu liði ok gjörir fyrir sèr njósn hvað hinir hafaz að. en er hann spyrr að Rutilius sitr ok hefz ækki að en hann hæyrir þá gný til orrosto ok trúir þó illa sínum riddurum . . . þannig ferr hann til herbúðanna. nú sá þeir Rutilius mikinn jóræyk leggja á himininn en þeir sá ekki liðið

6 á < í. 12 atgjörvinni = atgıorfını̄. 13 miklu = mıcklu. 18 Numide > numıdı. 21 Bomilcaris. Bomilcar > bolm' Bolmıcár. 25 Bomilcar > bolmıcar.

fyrir skógum er nær þæim voru ok ætluðu fyrst að af vindi mundi vera rykið sem þar kann opt verða er sendin er jörðin. en er þeir sá rykið með jöfnu ganga svá sem fylking færi ok nálgaðız þá þá skilja þeir að úfriðrinn var ok taka til vápna ok standa fyrir herbúðunum sem þæim var boðit. en er þeir koma tóko að æpa hvárirtveggju, rennaz að ok berjaz. nú verða þeir sæinni í athlaupinu Numide menn er með fílana fóru ok varð fílunum æigi saman komið sem þurfti því at skógrinn bannaði þæim en Numidiemenn þóttuz þar æiga allt traust er þeir voru en fílarnir hvörfuðu í skóginum ok mjög dræift. þá þysja Rómverjar þar að. en þeir Numidiemenn er fyrst höfðu fram laupið taka að flýja en marger kastaðu vápnunum ok læita sér hjálpar — sumir til hálsins ok flestir alhæilir. Rómverjar tóku iiij hæila fíla en drápu alla aðra: það voru xxx. Rutilius ok hans lið voru mjök mæddir — fyrst að ferðinni ok af starfi er þeir gjörðu herbúðirnar en nu af orrosto: en Metellus kom æigi sem ván var: þá fylktu þeir liðinu ok fóru svá aptr í móti honum því at þeir vissu að Numide voru vélsamir ok jafnbunir til 13 nótt ok dag. en er myrkt var af nóttinni þá hæyra hvárir vápnabrak til annarra er Metellus fór í móti ok hugðu hvárirtveggju · úvini sína vera mundu, ofruðu vápnunum ok gjörðu gnýinn sem mestan, ok mundi það vorðið hafa mikil glæpska af úvizkunni ef æigi sætti þeir ráði því at þeir sendu á njosn riddara ok urðu varir hins sanna. eptir óttann kom nú skjótt gleði ok fagnaðr: fagnaði hverr öðrum riddarinn, segja nú ok spyrja ok hlýða, færir hverr á lopt sem mest sín verk: fór þá sem verða kann að þá er sigrinn fæz hæler sér jafnt hinn blauði sem hinn snarpi en af úsigrinum eru jafnt ámæltir hinir hraustu sem hinir blauðu.

---

9 bannaði = banaðı. 13 kastaðu = kaſt᾽·. 16 xxx < xl. 17 að < af. 20 Numide > numıdı.

12. Frá Metello. Metellus er iii daga í þessum herbúðum, lætr græða sára menn ok gefr fé þæim er verðaster voru ok bez höfðu gefiz, eptir sið hersýslunnar, ok þakkar öllum jamsaman á stefnu sína fylgð: eggjar enn að þeir skolu jafnan hug hafa til um það er eptir ferr ok ætlar léttara nú munu vera fyrir höndum, þikkir þæim nú vel hafa gengið til sigrs 'en annað erfiði mun nú 'verða til ránfangs'. Metellus gjörir frá sèr njósnir — Numide menn þá er á hönd höfðu gengið ok læiðir voru kunnar eða aðra þá er honum sýndiz — að skynja hvað Jugurtha hefðiz að, hvárt hann var með her ok mundi enn berjaz vilja eða mundi hann þikkjaz sigraðr ok læita sèr hælis ok vera með skömm. þeir urðu þess varir að hann hafði farið í þá staði er skógar voru miklir ok illt tilsóknar ok yfirfarar: Jugurtha hafði þar her mikinn að fjölða ok illan til orrosto því at fólkið hafði flýið ór orrostom hverir til sinna hæimila en það æina með konunginum en hans lið var handgengið ok að auk verkalýðr ok þorparar — hafði hann síðan það lið að sèr dregið. ekki þikkir það skömm í þeira landi þó að menn flýi ór orrosto. Metellus sèr enn grimman hug konungs ok að hann vill enn orrosto upp halda en þikkir sèr það mjög úhægt er hann má æigi berjaz nema þá að æinu er Jugurtha vill til stefna ok þikkja sínir menn sitja mæirr fyrir háskanum af áhlaupunum ok læitar sèr ráðs: vill ekki sækja hann þangað sem nú er hann kominn. með fylkingu, heldr öðrum hætti. nú ferr hann í landið þangað sem auðgaz er ok bezt, herjar þar, æyðir akra. vinnr borger ok kastala, brennir víða ok drepr þá menn er vígligir voru. af þessum ótta gengu margir menn til handa Rómverjum ok gáfu þæim gísla ok menn fluttu að þeim sjálfkrafa hvæiti ok annað það er þeir þurftu: setti

14 miklir = mikklır. 17 orrostom = orrm (~ orrnı ?).

hann sína menn hvar sem honum þótti sèr styrkr að en þæim vörn í að sitja. en er Jugurtha spurði þetta þótti honum sèr það mæiri skaði en orrosta því at hans ván var sú helz að flýja ok berjaz þar er hann sæi sjálfr staðina til ok sótti Metellus jafnan eptir honum. nú varð hann nauðigr að fylgja þó herinum ok væita þannig lið sínum mönnum með áhlaupum. leitar hann sèr nú ráða: hann fór opt sjálfr á njósn með sínum hinum beztum 14
mönnum en lèt herinn bíða sín þar er hann hafði saman samnað; opt á nóttum eða þá er þeir fóro af þjóðvegunum hljóp hann á þá ok mest á þá er úvanastir voru í herinum eða enn þá er sendir voru ok urðu þeir margir teknir eða drepnir en æingi komz braut ósárr en áðr þeir kæmi ór herbúðum að hjálpa þæim voru Numide braut [ór herbúðum] í fjöll sem Jugurtha kenndi þæim.

13. Frá ágjætri frægð Metelli. Rómverjar spyrja hvað Metellus hefz að: verða þeir fegnir þæim sögum er hann gjörir sik ok sinn her með venju hinna fyrri höfðingja, að hann er sigrvegari í ókunnu landi af hræsti sinni ok Metellus hefir nú næyddan Jugurtha þann enn mikilláta af hæimsku Auli að vera nú í æyðimörkum ok hafa þangað flýið ok æiga þaðan að vetta sèr lífs ok hjálpar. ok er þeir spyrja þessi en 'framligu verk Metelli þá færa þeir fórnir guðum sínum ok sú borg sem Roma var er hrædd hafði verið um þenna úfrið var nú glöð orðin. ágjæt frægð fór nú frá Metello. en Metellus var því ákafari fram að færa sitt æyrendi er honum gekk lèttara til sigrs ok skundaði sem mest aðsókninni ok uggði það sem opt verðr að þá er manni gengr vel þá hnekkir opt skjótt ok var hann æ því varari um sik er hann var lengr í herferðinni því at miklu ágjæti fylgir jafnan mikil öfund. ok af umsátum Jugurtha lèt hann optaz lítið af sínum

3 orrosta = orr'. 21 Auli > albını. 31 miklu = mikłu.

mönnum en ef þeir þurftu að sækja hvæiti eða annað fang þá lèt hann fara með sendimönnum svæitir sínar fjölmennt. hafði hann sjálfr með sèr suman herinn en Marius suman. mæirr æyddu þeir eldi hèruð en ránum. þeir höfðu í tvennum stöðum herinn ok lèt skammt milli ok ef afls þurfti við þá voru aller saman en ef kvittir komu um farar Jugurtha æigi mikilvegligar þá fóru aðrir hvárir. Jugurtha njósnaði um farar þeira: fór um holt ok um hálsa að læita til álaupa: hvárt sem hann hæyrði að menn voru sendir frá herinum eða það að herrinn fluttiz fram ok væri vötn þau fyrir er spilla mætti þá sætti hann því því at til vatna er þar víða illt: stundum ljóp hann á Metellum stundum á Marium eða á þá er eptir fóru en ef við var horft flýði hann brátt ok öðrum eptir annan væitti hann áhlaupin: varð aldregi orrostan en aldri hvíldin: með hætti hèlt hann þæim að þeir mætti æigi hafa stór-upptektir. en er Metellus sá þessa meðferð ok það að hann náði önga orrosto að hafa þá sneriz hann að æinni borg mikilli er hæitir Zama - það var höfuðstaðr í þæim hluta lands -- ok vildi æigi lengr mæðaz af eltum þessum ok hugði að Jugurtha mundi vilja tæja borgarmönnum: venti hann að þá mundi hann ná að berjaz við hann. en Jugurtha varð þessa varr af flóttamönnum: hann stefnir á gagnlæiðiu ok kemr fyrr til borgarinnar: hann eggjar mjök borgarmenn — bað þá vel verja vígin: hann kvez mundu fjölmenna þá af sínum mönnum sem hann mætti. þessi mannkind var styrkst ok hörðuz af landher hans ok trúuz. en er þetta ráð var gört þá fór hann aptr í læyni. litlu síðarr var hann varr að Marius fór með nökkurar svæitir epter vistum í Siccam. þá ferr Jugurtha þangað á æinni nótt með hinum beztum

---

5 lèt < lètu. 16 hætti <- þæim hætti. 25 borgarinnar = bḡarnar. 26 kvez = kueðz. 29 var < varð. 30 epteṙ > epter ¦ ept'. Siccam = ſıckā.

sínum riddurum fám. en er Rómverjar verða þess varir ganga þeir í borghlið ok verjaz þaðan. en er bardaginn tókz þá eggjar Jugurtha borgarmennina að þeir hlaupi á bak þæim: kveðr þá munu vinna sigr ágjætan ‘ok ef þér ‘gjörið svá þá mun ek hafa ríkið í friði en þér vera ‘frjálsir ok óttalausir’ ok nema Marius hefði þegar látið merkin fram bera á hendr Jugurtha ok hefði frá gengið borginni þá mundu borgarmennirnir aller eða því nær hafa skipt trúnni því at þeir eru brigðir í skapi. en þó að Jugurtha bæði fast standa sína riddara ok þeir léti fyrst að því . . . en þá er Marius tók með mæira afli að að ganga flýðu þeir: féllu fáir en aller runnu. ferr Marius til Zamam. þessi bórg stendr á sléttum velli ok er mæira vígi af virkinu en af grundvellinum ok í borginni er alls gnótt, manna ok vápna. en er Metellus er búinn þá ferr hann til borgarinnar ok sez um borgina með herinn ok skipar svæitarhöfðingjum hvar hverr skal að ganga: þá lætr hann blása í lúðra ok því næst er herópið hvaðan æfa. ekki skelfir þetta hugi borgarmanna ok taka fast í mót ok berjaz. Rómverjar ganga fast að hverr sem má: sumir kasta grjóti sumir slöngva eldi sumir grafa undir borgarveggina sumir setja stiga við veggina, ok var nú hin mesta orrosta. en borgarmenn veltu á þá er undir voru stæinum ok hnúðum ok kasta loganda torfviði með brennustæini ok skutu á þá staurum ok þó að sumir þæyrði æigi nær að ganga þá hitta vápnin þá æigi síðr: flestir særðuz af skotum — jafn var háskinn að vera nær ok fjarri en æigi jafn orðstírrinn.

14. Frá áhlaupum Jugurtha. En nú er þeir berjaz við Zamam þá kemr Jugurtha með miklu liði á þá úvara er herbúðanna gjættu: því at þar var látin eptir til gjæzlu

---

2 borghlið = b̄ghlıð. 11 því > þu. 16 sez ≐, ſetz.
30 miklu = mıcklu. 31 látin = latın̄.

mikil svæit ok ætluðu þeir sèr við öngu hætt: Jugurtha braut virkishliðin ok gekk inn í herbúðirnar. en er várir menn voru bráðum bornir (segir Salustius) þá tók það ráð hverr er sýndiz: sumir flýðu sumir vápnuðuz mart var drepið æða sært — en æinir xl manna af þessum fjölða minntuz rómversks nafns ok ljópu með vápnum saman í svæit í hæra stað ok vörðuz svá að æigi með öllu afli fengu Numidiemenn þæim braut komið heldr sendu þeir langt frá sèr skot ok önnur vápn; fáir voru þeir af mörgum en síz gripu þeir á miss hins bezta ráðs; þeir sýndu mikinn drengskap því at þeir felldu marga þá er að þæim sóttu. en þá er Metellus berst snarpligaz hæyrir hann á bak sèr mikið heróp ok snýr hestinum: þá sèr hann flótta rekinn sinna manna ok skilr að þetta er æigi riddaraherr: hann sendir allan riddaraher sinn til herbúðanna ok Gaium Marium fyrir þæim með sínar svæitir ok særir hann ok biðr með tárum fyrir vinfengis sakir að hann gefiz vel ok hann láti öngva skömm sigrlæysis verða í herinum ok æigi láti hann hefndarlausa fjandmennina í braut komaz. Marius gjörir skjótt þau boð ok kemr til herbúðanna. en þeir Jugurtha finna æigi fyrr en herrinn kom að: nú varð þæim seint að hlaupa út um díkin því at
16 þeir voru í herbúðunum: leitaði þá undan hverr er mátti: ljópu sumir í díkin ok voru þar drepnir en sumir vörðuz í þröngunum ok voru þar drepnir — sumir flýðu brott með konunginum en mart fèll. Metellus hvarf frá borginni þá er nótt gekk að ok fekk æigi unnið: fór hann til herbúðanna. en síðarra dag skipaði Metellus allri riddarasvæitinni fyrir herbúðirnar þar sem á var hlaupið en skiptir höfðingjum til að gjæta þar hliðanna en hann ferr til borgar ok berst þar sem hinn fyrra daginn. Jugurtha væitir enn áhlaup til herbúðanna mjök vávæifliga ok óttaz þeir

2 herbúðirnar > h b̄uðırnar. 3 bornir? 15-16 herbúðanna = h̄buðana. 20 þau > þa.

er næster voru ok koma þá aðrir til að "teia" þæim. nú berjaz þeir í öðrum stað við Zamam með miklu afli ok hvar sem hverr höfðingi gekk að borginni þá þótti þæim sem þar væri snörpuz orrostan ok kostaði hverr til uppgöngunnar sem mátti ok æingi træystiz öðrum betr en sèr. ok þar í mót bjuggu borgarmenn fyrir í öllum stöðum ok vörðu uppgönguna. mæira var hverjum um að særa annan en hlífa sjálfum sèr: blandit var herópið eggjuninni, stundum fagnaðinum en stundum harminum: svá var mikill gnýrinn af ópi ok vápnabraki að til himins stóð. en þegar er nokkuð gaf uppskotið í aðsókninni þá sá þeir ofan af kastulum borgarmenn of langan veg hvar riddararnir börðuz ok enn lýðmenn ok vissu að þar mundi konungr vera ok bendi hverr öðrum til að sjá skyldi ok glödduz stundum en stundum úglödduz þeir. en er Marius fann þessa nýbrætni að borgarmenn mundi sjá bardagann — því at hann var þar til aðsóknar — þá minnkaði hann aðsóknina ok lèt þá skynja það er þeir sá sem þeir vildi. en þá er þeir hugðu vannligaz að orrostonni konungsins ok gáðu sízt annars þá gjörir Marius harða atgöngu, lèt bera að borgarveggjunum stiga svá háfa að nær tók jafnhátt borgarveggjum ok gekk þar upp fjölði manna. en borgarmenn þá er þeir fundu þetta bragð gengu þeir í mót ok velto ofan stórum stæinum ok skutu ok köstuðu eldi ok öllu því er þeir höfðu til varnar. ok í fyrstu stóðuz várir menn (segir Salustius) en er brotnaði æinn stigi ok annar ok þeir er upp höfðu gengið voru sumir drepnir en sumir lamðir ... var þá hætt þessu tiltæki: sóttu þeir þá með öðru móti að. en að kveldi var enn frá horfið: var þá fátt várra manna úsárt en sumt lamið sumt drepið.

15. Frá Metello. Metellus sá að þetta var úsynju upp tekið að sækja að borg þessi ok það að hann má

---

2 miklu = mıkklu. 12 kastulum = kaſtvlū ∽ kaſtolū.

öngum orrostum koma við Jugurtha nema það æitt er Jugurtha væitir áhlaup ór fylgsnum ok læið mjök á sumarið ok sneri hann frá borginni ok setr sína menn í þær borgir er hann hafði unnið af konunginum ok honum þóttu þeir vel komnir ok vígi voru örugg en annan herinn sendir hann til vetrvista í provinciam þar sem þeir höfðu fyrr setið: það er næst Numidia. en er þeir komu í vetrvistir þá lætr hann þá ekki vera svá í hvíld eða gleði sem þá hafði áðr títt verið. en nú er hann þikkiz æigi hafa sigrað Jugurtha með orrosto sem hann vildi þá setr
17 hann vjelræði um hann ok sendir með launungu menn með fèboðum ok vinmælum til vina hans þeira er hann trúði að þeir skyldi vera á svikræðum við hann ok fræista ef þeira útrú mætti sigra hann. Metellus sendir menn til Bomilcarem er trúnaðarvinr var Jugurtha ok býðr honum fè ok biðr hann koma á sinn fund lævniliga ok selr honum grið ok kallar að hann muni auðvelligaz að komaz því at Jugurtha trúir honum bezt ok biðr hann færa sèr konunginn annað hvárt lífs eða dauðan, ok þó að hann hafi gört mikla úsæmð Rómverjum í drápi Massive ok þó að þeir hafi hann ógildan lagðan í sínu ríki þá munu þeir láta honum það allt vítislaust ok gefa honum upp fjör ok fè. Metellus fær auðvelliga snúið skaplyndi hans því at hann var áhlýðinn ok ótrúr ok enn það að hann hræddiz ef svá væri að konungr gæfiz upp eða friðr yrði gjörr við Rómverja að hann ok hans menn mundu fyrir utan sættir ok vera dæmdir til bana eða kvala ok tekr Bomilcar við þessu æyrendi. en þá er komin var stund til talar hann við konung. en konungrinn talar um hamingjulæysi sitt ok þröngvingar þær er hann hefir af Rómverjum. þá svarar Bomilcar ok spyrr ef honum sýniz æigi það að sjá fyrir sèr ok sonum sínum ok landfólkinu er góðs er vert ok

15 Bomilcarem > bolmıcarē. 20 mikla >. 27, 31 Bomilcar > bolm'·.

ganga á hönd Rómverjum 'vèr höfum sigraðir verið í öllum 'orrostom' sagði hann 'en landit æytt mjög: margir menn 'herteknir ok svá drepnir, minnkaðr auðr ríkissins ok 'ærið mjög ræyndr kraptr riddaranna' bað hann varaz að þó að hann vildi æigi upp gefaz að vera kynni að sjálft landfólkið vildi þó upp gefaz. þessum orðum ok þæim líkum eggjaði hann konunginn til handgöngu. þá voru menn sendir til Metellum með þæim orðum að Jugurtha vill á hönd ganga ok á vald hans sjálfr ok svá aller lutir aðrir muni á hans miskunn lagðir. nú stefnir Metellus fund við alla þá er voru af öldungasvæitinni til umráða um þetta mál ok vill gjöra eptir þeira ráði er honum þóttu þar baz kunna en þeir rèðu eptir venju enna fyrri höfðingja ok sendu menn til Jugurtha með þæim orðum að hann vildi á hönd ganga að hann skyldi fyrst senda þæim cc þúsunda byrða silfrs ok alla fíla þá er hann á ok hesta ok vápn. ok er þetta er sagt Jugurtha þá gjörir hann það sama skjótt. nú býðr Metellus öllum til sín þæim er á hönd vilja ganga ok eru þeir læiddir aller á hans fund bundner en það var mikil svæit. en nökkurir ok fáer flýðu í Mauritaniam til Bocchum ok vildu æigi ganga á hönd Metello. Jugurtha eru þá send orð ef hann vill ganga á hönd að hann skal koma til Tisidium ok skal hann við honum taka. en nú sèr Jugurtha sik ræntan vápnum ok mönnum ok miklu fè ok nú hugsar hann sitt mál ok minniz hversu mikinn skaða ok svívirðing hann hefir gört Rómverjum ok æðraz nú um handgönguna ok frestar marga daga ok hugsar fyrir sèr: þótti þungt að halda orrostom ok æigi ljett að falla ór konungdómi í þrælkan. þóttiz ok mjög hafa æytt miklum styrk er hann hafði þá upp gefið: ræðr það ór að ganga æigi á hönd ok hefja upp orrosto. í Rómaborg var það tíðinda að þá

---

15 að hann vildi < ef hann vildi. 21 Bocchum = boccū. 23 Tisidium > tiſidiū. 25 miklu = mikklu. 30 miklum = micklū.

er kom að skiptingardögum taka Rómverjar Metellum til consulem: skal hann hafa æinn Numidiam.

18 16. Gaius Marius fór þenna tíma í þann stað er Utica hæitir ok færði fórnir goðunum ok lèt hofsgoðann ganga til frèttar um örlög sín en blótgoðinn sagði að yfir hann mundi ganga margir stórir lutir ok undrsamligir ok hann mundi um framm verða sína ættmenn ok hann kvað Marium mundu þann mann verða sem hann hafði opt hugsað sjálfr. nú ferr Marius braut styrktr af fortölum blótgoðans ok af goðunum ok ræynir nú hamingjuna sem mest ok optaz ok falla aller lutir farsælliga. en honum hafði það opt í hug verið að biðja sèr að vera consul. en að fá þessa tign þá hafði hann til alla atgjörvi — vizku, ráðvísi, dygglæik, kænsku hersýslunnar — nema kynferð: hugrinn var ofs mikill til orrosto, kyrr í friðinum: hann blekkði hvárki ágirni nè sællífi en að æins var hann gjarn mannvirðingar. hann var borinn ok upp fæddr í Arpinum til þess er hann var frumvaxti ok þar nam hann íðróttir, þolði vel erfiðit í riddaraskapnum, nam ekki girzku eða snilld að tala á þingum — svá lèt hann vaxa með góðum íðróttum úspillt hugvit. ok þá fyrst er hann hafði fengið riddara nafn af höfðingjum Rómverja þótt hann væri ókunnr að sýn alþýðu þá varð hann brátt kunnr öllum Rómverjum ok hèðan af tók hann annan mæistaradóm eptir annan ok svá hafðiz hann í hverri tign að þæim þótti vert að hefja hann til ennar æðri tignar hvert sinn en þó hafði hann æigi enn þorað að beiðaz ennar æztu tignar er consulatus hæitir en eptir spá blótgoðans ágirntiz hann mjök þess í hug sèr. lýðrinn skipti ok hafði öllum mæistaradómum öðrum í Rómaborg en þenna höfðu enir tignu menn æinir ok skiptu

1 Metellum > Metellē. 3 Gaius > Maıuſ. 4 Utica > utıoe. 13 atgjörvi = atgıorfı. 15 ofs = óff. 18 Arpinum > arpíní. 26 ennar = enar. 31 enir > ok = = = en[7].

með sér: eingi var svá ágjætr af verkum sínum ef hann hafði æigi ættina tiginborna að hann mætti að lögum þessa tign fá. en er Marius skilr að blótgoðinn mun spáð hafa honum að fá þessa tign þá hvetr hann hugrinn til að fræista ok biðja ok biðr Metellum fá sér til lof að fræista ok biðja. en þó að nógir mannkostir væri í brjósti Metelli þeir er góðum mönnum væri æskjandi þá var með honum sá löstr er flestum fylgir tignarmönnum, ofmetnaðrinn, að hann vildi sik mestan ok brá honum nökkuð við fyst er honum kom að óvörum ok undraðiz þetta ráð: hann mælti svá ‘fyrir vinfengis sakir vil ek minna þik á ‘það að þú hef æigi huginn upp yfir hamingjuna svá að ‘þú bæiðiz rangra luta: lát þér þörf vinna þær tignir er ‘þínum burðum hæfa’ ok síðarst mælti hann að æigi er vitrlikt að biðja þess af Rómverjum er að réttu má varna. en er Metellus hafði slíkt mælt ok Marius væik ekki eptir því þá sagði hann að þegar er hann mætti fyrir fjölskyldum mundi hann styðja þetta mál. en er Marius kom opt á þessa ræðu þá mælti Metellus svá — bað hann æigi svá óðliga láta um þetta mál ok sagði það bezt hæfa að hann biði ‘þar til er son minn hefir aldr til að taka ‘þessa tign sá er nú er tvítugr: mun ek þá biðja með ‘þér að þið takið báðir samt consulatum’ sá sonr Metelli var í herinum. en fyrir þetta reiddiz Marius mjög Metello ok þótti sem hann ynni honum æigi tignarinnar. svá tók 19 hann að þrútna af ræiði ok ágirni að hann varaðiz hvárki orð né verk við Metellum ok gjætti minnr svæitarinnar en áðr í vetrvistunum. hann lastaði mjög atferðir Metelli en hældi sér í fjölmenni ok fyrir kaupmanna svæitum er margir voru ok víða komnir í kaupstaðnum ok svá mælti hann ‘ef mér er fenginn hálfr þessi herr þá mun ek á ‘fám dögum hafa Jugurtham í böndum ok ekki ráð er ‘það er hann dregr æ orrosto undan: girniz hann að hafa ‘tign þessa fyrir ofmetnaðar sakir sem lengst’. en þæim

6 nógir ∽ nọg̃ (ɔ: nógir ∪ nægir). 12 hamingjuna > hamgıuna.

er hæyrðu þótti þessi ræða sannlig vera svá mikið sem æyddiz þar í langri setu því at fýsinni þikkir æ of sæint — svá var þá of Marium. Þá var í her várum (segir Salustius) sá maðr er hèt Gauda sonr Mastanabalis sonar Masinissa konungs. þenna hafði Micipsa konungr annan til arfs læiddan. hann var vanhæill ok hafði höfuðverki ok var vanstilltr þá er það kom að. sjá hafði beðit Metellum að hann skyldi skipa honum í hásæti hjá sèr ok fá honum til varðhalz yfir sèr xxx rómverskra riddara svá sem Rómverjar voru vanir við þá er þeir lètu konunga vera, en Metellus næitaði hvárutveggja. þenna eggjar Marius til að væita átölur Metello fyrir lýðnum með sèr ok fræista ef þeir kjæmi honum ór tigninni, en Gauda varð brátt snúinn af þessum fortölum því at vit hans var æigi staðfast af sóttinni ok Marius talði hann vel til konungs fallinn ef Jugurtha yrði drepinn eða handtekinn. Ok enn lokkar Marius Rómverja til eða kaupmenn ok alla þá er hann má ok biðr þá rita til Rómverja með átölu við Metellum en bæiðaz at Marius væri consul. mörgum líkaði það vel að sá væri consul er skjótara ryddi til lyktanna, en sumir þóttuz æiga skylt æyrendi í Romam; ok svá varð að margir fluttu hans mál þetta í Rómaborg. Ok enn bar honum þetta mjög til tjænaðar er þá var alþýðunni mjög úþokkað um tiginna manna svæitina ok vill lýðrinn nú hafa það er hæitir Mamilius lög að hefja ættir nýjar til tignar.

17. *Capitulum.* Jugurtha býz nú enn til orrosto er næitt er handgöngu, býr herinn ok samnar í æinn stað ok gjörir ógnarboð til borga þeira er undan honum höfðu gengið en hæitr þæim fè ef þeir snúaz til hans en efter sína staði að vígjum, lætr búa vápn eða kaupir það er hann fær ok vill nú með öllum krapti undan dragaz

---

4 Gauda > gaıda. Mastanabalis > manaſtabıl'. 5 Masinissa > Maſſınıſſa. 10 Rómverjar > roūıar. 11-12 eggjar Marius > eggıa Marıūſ. 13 Gauda > gaıda. 25 Mamilius > Mamıllınſ.

þrælkuninni: hann fræistar enn með fèboðum skaplyndis Rómverja þeira er til forráða voru settir í borgum eða kastölum: hann fræistar nú alls þess er honum kemr í hug að efla sinn styrk. sú borg er Vaga hæitir ok fyrst gekk undir Rómverja ok Metellus hafði sett höfðingja yfir ok mikið lið... til þess staðar sótti Jugurtha. hann býðr fè borgarmönnum. ok nú með því að þeir voru í þjónkan við Rómverja þá váru þeir margir vel til hans í huginum ok lètu þeir lokkaz ok gengu á hönd honum ok bundu með svardögum því at þar er lýðrinn lausgeðr ok þikkir gott í nýnæminu ok í úfriðinum. þeir setja ráð með sèr. en þriði dagr þaðan frá er hæilagt haldinn um allt Numidia: þá hafa þeir mjög læika ok gleði: þá skyldu borgarmennirnir bjóða til sín til fagnaðar enum rómverskum, þæim er kastalans gjættu, hverr sínum vin, bæði riddörum 20 ok svæitarhöfðingjum ok sjálfum græifanum Tito Turpilio Silano, en þá skyldu þeir drepa þá alla nema Turpilium. ok þetta gekk allt fram að enir númversku höfðingjar drápu alla ena rómversku þar að snæðinginum ok síðan alla aðra hvar sem þeir stóðu því at þeir voru vápnlauser aller á slíkri hátíð. ok þá ljóp til lýðrinn sá er vissi þetta ráð ok slíkt sama þeir er æigi vissu áðr því at öllum líkaði þetta vel ok þóttu góð nýnæmin ok þyssinn. en rómverskir riddarar er þeir sá þenna svá vávæifligan úfrið vissu æigi hvert forðaz skyldi: hljópu sumir til borghliðanna ok var þar lukt, þá enn til þar er merki voru eða skildir við borgarveggina, en sumir ljópu upp í vígin. ok jafnvel konur ok ungsvæinar veltu stæinum á þá af turnum eða börðu því er til fekkz ok æigi máttu þar við standa enir styrkstu riddarar enum óstyrkstum mönnum ok æinn veg fór um ena vösku ok ena blauðu að aller

---

4 Vaga > uakka. 16-17 Turpilio Silano > turpulio ſillano. 17 Turpilium > turpuliū. 21 slíkri > ſlıkr. 25-26 borghliðanna = b̃ghlıðaña.

voru drepnir. ok svá grimmir urðu Numide menn að þeir rannsökuðu allan staðinn ok drápu alla ena rómversku nema Turpilius komz æinn undan. en það væit ek æigi um hans undankvámu hvárt það varð af miskunn þess er honum hafði hæim boðit eða var það af nökkuru vitorði eða sættargjörð að áðr hefði hann gört við Numide eða varð það af atburð; en af því má það helz marka svá illa sem hann var staddr er honum þótti betra ljótt líf ok ámæli en dæyja með fèlögum sínum með vegsemð. En er Metellus spyrr þetta úfall þikkir honum þetta skaði mikill ok gengr frá öðrum mönnum. en er af honum gengr hryggðin þá fylliz hann ræiðinnar ok hugsar með sèr hvernig hann skal skjötaz hefna þessa skaða. ok um kveldið að sólarfalli kallar hann út ór herbúðunum þá fylking er með honum hafði verið um vetrinn (það voru 6000 ok 600 ok 60 ok 6), ok hann hafði með sèr Numide riddara sem flesta þá er á hönd höfðu gengið ok bað búaz sem skjótaz að sólarfalli: fara þeir ok um nóttina alla ok koma er sól var skammt farin á nökkura litla hæð ok dveljaz þar ok talar Metellus fyrir liðinu ok þakkar þæim er þeir hafa skjótt við brugðiz ok segir að nú er æigi mæirr en æin míla til borgarinnar 'ok látið 'yðr nú' sagði hann 'þetta þikkja nú auðvelt, fyrir því að 'nú skulo þèr hefna borgarmanna várra, góðra drengja. 'á þessum enum illum mönnum, ok öllu þessu herfangi 'skal með yðr skipta að jafnaði' en menn glödduz mjög við fortölur þessar því at sjá var hin auðgasta borg í landinu. þá skipar hann herinum: lætr framarst fara númverska riddara — var það mikil svæit, þar næst gangandi menn ok skyldu fara sem þröngst ok hafa æigi merkin á lopti fyrr en hann segði þæim. en er borgarmenn sá herinn um langan veg þá ætluðu þeir sem var

8 ljótt ∽ líot. 16 6 > 42 (ɔ: 4 + 2 ?).

að Metellus mundi vera ok luku aptr borghlið ok bjugguz við. en er að sótti borginni þá sá þeir að þessi herr spillti ekki ökrum nè húsum ok það að þeir kenndu þar marga númverska riddara í öndverðri fylkingu ok fögnuðu 21 þá ok ætluðu að Jugurtha mundi vera ok lúka upp borgarhliðunum ok gengu út fjölmennt í mót þæim. nú taka riddarar Metelli að blása í lúðra sína ok setja upp merkin ok þæysa ræiðina: snúa sumar svæitirnar til að taka borghliðin sumir laupa upp í turnana sumir reka fólkið ok drepa: reiðin ok ván hlutskiptissins mátti þæim mæira en mæðin; því at allt fólkið það er borgina hafði byggt var drepið, karlar sem konur, ungt sem gamalt, en allt fè tekið að herfangi. Turpilius græifi var þá næyddr til að segja með hverjum atburðum hans fèlagar væri sviknir; en í hans frásögn fekk hann ekki skírt sik frá vitorðinu ok var það dæmt að hann var fyrst barðr en þá hálshöggvinn, en hann var æzkaðr af Latio hèraði.

18. Frá svikum *Bomilcaris*. Bomilcar var grunsamligr konunginum Jugurtha af þessu er hann hafði eggjað konunginn handgöngunnar þeirar er hann vildi æigi þá er að kom. en Bomilcar læitaði dag ok nótt vèla við konunginn því at hann grunaði að konungr mundi nökkura nýja luti vilja gjöra í vjelræðum til hans. en er þessi vèlræði óxu honum í augu tók hann sèr fulltingsmann æinn tiginn þann er Nabdalsa hèt, ágjætan af miklu fè ok vinsælan við alla alþýðu — sá er opt var vanr að stýra her sèr æinn þá er Jugurtha var æigi við staddr, ok hann var ok vanr að gjöra aðra luti þá er konunginum þótti miklu varða þá er hann var fjölskyldum horfinn, ok hèðan af fekk hann sèr metorð ok fè af konunginum.

---

1 borgarhlið = bg̃ hlıð. 8-9 borghliðin = bg̃ hlıðın. 18 *Bomilcaris*. Bomilcar > *bolm'*. Bolmıcar. 20 konunginn > kgın̄ a. 21 Bomilcar > bolmıcar. 25 Nabdalsa > napdalſa. 25, 29 miklu = mıcklu.

nú gjöra þeir ákveðinn dag hvenær þessi svikræði skulu fullnaz ok búa nú aðra luti þá er til þessa þurfti að hafa. nú ferr Nabdalsa til hersins þess er hann gjætti milli vetrvista Rómverja til þess að æigi æyddi þeir landið. en er kom að stefnudegi er þeir skyldu hittaz að þessu ráði Bomilcar ok Nabdalsa þá hræddiz Nabdalsa glæpinn ok þorði æigi ok kom æigi til stefnunnar, en Bomilcar vildi gjarna ok harmaði í hug sèr er lagsmaðr hans hafði brugðiz honum ok uggði það að hann mundi nú hafa tekið nýtt ráð nökkuð annað. hann sendi honum brèf með trúnaðarmanni sínum ok með þæim orðum að hann eggjaði hann fyrir láta huglæysi ok hæimsku ok minnti hann á svardaga sína ok bað hann þyrma særunum fyrir goðanna sakir ok æigi sneri hann hæitum Metelli til skaða þæim: sagði að Jugurtha var kominn að dauða hvárt sem þeir gjörði það eða sigraði Metellus hann: bað hann sjá hvárt betra var að þiggja hæit Metelli, frið ok fègjafar, eða verða sigraðr ok hafa kvalar ok bana. en er brèfið var komið til hans var hann nýkominn í rekkju sína ok mæddr af því er hann hafði starfað fyrir herinum ok mjög syfjaðr. en er hann sá brèfið þá rann á hann fyrst áhyggja ok þar af svefninn. ok þar var æinn þjónostumaðr hans svá kjærr honum að öll ráð vissi með honum nema þetta æitt. en er hann hæyrði sagt að rit voru komin til Nabdalsa
22 þá fór hann þangað þegar ok ætlaði enn sem vant var að Nabdalsa mundi hans ráð vilja við hafa · gekk inn í tjaldbúðina. en Nabdalsa svaf ok hafði lagt á hægindið hjá sèr brefið. ok hann tók þegar brèfið ok las, ok er hann skilr að á voro svikræði við konung þá ferr hann þegar á hans fund ok segir honum allt þetta. en Nabdalsa

3 Nabdalsa > napdalſa. 6 Bomilcar > bolmícar. Nabdalsa > napdalſa. 7 Bomilcar > bolm'·. 13 svardaga > ſuarðaga. 21 brèfið ∽ brepıð. 24, 26, 27, 30 Nabdalsa > napdalſa, napd', napd'·.

vaknar ok hræðiz þegar er hann finnr æigi brèfið ok skilr þetta sem farið hefir ok spyrr að menn hafa sèð hann hlaupa ok sendir menn eptir honum sem hvataz ok fá þeir tekið hann. ok er hann spyrr það þá ferr hann sjálfr til konungs ok biðr sèr miskunnar ok segir honum allt hvað hann hefir að gört ok færir völdin á hendr Bomilcar ok biðr með tárum fyrir öll góð verk þau er hann hafði áðr gört við hann ok fyrir þeira mikið vinfengi ok æigi hyggi konungrinn hann munu þetta gjöra optarr. en konungr svaraði honum blíðliga ok ljettliga ok var þó annað í hug ok lèt fyrst drepa Bomilcar ok alla aðra hans fèlaga þá er þetta höfðu ráðit ok vitað. en Jugurtha var hèðan í frá önga stund úhræddr ok í öngum stað dvalðiz hann með fullum trúnaði ok hræddiz jafnt sína menn sem úvini ok opt um nætr ór svefni ljóp hann upp ok græip vápn sín ok skelfði mennina ok lèt sem þeir vildi göra honum illt ok svá lèt hann sem nær væri hann ærr fyrir ótta sakar.

19. Unninn kastalinn Thala. Metellus verðr víss af flóttamönnum þessa tíðinda ok sèr nú að þrotin er þessi ráðagjörð: býr nú her sinn til orrosto. hann gefr nú hæimlæyfi Mario því at hann fær nú önga stoð af hans þjónostu: svá var hann ræiðr vorðinn. þá er ritin voru upp lesin í Roma þá tók lýðrinn vel hvárstveggja máli. en ræyndar var það að tiginna manna svæitin sú er fyr hafði tjeð málinu Metelli tók þá að öfunda hvè mikill hann gjörðiz ok ágjætr ok væita hinum eptirmæli er minni tignar var að ættinni. en með hvárumtveggja gengu menn að svæitum ok með svá miklum gæysingi að um hvárngan náðiz sannmælið hvárki um góða luti nè illa. en styrjaldarmenn þeir ener ríku æstu múginn á öllum þingum til þess að dæma Metellum sekjan ok af tigninni

4 tekið < æigi tekið. 7 Bomilcar > bolm'·. 9 ok < að. 10 svaraði = ·f·. 11 Bomilcar > bolm'·. 24 hvárstveggja ⌣ hvárutveggja.

en halda upp hraustlæik ok þrekvirkjum Marii. svá var lýðrinn gæystr að smiðir ok tæigyrkjar ok verkmenn þeir er allt áttu undir handbjörg sinni lögðu niðr sýsluna ok væittu fylgð Mario ok virðu það mæira að tigna hann en nauðsun sína ok svá varð — því at þá var úvirð tiginna manna svæitin ok epter margar þausnir ok þrætur — að þá hvarf tignin consulatus í nýja ætt ok var gefin Mario. sá höfðingi lýðsins er hét Titus Manlius Mancinus var þar. lýðrinn spurði hann hvárr consul berjaz skyldi við Jugurtha konung. en allr lýðrinn svaraði 'Marius, Marius'. en litlu áðr hafði sá til orrosto ætlaðr verið af höfðingjum er hét Paulus Decius ok var það ósynju. En er Jugurtha hafði týnt enum kjærstum vinum sínum ok sjálfr drepa látið þá ok marga aðra sína menn en marga hrædda gört svá að sumir flýðu til Bocchum konungs en hann mátti æigi orrosto halda ef æigi voru menn til en honum þótti háskasamligr trúnaðr hinna nýju vina er illa höfðu gefiz fornir vinir . . . ok fór hann nú mjök ráðlauss ok
23 engi lutr ok ekki ráð ok æingi maðr líkaði honum til fulls: ríki með mönnunum eða þjónostu skipti hann jafnan; vegunum af ferðinni skipti hann ok jafnan stundum að fara móti óvinum en stundum í óbyggðir, opt það sem hann vildi berjaz eða enn að flýja: ok æigi vissi hann hváro hann trúði síðr um liðið, trúnni eða hræystinni: hvað sem hann hugsaði eða hvert sem hann fór — allt var móti skapi. Metellus ferr með sinn her þar til er hann hittir Jugurtha. þá býr ok Jugurtha sína riddara til orrosto ok svá gangandi menn ok þá hófz orrosta. sú fylking er konunginum fylgir tekr þegar að flýja ok svá aðrar svæitir. Rómverjar tóku hér merki ok vápn ok

5 nauðsun = navðzun. 8 Titus < Gneus. Manlius Mancinus > manb' Mantın'. 9 lýðrinn spurði hann < hann spurði lýðinn. 10 svaraði = ·ſ·. 15 Bocchum = bokkv̄. 30 hèr merki = her m⁷kı (ɔ: hermerki?).

nökkura menn. flýði ok konungr sem aðrir því at í öllum orrostom træystuz Numidiemenn betr fótum en vápnum. í þessum flótta varð Jugurtha mjög óttafullr ok flýr fyrst í óbyggðir með flóttamönnum ok nökkurri svæit riddara ok þaðan ferr hann langar læiðir ok torsóttar til kastala þess er hæitir Thala. sá kastali er mikill ok auðigr ok hèr eru margar fèhirzlur konungs hirðar ok þar eru upp fæddir margir synir hans. en er Metellus spyrr·þetta þá gjörir hann ferð sína þangað ok væntir að hann mun þar ná að berjaz við konung ef hann fær komiz til kastalans: vill hann þó til hætta að fara þó að sú læið sè svá ill að það sè um fram manna megin að komaz þar með her því at frá ánni þeiri er næst fær vatnið voru l mílna svá að hvergi gat vatn ok allt auðt. þá lætr hann ætla herinum x daga vist en allan þunga annan lætr hann epter. hann lætr ok búa búkreka ok aðra þá luti er vatn mátti í hafa ok enn samnar hann ór byggðum öllum tömum kykvendum þæim er klyfjar mátti á bera — þá leggr hann á keröld þau er samnað var í byggðinni, ok þæim mönnum er þar byggðu ok þá höfðu næst á hönd gengið bauð hann að koma til sín þann dag er hann kvað á ok ætlaði að þeir skyldu bera vatnið eptir herinum slíkt sem þeir mætti ‘en ek mun’ sagði hann ‘ok mínir menn taka vatn ‘ór ánni ok fara síðan framm til þess staðar er þèr skuluð ‘mik hitta ok ek kveð nú á’ ok hann gjörir svá. en er hann kom í þann stað er ákveðinn var þá koma þar Numide sæm ætlað var ok kvað hann þá vel sýslað hafa sitt æyrendi — svá sem verða kann að fyrst er menn eru nýer í handgöngunni þá eru þeir hlýðnastir. nú gjöra þeir herbúðir að vanða ok vígi um. þá gjörir regn mikið svá að það vatn vannz herinum að gnógu meðan þeir voru þar, ok mæirr næyttu riddararnir þess fyrir varúðar

---

7 fèhirzlur = fehirðzlúr.

sakar en þess er þeir báru eptir sèr, ok þessi atburðr hóf upp mjög hugi manna ok skilja þeir að þeir eru mjög ávarðir goðunum. annan dag eptir komu þeir til Thalam ok mjög á úvart Jugurtha ok borgarmönnum því at þeir þóttuz ór öllum háska fyrir torfæru sakir er þangað var að sækja. en þó að þá verði æigi þessa þá tóku þeir að búaz til orrosto ok — — — gjörði ok Metellus. það ætlar Jugurtha að Metello muni ekki úfært — sá er nú hefir sigrað með orrosto ok með vápnum ok svá úfærurnar landsins það er trautt mun þikkja manna megin yfir að komaz ok fyrir þí flýr hann braut um nóttina ok hefir með sèr sonu sína með allt fè það er hann fær með
24 komiz: fór hann þá dag ok nótt ok dvalðiz ekki, fór þá sem með kaupskap nökkurn ok forðaði sèr ok vitjaði staðanna ok mannanna því at hann uggði að landfólkið allt mundi snúaz til handgöngu við Rómverja en ætlaði svá að forðaz óttann að æingi skyldi vita hans náttstað. en er Metellus sá að kastalamenn voru búnir til orrosto þá væitir hann atgöngu með öllum brögðum þæim er Rómverjar voru vanir bæði að grafa undir steinveggina ok gjöra hjá virki ok vígi. þessi kastali var mjög rammgjörr ok torsóttligr fyrst af grundvellinum ok að veggjum ok turnum. hann lèt að ganga mest í tvæim stöðum þar er honum þótti helz til fallið: lèt gjöra vínflaka ok af upp hlaða ok þar af upp turna — settu þar menn í. en kastalamenn búa sín vígi ok verjaz ok láta ekki úfræistað til varnar, ok sitja Rómverjar xl daga um þenna kastala ok höfðu hèr marga bardaga ok mikla nauð. Rómverjar gjörðu það er hæitir aries ok búið með hvelum ok framan búinn múlinn með járni: var hlæypt forbrekkis að kastalanum ok styrkt með mönnum svá að veggrinn brotnaði.

---

20 stæinveggina ∽ ſtæıngeggına. 24 helz = helldz. 28 mikla = mickla.

en er kastalamenn sá þetta þá gjörðu þeir ráð: þeir er ríkastir voru gengu í konungshöll ok gjörðu þar væizlu mikla, buðu þangað öllu fólki, báru þangað allt lausafé; en er fólkið var víndrukkið þá slógu þeir eldi í höllina — brann þar allr lýðr ok allt fé. fengo Rómverjar þar ekki herfang en tóku kastalann. Eptir það komu sendimenn til Metellum af þeiri borg er Leptis hæitir. þeir báðu hann fá sér höfðingja þar til landvarnar ok lið því at sá maðr væitir þæim úfrið er Amilcar hæitir, tiginn ok hrekkvíss ‘hann vill upp taka við oss nýnæmi, en vér ‘höfum ekki afl við honum nema þér tjeið oss. hann brýtr ‘lög á oss. ok nema þér skyndið að hjálpa oss þá erum ‘vér í háska ok várt fólk’. en þessir borgarmenn höfðu gengið undir Rómverja þá er Kalpurnius stýrði herinum ok héldu síðan vel trú sína við Rómverja ok fyrir því þótti skylt að fulltingja þæim ok voro þangað sendir flokkar iiij — ok voru d í hverjum — þeirar þjóðar er Ligures hæita ok sá höfðingi fyrir er G(aius) Annius hét.

20. Frá landsvexti. Sjá borg er Leptis hæitir var fyrst gjör af Sidoniis mönnum. þar í Sidon varð fyrst úfriðr millum borgarmanna ok flýðu sumir á skipum til þessa staðar svá sem fyrr var sagt. ganga ij firðir inn sínum megin hvárr staðarins ok er þetta yzt í Africa. þesser firðir hæita Sirtes ok eru líkir að hætti en újafnir að vexti: djúp að landinu en allt annars staðar misdjúpt; ok þá er mestir stormar verða berr svá af sjáinn að vaða má ok svá gengr stormrinn með grunni að ofs mikla stæina færir ór stað — þar undir er sandrinn sem lím sæigt ok dregr það allt saman ok fyrir því sýniz allr annar vöxtr vatnanna aðra stund, ok af drættinum hæitir Sirtes. þeir blönduðuz að kvánföngum í Numidia ok hafa þá tungu

3 mikla = mıckla. 18 G(aius) Annius > gannıuſ (⌣ gamnuſ ⌣ ganmuſ). 20 gjör = gıo'rr. 23 megin = megín ⌣ megıñ. Africa = affrıca. 27 stormrinn = ſtorrmrıñ. ofs mikla = óſſ mıkkla.

ok þau lög. þeir bræyttu lítt siðum því at þeir voru langt frá konungsríkinu: millum þeira ok stórbyggðarinnar í Numidia er stór-langt óbyggt. ok fyrir því að ek hefi nú sagt frá þessum stöðum þá vil ek geta um æitt verk ágjætlikt ok þó undarlikt tveggja Carthaginiensium manna.

21. Frá landaskipti ágjætu. Carthagomenn voru mjög ríkir ok rèðu miklum luta Africe í þann tíð. Cirenenses menn voru aðrir ríkastir í Afrika ok auðgastir. millum þeira lágu stórar úbyggðir: sandar ok fjallslaust ok vatnlaust. en um það hvað landamerki skyldu ganga um auðnina millum þeira varð mikil dæila svá að um það urðu stórar orrostor ok margar, stundum með skipaher en stundum með landher: höfðu ymsir betr. nú hræddaz þeir er forflótta yrði að hinir mundi yfir allt ganga ok settu frið ok gjörðu þá sætt að tvá menn fengi hvárir til frá sinni byggð að fara í sandhafið en þar er þeir mættiz það skyldi vera landamerkið en á var kveðið glöggt um stund ok um stað hvernveg þeir skyldu fara ok jafnsnimma. tvæir bræðr fóru af Carthagine þeir er hæita Phileni (það er girzkt nafn) ok fóru skyndiliga, en Cirenenses sæinna ok væit ek æigi (sagði hann) hvárt þí olli ónenning eða atburðr nökkurr. um þessa úbyggð er slèttr sandr ok æingi viðr nè gras en ef mikill vindr kemr þar að mönnum þá verðr það úfært sem á sjá því at fyrir öngan mun má í gegn sjá sandfjúkinu. en er

3 Numidia > numıdıe. óbyggt > oooýgt. 5 ágjætlikt > a|oootlıkt. Carthaginiensium > cartagınenſíum. 6 Carthago > artago. 7 miklum = mıcklū. Africe > affrıcā. 7-8 Cirenenses > Cırınenſeſ. 8 Afrika = affrıka. 9 fjallslaust > oooflavſt. 11 þeira > ooo. 13 stundum > ooondū. 14 yfir < ooo yfir. 16 byggð > ooogð. 17 kveðið > oooðıð. 19 bræðr > oooðr. Carthagine = Cartagıne. 20 Phileni > Phılenaſ. girzkt = gırðzkt. en > ooo. 21 sagði hann ɔ: segir Salustius. 22 um > ooo. 24 þá > ooo.

þeir mættuz sjá Cirenenses að þeir hafa skammt farið ok þræta á hina að þeir muni farið hafa fyrr en skyldi því at þeir vitu ef þeir koma aptr að miklar refsingar munu þeir fá fyrir það er minni er þeira lutr vorðinn ór skiptinu. Phileni sanna sitt mál ok bjóða að læysa þrætuna svá að 'eptir ooo sem við segjum' sögðu þeir 'ok við 'viljum láta vera landsmerkið þá viljum við þar dæyja ok 'drepið þið okkr ok skal það vera þá fast skipti allan 'aldr, en ella fari þið þangað er þið vilið hafa landsmerki 'ok munum við þar drepa ykkr'. Cirenenses vildu æigi svá auka hlut sinna fèlaga ok kuru heldr að drepa hina ok svá gjörðu þeir. í þæim stað gjörðu Carthagomenn þæim altari ok dýrkuðu þá, en margir hæima að sín.

22. Frá Jugurtha ok Boccho konungi. En er Jugurtha hafði látið borgina Thalam þá sá hann ekki traust sitt í landinu í móti Metello: fór þá með fá menn um auðnir miklar ok kom fram til Getulos manna. sú þjóð var grimm ok óoooð ok kunnu þeir litla skyn á Rómverjum. ok þenna landsmúg samnar hann í æinn stað ok temr ooonð fylking ok undir merki ok að þjóna konungi, ok gaf hann fè þæim mönnum er þar voru vinir Bocchi konungs ok hèt þæim enn mæira að þeir skyldi "*tèia*" *mál* hans við konunginn ok þeir játuðu sínu fulltingi ok með þessum mönnum ferr Jugurtha á fund konungsins *ok bið*r hann berjaz móti Rómverjum með sèr. en í upphafi þessa úfriðar er Rómverjar fóru í Numidiam þá hafði Bocchus konungr sent

1 mættuz > mæooo. 2 en skyldi > oooẏlldı. 3 þeir vitu > uıtu. miklar = mıcklar. 4 þeira lutr > þeırooooıtr. 5 Phileni > Phılene. 8 drepið > oooıð. 9 vilið > oooð. 11 sinna > ooo. 12 Carthagomenn > Cartaooom̄n. 14 Boccho = bokko. En > ooon. 17 miklar = mıcklar. 18 óoooð < ósiðuð. 19 ooonð < (uıð ɔ:) við(?). 21 Bocchi = bokcı. konungs > ooo. 23 ok með > ooon;. 25 upphafi > uppoooı. 26 Bocchus = bocc'.

sína menn til Rómverja ok bæiðt sèr friðar ok sínu ríki af Rómverjum en þeiri orðsendingu höfðu æytt fáir menn þeir er ágjarnir voru ok fúser ófriðar ok fyrir því sá æingi hið rètta. það þótti Jugurtha æinsætt að hann efldiz móti þæim. en Jugurtha átti áðr dóttur Bocchi konungs: en það þó æigi mikils vert hvárki með Numidis nè Mauris því at menn gjörðu þar það að fjárafla: auðgir menn áttu æinn x eða flæiri, en hinir óauðgari nökkuru færi, en konungr því flæiri sem hann var ríkari ok af því var mægð sú lítils virð ok öngar virðir hann sem drottningar heldr jafnt allar. konungarnir leggja með sèr stefnu til umráða: kom þar hvártveggi með her sinn: gjöra þá trú milli sín. Jugurtha gleðr Bocchum konung með fögrum orðum; hann segir Rómverja rangláta ok fulla af ágirni ok allra manna fjandr ok óvini ‘ok sú sök er við mik ‘sem við þik ok við allar þjóðir að vilja ráða fyrir þæim. ‘öll ríki hæimsins eru þæim í mót svá sem fyrir skömmu ‘Carthaginienses ok konungr Persarum ok það er skjótaz ‘að hverr er auðgastr er í veröldinni ok flests á gnótt ‘sá er mestr þeira fjandi’. af þvílíkum orðum “kuæoooðiz hs̄” til liðvæizlu við Jugurtha. þeir fara = = Cirtam með herinn: þar hefir Metellus sett til gjæzlu liðooo Numidiemönnum. nú ætlar Jugurtha að Metellus muni til koma að duga kastalamönnum ok muniooo kostr að berjaz; en þetta var fyrir slægðar sakir við Bocchum að koma honum í orrosto, en þótti líkligt ef dvölin yrði að auðvelt væri

1 ok bæiðt > oooædt. 3 þeir er > ooo. 5 Bocchi = bocci. 6 en það þó < er það þó ⌣ en það er (⌣ var) þó. hvárki > huarooo. 8 flæiri > flæooo. 10 mægð > mooo. 11 sèr ⌣ sèr ooo. 13 Bocchum konung > boccooo. 15 óvini > ooonı. 17 hæimsins > hooofinf. 18 Carthaginienses > Cartagınenfef. 19 hverr > hooo. 20-21 “kuæoooðiz hs̄” < kvæykðiz hugr hans. 21 = = < til. 22 liðooo < lið við (?). 24 muniooo < muni þá. 25 Bocchum = boccū. 26 líkligt > lıkooo.

að gjöra friðinn við hann ok honum mundi allt annað betra þikkja en orrosta þá er hann ræyndi. Metellus spyrr þetta ok gjörir nú annan veg en fyrr ok ferr ekki til fundarins við hann sem fyrr var vant: hann ferr ok setr sínar herbúðir skammt frá kastala Cirta, vill þar bíða þeira ok berjaz ok láta vita ok ræyna þenna enn ókunna her Mauri að berjaz við ómæddan sinn her. Metellus spyrr af Rómaborg þau tíðindi að Marius er tekinn til = = = ok honum hafði til handa hlotiz Numidia. við þessi tíðindi varð hann svá dapr að hann mátti ænskis næyta fyrir ok æigi við tárum varna né tungunni stilla, ok þó að hann væri mikill afburðarmaðr fyrir allra luta sakir þá bar hann þó þenna harm blautliga ok lítilmannliga. um þenna lut ræddu menn á ymsa lund: sumir mæltu svá að þetta væri ofmetnaðr að kunna þessu svá illa að eptir lögum ok vanda Rómverja væri tigninni skipt en sumir mæltu það að hann kynni illa mæingjörð þeiri er þessi tign var af honum tekin en flestir sögðu sem ván var að hann kunni illa því er búinn sig*r* var tekinn af honum; en vèr vitum þetta glöggt að mest harmaði hann það er Marius skyldi tiginn vera af ooo "fınv" en ef annarr hefði tekið tignina þá mundi honum svá þikkja sem hann skyldi æigi af láta. ok af þessum hugsóttum urðu æigi svá snögg órráðin ok þótti óvitrligt að leggja sik ok sína menn í mikinn háska en vinna sigrinn öðrum til handa. hann sendir menn til Bocchum ok bað hann æigi gjöraz fjandmann Rómverja að saklausu ok kvað honum vera ván sætta ok

2 þikkja > þıooo. 4 fundarins > fvooorınf. 5 vill > ooo. 7 ómæddan > omooodan. 8 = = = < consul. 9 honum > ooo. 10 ænskis næyta > ænſkıooota. 12 afburðarmaðr fyrir > af burðar ooo. 14 ræddu > rædooo. 15 eptir > eooo. 17 þeiri er > ooo. 19 var > ooo. 23 ok af > Oooo. 24 menn > ooo. 26 Bocchum = bokkū. fjandmann > ooomañ.

vináttu af Rómverjum ef hann vildi ok kvað það honum mundu betr ræynaz en fjandskapr þeira ok þó að hann trúi föngum sínum þá er honum betra sitt æigin en ván ósýn ‘auðsýn er upptekja í orrostom en ósýn endamörkin því ‘at æigi ræðr sá lyktunum er upp hefr því at aller mega
27 ‘upp hefja úfriðinn en endimörkum ræðr sigrvegarinn: ‘þikki mér ráð að þú gjætir ríkis þíns ok blómi æigu ‘þinnar tapiz æigi með Jugurtha’. hann svaraði vel þessu ok þekkiliga, kvez gjarna vilja frið af Rómverjum ok ljez þetta hafa gört fyrir sakir vandræða Jugurthe ‘ok ef ‘honum er boðin slík sætt þá mun allt ásamt koma með ‘oss’. þá svaraði Metellus orðum Bocchi að hann vill hvárki játa né næita að gjöra sætt við þá báða konunga. nú fara orð ok sendimenn millum þeira ok hæimtiz svá fram stundin að ráði Metelli.

23. Marius tók tignarnafn sem fyrr var sagt með ákafa lýðsins ok með Numidiam til herlands. honum var mjög í mótstöðu enir tignu menn, en nú tók hann með græyplæik að hnæykja sèrhverjum þeira ok kallaðiz þessa tign hafa fengið af þæim nauðgum sem ránfang ok marga luti mælti hann til þeira mikilvegliga. ok þegar í stað bjó hann sína ferð ok bæiddiz að fullna skyldi allar fylkingar bæði af borgarmönnum ok lýðmönnum ok hèruðum, ok af Latio hèraði bað hann fara hvern enn styrkasta ok mest riddarana ok fáer voru þeir allfrægir — að því valði hann mest að menn væri sem kjænstir; ok einskis vörnuðu öldungar þess er hann krafði þótt hann væri þæim æigi vilmæltr; ok mátti honum æigi ámæla að sönnu að æigi væri hann hölzti kjænn við hersýsluna. svá girntiz

1 vildi > uıooo. 3 sínum þá > ſınooo. 4 endamörkin > enda mavrkooo. 6 ræðr > ooo. 9 kvez = kueðz. 12 Bocchi = boccı. 16 Marius > arıuſ. 24 fara > far. enn = en.

alþýðan mjög til að fylgja Mario að aller hugðuz vera mundu fuller fjár er aptr kjæmi. en er hann hefir fengið allt það er hann bæiddiz þá kvaddi hann þings ok talaði fyrir lýðnum á þessa lund.

24. Hæyri þèr Quirites (það eru Rómverjar). margir biðja yðr tignar ok haldaz æigi síðan í sömum háttum: þæir sýna sik fyrst ráðga ok lítilláta ok hógvera en síðan dramblála ok ala aldrinn með huglæysi. en mèr sýniz hæfa þveru frá því ok sýniz mèr vandara að stýra alþýðurjettinum en varðvæita tignarnöfnin að æins ok skyldi hann æigi að æins biðja tignarinnar heldr varðvæita, ef hann fær, með mikilli rækt. æigi blekkir mik það að æigi vita ek undir hversu mikla sýslu ek hefi tekið hèr af yðrum velgjörningi: að búa til orrosto sem þarf ok þyrma þó fèhúsinu en skylda þá til herfararinnar er þú vildir en gæyma alls úti ok inni en gjöra það fyrir ásjá enna öfundsjúkustu manna þeira er allt skynja ok eru hrekkvísir — slíkt er áhyggju verra. en þó að þeir misgjöri þá fulltingja þæim forellri þeira göfukt ok mikil verk enna fyrri manna en öll mín ván er í mínum íþróttum ok þarf ek því að gjæta þeira með mannkostunum ok mæinlæysinu því at allt annað er sjálfum ónálægra. það skil ek Quirites að aller sjá á mik ok enir rèttu "teia" mèr — því at mín góð verk hjálpa alþýðunni — en enir tignu læita á fangstaðarins. frá barnæsku til þessa dags hefi ek mik vant háskaförum. þökk geld ek yðr fyrir vingjafar ok æigi mun ek þær við verði selja. þæim er torveldlikt að stýra miklu ríki er látaz vera dyggir en eru æigi svá fyrir ágirninni; en mèr er æigi svá gefið því at ek hefi allan aldr aliz í enum beztum íðróttum ok snýz mèr til eðlis

5 Hæyri > æýrı  13 mikla = mıckla.  15 vildir < vildir æigi styggja.  22 annað = anað. það skil ek > það ſkıl ek. það ſkıl ek.  23 ok enir > ok en̉ ok en̉.  27 torveldlikt > toruelldlık.  28 miklu = mıcklu.

að gjöra vel af venjunni. þèr hafið boðit mèr að berjaz við Jugurtha en þetta þótti illa ráðit svæitarhöfðingjum. hæyrið nú, vili þèr æigi til taka æinn hvern af svæit tiginna manna til þessa starfs eða annars þvílíks ok skipta nú senda þangað mann af enu forna höfðingjakyni þeira er margar líkneskjur eru eptir skrifaðar en hann sè með öngri atferð dugandi ok hann kunni ekki að þessu starfi ok hræðiz ok rasi fyrir ráð fram! opt berr svá að að sá er þèr takið til höfðingja — að sá verðr annan að hafa fyrir sèr. veit ek að mörgum ferr svá að að síðan er þeir urðu consules tóku þeir að lesa dóma hinna fyrri manna eða riddarleg verk Girkja eða lög; svá gjöra þeir er mistekið er til: fyrr ætti maðr að kunna en fá tignina. Quirites, jafnið mèr saman nýjum manni ok ofmetnaði þeira því at þau verk er þeir lásu með bókstöfum eða hæyrðu þau nam ek í riddaraskap. sjáið nú þá hvárt mæira er virðanda að mæla eða gjöra. þeir apa nýlæik minn en ek læita á úkjænsku þeira. mèr hæimtaz í mót hamingjuverk en þæim brigzli. æigi er fyrir því svá að æigi væri öllum gott skapað: hinn veg verðr að ræyndinni "ſa er kýngavfgaztr er. er ſterkaztr er" í vitinu; ok ef spurðir væri feðr Calpurnii ok Albini hvárn þeir vildi hafa að sonum átta mik eða þá, skjótt mundu þeir svara að kjósa heldr ena kjænu sonu ok ena beztu "helldr þa". en ef þeir vilja mik fyrirlíta með sönnu þá fyrirlíta þeir hið göfgasta sitt forellri því at þæim vóx svá tignin af mannkostum sem mèr. en spilltir menn af ofmetnaði rækja því mína tign að þeir eru fjarlægir mínum verkum, en þeir biðja svá tignanna sem þeir sè vel til fallnir. eru þeir æigi skröksamligir er það vilja saman hafa er úlíkaz

---

19 brigzli = brigðzlı. 21 "ſa er kyngavfgaztr er. er ſterkaztr er" < að sá er kyngöfgastr er sterkastr er. 24-25 "helldr þa" < heldr en þá. 28 mína > mıña.

er, að lifa með munuð ok úkjænsku eða ætla sér þar fyrir góðra verka ömbun? en er þeir tala fyrir yðr eða fyrir öldungum þá minnaz þeir á framaverk sinna frænda ok kalla þá, sem er, ágjæta ok ætla sik af þæim munu verða mikla; en það er þvers í mót: því betri ok tiguligri er voru verk þeira þá er því glæpiligra að gjöraz þvílíkir ættlerar. en svá er þenna lut rètt að virða að metnaðarverk er sem ljós sè afkvæmi hans: hvárki má læynaz góðir lutir hans nè illir. hæri þèr Quirites, það hefi ek er ágjætligra er að telja — verk mín sjálfs. sjáið hvè illgjarnir þeir eru er æigi vilja láta mik ná að halda mínum mannkostum en þeir hæla sèr af annarra verkum; en að vísu hefi ek öngvar líkneskjur kynsins ok em ek nýr í tigninni, en myklu er betra að bera sjálfum þess líkindi en er að taka í erfð ok spilla sjálfum. ok ef þeir enir tignu hæyrði mitt mál þá mundu þeir af snilld fagra ræðu móti setja því at af þessum enum mikla tilgjörningi yðrum til mín þá ámæla þeir yðr ok mèr í hvern stað ok hæfir æigi að þegja við með öllu að æigi þikki þæim sem ek sè sönnu sagðr: æingi tala má mik hnæykja að sönnu að mínu viti. vel væri að þeir segði sanna luti frá oss en þeir segja þó falsaða því at mèr bera vitni líf mitt ok siðir. yðart ráð er lastað því at þèr gáfuð mèr tign 29
ok fenguð hina vöndustu sýslu. hugsið nú, þikkir yðr þetta misráðið er ek má æigi sýna yðr líkneskju trúliga þá er mínir frændr hafi unnið sigrana eða þeir hafi unnið hina mestu tign? hæyrið nú þá hvað ek skal sýna: spjót ok merki ok aðra riddarliga herneskju ok örr á mèr — það eru mínar líkneskjur ok það er mín tign, ok hefi ek æigi þessa að erfð tekið sem þeir hina heldr hefi ek þessa aflað með mínu erfiði. ekki eru orð mín skræytt með hannarmæli því at ek nam það ekki, heldr hrósa

---

1 eða = ·é·. 5 mikla = mıkkla. 14 myklu = mẏkklu. 17 mikla = mıckla. 26-27 unnið hina = unıð hına.

hèr mannkostirner sèr sjálfir til ærins; þeir þurfu slægð orðanna að þeir megi hylja ljót verk sín með slèttri tölu. ekki nam ek girzkar rúnar, ekki líkaði mèr það, því at manngi hefja þær til mannkosta þó að þær nemi. miklu betra námi hefi ek lærðr verið til alþýðurèttarins — því, að drepa fjandmennina, setja varðhöldin, hræðaz ekki nema að gjöra ljóta skömm, láta mèr jafnt þikkja að bera vetrar nauð ok sumars hlýið, hvíla á jörðunni ok á æinni stundu þola hungr ok erfiðit. til slíkra boðorða mun ek hvetja mína riddara ok æigi mun ek þæim annað kenna en mèr ok öngan lut í háskanum fæ ek þæim ógnógligar en mèr: gjöra æigi mín verk þeira lof ok æigi þeira verk mitt lof. það er hófligt ok vinsamligt. ef þú vilt þik blautliga sjálfan frammi hafa en eggja herinn í mannhættuna — sá vill hæita drottinn en vera æigi rjettr hertogi. þetta gjörðu hinir fyrri menn yðrir að unno sjálfir verkin — hófuz svá sjálfir við alþýðurèttinn. af þeira verkum er studd alþýðusvæitin, úlík þæim í siðunum: hón hafnar oss er þæim líkjumz en biðr af yðr allra tigna æigi af verðlæikum heldr sem þeir æigi skuld að hæimta. ó hó, heldr villaz enir drambsömustu menn í slíku: enir fyrri menn þeira læifðu þæim með arfi auðinn, líkneskin ok minning ágjætsamligra verka; en mannkostina lètu þeir æigi eptir að miðla þæim því at hann má æigi gefa æða þiggja -- hann verðr hverr að fá sèr. saurugligr ok ófaguligr þikkir þæim minn búningr því at ek skræytumz lítt í sumblin ok virði ek æinskis læikarann ok æigi mæira stæikarann en þorpkarlinn. slíku skal með sönnu játa: svá nam ek að mínum feðr ok að öðrum helgum mönnum að konur skyldu prýðaz að klæðum en karlar þola erfiði ok það enn að aller góðir menn skyldu mæirr girnaz manndýrðir en fjárins ok

3 girzkar = gırðzkar. 4 miklu = Mıkklu. 14 frammi = framı. 18 alþýðusvæitin < höfðingjasvæitin. 21 í slíku > = = = ı ſlıku. 30 erfiði = erfuıðı.

prýðaz mæirr með vápnabúnaði en að rekkjuskrauti. en æigi gjöra þeir svá heldr það er fýsir ok kjært er — unna ok drekka ok svá sem þeir tömdu sik í æskunni því at í mannboðunum eru þeir gefnir maganum ok þjóna hinum ljótasta lim líkamans en svæita ok erfiði spara þeir oss: það er oss ok skemmtiligra en krásir. en opt verðr þæim ekki mæin að því er slíkt fremja með sællífi ok ókjænsku, en það er þó enn mesti skaði alþýðunni. ok heldr hefi ek þæim sagt með varúð af minni siðsemi en af verðlæik glæpa þeira, ok mun ek því fám orðum ræða um alþýðuhaginn. fyrst vil ek yðr þess biðja, Quirites, að þèr leggið góðan hug til várrar ferðar í Numidia því at aller þeir lutir er mest hafa varið Jugurtha 30 konung til þessa . . . hafi þèr látið að baki yðr, það er ágirni ok ókjænska ok ofmetnaðr. ok herr sá er þar er væit nú mikla skyn á landaskipun; en æigi mun hann fyrr verða vaskr en að mèr nemr hann því at mikill luti höfðingja er spilltr af fègjöfum Jugurtha. af þessum sökum kostið nú — herðið huginn með mèr til hersýslunnar að vèr megim ná hlut aldúðunnar ok várn rjett. hræðiz æingi yðvarr þeira úfarar er fyrr hafa farið nè metnað ræðismanna því at ek man fyrir vera sjálfr ráðamaðrinn í fylkingunni ok í orrosto ok ek mun fylgja yðr í hverjum háska ok hvað sem að hendi berr þá mun ek vera með yðr. skjótt munu goðin oss láta fá sigrinn ok herfangið ok lofið. en þó að vèr megim æigi það gjörla vita “uilia guðana að þav fe langt f^u off” þá samir oss þó allt várt erfiði til þess að hafa að alþýðu nytin verði. eingi maðr má údauðligr verða af úkjænskunni; eingi faðir má þess æskja sínum syni að hann sè ódauðligr með líkama, heldr að hann lifi sem bez ok góð verk hans fariz æigi. flæiri luti mælta ek nú fyrir yðr, Quirites, ef með orðum mætti

---

5 erfiði = erfuıðı. 9 sagt = ·f·. 16 mikla = mıckla.

hug gjöra hræddum manni; en hæyrið nú talað fyrir vöskum mönnum.

25. En er hann hafði lokið tölunni þá sá hann að hugir manna höfðu harðnað ok býr ferðina sem hvatligaz, hleðr skipin með vistum ok vápnum ok þæim lutum er þarf ok setr yfir þenna her Aulum Manlium. en hann lætr skrá nöfn riddaranna ok æigi að sið enna mæiri manna ok ekki að skipun skipanna heldr hafði hann hvern er fara vildi ok marga þá er útlaga ok drápsmenn voru. sumir virða svá er hann hafði með sèr vánda menn sem æigi fengi hann ena betri, en sumir kölluðu að hann vildi fyrir ágirni sakir hafa sem flesta: en það var hans frændlið eða þessu líkt ok af þvílíku hófz hann til tignar; ok þæim manni er sèr læitaði nýrra metorða þótti sèr sá hverr hugfelldastr er úauðgastr var — því at þá langaði eptir fát ok áttu fá að þyrma — ok alls kunni þökk þess er þeir fengu. Marius fór með nökkuru flæira liði í Africam en ákveðit var af höfðingjum. á fám dögum fór hann í Uticam skipaliði sínu ok seldi Publius Rutilius honum herinn í hendr þann er Metellus hafði stýrt. Metellus hafði braut flýið ór augsýn Marii ok vildi æigi sjá þá luti er æyrun máttu æigi bera að hæyra. Marius dvalðiz ekki í Utica ok fór með herinn í æitt auðigt hèrað ok lèt þar allt ræna ok fekk mikið herfang ok var þí að jafnaði skipt með herinum en síðan gengr hann yfir kastala ok borgir þar er æigi var torsóttligt fyrir liðs sakar eða viðbúnaðar ok á margar orrostor. enn gjörir hann orrostor í flæirum stöðum ok ekki stórar. ok af þessu tóku nýir riddarar að dirfaz við orrosto því at þeir sá suma drepna í flóttanum en suma handtekna, ok á skammri stundu styrkðuz enir nýju ok jöfnuðuz við ena fornu: tók þá allra afli jafn að gjöraz. en er konungar spyrja slíkt frá

---

3 En > n. 6 Aulum > Pavlū. 15 úauðgastr > navðg-aztr. 18 Africam = affrıcā.

Mario þá fara þeir í þá staði er torsótt var til: svá vildi Jugurtha ok ætlaði að Rómverjar mundi með minni gjæzlu fara ok sundrlausara þegar er þeir væri í friði fyrir þæim. En er Metellus kom til Rómaborgar þá var hið glaðligsta við honum tekið ok annan veg en hann hefði hugað, ok 31 er niðr hafði lagiz við hann sú en mikla öfund þá var hann þekkr ok kjærr öllum mönnum.

26. Marius hyggr að vandliga ok gjætir úlatliga ok vitrliga sinna manna lutar ok svá til fjandmanna ok hvað að mundu hafaz hvárir, enir rösku ok hinir blauðu, — njósnar til konunganna, um ferðir þeira ok ætlun ok umsátir, ok verðr alls víss: ekki lætr hann ófræistað. en Jugurtha ok Getuli væita opt áráser hans mönnum — taka opt ránfang af þæim. Marius væitir ok þæim áhlaup i förunum ok drepr marga ok skammt frá Cirta flýði Jugurtha ok lèt vápn sín. en er þesser enir ágjætligu lutir voru orðnir þá var æingi kostr fyrst að berjaz við konung. Marius tók þá það ráð að fara til borga þeira er auðgar voru ok honum hagfelldar til atvinnu ok ætla konunginn munu til koma að duga sínum mönnum ok berjaz við hann ella muni hann láta borgirnar. Bocchus sendir opt menn til Marium ok vill frið gjöra við hann ok biðr hann æingi fjandskap hræðaz af sèr; en það væit ek æigi um þessar orðsendingar hvárt hann gjörði fyrir sakar hverflyndi eða var það sett til svikræða við Marium ef hann tryði honum því at hann brá opt hvárutveggja, friðinum ok orrostonni. þá fór Marius, sem hann hafði ætlað, til borga ok kastala ok vinnr: tekr sumar með afli en sumar voru upp gefnar af hræzlu en suma óvinina lokkar hann með fégjöfum. ok fyrst gengr hann ekki snarpt að borgunum ok ætlaði að Jugurtha mundi koma að verja sína menn. en

6 mikla = mıckla. 7 hann +. 8 Marius > arı'. 9 manna lutar = maña. lùtar. 11 konunganna = k̄gana. 15 Cirta ∽ Cırca. 17 berjaz > bıaz. 21 Bocchus -- Bocc'. 22 biðr > bıð.

er hann frá að konungr var langt á braut ok í öðru starfi þá gekk hann að fastara ok vann þær. Einn kastali hèt Capsa er kominn var torsóttliga milli æyðimarka nökkurra ok var mikill ok sterkr ok auðigr ok þessa borg hafði gört Hercules Libis að því er menn segja. þessir borgarmenn sátu hlutlausir fyrir Jugurtha ok með litlum álögum ok voru því honum mjög trúir. þæim hlífði mest við ófriði er þangað var torsótt með her ok meir en af fjölmenni þeira eða styrk borgarinnar. fyrir utan borgina var víðt auðir staðir ok gat æigi vatn en kykt allt fyrir ormum ok voru þeir því óðari ok grimmari sem þæim var þar verra til fæzlu en í byggðinni ok það er náttúra höggormanna að vera því skjæðri sem þá þyrstir mæirr. mjök girndiz Marius að vinna þenna kastala af því að hann kunni vel við orrosto ok af því að þetta var torsótt ok mundi þikkja frægðarverk ef fram gengi ok enn það er Metellus hafði unnið Thalam með frægð mikilli ok nær var þetta jafntorsóttlikt að vinna nema fyrir þí að við Thalam voru nökkurir brunnar en Capsenses menn höfðu lítið vatn ok var innan borgar en um fram þetta höfðu þeir regnvatn þá er gat. en þar sem um allt Africa þar er fjarri er sjónum — að mæira bera menn ok auðveldligarr þorstann því at víða í Africa fæðaz menn við mjöl ok á dýraholdi ok ekki hafa þeir salt við mat ok ekki brýni: þeir næyta fæzlu við hungri en drykkjar við þorsta en ekki með gæytlan eða gjálífi. Marius hefir nú fastráðit að læita til kastalans ok hefir spurt þaðan allt hið sanna ok hygg ek að guðin fulltingi honum því at þar mátti æingi örugg ráð fyrir sjá hvern veg það mætti áleiðis komaz fyrir torfæris sakar: enn var það til að vistafátt gjörðiz herinum því at Numide rækja æigi mjög jarðarávöxt en það er var hvæitissins þá hafði

2 starfi = ſtarfui. 19 en > e. 22, 23 Africa = affrica.

konungr látið braut flytja í borgir eða kastala til gjæzlu en upp skorið allt hvæitið því at þá læið mjög á sumar: ok áhyggjaðiz hann mjög um ok vitrliga við hvað þeir skyldu fæðaz því at öllum fènaði var skipt í svæitir þæim er fengiz hafði hina fyrri daga. þá sendir hann Aulum Manlium í þorp það er Laris hæitir með búnum flokkum að sækja þangað atvinno þá er konungr hafði þar látið hirða ok ljez þar munu koma fám dögum síðarr að væita þæim lið ef þeir þurfu ok alla menn læyndi hann hvað hann ætlaðiz fyrir. þá flytr hann herinn álæiðis til ár þeirar er Tana hæitir, ok hvern dag skiptir hann fènaði með hundraðshöfðingjum ok því er til atvinnu fekkz, en hann lèt af öllum húðunum gjöra "bukreka" sem flesta ok lètti sem mest vistafæðinni: lèt búa allt það er honum þótti þurfa til ferðarinnar óvitanda allra annarra. á sètta degi kom hann til árinnar. þá eru gjörvir "bukrekar" svá margir að hann hyggr að æigi mun skorta. hann biðr setja þar herbúðir ok búaz um með æigi miklu starfi ok biðr herinn mataz ok biðr þá vera búna að sólarfalli um kveldið: hann mæler að allar klyfjar skal eptir láta en hann sjálfr lèz munu bera vatn eptir sèr 'svá skal hverr 'annarra ok klyfja af vatni öll kykvendi þau er vèr megum 'til þess hafa'. en er þeir eru búnir þá fara þeir ok ganga þá nótt alla en hvílaz eptir um daginn; fara þeir enn aðra nótt ok hina þriðju ok koma þá fyrir dag til hæðar nökkurrar: það var tvær mílur frá kastalanum Capsa: bað hann þá vera hljóða. en er dagar þá fara Numide út af borginni hverr til sinnar sýslu ok vænta sèr æinskis úfriðar. Marius býr riddara sína ok með þæim þá menn er fóthvatastir váru: bað þá fara sem skjótaz til Capsam ok taka borghliðin, en hann kvez mundu fara sem skjótaz

---

5 Aulum > pavlū. 6 Laris > lurıſ. 11 Tana > tanaıſ. 13 "bukreka" ⌣ "bukreka". 16 gjörvir = gıorf'. 18 miklu = mıcklu. 31 borghliðin = bghlıðın. kvez = kueðz.

með herinn ok væita þæim fullting. en er borgarmenn verða varir við úfrið hræðaz þeir sem ván var en margir voru utan borgar: buðu þeir upp að gefaz. þeir tóku þegar kastalann: var þar drepið mart fólk — aller granspréttingar; mart fólk var selt; herfangi öllu var skipt að jafnaði, en brenndr kastalinn. þetta verk var ekki gört að siðvenju Rómverja ok æigi gjörði Marius fyrir ágirni sakar eða glæpsku: það bar til að staðrinn þótti þæim Jugurtha mundu vera hagfelldr ef hann settiz í því at þetta mannfólk var útryggt ok sviklynt en úkunnikt var það áðr Rómverjum hvárt þeir voru góðer eða illir ok enn það að þessi staðr mundi torunninn ef hann hefði haldinn verið með vizku eða viðrbúnaði.

27. Marius varð af þessu verki stórliga frægr ok þótti hann nú miklu mæiri maðr en áðr er hann hafði unnið svá torsóttan kastala ok látið öngan mann ok þótti mönnum sem allt mundi það fram gengt verða er hann réð: bæði ríkir ok úríkir hófu þetta verk á lopt: en Numide sjálfir hræddduz hann mæirr en mann ok tóku að trúa bæði vinir ok úvinir að hann hefði guðliga hyggju eða guðin birti fyrir hónum óorðna luti ok væri hann forspár. en er Mario hafði þetta svá auðveldliga tekiz þá
33 var hann að gjarn*ari* að vinna aðra kastala. fá kastala tók hann svá að þeir verði fyrir honum en hann brenndi marga. hræzla mikil varð úvinunum því at marga staði tók hann svá að öngum blæddi hans manna. Nú ferr hann þangað er æigi var auðsóttara að vinna en Capsam.

28. *Unninn kastali af Rómverjum í Numidia.* Skammt frá ánni Mulucha þar er skilr ríki Jugurthe ok Bocchi er fjall hátt ok vegghamrar umhverfis en sléttir veller um

---

1 herinn = h̃ın. 11 áðr ∽ aðz. 14 Marius > arıuſ. 15 miklu = mıcklu. 28 *Unninn (= Vn̄ın̄)* ⌣ *Vunninn (= Vunn̄)*. Skammt > kamt. 29 Mulucha = muluka. Bocchi = boccı.

utan ok var svá mikið vígi æitt saman fjallið sem hinir sterkustu kastalar því at það var furðuliga hátt fjall: svá voru hamrarnir vaxnir sem settir steinveggir en þröng gatan upp á bergið. Marius er fúss að vinna þenna stað því at hann væit að þar eru miklar fèhirzlur Jugurthe. en sjá lutr varð betr en þetta væri ráðligt því að þesser kastalamenn höfðu gnótt vápna ok mikinn liðsafla ok æigi skorti þá hvæiti ok þar var brunnr vaz ok bæði af turnum ok öðrum vígjum orrostligum mátti ekki þann stað vinna en stıgrenn var þröngr. ok læituðu þeir þar helz til ok gjörðu tveggja vegna þar út í frá vígin sem þeir voru vanir: gjörðu vínflaka eða turna. en kastalamenn velto ofan stóru grjóti eða köstuðu eldi þegar er menn sóttu upp ok varð það várum mönnum með miklum háska ok æigi máttu riddararnir við standa ok æigi vínflakarnir en hverr enn fræknasti var særðr eða drepinn en aller hrædduz. en Marius varð dapr ok áhyggjufullr marga daga af þessu hvárt hann skyldi frá hverfa eða skyldi hann træysta mæirr á hamingjuna þá er opt hafði honum mikið "tıeðı" fyrr. í því bili varð sá atburðr að æinn hèraðsriddari er kallaðr var Ligus ok af ætterni sínu svá (hann var æinn af flokkum þæim er þangað voru sendir til liðs) — hann hafði farið til árinnar að sækja vatn annan veg frá kastalanum en bardaginn var: hann hyggr að um stæina nokkura þá er svá lágu sem vindr er gjörr, en er hann gekk að æinum klæif hann á annan ok hvern af öðrum til þess er hann kom langt upp í bergið: þá litaðiz hann um víða ok sá æigi þá víst um handafestina en hann var fúss að fara: þá sèr hann í æinum stað millum stæinanna hvar trè það stóð er ilex hæitir, mikið ok kvíslótt — lúta sumar niðr sumar út af sumar upp ok

5 miklar fèhirzlur = mıcklar fe hırðzlur. 10 helz = helldz. 12 vínflaka ∽ um flaka. 14 miklum = mıkklū. 16 frækn-asti > fræknazt. 20 "tıeðı" ɔ: tjeð í ⌣ < tjeð.

bræidduz víða um flárnar, voru sumar grænar en sumar fyrndar: þangað ferr hann ok fær náð limunum ok dregz svá með berginu en stundum með trénu, klæif hvárt er hann mátti heldr til þess er hann kom upp á bergið ok bregðr augum yfer kastalann — var hann slèttr ofan — ok sèr að Numide eru aller annan veg á kastalann ok verja þar vígin ok sjá ekki þar í frá: hann njósnar slíkt er hann má það er nauðsynlikt var ok ferr aptr sömu læið ok læitaz um hvar vildaz væri að fara ok fræistaði um öll stig. hann ferr sem skjótaz á fund Marius ok segir honum þetta ok eggjar hann að læita til uppgöngunnar þar er hann fór ofan 'ek mun' sagði hann 'fyrer fara'. en Marius sendir menn að sjá ef svá megi vera sem Ligus
34 seger. en er þeir sá þótti það æigi öllum æinn veg: þótti sumum sem komaz mundi mega ok þó nauðuliga, en sumum æigi. ok þá velr Marius af lúðrsvæinum sínum þá er fótfimastir voru ok skjótastir, en það var alls í herinum v þúsundir, ok setr hèr fyrir cccc höfðingja ok biðr þá hlýða orðum Liguris ok kveðr á dag nær þeir skolu búner vera. hann lèt búa ferð þeira sem bez ok ferr með þæim til staðarins. Ligus hefir kennt þæim hvernveg þeir skolu búaz. þeir voru berfættir ok ekki á höfði til þess að þeir mætti vel um sjáz — sverð ok skjöldu bundið milli herða sèr: þesser skildir voru númverskir af húðum gjörvir fyrir þí að þeir voru lèttari ok minnr hæyrði til þót þeir komi við grjót. Ligus gengr fyrir um stæinana til trèssins en alla kvistu þá er fornir voru batt hann með "ſnavrū" að trauster væri: þar tóku í riddararnir; en þeir er verr voru færir þá læiddi hann, ok þar mest er torveldligaz var að fara; ok suma læiddi hann vápnlaus ok bar eptir þæim vápnin; en er aðrir ifuðu að ganga þá ræyndi hann

---

1 bræidduz ∽ þ́ræidduz. 15 komaz = ſkomaz. 17-18 v þúsundir < v. 18 cccc < iiij. 19 Liguris > liguri. 21 hvernveg > hu̇ueg. 24 gjörvir = giorf⁷.

fyrir; opt gekk hann báði upp ok ofan ok við það dirfðuz aller. með mikilli mæði komu þeir á kastalann ok sjá kastala auðan af mönnum nema þar er þeir verja vígin. en þeir skyldu þegar gjöra mann til Marius er þeir væri upp komnir, ok nú kemr honum orðsending sjá. en þó að þeir væri mæddir áðr mjög því at þeir höfðu bariz allan stıg . . . hann eggjar nú fast riddarana ok biðr að ganga með skotum ok valslöngum en hann sjálfr gengr að af vínflökunum ok hefir hválf yfir höfði sèr ok þæim er honum fylgðu en sumir hlóðu grjótenu undir fætr þæim ok þoka þeir svá upp í bergið. opt höfðu Numide brotið vínflaka Rómverja eða brennt. borgarmenn gjörðu nú sem þeir voru opt vanir — bölfuðu Mario ok Rómverjum ok kölluðu þá hæimska af dul sinni er þeir ætluðuz slíkt fyrir, er þeir máttu æigi á læið koma, að vinna kastalann, ok fyrr mundi Jugurtha þrælka þá alla — ok tóku nú grimmliga að berjaz ok slíkt sama Rómverjar. Rómverjar berjaz sèr til ríkis ok frægðar, en Numide verja líf sitt ok frelsi ok megu lítt um sjáz. en vávæifliga hæyra þeir á bak sèr að lúðrar þjóta, ok fyrst tóku að flýja konur ok ungmenni er nær voru þæim ok sá fyrst fyrir því er þau áttu ekki að starfa ok síðan þeir er næster voru ok þá hverr að öðrum sumir vápnaðir en sumir vápnlausir. en Rómverjar þá er þeir hæyrðu þetta að þeira menn voru upp komnir á kastalann þá snöruðu þeir atgönguna ok særðu þá suma en suma drápu þeir ok fengu þá komiz upp á kastalann ok lètu æigi ránfangið dvelja sik ok drápu ákafliga fólkið — voru gjarnir metorðanna. svá mart fèll að þeir gengu á búkum dauðra manna. af þessi dirfð Marii óx mjög hans frægð svá sem til mikillar glæpsku var stýrt.

---

6 því at þeir höfðu > þ̅t þr havfðu þ̅t þ̅r havfðu. 9 vínflökunum ∽ umflavkunū. 12 vínflaka ∽ umflaka. borgarmenn > b̅gar.

29. Frá Silla ríka. Lucius Silla kom þá til herbúða Marii þá er hann var við kastalann. Silla hafði þá tign er questor hæitir: hann hafði mikla riddarasvæit: þenna mann hafði Marius eptir látið i Rómaborg til þess að samna her af Latio hèraði. En þí að sjá lutr minnir oss á að segja frá svá miklum manni sem Silla var þá líz mèr æigi annan veg betr til fallið en nú að segja hvert æðli hans var eða umbúð. þó að Lucius Sisenna segði vel ok vandliga frá mörgu þá sagði hann æigi hèr svá frá að mèr líki. Lucius Silla var af tiginni ætt þeiri er "Patrıcıa" hæitir: þetta kyn var allt farið ok drepið af öfund enna mæiri manna. hann var sem bezt lærðr bæði að girzku ok látínu: hann var með ofs miklum hug, — maðr munuðlífr en þó gjarnari ágjætissins, þá eptirlátr sèr er æigi var skyld athöfn en aldri dvalði hann það frá nauðsynjum: sómasamliga mátti hann gjæta sín frá konu sinni: hann var snjallr að máli, slægvitr, auðsóttr í vinfengi, undirhyggjumaðr mikill, örr margra luta ok mest fjár ok hinn vinsælsti: ekki rèð hann það er æigi yrði að hamingju, fyrr en hann dæildi við sjálfa Rómverja: æigi vissu menn hvárt meirr var frá, sællífi hans eða brjóststyrkt hans: en þá luti er hann hefir þó gört þá væit ek æigi hvárt mæirr er að skammsamlikt er að segja eða vil er í að hæyra. en er hann kom í Africam með herinn þá var hann nýr til orrosto ok ókunnr flestum ok var þegar áhyggjufullr um hersýsluna þót hann hefði þá enn í fám raunum verið ok enn hèr með var hann linmæltr ok góðgjarn við alla riddara ok þess er hann var beðinn þá væitti hann gjarna en trauðliga vildi hann þiggja af öðrum ok ef hann tók að láni þá galt hann skjótt en ef hann seldi að láni þá hæimti hann ekki: mæirr girntiz hann

3 mikla = mıckla. 6 miklum = mıkklū. líz = lıtz. 13 girzku = gırðzku. miklum = mıkklum. 17 vinfengi ∽ uni fengi. 24 Africam = affrıcam.

þess að flestir skyldu honum æiga gott að launa; en þá er hann var sýslulauss átti hann skemmtan ok læika við gleðimennina ok í athöfninni var hann optaz með þæim er lítillátastir voru: þá er vaka skyldi þá mátti hann mest við. ok ekki hafði hann það sem margan hendir að. hann ámælti hertogunum nè öngum öðrum. af slíku skaplyndi ok íðróttum varð hann brátt kjærr Mario ok öllum riddurum.

30. Orrosta Rómverja við Jugurtham. Jugurtha konungr þá er hann hafði látið Capsam ok marga aðra staði, borgir ok kastala, sèr nytsamliga ok með mikið fè þá sendi hann orð Boccho konungi að hann skyldi samna her sem mestum ok koma í Numidiam ok kvað nú æigi mega fresta orrosto við Rómverja. en er Jugurtha sá að hann ifaðiz í hvárt hann vildi heldr orrosto eða gjöra frið þá gjörði hann sem fyrr — bar fè undir vini hans til þess að þeir eggjaði hann til orrosto, ok nú hæitr hann sjálfum Boccho að hann skal hafa þriðjung Numidie ríkis ef annað hvárt verðr að þeir reka Rómverja braut ór Africa eða þeir sættaz svá að Jugurtha fær ríki sitt. af þessi gjöf varð Bocchus til lokkaðr að samna her ok kom með mikinn fjölða til Jugurtha. Jugurtha samnaði her ok fóru þeir báðir saman á hendr Mario þá er hann var á för til vetrvista sinna. það var eptir æykð dags er þeir hittuz því að konungar vildu svá: þótti sèr hlíf að nóttinni ef þeir fengi úsigr en ef þeir fengi þá gagn þá var þæim allt kunnikt fyrir ok stöðvaði það ekki þeira ferð þótt myrkt væri en Rómverjum þótti þæim hvártveggja torsóttlikt. nú spyrr Marius af mörgum kvámu úvinanna ok það að nú eru þeir þar komner ok vilja 36
þegar berjaz. en Rómverjar voru ekki við búnir — ekki klyfjarnar ofan lagðar ok æigi merkin upp komin. æigi

8 Rómverja > rovia. Jugurtha > ugurtha. 11, 17 Boccho = bocco. 19 Africa = affrica. sættaz > ſættuz. 20 Bocchus = bocc'.

fylkt ok ekki skipað nė æinum flokk — þá er Getuli ok Mauri þæysa áræiðina: ok ekki með fylktu, heldr keppiliga í riðlum svá sem til hlauz, hlaupa þeir á Rómverja. þeir óttuðuz svá vávæifligan atburð ok minntuz þá á hræystina: tóku sumir vápnin upp en sumir hlífðu þæim er óbúnir voru sumir stigu á hestana ok sneru í gegn, ok varð þessi fundr þí líkari þá sem verðr þá er illmenni er sótt en konungligri orrosto því at æigi komuz merkin upp ok ekki fylkingar á hvárki riddaranna nė fótgangandi manna heldr óð allt saman: tóku Rómverjar að drepa marga ok börðuz sem snarpligaz: sumir sneru á bak þæim: æigi aflið ok æigi hlífarnar máttu til fulls firra þá sárunum því at Getuli ok Mauri voru flæiri ok sóttu af öllu megni: þá tóku Rómverjar ener fornu ok svá hinir nýju saman að riðlaz hvar sem stað fengu sėr eða að barst, tóku þá að hlífa sėr ok að fylkja, námu þá við ok vörðu sik ok stóðuz þá afl fjandmanna. ok ekki hræddiz Marius í svá snarpri atgöngu ok vávæifligri: æigi fór hann nú með ógrimmara hug en áðr heldr fór hann hvarvetna um herinn ok eggjar sína svæit þá er hann hafði sėr valið af hinum sterkustum mönnum ok sėr hinum hollustum, tjæði þæim sínum mönnum er verst voru staddir en stundum rann hann á fjandmanna flokkinn þar er þykkt var fyrir: opt brá hann upp hendinni ok kenndi riddörunum hvað þeir skyldu að hafaz því at hann mátti æigi segja með orðunum í þæim þys. nú var dagrinn farinn en konungarnir börðuz enn sem áðr ok ætluðu að berjaz alla nóttina ok þá enn snarpara. en er Marius sá að það mátti æigi vera að berjaz í myrkri þá litaðiz hann um hvar hann sæi þann stað er þeir mætti haldaz ok hlífa

---

1 fylkt = fýlgt. 3 hlauz = hlautz. 14 megni ⌣ megin. af öllu m. < að öllu(m) megin (✲ quod hostes numero plures et undique circumfusi erant, Jug. 97, 5). 21 ok sėr > ok ſe. 26 nú ∽ Nuı.

sèr. hann sèr skammt á braut hvála tvá eða hálsa. á öðrum var lítill kastali ok hjá brunnr góðr, en annarr var þæim hagfeldari því at sá var víðari ok hæri ok minna vígið á. hann biðr að Silla með riddaraherinn skal hæimtaz þangað til hólsins er brunnrinn var ok gjæta þar hersins um nóttina. en Marius læitar að hæimta saman svæitirnar þær er dræifz höfðu ok mæirr voru skelfðar af ótta ok læiddi þá fulla göngu upp í hólinn þann enn mæira. ok svá urðu konungarnir nauðgaðir til að ljetta orrosto af því að þá var torsótt að að ganga. þeir setjaz með sinn her um hvárntveggja hálsinn ok gjöra elda fyrir sèr. ferr svá framm mikinn luta nætrennar: ok eru þeir glaðir ok kátir ok gjöra brak mikið um sik ok sjálfir höfðingjar gjörðuz grimmir í orðum ok hrósuðu því fyrir sínum mönnum að þeir voru sigrvegarar en hælduz við Rómverja. Rómverjar sá gjörla til eldanna ór hæðinni ok varð þæim þetta að eggjan, ok Marius styrktiz í huginum af úkjænsku úvina sinna ok bað sína menn alla vera hljóða ok sitja með vápnum albúna — láta ekki blása í lúðra sem vant var á verði. svá var gört. en er dagaði 37
þá var ok hljótt vorðit um her konunganna, ok af mæði ok vöku þá var sofnaðr mikill lutr liðsins. Marius bað upp hlaupa alla sína menn skyndiliga 'ok skolu fara fyrstir 'varðmenn ok þar næst þær svæitir er í lúðra blása eða 'horn — skolu aller blása sem ákafligaz en riddararnir 'æpa, ok gangi að fast' sagði hann 'að brjóta hliðin á 'virkjum þeira'. en Mauri ok Getuli vöknuðu við ógurligan lúðraþyt ok voru þeir óvanir slíku, hljópu upp ok felmtu, tóku sumir vápnin en flester æingi ok gáðu hvárki að flýja nè við að taka: en Rómverjar stóðu að ok hjuggu þá: varð þar svá mikið mannfall að mæira var en í öllum öðrum orrostum hefði verið, en merki ok annað riddarligt skraut var tekið en aller flýðu eða fèllu.

---

31 var +.

31. Frá Mario. Marius fór þá á læið til vetrvista sinna sem hann hafði áðr ætlað til sæborga þeira er æren var atvinna herinum. æigi var honum sem opt kann verða þá er sigrinn berst að hendi að þá þikkir ekki þurfa að varaz; en nú var hann varari en fyrr: fór nú með fylktan herinn ok lèt ferskæyta fylkingina. Silla var í enni efstu fylkingu með riddaraherinn, en í enni vinstri fylkingu var Aulus Manlius ok með honum bogmenn ok valslöngumenn, en hann sjálfr var með flokkum Ligurum manna ok skipaði fyrstum ok efstum höfðingjum með búnum manipulis svæitum. en flóttamenn þeir er herteknir höfðu vorðið í Numidia ok hann hafði minnsta virðing á — þá gjörði hann á njósn um úvini sína því at þæim vóru vegirner kunnir. hann sjálfr skipaði ok skynjaði allt ok var í ymsum stöðum ok vitjaði allra, lofaði ena vösku en ámælti enum blauðum. hann var vápnaðr ok skynjaði ok hvernveg aðrer voru vápnaðir, bað fara stilliliga ok gjætiliga. lèt gjöra vígi um herbúðir þar er þeir dvölðuz, lèt vöku halda í hliðum ok setti þar flokka til gjæzlu — riddarasvæitir af því liði er sent hafði verið af öðrum löndum til fulltings við þá — ok enn skipaði hann mönnum í þau virki er gjör váru fyrir herbúðunum; ok hann sjálfr fór ok skynjaði 100000 *œigi* af þí að hann grunaði þá um varðhöldin heldr af því að hann hefði erfiðit ooo"avfnu" við ena minni menn. Marius stýrði vel herinum bæði í þæim orrostom er við Jugurtham voru ok í mörgum öðrum. hann sparði æigi við sik erfiði ok vás ok vökur hvergi úframar en hann bauð öðrum að gjöra: það mæltu flestir að hann gjörði það eptir vanda þæim er hann hafði haft frá barnæsku. En er Marius kom með herinn skammt frá Cirta á hinum fjórða degi eptir orrostona þá koma að þæim njósnarmenn

8 Aulus > Pavluſ. 13 úvini > uını. 22 gjör = gıavr. 24 ooo"avfnu" < allt að jöfnu. 30 Cirta ∽ Cırca. hinum > hınu.

hvaðan æfa ok skilja þeir það að úfriðrinn er nær. en er njosnirnar komu ór ymsum ættum til þeira ok svá í braut þá bendu æitt allar, því vissi hann æigi hvernveg hann skyldi fylkja eða hvar í móti snúaz ok réð það ór að láta vera fylkingina svá sem áðr ok bæið svá ok stöðvaði herinn.

32. Jugurtha bráz nú sín ætlun því at hann hafði skipt her sínum í iiij staði ok ætlaði svá til atgöngu ór öllum áttum ok hugðiz mundu koma þá nökkurum í opna 38 skjöldu ok væita baksletttu sem hann var vanr. þar hlaupa Mauri fyrst á er Silla var fyrir ok riddaraherr með honum. hann eggjar sinn flokk að þeir skyli fram ríða þar sem þykkz eru Mauri fyrir, ok svá gjöra þeir — ríða fram hart ok berjaz. en sú svæitin er eptir var í fylkingunni hlífði sèr við skotum ok varði ór stað, en ef nökkurir gengu fram svá að þeir ætti kost þá drápu þeir. en í þessu bili kom Bocchus ok með honum fótgangandi herr: þenna her hafði til haft Volux son hans: æigi höfðu þesser verið í hinum fyrra bardaga því at þeir höfðu dvaliz eptir á læiðinni: þeir renna á þá svæitina Rómverja er þá fór síðarst. en þá var Marius í enni fremstu svæit því at þar hafði á hlaupið Jugurtha með sinn her. en er Jugurtha varð þessa varr að Bocchus var kominn til orrosto þá læyndiz hann ór fylkingunni sinni með fá menn ok fór til Bocchum ok kallar hátt ok mælti á látínu (því at hann hafði numið þá tungu að mæla í Numantia), sagði Rómverja ósynju berjaz 'því at ek drap nú Marium fyrir 'litlu: sèð hèr sverðit blóðugt' ok brá upp ok hrósaði ok bað þá hætta að berjaz — en því sverði hafði hann drepið æinn fótganganda mann rómverskan. en er þetta hæyrðu Rómverja riddarar þá óttuðuz þeir ef satt væri en æigi

15 varði < varðiz. ef > ef ef. 17 Bocchus = bocc'. 18 Volux > uolox. 23 Bocchus = bocc'. 25 Bocchum = boccū. 26 Numantia = numancia.

til fulls vissu þeir hvárt svá var. en Mauri ok Getuli fögnuðu ok herðu hugina ok gengu nú að miklu djarfara að drepa Rómverja ok váru Rómverjar að komnir flótta. en er Silla kom að með sína rèð hann á Mauros ok væitti harða aðsókn en áðr hafði hann þæim fyrir komið er þá hafði hann við bariz en dugði nú þessum er mest þurftu. en í þessi hríð flýði Bocchus. en Jugurtha hèlt við orrosto sínum mönnum því at hann sá að þær höfðu nær öðlaz sigrinn, ok þá hurfu Rómverjar um hann á báðar hliðar með riddarasvæitir ok sóttu að svá fast að þar fèll öll hans svæit nema æinn saman kemz hann nauðuliga á braut milli vápnanna. í þessu bili kom Marius þar til er menn hans voru nær búnir til flótta ok tjæði þæim: tóku Rómverjar að reka flóttann. þar mátti þá sjá mart ógurligt á víðum velli: sumir voru drepnir í flóttanum sumir handteknir bæði váru drepnir menn ok hestar ok margir svá særðir að æigi máttu renna en þeir er móti stóðu voru skjótt drepnir ok aller vellirnir sem auga mátti yfir renna voru þaktir af vápnum ok manna hræum ok flutu í blóði.

33. Fortala Sille. Eptir þenna atburð fór Marius í Cirta sem hann hafði ætlað ok hafði nú frægjan sigr unnið. en á hinum sètta degi þaðan frá komu sendimenn Bocchi konungs til Marii með því að konungr vill sættaz við hann ok Rómverja gjarna ok sjá fyrir landfólki sínu ok það að Marius sendi þæim ij ena trúustu menn sína 'vill hann fyrir þæim mæla sinn vilja'. en Marius lætr fara Lucium Sillam ok Aulum Manlium. nú koma þeir fyrer Bocchum: þeir ætla að tala fyrir konunginum ok mýkja hug hans ef stirðr er en ef hann er mjúkr til

---

2 miklu = micklu. 4 sína < sína svæit ⌣ sína menn. 6 við > uıð. 7 Bocchus = bocc'. 13-14 tóku Rómverjar oooomuıar. 14 flóttann = flottan. 15 voru drepnir > uooopn. 21 Cirta ∽ Cırça. 23 Bocchi = boccı. 27 Aulum > pavlū. 28 Bocchum = boccū.

sættar að gjöra hann enn mjúkara; en Silla skyldi það 39
gjöra fyrir snilldar sakir, en æigi átti svá fyrir aldrs sökum, ok mælti fá orð með þessum hætti ‘hæyr þú ‘konungr. fagnaðr er oss á mikill er goðin minntu þik á, ‘þvílíkan mann, að þú skyldir vilja friðinn en orrostona ‘ok æigi vildir þú jafna þik, hinn bezta mann, hinum ‘versta manni Jugurtha. en enn takir þú af oss snarpa ‘skyldu bardagans: æigi vildir þú braut reka af þèr enn ‘glæpsamasta mann Jugurtha. svá hefir Rómverja svæit ‘verið frá upphafi að þæim hefir betra þótt að læita sèr ‘vina góðra en þræla ok betra að stjórna viljundum mönnum ‘en nauðgum. en þèr er öngra vinfengi hagligra en várt. ‘það er fyrst að vèr erum langt frá yðr ok þó að þèr ‘misgjörið þá verðr opt lítt minnz en er þèr þurfið vina ‘eða traust þá erum vèr nær. æigi skolu þèr annað ætla: ‘gnóga eigum vèr frændr; en vini vèr sem aðrer fám ‘aldri ærna. væri svá vel að þú hefðir fyrr þessa girnz ‘því at þá hefðir þú marga luti góða þegið af þæim en ‘önga illa — en því at hamingjan stýrir mörgum lutum með ‘manninum þí hefir hón þik látið vita bæði krapt várn ok ‘vináttu; ok skyntu nú meðan kostr er til várs vinfengis ‘ok gakk sem þú hefir upp tekið ok muntu margfelda luti ‘fá af því þá er þú mun yfer stíga villta luti af þinni ‘þjónostu. haf þú fast í huginum að þú munt aldri hæyrt ‘hafa Rómverja lýð hafa minna mátt vel að gjöra en aðra ‘menn til þeira; en þú væizt öruggliga hvað hann má í ‘orrostom’. Bocchus svarar þessu vel ok þakksamliga ok ræðir fám orðum ok þó nökkurum um af*brigð* sín við Rómverja: kvez æigi hafa vápn upp tekið fyrir fjandskapar sakir við þá heldr að verja ríki sitt ‘því at ek á hlut ‘Numidie ríkis: þar sem þèr hafið braut rekið Jugurtham ‘þá þolda ek æigi að Marius æyddi það. senda ek fyrr til

27 Bocchus = Bocc'. 32 þolda ⌣ þolða.

'Rómaborgar mína menn að biðja mèr vináttu ok vildu 'Rómverjar ekki því taka. fyrirlátum nú þá úsættina ok 'ef Mario líkar það þá vil ek senda menn til Rómaborgar 'ok læita enn vináttu'. um þetta var mart talað. En er Jugurtha varð þess varr að Rómverja höfðingjar voru komnir til Bocchum þá uggði hann að þeir mundu, sem var, við hann búa svikræði ok hvatti fram sína vini bæði með orðum ok fègjöfum þá er mjög voru kjærir Boccho konungi að þeir skyldu niðr slá friðargjörð millum konungs ok Rómverja ok þeir sömu sneru hug konungs frá þessu fyrst að sinni.

34. Frá Mario. Á þessi stundu bjó Marius ferð sína ór vetrvistum með mikla svæit að sitja um turn nökkurn er Jugurtha konungr átti ok hann hafði lið í sett ok var Marius í þessi ferð um hríð. nú hugsar Bocchus konungr hvernveg tekiz hefir um þessar tvær orrostor er hann hefer átt við Rómverja: nú væit hann hvers þeir eggja er hann hyggr að fè hafi þegið af Jugurtha: hæimtir nú þá til ráðagörðar er hann væit sèr trúasta ok ekki fè hafa þegið af Jugurtha ok vitrastir voru. en þessir fýsa að sættaz, ok þetta ráð tekr hann ok velr til v menn, vini
40 sína, ok sendir til Marium ok biðr Marium ráða fyrir hvárt þeir skulu fara í Romam ok selr þæim i hönd að gjöra sætt af sinni hendi við Rómverja. þeir fara nú skjótt en á læiðinni koma að þæim ránsmenn af Getulis mönnum ok ræntu þá ok komuz þeir nauðuliga í braut til Sillam: hann hafði Marius sett yfir herinn meðan hann var í braut. Silla tekr vel við þæim ok fær þæim allt það er þeir þurftu: því ætla sendimenn það skrök er sagt er að Rómverjar sè fégjarnir sem sagt er en Sillam ætla þeir vera hinn bezta sinn vin af gjöfum sínum því at mörgum

---

1 vináttu > unattu. 2 Rómverjar > romūa. 6 Bocchum = boccū. 8 Boccho = bocco. 13 mikla = mickla. 15 Bocchus = bocc'.

var úkunnikt í þenna tima um svá mikinn örlæik. þeir segja Sille orðsendingar þær er Bocchus hafði sent ok enn biðja þeir með að hann sė flutningsmaðr þeira æyrendis ok gjöra ráð fyrir þæim ok segja hvė mikla virðing ok trúlæik hann mun taka af konungi þeira ok tala um það mart fyrir honum. þá kennir Silla þæim hvað þeir skolu mæla við Marium eða hvers þeir skolu bæiðaz af öldungum í Rómaborg. þeir bíða þar Marii nær xl daga.

35. Frá Voluce. Marius kemr aptr i Cirta ok hefir vel sýslað. hann spyrr til sendimanna ok sendir orð í Utica að Silla ok sendimenn komi til hans — ok enn Lucium "behenū", ok öllum þæim sendi hann orð er þar voru af öldunga svæitum. ok er þeir koma til hans berr hann upp þetta mál fyrir þá ok slíta það ór að consul skal gefa sendimönnum læyfi að fara í Rómaborg með þessum æyrendum ok þetta mál skal standa til þess er þeir koma aptr. þessi ráð líka vel Sille ok flestum öllum. eru þeir sumir ok fáir að það sýndiz að næita en herja á ríki Bocchi: þesser voru grimmir ok kunnu æigi það sjá hvernig manna viðskiptin fara ok verða opt verr en til er stýrt. en er sendimenn hafa fengið læyfi þá fara iij af þæim til Rómaborgar ok með þæim Gneius Octavius "ruphon'" sá er questor var að tign ok það embætti hafði að flytja til hersins vist i Africam, en ij af sendimönnum fóru aftr til konungs. en er þeir koma hæim þá lėt hann fyrst þakksamliga yfer öllu þeira æyrendi en mest lofaði hann hversu Silla hafði gört. sendimenn komu í Rómaborg ok tala sitt æyrendi fyrir öldungum ok segja að Bocchus konungr bæiðiz af þæim friðar ok hann hefir ekki fyrir illvilja sakir staðit þæim í mót heldr af blekk-

1 úkunnikt = ukunıkt. 2 Bocchus = bocc'. 6 Silla > Sılla[f]. 9 Voluce > uelocı. Cirta ∽ Cırca. 19 Bocchi = boccı. 22 Octavius ∽ occauı'. 23 "ruphon'" < Rufo < Rufus. 24 Africam = affrıcā. 29 Bocchus = bocc'.

ingu Jugurthe. en þeir væita þau andsvör að Rómaborgar lýðr er langminnigr hvárt sem til er gört vel eða illa en ef Bocchus vill þess iðraz er hann hefir illa gört þá skal hann fá frið ok vináttu þvílíka sem hann gjöriz verðr. nú fara sendimenn aptr til Marium. en hann sendir brèf með þæim Boccho konungi. en er konungr væit þetta þá sendir hann enn mann til Marium ok biðr Sillam koma til sín því at hann vill við hann æiga þetta vandmæli. ok Silla rèz til þessar ferðar ok með honum mikil svæit riddara ok fótgangandi herr þeir er slöngur bera ok bogmenn ok d þeira er Peligna hæita: þeir hafa ljett vápn því at þeir skyldu skjótt fara en æigi verja þeir sik verr þæim vápnum en aðrir sínum herbúnaði. en á enum v. degi kemr að þæim váveifliga á völlum nökkurum Volux sonr Bocchi konungs ok hefir æigi mæirr en þúsund riddara: þeir fóru nökkuð tortryggliga — fóru dræift·að sem mest sýndiz lið þeira Sille ok hans mönnum ok helz
41 skyldi ótti af standa. enn Rómverjar tóku til vápna ok bjugguz við ok væntu sèr sigrs svá sem fyrr hafði verið. þá sendir Silla riddara nökkura fram að njósna um þetta lið ok kunnu það segja að það eru friðmenn ok þar er Volux konungsson. nú hittaz þeir ok spyrr hann að questori ok segir að Bocchus konungr hefir sent hann móti þæim til þess að þeir fari þann dag ok annan óttalausir.

36. Frá Mario. Að kveldi setja þeir herbúðir að vanda. litlu síðarr kemr Volux hlaupandi til Sillam ok mjög óttafenginn ok segir að hann hefir það spurt af njósnarmönnum að Jugurtha er þar skammt í frá ‘nú vilda ek’ sagði hann ‘að þú færer í nótt braut með mèr ok

2 til er > t̍. 3 Bocchus = bocc’. 6 Boccho = bocco. 9 rèz = reðz. 11 bogmenn ∽ bogm̄. 14 v. = ·u·. 15 Volux > uolox. Bocchi = bocci. 17 helz = helldz. 22 Volux > uolox. 22-23 questori > qͦſtore. 23 Bocchus = bocc’. 26 Volux > uolox.

‘forðaðim okkr’ ok biðr hann mjög. Silla næitar þessu þverliga að fara á laun eða flýja fyrir Jugurtha svá opt eltum: ljez svá vel trúa krapti sinna manna að æigi mundi hann flýja þót hann vissi til víss að það væri satt, lèz heldr skulo berjaz en flýja ljótliga ok gefa upp svæitunga sína ‘ok væri illa ráðit’ sagði hann ‘ef ek flýða ‘með skömm ok kynni vera að litlu síðar dæi ek af sótt’. en biðr Volux að þeir fari brott um nóttina. þetta ráð þiggr Silla ok biðr riddara mataz ok gjöra marga elda ‘vèr skolum búnir vera að fara öndverða nótt’. þeir fara sem ætlað var ok alla nótt ok mjög mæðiliga ok koma i sólarupprás í æinn stað þann er þeir setja herbúðir ok hvíla sik. þá koma þar njósnarmenn Volux ok segja að ij mílur frá þæim er þá Jugurtha með sitt lið. en er herrinn hæyrer þetta þá hræðaz þeir ok ætla Volux hafa sik upp gefið ok komið þessum umsátum fyrir sik. það mæltu sumir að þegar skyldi honum hefna þessa glæps. en þó að Silla ætlaði það sama satt þá bannaði hann að gjöra mæin Voluci en eggjar sína menn að hafa styrkan hug móti úvinum, kveðr hafa bariz opt fá menn styrkja móti mörgum ‘því minnr sem þèr þyrmið yðr því öruggri ‘eru þèr. öngum samir þæim er vápnaðar hafa hendrnar ‘að læita undir úvápnaða fætrna fulltings því at af allmiklum ‘óttanum hefir maðr beran ok blindan líkamann móti úvinum’ “að” seger ok sverr um fyrir nafn hins mesta þórs að Volux skal að vísu fara með þæim sá er þeir hyggja að þessum fjandskap valdi ok skal hann að skýru við vera váttr tryggðarofsins. Volux fellir tár ok biðr þá ekki því trúa, lèz öngar vèlar hafa gört við þá, telr þetta vera af slægð Jugurtha er hann hafði varr vorðið við ferð þeira ‘ok með því’ segir hann ‘að Jugurtha hefir minna lið en

8 en < enn. Volux > uolox. fari +. 13, 15 Volux > uolox, uelox. 19 Voluci > uelocı. 23 miklum = mıcklū. 26, 28 Volux > uolox, Volox.

‘vèr ok er oss aflans ván en hann hefir allt traust sitt af ‘föður mínum þá vænti ek að hann þori æigi til að ráða ‘berliga að gjöra oss nè æitt mæin ef hann sèr mik hèr. ‘það sýniz mèr ráð að vèr farim um miðjar hans herbúðir ‘ok mun ek fara æinn með þèr en þú lát fara mína menn ‘hvárt er þú vill fyrir eða eptir ok förum djarfliga’. þetta ráð líkar öllum vel ok var svá gört ok fara nú skjótt fram um herbúðirnar ok aller hæilir. en Jugurtha gjörði þí svá að bráðum bar enda vissi hann æigi glöggt hverir voru. fám dögum síðarr komu þeir til Bocchum konungs.
42 með Boccho konungi var þá kominn æinn númverskr maðr sá er Aspar hèt, kjærr vinr Jugurtha, sendr af honum að njósna um æyrendi Silla til konungs eða hver ráð hann gjörði: hann var maðr málsnjallr ok slægr.

37. Dabar hèt æinn maðr, son Massugrade: sjá var af ætt Masinisse konungs. þessi maðr Dabar var kjærr Mauro af hugviti sínu ok mörgum góðum lutum. þenna mann sendir Maurus til Silla fyrir því að hann er ræyndr að trúlæik ok vizku ok hann var sannr vinr Rómverja, bað hann segja það Silla að konungrinn vill halda það allt við Rómverja sem orð hafa milli þeira farið ok sýniz það ráð að þeir kveði á dag ok á stað með sèr hvar þeir skolu finnaz: hann biðr Silla ekki það óttaz um þeira ráðagjörð þá að hann spyri að þar sè kominn sendimaðr Jugurtha, hann segir að öll ráðagjörð er þæim hægri meðan sjá maðr er þar ‘því at Jugurtha’ segir hann ‘bíðr ‘í sama stað þess er sjá kemr til hans ok kann honum ‘segja slikt er hann verðr víss af várum ráðum, ok munu ‘oss hans umsátir þannig bezt að varaz’. en ek ætla (segir Salustius) hann hafa mæirr gört þetta eptir serkneskjum

---

10 Bocchum = boccū. 11 Boccho = bocco. númverskr > romuerſkr. 12 er +. 13 hver = hu̇r. 15 Dabar > amar. 16 Masinisse > maſſiniſſe. Dabar > dam̊. 28-29 munu——bezt < mun——bezt ⌣ munu——beztar.

trúlæikum en að honum væri það allt í hug sem hann mælti en því ætla ek hann saman hafa haldið Rómverjum ok sendimanni Jugurtha að hann vildi friðarins ván æiga ok löngum ætla ek hann mjög velkt hafa í hug sèr hvárt hann skyldi selja Sillam í hendr Jugurtha eða Jugurtham fá í hendr Silla en hæitið várum mönnum því er hann vissi várn vilja ok svá Jugurtha en þó fyrir honum látið ægiliga yfir várum krapti. Silla svaraði fám orðum Aspari ok ljez fát vilja fyrir honum ræða um þetta mál en fyrir konunginum æinum vill hann ræða sína læynda luti eða svá að sem fæster hæyri, biðr hann svá segja Boccho sín orð. nú hittaz þeir Bocchus ok Silla. segir Silla sik sendan af Mario að læita eptir því við Bocchum hvárt hann vill gjöra frið við Rómverja eða halda upp orrosto. konungrinn kvez æigi enn hafa ráðit svör fyrir sèr ok bað hann koma eptir x daga til sín ok lèz hann þá búna munu hafa órskurði. síðan slíta þeir stefnuna ok ferr hvárr til sinna herbúða.

38. En er komið var að stefnudegi er þeir skyldu hittaz þá var það of nóttina fyrir, enn efra lut nætr, að Bocchus sendir læyniliga til Silla ok vill hitta hann, ok á þæim fundi voru með þæim höfðingjunum túlkar einir: Dabar, hæilagr maðr, var túlkr af beggja hendi, honum trúðu þeir báðir. Bocchus segir svá ‘það ætlaða ek ráðið ‘vera skyldu að aldri skyldi finnaz á jörðunni mæiri ‘konungr en ek allra þeira er ek kann ok það ætlaða ek ‘að öngum minna manni ætta ek skuld að gjalda um ‘vináttu. hæyr þú Ercules Silla, ek hugða þèr áðr þetta ‘mundu kunnikt vera af mörgum tölusnjöllum mönnum ‘ok svá að ek hefi að sjálfvilja mínum yðr fullting væitt

10 konunginum > kgınū. 11 Boccho = bocco. 12 Bocchus = bocc'. 13 Bocchum = boccū. 15 kvez = kueðz. 17 síðan > Sıða. 19 En > n. 21 Bocchus = boccuſ. 23 Dabar > Damar. 24 Bocchus = Bocc'.

skipar ok nefner sèr hvern á nafn, eggjar þá ok talar fyrir þæim ok biðr að þeir minniz þess nú að þeir skolu berjaz móti þjófum ok illmennum ok nær vápnlausum ok slyppum ok berjaz til frelsis fóstrjörð sinni. Antonius var maðr riddarligr (segir Salustius) ok hafði verið mæirr en xxx vetra í her Rómverja ok jafnan með mikilli tign: hann hafði verið tribunus eða prefectus ok enn legatus eða pretor ok kunni skyn ok nafn flestra allra riddara í herinum. en er hann minnti þá á þessa luti þá varð hann mjög með hug riddaranna.

10. Hèr hefz orrosta. En er Antonius hafði skynjað alla luti þá er honum þótti þurfa ok herrinn var allr búinn þá lèt Petreius blása herblástr ok hræra herinn — lèt fram ganga cohortes, fyrst sæint ok hófliga. slíkt sama gjörði ok Catilina með sinn her. en síðan er svá voru þeir komnir að skotin máttu ganga millum þeira þá æpa hvárirtveggju heróp: þá skjótaz þeir á ok hlaupa saman óðfluga með merkjunum ok þegar jafnskjótt var höggorrosta hin ákafasta ok hinir fornu riddarar minntuz þá hins fyrra krapts síns ok gengu hækiliga að þæim en Catilina menn stóðu í mót úhræðiliga ok börðuz með miklu afli. Catilina var þá sjálfr í öndverðri fylking með öðrum fótgangandi mönnum ok lèði þar sínum mönnum hverjum sem mest þurfti ok hvar sem hans menn fèllu eða urðu sárir eða úvígir þá fekk hann þar í staðinn aðra úsára ok hugði fyrir öllu sem honum þótti vænligaz: hann barðiz sjálfr alldjarfliga ok drap marga fjandmenn sína: þá fekk hann það orð allt saman að hann gjörði bæði drengilig verk snarps riddara ok svá góðs herstjóra. Petreius sèr nú að Katilina menn börðuz snarpligar en hann hugði ok stóðu fast svá að æingi hopaði ok fèllu

13 Petreius = Petregi’. 14 cohortes > coortef. 15, 21 Catilina = Cat’·. 22 miklu = micklu. Catilina = Cat’·. 30 Petreius = Petregi’. Katilina = kat’·.

þá mjög hvárirtveggju. þá lætr hann fram ganga þann her er sterkligastr var ok valið lið til — þar voru ekki nema græifatignir — ok gengu þeir í miðja fylking móti fjandmönnum. en Katilina gekk svá fast að þessum að enn fekk hann svig á þæim, ok þá enn hljóp hann í annan stað þá er honum þótti enn fastaz fyrir ok bæygði þetta ok drap alla þá er mest stóðu í mót, ok þá enn læitaði hann út á armana hvárntveggja ok gekk þar að. af liði Catiline féllu fyrst Manlius ok Fesulanus ok höfðu bariz djarfliga. en er Catilina sá að fallinn var allr fjöldi hers hans en hann var þá epter með fátt lið þá minntiz hann hinnar fyrri tignar ok göfugrar ættar sinnar ok hljóp þá fram í flokk fjandmanna sinna þar er þykkz stóðu fjandmenn hans langt fram frá sínum mönnum ok barðiz sem hann væri óðr til þess er hann var þar stangaðr ok særðr til bana.

11. Frásögn Salustii. Salustius segir svá að þá er lokið var orrostonni mundir þú sjá mega hvé mikil dirfð ok kraptr hugarins fylgði þessu liði er Catilina hafði saman dregið; því at þann stað sem hverr þeira hafði sér tekið í fyrstu meðan þeir stóðu upp þá var hann þar fallinn, þeir æinir höfðu dræifz er höfðingjaflokkrinn hafði með afli borið sá er fyrr var frá sagt ok höfðu
12 aller svá fallið Katiline menn að framan að æins voru sárin á þæim. Catilina var fallinn ok fundinn langt fram frá sínum mönnum öllum en umhverfis hann hræ fjandmanna hans ok blés hann æigi ok hafði allt hið sama yfirbragð sem áðr ok var fremstr í orrosto áðr hann félli.

---

4 Katilina = Kat'·. 6 þá < þar. 8 hvárntveggja > huarntuegia vt. 9 Catiline = Cat'. Fesulanus > fesſulanuſ. 10, 19 Catilina = Cat'·. 24 Katiline = Kat'·. 25 Catilina = Cat'·. fallinn = fallın.

# E.

‘nú æyddri. æigi þurfu þèr nú að ræna voru fè: ero ‘aðrar borgir gnógar til að þèr gjæðit með yðra menn: ‘eingi nauzun ok ekki fátæki skyldir yðr til þessa frið‘kaups ok bardaga er þèr gjörið’. Julius reiddiz við orð hans ok mælti ‘allmikinn hègóma ætlar þú að þú munir ‘svá vegligan dauða fá: æigi mun ek sörga mínar hendr ‘í þínu blóði: öngan veg hefir þú til þess að ek muna ‘sýna þèr mína reiði. æigi muntú stýra lögum nè frelsi ‘í gegn mèr, ok æigi mun sjá dagr blanda saman hinum ‘hæstum lutum ok hinum lægstum — lögin sjálf verða ‘heldr brotin af mèr en haldin af þínu tillagi’. þá er Julius ræddi þetta gengu menn hans að dyrum með brugðnum sverðum. en riddari einn rúmverskr sá er Cotta hèt gekk að Metello ok mælti ‘sèr þú æigi að allt ‘frelsi æyðiz fyrir þessu ríki er nú gengr yfir ok muntu ‘ok öngu á leið koma þót þú vilir til hlutaz. vèr verðum ‘mörgum röngum hlutum að hlýða ok er sú líkn mest ‘að margir verða nú svá að gjöra ok vèr megum öngum ‘þæim lutum neita er á oss ero lagðir. máttu ok sjá ‘hversu mart illt þeir hljóta af aller er á mót standa þó ‘að sitt vili verja með rèttu’. Metellus var síðan handtekinn ok leiddr nauðigr frá dyrunum. síðan brutu þeir upp lásana ok hurðirnar með miklu glammi ok taka brott þann auð er eingi maðr hafði á tekið ok þar höfðu saman dregið hinir fyrri consules ok hinir æztu höfðingar: Fabricius er barðiz við Pirrhum konung í Epiro ok Metellus er sigraði Jugurtham ok vann Krít ok Kato er sigraði Kípr — ok allr sá fjárlutr er Pompeius hafði saman dregið ór austrhálfu heimsins þá er hann sigraði ij konunga ok

5 bardaga > barðaga. 10 í gegn = ıgegnt. 15 Cotta > cotta ueteruſ. 16 fyrir þessu > f¹ þeſſu f' þeſſu. 24 miklu = micklu. 26 höfðingar = hofðıng. 27 barðiz = barðaz. Pirrhum > pırū. Epiro > ephıro. 28 Jugurtham = Jugurtā.

xx. ok segir Lucanus svá að þá eitt sinn var það er
Rómaborg var fátækri að fènu en Julius. Nú sendir
Pompeius orð öllum þeim mönnum er honum vildu lið
veita ok undir hann höfðu gengið — fyrst um Grikk-
landshaf ok sjálft Grikkland ok sjálönd — ok dreif til
hans fjölði liðs, ok segir Lucanus að hann hyggr að æigi
um aldr hafi komið jammikil þjóð í einn flokk ok æigi
mundi þess dæmi verið hafa að jafnmargir konungar ok
jarlar hafi haft sèr að höfuðsmanni æinn hertuga ok hlýddu
hans boði ok banni. Julius ferr nú af Rómaborg með
her sinn ok ætlaði í Massiliam ok síðan í Spánland fyrir
því að hann vildi leggja undir sik allt ríki þeim megin
hafsins: stefnði hann fyrst til borgar þeirar "ıMarſılıā er
"focaıſ" heiter ok var hin sterkasta að veggjum ok að
liði. þá er borgarmenn spurðu ætlan hans þá sendu þeir
menn móti honum með þessum orðum 'ávallt hefir útlendr
'herr svá komið á Rómaríki að vèr höfum bariz með
16 'þeim svá sem sagt er á yðrum annálum. en ef þèr vilið
'fara í ókunnar hálfur að berjaz við yðra borgarmenn,
'hafið þá menn með yðr er fúser eru því at hvaðan æfa
'drífr lið að um heiminn það er ekki skammaz slíkra verka
'ok vandræða ok þurfu þèr æigi að næyða þá menn til
'er æigi vilja ok æigi samir. ok slíkum hug skyldu aller
'hugaðir með ykkr Pompeio ok munde þá forðaz vandræðin.
'nú er sú bæn vár að þú snúer her þínum frá þessi borg
'"með þuı er þ̄⁷ þurfıð ẏðarr að gıæta. en ef uılıð ſetız
'"um bḡ þeſſa." þá viljum vèr að sjá staðr sè öruggr
'Pompeio ok svá þèr hvárr ykkar sem hingað vill sækja

6 hann ⊥. 9 höfuðsmanni = havfuðſmanı. 11 Massiliam
> marſılıā. 13-14 "ıMarſılıā er focaıſ" ɔ: er Massilia (✻ $198^{15}$).
18 þeim > þ̄⁷ (ɔ: þèr). en ef þèr vilið > en ef þ̄⁷ (∽ þ)
uılıð en ef þ̄⁷ uılıð. 19 ókunnar = okunar. borgarmenn
∽ bḡar mn. 24 munde < munde — — —. 26 ſetız ⌣
ſettz (ɔ: setz, sez).

‘vápnlauss ok með friði ok megim vėr svá sýna vára trú. ‘meðr þí að þėr vilið setjaz um borg þessa með úfriði ‘“ok ſkıpa hā þa· ſk̄m uer þo gefa tom t' að u͑ıaz” ok ‘fyrr munu vėr tapaz en vėr gangim ok berjumz nauðgir’. þá er Julius hæyrði þessa orðsending þá reiddiz hann mjök ok mælti ‘víst ætla þesser menn mikinn hėgóma um ‘vár skipti: þó að oss sė mjök títt að fara í vesthálfu ‘heimsins þá skulum vėr þó gefa tóm til að brjóta þessa ‘borg ok æyða þetta land. þeir segja það ef ek kem einn ‘til borgarinnar ok vápnlauss að þeir munu þá lúka upp ‘borgina fyrir mėr: svá ok muni þeir vilja heldr byrgja mig ‘inni en úti. takið vápn yðr glaðliga ok gef ek yðr upp ‘borg þessa til herfangs.’

2. Nú kemr Julius að borginni með her sinn ok sėr að aptr eru lokin öll borgarhlið en kórónu þykkva ok fagra af skjöldum ok sverðum hjálmum ok brynjum umhverfis borgina á veggjum ok vígskörðum. nū setr hann herbúðir sínar á hól einn við borgina sjálfa. síðan gjörði hann vegg af torfi ok grjóti á milli ok annars hóls svá mikinn ok háfan að nær var jafnhár borginni ok höfðu þar langt verk fyrir ok lėt þar færa við marga stórviðu hvárumtveggja megin við vegginn svá að æigi fėll þó að þungi væri á borinn mikill. en þar var blótskógr einn mikill nær borginni sá er þeir höfðu átrúnað mikinn ok træystiz herliðið fyrir því æigi að höggva. þá ljóp Julius fyrst fram ok hjó tveim höndum hinn sterkasta lund svá að nær stóð á hamri öxin ok mælti hátt ‘hræðiz æigi að ‘höggva þenna skóg, látið mik bera ábyrgð fyrir’. þá hjuggu þeir upp þann skóg allan með hræzlu mikilli ok virðu meira reiði Cesaris en goðanna. nú var upp höggvinn

---

6 þesser > = = ſſer. 11 borgina = b̄g. 12 vápn yðr ɔ: vápn yður. 15 þykkva > þýkku. 20 borginni > bgın̄ı. 24 borginni = b̄gını ◡ b̄gını̇̄ı.

skógrinn allr. en borgarmenn sá á ok mæltu ʽhví munu ʽgoðin æigi hefna meingjörða? eða því mun svá rík hamʽingja vándra manna að goðin muni öngum stýra mega nema ʽveslum einum?ʼ nú lætr Julius gjöra turna tvá á veggjum
17 sínum ok lèt þaðan skjóta í borgina. en borgarmenn tóku við af miklum afla ok þrek ok slöngðu stóru grjóti með valslöngum ór borginni, ok þá er Julii menn stóðu nær borginni ok sóttu svá að þá börðu borgarmenn grjóti svá að öngu mátti á leið koma um aðsóknina. nú sá Julius að hann mundi ekki fá unnið borgina nema með miklum torveldum ok langri umsát: þá skipti hann herinum í tvá staði ok ferr sjálfr í Spánland með sumt liðit en hann setti þann manna höfðingja fyrir það liðið er eptir var er Brutus hèt ok bað svá fremi við skiljaz er unnin væri borgin. litlu síðar riðu borgarmenn út með öllu liði sínu ok báru eld að virkinu ok brenndu upp allt. eptir það börðuz þeir á skipum við Brutum ok var sá fundr hinn harðasti ok lengi úsýnt hvárir sigr mundu hafa. í liði Bruti var sá ʼmaðr er Tirrhenus hèt, sterkr maðr ok harðskæytr: hann var höggvinn beint um þvert andlitið framan í augun svá að þau fóruz bæði. en þótt hann væri blindr þá skaut hann þó sem áðr ok bar svá til að hann laust öru framan í brjóst einum manni göfgum þeim er Argus hèt ok fèll þegar á bak aptr en faðir hans stóð hjá honum sjálfum ok bendi Argus með hendi sinni að hann vildi að faðir hans lyki saman augu hans en þá er hann sá son sinn dauðvána þá mælti hann af miklum harmi ʽson minn Argus. fyrirgefðu það feðr þínum veslum ʽþót ek leggja þik æigi í faðma eða ek kyssa þik nú ʽæigi þenna hinn síðarsta koss. enn sè ek varmt blóð í

---

5 í > ı||ı. 6 miklum = mıcklum. 7 Julii = ·J·. 10 miklum = mıkklum. 13 manna < mann. 15 síðar (= ſıðar) ⌣ síðarr (= ſıðaṙ). 19 Tirrhenus > tıren᾽. 27 hann sá > ſa. sinn = ſın. 28 minn = mın. 30 hinn = hın.

'sárum þínum ok enn er önd með þèr ok enn máttu 'lengr lifa en ek ef goðin vilja lofa mèr að leggja sverði 'fyrir brjóst mèr' síðan skaut hann niðr sverðshjöltunum ok lèt fallaz á oddinn svá í gegnum hann stóð en hann stæypti sèr þegar fyrir borð. nú lauk svá þeira viðskiptum að Brutus fekk sigr ok var sjá hinn fyrsti unninn af Julii mönnum.

3. ^^^^^^^ Nú ferr Julius í Spánland, ok váru þar fyrir tveir höfðingjar, vinir Pompeii: annar hèt Petreius, en annar Afranius. þeir höfðu lið mikið ok sátu í borg þeiri er Ilerda heitir. en á sú fellr milli borgarinnar ok liðs Julii er "øruga" heitir ok mátti hann fyrir því æigi ná atgöngu við borgina. annars dags eptir fór hann upp með ánni ok ætlaði að gauga á hamargnípu nökkura þá er bar yfir borgina. það sá þeir höfðingjarnir ok rèðuz mót honum yfir ána með lið sitt ok vildu komaz fyrir þá ok verja honum bergið. síðan tókz með þeim langr bardagi ok lauk svá að Julius náði berginu. síðan heimti Julius lið saman upp á bergið. ok litlu síðar gjörði vatnavöxt meira en dæmi væri til af sólarhita ok snænámum á háfjöll fyrir því að þetta var á vár ok var áin svá mikil að hón fèll hvárumtveggja megin bergsins svá að Julius mátti hvárigum megin komaz bergsins um hríð. 18
síðan lèt Julius gjöra húðskip en hann lèt höggva upp aldingarða er stóðu undir berginu ok hafði það til innviða í húðskipin ok kom svá yfir öllum herinum. þá fara þeir Afranius af borginni ok ætluðu til fjalla þeira er löng leið var: var það vígi öruggt ef til fengi komiz. en Julius sá ferð þeira ok komz fyrir þá með riddaraliðinu ok eggjaði að þeir skyldu berjaz. en þeir Afranius námu

---

4 oddinn = oddın. 6 fyrsti > fýrſt. Julii = ·J·. 8 váru ⌐ uaro. 9 Petreius = Petregıuſ. 10 annar Afranius > anar Apranı'. 11 milli > mıll. 12 "øruga" (⌣ eruga) < Cinga (< Sicoris). 27, 30 Afranius > apranı'.

staðar á holti einu ok fylktu hvárirtveggju ok höfðuz orð við ok stóð svá um hríð ok kennduz að þar stóðu feðr ok synir ok bræðr sèr hvárir í fylking ok margir góðer vinir ok var næsta ráðit um skeið að þeir mundu sættaz við Julium áðr Petreius talaði fyrir liðinu ok eggjaði að þeir skyldu berjaz ok kvað skömm að sættaz orrostolaust ok bregðaz svá Pompeio ok ráða þeir til orrosto fyrr en Julium verði ok felldu mart lið hans. en þó kom þar loks að þeir Afranius urðu yfir komnir ok vildu flýja aptr til borgar. en Julius fekk enn riðit fyrir þá. en þá komu þeir á sandhól einn háfan ok fylktu þar liði sínu ok eggjuðu síðan liðit hið mesta ok kváðuz æigi flýja mundu. en er Julii menn bjugguz til atgöngu þá kallar Julius hátt á sína menn 'gangið æigi að þeim því að sá 'bítr sárt er sèr vill ekki forða. mun oss sjá sigr ekki 'vingæfr því at vèr munum hèr týna mörgum várum 'mönnum en þeir eru svá óðir sem hið óarga dýr ok 'hræðaz ekki bana sinn. nú skulum vèr gjæta þeira hèr 'ok láta þá kenna bæði þorsta ok kulða ok minnaz heim 'kvenna sinna ok ástmanna ok bíðum svá unz þeir biðja 'sjálfir griðanna'. nú fór þetta eptir ætlan Julii. ok er þeir áttu öngan kost að berjaz þá tók fyrst reiðin að þverra en hugrinn að blotna. en þá er þeir váru lengi byrgðir á þeim hóli ok kvalðir í miklum þorsta þá gengu þeir hertugarnir sjálfir af hólinum ofan ok allt liðit eptir þeim til herbúða Julii. síðan gekk Afranius fyrir Julium ok stóð fyrir fótum honum ok hèlt öllu sínu tigurlæti ok yfirbragði ok mælti 'ef ek ætta kost að falla fyrir 'yðrum vápnum þá skortir mik hvárki til hug nè hræysti. 'en nú er mikil sök til að vèr biðim oss hjálpar ok

5 Petreius = Petregi'. 6 skömm = ſkavm. 9 loks = lox. Afranius > Apranıuſ. 13 Julii = ·J·. 16 munum = mūnū. 23 hugrinn > hungrn̄. 24 miklum = mıcklū. 26 Afranius > aprani'.

‘samir yðr að gefa oss líf því að ekki höfum vèr hlaupið ‘í þessi vandræði nè hafiz upp sjálfir til fjandskapar við ‘yðr heldr bar það saman missætti yðart Pompeii ok það ‘er við várum settir fyrir herliði þessu ok er varðveitt ‘trúlyndi við hinn fyrra höfðingja meðan mátti. viljum vèr ‘nú ekki dvelja að æigi taki þèr slíkt ráð sem yðr líkar. ‘en vèr viljum til þess mæla að vèr farim í friði til várra ‘hèraða ok heimkynna þót vèr sèm vápnlauser sem þetta ‘fólk væri allt að jörðu lagið ok blandið ekki svívirðing ‘várri við sigr yðarn ok gæfu ok lát oss ná að sitja um ‘kyrrt ok berjaz ekki með þèr: læyst höfum vèr oss að ‘sinni’. en er Julius sá hertogann ok hæyrði orð hans þá varð hann við glaðr ok gaf þeim læyfi blíðliga að fara 19 hvert er þeir vildi. Nú má sjá (segir Lucanus) hversu vesladir þeir menn eru er í orrostum hafaz: þesser seldu vápn sín af hendi ok fóru síðan öruggir í sínar borgir, en áðr váru þeir hræddir á hverju dægri ok áhyggjufullir meðan þeir váru í orrostunni.

4. Lát manna Julii. Antonius hèt höfðingi yfir liði Julii þar sem á sú fellr er Iader heitir í fjörð þann er Adriaticus heitir. hann vænti sèr fulltings af þjóðum þeim er þar byggðu í nánd en þar kom þó höfðingi sá er Octavius hèt með mikla víkingasveit er Pompeius hafði hann yfir sett. þá komz Antonius upp á berg eitt með lið sitt ok var það vígi öruggt við fjörðinn sjálfan en þó varð hann lengi um setinn ok krepptr miklum sult. þá kom maðr af mönnum Julii sá er Basilus hèt með mikla riddarasveit öðrum megin fjarðarins ok kom þeiri orðsending til Antonius að hann mundi þaðan bíða því at hann kvez mundu þangað koma ok veita honum lið að

8 sem > ſem þu haſer. 9 fólk ∽ folkı. jörðu = ıavrrðu. 20 Iader > lader. 23 Octavius > octouı’. 25 fjörðinn > fıolðıñ. 26 miklum = mıkclū. 27 Basilus > baſılıuſ. mikla = mıckla. 30 kvez = kuedz.

öruggu ef hann mætti komaz yfir fjörðinn. síðan lèt Antonius gjöra flota af stórviðum en umhverfis utan við flotana lèt hann binda vazkeröld tóm til þess að þau hèldi upp flotanum þá er manna þungi kæmi á mikill: hann lèt ok gjöra kastala tvá á flotanum til þess að þeir mætti þaðan verjaz fjandmönnum sínum ef að legði ok ætlaði svá flytjaz þegar er veðr gjæfi til fundar við Basilum. en er Octavius sá viðrbúnað þeira þá lèt hann leggja strengi ræyrða með járni af hamrinum framm þar er skip hans voru ok váro strengir í kafi ok ætlaði að vinda upp þá er Antonius færi þar yfir því at eingi var leið önnur til að fara. nú ræðr Antonius til farar þá er hann er búinn ok er þeir koma flotanum yfir strengina þá undu hinir er á hamrinum váru ok varð svá að Antonius komz yfir með þá flotana er minni váru en sá flotinn er mestr var varð fastr ok varð dreginn síðan að berginu. sá höfðingi var fyrir liði því er á flotanum var er Vulteius hèt ok var hinn mesti skörungr ok hinn hraustasti til vápns: hann leitaði til að höggva strengina ok læysa sik en þá er það mátti æigi þá vörðu þeir sik hraustliga þó að þeir ætti öngva ván að sigraz — sú atlaga var skömm ok hörð því at náttmyrkr sleit bardagann. Octavius skipaði liði sínu umhverfis að þeir mætti æigi brott komaz um nóttina. þá Julii menn sá hversu mjög þæim var þröngt þá gjörðiz kurr mikill í liðinu. eptir miðnætti kallaði Vulteius saman liðit á flotanum ok mælti á þessa lund 'nú er oss gefið frelsi í nótt að sjá ráð fyrir oss. kann 'vera að sjá stund þikki sumum ekki löng en hón er þó 'gnóg að kjósa þann dauðann er vèr viljum helz hafa ok 'vèr verðum frægstir af. sú er hugrekki lofuð mest góðra

5 lèt = lett. 7-8 Basilum = Baſılıū. 8 Octavius > occour'. 15 mestr > meſt. 21 þeir > þr. 22 Octavius > Occouıuſ. 24 þá < þá er. Julii = ·J·.

‘drengja að það finniz aldri að þeir hræðiz bana sinn ok ‘vili aldregi lengja líf sitt með svívirðing þó að æigi ‘girniz þeir sjálfir að dæyja. þèr vituð að vèr megum ‘hvergi undan komaz er várir fjandmenn eru alla vega ‘frá oss. gjörum svá vel nú þá, hræðumz æigi dauðann. ‘æigi er sem vèr sèm á velli slèttum í fjölmennum bar- ‘daga þar er eingi kunni vátta vár skipti. munu goðin ‘vilja að vèr gefim þau dæmi dauðans er oss sè frægð í ‘fyrir því að næytt höfum vèr vápnanna meðan kostr var ‘að berjaz. vitum vèr það Julius’ kvað hann ‘að þèr mun ‘lítill sómi í þikkja að vèr vegimz sjálfir en öngan veg ‘megum vèr nú svá um setnir sýna meiri ást við þik en ‘vilja æigi ganga til handa várum úvinum en þó tekr það ‘mikið af várri frægð er vèr skulum nú æigi hèr haldnir ‘með feðrum várum ok bræðrum ok týndum aller samt ‘váru lífi. nú þó að oss sè kostr griða af várum úvinum ‘tökum aldri þann kost meðan vèr megum oss skaða veita. ‘stórt munum vèr verða til þess að vinna að Julius kalli ‘skaða eptir oss fá menn svá margar þúsundir liðs sem ‘hann hefir með sèr. nú þó að kostr væri að ek mætti ‘hèðan komaz ok forða svá mínu lífi þá vilda ek það að ‘öngum kosti. ek kasta nú niðr lífinu því er verið hefir ‘en ek girnumz til dauðans þess er nú er fyrir hendi: ‘þeim einum er lofað að skilja það rètt hversu gott það ‘er að dæyja til þess að þá lifi þeir að æylífu en goðin ‘læyna hina því er girnaz að lifa’. nú er Vulteius hafði þessum orðum talað þá gjörðuz þeir glaðir ok eggjuðuz á það ráð er Vulteius hafði til gefið ok biðu svá um nóttina. en þá er lýsti lögðu menn Pompeii að þeim ok buðu þeim sáttir ok grið en þeir níttu öllum sættum. síðan rèðu þeir á þá með bardaga en þeir vörðuz nökkura stund ákafa vel. en þá er Vulteius sá að ekki mátti vörn við koma þá rètti hann fram hálsinn ok bað sik höggva þann mann er honum var næstr. en er hann fèll þá hjugguz þeir, bræðr ok frændr — hverr sinn hinn kærasta

vin, ok fekk Vulteius þann dauða ok hans lið er hann mundi kjósa. nú hlaupa menn Pompeii upp á flotann ok undruðuz mjök er þeir sá þar náliga alla menn dauða: tóku þeir síðan vápn þeira ok fjárluti ok varð þeira manna fall náliga frægt um allan heim.

5. Dráp Curionis ok hans manna. Curio hèt einn hinn göfgasti maðr í liði Julii, rómverskr að kyni; hann vildi fara til Sikilæyjar að draga saman vistir ok leiðangra til handa Julio: þessi Curio kom á móti Julio við Rubicon ok eggjaði að með vápnum skyldi sækja Rómaríki: en nú fekk hann andviðri mikið ok rak hann að landi því er Libia heitir (það er í Africa); síðan gekk hann á land upp ok setti herbúðir sínar á hólum nokkurum skammt frá borg þeiri er Carthago heitir ok ríkuz borg er í Africa. en þar var fyrir í landi mikill fjölði manna Pompeii ok sá höfðingi fyrir er Varus hèt. hann spurði það er Curio kom þangað ok fór þegar á fund Juba konungs er þá hafði ríki náliga yfir öllu Africa (er vèr köllum Serkland) ok bað hann veita sèr lið eptir því sem Pompeius mundi vænta. konungr tók vel máli hans ok hèt honum sinni liðsemð: hann munþi það gjörla

## F.

aðrir höfðingjar. Appius beiddi blótmann þann er þar var fyrir að ganga til frètta fyrir hans hönd við skurðgoðið. en blótmaðrinn byrgði inni í hofinu mæy eina þá er Femonoe hèt ok mælti að hón skyldi svara því er spurt væri. en er Appius hæyrði svör hennar þá skilði hann af viti sínu að það var mæjar rödd en ekki Apollo

---

7 hinn = hın. 9 Curio > curı᾿. 12 Africa = affrıca. 14 er Carthago > Cartago. 15 Africa = affrıca. 16 er > er | er. 18 Africa = affrıka. 26 Femonoe > > femonoen.

þá varð hann reiðr mjög ok bað hana þegja ok kvez grimmo gjalda mundu vėlina nema nokkur fengiz órslit af goðinu. mærin varð hrædd ok hljóp í undirhús það er stóð undir hofinu þar jafnt sem goðit stóð yfir uppi ok er það sagt að hón fekk spáleik af goðinu ok sagði Apollo það fyrir munn hennar ‘Appius’ kvað hón ‘ef þú ‘vill forðaz allan háska Rómverja ok vill æinn sitja um ‘kyrrt far þú í æyna Euboeam ok muntu hirðr frá þessum ‘óróa’. nú gekk Appius frá hofinu með sína sveit ok fór í æyna Euboeam ok hugði að hann mundi þar fá ríki. en þegar er hann kom þar þá fekk hann sótt ok dó þar. en mærin var fundin vitlaus í hofinu áðr en vatni væri á hana ausið.

2. Frá Julio ok hans fortölum. Nú hefir Julius sigraz í Spania ok “hib̃ium” ok lýser hann nú yfir því að hann vill fara til Romam sem skjótaz má hann ok síðan út yfir hafið eptir Pompeio. það var mikill hlutr liðs hans er leidduz orrostor mjök ok vildu fara gjarna til heimkynna sinna ok berjaz æigi við frændr sína ok vini ok mælto á þessa leið ‘vėr viljum þiggja læyfi til ‘þess að skiljaz við þessi vandræði því at þú hefer leiðt ‘oss í mikinn háska bæði á sjá ok á landi: várt lið er ‘sumt fallið í Saxlandi sumt í Spáne sumt í Rómaborgar‘landi. hvert verkkaup höfum vėr fyrir það er vėr höfum ‘barz í Saxlandi með þėr nema það að berjaz nú við vára ‘borgarmenn? nú höfum vėr tekna Rómaborg ok rekna ‘öldungana, rænt ok goðin sjálf ok gengið í hverja úhæfu ‘með þėr, ok viltu enn leiða oss í dauða í ókunnar hálfur ‘heimsins: nú vitum vėr æigi hverra gjæðanna er ván ‘fyrir vandræðin, en það fylgir að þú kannt þėr “avfufu”

---

1-2 kvez grimmo = kueðz grımo. 4 yfir > yf. 8, 10 Euboeam > roborā. 15 Spania ∽ ſpanıā. “hıb̃ıum” ✱ Lucan. V 237 Interea domitis Caesar remeabat I b e r i s. 22-23 er sumt > er ſum.

‘þess alls hverngi sigr er vér vinnum. nú viljum vér ‘sjálfir leita fyrir oss að goðanna ráði. væntum vér að ‘þetta mun til friðar snúaz þót þú reiðiz’. síðan ætlaði mikill hluti liðs hans að skiljaz við hann. en er Julius sá það að þeir ætluðu brott að fara þá bað hann þá fyrst hlýða sèr ok mælti á þessa leið fyrir þeim ‘þeir riddarar ‘er nú eru óðir orðnir ok vilja brott frá mèr þá skolu ‘aller fara vápnlausir en láta mik taka við vápnunum. ‘fari þèr sem yðr líkar en látið mik ábyrgjaz mín forlög. ‘þessi en sömu vápn munu mèr finna jammarga menn sem ‘nú flýja — eða ætlið þèr að aller menn af Rómaborgarlandi ‘hafi flýit með Pompeio ok gengið á skip hans en öngir
22 ‘muni til verða að fylgja mèr ok taka upp þann sóma ‘allan er þèr hafið hafðan? — ok kann þá vera að svá skipti ‘um að þèr fátækir kallar er nú hafa barz með mèr sjáið ‘þá sóma hinna ok virðing í Rómaborg er nú hafa barz ‘með mèr fár orrostor. æða ætli þèr það, vesæler menn, ‘að yðarr flótti muni nokkuð um mína gæfu skipta? jafnt ‘mun vera sem þá er árnar heituðuz við sjáinn að þer ‘mundi æigi í hann falla lengr, ok mundi hann vera hinn ‘sami en þær mundu æigi vita hvað þær skyldu við sik ‘gjöra. eða ætli yðart fullting nakkvað skipta um minn ‘hag? aldri munu goðin virða sik svá lítils að þau muni ‘yðra framgöngu láta ráða mínu aldrlagi; heldr mun mín ‘gæfa stýra yðrum hag: svá er skipað að margir skulu ‘þjóna en fáer drottna. veit ek að þèr munduð fullfúsir ‘flýja með Pompeio af þeiri ógn er mínu nafni fylgir ok ‘þeim sigri er ek vann í norðrhálfu heimsins er þèr þorið ‘æigi að fylgja mèr ok mínum sigri. vitið það að Labienus ‘þótti hinn mesti höfðingi með sínum vápnum ok hinn ‘harðasti meðan hann var með mèr en nú er hann kominn ‘í annan flokk ok er hann nú hinn herfiligsti flóttamaðr

19 þer (ɔ: þær) = þ̄. 32 herfiligsti = h'ulıgſtı.

‘bæði á sjá ok á lande. setið niðr nú merkin mín ok flýi ‘þeir er það vilja ok taki þeir upp vápnin er betri karl‘menn eru ok mun ek halda upp orrostum jamt sem áðr. ‘en þeir fáer menn er valda “þeſſi” skulu taka maklikt ‘víti fyrir sinn ótrúleik: nú skulu þeir rètta fram hálsana ‘ok skulum vèr sjá aller samt hvárt þesser hinir nýju ‘riddarar kunni stórt að höggva er nú vilja mèr fylgja’. við þessa ræðu varð fólkið svá hrætt að æingi þorði brott að fara en aller játuðu honum sinni hlýðni. nú ferr Julius með allan herinn í borg þá er Brundisium heitir ok lætr þar heimta saman öll skip þau er fá mátti af Púle. en hann sjálfr ríðr til Rómaborgar með litlu liði ok var þar gjörr dictator ok consul af því liði er þar var til. síðan fór hann í borg þá er Alba heitir ok blótaði þar epter fornri venju Rómaborgarhöfðingja ok ferr síðan aptr í Brundisium sem skjótaz má hann við komaz eptir þeim föngum sem þá mátti til verða.

3. Frá hættuferð Julii. Eptir það ferr hann út yfir hafið með her sinn í borg þá er Paleste heitir. en þó var mikill herrinn æigi búinn: þá setti Julius þann höfðingja yfir liðinu er Antonius hèt ok bað hann til sín koma svá sem hann yrði fyrst búinn til. nú setr Julius herbúðir sínar skammt frá því er Pompeius hafði sínar herbúðir; en tvær ár miklar fèllu millum herbúðanna svá að hvárigir máttu til annarra komaz, ok hèt önnur Apsus en önnur Genusus. svá segir Lucanus að hamingjan fekk þenna stað til þess að varðveita þessa tvá höfðingja heimsins 23 er æztir váru ok skirra svá úhæfuna nokkura stund þó að meiri kvöl yrði heiminum en svá að þessi dvöl kjæmi til sættar. hèr mátti hverr þeira sjá annan ok mæla við annan ok minnaz á það hversu lengi þeir höfðu með

---

10 heitir +. 19 Paleste > paleſtrıa. 20 herrinn = h̄ın̄.
22 koma +. 24 miklar = mıkklar. 25 Apsus > Capſuſ.
26 Genusus > Genuſıuſ. 30 hverr = hu͛r.

mikilli ást saman haldiz í fögrum tengðum. nú var Julius fúss til orrosto, en honum þótti Antonius seinn til fundar við sik: þá gjörði hann orðsending til hans ok mælti ‘gjör svá vel, dvel æigi herinn; því at ek veit að hann ‘vill gjarnliga hingað koma þó að hann viti víst skipbrot ‘fyrir. nú er mèr mikil sótt í svá búnu, ok æigi skiptum ‘vèr nú jafnt heiminum: Cesar ok aller öldungarnir sitja ‘nú í Epiro en þú hefer nú einn Rómaborg’. en er Antonius dvalði myklu meirr kvámuna en Julius vænti þá fór Julius brott frá herinum nótt eina ok hafði eins riddara klæðnað: hann gekk með sjávarströndu ok fann eitt lítið skip sett í bergskor eina ok fest með reipi: hann sá þar hjá hús lítið grasi vaxið ok byrgðar dyrr: hann gekk að hurðinni ok knúði hendi sinni. en þar var fiskimaðr einn fátækr inni sá er Amiclas hèt: hann gekk til hurðar ok spurði hverr svá fátækr væri kominn að hans skjóls þurfti að vitja: síðan kvæykði hann ljós ok lauk upp dyrunum ok skildi æigi hvað goðin veittu honum er hann hræddiz ekki en sú mundi eingi borg eða herbergi að menn mundi æigi hræðaz ef Julius knúði sjálfr dyrrin. síðan mælti Julius við hann ‘ef þú vill fylgja mínu ‘ráði ok flytr mik yfir hafið á Púlsland þá skaltu æigi ‘þurfa að æiga björg þína alla undir báti þessum eða ‘undir verki þínu: far þú skjótt ok bú þik ok dvel æigi ‘fyrir því að það mun þín gæfa að gjöra minn vilja’. Amiclas talði torveldi á ferðinni en þó lauk svá að hann læysti skipið ok setti fram. nú snúaz þeir skjótt ok sigla í haf en vindinn gjörði hvassan ok sæinn stóran. nú hræddiz fiskimaðrinn mjök ok vildi þar taka land sem fyrst gjæti hann. en Julius sagði ‘hræz æigi þú ógn hafsins ‘ok sigl beint í mót veðrinu ok stefn á Italia land, ok

—

8 Epiro > ephıro. 9 myklu = ’mýcklu. 15 Amiclas > amınclaſ. hann = han. 25 minn ∽ mín. 25-26 vilja. Amiclas > = = Amınclaſ.

‘sú ein er rètt “trua” til hræzlu þinnar að þú veiz ekki ‘til hverjum þú fylgir fyrir því að gæfan ok goðanna ‘fullting mun aldregi við mik skiljaz. nú stefnum “uıð ‘“þeſſa hafnar er Calabrū heıt” fyrir því að þar að eins ‘mun sú lending er við munum lífi halda’. nú sigla þeir á hafið þót Amiclas vildi æigi; en veðrið óx að einu: nóttina gjörði ok myrkri en dæmi væri til því at veðrit var þykkt ok skúrir við eða drífa ok þeir sá æigi siglutrèið ofanvert ok máttu öngu við koma öðru en sigla forviðris. þar kom loks að Julius ætlaði ekki annað en þeir mundu týnaz skulu ok mælti ‘undrumz ek það er ‘goðunum verðr svá mikið fyrir að týna mèr er þau æsa ‘allt hafgjálfr að mèr þar er ek sit á einum litlum báti. 24
‘ef minni virðingu er æigi ætlað að látaz í orrosto ok ‘skal ek heldr drukkna í sjá þá mun ek úhræddr taka ‘þann dauða er goðin ætla mèr ok þót nú lúki skjótt yfir ‘mína æfi þá hefi ek unnið mèr nær til yfrins ágjætis: ‘ek hefi kúgað allar norðrhálfur heimsins ok mínir óvinir ‘ero aller á flótta fyrir mèr; svá var ek nú næst í Rómaborg að Pompeius var mèr lægri, tók ek nú þar alla ‘þá tign er ek veit dæmi til að rómverskr maðr hafi ‘fengið. en nú bið ek þess að eingi viti hvað af mèr er ‘orðit ok stíga ek svá dictator ok consul fullr allra tigna ‘í dauðann: láti goðin mik önga eptirgjörð hljóta ok ‘hvergi lík mitt til landa bera ok önga sáluelda kynda ‘fyrir því að várir úvinir munu aldri við mik úhræddir ‘meðan þeir vita æigi vísan bana minn’. svá mælti hann meðan þeir voru í þessum mikla háska. en þó lauk svá að þá bar að landi ok komz hann til fundar við Antonium ok hans lið ok allmjök á úvart ok er hann var kenndr þá dreif að honum nær allr herrinn ok mælti ‘hvar til

1 “trua” < sök. 5 þeir +. 6 Amiclas = ·A·. 10 loks = lox. 14 minni > mīn. 22-23 er orðit +. 28 mikla = mıckla.

‘ætlar þú þá er þú hættir lífi þínu í svá mikinn háska ok ‘lætr oss forostulausa en þú læypr á hafið við annan ‘mann í svá miklum stormi? því at líf þitt er hjálp ok ‘hæilsa lýðsins en nú ertu æitt hið hæsta höfuð heimsins ‘þá eru nær ærsl í að vilja svá dæyja því at æingi er ‘sá þinna höfðingja eða riddara að æigi vili aller með ‘þèr lifa ok dæyja fyrir hvern mun ef vèr ættim kost ‘— en nú *sk^^^m* vèr sofa meðan þú vart í lífsháska! ‘ok yfrið mjök ræynir þú “þı”^^^^^“ıngıu” í orrostum ‘þót þú hlaupir æigi á haf út í úfærum veðrum því at ‘öllum var ^^^^^^ eptir þèr að koma’.

4. Julius bjóz nú sem hvataz ok vánu bráðara *kom ^^^llu* liðinu í Epirum. Pompeius sá nú að Julius var kominn nær herbúðum hans með allan sinn afla. hann vildi flytja Corneliam konu sína í æy þá er Lesbos heitir ok væri hón þar hirð frá öllum háska. nótt hina næstu eptir vaknaði hón er á leði ok vildi krjúpa að honum ástsamliga ok kyssa hann, en þá er hón tók hendi sinni á kinn honum þá fann hón að kinnin var vát af tárum ok varð hón ákafa hrædd ok þorði eingis að spyrja fyrir því að hann var ekki vanr að gráta. en af stundu mælti Pompeius ‘þar er komið að mèr þikkir æigi blíðara að ‘lifa en að dæyja því at sá dagr mun nú koma er vèr ‘höfum dvalið með smá ok stóru. Julius er nú kominn ‘hèr með lið sitt ok sýniz mèr ráðligra að þú farir frá ‘várum fundi ok í Lesbos “þa” er þú sèr vel haldin. ‘skaltu nú eingis þess þar um biðja er ek vil æigi. mun ‘þessi stund skjótt líða fyrir því að *ek* sè að sköpin hrapa ‘nú mjök ok mun *til*

---

3 miklum = mıkklū. 8 *sk^^^m* < *skyldim.* 9 “þı”^^^^^“ıngıu” < þína hamingju. 11 ^^^^^^ < yfrið annt. 12 Julius > uhuf. 13 ^^^*llu* > hann öllu. Epirum > ephıro. 17 honum ∽ hm. 26 “þa” (ɔ: þá) < þar.

## G.

‘er það kynlikt að þèr ætlið mik yðr líkan er minna ‘unnið Pompeio en ek ann dauðanum’.

2. Nú kemr Julius þagað með her sinn ok þar kemr hann sem Sceva var náliga fallinn: taka þeir hann upp ok bera á öxlum sèr ok lofa aller hans hraustleik ok þótti þeim heldr sem það væri goðanna kraptr er hann hafði en manns. nú leggja þeir hann niðr á völl einn slèttan ok taka af honum vápnin ok þá mælti Julius ‘mikill harmr er það, enn sterkasti Sceva, er þú mátt ‘æigi prýða hofin með þínu fengi ok æigi njóta sigrs ‘með þínum lánardrottni svá sem þú vart ágjætliga viljaðr’. ok þá lèt hann lífi sínu við mikinn hraustleik ok vaskleik.

3. Pompeius lætr nú færa herbúðir sínar að þangað sem virkið hafði verið ok dræifði liði sínu ok bjóz þar um sem öruggligaz ok gjörði æigi ganga yfir út þót kostr væri. en Julius hafði ekki komið sèr við þenna bardaga en sá virki sitt brotið ok brennt ok menn sína marga fallna: hann undi nú illa við er Pompeius ok hans menn höfðu hvíld ok hægjan herbúðastað ok varð hann svá óðr við að hann eggjaði menn sína yfer virkið ok frýði öllum hugar er æigi vildu að ganga með honum. nú ræðr Julius til atgöngu með mikla sveit manna ok fylkti sínu liði öllu á velli einum slèttum. en Pompeius gengr út ór herbúðum ok fylkja þeir margar fylkingar umhverfis lið Julii. þá var æsi-gnýr mikill af kalli ok vápnabraki ok lúðragangi ok gjörði svá myrkt af moldryki að náliga mátti ekki sjá. þá sló ótta miklum á lið Julii ok þótt þeir vildi flýja þá hljópu þeir í hendr úvinum sínum. svá lauk þessum fundi að drepið var mjög mart af liði Julii.

---

2 ætlið mik +. 4 Nú > u. þagað ◡ þangað. 5, 10 Sceva > Scepa. 12 ágjætliga > agıætlıga | a. 14 Pompeius > ompei’. 16 öruggligaz = avruglıgaz. 23 mikla = mıkkla. 28 miklum = mıcklū.

ok þá er svá var komið þá stöðvaði Pompeius sjálfr lið sitt að æigi væri að gengið þar sem Julius sjálfr stóð með sína sveit. nú snýr Julius aptr yfir virkið til sinna manna ok flýr hann síðan ok allt lið hans.

4. Síðan fór Julius eptir þenna úsigr brott ór Epiro ok kom með lið sitt í það land eða hèrað er heitir Emathia en Thessalia öðru nafni. En Lucanus ræðir svá um þenna fund 'hèr mundi nú' segir hann 'hafa lok á fallið 'um þenna ófrið í Rómaborg ok lögin sjálf mundu náð 'hafa sínu fullu frelsi ef Silla hinn ríki fóstri Pompeii 'hefði þenna sigr fengið' kallar Lucanus það stórligan harm er Julius með sitt ofrkapp skyldi eiga þessa dæilu við mág sinn svá mildan ok miskunnsaman.

5. þá er Julius var brott farinn með her sinn þá vildi Pompeius fara eptir honum með öllu liðinu. en höfðingjar ok vinir hans vildu að hann færi til Rómaborgar ok sögðu að þar mundi æingi fjandmanna fjöld fyrir. en
26 Pompeius svarar á þessa leið 'aldregi skal ek gjöra að 'dæmum Julii ok æigi mun ek koma til Rómaborgar nema 'ek koma með friði. vel hefða ek mátt halda Rómaborg 'ef ek vilda berjaz á miðju torgi eða í nánd helgum 'musterum: hefi ek því farið í fjarlægt ríki að ek sparða 'mjög fóstrland mitt til allra vandræða — því at enn skal 'ek þín vitja Roma ef ek fæ sigr, ok fyrir því flýða ek 'að ek vilda æigi vandræði þín. þó að Julius vegi á mèr sigr þá vil ek æigi fyrir því að heldr að hann þýðiz þik'. eptir þessa stefnu ferr Pompeius austr í Emathiam landveg. hann setr herbúðir sínar í nánd því sem herbúðir Julii váru. var það mjög lengi að þeir sátu þar fyrir því að hvárutveggja liði var ótti að öðrum. Sextus Pompeius hèt son hins mikla Pompeii: hann gjörðiz mjög

---

5 Epiro > ephıro. 7 Thessalia > thefalıa. 14 þá er > a er. farinn = farın. 23 enn (= eñ) < (eıf ɔ:) eins. 31 mikla = mıckla.

fúss að vita fyrir, hversu reiða mundi. í Thessalia var fjölði mikill galdramanna: þeir gjörðu stundum daginn svá myrkjan sem nótt væri en stundum nóttina svá bjarta sem dagr væri.

6. Frá Erichtho. Erichtho hét kona sú er ágjæzt var af sinni fjölkynngi: hón byggði æigi í borgum né húsum, hón lá í hellum eða í leiðum dauðra manna: hón var mögr en litr hennar var jörðu svartare ok gekk af henni daunn illr: hón var vön að kvæykja upp dauða menn ok láta segja sér slíkt er hón vildi. hennar leitaði enn ungi Pompeius ok fannz hón um síðir í helli nökkurum. enn ungi Pompeius kvaddi hana fyrri ok mælti ‘hæyr þú frægð allra tröllkvenna. spurt hefi ek að þú ‘mátt mörgum hlutum stýra ok forlögum manna stýra ‘með þínum kænleik en ek vil biðja þik að þú segir mér ‘hvern enda hafi várir bardagar: æigi krefr þik þessa ‘virðingarlauss maðr af Rómaborg heldr sonr hins mikla ‘Pompeii sá er erfingi er eptir til konungsríkis en eptir‘gjörðarmaðr ef þess þarf við: rannsaka þú annars heims ‘staði ok seg mér hvað falla mun af váru liði’. Erichtho svaraði honum ‘miklu má ek stýra um eins manns forlög ‘ok líf, svá ok um dauðann; en ekki má ek ráða forlögum ‘alþýðunnar’. þar kemr loks að þau taka dauðs manns lík ok draga það í helli þann er hón hafði verið í ok var myrkt náliga. svá er mikið að segja frá hennar kænleik að náliga hrærði hón alla jörðina ok hafið ok fara mátti hón í gegnum holt ok hamra: hón mátti kvæykja upp fylkingar dauðra manna ok láta berjaz sem hón vildi. Erichtho

---

1 Thessalia > thefalia. 2 daginn = dagin. 5 Erichtho > ericto, Ericto. 7 eða > eð = =. 8 jörðu ⌣ jörðo. 13 spurt > Spur. 16 bardagar > barðagar. 17 mikla = mickla. 19 rannsaka = Ranzaka. 20 Erichtho > Ericto. 21 miklu = Mikklu. 23 loks = lox. 27 fylkingar > fylkinga. 28 Erichtho > Ericto.

klæðir sik nú undarligum búningi ok magnar svá sína galdra. en Sextus Pompeius ok hans förönautar tóku að hræðaz mjök. þá mælti Erichtho ‘hvárt hræðiz þèr þótt ‘þessi maðr lifni ok mæli við oss of stundar sakir? vera ‘mætti að þèr hræddiz ef ek lyka upp fyrir yðr helvíti ‘ok sæi þèr þar eldsfulla staði ok ár þær er með æitri ‘fèllu eða höfðingja þá hina ógurligu er þar eru’. síðan tók Erichtho höggorm einn lifanda ok barði með líkama hins dauða manns unz

## H.

27 að öllu. í þenna tíma laust á veðri myklu með eldingum ok reiðarþrumum ok svá var mikið veðrið að fjöldi manna fèll fyrir en upp tók skjöldu ok vápn manna í loptið. en svá var fólkið rasanda að þá er vápnin fèllu ofan ór loptinu þá kölluðu þeir að goðin sýndi það að þau vildi berjaz láta er þau sendu vápnin ofan ór loptinu. [Sua uar folkıð rafanda að] þeir leituðu sèr margra líkna við himnagoðin. en Lucanus kallar á því líkendi að Julius mun nú blótað hafa til sigrs sèr svá marga góða menn sem hann drap í þessum bardaga. svá er sagt að vísendamaðr einn sá er Aponus hèt sat á fjallshálsi einum yfir uppi þar sem liðit bjóz hvártveggja undir niðri ok sá þaðan til ok mælti ‘nú kemr mikill dagr ok mun stórt í ‘gjöraz: hèr gangaz að móti fylkingar þeira Pompeii ok ‘Julii, tveggja hinna æztu manna er nú eru í heiminum, ‘ok himininn sjálfr sýnir ógnir á sèr um þessa dæilu ‘hversu óskaplig er.’

2. ∼∼∼. Nú fara menn Pompeii fram á vígvölluna í sólarupprás ok þá er sól rann upp ok tók að skína á vápn manna þá tóku náliga allar hæðir að skína af skjöldum

---

2 förönautar (= fauravnavtar) < förunautar. 3. 8 Erichtho = ·e·. 11 myklu = mýkclu.

ok vápnum. enum vinstra fylkingararmi stýrði Lentulus consul með öllum Rómverjaher þeim er hraustastr var, en hinum hægra fylkingararmi stýrði Domitius er fyrstr barðiz við Julium í Lumbarðı, en í miðri fylking váru borin fram merki Pompeii ok fylgði dýrðligr höfðingi sá er "lıbıco" hèt ok með honum fjölði höfðingja af Rómaborg ok váru valðir hinir beztu riddarar af útlendum her: var þar gjör ákafa þykk fylking. önnur fylking stóð þar er nökkuru var lægra við vatnföll nökkur ok stýrðu því liði höfðingjar ór Asia. en þriðja fylking stóð á hæð nökkurri frá Rómverja liði ok stýrði þar konungr af Siria ok þar með víkingar ór Grikklandshafi.

3. ^^^^. Nú sèr Julius að lið ferr fram á völluna ok menn sýna sik búna til orrosto í gegn honum. þá óttaz hann nokkuð í fyrstu ok kallar saman allan herinn ok mælti á þessa leið 'hæyrið nú riddarar er sigraz hafa víða um 'heiminn með minni hamingju. nú er sá dagr kominn er 'vèr höfum opt til langað: nú þarf hans æigi að æskja. 'næytið nú svá vápnanna að vèr bíðim *annad* hvárt í dag 'bót eða bana. þèr hafið nú yðr í hendi í dag hvað manna 'ek skal vera í kveld. ek man gjörla þann dag er þèr 'hètuð mèr fulltingi við Rubicon ok af þeiri ván ræð ek 'til bardaga þá er mèr var varnað alls sóma í Rómaborg. 'nú mun ræyna hvárir vèr berum sannara mál til því at 28 'þeir munu sekir ganga er sigraðir verða. en èr kváðuz 'fyrir mínar sakir sækja fóstrjörðina með vápnum ok eldi: 'beriz nú hart þá ok læysið nú af hendi þenna bardaga. 'öngum manni verðr að sóma bardaginn þeim er þá skipter 'hamingjunni. æigi liggr minn lutr við að eins. ek bið að 'þèr frelsið yðr ok fáið vald yfir öllum þjóðum. ek em

---

3 Domitius = Domıcı'. 6 "lıbıco" (ɔ: Scipio) ✻ Lucan. VII 223 Scipio, miles in hoc, Libyco (Libyo) dux primus in orbe. 12 Grikklandshafi > gr^^^landz hafı. 13 Nú > u. 22 Rubicon ∽ rubıton. ræð ɔ: rèð.

'fúss að koma í Rómaborg með friði ok kalla *m*ik þá 'ótigi*nn* sem einn hvern yðarn en láta yðr yfirgang hafa 'sem framarst só*m*ir í mínu trausti. æigi mun yðr mikið 'þikkja að sigra útlendan her er hèr er saman ko*m*inn 'af Grik*k*landi — ok sá lýðr af "palaſtına" er sjaldan hefir 'vápn borið, ok þá er *lú*ðrar kveða við ok heróp kemr 'upp þá munu þeir varla bera mega sjálfra sín "kuav"〰. 'þvígit fleir*i* hendr munu með kappi berjaz oss í móti. 'æigi þarf að spara útlendan herinn *því at* þeir eru 'ávallt várir úvinir. ráðum þar fyrst á sem þeir standa. 'kemr *y*ðr nökkuð *það* í hug að þeim muni undir þikkja 'hverr höfðingi er í Rómaborg eða þei*r* muni fúser *a*ð 'kaupa sínu blóði ríki Pompeio? hatar sá lýðr Rómverja 'er kúgaðr er u*ndir* várt ríki. nú er *u*ndir yðru afli mín 'hamingja, þeira manna er ek hefi ræyndan *hraust*leik 'áðr í mör*gum* orrostum ok ek ken*n*i nær hvers manns 'vápn ok ek skil hvar hv*er*gi skýtr fram sínu *sp*jóti. 'sè ek nú að þau merki yðarra hertoga er lítt h*a*fa brugðiz '〰 harðligt yfirb*ra*gð ok ógurlikt hafa svá sem fyrr 'meirr þá er þèr *vágud sigrinn*. ek þikkjomz ok nær sjá 'alla þessa völlu fljóta í blóði ok undir fótum troðin lík 'konung*a*nna ok öld*un*ganna ok várra fjandmanna. fyrir-'gefið mèr þótt ek dvelja yðr nú þessa *stun*d að hlýð*a* 'mèr svá sem ek sè að þèr eruð nú fúsir að berjaz. 'aldregi sá ek himnagoðin jafn*n*álæg fyrr þau er oss gefi 'sigrinn. stöndum vèr nær þeim vellinum er vèr *m*unum 'sigraz á. ek mun ósparr að veita yðr þau gjæði er þesser 'konungar hafa átt. svá mun lúka þessi orrosto að vèr

3 trausti > "travſt"〰. 5 "palaſtına" ✻ Lucan. VII 270-71 Graiis dilecta iuventus Gymnasiis aderit, studioque ignava p a l a e s t r a e. hefir = hefu. 7 "kuav"〰 < kvöð. 8 munu < munu munu. 9 útlendan > 〰lendan. 17 hv*er*gi = hugı. skýtr > 〰ýtr. 18 að þau < þau. h*a*fa = h*a*fua. 19 〰 < ok. 20 ek þikkjomz ok > 〰 þıkkıomz 〰k. 25 himnagoðin > hımn〰 godın.

‘munum upp taka annað tveggja gjæðin mikil eða svívirðing ‘elligar. látið yðr í hug koma hverr yðarr kostr mun þá ‘er þèr sjáið mik *fjö*traðan eða *mitt* höfuð á spjóta oddum ‘eptir þá orrosto er vèr berjumz við þann hertoga er ‘*f*óstri er Silla hins ríka. þèr skoluð það víst vita um mín ‘órræði ef ek sè æigi að vèr si*gru*mz að ek skal sjálfr ‘minni hendi veita mèr skaða. goðin þau er sjá af himn‘*inum* hvert missætti Rómverja láti þann sigraz er æigi ‘þikkir það nauðsyn að drepa þá alla er sigraðir verða ok ‘kallar það æigi hina mestu úhæfu þótt menn hafi missáttir ‘vorðið v*i*ð sína borgarmenn. muni þèr það nú er Pompeius ‘hèlt yðrum fylkingum svá að þèr náðuð varla að berjaz ‘eða hversu mart lið hann drap fyrir yðr. nú er sú bæn ‘mín við yðr að *þèr hö*ggvið öngan þann mann er baki ‘snýr við yðr: látum frið hafa þá er flýja ∽∽∽ðan

## I.

*í miklum stormi ok kom∽∽∽∽∽∽∽∽Palinurus- strandar* 29 *en Kato. Gneius Pompeius son* hins mikla Pompeii kenndi skipið er að fór *l*andinu ok kenndi mennina þá er hann sá. hann fór þegar á mót skipinu ok kallaði á bróður sinn er hann sá standa á þiljum frammi ok mælti ‘bróðir. ‘hvað segir þú m*èr* til föður míns? hvar stendr hið hæsta ‘höfuð heimsins? eða eru*m* vèr farnir ok Magnus farinn?’ Bróðir hans svaraði honum á þessa lund ‘sæll ertu bróðir ‘er þú vart æigi þar staddr sem vèr várum ok skaltu ‘heldr hæyra úgjæfuna en sjá á föður þíns dauða ok hans ‘hörmulikt líflát. ekki fèll hann fyrir vápnum Julii mágs ‘síns, heldr lèz hann fyrir vápnum ens illa konungs á

---

9 nauðsyn = navðzýn. sigraðir verða > ∽ıgraðır uerð∽. 12 varla > ua∽la. 13 eða > ∽ða. 14 öngan > avng∽n. 15 ∽ðan <. en meðan. 17 *kom∽∽∽∽∽ < komu þeir síðar til. Palinurus > palınorıſ.* 18 *Gneius = Gnegı’*. mikla = mıckla.

'Egiptalandi þess er makligr er harðra hefnda ok æigi 'launaði sæm*i*liga það ríki er v*ar* honum veitt ok hans 'forellri. enn ek sá gjörla er faðir minn var veginn. ek 'trúða *æigi* að Egiptalandskonungr mætti stórvirki slíkt 'vinna. þótti mèr æigi sv*á* þung*t* að sjá blóð hans ok 's*ár* sem það er þeir báru höfuð á stöng ok færðu upp 'til borg*ar* *ok* gjörðu það til frægðar sèr ok ætla það að 'sýna Julio ok gjöra það til vinganar við hann. ok vitu*m* 'vèr æigi hvárt fuglar eða hundar rífa hræin eða hefir 'bál það læynilikt er vèr sám um nóttina verið gört eptir 'hann. nú veit guð ef það hefir verið. en ek harma það 'er goðin lètu slíka úgjæfu verða framða af svá miklum 'víkingi'.

2. þá er Pompeius enn ellri hæyrði þessa sögu þá grèt hann æigi nè harmaði heldr reiddiz hann karlmannliga ok höfðingliga ok mælti 'setjum fram skipin sem harðaz 'ok snúum aptr til Egiptalands. gjörið svá vel höfðingjar, 'fylgið mèr. "alldr" mun verið hafa verkkaupið meira 'orrostonni, en nú mætti svá vel verða að þèr seddið 'mína ræiði á blóði víkingsins. með því að faðir minn 'hefir öngan umbúnað sæmiligan þá skal ek upp brjóta 'leiði hins mikla Alexandri ok allra þeira höfðingja er 'þar eru jarðaðir ok kasta á sæ út þeira beinum: ek skal 'taka goð þeira Isim ok Osirim ok svipta af líndúkum ok 'þar skal fylgja hið helga goð þeira Apis ok skal þeim 'þar elda undir öllum sem brennt er höfuð Pompeii. svá 'vilda ek leika við Egiptaland að æingi maðr byggði þar 'ok áin Níl gjörði mannigi grand ok væri faðir minn þar 'æinn eptir þá er æytt er bæði goðunum ok mönnum'. að svá mælto hljóp hann til skipa sinna ok mart manna

3 enn (= eñ) < en. 11 hefir = hefu̇. 12 miklum = mikklū. 14 þá er > a er. 22 mikla = mikkla. 30 hann +.

með honum. en Cato gekk til ok stöðvaði þá en kallaði þó stórmikla várkunn á að honum bjöggi mikið í skapi um hefndina.

3. Nú voru sögð tíðindin öllu fólkinu, fráfall Pompeii Magni, ok reis þar upp með ströndinni allri grátr ok aumkun svá mikil að menn vissu æigi dæmi til að allt fólk bæri svá þungliga æins manns *d*auða. en þó þótti þá miklu á auka er menn sá Corneliam læidda af skipi ok svá fölva að æigi mátti sjá mannslit í andlitinu ok hafði laust hárið. en þá er hón kom á land þá kom hón til 30 ok lèt bera saman vápn þau en ágjætu er átt hafði Pompeius Magnus ok klæði gullofin ok gullsaumuð þau er hann hafði þrim sinnum borið inn í Þórshof eptir hina æztu sigra er hann vann. síðan lèt hón gjöra sáluelda eptir fornum sið ok kastaði þar á fram klæðunum ok vápnunum. eptir það risu þar upp sálueldar eptir allri ströndinni þar sem herrinn byggði. þar fylgði síðan kall mikið af öllu fólkinu ok ámæltu goðunum er þau lètu slíka úgæfu fram ganga ok kváðu Pompeium þeim æðra a víðsu. en þó var honum meiri vegr að þeim orðum er Cato talaði fyrir fólkinu ok hóf málið á þessa le*i*ð ‘sá maðr er nú ‘frá fallinn er úlíkr ok újafn er hinum fyrrum mönnum ‘várum að kunna hóf að sínu ríki en þó nytsamligr þeira ‘æfi er nú eru. hafði hann með sèr ást hins rètta. var ‘hann svá ríkr að aller Rómverjar hèldu sínu frelsi. þó ‘vildi hann ekki tignarna*fn* bera þótt alþýðan vildi honum ‘þjóna. stýrði hann öldungunum að þeir hèldi sínu ríki. ‘mat hann ekki kaups við þá orrostornar. eignaðiz hann ‘stórmikið fè en færði miklu meira öldungunum í Rómaborg. bar hann opt vápnin ok kunni niðr að leggja þót ‘hann væri vápnaðr. elskaði hann friðinn undir vápnunum ‘ok tók með virðingu hverja tign. gjætti hann sín við

---

2 stórmikla = ſtormıckla. 4 Nú > u. 8 miklu = mıcklu. 24 æfi = æfuı. 29 miklu = mıcklu.

'allri svívirðingu. nafn hans var göfugligt fyrir öllum 'þjóðum ok mikið jók hann Rómaríki. þá er þeir Silla 'ok Marius dæildu fórst hið sanna ríki ok frelsi Róma-'borgar, en nú er Pompeius er frá tekinn fórst yfirbragð 'frelsissins. mun nú Julius ráða ok ríki æinn öllu, er nú 'farið afl öldunganna. þikki mér sá sæll er svá skjótt kemr 'dauðinn að hendi þá er hann er sigraðr sem nú gjörðu 'Egiptalandsmenn við þann er gjarna vildi æigi lifa við 'skömm. það er hinn æzti mannkostr að kunna að dæyja. 'ef ek kem í ríki Juba konungs þá mun ek biðja hann 'ef oss veitir þungt að hann láti höggva af mér höfuð 'ok spari það æigi heldr Julio'. nú var þetta miklu meiri vegr Pompeio (segir Lucanus) er Cato talaði þvílíkum orðum en þó að allr Rómaherr veitti honum mikið orðlof.

4. Eptir þetta gjörðiz sundrþykki með honum ok öllum herinum ok vildu margir skiljaz frá ok ganga til sættar. Tarkon hét víkingr æinn sá er fyrstr varð til þess að skilja við Catonem ok fór með honum mart manna til skipa ok vildu á braut. Cato gekk að honum ok mælti við hann 'hæyr þú hinn grimmi víkingr. hvárt viltu 'enn fara aptr í hernað? mun það fylgja fráfalli Pompeii 'að aller víkingar munu leggjaz vilja í haf'. eptir það sá Cato að alþýða manna bjóz. þá gekk æinn riddari að honum ok talaði fyrir hönd alls hersins ok mælti 'Cato' sagði hann 'al þú oss várkunn þótt vér vilim brot. vér 'gengum í dæilu þessa fyrir ástar sakir við Pompeium en 'æigi fyrir því að oss þikki gott að berjaz við vára borgar-'menn ok frændr ok fóstbræðr. nú er sá frá fallinn er 'allt fólk virði meira en sjálfan *friðinn*

---

5 ríki (= rıkı) < ríkja. 7 dauðinn = davðın. 15 Eptir > pt[7]. 17 Tarkon ⌣ Carkon < Tarkondimotus. fyrst ∽ fyrſtz (ɔ: fyrst).

# X.

## UPPHAF RÓMVERJA.

---

### I.

1. *Af Romulo ok Remo breðrum.* Svá segja róm- 12[3] verskar bækr frá uppreist ok efleng Rómaborgar í fyrstu at dóttir þers manns er Numitor hèt var nefnd Rhea ok þá er hón var mær *var* hón í musteri einnar gyðju ágjætlega klædd svá sem til daglegrar þjónostu ok þá bar svá til þerse sömu jungfrú annat hvárt í draumi eða einshverri andalegri vitran *at* henni þótti seálft bardagaguðit sem Mars heitir á látínu ok vèr köllum Tý koma til sín í líking karlmannlegrar sambúðar af hverri hón gat ok fæddi tvá tvíbura sem annar hèt Romulus en annarr Remus hvaðan af er allra heiðinna manna bekr sýna ok sanna nefnda bræðr hafa verit synir Martis hvat er oss sýniz at hváru með öllu ótrúanda með hverjum öðrum efentýrum sem þeirra getnaðr hefir til komit. móðer þeirra var síðan grafin kvik í jörð eptir lögum þeirra fyrir þann ljótlega hórdóm sem hón sýndiz drýgt hafa. eftir þat voro synir hennar kastaðir í eitt jarðfall eða helli við ströndina árinnar Tífr. þar segjaz þeir af einni vargynju fæddir

---

2 +. 6 Numitor > mínıtor. Rhea = rea. 12 karlmann-legrar = karlmañleg̊. 13 fæddi ⌣ feddi. 15 Martis ∽ marcıs. 16 efentýrum = efventyrū.

verit hafa nokkora hríð leynilega ok drukkit hana. eptir þetta fann þá höfðingi einn sá er Faustulus hèt ok bar þersa sveina til konu sinnar þeirrar er Laurentia hèt ok fóstraðu þau þá nokkora stund með mikilli virkt eptir því sem þau höfðu föng á. enn því at þerse Laurentia var harðla fögr þá segiz þat af henni at hón væri fullkomin portkona. af því kölluðu nágrannar hennar hana lupam, þat er á norænu vargynja. af hennar nafni er síðan kallat á látínu lupanaria pútnahús, þat er þers kyns herbergi er portkonur byggja í. enn fyrr nefnd Laurentia kona Faustuli er þá Romulum ok Remum fæddi á brjósti sèr — þá efaz sumir spekingar í hvárt hón hafi *verit* skipt í vargynju eða eigi. enn því at þeir hafa af samri varg*ynju* fæddir *verit* þá tjá þat allir fornir greftir ok pentarar hvervetna á marmarasteinum ok dýrum marmarahallarveggjum voldu*g*ra höfðingja ok sæmilegra ritara. Svá segir Teitr hinn öfundsjúki. þeir fyrr nefndir bræðr Romulus ok Re*mus* þegar þeir tóku at vaxa ok þroskaz þá söfnoðu þeir hjarðreka ok illvirkja með miklum fjölda ri*bb*alda ok fóru með þeim her á hendr Amulio konungi ok drápu hann því at hann hafðe á brott rekit Numitorem móðurföður sinn eptir því sem fyrr var ritat ok settu hann síðan aptr í ríkit. Af þersum tveim breðrum Romulo ok Re*mo var* síðan Rómaborg eflut eptir þeirra fyrirsögn ok skipan: þerser voro niðrstigande af ætt ok afspringhi Enee Trójomannahertuga: þá var liðit frá niðrbroti ok auðn Trójuborgar cccc vetra ok l ok iiij ár. svá seger meistari Orosius at Rómaborg væri fullkomlega efld á þeim tíma sem Achaz konungr ríkti á Gyðin*ga*landi. Romulus setti gullskript í Rómaborg gjörva eftir sjálfum

2 höfðingi < hirðingi. 3, 5, 10 Laurentia = laurencia, laurencía. 19 miklum = micklu. 20 Amulio > amlia. 21 Numitorem > mínítorē. 22 sinn < þeirra. 26 Enee > En*ai*. 30 gjörva = giorfa.

sėr ok mælti svá ‘falli þerse líkneskja eigi fyrr *en* mær ‘hefir son fæddan’. Á þriðja áre eptir er Roma var diktut ok saman sett var Remus drepenn af *Fa*bio hertuga með skjótum ok undarligum atburð því at hertuginn slð hann úvaranda undir kinnarbeinit með einum hjarðreka staf eða sprota með svá þungu höggi ok slagi at þegar fekk hann bana af — þerse same Fabius var hertugi Romuli bróður hans — af þeim atburð at þeir bræðrnir höfðu þrætt af fyrirburð galdrs ok sinnar fjölkynngi at hvárrtveggi þeirra skyldi sėt hafa gjóða nokkora eða vaka með sínum seiðgaldri eptir því sem segir Teitr enn öfundsami. svá sem þeir breðr voru tvíburar, sagðe hann, 13 ok meðr jöfnum aldri þá kepptuz þeir um ríkisstjórn með miklu forsi hvárr herri metorð eða stjórn skyldi hafa yfir ríkinu. enn um síðer með hinna stærstu manna tillögu ok meðalgöngu þá samþykktu þeir þat með sėr um síðer at hvárr sem meira kynni at seiðmagnan eða fjölkynngis fyrirburð þá skyldi sá stjórna Rómaríki eptir þeim hætti sem hann væri fyrri fæddr ok hinn ellri bróðer ok fyrir þersa sök höfðu þeir báðer komit upp í fjallit Aventinum hvárr með sínum mönnum eptir því sem skipat var. þá segja svá fróðar bækr Rómverja at fyrri birtiz Remo vij gjóðar af sinni fjölkynngi enn síðarr birtiz Romulo tvífallig tala fyrr nefndra fugla. horfði þeim nú til myklu meira sundrþykkiss en *áðr;* því at hvártveggi sannaðe sik nú ríkara ok meira fyrirburð hvárr öðrum sėt hafa: Romul*us* sagði sik meðr því sigraz hafa er hann steig yfir í sínum fyriburð með fleiri fjöld fuglanna, Remus með því er hann sá fyrri. síðan sneriz þeim þetta til mikils úfriðar ok stríðs bardaga ok eptir þetta var Remus drepinn sem

---

12 sagðe- > ſa||ſagðe. 14 forsi = forzí 24 myklu = mýcklu. 25 en ⌣ (eñ ɔ:) enn. 26 ríkara = rıkaŕa. 30 stríðs bardaga = ſtrıðs | bardaga.

fyrr var sagt. nú at hverju er þat alm*enniley frásögn* ok þó merkileg at Remus hafi því verit drepinn at hann hafi ný*ja* múra gjöra látit *yfir fram* þat endimark ok sáttmál sem skipat var milli þeirra bræðranna. lýkr hèr nú at segja frá *Remo.*

2. *Af Romulo.* Lukanus nefner í sinni frásögn móður fyrr nefndra bræðra Iliam er hèr er áðr nefnd Rhea. Romulus kallaðe síðan borgina af sínu nafni Roma eptir dráp bróður síns. hann var hinn mesti spekingr ok var lengi konungr. *hann* setti fyrst rímtal ok skipaðe þá fyrst árinu í *ix mánaði — ok* kallaðe hinn *fyrsta mán*að Martium af nafni föður síns — enn litlu síðarr v*ar skipt i* xij mánaði s*em nú e*r haldit. Hann setti þá sveit manna er hann kallaðe senator*es* ok v*oro* þat x tig*ir manna.* þeirra nöfn lèt hann skrifa á tabulo af eiri gerva en ritat var með gullstöfum. þeir skyldu ráða ráðum öllum *i ríkinu* ok alla dóma dæma. með því at nokkorr þeirra *dæmdi* rangan dóm e*ða tæki mútur* af mönnum til liðs sèr þá skyldi á þingi skafa nafn hans af tabulo ok skyldi *hann a*ldrei síðan eiga ván sæmdar í Rómverja hirð en*n* rita þeg*ar* an*n*an í h*ans* stað.

3. ⁓⁓⁓⁓. *Lukanus* greinir e*igi* hv*er*su at barst um líflát Romuli. þó finnst svá ritat í bókum rómverskum *at* einn tíma svá sem Romulus var staddr við eina mýri hjá borg þeirri er Kapua hèt á lát*inu* e*nn* Norðmenn kalla Kápuborg — ekki er hèr getit hv*er*su fjölmennr hann var þar — þá varð sá atburðr at lopt ruglaðiz með óða stormi ok gjörðiz myrkr mikit umhverfis hann: taka

---

3 gjöra látit > ooooooo. 6 Lukanus > ooo*nus.* 7 fyrr nefndra > ooooo*n*dra. Rhea = rea. 8 borgina af sínu > ƀgoooooooiu. 10 lengi konungr > ooo⁓⁓. 11 hinn > ooo. Martium = mᷣcium. 13 mánaði > manooo. 14 þeirra > ooo. 16 ráða ráðum > *ra*ooo⁓ðū. 18 *eða?*. 22 *Lukanus* > *vkan'.* 27 lopt > ⁓*pt.*

nú skýin sjálf *at* skakaz með eldingum ok hræðiligum reiðarþrumum af veðranna samkvámu ok í þersum enum *sögulega* myrkva ok ógurlegri skýjaferð þá segiz hann horfit hafa ok aldrei birz hafa *síðan enn þat kann* eingi *glöggliga* at skrifa hvat af honum mun vorðit hafa. var hann af því *kallaðr heilagr* af Rómverja öldungum ok upp hafinn *millem* sjálfra guðanna.

## II.

*Hèr hefr* ⌒⌒⌒⌒ *lut Rómverja sögu ok segir fyrst hversu* 14
*lengi hvert ríki stóð.* Romulus ok Remus voro tveir konungar á Italia landi ok er svá sagt að þeir væri synir Martis er Rómverjar kölluðu orrostuguð en vèr köllum Tý en móðir þeirra hèt Ilia ok var konungs dóttir af langfeðgum komin frá Enea mági Priami konungs ór Trójoborg. þeir bræðr gjörðu Rómaborg. en þá er borgin var gjör þá vildi hvártveggi þeirra gefa nafn borginni af sínu nafni ok gjörðiz þaðan af svá mikið missætti þeirra að hertogi sá er Fabius hèt drap Remum með samþykki Romuli konungs. eptir þat gaf hann nafn borginni af sínu nafni ok kallaði Romuleam. Romulus var hinn mesti spekingr að viti ok var lengi konungr. Hann setti fyrst rímtal ok skipaði þá fyrst árinu í ix mánaði — ok kallaði hinn fyrsta mánað Martium af nafni föður síns — en litlu síðarr var skipt í xii mánaði sem nú er haldið. Hann setti þá sveit manna er hann kallaði senatores ok voro þat x tigir manna. þeirra nafn lèt hann skrifa á tabolo af æiri gjörva en ritað var með gullstöfum. þeir skyldu ráða ráðum öllum í ríkinu ok alla dóma dæma. meðr þí að nökkur þeirra dæmði

---

3 *sögulega* ⌣ ⌒⌒ *sögulega* (< *frásögulega?*). skýja = ſkýgıa. 4 birz = bırtz. eingi +. 6 *kallaðr heilagr* < *kallaðr* ⌒⌒ *heilagr*. 9 ⌒⌒⌒⌒ < (*ānan* ɔ:) *annan* (?). 10 Romulus > omuluſ. 14 Enea > eneā. 22 ix < x. 23 Martium ∽ marcıū. 26 gjörva = gıorfua. 27 í ríkinu > ırıkınv-|.

rangan dóm eða tæki mútur af mönnum til liðs sèr þá skyldi á þingi skafa af nafn hans af tabolu ok skyldi hann aldri síðan æiga ván sæmðar í Rómverja hirð en rita þegar annan í hans stað. Eptir það er Romulus fèll frá rèðu konungar fyrir ríkinu hverr eptir annan langa hríð þar til er sá konungr varð yfir Rómaríki er Tarquinius enn drambláti hèt. hann var oooo| "fæll ma" ok náliga leiðr hverjum manni fyrir sinn ósóma ok ofdramb. í þann tíð var sá höfðingi í Rómaborg er Brutus hèt: hann átti konu fríða ok ættstóra þá er Lucretia hèt. en þá er Brutus var æigi heima í borginni þá er ýmist sagt hvárr, Tarquin*ius* eða son hans sá er Aruns hèt, færi of nótt til húsa Bruti ok legðiz með konu hans að úvilja hennar berliga. en þegar um morgininn eptir kallaði hón til sín alla senatores á málstefnu ok sagði þeim sína svívirðing: hón hafði undir skikkju sinni sverð brugðit er Brutus átti bóndi hennar ok lauk hón svá sínu máli að hón bað þá hegna ósóma konungsins en hón lèz æigi vilja lifa við skömm eða til svívirðingar bónda sínum — síðan lagði hón sverðinu fyrir brjóst sèr ok dó þar þegar á þinginu. en Tarquinius konungr var þá ok skjótt rekinn ór borginni. litlu síðar fór að honum Brutus hinn fyrsti consul ok drap Tarquinium ok æyddi öllu hans ríki. þá rèðu senatores ok settu þau lög að eingi maðr skyldi bera konungsnafn í borginni en tveir menn skyldu vera höfðingjar yfir Rómverjaher ok kölluðu þeir þá menn consules en vèr þýðum það ræðismenn. þeir skyldu æigi lengr vera

---

1 eða tæki > eðooooo. 2 tabolu ok > taboluooo. 4 þegar annan í hans > þegaoooooooo. 5 langa hríð > ooooooo. 7 oooo|"fæll ma" < óvinsæll maðr. 9 var > uooo. 10 ættstóra = ætſtora. Lucretia > lucreooo. 12 Aruns > aron. 18 lèz = letz.

# XI.

## ÚR KARLAMAGNÚSS SÖGU.

---

### A.

Þá er Karlamagnús kóngr stóð við glugg einn í höllinni 26[20] ok sá út á Rín leit hann hvar svanr einn kom upp í vatnino ok hafði silkistreing um háls sèr ok hèkk þar á bátr einn en á bátinum var riddari einn vel vapnaðr ok hafði rit eitt á hálsi sèr en er riddarinn kom at landi þá fór svanurinn út aftr ok sá engi maðr hann síðan. Namlun gekk á mót manninom ok tók í hönd honum ok leiddi hann fyrir kóng. þá spurði Karlamagnús kóngr þenna mann at nafni. en hann kunni eigi máli ok fekk honum ritið. en ritið sagði at Geirarðr svanr var kominn at þjóna honum til lands ok konu. Namlun tók vápn hans ok klæði ok hirði en Karlamagnús kóngr gaf honum skikkju góða ok gekk síðan til borðs. En er Rollant sá þenna hinn nýkomna riddara þá spurði hann hvat manna sá væri. Karlamagnús kóngr svarar at þann riddara hafði guð *sent* honum. Rollant spurði hvat hann hèt. Karla- 27 magnús sagði at hann hèt Geirarðr svanr. Rollant svarar 'vist er sá maðr höfþingligr'. Kóngr bað þjóna honum vel. Geirarðr var vitr maðr ok þjónaði vel Karlamagnúsi kóngi ok þótti hverjum manni hann góðr ok nam skjótt

---

2 ÷. 9 engi ⌣ enginn. 14 vápn = vafn.

mál ok var góðr riddari ok vænn maðr. Karlamagnús kóngr var honum ráðhollr ok gifti honum “adalız” systr sína ok gerði hann hertuga yfir “ardena”.

**B.**

41[23] Nú verðr at geta Oddgeirs danska. hann var öðrum megin undir skógarnefi nökkuru skammt frá bardaganum ok með honum x. c skjaldsveina. hann gekk á hæð nökkura ok sá til orrostonnar. hann sá fámenni mikit með kóngi. hitt sá hann annat at “alorı” flýði undan með merki kóngs ok c Lungbarða með honum. síðan skyndi Oddgeirr til lagsmanna sinna ok sagði þeim þau tíþendi er hann sá ‘nú ef ek ræð þá munom vèr fara at móti “alorā” ok ‘láta þá eigi hèðan hafa vápn eða hesta. síðan skulum vèr ‘verða kóngi at liðveizlo ok bíða annat tveggja bót eðr ‘bana’. þeir játtuðu því glaðliga. síðan riðu þeir at móti
42 flóttamönnum. ok þegar þeir funduz spurði Oddgeirr “alorā” hví þeir flýði eða hvat þeim væri orðit. en “alorı” svarar ‘Karlamagnús kóngr var höndum tekinn ok lið várt fallit ‘ok verðum nú undan at flýja’. Oddgeirr svarar honum ‘illmannliga lýgr þú ok er hitt heldr at þú þorðir eigi ‘við at haldaz ok ert þú sannr drottinssviki’. síðan greip hann til hans ok steypti honum af hesti sínom ok rak hnefa sinn á háls honum ok fletti hann af brynjo sinni ok tók skjöld hans ok sverð af linda honum allt gullvafit. síðan hèt Oddgeirr á sína lagsmenn — þeir voru x. c skjaldsveina — ‘tökum þá’ segir hann ‘ok flettum þá ‘af klæðum: látum þá hafa hvárki hèðan, hervápn eða ‘hesta’. síðan gerðu þeir svá sem hann bauð. en eftir þat dubbaði hann þá til riddara með vápnum flóttamanna; en þar sem skjöld skortir ljósta þeir börk af trjám ok höfðu sèr fyrir hlífar. Oddgeirr tók merki kóngs í hönd sèr ok riðu síþan til vígvallar. Oddgeirr gerðiz höfþingi fyrir því liði er þá höfðu riddarar gjörz af skjaldsveinum ok mörgum öðrum riddorum.

## C.

(1.) Karvel gekk þá fram ok herklæddi Oddgeir 70[16] með inum beztum vápnum er vera mátti — fyrst með góðri brynjo en síðan setti hann hjálm á höfuð honum allan settan gimsteinum ok mælti við hann ‘ek gef þér ‘sverð mitt ok sé ek at þér sómir at bera þat ok sver ‘ek við trú mína ok Maúmet guð várt at ek gæfa þat ‘eigi bróðr mínum né öðrum frendum mínum þót þeir ‘byði fram fjóra vagna af gulli. sverð þat heitir "kurteın", ‘hafðu þat ok njót vel’. Oddgeirr tók við sverðino ok þakkaði Karvel gjöf þá, hljóp síðan á hest sinn ok reið til Rómaborgar ok til eyjar þeirrar er hólmstefna var lögð í. en Karlamagnús kóngr hafði hönd at sýslo ok sendi menn í skóga þá er voru í nánd hólmstefnu þeirra ok bað þá við því standa at heiðnir menn ætti nú eigi kost á Oddgeiri sem þeir höfðu fyrr farið með svikom.

(2.) Nú var Oddgeirr til hólmstefnu kominn ok hafðiz þar við. en Burnamend herklæddiz vel ok skjótt — fór fyrst í brynjo sína ok setti hjálm á höfuð sér þann er 71 átt hafði "nabagudunosor" kóngr ok hann gyrði sik með sverði því er átt hafði "eleon" inn sterki en þat sverð var faðms langt í millum hjalts ok höggstaðar ok hafði þat aldri numið í höggvi staðar hvað sem fyrir varð. en síðan var fram leiddr hestr hans "berfolen" allr albrynjaðr ok steig á bak honum. en þá kom Gloríant kóngsdóttir þar farandi ok mælti við hann ‘Burnamend’ sagði hón ‘mikill skörungr ertu: kosta nú ok gefz vel ok lát ‘þat spyrjaz ok eir þú Oddgeiri enum danska’. Þá svarar Burnament ‘at víso, kóngsdóttir, segi ek þér þat at ek ‘skal eigi drepa hann en fyrir bæn yðra þá skal ek færa ‘þér hann kvikan’. Kóngsdóttir svarar ‘vel mæltir þú nú

3 vápnum = vafnū. 22 hjalts > hıatllz. höggstaðar ∽ hagg——.

‘Burnamend’ segir hón ‘þá skal vera samgangr okkar er ‘þat er sýst’. síðan reið hann í brott til hólmstefnu. þá hèt Gloríant á guð sinn ok bað þess at hann skyldi aldri aftr koma.

(3.) Því næst sá Burnamend fyrir sèr hvar Oddgeirr var ok æpti hárri röddu ok mælti ‘illu heilli komtu hingað ‘fyrir því at ek sè nú feigð á þèr ok með sverði míno ‘skal ek bana þèr. en ef þú vilt gefa upp vápn þín ok ‘neita guði þínum ok segz yfir kominn sem þú ert, ‘þá skal ek gefa þèr líf fyrir sakir kóngsdóttur því at ‘hón hefir árnað þèr miskunnar við mik ef þú vilt þiggja’. en Oddgeirr þakkaði honum ok bað hann taka þau laun er honum þætti mestu skipta ‘en þó vil ek freista vápna ‘þinna nakkvað áðr ok segjaz eigi fyrr yfir kominn en ‘þat er’. síþan lustu þeir hesta sína með sporum ok reið hvárr þeirra at öðrum ok lagði hvárr til annars með spjóti ok brustu spjótssköptin bæði í sundr ok kom hvárrgi þeirra öðrum af hesti. síðan drógu þeir sverð sín ór slıðrum ok hjó Burnamend til Oddgeirs af mikinn hlut hjálmi hans en Burnamend fylgdi eigi mjök höggvi síno en Oddgeirr laut undan ella mundi hann hafa drepið hann. en Frankismenn ok heiðingjar er varðhald höfðu á þeim sá athæfi þeirra ok uggðu hvárer sínom manni. Oddgeirr reiddiz við högg þat sem Burnamend hafði veitt honum
72 ok þóttiz þá vita at hann var hraustr drengr ok vápnfimr: frestaði hann þá sverðs síns ok vildi vita hvė gott var at höggva með “kurteın” ok hjó til Burnamend af honum hjálminn allan hægra megin svá at brúnin fylgdi í brott hjálmsbrotino ok dugði honum lítt Maúmet í því sinni ok nam sverðit eigi fyrr en í mundriða staðar. nú mælti Burnamend ‘bölvað verði þitt líf ok svá líkamr ið

---

6 heilli > heıllu. 10 gefa = gefua. 26 frestaði ɔ: freistaði. 27 höggva > huaggva.

‘sama en aldri fann ek þann riddara er mèr gerði fyrr ‘stóru sárara en þú’. Oddgeirr svarar ‘skammt skal þèr ‘til verra, lítið er þetta enn af öðru ok skal þat gert ‘vera í þökk við Gloríant kóngsdóttur er þú ætlar unnusto ‘þína vera skulo’. þá svarar Burnamend ‘ýmsir skulum ‘vèr eiga’ segir hann. síðan hjó hann til Oddgeirs af honum nefbjörgina ok kom þá eigi sári við hann at því sinni. þá æfti Burnamend hárri röddo ok mælti ‘dauðr ertu, ‘Oddgeirr, ok er nú kóngsdóttir laus frá þinni gjæzlo’. Oddgeirr svarar ‘fílmsku talar þú nú’ ok hjó síðan til hans á hjálminn ok spratt sverðit af hjálminum (sem verr var) ok nam í jörðu staðar ok kom eigi sári við hann at því sinni. þá höggr Burnamend til Oddgeirs af honum allan hjálminn ok allt hárið við svörðinn öðrum megin ok barg guð er eigi nam djúpara ok rann þá blóð um hann allan niðr. en hann reiddiz mjök við högg þat ok hjó til Burnamend ok klauf í sundr hjálm hans ok allt ofan í herðar ok gekk frá honum dauðum. þá mæltu heiðingjar ‘nú er Burnamend fallinn en Oddgeirr hefir ‘hest hans ok sverð’ ok var þeim öllum á þersum gripum in mesta elska. nú ferr “húr” þeirra heim síns vegar. en Mílon páfi kom þar farandi með tvær þúsunder riddara ok gekk í móti honum með “processío” ok hafði með sèr armlegg Pètrs postola ok marga aðra helga dóma. síðan tók Oddgeirr höfuð Burnamend ok batt við slagálar sèr ok reið á fund Karvels ok kóngsdóttur ok færði þeim höfuðið. en þau þökkuðu honum vel þá fórn.

(4.) Síðan fór Karvel til fundar við Ammíral kóng ok færði honum höfuðið ok mælti síðan ‘þat er mitt ráð 73
‘herra’ segir hann ‘at vèr farim heim til ríkis várs ok ‘landa ok berjumz eigi lengr til annarra kónga ríkis, því

10 fílmsku ɔ: fíflsku?. þú > þo. 17 sundr ∽ funder.
22 páfi = pafui.

'at skjótt segi ek yðr mína ætlan at aldri eigum vèr 'síðan orrosto við í móti Karlamagnúsi kóngi; en á hvert 'land annað sem þèr vilið fara með herskildi þá bjóðumz 'ek til með mínum mönnum. þess vil ek biðja ok at þú 'gefir Oddgeiri grið ok leyfi at fara heim til Karlamagnúss 'kóngs ok með vináttu yðra ok leys hann vel af hendi 'sem góðan dreng skyldi með gjöfum ok góðum gersimum'. en Ammıral kóngr hlýddi öllum orðum þeim at hann leysti Oddgeir vel af hendi með sæmilegum gjöfum. síðan gerði Karvel för Oddgeirs í brott sæmilega ok heilsaði vel ok kurteisliga Ammıral kóngi. en Karvel ok kóngsdóttir gjæddu Oddgeir mörgum góðum gersimum. síðan fór Karvel með Oddgeiri ok fann Karlamagnús kóng ok tók af honum leyfi ok vináttu ok öllum hans mönnum ok hafði þó um fram góðar gjafir ok margar gersimar. Eftir þetta sneri Ammıral kóngr heim aftr til Babílonar með öllum her sínum ok er ekki getið at þeir Karlamagnús kóngr hafi oftar orrostor áttar svá at í þessi sögu sè ritað. en Karlamagnús kóngr fór heim til Frakklands þá er hann hafði siðað ok í lag fært Rómaríki eftir þann mikla hernað sem áðr hafði þar á legið um stundar sakir ok sat þá í náðum nökkura stund. Fellr hèr lykt á annan þátt sögu Karlamagnúss kóngs.

## D.

78[14] þá er Karlamagnús kóngr var staddr við borgina "baıon" með her sinn þá gaf einn riddari er "Romarık" hèt hest sinn fyrir sál sinne skriftaðr ok huslaðr. en eftir andlát hans seldi frendi hans hestinn fyrir c skillinga silfrs sá sem hann hafði um boðið at gefa hestverðið fátækum mönnum en hann sjálfr eyddi þessu fè á fám dögum fyrir

---

2 við (∽ oıd ⌣ tıd) í móti < ſ móti. 15 um (= vm) ∕ om. 18 sögu > ſaugdu. 19 ritað ⌣ ritið.

mat ok drykk ok klæði. en eftir xxx daga birtiz honum inn framliðni maðr ok mælti við hann þessum orðum 'ek 'fal þèr á hendi mína penninga at gefa fátækum mönnum 'fyrir sál minni — þá skaltu þat vita at guð gaf mèr upp 'allar mínar syndir; en fyrir þat er þú tókt rangliga ölmoso 'mína þá hefi ek verið í hörðum píslum xxx daga; en á 'morgin muntu koma í minn stað en ek í paradisum'. nú sem menn heyrðu draum hans of morgininn þótti flestum ógurligr þessi fyrirburðr. því næst heyrðu menn upp í loftið yfir hann sem leon rautaði eða úlfar þyti eða griðungar gnelldi, ok í því var þessi vesli maðr tekinn í loftið upp svá at engi maðr sá hann síðan lífs. fjóra daga var hans leita farið á hestum ok fótum ok fannz eigi. nú sem liðnir voro tólf dagar eftir þenna atburð var fundit lík hans á bergi eino brotið allt í sundr fjórar dagleiðer frá þeim stað er hann hafði í brott horfið: djöflar höfðu 79 honum þar niðr kastað grimmlegha.

## E.

(1.) Nú kemr Karlamagnúsi kóngi í hug hvað kona hans 283[14] hefir mælt. nú leitar hann þessa kóngs er svo var mjök lofaðr ok vill at vísu finna hann. en um morguninn þá fór kóngr ór borginni ok allt lið hans til "Jherico" ok tóku þar pálma. patriarcha fór með þeim ok var þá nótt með kóngi ok skorti ekki þat er þeir þurftu. en um morguninn í dagan stigu þeir á hesta sína ok fóro til Miklagarðs rèttleiðis. patriarcha tók leyfi heim at fara ok hvarf hverr þeirra til annars ok skilduz síðan. en hvervetna þar sem kóngr fór þá gerðuz jartegnir fyrir sakir heilagra dóma: blindir fengu sýn, ganglausir gang, dumbir mál; öll vötn lágu þurr fyrir þeim hvar sem þeir fóru.

(2.) Nú ferr Karlamagnús kóngr ok lèttir eigi fyrr

---

12 engi ⌣ enginn. 16 djöflar > diolflar.

en hann kom til Miklagarðs. hálfa mílu frá borginni var grasgarðr kóngs með alls konar grösum. þar fann kóngr xx þúsundir riddara — allir með guðvef skrýddir ok
812 með "ermins" ok martes, sumir með skáktafli sumir at kvotrotafli, sumir báru gáshauka sumir vali á höndum. fjórar þúsundir meyja gerðu þar hringleik, klæddar með guðvefjar-pellum, hver annarri fegri, ok hélt hver í hönd annarri ok svo sínum unnasta. þá mælti Karlamagnús kóngr við Rollant ʻhér er mikið lið. hver man kynna oss ʻtil kóngs?ʼ þá kom riddari í mót kóngi ok spurði hann hvar kóngr þeirra væri. ʻkóngr várrʼ segir hann ʻsitr undir ʻguðvefjar-pelli því er þar er yfirʼ. síðan ferr Karlamagnús kóngr þangað ok fann þar kóng at arðri. eigi gekk hann at þeim arðri sem aðrir menn heldr sat hann á gullstóli ok hafði gullvönd í hendi sér ok elti með öxn sín en svo beint gekk sá arðr fram sem lína væri at borin. síðan heilsaði Karlamagnús kóngr kóngi vel ok kurteisliga ok spurði kóngr hvaðan hann væri. en Karlamagnús kóngr svaraði ʻek heiti Karlamagnús kóngr af Frakklandi en ʻkeisari af Rómaborg. ek sótta Jórsalaborg en nú em ek ʻkominn þín at vitjaʼ. þá svaraði Hugon kóngr ʻsjau vetr ʻeru síðan liðnir er ek heyrða at engi kóngr væri jafn-ʻágætr sem þúʼ. síðan bauð hann honum at vera þar tólf mánoðr ok taka svo mikið fé sem þeir vildi ʻen nú mun ʻek leysa öxn mína fyrir þína kvomuʼ segir Hugon. þá svaraði Karlamagnús kóngr ʻsjá arðr er mikils fjár verðr ʻok er ráð at hann sé vel varðveittrʼ. Hugon kóngr svaraði ʻþó at hann lægi þar sjau vetr þá mundi engi ʻmaðr misþyrma honumʼ. þá fór Hugon kóngr heim til hallar sinnar ok Karlamagnús kóngr með honum ok allt lið hans en Hugoni kóngi fylgdu sjau þúsundir riddara allir búnir með silki ok guðvefjar-pelli. þeir tóku hesta

2 alls konar = allzſkoñ. 4 martes ∽ marces. 22, 28 engi ⌣ enginn.

þeirra ok leiddu til herbergis síns. Sú höll var einkanlig. ræfurið var allt skrifað með ýmsum sögum. sú höll var kringlótt ok einn stólpi í miðjo er hón stóð öll á, en um þann stólpa voro c annarra stólpa allir gylltir en af hverjom þeirra var barnslíki gert af eiri ok hver líkneskjan hafði olívanthorn í munni sér: þeir stólpar voro allir holir innan ok blés undir höllina upp í stólpana ok 285
bléso börnin með þeim vindi á hvers konar lund er fagrt var en hvert þeirra rétti fingr at öðru sem kvik væri. en Karlamagnús kóngr undraðiz ok sannaði þá þat er kona hans hafði sagt. þá kom á vindr hvass ok sneri höllinni sem mylna ylti: þá bléso börnin ok hló hvert at öðru en þeim þótti fagrt til at heyra er inni voro. öll glyggin voro af cristallo. Karlamagnús kóngr undraðiz þat er höllin sneriz ok hann mátti eigi á fætr standa né engi hans manna ok hugði þeim gervar gjörningar ‘hallar-dyrr ‘eru opnar’ segja þeir ‘ok er þetta ið mesta undr er vér ‘megum eigi í brott komaz’. þá kom til þeirra Hugon kóngr — bað þá eigi hræðaz ‘ok mun veðrit minnka i ‘mót kveldino’ ok svo var ok stöðvaðiz þá höllin váno bráðara.

(3.) Þá voru borð fram sett. þá settiz keisari í hásæti sitt en Karlamagnús kóngr næst honum en á aðra hönd honum drottning ok dóttir keisara en Rollant ok tólf jafningjar sáto næst Karlamagnúsi kóngi. en mærin var svo fögr sem blóm af “rose” eða “lilio”. þangað leit Olíver oft sem mærin sat ok tók at unna henni mikið ok mælti ‘guð vildi at ek hefða þik á Frakklandi þá mundi ‘ek mega hafa minn vilja af þér’. alls konar fæzla var þar á borðum sú er sjaldsén er víðaz annars staðar ok þar með drykkr. alls konar skemmtan var þar framin kóngum til gleði. en er þeir voru mettir þá fór hverr

---

15 engi ⌣ enginn. 17 opnar = ‚oftnar.

til síns innis. en keisari tók í hönd Karlamagnúsi kóngi ok leiddi hann til svefnbúrs síns ok tólf jafningja með honum. en þat hús var hvelft ok sett með dýrligum steinum ok skrifað, en einn carbunculus lýsti þar; þar voro tólf sængr af eiri ok in xiij. í miðjo ok allar gylltar, í þeim hvílom voro alls kyns klæði er góð voro. en er þeir höfðu lengi skemmtað sèr um kveldið þá fór hverr í sína sæng, en keisari bað þá hafa góða nótt ok fór eftir þat til rekkju sinnar.

286 (4.) En í því búri var steinstólpi holr innan. en keisarinn lèt einn mann í þann stólpa at sjá ok heyra hjal ok athæfi Frankismanna. en sá maðr sá öll þeirra tíðendi um nóttina. en er þeir voro í hvílo komnir þá mæltu þeir sèr gaman ok skerski, sem siðr er til Frankismanna, ok undruðuz mjök þá byggð — báðu guð at Karlamagnús kóngr hefði unnið þat ríki með freknleik sínom. síðan bað Karlamagnús kóngr at hverr þeirra skyldi segja sína íþrótt. þeir báðu hann fyrstan segja sína íþrótt.

‘Taki keisarinn á morgin enn hvassasta riddara í hirð ‘sinni’ segir hann ‘ok færi hann í tvær brynjor ok tvo ‘hjálma á höfuð honum, fái honum hest þann er beztr er ‘í hirðinni allan brynjaðan, fái mèr síðan sverð sitt: en ‘ek skal höggva í höfuð þeim manni· ok kljúfa hann ok ‘hestinn brynjaðan í sundr ok spjózskafz-lengd höggva ‘sverðino í jörð niðr nema ek vilja aftr halda áðr’. þá svarar njósnarmaðr er í var steinstólpanum ‘mikill ertu ‘ok sterkligr ok úvitrliga gerði keisari er hann veitti yðr ‘þetta herbergi ok skal hann þetta vita áðr dagr kemr á ‘morgun’.

þá tók Rollant at segja sína íþrótt. ‘taki keisari á ‘morgin olífanthorn sitt ok fái mèr. en síðan skal ek ‘ganga utanborgar ok blása svo hart at öll borgarhlið

---

6 alls kyns = allzskynſ. 8 hafa = hafua. 14 skerski < kerski.

‘skulo upp lúkaz ok aftr bæði, ok allar hurðir með, þær ‘sem í borginni eru; en ef keisari kemr út, skal ek þá ‘blása af honum hár ok skegg ok klæði öll’. Þá svarar njósnarmaðr ‘þessi er útrúlig íþrótt ok úvitrliga gerði ‘keisari þá er hann veitti yðr þetta herbergi’.

(5.) Því næst segir Olíver sína íþrótt. ‘taki keisari ‘á morgin——————’. ‘Þat veit trúa mín’ 287 segir njósnarmaðr ‘at þú mælir mikla fíflsku ok týnt ‘muntu hafa vináttu keisarans’.

Þá svarar Bernarðr ‘taki keisari á morgin þrjá hesta ‘ina beztu í hirð sinni ok láti renna þeim sem harðast. ‘en ek skal í mót renna ok hlaupa yfir tvo ok á inn þriðja ‘ok henda fjögr epli meðan þeir renna skeið sitt, en ef ‘nokkuð þeirra fellr niðr þá skal keisari eiga höfuð mitt’. ‘Þat veit trú mín’ segir njósnarmaðr ‘þetta er fáheyrt ‘gabb’ segir hann ‘en í þessu er keisari ekki skemmdr ‘nè niðraðr’.

(6.) Eftir þat hefr Villifer af “orenge” sína íþrótt. ‘sè hèr göllböll þenna er hèr liggr: hann er gerr af ‘gulli ok silfri: en oft ganga til xxx manna ok fá eigi ‘upp lyft — svo er hann þungr; en á morgin mun ek ‘upp lypta einni hendi, síðan mun ek kasta honum á ‘borgarvegg ok fella niðr fjóra faðma á hvern veg’. Njósnarmaðr svarar ‘þat veit trúa mín’ segir hann ‘þú talar ‘mikla bernsku’.

Því næst segir Oddgeirr sína íþrótt. ‘á morgin er ‘dagr kemr mun ek ganga ok feðma stólpa þann er upp ‘heldr höllinni ok snúa hann í sundr ok fella niðr höllina’. ‘Þat veit trúa mín’ segir njósnarmaðr ‘þú ert örviti. láti ‘guð þik því á leið koma. óhyggiliga gjörði keisari er ‘hann veitti yðr herbergi’.

(7.) Síðan sagði Nemes hertugi enn gamli sína íþrótt.

---

13 fjögr (= fiogr) ⌣ fjugr (= fivgr). 19 göllböll (= gaullbaull) < gullböll. 30 því < því eigi ⌣ því aldri.

‘taki keisari á morgin tvær brynjor ok fái mèr í at fara.
288 ‘en síðan skal ek setjaz niðr hjá keisaranum fyrr en hann ‘verði varr við svo at hverr hringr skal falla frá öðrum ‘sem brennt hálmstrá’. þá svarar njósnarmaðr ‘gamall ‘ertu ok hvítr fyrir hærum’.

þá tók Bæringr at segja sína íþrótt. ‘taki keisari á ‘morgin öll þau sverð er í eru borginni ok grafi niðr ‘hjöltin en upp oddana ok seti sem skjótaz má hann hjá ‘kastalavegg. en síðan skal ek fara í enn hæsta turn ok ‘falla ofan á þau svo at þau skulo í sundr bresta en ek ‘skal úskaddr brott ganga’. ‘þat veit trúa mín’ segir njósnarmaðr ‘ef þú drýgir þessa íþrótt þá ertu af járni ‘gerr eðr stáli’.

þá sagði Turpin erkibyskup sína iþrótt. ‘í borgina ‘skal ek ganga til ár þeirrar er heitir “Iber” ok skal ek ‘vísa henni ór stað sínum ok láta hana renna yfir Mikla-‘garð ok fylla hvert hús, en keisarinn skal svo óttafullr ‘verða at hann man flýja í inn hæsta turn ok þaðan aldri ‘komaz nema minn sè vili til’. ‘þat veit trúa mín’ segir njósnarmaðr ‘sjá maðr er óðr — láti guð þik því aldri á ‘leið koma — ok úvitrliga gerði keisari er hann fekk yðr ‘herbergi, enda skal hann á morgin alla yðr í brott reka’.

(8.) þessu nest segir Gerin sína íþrótt. ‘taki keisari ‘á morgin fjórar klyfjar blýs ok steypi þeim vellanda í ‘katla eðr ker. en síðan skal ek sitja þar í til þess er ‘kalt er, síðan skal ek upp rísa ok skaka niðr af mèr ‘blýð ok skal eigi svo mikið við mik loða at vert sè eins ‘penings en þó skal ek í sitja frá morni til nóns’. Undar-‘liga íþrótt heyrði ek nú’ segir njósnarmaðrinn ‘ok aldri ‘vissa ek nokkrn mann svo harðholdaðan sem sjá er ok ‘af járni er hann gjörr ef hann drýgir þessa íþrótt’.

---

8 hjöltin en upp oddana = odd[h]ana en vp hîolltın. skjótaz ɔ: þèttast (.skjótaz hjá ɔ: næst). 14 í borgina < ór borginni. 21 gerði > ger.

þá segir "eımer" sína íþrótt. 'ek hefi hött einn gervan 'af sæfiski. en þá er ek hefi hann á höfði mèr á morgin 'at matmáli þá skal ek ganga á baki honum ok eta allan 'mat í frá honum ok drekka vín hans, síðan skal ek 289
'ljósta hann hnefahögg svo mikið at hann skal steypaz 'á borðið en síðan skal ek láta hvern þeirra berjaz við 'annan ok togaz með skeggjom ok kömpum'. 'þat veit 'trú mín' segir njósnarmaðr 'þessi maðr er vitlauss. ferliga 'gerði keisari er hann veitti yðr herbergi'.

(9.) Þá tók Bertram at segja íþrótt sína. 'taki kóngr 'á morgun fjóra skjöldu ok fái mèr. en síðan skal ek 'fara um alla dali ok skóga ok fljúga svo hátt ok æpa 'at heyra skal fjórar mílur á hvern veg ok skulo ór fljúga 'öllum þeim skógum hirtir allir ok kollr ok alls konar 'dýr ok svo fiskar allir ór vatnum'. 'þat veit trú mín' segir njósnarmaðr 'hèr er mikið gabb ok mjök mun keisari 'þessu reiðaz'.

þá tók Gercs at segja sína íþrótt. 'fái keisari mèr 'á morgin spjót þat er manns byrðr sè ærin af en járnið 'sè álnar langt en síðan leggi hann á turn kastalans upp 'tvá penninga silfrs. en síðan skal ek ganga hálfa mílu 'frá borginni, síþan skal ek skjóta ok fella niðr annan 'penning svo at sá skal eigi hræraz er eftir liggr, síðan 'skal ek svo fimliga renna at ek skal taka á lofti spjótið 'áðr en á jörð komi'. 'þat veit trúa mín' segir njósnarmaðr 'þetta gabb er vert annarra þriggja ok í þessu 'gabbi er kóngi ekki mein ekki skemmd nè svívirðing'.

En er þeir höfðu lokið viðræðu sinni þá sofnuðu þeir.

---

1 "eımer" ◡ "enner" (◡ "emıer"). hött = hautt. 3 á < at. 9 keisari > keısara. 10 kóngr ◡ keisari. 14 alls konar = allzskonar. 20 á +. 21 tvá > fiau.

# XII.

## ÚR KIRJALAX SÖGU.

---

(1.) Nökkuru síðar býr Kirjalax sik at sigla af Jórsalalandi ok snýr sinni ferð til suðrhálfu veraldar. Ok einn hvern dag sjá þeir í hafinu eyjar tvær þær er þeim sýndust undarligar; því at um nætr stóð af þeim birti mikil, af annarri hvít en annarri rauð. en sem þeir koma nær eyjunum voru þær sæbrattar ok luktar hömrum ok máttu ekki komast í eyjarnar. þessar eyjar kallar Isidorus í sinni bók Chrisen ok Argiren, ok því svo, at önnur hefir í sèr svo mikla gnótt gulls sem grjót er í fjöllum en önnur þvílíka gnótt silfrs ok þar af varð svo mikil birta loptsins at skínandi málmrinn gaf af sèr. þaðan sigla þeir með Indíalands útströndum. þeir sjá þar mikla birti ok fegrð til landsins ok fjöllin skínandi af mikilli birti: en þat veldr því, at svo nógt er í þeim fjöllum gullit sem grjót er í öðrum fjöllum: en þó er þar mönnum ómáttuligt til at komast sakir drepsamligra dreka ok grimmra griffóna. en svo mikinn ilm kenndu þeir úr skógum þeim er vindrinn hrærði af landinu at þó lysti

---

2 +. 9 Isidorus > ysodorus, ysudoríus. 10 Chrisen > trısen, trílen. 20 þeim < þann. at þó > þo (✲ 589 A: en svo mikinn ilm kenndu þeir þar úr skógum þeim er vindrinn hrærði þar af landinu, at þá lysti at halda þar at landinu).

þá at halda þar at landinu ok kanna nökkut svo landit ok svo gjörðu þeir. Kirkjalax gengr á land ok lætr sinn hest á land leiða ok fjöldi annarra riddara; en sumt liðit var eptir at gæta skipa. þeir stíga á hesta sína ok ríða fyrst fram með skóginum. ok á einhverri hæð sjá þeir kvikendi hræranda sik harðla stórt vexti, ok sem þeir nálguðust sjá þeir at þetta var einn undarliga stórr fugl. hans fiðri allt var miklu framar skínanda enn hit skærasta gull, með öllum litum: gulum, grænum, rauðum, blám. hann fló braut þegar þeir nálguðust. þat hyggja menn at þar muni verit hafa fuglinn Fenix er Isidorus ok fleiri spekingar hafa sagt at hann fæddist þar á útströndum Indíalands ok sė hann eigi meir enn einn í veröldunni. en svo segir at sú sė hans náttúra at þann tíma sem hann finnr at hann tekr at eldast safnar hann sėr teinungum þeim sem á vaxa hinar dýrustu jurtir ok þar af hleðr hann bulung en þá er sólin skínn sem heitast blakar hann þar at báðum vængjum ok af krapti þess er veit fyrirætlan sinnar skepnu kyndist hėr í eldr ok þá er bálit logar sem óðast setr Fenix sik hit beinsta í logann ok brennir sik þar til ösku: þá kviknar einn ungi hvar af Fenix verðr í annan tíma endrgetinn af sinni eiginligri ösku. Kirjalax ríðr nú þar til sem hann kemr í nökkurn dal stóran. þar voru alls kyns aldintrė. þar kenndist þeim hunangsdögg á grasinu. þar voru þeir fuglar millum margra annarra sem cinnami heita. þessir fuglar bera í sitt hreiðr hinar dýrustu jurtir hverjar er af fuglanna nafni heita cinnamomum. en þeir fuglar hreiðrast í hinum hæstum trjám; en þær jurtir fást svo at menn skjóta þær ofan úr limum með blýskeytum, ok kaupast þær allar þriðjungi dýrra af kaupmönnum er svo fást enn

---

11 Isidorus > ýsodórus, ýsadoríus. 26 cinnami : cinnamomi (ɔ: κιννάμωμοι) = cinnamum : cinnamomum.

hinar. Psittacus heitir sá fugl sem þar fæðist margr ok heyrist svo sem hann tali nökkur artıkuleruð orð ok þat gjarnast at heilsa manninum sem hann sèr hann ok segir svo 'heill ok vel kominn, kæri'. annat mál enn at heilsa nemr hann svo sem af nökkurri manna tilskipan. þaðan af hefir svo sagt einn meistari af fuglsins vegna:

Psittacus a vobis aliorum nomina discam;
Hoc didici per me dicere CESAR AVE.

þetta segir svo 'annarra nöfn mun ek af yðr nema; en 'þat nam ek af mèr sjálfum at segja svo VER HEILL OK 'VEL KOMINN'. Síðan stíga þeir af hestunum at reika um völlinn ok aldinviðinn ok litlu síðar heyra þeir brak ok gný til þess sama dals sem þeir höfðu eptir látit sína hesta ok skunda nú aptr ok sem þeir nálgast sjá þeir marga gryphones sækja at hestunum slítandi þá kvika í sundr. hestrinn Aquila verr sik vel ok betr enn hinn grimmasti león. þá voru dauðir fimm hestar riddaranna. Kirjalax snarar fram at einum griffóni ok höggr á hans háls svo at úr gekk hálsliðinum en sakir þess harða fiðris sem á var hans hálsi beit ekki á sverðit. griffónninn er svo orðinn, at hann hefir fjóra fætr stóra ok sterkliga ok hefir klær svo harðar ok hvassar sem hinir hvössustu járngaddar: hann hefir hala mjök langan ok á neðan þrír stórir lagðar: í bógum er hann leóni líkastr en í höfðinu er hann aranum líkastr: hans fiðri tekr aptr um bógu ok hans vængir standa upp af bógunum ok eru þeir svo sterkir með fiðrinu at varla bíta járn á: hann er miklu grimmari ok sterkari enn león: hann girnist á ekki kvikendi svo sem á hestana ok þá grimmast hann mest á

---

1 Psittacus > Sítacus, dítacus. 7 Psittacus a vobis > Sítacus (dıtacus) anobís. 15 gryphones (ɔ: gryphas, gryphos) > griffonís. 17 león = lèon (489). 18 griffóni * 489 (589 A: gríffon). 20 griffónninn > Gríffannenn (489), Griflonet (589 A).

mennina ef þeir eru nökkur hestunum nærri. í því bili snaraði einn griffónn at Kirjalax ok setr sínar klær svo fast í skjöldinn at í gegnum gekk ok hefr sik svo á lopt at fætr Kirjalax tóku ekki jörð. þetta sèr Romanus ok leggr sínu spjóti í kvið griffóninum ok allt í hit fremra holit, ok nú fellr griffónit til jarðar. nú bregðr Kirjalax sínu sverði ok höggr af fætrna en hans klær stóðu eptir í skildinum. þá hafði Rómarik drepit einn griffón. í því bili flugu tveir gryphones braut með tvo riddara ok aldri sá þeir þá síðan. nú hjó Kirjalax til eins griffóns á hans bak svo at í sundr tók ok nú veita þeir stór högg ok lög þessum kvikendum, ok um síðir flýja í braut þessi dýr þau sem eptir voru. Nú biðr Kirjalax þá skunda til skipa ok svo gjörðu þeir — láta nú frá landi þegar þeir voru búnir ok sigla enn í haf. Svo segir, at þessi Kirjalax hafi víða kannat heiminn ok sèt marga undarliga hluti, dýr ok skrímsl mjök skessilig, ok hafi unnit stóra risa ok marga dreka ok dýr. hann kannaði víða Africam ok Asiam ok allt kom hann til Herculisstólpa er hann kallaði heims enda: þeir standa í hafi, ok þikkir svo þeim er sèt hafa sem varla hafi mátt mannligr kraptr því orka. en af hans ferðum eða verkum skrifa ek ekki fleira sakir fáfræði, ok því skunda ek til þeirrar frásagnar sem nökkur sannendaröksemd fylgir eptir því sem forn kvæði votta ok enn fylgja nökkut fróðir annálar ok aðrar vísendabækr.

(2.) Hèr eptir er ekki getit um ferð Kirjalax fyrr enn hann kom til Sikileyjar. ok sem Lodovicus frèttir at Kirjalax var þar við land kominn, tekr hann ágæta vel við honum, bjóðandi honum ok hans mönnum til ágætrar veizlu, ok þat þiggr hann blíðliga, ok var gjör hin bezta veizla í móti honum. þar kvomu fram loddarar ok leikarar,

---

6 griffónit * 489 (589 A: þesse griffon). 9 gryphones (ɔ: gryphes, gryphi) > griffonís, griffonȷ́s. 10 griffóns * 489 (589 A: griffonȷ́s).

fremjandi margs konar gleði: sumir blèsu pípur; aðrir höfðu bumbur, gígjur, eða salterium, eða hörpur. Dætr kóngsins fjórar kvomu sèr við þessa gleði í höllinni; því at hin ellsta lèk hörpu svo vel at allir lofuðu hennar list, en hinar lèku fyrir svo mjúkliga at menn skildu varla þó at þeir hyrfði upp á. Rómarik hinum kurteisa riddara fannst mikit um þessa mey ok lagði á hana heita elsku. ok sem þat undirstendr Kirjalax, sagði hann Lodovico kóngi, at ef honum þætti nökkurs vert þat er hann frjálsaði hans ríki, skyldi hann gipta dóttur sína hinum frækna Rómarik, ok vill hann gefa honum hertugadæmi er hann hefir áðr undir sik unnit. en sakir þess at kóngrinn vissi áðr frækncleik Rómariks ok atgjörvi, ok fyrir verðskyldan Kirjalax, var mærin honum gefin; ok var þeirra brúðlaup með mikilli sæmd ok æru veitt áðr Kirjalax fór þaðan; ok gjörir Lodovicus kóngr Rómarik stjórnarmann síns ríkis ok landvarnarmann. En at fylldum ok fram komnum þessum öllum hlutum siglir Kirjalax til Grikklands ok kemr við Thessaliam. ok sem faðir hans frèttir hans kvomu, verðr hann harðla feginn ok ríðr með öllum sínum völdum mönnum í móti sínum syni með öllum prís. hans móðir ok systir ganga móti honum með fagnaði ok blíðu, ok allr lýðr verðr honum feginn. kóngr gjörir honum fagra veizlu ok öllum lýð sakir síns sonar. ok at þeirri veizlu gjörir Kirjalax þá skemmtan fólkinu at segja frá sínum ferðum. ok eptir þat lætr hann heim færa herfang allt af skipum sínum ok allra handa stórgripi ok þar af lætr hann föður sinn velja dýrgripi þá sem hann vill hafa ok því næst systur sína ok móður ok þar næst gefr hann

---

1 pípur ✻ 489 (589 A: j́ pípur). 2 salterium ɔ: psalterium. 13 frækleik > frækleık. 20-21 öllum sínum völdum ✻ 589 A (489: sínum volldugu). 27 stórgripi ✻ 489 (589 A: godgrıpí). 29 systur sína ok móður < móður sína ok systur.

höfðingjum dýrmætar gersimar ok þar út í frá öllum heimuligum mönnum föður síns. ok af slíku ok mörgu öðru lofar hann hverr maðr fyrir sinn örleik ok alla framkvæmd ok atgjörvi.

(3.) Sem þessi veizla hafði staðit sjau nætr kallar kóngrinn á málstefnu sína höfðingja ok Kirjalax son sinn. kóngrinn hóf svo sitt mál ‘öllum oss er kunnigt at minn ‘kæri son Kirjalax er nú hèr kominn með miklum frama, ‘ok er nú svo komit at honum hæfir sitt ráð at staðfesta ‘með sæmd. en þó at hann þikkist hafa unnit ríki sèr ‘til handa í Frigia þá stendr honum varla at minnka ríki ‘síns bezta vinar Sóba kóngs: eigi stendr honum ok vel ‘at herja á ríki saklausra kónga þeirra er rètt fengit *ríki* ‘halda. nú þó at hann taki ríki þetta Thessalia sem ek ‘hefi nú at stýra þá sýnist mèr þat lítilræði til svo mikils ‘metnaðar sem hann stendr þó at ek fara þá í Syriam. ‘ekki sè ek ok þann höfðingja er von sè at viljugr gefi ‘upp fyrir honum sitt ríki. hvert ráð er nú til at því? ‘ek sè þat gjörla. Lotharius stólkóngrinn í höfuðborginni ‘Constantinopolis — hann er yfirkóngr þessa ríkis ok ‘allir á landinu eru hans undirmenn; hann á eina dóttur ‘er Florentia heitir: hón er svo fögr ok fríð at engi ‘þikkist sèt hafa hennar líka; hón er um fram hvern ‘þann mann sem til bíðr á öllu Grikklandi at vizku ok ‘allri kvennligri atgjörvi, hón hefir rannsakat ok skilit ‘allar spekinga bækr ok sigrat þeirra atgjörvi, öll vandamál ‘þau sem gjörast kunnu í ríkinu koma til hennar úrskurðar. ‘þar til vil ek efla minn son at fá hennar, ok gjörum ‘þangat hina frömustu sendiboða ok hafi þeir með sèr ‘fágætar gersimar at presenta kónginum ok hans höfðingjum. ‘nú vill kóngrinn ekki undir víkjast þessi erendi þá eru

---

5 sjau nætr * 489 (589 A: vm síau daga). 11 í Frigia (ɔ: í Phrygia) > ~ frıggía (589 A). 26 vandamál > vaunda mal (589 A).

‘orðin efni til sundrþykkis ok megu þèr þá reyna yðvarn ‘krapt ok til hvers þèr eruð færir, ok þikki mèr von at ‘þetta stórræði sè svo fremi upp hafit at yðvart kapp ‘leggi ekki af fyrr enn hamingjan hefir haft sitt mátèr ef ‘hón vill yðr ekki út kasta. verðr ok svo vel at þèr fáið ‘meyna þá er víst “ef ýdr endízt lífít” með því at Lotharius ‘kóngr gjörist við aldr, þætti mèr von at Kirjalax mætti ‘verða höfðingi yfir öllu Grikklandi. nú segi son minn ef ‘hann fær annat ráð vildara ok vitrligra’. en allir samþykkja ræðu kóngsins, en þó er þetta Kirjalax hjartanligast, ok er nú þessu ráðit. Nú verðr nökkut framar at segja af frúinni Florentia er fyrr var getit. hennar líkamr var svo æskiliga vaxinn sem laukr eða lind væri, mjór ok mundangligr. hennar höfuð var því líkt sem eyjar epli með gullligum lokkum; skær ok skemm*tilig* var hennar ásjóna með rauðum ok rósaligum kinnum; holdit var náttúrliga hvítt ok skínanda sem skyg*g*ðr berillus; augun voru sem carbunculi. svo skínandi sem stjörnur. engi var svo *hygg*inn eða hagr í sínu hjarta at mætti kunna fyrir at segja þvílíka skapan áðr hann *hefði* þessa hina dýrligu skepnu sèt ———. en svo fagrliga sem hón var sköpuð ok hennar líkamr þá kunni hón þó enn framar ok fagrligar at hegða sínum líkam með heiðarligri hæversku ok öll læti hennar li*ma* ok líkams voru listuligri miklu enn fyrr hefði nökkurr sèt. svo var hón málsnjöll at hvert orð þótti límt við annat. hón var blíð ok lítillát ok allt þat sem vel stóð vildi *hón* gjarna veita: svo bjó mikil mildi í hennar hjarta at hón vildi hvers manns vandræði lina ok leysa. atgjörvi hagleiks ok lista þat sem kvennmanni til heyrði bar hón yfir allar kóngadætr þær sem menn vissu í þeim hálfum heimsins. hón elskaði mjök föður sinn ok móður ok alla sína frændr.

---

4 mátèr = *mater* (589 A), mát'e (489). 14 eyjar = eyíar, 489, 589 A; eikar, 532. 17 sem > ~~~.

# XIII.

## PARADISUS.

---

1. Hoc dicit Moyses de Paradiso. Paradisus heitir staðr. sá er eigi á himnum ok eigi á jörðu, heldr er hann í miðjo lopte jamnær himni ok jörðu svá sem hón var sett af guði. Paradisus er xl mílna hærri *en* Nóaflóð varð. Paradisus er öll jamlöng ok jambreið. þar er hvorki fjall nė dalr. þar er eigi frost nė snjórr. þar ero allir landskostir, en þar er ekki illkvikendi ok eingi andmarki. þar er brunnr góðr, sá heitir lífsbrunnr. þar er einn fagr skógr ok dásamligr er heitir "radıon fallt'": hann fölnar aldri: þar er hvert trė rėtt sem kólfr ok svá hátt ath eigi má yfir sjá: þar ero hvers kyns trė þau er með allri fegrð standa ok bera á sėr alls kyns blóm ok birti epla ok aldina með mörgu móti: þar fellr aldri lauf af viði: sjá skógr er í miðri Paradiso: eitt trė með ávexti var bannat Adam, *þar er í* fólgin vitra góðs ok ills. þar er hvorki hatr nė hungr; *ok aldri* er *þar* nótt nė myrkr, heldr er hinn sami dagr *ávallt* ok skinn sól þar vij hlutum bjartari en í þessum heimi því at þar kemr við öll birti himintungla. þar ero settir englar ath reysta til skemmtunar. þangat skulo fara sálur góðra manna ok una þar

---

2 +. 14 fegrð ‿ fegurð. 20 heimi = hēı.

til dómadags, síðan er guð lauk upp þá er hann leiddi þangat önd þjófs þess er líf sitt lèt á krossinum. Í Paradiso er einn fugl er Fenix heitir. hann er harðla mikill ok undarligr ath skepnu svá sem guð skóp hann ok er hann drottinn yfir öllum fuglum. hann laugar sik í lífsbrunni ok flýgr upp á þat trè er hæst er í Paradiso í gegn sólo. þá skínn af honum sem af sólargeisla. hann glóar allr sem gull. fjaðrar hans ero líkari englum guðs. brjóst hans er svá fagrt ok nef sem áðr var sagt of fjaðrar. augu hans ero sem kristallus. fætr hans ero sem blóð. enn þá er sá enn fagri Fenix flýgr upp ór Paradiso á Egiptaland ok er þar xv vikur þá safnaz til hans alls kyns fuglar ok syngja um hann á hverja lund. þá heyra menn þat þeir er þar ero ok fara til hans hvaðan æfa ok mæla svá 'kom heill Fenix hingat til lands! þú glóar 'allr sem gull rautt! allra fugla ertu kóngr!' þarlandsmenn gjöra ór vaxi ok eiri annan Fenix ok marka sem líkast ath öllo. allir fuglar falla til fóta honum ok tigna hann með glaðri röddu. rauð rönd liggr eptir baki honum endilöngu fögr sem gull sè brennt. þá er xv vikur ero liðnar ferr enn fagri Fenix aptr til Paradísar. allir fuglar fljúga með honum, sumir fyrir neðan hann en sumir fyrir ofan ok á hvoratveggju hlið; en þá er þeir mega eigi fara leingra þá ferr hverr til síns heima.

2. Hoc dicit Johannes apostolus de Paradiso. þath var iiij þúsundum vetra fyrir burð Krists (þá var ein þúsund geingin) þá var Fenix gamall vorðinn ok þá safnar hann sèr fuglaliði miklu ath bera saman viðköst mikinn, en af guðs vilja varð svá þá er sól skein á viðköstinn ok af hita sólarinnar kom eldr í viðköstinn, en Fenix fèll ofan í eldinn miðjan ok brann allr ath ösku. en eptir á hinum þriðja degi þá reis hann upp af dauða

16 þarlandsmenn > þa | landz menn. 17 gjöra +. 18 öllo — öllu. 30 ok ɔ: at. 31 miðjan > .midíann.

ok er hann þá ungr í annat sinn ok ferr þá til lífsbrunns ok laugar sik þar; þá vaxa honum fjaðrar sem þá er fegrstar voro. hann verðr gamall um þúsund vetra; þá brennir hann sik í annat sinn ok rís upp ungr. enn eingi maðr veit hvort hann er karlfugl eða kvennfugl, nema guð einn. —

3. Paradisus er í austri heims. þar var Adam settr til byggðar ef hann hèldi þat er guð bauð honum. þar stendr trè þat er maðr kennir eigi sóttar nè meinsemdar ef maðr etr af aldini þess ok hann hrymz eigi nè eldiz ef hann etr af ok heitir þat lífstrè. Brunnr sá er þar er fylgja öll vatzfríðendi. Ór þeim brunni falla iiij ár í þenna heim. Ein heitir Phison eða Ganges öðro nafne. hón sprettr upp undan fjalli því er "orcobaríſ" heitir. Phison fellr á Indíalandi ok fellr út í umsjó er ath bókmáli heitir oceanus. Önnur á sú er fellr ór Paradiso heitir Nilus eða Geon öðro nafni. hón skilr þriðjunga heims, Asiam ok Africam. hón fellr um Bláland ok umhverfis Egiptaland. hón kemr í vij stöðum til sjóvar ok mikil í öllum stöðum. Hin þriðja á fellr ór Paradiso. sú heitir Tigris. hón fellr of Serkland ok um Ermland hit mikla. hón sprettr upp í fjöllum þeim er heita Eldingafjöll. En fjórða á heitir Eyphrates. hón sprettr þar upp undir Eldingáfjöllum. hón fellr af Ermlandi ok of Mesopotamia. þar stendr borg er heitir Babilon. þar fellr Eyphrates í gegnum ok kemr fram í Miðjarðarsjó skammt frá Antiochiam. þar ero ok á Ermlandi fjöll þau er annat heitir Tabor enn annat Hermon. þar nam staðar örk Nóa meðal þeirra fjalla: þar stè hann ór örk sinni ok kona hans ok synir hans iij ok konur þeirra.

---

3 fegrstar ⌣ fegurstar. 11 Brunnr > Brunr. 13 Ein > Eiñ. 17 þriðjunga ∽ þ[i]dunga. 18 Africam > affrıkā. 19 kemr > kē. sjóvar = ſiofar. 24-25 Mesopotamia > meſopotanía. 29 örk = ǫ́rch.

# XIV.

## AF ÞRIMR KUMPÁNUM.

Svá er sagt um einn dag at í einshverju ríki kvámu á dýraveiði þrír stórburðugir menn: kóngssun, hertugasun ok jarlssun. þeir váru þá allir kristnir menn ok sterkir ok fulltíða en höfðu þá eigi með tekit ríkisstjórn þí at feðr þeirra stýrðu þá enn löndum. Nú berr þat til efnis um daginn at hleypingar verða miklar þí at hirtir margir verða fyrir þeim: er þat dýr svá flugskjótt at hinir beztu vápnhestar fá varla tekit þat. verðr nú svá at kveldi at öll fylgð þessarra þriggja er dreifð ok riðluð í náttmyrkri at engi sveinn er hjá þeim sem þeir stíga af ok taka náttstað. sem þeir hafa um búiz í mörkinni talar kóngssun ‘hvat höfum vèr at gleðjaz viðr síðan hvárki er at bíta ‘nè súpa?’. þeir segja at hann skal þar fyrir ráða. kóngssun segir þá enn ‘þat legg ek til at hverr várr ‘kumpána segi þann part ór æfisögu sinni hvar hann ‘þóttiz minnst vera staddr ok skaltu jarlssun hefja söguna’.

Hann byrjar ok segir svá ‘snimma lagða ek fyrir mik ‘úfagrar ferðir um nætr at úvitanda feðr mínum. vöndumz ‘ek at ríða í eitt þorp þí at þar var mín unnasta. hafða

14 er at, 335, 586; er til, 657 B.

'ek skósvein minn fyrir trúnaðarmann hèr um. svá veik 'viðr veginum at þar var hraungata mikil, ok er ek setta 'hestinn á rás brast niðr hulða nökkur í hrauninu, hljóp 'þá hestrinn í þá sömu gjá niðr undan mèr svá hátt at 'ek bar enga heyrn yfir hvar hann kvam niðr, en mèr 'skaut út af í fluginum ok varpaði mèr á einn klett: var 'þá svá langt upp á gjárbakkann yfir höfuð mèr at ek 'þóttumz þrotinn at ráðum til brautkvámu. ek heyrða þá at 'sveinninn var eptir kominn ok kveinaði mjök er hann 'hugði mik dauðan. ek kallaða þá ok bað ek hann bíða. 'sem ek lituðumz um sá ek bergit alla vega upp í frá mèr 'svá bratt at engi var ván í at ek mætta þar fæti fara 'án festi ok þí tók ek þat ráð um síðir at ek sneið í 'sundr með saxinu kápuna ok kyrtilinn af mèr ok saumaða 'ek saman í dregla (þí at þèr vituð sið í landinu vera 'at hofmenn bera með sèr nál ok þræðr). sem ek hafða 'til búit taug þá sem mèr þótti ramligast fekk ek mèr 'stein á klettinum ok knýtta ek í taugarendann, snaraða 'ek síðan í lopt upp sem ek hafða föng á, ok sakir þess 'at guð ætlaði mèr lengra líf gekk steinninn allt upp yfir 'gjárbakkann ok bar út yfir þröminn annan veg svá at 'sveinninn náði steininum ok með þessarri stoð las ek 'mik síðan upp svá at ek varð frjáls. var ek þar staddr 'er mèr þótti verst, ok er úti mitt efni'. Kóngssun svarar 'klókliga þótti mèr þú fara, eða man ekki svá 'takaz at frásagnir várar verði nökkut líkar, eða hvat 'lætr þú til hertugasun?'.

Hann svaraði 'rètt hygg ek þik geta at upphöfin 'verði lík at sögunum þí at eina ríks manns dóttur elskaða 'ek — var þat stundar vegr af garði feðr míns — ok 'sem yfir stóð okkarr kærleikr tekr hón stranga sótt svá 'at hón þóttiz vita fyrir dauða sinn ok sem þar er komit

---

23 þar * 335, 586.

‘görir hón eptir mèr sinn trúnaðarmann um nátt en ek ‘brá við í stað at finna hana. en er ek kvam fram til ‘þeirrar skemmu sem hón lá í hafði hón svá viðr mèr ‘búiz at hón var ein samt inni. ek gekk at henni, þí ‘at ek hugða þat erendit at hón myndi vilja tala viðr ‘mik nökkut einkamál. ok hón görði þess nökkurn lit í ‘fyrstu, en síðan sagði hón svá ’lúk upp, sæti minn, kistuna ‘’þá stóru sem hèr stendr fyrir sænginni, þí at á botni ‘’hennar er sá hlutr er ek vil þèr einum til trúa at geyma‘. ‘ek görða svá. var kistan tóm, utan þí líkt á botninum ‘sem trefr ok afsnið nökkur: þar fór ek til at grufla niðr ‘í: var kistan svá djúp at bakhlutr minn fór heldr hátt ‘en höfuðit lágt ok þí varð ek eigi fyrr varr viðr en ‘tekit var harðri hendi undir fótahlutinn á mèr ok strengðr ‘niðr í kistuna — skellt aptr “vett” ok settr láss fyrir; ‘ok svá brátt eptir kvámu menn inn farandi; hafði unnasta ‘mín kostat svá mjök aflit at koma mèr til staðar at þegar ‘sendir hón eptir feðr sínum, en er hann kvam talaði hón ‘svá ’svá líðr, faðir minn‘, segir hón, ’at skilnaðr okkarr ‘’man brátt verða; er sú bæn ein er ek vilda þiggja af ‘’yðr, at kistu þá hina stóru sem hèr stendr hjá okkr ‘’lèti þèr fylgja mèr í gröf svá at hón standi í kirkju ok ‘’grafin undir minni kistu þí at í henni hefi ek lukt þann ‘’einn hlut er ek ann engum lifanda manni at njóta eptir ‘’mik: þikki mèr allmiklu varða at þiggja þetta, svá ok ‘’þat með at engi forvitniz hvat þar er í‘. faðir hennar ‘segir at hón skal þiggja sína bæn — þótt þrjár kistur ‘væri. þótti mèr nú ekki vænkaz um, en þó kaus ek þann ‘at þegja þí at skemmðin þótti mèr enn ljótari en vera ‘kviksettr. hvat um langt! deyja fór hón — litlu síðar ‘til graptar búin ok til kirkju borin. sömu leið fór ek í ‘kistu minni. svá váru mit báði til grafar borin ok niðr

---

15 vett, 657 B; *uætt*(?), 335; lokjnu, 586. 32 grafar ∽ seafar (657 B).

‘sett. lá hennar kista ofan á mèr. var gröf sú fylld ok ‘síðan frá horfit. spurðiz víða nýjung þessi (sem ek varð ‘síðan varr við) at kista sú hin mikla var jarðsett at bæn ‘dóttur ríka manns ok þí trúa margir at gull ok dýrgripir ‘þeir sem hón unni mest myndi þar í luktir. þetta heyra ‘þjófar nökkurir, gildir menn ok sterkir, fara til næstu nátt ‘ok aftæma gröfina, setja upp kisturnar báðar, ok fara til ‘ráðagörðar hversu þeir skulu upp lúka hina stærri kistuna ‘þí at hón var alla vega járnuð, ok staðfestiz þat með ‘þeim at þeir skulu reisa kistuna örðiga til hálfs ok bera ‘stokk á endann með stóralli. var nú enn mitt líf í hættu ‘nökkurri at þeir myndi lemja mik með stokkinum ok þí ‘tek ek þat ráðs at jafnfram sem ek fann at endafjölin ‘brast setta ek upp stór-óp mikit. en þeir kasta stokk- ‘inum svá “hmhlaupñ” i braut sem úvinrinn myndi eptir ‘fara. var þá um leyst at ek kvámumz út þótt erfitt yrði. ‘velta ek þá fljótt ok hermiliga báðum kistunum aptr í ‘gröfina ok síðan skildumz ek viðr þí sem líkast ok áðr ‘var frá gengit. leitaða ek braut með leynd ok lýkr þar ‘minni sögu’.

Kóngssun svaraði ‘meinliga þótti mèr þú kominn svá ‘at ek fæ eigi skilt hvat yfir má bera. er þat ok ljóst, ‘góðr vin, at þú valdir þèr vánda unnustu síðan hennar ‘elska sneriz í morð ok manndráp. en með þessum ‘æfintýrum man fara skemmtun þí at hvat man öðru ‘líkt. Unnustu átta ek mèr ok sat í þeim bý sem nálægr ‘stendr svartmunkaklaustri nökkuru. reið ek þangat opt- ‘liga einn samt um nætr þar til at þat görðiz í ríki ‘feðr míns, sem optliga kann til at bera, at hans rèttenda- ‘vald dæmdi til snöru þá menn er stolit höfðu braut af ‘sèr lífit: var þeirra dauðastaðr rètt annan veg út í frá

---

10 örðiga = ordıga (657 B, 335), aurdjga (586). 15 hmhlaupñ, 657 B; hhlaupñ, 335; hræddjr, 586. 24 sneriz ✻ 335, 586 (657 B: su [ꝏ vu] eddız).

‘þeirri braut sem ek var vanr at ríða. ok á næstu nátt ‘sem þeir lètu líf reið ek minn veg því at ek þóttumz svá ‘gildr maðr at ekki skylda ek þá hræðaz. en er ek kvam ‘gagnvert þeim þjófinum er sterkastr hafði verit í stulðinum ‘kallar hann á mik ok segir svá ’þú dugandi maðr, sýn ‘’mèr manndóm ok frjálsa mik af kvöl þessi: ek var borinn ‘’úsannri sök ok því held ek mínu lífi: nú vík til mín ok ‘’slá á virgilinn með sverði þínu‘. ok sakir þess at sá ‘úfagnaðr kallaði þetta allt með hógværu yfirbragði, festa ‘ek trúnað á því er hann sagði ok veik ek til hans. en er ek ‘sá hann. sýndiz mèr hann svá bannsettligr at ek trúða ‘hann allt logit hafa ok snera ek frá. hann kallaði þá ‘eptir mèr, bað mik eigi hræðaz, sagði mèr þat mikinn ‘glæp ef ek lèta hann deyja saklausan. eigi þarf þat langt: ‘svá fór annan tíma at ek snera til ok frá ok it þriðja ‘sinn. en fyrir hans kall reið ek aptr ok reidda ek sverðit ‘á virgilinn fyrir ofan höfuð honum, fèll hann þá ofan en ‘ek setta hestinn á rás. ok litlu síðar heyrða ek at mèr ‘var eptirför veitt; leit ek þá aptr ok sá ek at sá fjandinn ‘hafði rifit upp gálgann ok reiddi um öxl ok tók á ferð ‘æsiligri eptir mèr svá at tók undir. ek lèt þá hestinn ‘hlaupa sem af tók ok lá þó við sjálft at saman drægi ‘meðr okkr. lauk svá skeiðinu at ek kvam at kirkjugarði ‘klaustrsins, varpaða ek mèr þá sem færiligast upp ór ‘söðlinum inn yfir garðinn, ok af kunnleik þeim sem ek ‘hafða til staðarins kvámumz ek inn í kirkjuna. eigi leið langt ‘áðr en úvinrinn kvam at durum ok knúði hurðina svá ‘hart með gálganum at búit var allt til brots — biðr ‘mannskræfuna upp lúka, segir at ’flótti þinn man at illu ‘’verða‘ ok hann skal ’gjalda þèr ofanhöggit áðr mit skiljum‘. ‘ek vilda eigi upp lúka þótt ek væra hart eggjaðr. sem ‘þat var reynt kallar hann hátt ok segir svá ’þú kumpánn‘

4 gagnvert, 335 (657 B: ga | guert; 586: gegnt).

‘segir hann ’er þar liggr inni, statt þú upp ok veit mér ‘’lið at ek ná honum‘. nú varð ek við þat varr at dauðr ‘maðr lá þar inni hjá mér, ok viðr þetta úfagnaðarins ‘ákall færiz hann á fætr ok lymskaz þegar í stað fram at ‘durunum ok skýtr frá lokunum. berr nú brátt at broddi ‘at þeir sækja mik báðir í ákafa en ek lét horfa undan ‘á hæli þí at ek varð allr aflvani fyrir þeim. hafða ek ‘sverðit fyrir mér ok sneið ek af viðunum slíkt er beit: ‘hafði hinn minni fjandinn fjöl sína fyrir vígvöl. svá rek‘umz ek alla leið um kirkjuna endilanga ok þar með kórinn ‘innan ok þar með síðast allt austr um háaltarit. var ek ‘þá svá móðr at ek mátta engri vörn upp halda. mustarit ‘var vel gluggat en veðr skært úti ok þí bar inn mikit ‘ljós af tungli. ek lagða þá mitt mál í guðs vald ok trúnað ‘hans heilagrar pínu: kastaða ek frá mér sverðinu en ek ‘hneigðumz öfugr upp at altarinu sjálfu með réttum höndum, ‘fótum á víxl ok lútu höfði. ok várr græðari Jesus Christus ‘gaf þann krapt, at sá úfagnaðrinn sem mik hafði lengr ‘sótt sökktiz í gólfit niðr en hinn er þar þóttiz heima ‘eiga (þó at illr væri) skrefaði aptr ok fram um gólfit ‘at lesa saman fjalaspíkr sínar ok lagðiz þar á niðr. síðan ‘leitaða ek braut til hests míns með þí þakklæti til guðs ‘at mér var minna síðan um slíkar ferðir. læt ek lykta ‘sögu mína’.

Þeir báðir þakka honum skemmtun ok segja sem sannleikr beiddi at miklu nauðuligast var hann staddr. en hverr þeirra tók síðan sína náð ok svefn sem verða mátti. ok lyktaz með þí þess háttar efni.

# XV.

## INDVERSKIR GIMSTEINAR.

---

Einn lýðmaðr í Danmörk fýstiz at fara af landi braut suðr í heim at skemmta sèr. hann ferr land af landi allt þar til er hann kvam út á Indíaland. ok er hann var þar kominn fór hann um borgir ok bæi þar til er hann kvam í einn sæmiligan stað. hann tekr sèr þar herbergi með einum húsherra: sá var einn af ráðsmönnum staðarins. hann kvam sèr í tal við húsherrann. þessi hinn sami mælti við hinn danska ‘hvaðan af löndum ertu?’ hann sagðiz danskr vera. herrann mælti ‘þú mant mart skemmtiligt ‘kunna oss at segja af löndum yðrum’. hann svaraði ‘eigi ‘kann ek þaðan segja nökkura þá hluti er mèr sýnaz ‘frásagnar verðir’. herrann mælti ‘eru nökkurir gimsteinar ‘í yðru landi?’ hinn danski svarar ‘eigi veit ek þar vera ‘gimsteina’. herrann mælti ‘ek skal fá þèr í hendr þrjá ‘gimsteina: þá skaltu fá í hendr kóngi yðrum’ síðan tók hann þrjá litla steina at sjá ok fekk í hendr hinum danska manni. ok er hann var búinn fór hann ferðar sinnar allt þar til er hann kvam í Danmörk ok leitar á kóngs fund ok kveðr hann vel. hann tekr honum vel ok frèttir at um ferðir hans eða hvert hann hefir lengst farit. hann

---

2 > *Af gim steínū af india lande.*

segir kóngi allt hit sanna. kóngr mælti ‘með þí at þú ‘hefir farit á Indíaland, mantu hafa nökkurar fásènar ‘gersimar oss at færa’. ‘ekki er mikit um þat’ sagði hann: berr síðan fram steinana ok fær í hendr kóngi. hann tekr við ok lítr á ok mælti ‘eigi kann ek sjá at þessir steinar ‘sè nökkurar gersimar, þikki mèr ok mikil ván at eigi ‘gefa ek góðs mitt móti þessum steinum þí at eigi veit ‘ek náttúru þeirra; en varðveita skal ek þá þí at ek ‘trúi at sá sem sent hefir vill nökkut móti hafa’. Ok er stundir líða fram berr svá til einn dag er kóngr sitr undir borðum at úkunnr maðr gengr í höllina ok fyrir kóngsborð: sjá kveðr kóng vel ok mælti síðan ‘herra, ‘hafa yðr nökkurir steinar færðir verit sunnan ór löndum?’ kóngr sagði komit hafa. hinn komni maðr spurði ‘vili þèr ‘nökkur laun fyrir leggja þeim er yðr sendi?’ kóngr svarar ‘ek veit eigi at mèr þikki launa fyrir vert þí at ‘ek veit eigi hvat mèr skal’. hann svaraði ‘sýnið mèr’. kóngr görði svá. sem þessi maðr hafði við tekit steinunum lagði hann þá í lófa sèr ok mælti til kóngs ‘nú þikkir ‘yðr, herra, engi mæti á steinum þessum; en með orlofi ‘yðru skal ek segja nökkut af náttúru þeirra’. síðan tekr hann einn steininn ok hèlt upp ok mælti ‘þat er náttúra ‘þessa steins ef þèr vegið gull jafnvægi hans ok leggið ‘hann við gullit þá vex þat svá at þat er skjótt hálfu ‘meira ok svá lengi sem þat er þar með verðr þat æ ‘hálfu meira’. kóngr varð hljóðr viðr ok mælti ‘þetta er ‘kóngsgersimi’. hann tók annan stein ok mælti ‘þat er ‘náttúra þessa steins at þá er þú ert í bardaga þá skiptir ‘þik eigi hvárt þú hefir hlífar eða eigi þí at ekki mant ‘þú sár fá ef þú hefir þenna stein á þèr’. kóngr varð úkveði við ok angraz er hann hafði lausa látit steinana. þessi tók hinn þriðja ok hèlt upp fyrir kóngi ok mælti ‘þat er þessa steins náttúra at nú em ek hèr en næst ‘man ek út á Indíalandi’. síðan hvarf hann þeim at luktum

durum svá at aldrigi sá þeir hann síðan. Ekki kann ek segja hverr kóngr þessi hefir verit; en sagt hafa sumir menn at verit hafi Valdimarr gamli þí at hann hefir átt fásèna gripi þá sem af Indíalandi váru komnir, en eigi veit ek þat með vísendum at segja.

---

4 af +.

# XVI.

## AF MEISTARA PERO OK HANS LEIKUM.

---

1. **B**ræðr tveir váru út í lönd er tekit höfðu hertugadóm eptir feðr sinn: hèt annarr Vilhjálmr en annarr Eiríkr. Systir þeirra hèt Ingibjörg, kvenna vænst ok vel at sèr um flesta hluti. Ráðgjafi þeirra hèt Perus er mjök hafði ríkisstjórn með þeim bræðrum. hann hafði beðit systur þeirra ok vildu þeir ekki gipta honum hana fyrir þí at hann var nafnbótarlauss ok úfèríkr; en allra manna var hann bezt menntr. ekki er þess getit at þeir bræðr hafi verit vitrir menn. systir þeirra Ingibjörg átti sèr skemmu ok þar drakk hón jafnan með sínum fylgiskonum. ekki er getit móður þeirra systkina. Perus sagði svá at frá þí er hann gekk til borðs á kveldum ok til þess er sól er í austri vill hann at engi mál sè kærð ok í engum ráðagörðum með hertugunum vera: þenna tíma vildi hann vera frjáls af öllu ákalli. Bræðr tveir váru með hertugunum þeir sem mjök öfunduðu meistara Perum: svá at hans metnaðr mætti minnkaz, vildu þeir gjarna fá fengit nökkut efni til at rægja hann fyrir hertugum. þat bar til eitt sinn sem þessir bræðr reikuðu úti, er alþýða gekk til aptandrykkju, ok í nánd skíðgarði Ingibjargar

— þeir heyrðu þangat gleði mikla ok fyrir þetta sama fýsaz þeir at komaz inn yfir garðinn ok vita hverju gegnir ok þetta fá þeir leikit ok sá inn um glugg einn er á var herberginu: þeir sjá hvar sitr frú Ingibjörg ok hjá henni meistari Perus ok "lıfız" við yfrit blíðliga með kossum ok faðmlögum. þeir verða fegnir þí at nú hafa þeir fengit nógt efni til úfrægðar meistara Pero. þí flýta þeir sèr í höllina. sem þeir koma þar sá þeir at meistari Perus sitr í sæti sínu eptir vana: hann hefir hjá sèr tvá sveina þá er þjóna dagliga. ok at þessu sènu þikkjaz þeir eigi vita hverju gegnir ok þora ekki til at tala at sinni en hugsa þó at þeir skulu eigi fyrr af láta en þeir vitu hvat satt er. þeir fara at sinni í sæti sín. Annat kveld koma þeir enn til skemmunnar. sýniz þeim sem meistari Perus siti með þeim hætti sem hit fyrra kveld ok at þessu sènu flýta þeir sèr inn í höllina. þeir sjá meistara Perus sitja í höllinni eptir vana í sæti sínu ok taka við kerum svá sem honum váru upp skenkt. ok nú órugga þeir sik svá at þeir skulu vita fyrir víst hverju gegnir þí at þeir kunnu þat skilja at hann ma eigi í tveimr stöðum senn vera: ganga nú þar til sem hann sitr ok tala til hans; en hann svarar öngu. en æ þí meir forvitnar þá um hans hag: þeir ganga nú at djarfliga ok þreifa til hans þar sem þeim sýniz at hann siti. nú kenna þeir at rúmit er autt ok hann er ekki þar, kalla nú til sín fleiri sína fèlaga: verða nú allir samt vísir hvat satt er ok segja þegar hertugunum. þeir kalla til sín menn ok fara til skemmunnar ok brjóta hana upp ok hlaupa þegar inn. þar er til máls at taka er meistari Perus er í sæng hjá Ingibjörgu ok verða ekki fyrr vör við en þau heyra hark ok háreysti ok skemman

5 ok ——— með, 657 B; ok sýniz þeim bræðrum þau látaz mjök blíðliga við bæði með, 343; þeim bræðrum sýniz sem þau leikiz við blíðliga bæði með, 586.

er upp brotin. talar hón þá til hans ok segir dauða hans vísan. hann biðr hana vel um mælaz, segir at ekki man til saka, sprettr upp í línklæðum ok kastar yfir sik feldi blám er hann bar hversdagliga ok lagðiz niðr í frúinnar hásæti. þá mælti Vilhjálmr 'láti mik gjalda honum þessa 'skemmd þí at ek em okkarr ellri' — hann var stórr sem risi ok sterkr — grípr til Perum með hermð ok reiði ok sviptir honum ofan á gólfit, stígr síðan öðrum fæti á annan fót hans en tekr annan tveimr höndum ok rífr í sundr í fyrsta rykk allt upp at bringspölum en í öðrum kippir hann honum í tvá hluti. fellr nú blóð með innýflum um allt skemmugólfit, ok til skemmdar við frúna fyrirbjóða þeir at skemman sè hreinsuð. síðan ganga þeir í braut með sínum mönnum. frúin fellr í úvit er hón sèr sinn ástmann svá sárt ok svívirðliga leikinn. ok eigi líðr langt áðr hón raknar viðr ok sèr at meistari Perus gengr at henni heill ok úskaddr. hón þikkiz nú eigi vita hverju gegnir. hann biðr hana eigi hræðaz, segiz vera heill ok úskaddr 'þí at hèr var rifit í sundr eitt skálmatrè er 'liggr á gólfinu. en þeir tóku ekki á mèr'. sèr hón þá hvárki blóð nè önnur úhreinendi á gólfinu. hón biðr hann forða sèr. hann svarar 'fyrst man ek klæðaz ok ganga 'síðan í höllina'. hann górir svá. sem hertugar sjá hann þikkjaz þeir eigi vita við hver brögð þeir eru komnir, bjóða sínum mönnum at taka hann ok binda ok setja í járn. síðan kalla þeir saman mikinn mannfjölda: er hann fluttr til skógar. ok er þeir koma í þann stað er þeir ætla at drepa hann ok hann stendr fyrir þeim bundinn, mælti hann 'nú hefi ek verit bundinn um stund en hèðan 'af skal ek lauss vera. en þit bræðr eruð mjök heimskir 'menn: ek bað systur ykkarrar ok vildu þit eigi gefa 'mèr þí at ykkr þótti ek lítils háttar hjá ykkr, en þó at 'ek sè ykkr úríkari fyrir penninga sakir þá em ek ykkr 'þó vitrari ok ef várar mægðir hefði tekiz mætti þit minnar

'vizku æfinliga notit hafa þí at þá hefða ek aldrigi við 'ykkr skilit. mæli ek þat um at öll ykkur framferð snúiz 'ykkr til úfrægðar ok hamingjuleysis'. síðan sýndiz þeim sem hann tæki eitt blátt hnoða ór brókabeltispussi sínum ok kastaði upp í loptit ok þat yrði at einum streng, sýndiz þeim sem hann hèldi þar í annan enda ok læsi sik upp eptir — ok hvarf hann þeim svá at þeir sáz eigi síðan.

2. Af meistara Pero ok Pinz. Skammt þaðan var einn ríkr höfðingi er Pinz var kallaðr. hann var ríkr maðr ok hèlt sik um fram hvern mann í þí landi at klæðum ok kosti, hestum ok öllum tygjum. einn dag reið hann út af sínum garði með xij sveinum sínum eina þjóðbraut um skóg einn, ríðandi ágætu essi með öllum sínum bezta búningi. allir váru hans sveinar vel búnir. ok er þeir riðu um skóginn sjá þeir at maðr ríðr í mót þeim mikill ok vaskligr: hann hefir svá góðan hest at engan hafa þeir slíkan sèt bæði sakir gangs ok vaxtar: klæðabúnaðr þessa manns sýndiz þeim um fram alla þá sem þeir höfðu fyrr sèt, þar eptir eru öll hans tygi ok sjálfr er hann afbragð annarra manna. nú af þí at hvárir fara öðrum í mót þá finnaz þeir skjótt: heilsa þar hvárir öðrum. Pinz talar svá til þessa manns 'þú dugandi maðr' segir hann 'sel mèr þat ágæta ess með búnaðinum ok öll 'þín vápn ok klæði þí at þetta er eigi útigins manns 'eign allt saman: vil ek gefa þèr viðr mitt ess ok öll 'mín klæði ok þar með aðra aura svá at þú sèr vel 'haldinn af'. þessi svarar 'ekki fýsir mik til at hafa þitt 'ess eða tygi: má hvárr okkarr una þí er áðr hefir'. Pinz segir 'vilir þú eigi selja mèr eða gefa þá hlýtr þú

---

8 síðan, 343, 657 B; síðan. ok lýkr hèr at segja frá meistara Perus. En guð geymi vor allra. AMEN. 586. 9, 10. 23, 30 Pinz < Prinz (⌣ prinz) * 343.

'þó laust at láta'. hann svarar 'þó at þú takir af mèr allt 'þat er ek hefi þá er þó úvíst at þín ágirni seðiz með 'þessu, en eigi læt ek af meðan ek em únauðigr, en eigi 'man ek einn halda fyrir yðr xiij'. síðan taka þeir hann höndum, færa hann af sínum klæðum ok fá honum í staðinn þau sem þeirra formaðr hafði. ekki brauz hann um. skilja þeir við þetta ok ríða sinn veg hvárir. einn af þeim kumpánum íhugaði mest þeirra görð þí at hann var þeim vitrari. hann átti einn náttúrustein þann ef hann leit í hann þá mátti ekki missýna fyrir honum. þenna stein tekr hann ok lítr í, þí at hann grunaði at honum myndi annan veg sýnaz en væri, ok nú sýniz honum undrliga: hann sèr sinn formann ríða einni hrísbyrði, hón er bundin saman með tágum; en þeim sýniz öllum hinn fríðasti faraskjóti með ágætum búnaði. nú með þí at öllum öðrum en honum er þetta úsýniligt þá kallar hann til sín annan ok hinn þriðja at þeir megi vita með honum hvat satt er ok lætr þá líta í fyrr sagðan stein ok sýniz þeim þá einn veg öllum. síðan segja þeir sínum formanni ok láta hann sjálfan sjá. hann verðr við æfar reiðr ok biðr þá ríða eptir þeim vánda galdramanni, þí at hann var skammt frá þeim, ok bað þá taka hann. ok sem þeir funduz bar hann at honum at hann hefði svikit af honum hans tygi. hann sagði þat eigi satt vera, kvez aldrigi hann beitt hafa nökkurs umskiptis, sagði at ágirni hans hefði blindat hans hugskotsaugu, bað hann sjálfan gjalda heimsku sinnar ok taldiz sýkn í alla staði. formaðrinn bað þá taka hann ok binda ok svá görðu þeir. síðan ætluðu þeir at láta drepa hann, ok kalla saman mikinn mannfjölða. þeir settu sinn dóm á bryggju einni þar sem sjór var allt fyrir framan, en alþýða skipar sik allt fyrir ofan ok alla vega at sjónum svá at þessi vándi maðr megi eigi lauss verða þí at öllum sýniz hann dauðamaðr fyrir sína galdra. sem svá var komit hans máli, tekr

hann til orða 'ek hefi verit bundinn nú um stund, en nú 'vil ek lauss vera, en þó man ek eigi hlaupa enn á sjóinn'. ok er hann hafði þetta mælt sat hann lauss hjá þeim á bryggjunum. síðan sýndiz þeim sem hann tæki ór pungi sínum lítit af bleikju ok drægi þar á bryggjunni skip með öllum reiða, ok er þeim var minnst ván heyrðu þeir brest mikinn ok rugl í sjónum ok líta til: þá sá þeir at hann er kominn út á sjóinn ok á skip ok vindr upp segl ok siglir þessi maðr í haf út. skilr svá með þeim landsmönnum ok með Pero. verðr hann víðara við at koma.

3. *Af meistara Pero ok hertuga.* Þar sem Perus kvam at landi var einn hertugi með herskipum; ekki er getit at hann ætti ríki fyrir at ráða; hann var sagðr maðr réttlátr í þeirri stétt sem hann var, drap niðr víkinga ok ránsmenn en lét alla góða menn fara í friði, var hann af þessu vinsæll. hafði hann af hverjum kóngi hvat er hann vildi. þetta var þann tíma dags, er Perus fann hertugann, er matsveinar matbjoggu: pörtuðu þeir einn hana til borðs fyrr sögðum hertuga. Perus kvaddi hann vel ok mælti 'svá mikil frægð 'flyz af yðr at þér séð röskvir í stríði ok réttlátir viðr 'alþýðu — eða hvárt er at þér vilið eigi verða kóngr 'yfir einshverju ríki eða kunni þér eigi fá?' hertuginn svarar 'enga ástundun hefi ek til þess haft'. Perus mælti 'myndi þér vilja verða kóngr ef yðr væri kostr?' hann svarar 'fyrir víst vilda ek'. Perus mælti 'vel myndir 'þú þá launa þeim er þí kvæmi áleiðis?' 'víst skyldi hann 'hafa verðkaupit' segir hertuginn. Perus mælti 'myndir 'þú vilja gefa honum x merkr gulls á hverju ári svá lengi 'sem þér ríkið?' 'x merkr' segir hertuginn 'ok þó at hann 'tæki cc marka'. hann svarar 'ekki beiðumz ek meira en 'x merkr'. 'þat gef ek gjarna' segir hertuginn. ok viðr

---

5 drægi > dragi (657 B). 11 *ok hertuga* > ∽∽ (657 B).

þetta skilja þeir. ferr Perus braut. þaðan skammt var ein kóngs-atseta. hann var kvæntr ok átti sun þrevetran. þat barz at þar at svá sýndiz sem sjá kóngr yrði bráðdauðr. landsmenn kvöddu þings til kóngstekju. kemr þar saman mikill mannmúgi. þar kemr drottning með syni sínum. sýniz þat öllum rèttast at kóngssun taki ríki eptir feðr sinn. í þann tíma sýniz Perus á þinginu: hann tekr svá til orða 'þat er satt at sun á arf eptir feðr sinn; en 'fyrir aldrs sakir er hann lítill til stjórnar eða afruðnings 'ef víkingar kunnu koma til lands — eða hafi þèr nökkut 'spurt tíðenda?' þeir kölluðuz ekki fregnat hafa. hann segir 'mèr er þat hermt at fjöldi herskipa er komit við 'landit, ok þèr sjálfir sjáið at hver höfn er full af her-'skipum en hafit er sem kolum sè sát, ok er ekki annat 'til ráðs en fá uruggan formann þann er þessu vandkvæði 'mætti af yðr víkja þí at þeir munu hvárki spara at 'taka drottninguna nè góðs yðart með herfangi'. menn hyggja nú þetta munu satt vera, sjá nú at herr er kominn í landit: skýtr nú alþýðu skelk í bringu. til verðr einn hverr ok spyrr hvern hann sèr vel til fallinn kóngs yfir landit. Perus segir engan jafnvel til fallinn sem hertugann sakir sigrsælðar, vits ok forsjó, ok hvert afbragð hann er annarra manna. hèr kemr at þetta samþykkir landsfólkit ok svá sýniz drottningu. fór þá Perus til fundar við hertugann ok segir honum nú kost at taka kóngstign ef hann vill gefa honum x merkr gulls á hverju ári. hertuginn sagðiz þenna kost vilja ok lýkr honum þegar x merkr. síðan ferr hertugi heim til kóngshallar ok fær þar góðar viðtökur: er hann þar til kóngs tekinn ok fær drottningar sèr til eiginkonu. sez hann þar til ríkis ok unir vel við. en herr sá hinn mikli er þar hafði við land komit hvarf svá skjótt at engi vissi hvat af varð. Nú líðr fyrsta ár ok kemr Perus at jafnlengð ok gengr í höll kóngs ok heilsar honum. kóngr tekr honum blíðliga.

Perus mælti 'ek em kominn at heimta fè mitt af yðr'. 'já 'já' segir kóngr 'þat er til reiðu' lætr í stað vega honum x merkr gulls. hirðmönnum þikkir undarligt. Annat sinn kemr Perus at jafnlengð ok heimtir fè sitt: verðr nú rómr mikill um höllina at þessi maðr heimtir æ penninga at kóngi ok segja illt mundu undir búa. sem kóngr heyrir þat, biðr hann Perum ekki heimta at sèr penninga lengr, biðr þó fá honum at sinni x merkr. en Perus segiz heimta munu sitt hvat sem kóngr segir, tekr við fènu ok ferr braut síðan. Þriðja sinn sem liðnir eru xij mánaðir kemr Perus fyrir kóng ok heimtir x merkr gulls. nú verðr þyss mikill í höllinni, er hirðin segir at þessi maðr hafi gört kónginn skattgildan — þikkir víst at illt man undir búa. sem kóngr heyrir þat segir hann Pero með reiði 'þú ert 'firrna-maðr djarfr er þú þorir at heimta fè at mèr ok 'launa mèr svá þann góðvilja er ek görða þèr, ok lát af 'dirfð þinni ef þú vill eigi fá á þèr úfagnað'. Perus svarar 'lítil ván er þèr at ek láta af fyrir stóryrði þín at heimta 'mitt góðs'. kóngr mælti 'vilir þú eigi af láta þá er ván 'at ek láta þik höndum taka ok eigi úvíst at þú sèr 'drepinn'. Perus mælti til kóngs 'mantu hvar mit fund-'umz fyrstan tíma?' 'man ek' segir kóngr. Perus mælti þá til kóngs 'þá vart þú hertugi ok sagðr maðr rèttlátr 'ok eigi mjök ágjarn, en nú þegar er þú ert ríkari ertu 'ágjarn ok újafnaðarfullr er þú mátt sem þú vill, ok fyrir 'þí at nú hefi ek prófat þik hverr þú ert trúi ek at 'haninn sè soðinn'. bregðr nú þí við at hertuginn er við skip sín, ok eigi hafði lengri stund verit en haninn var soðinn þar sem hann þóttiz kóngr vera svá at árum skipti ok eiga drottning ok hafa landsstjórn, ok allt þetta var ekki utan sjónhverfing ok í móti þí sem satt

---

23 þá vart þú > v'tþu (657 B).

var, þí at villt var fyrir honum skynsemi ok vildi Perus prófa hverr hann væri þegar hann mætti sem hann vildi. Þetta sama snertr marga of mjök; þí at þat er of gjarnt valdinu at metnaðrinn spillir ok vill einn öllu ráða — virða ok stundum of lítils þat sem vel var áðr við hann gört en hann fekk valdit. Lýkr hér at segja af Pero at sinni.

---

# XVII.

## AF KÓNGSSYNI OK KÓNGSDÓTTUR.

---

Heyrt hefi ek sagt, at kóngr hafi ráðit fyrir Galizía, er sun átti ungan, vel menntan. kóngr unni honum mikit því at hann var hans einberni. ekki er getit drottningar. með kónginum váru ij menn þeir er getit verðr: var annarr riddari en annarr steikari: þessir váru formenn annarra þeirra sem hann hafði vald yfir. Í öðru ríki eigi langt þaðan ríkti einn kóngr: sá átti dóttur fríða ok vitra. faðir ok móðir elskuðu hana framarliga. lèt kóngr göra henni fagra skemmu er hón sat í dagliga ok hennar fylgismeyjar. Svá bar til einn tíma at kóngssun talar til feðr síns ‘mik fýsir at fara ór landi á braut at skemmta ‘mèr ok fáir þú mèr menn til fylgðar’. kóngr svarar ok kvez vildu göra allan hans vilja. hann þakkar feðr sínum ok segiz engan mannfjölða hafa mundu ‘vil ek at ‘riddari sá fylgi mèr sem hèr er fræknastr ok steikari ‘yðarr: ekki hirði ek at hafa fleiri menn’. kóngr segir ‘hvert vilt þú fara svá fámennr?’ hann svarar ‘ek ætla ‘at fara til kóngs þess er hèr ríkir hit næsta ok vil ek ‘prófa vitrleik dóttur hans er mikit er af sagt’. kóngr bað hann fara sem honum líkaði. síðan fara þeir, ok áðr

---

2 = *af kn̄gs syni ok kn̄gs dottur*. 18 fleiri > fleíoo. 19 ek ætla > Ekki étla ek.

þeir koma á kóngs fund mælti kóngssun til félaga sinna ‘nú skal breyta várum vana: steikari skal nú fyrstr ganga ‘ok sitja innstr en ek skal sitja yztr — hann skal tala ‘við kóng várra vegna svá sem hann sè várr formaðr’. þeir báðu hann ráða. sem þeir koma til kóngshallar, gengr steikari fyrst fyrir kóng, þá riddari í mið, en kóngssun síðast: allir kveðja þeir kóng sæmiliga, þí at þeir váru allir kurteisir menn. kóngr tók vel kveðju þeirra ok spyrr hverir þeir sè. steikari hefir orð fyrir þeim — sagði til þat sem honum líkar, en eigi þat sem var. kóngr fréttir hvaðan þeir kvæmi. þeir sögðuz víða farit hafa en vilja biðja nú kóng vetrvistar. hann kvez hvárki spara við þá mat nè drykk, skipaði þeim ok sæmiliga ok sat steikari innstr en riddari þar næst en kóngssun yztr; váru þeir þar um stund ok lètu ekki mikit yfir sèr — váru fáskiptnir ok góðlátir. þat bar at einn dag at kóngr gengr til skemmu dóttur sinnar. hón heilsar honum blíðliga ok spurði tíðenda. hann sagðiz engi segja kunna. hón mælti ‘koma engir menn um langt til hallarinnar?’ hann svarar ‘komnir eru iij menn úkunnir til hallarinnar’. ‘hvaðan eru ‘þeir?’ sagði hón. kóngr segiz ekki kenna þá ‘eru þeir ‘menn sæmiligir at sjá en ekki veit ek hvat manna þeir ‘eru’. ‘þeir mætti vel’ segir kóngsdóttir ‘koma til tals með ‘oss’. ‘svá skal ok vera’ segir kóngr — gengr síðan heim til hallar. Annan dag eptir víkr kóngr at formanni þeirra ok mælti ‘yðr man langt þikkja: hèr er fátt til gleði: ok ‘er þí leyfiligt at ganga í dag til skemmu ok sjá dóttur ‘mína’. ‘þat þigg ek gjarna’ segir hann — gengu til skemmunnar, heilsar hann á kóngsdóttur en hón tók vel kveðju hans. kóngsdóttir sat í hásæti: þar váru fyrir tvær fótskarir ok settiz hann á hina neðri. kóngr sat um stund

---

1 fund > oond. 2 skal nú > ooo nu. 4 kóng > ooo. 5 koma > oooia. 6 en > enn||en. 7 kveðja > kueda. 11 þeir kvæmi >.

ok gengr síðan. steikari sat eptir. síðan mælti kóngsdóttir ok spyrr hverr hann væri. hann sagði til slíkt sem honum sýndiz en eigi þat sem var. hón mælti ‘seg mèr ‘— hverr vildir þú helzt fugl vera?’ hann svaraði ‘hvat ‘mynda ek fugl vera er ek em maðr?’ ‘sè ek þat’ sagði hón ‘at þú ert maðr ok vel sæmiligr; en ef þat mætti at ‘beraz at þú yrðir at honum, hverr vildir þú þá helzt ‘vera?’ hann svaraði ‘þat ætla ek at ek vilda helzt vera ‘akrhæna’. ‘ok fyrir hví akrhæna?’ segir hón. ‘því’ sagði hann ‘at hón er hinn ágætazti höfðingjarèttr’. ‘satt er ‘þetta’ segir hón ‘en hverr vildir þú helzt fiskr vera?’ hann svarar ‘þat ætla ek at ek vilda helzt lax vera’. ‘sakir hverrar greinar?’ segir hón. ‘því’ segir hann ‘at ‘lax er höfðingjarèttr’. ‘satt er slíkt’ sagði hón ‘en hverr ‘vildir þú helzt viðr vera?’ hann svarar ‘þat ætla ek at ‘ek vilda helzt björk vera’. ‘hví björk heldr en annarr ‘viðr?’ ‘því’ sagði hann ‘at hann er skjótari en annarr viðr ‘at kveykja eld við’. ‘vel segir þú’ sagði hón ‘ok skaltu ‘vera í boði mínu í dag’. Annan dag gekk til skemmu með kóngi riddari ok settiz skör hærra en steikari ok fagnaði kóngsdóttir þeim vel. kóngr sat ekki lengi ok gekk braut. kóngsdóttir spurði riddara hverr hann vildi fugl vera. hann svarar ‘ekki kýs ek mèr at vera fugl; en ‘ef svá mætti verða, vilda ek helzt fálki vera’. ‘hví heldr ‘fálki en annarr fugl’ sagði hón. ‘því’ sagði hann ‘at fálki ‘er fræknari en aðrir fuglar’. ‘satt er slíkt’ sagði hón ‘en ‘hverr vildir þú helzt fiskr vera?’ ‘mætta ek fiskr vera’ sagði hann ‘þá ætla ek at ek vilda helzt gedda vera’. ‘gedda!’ segir hón ‘fyrir hverja grein?’ ‘þat finn ek til at ‘hón hefir tvær tenn stórar í öndverðu höfði ok drepr ‘þar með aðra fiska, eru þeir ok mjök hræddir við hana’.

---

15 viðr > vidoo. 16 heldr > helldoo. 19 Annan > Aooan. 20 en steikari > eoooeikare. 22 braut > booo. 23 ek > ooo. 30 tenn > tuenn.

'satt hygg ek þetta' sagði hón 'en seg mèr, hverr vildir 'þú helzt viðr vera?' 'helzt askr' sagði hann. 'hví heldr 'sá viðr en annarr?' sagði hón. 'þí' segir hann 'at askr 'er meir hafðr til spjótskapta ok þikkir uruggri til þess 'en annarr viðr'. 'allt er slíkt satt' sagði hón 'ok skaltu 'vera vel kominn hèr í dag'. þriðja dag gekk kóngssun með kóngi til skemmu. hón tók þeim með bliðu. kóngssun kvaddi frúna kurteisliga. hón tók þí blíðliga. hann settiz þegar í hásæti hjá henni. kóngr gekk í braut. jungfrúin veik þá tali til kóngssunar ok spurði hvat manna hann væri. hann sagði slíkt sem hann vildi ok ekki svá at hón vissi þá görr en áðr. þá mælti kóngsdóttir 'hverr vildir 'þú helzt fugl vera?' 'ekki beiðumz ek at verða at kvik-'endum' segir hann. 'görla veit ek þat' segir hón 'ok 'ekki görða ek þessa spurning þèr til smánar'. 'þat ætla 'ek' segir hann 'at ek vilda helzt vera spörr'. 'spörr!' sagði hón 'hann er vesalligr fugl: hví kýss þú hann at 'vera?' 'þí' sagði hann 'at hann fylgja margir'. 'satt er 'þat' sagði hón 'en hverr vildir þú helzt fiskr vera?' 'þat 'ætla ek at ek vilda helzt vera síld'. 'hón er þó smáligr 'fiskr' segir hón 'eða hví vilt þú hón vera?' 'þí' segir hann 'at hón er jafnan mörg saman, en mèr þætti þí 'betr sem mèr fylgdi fleiri'. 'seg mèr' sagði hón 'hverr 'vildir þú helzt viðr vera?' 'viðvindill' segir hann. 'þetta 'er fáheyriligt at kjósa at vera viðvindill er síðr er með 'náttúru en annarr viðr; eða hvat finnr þú til þess?' 'þat' segir hann 'at hann er jafnan utan um annan við ok heldr 'honum fast'. 'eigi vil ek þessu í móti mæla' segir hón 'en hvat vildir þú helzt eitt lítit vera?' 'þat fæ ek skjótt 'sagt yðr' segir hann 'beint þorninn í belti þínu'. hón segir 'hví vildir þú hann vera?' hann svarar 'þí at ek

---

2 sagði hann > = = =. 23 fleiri > fleırı. Sılldın fẏlgızſt ok er ȷafnan morgh saman. 30 belti > bellt þornīn ı belltu.

‘vilda báðum höndum halda um þik miðja’. hón mælti ‘er ‘svá komit? — þú skalt vera vel kominn í váru boði er ‘þú vilt verit hafa’. ‘þigg ek þat’ segir hann. sat hann þar um daginn ok trúi ek at þau muni mart mælt hafa. gekk hann heim um kveldit ok settiz í sæti sitt. Um morgininn eptir gekk kóngr til skemmu dóttur sinnar. kóngr spurði hversu henni virðiz hinir úkunnu menn. hón svarar ‘ekki veit ek nöfn þeirra en vita þikkjumz ek hverrar ‘stéttar hverr þeirra er. sá er fyrst kvam til mín er steikari ‘ok man vera kurteiss maðr. sá annarr er kvam til mín er ‘riddari ok man vera gildr maðr. en sá sem settiz í hásæti ‘hjá mér, hann er kóngssun ok man vera ríkr maðr ok ‘nökkut metnaðargjarn; en þó virði ek svá sem hann hafi ‘verit hér á laun ok nökkurri undirhyggju: þikki mér ráð ‘at þér skiptið um sæti við hann ok trúi ek at þér vitið ‘skjótt hvat manna hann er’. kóngr kvað svá vera skyldu. síðan gekk kóngr til hallar ok þar at sem kóngssun sat ok mælti ‘gakk með oss til sætis þí at þú mant helzti ‘lengi leynz hafa’. taka þeir tal saman, verðr kóngr þá víss hvat manna hann er. fekk hann síðan kóngsdóttur ok unnuz vel. ekki er getit barna þeirra. Ok lýkz svá þetta æfintýr.

---

**20 síðan > sıdan þ̄|sa (þonun ◡) konun.**

# XVIII.

## ÚR CLARUS SÖGU.

---

1. *Af smíð bjarnarins.* Á fyrsta ári ríkis meistara Peri kallar hann saman þá steypara sem hagasta beið í öllu Saxlandi ok lætr efna eina smíð. hann lætr steypa höfuð ok knappa með stöngum af kopar í þat form sem dýrum höfðingjum er títt at hafa í landtjöldum ok þetta lætr hann allt grafa ok gullleggja með frábærum hagleik ok at þessu endaðu lætr hann semja til klæði með allra handa lit fögrum en ekki foraðs d rum, lætr hér af göra eitt landtjald svá mektugt sem nökkurs manns augu lysti at sjá. frammi fyrir landtjaldinu lætr hann steypa einn híðbjörn vel stóran með sama málmi ok lauga allan í gulli: sinn maðr mátti í vera hverjum fæti bjarnarins: var hann svá liðugr ok með mikilli vél görr at þann tíma er menn váru í honum sýndiz hann ganga hvert er honum var vísat; hér með lætr hann göra eitt helsi um hals bjarnarins ok þar af eina taug aptr með báðum síðum ok annarr endir þessar taugar var fastr í miðju brjóstinu fyrr nefnds landtjalds, ok sem til skipaðir menn reiddu fætr bjarnarins með fyrr sögðum hætti sýndiz sem björninn þrammaði fyrir tjaldinu ok flytti þat til fyrir ætlaðra staða.

---

2 +. 20 reiddu (657 B); hrærðu (179, R 31), hræra (589 D).

Öllum fannz mikit um þenna hagleik sem hér var á kominn. Varð þessi smíð algör á fyrsta ári ríkis meistara Peri.

2. Smíð leónsins. Á öðru ári ríkis meistara Peri lætr hann efna aðra smíð mjök líka ok fyrri. þat var annat landtjald miklu ríkara; þí at allir knappar ok veðrvitar með höfðum ok stöngum þessa tjalds váru af brenndu silfri, gylldir ok grafnir, ok víravirkjum allt vunnit ok sett með stórum kurelum. hér með lætr hann vanda sem bezt allt kyn klæðanna með þessu tjaldi svá at hér er ekki til nýtt nema skarlak, "bliat", víolat, eximí ok aðrir dýrir vefir. þí öllu var ok meir vandat vöxtr ok smíð á þessu en hinu fyrra tjaldi sem þetta var með dýrra kosti. fram fyrir þessu landtjaldi lét hann steypa einn stóran león með brenndu gulli búinn en sjálfan hann með skíru silfri — allr sem lifandi væri — í allt eitt form sem hiðbjörninn ok á þann hátt með tengðan þessu tjaldi ok svá flytja sem hit fyrra. Sannaði hverr sem smíði leit at annat myndi ekki slíkt finnaz með höndum gört. Nú var ok liðit annat ár ríkis meistara Peri.

3. Smíð gamms. Á þriðja ári ríkis meistara Peri lét hann efna þriðju smíð. þat var enn landtjald. allar stengr ok knappar, höfuð ok veðrvitar, þessa tjalds váru af brenndu gulli ok allt sett með skínundum gimsteinum ok svá dýrðligum hagleik at miklu þótti meira um vert þann meistaradóm er þar var á kominn en um málminn. hér til velr hann allt þat klæðakyn sem ríkast kann fá, svá sem gullskotit pell, purpura ok bissum, guðvef ok cicladem, ok mörg þau fleiri sem vér kunnum eigi nefna. allar taugir þessa tjalds váru snúnar af gulli, en knappr á þeirri stöng sem upp stóð af miðju tjaldinu var sem

---

7 vunnit = wnnít (657 B). 8 kurelum (= kurelū ⌣ kurelv̄) 657 B, korelumm (179). 'sem +. 10 "bliat" (✱ DIEZ: Etymologisches wörterbuch der romanischen sprachen "bliaut"). 17 smíði (657 B); þetta smíði (589 D, 179, R 31).

logandi eldr af þeim carbunculo er þar var í settr. frammi fyrir þvísa tjaldi lèt hann göra einn gamm af brenndu gulli þann sem með úskiljanligri list sýndiz fljúga fyrir þessu tjaldi flytjandi þat svá eptir sèr hvert sem meistari Perus býðr hafandi enn eitt helsi með gullligu togi af sínum hálsi framan í brjóst landtjaldsins. Ok sem þetta ágæta smíði tèðiz undraz hverr er sèr svá at nú þótti litils um vert þau er fyrr höfðu gör verit: var þat ok þí stærra en hin fyrri sem þat var at kostinum dýrra. en engi veit enn til hvers koma myndi nema meistari Perus. Endiz nú ok algöriz þessi smíð á þriðja ári rikis meistara Peri.

---

# XIX.

## TÍU UNDR EGIPTALANDS.

---

Þessi ero tío undr þau er urþu á Egiptalandi. Þat er it fyrsta at vatn allt varð at blóþi. Eptir þat kom froska fjölþi. Þá komo flugur þær er cinifes heita: þær kvikna ýr jörþu ok ero smár harþla ok fljúga mjög í augo mönnom. Síþan kom "cinomia": þær ero enn flugor, stærri en cinifes, ok bíta sárt ok ero höfþaþar nær sem hundar. Eptir þat kom fjárdauþi. Þá fengu menn bólnasótt. Eptir þat kom hagl stórt ok meiddi allan ávöxt jarþar. Þá komo kvikvendi þau er locuste heita ok sumir kalla "lomvndi". Þá varð myrkr svá þykkt at þreifa mátti um. Síþarst kom dauþi allra frumgetinna manna ok svá kvikvenda. Eptir orþin undr þessi öll rak Pharao konungr Gyþingalýð af Egiptalandi ok þá leiddi Moyses þann enn sama lýð yfir Hafit rauþa á þeirri enni sömo nótt sem frumburþar dauþi hafþi orþit á Egiptalandi ok var sú in fyrsta páskanótt Gyþinga. En á enom fimmtogonda degi þaþan í frá gaf guð Moysi lög þau er

---

2 +. 3-14 * $76^{31}$—$77^{6}$. 12 þreifa = þreıva. 14 kvikvenda = qvıckṽnda. 18 páska = paſcha.

# XX.

## TÍU LAGA-ORÐ.

Þessi ero tío laga-orð er guð bauð Moysi at halda. Eigi skalþu trúa á guð önnur en á mik. Eigi skalþu hafa nafn drottins í hègóma. Minnstu at halda helgan þváttdag hvern. Gösgaþu föþor þinn ok móþor. Eigi skalþu hórdóm drýgja. Eigi skalþu mann vega. Eigi skalþu stela. Eigi skalþu bera ljúgvitni. Eigi skalþu girnask á kono náungs þíns. Eigi skalþu girnask á nè eitt eigin náungs þíns.

2 +. 3-9 þessi———þíns = þeſſı ero tıo laga orð er gvð bavð moýſı at hallda | Eıgı ſcallþv trva agvð avnnvr en amık. eıgı ſcalþv | hafa nafn drotınſ ıhegoma. mınztv at halda hel | gan þvatt dag hvern. Gavſgaþv favþor þınn oc mo¦þor. eıgı ſcalþv hordom drýıa. eıgı ſcalþv mann ve|ga. eıgı ſcalþv ſtela. eıgı ſcalþv bera lívg vıtnı. eıgı|ſcalþv gırnazc a cono (⌣ acono) navngſ þınſ. eıgı ſcalþv gır nazc a né eít eıgın navngſ þınſ.

# XXI.

## FABELLA ALEXII CONFESSORIS.

———

$51^{18}$ Á dögom Arcadii ok Honorii keisara var einn göfogr maðr ok trúfastr í Rómaborg: sá hèt Euphemianus, einna mestr höfþingi er kononga líddi. en hann átti þrjár þúsundir húskarla — þeir váro dýrligom kleþom skrýddir —; en hann var sonlauss því at kona hans var óbyrja: en hón var vel trúoþ ok hèlt boþorþ guþs. Euphemianus fastaþi hvern dag til nóns. þrjú borþ setti hann í húsi sínu ok laþaþi þangat válaþa menn ok sjúka ok útlenda ok frændlausa. en kona hans hèt Aglais: hón gerþi hvern dag guþs verk meþ trú ok kallaþi á guþ í bænom ok mælti 'minnstu mín óverþrar ambáttar þinnar, drottinn,
52 'ok gef þú mèr erfingja þann er verþi huggon andar

---

2-14 FABELLA————þann * *Konr. Gíslason: Um frumparta íslenzkrar túngu í fornöld (Kmh. 1846) lvi*$^{1-11}$. 2 ALEXII (* $141^{11}$ $442^{8}$ $443^{3}$) > alexıſ (* Acta Sanctorum tom. iv. Julii p. $238^{22-27}$ '*Duplici modo scribitur nomen hujus Sancti; communius* '*quidem vocari soliti* Alexius; *at* Alexis *etiam vocati in codice* '*quodam nostro Ms. antiquissimo, signato P Ms. 3, ac Valcellensi,* '*et alibi*'. 11 en——Aglais * Acta Sanct. tom. iv. Julii p. $251_{\overline{23-22}}$ 'Mulier autem ejus Aglaes' (p. $253_{4}$ '*Al.* Aglais') 'nomine'. 13 óverþrar > (* *Um frum-parta* $116^{9-12}$). 14 þann > ooan || þan.

‘minnar’. guþ heyrþi bæn hennar ok veitti henni son at geta þann er í því var farsæla föþr ok móþr. sveni var nafn gefit ok var kallaþr Alexius. en er hann var á náſs aldri þá var hann til leringar settr at nema speki ok mælsko ok allan kristinn fróþleik ok varþ hann spakr sveinn í öllom hlutom. en er hann var fulltíþi þá mælti Euphemianus viþ kono sína ‘leitom vit kvánfangs syni ‘okkrom at hann sè meþ okkr ávallt ok bjargi vesolom ‘ok válöþom í ölmosogæþi’. þat leizk þeim báþom gott ráþ ok var honom síþan föstnoþ mær ór eno göfgasta kyni ok var síþan at samkundu fingit ok boþit enom göfgostum mönnom ok var þar gleþi mikil ok fögnoþr þann dag allan en at aptni var honom fylgt til rekkjo. en er allir váro út gignir þá settisk hann á hvílostokk ok dró fingrgull af fingri sèr ok skar hlut af belti síno ok knýtti í dúki ok seldi festarmeyjo sinni ok mælti ‘tak ‘þú þetta ok varþveit, en guþ veri á meþal okkar sem ‘honom líkar’. marga aþra hluti leynda mælti hann viþ

2 föþr ok móþr * *Frum-pp.* 71-72 (móþr * $72^{1-3}$). 2-3 sveni——gefit * *Frpp.* $138^{7}$. 3 Alexius > alexıſ (* $438^{2}$). 3-4 er——aldri * *Frpp.* $211^{10-11}$. 5 allan = allaɴ. 7 Euphemianus > evphımıanuſ. 10, 11 síþan = ſıþaɴ. 12 mönnom >. 13 allan = allaɴ. aptni * *Frpp.* $113^{6}$. 14 en er——gignir * *Frpp.* $116_{3}$ (gignir ɔ: gingnir * fegnir ɔ: fengnir, Saga Ol. kon. Tryggv., Christiania, 1853, $5^{3}$). 15-18 ok dró——líkar’ * A. Sanct. tom. iv. Julii p. $252^{15-20}$ ‘deinde tradidit ei annulum suum aureum, et rendam, id est ‘caput baltei, quo cingebatur, involuta in prandeo, et purpureo ‘sudario, dixitque ei : Suscipe hæc, et conserva usque dum Do‘mino placuerit : et Dominus sit inter nos’; p. $254_{27-}$ (Vita metrica):

‘Hinc sponsæ rendam zonæ propriæ dat habendam,
‘Unde sibi memorem fidei conservet amorem,
‘Et rex cælestis, rogat, ut sit ad omnia testis’.

16 knýtti = knýtí.

hana ok gekk braut frá hvílonni ok gekk í klefa þann er fé hans var í ok hafði meþ sèr hlut af ego sinni ok fór brött ór Rómaborg. en er hann kom til sevar þá stè hann á skip meþ kaupmönnom þeim er fóro til Sýrlands. borg heitir Edessa á Sýrlandi í hèraþi því er Mesopotamia hetir: í þeiri borg hafþi verit "abagarvſ" konongr sá er sendi rit drottni Jesu Christo ok tók rit í gegn af honom ok trú ok heilso. en heilagr Alexius kom til þessar borgar þá seldi hann auþeti þau er hann hafði meþ sèr ok gaf aumom mönnom ok kleddi sik stafkarlsbúningi ok sat svá sem þurfamaþr í guþs móþr kirkjo garþi ok tók corpus Domini hvern drottinsdag. lútr var hann ok litillátr at líkams yfirlyti en hjarta hans var hátt fyrir
53 guþi ok gaf hann aumom mönnom allt þat er honom var gefit. en er hans var saknaþ' í Rómaborg þá var hans leitat mjök ok fannsk egi. þá sendir faþir hans þrjár þúsundir manna at leita hans ok fundo þeir hann egi. en er þeir komo í borg þá er Edessa heitir þá fundo þeir hann ok kenndo hann egi ok gáfo honom ölmosogjöf, en hann kenndi þá ok dýrkaþi guþ ok mælti 'þakkir 'geri ek þèr, drottinn, er mik lèzt þiggja gjöf af þrelom 'föþr míns fyrir nafn þitt'. þá komo aptr þeir er sendir váro til borgarinnar ok sögþo drottni sínom at þeir fundo hann egi. en frá þeim degi fór móþir hans at sitja ein

---

1-2 ok gekk í klefa———ego sinni ✻ *Frpp.* $4^{3-5}$. 4-5 Sýrlands = ſýrlanz. 5 Edessa > edıſſa. 8 heilagr Alexius > heılagooolexıſ (✻ $438^{2}$). 10 meþ sèr > moooo. stafkarls = ſtafkalls. 11 ok sat > ooot. í———garþi ✻ *Frpp.* $71_{3}$ (A. Sanct. t. iv. Julii p. $252^{29-31}$ 'cœpit sedere cum ceteris 'pauperibus ad atrium sanctæ Dei Genitricis Mariæ'). 12 ok tók corpus Domini > z tok . z toooo͞ı ⌣ z tok. z coooo͞ı (ɔ: ok tók ok corpus Domini?). 13 yfirlyti > yooytı ✻ *Frpp.* $46^{5-6}$. 16 þrjár > þıar. 17 egi = égı. 18 Edessa > edısa. 22 föþr ✻ *Frpp.* $72^{1-3}$. nafn > nanf (✻ *Frpp.* $118^{8}$).

í húsi ok sat hón á gólfi eða hvíldi í hárkleþi ok í moldo ok mælti svá 'egi mon ek upp rísa af þesso gólfi áþr ek 'veit hvar enga sonor minn er'. þá skilþo þau hjón rækkjo sína ok mælto 'vit skolom nálgask til guþs í hreinlífi at 'drottinn fagni okkr ok syni okkrom þeim er guþ gaf 'okkr'. en festarmær hins dýrliga sveins stóþ fyrir sværo sinni ok mælti 'egi mon ek hèþan út ganga á dögom 'lífs míns heldr mon ek glíkjask foglom þeim er turtures 'heita ok halda hreinlífi ok bíþa unz ek veit hvat ór 'búanda·mínom er orþit eða hverso heilagliga hann heldr 'þat er vit áttom mælt'. en heilagr sveinn Alexius þjónaþi drottni xiii ár í guþs móþr kirkjo garþi. en er xiii vetr váro liþnir þá mælti líkneski guþs móþr á einom hátíþardegi viþ þann er kirkjo varþveitti (en sá hèt Paramonarius) 'leiþ þú inn guþs vin í kirkjo því at hann er verþr 'ríkis himna: bæn hans ilmar sem reykelsi ok hvílis yfir 'honom heilagr andi sem konunglig kóróna ok svá skýnn 'andlit hans í augliti engla sem sólar skyn lýsir yfir jörþ'. þá gekk út Paramonarius ok leitaþi guþs vinar ok fann egi. síþan gekk hann inn í Máriu kirkjo ok baþ guþ sýna

---

3 sonor * *Frpp.* $71^{7-8}$. 6 okkr'. en > ockoooı. dýrliga > dýroooo. 7 hèþan = heþaɴ. 8 heldr = s; (ɔ: sed; * *Frpp.* 1—3). turtures > tvrtooıſ. 11 Alexius = alexı'. 12 (xiii ár = ·xııı· ár.) móþr * *Frpp.* $72^{1-3}$. er xiii > er xvı (xvı < xuı < xııı); A. Sanct. t. iv. Jul. p. $255^{33}$ (Vita metrica) 'Annos ter ternos peragens sic atque quaternos'. vetr ∽ ǽrr. 13 váro > $_{o}{}^{o}{}_{o}$· móþr * *Frpp.* $72^{1-3}$. 14-15 Paramonarius > paramonıarıvſ (* A. S. t. iv. Jul. p. $252_{\overline{8-6}}$ 'imago, quæ in 'honore sanctæ Dei Genitricis Mariæ ibidem erat, paramonario 'ecclesiæ dixit: Fac introire hominem Dei'; Vita metrica p. $255^{38}$ 'Aures sacristæ perquam sonus impulit iste'). 16 reykelsi ∽ reýkeſſı. hvílis (= hvılıſ) < hvílisk. 17-18 ok —— hans * *Frpp.* $46^{10}$. 18 sólar skyn * *Frpp.* $46^{4}$. 19 Paramonarius > paramonıarı'. 20 egi. síþan = égi. Sıþaɴ.

54 sėr sinn vin. þá mælti líkneskit enn ‘sá er guþs maþr er ‘sitr úti fyrir kirkjo dyrom’. þá tók Paramonarius í hönd honom ok leiddi hann inn í musteriþ. þá mælti Alexius einn í hug sėr ‘kuþr em ek öllom nú hėr’. síþan fór hann ór borginni Edessa ok vildi fara til Sikileyjar ok þjóna guþi í mustari heilags Pauli því at hann var þar ókunnr öllom. en skip þat er hann var á ginginn reiddi vindr til Rómaborgar. þar gekk hann upp frá skipi til borgar ok lėt sem hann væri útlendr ok mætti fö̧þr sínom fyrstom manna ok kvaddi hann ok mælti ‘guþs þræll, gerþu miskonn ‘viþ mik — válaþr ok útlendr em ek — ok tak mik í hús þitt ‘ok fæþ mik af mola þeim er fellr af borþi yþro; en guþ ‘blezi þitt líf ok gefi þėr ríki himna’. en er faþir hans heyrþi þetta þá tók hann viþ honom í hús sitt svá sem viþ útlendom ok minntisk hann enga sonar síns svá sem hann var vanr ávallt er hann tók viþ útlendom eða gaf þurfamönnom. þá mælti hann viþ þræla sína ‘sá yþvarr ‘er þessom vinnor beina skal egnask frelsi ok lut erfþar ‘í húsi míno: sá skal gera rekkjo hans ok vinna vel ok ‘gesta egi hug hans’. en á þeim enom sama aptni hlógo þrelar ok sveinar at þessom enom útlenda manni er þeir hugþo at væri ok freistoþo hans ok gerstu hug hans ok sumir þógu diska ok hellto því í höfoð honom. en guþs vinr sá at þetta var freistni viþ hann af öfond fjanda ok sat hann þolinmóþliga. sjautján vætr var hann í húsi föþr

2 Paramonarius > paramonıarıuſ. 3 Alexius = alexı’. 4 síþan > Sıþaɴ. 5 Edessa > edısa. vildi——Sikileyjar * A. S. t. iv. Jul. p. $252^{11-12}$ ‘volebat in Tharsum Ciliciæ ‘ire’. 9 föþr * *Frpp.* $72^{1-3}$. 11 em ek > (* A. S. t. iv. Jul. p. $252^{23-24}$ ‘quia pauper sum, et peregrinus’). 17 yþvarr = yþvar. 18 vinnor > vɪɴooo (* *Frpp.* $71^{8-9}$). ok lut = z ooolvt. 20 gesta = ‘ geſta” (g?; * 22). aptni * *Frpp.* $113^{7-8}$. 21 útlenda > vt leooa. 22 gerstu = g̊ſtv (* 20). 25 föþr * *Frpp.* $72^{1-3}$.

síns ok móþr ok visso þau egi hverr hann var. en er sú tíþ kom er drottinn vildi taka önd hans þá mælti Alexius viþ þann er ræiþo vann honom 'bróðir' sagþi hann 'sel þú mér tæki þau at ek mega ríta'. en er honom var þat selt þá reit hann allt líf sitt frá upphafi þaþan frá er hann óx upp í húsi föþr síns. en á enom drottinsdægi eptir messo þá er páfi var í kirkjo ok hinir mildosto konongar Arcadius ok Honorius ok margr lýþr meþ þeim þá var heyrþ rödd af himni yfir altera ok mælti 'komiþ 'ér til mín allir er starfiþ ok erfiþi hafit ok mon ek fæþa yþr'. þá urþo allir hreddir ok féllo til jarþar ok sungo kirieeleison. þá heyrþo þeir rödd í annat sinn ok mælti 'leitiþ 'ér guþs vinar at hann biþi fyrir Rómaborg'. þá leituþo allir guþs vinar ok báþo at guþ sýndi þeim *hann*. en enn fimmta dag viko at aptni þá var *vitraþ* fyrir þeim at guþs maþr mundi finnask í húsi Euphemiani. en þá mæltu þeir viþ Euphemianum 'fyrir hví sýndir þú oss egi 'miskonn þá er þú hefir í húsi þíno?' en at öndverþom föstodegi tók guþ önd heilags Alexii frá líkam hans. þá buþu konongar at leita heilags píslarvátts guþs í húsum Euphemiani. Euphemianus bauþ þrælom sínom at búa hús innan vandliga er kononga var þangat ván ok gingo menn á mót þeim meþ reykelsiskerom ok alls kyns dýrþ. en þá er konongar komo í hús hans þá var at "ræflat" í hljóþi hverr þar mundi vera guþs vinr. en móþir heilags Alexii ok festarkona hans sá þessi tíþendi öll þaþan er

1 móþr * *Frpp.* $72^{1-3}$. egi = égı. hverr hann var > hver oooar. 3 Alexius = alexı'. 5 frá upphafi > ooohafı. 6 föþr * *Frpp.* $72^{1-3}$. á—dægi * *Frpp.* $138^{5}$. 9 komiþ > Eomıþ. 14 sýndi > ooodı. 16 Euphemiani > evfımıanı. 17 Euphemianum > evphımıanvm. 19 heilags = heılax. Alexii > alexıſ. 20 heilags píslarvátts = heılax pıſlar vaz. 21 Euphemiani. Euphemianus > eufımıanı. Eufımıanuſ. 22 vandliga = vanlıga. gingo > googo. 25-26 móþir heilags Alexii > moooeılax alexıſ. 26 þaþan > þaooo (< þaþan).

þær stóþo viþ glugg í húsi síno ok mælto þær meþ sér ‘hví gegnir þyss sjá manna? eþa hvat hafa þeir hér at ‘mæla?’ en er þær áttu of þessa hluti at dæma | á gekk fram þjónn sá er viþ enom útlenda hafði tekit at því at þeir ætloþo hann vera ok mælti ‘maþr sá er ér seldoþ ‘mér til varþveizlo — þar hefi ek séþ marga dýrliga hluti ‘yfir honom: hann tók corpus Domini hvern drottinsdag ‘en þá hafþi hann litla fæzlo er hann mataþisk ok svaf ‘lítit eþa ekki of nætr; þrelar hlógo at honom ok bar ‘hann þat allt þolinmóþliga’. þá rann Euphemianus þegar þangat til hans ok vildi mæla viþ hann, en þá var hann andaþr. en Euphemianus tók dúk af andliti hans ok sýndisk mönnom andlit hans bjart sem engils andlit: hann hafþi rit í hendi sér ok lét egi laust. Euphemianus mælti viþ
56 kononga ‘nú höfom vér fundinn þann er vér leituþom ‘ok hefir hann hér verit xvii vetr, en nú er hann andaþr ‘ok hefir rit í hendi sér ok vill egi selja oss’. þá gingo konongar þangat ok páfinn ok Euphemianus ok allir enir göfgöstu menn ok stóðo fyrir líki guþs vinar ok mælto meþ tárom ‘þótt vér sém syndgir þá erom vér þó konongar: ‘sel þú oss rit þetta at vér vitim hverr þú ert’. þá lét hann laust ritit ok tóko þeir þat ok mælto þeir at ráþa skyldi ritit. en er ritit var ráþit þá fèll Euphemianus til jarþar fyrir líki sonar síns ok mælti meþ tárum ‘þú enn ‘kersti son, fyrir hví hryggir þú hug minn ok lifþir svá

1 húsi síno > hooofino. 4 tekit > ooekıt. (7 drottinsdag > drottıoodag.) 9 lítit > oooot. 10 Euphemianus > evfımíanuf. 11 þangat > þanooo. hans = h́ (* 445[21]). 12 Euphemianus > evfımıanvf. 14 Euphemianus > Evpımıanuf. 15 þann > þaɴ,|þaɴ. 17 vill = vıl. 18 Euphemianus > Eupımıan’. 20 meþ > ooeþ. syndgir = fýngır. þá—— konongar * A. S. t. iv. Jul. p. 253$_{31-29}$ ‘gubernacula tamen ‘regni gerimus; iste autem Pontifex, pater universalis est’. 21 hverr = hver. 23 Euphemianus = evphemıan’. 25 son = ‘s’.

'meþiliga hèr meþ oss? ek vætta at ek munda heyra 'mál þitt ok vita hverr þú værir: nú sè ek enga son minn 'dauþan ok nái ek egi at mæla viþ hann'. þá reis upp móþir hans meþ miklom harmi hugar ok mælti viþ lýþinn 'gefiþ èr mèr rúm at ek of sjá son minn þann er ek 'fedda á brjósti míno ok unna ek sem lífi míno' þá barþi hón á brjóst sèr ok mælti mikilli röddo 'komit èr ok 'grátiþ meþ mèr því at son minn var meþ mèr xvii vætr 'í húsi mínu ok vissi engi hverr hann var: þrelar hans 'görþo honom kinnhesta ok spítto í andlit honom ok hlógo 'at honom ok gerþo hvers konar óskil' þessa hluti mælti hón ok kom svá opt til líks sonar síns sem dúfa til hreþr síns ok hellti tárum yfir andlit honom ok mælti 'hverso 'máttir þú son leynask svá lengi í húsi föþr þíns? þú 'sátt oss hvern dag gráta eptir þig ok leindisk þú þó 'fyrir oss'. þá gekk brúþr hans þangat ok mælti meþ miklom sárleik hjarta síns 'í dag hefi ek týnt forysto minni 'ok sýnumk nú ekkja ok emk nú orþin huggonarlaus allt 'til enda lífs míns'. allr lýþr undraþiz þenna atburþ ok mátti engi vatni halda. þá mælto konongar at bera skyldi 57 lík hans í miþja borg. en þá rann allr lýþr á mót líkino er þeir frágo at sá var fundinn er leitaþ var: þá tóko sjúkir heilso en sýn blindir, dumbir mál en heyrn daufir, ok flæþo djöflar frá óþum. en er konongar sá jarteinir þá báro þeir líkbarar ok páfinn meþ þeim at þeir helgaþi sig af líkino. en móþir hans ok brúþr fylgþo líki ok grèto. en þá dreif þangat svá margr lýþr at þeir máttu egi

---

3 dauþan = davþaɴ. 5 minn þann > mıoooɴ. 6 ok unna > oooına. 8 son = ·s·. minn > ooo. 10 ok spítto í andlit honom ✻ *Frpp.* $44^{7-8}$. 12-13 sem——síns ✻ *Frpp.* $116^{1}$. 13 hellti > ϲoooı. 14 son = ſoɴ. lengi = léngı. föþr ✻ *Frpp.* $72^{1-3}$. 15 ·eptir > oooır. 16 ok mælti > ooo. 18 orþin = orþıɴ. 19 allr——atburþ ✻ *Frpp.* $97_{2-1}$. 21 hans = h́ (✻ $444^{11}$). 27 at þeir > oooeır. egi = égı.

komask fyrir þröng er líki fylgþo. þá lèto konongar sá gulli ok silfri á götona til þess at menn dvelþisk þar at ok gefi mönnom rúm: en þá gáfo öngvir gaum at gulli nè at silfri heldr at fylgja líki ok báro þeir barar meþ mikilli þröng allt til musteris Bonifacii meþ dýrþ ok lofsöngvi. þá var gört skrín ór gulli ok silfri. en þar veitask mönnom jartæinir allt til þessa dags ok gærisk dýrligur ilmr ór skríni hans sem af reykelsi ok geta þeir bænir at guþi er þar biþja fyrir verþleik ok árnaþarorþ sels Alexii guþs vinar drottins várs Jesu Christi. þeim sè vægr ok veldi lof ok ríki in secula seculorum, amen.

---

2 gulli = gvll|lı. 4 heldr = s; (ɔ: sed). barar > baooor. 6-11 en——amen * *Frpp.* lvi. 7 dýrligur * *Frpp.* 71. 9 sels * *Frpp.* 117[1].

439 4 settr = ſéttr. 8 okkr = okr. 10 eno = eńo. 11 enom = eńom. 13 rekkjo = recıo. 14 settisk = ſetızc. 15 fingri ∽ fıng|grı. 440 1 gekk——gekk = gek——gek. 2 hafði = hafdı. 4 skip = ſcıṗ. 9 hafði = hafdı. 11 maþr = ·Ψ·. 21 drottinn = ·ð·. 23 borgarinnar = borgaʀɪɴaʀ. 24 sitja = ſıttıa. 441 1 eða = eda. 2 upp = vp. 3 rækkjo = rækıo. 10 eða = eda. 11 sveinn = ſveín. 14 hèt = heṫ. 15 inn = ī. vin = vın̄. 20 kirkjo = k̃kıo. 442 1 maþr = Ψ. 4 einn = eín. 8 gekk = gek. upp = vp. 9 lèt = læt. 10 miskonn = mıſcō (* $441^{15}$ inn = ī). 16 eða = eda. 17 þræla ⌣ þrela = þrælla ⌣ þrella. 23 höfoð = hofod. 25 þolinmóþliga = þol|lın moþlıga. 443 5 selt = ſelt. 10 mín = mɪɴ. 11-12 kirieeleison = kırıl'on. 15 enn = en. 18 miskonn = mıſcon. 22 var = vaʀ. 23 mót = ṁoṫ. 444 3 hluti = hlv́tı. gekk = gek. 4 hafði = hafdı. 5 ætloþo = ætlloþo. maþr = Ψ. 14, 17, 21 rit = rı̇t. 24 enn = en. (25 hryggir = hrýɢ[7]). 445 1 vætta = væta. 2 þitt = þıt. son = ſoń. 3 upp = vp. 10 kinnhesta = kınhéſta. 16 gekk = gek. 17 týnt = tyṅt. 20 vatni = vattnı. 23 sýn = ſýń. heyrn ∽ he⁷rn. 25 líkbarar = lıkbaʀar. páfinn = pafın. 446 3 rúm = rvṁ. 6 gört = goṙt.

# XXII.

## ÚR LEIZLU DUGGALS.

Ef þú vilt maður hólpinn vera
þá sá því fræi niðr sem þú vilt upp skera:
allt þat er þú mátt gott ok veizt þèr bera
ver þú skjótur þat at vinna
þá muntu góða ömbun finna.
þetta líf er lítit ok skammt
ok gengur mönnum mjök misjafnt:
einir lifa rèttvísliga
aðrir illa ok syndsamliga.
en þú ifaz aldri ok trú því er guð segir.
góða ömbun eigu góðir,
en þeir sem af illskunni verða aldri móðir
fá heitt ok myrkt ok hörð "hybylí"
þau er til þjónar þeirra illvili:
þar verðr hverr slíkr at vera
sem hann vildi hèr til gera:
allar syndir eigu refsingar
sinna verka ok harðar píningar.
aldri væri píslir nè helvíti
ef ekki væri synda víti.
sá er ann syndum fær bardaga,
en þeir allir er sèr vel haga
þiggja af guði ríkuliga
himneska dýrð úendiliga.

---

2 +. Duggals ⌣ Duggáls.

þat sama sýnir oss þessi bók:
Hákon kóngur úr látínu tók
ok lèt noræna til skemmtanar
ok umbótar mönnum ok hugganar,
at þeir fagni er gott gera
en hinir hræðiz er misgera.
hèr megu hvorir heyra sinn dóm,
ef þeir fá skilning ok gott tóm
at vera skilvísliga þat skiljandi
er þessi bók er fram teljandi.
guð gefi kónginum fyrir sitt starf
eilífa dýrð ok himneskan arf —
eptir þenna heim gott langlífi,
tign heilagra í himnesku lífi. amen.

þessi bók sýnir hversu einn hirðmaðr var snarliga tekinn úr líkam sinum at sjá annars heims líf til umbótar þeim sem í þessu lífi eru ok gjörðiz á Írlandi. En Írland er eitt eyland ok er í ætt vestrs ok útsuðrs at sigla af Norvegi úr Björgvin ok horfir einn gafl eyjarinnar í suðr en annarr í norðr en lengd landsins er austr ok vestr. í suðrætt liggr England mjök nálægt ok þar Suðreyjar í millum. í austrætt búa Skotar ok Bretar er sumir kalla Valesa (en Bretland liggr nokkuru vestar ok þó áfast Englandi); en í norðrætt liggr Katanes ok Orkneyjar. öðrum meginn gagnvert þessarri ey liggr Spánland. norðr undan Írlandi liggr Ísland ok er þriggja daga haf í milli. á Írlandi eru mörg stöðuvötn ok margar góðar ár ok gnógar með alls konar vatnfiskum . . . skógi vaxit mjök ok hit vænasta með hveiti ok öðrum kornfrjófum, hit ríkasta með alls konar dýraveiði, hit bezta at sjófiskaföngum, auðigt at manngæðum . . . jörð svo hrein ok heilög fyrir öllum eitrkvikendum: ormum, eðlum, pöddum, froskum — svo kröptug, at viðr sá, er vex í eyjunni, húðir ok

---

3 noræna ɔ: norræna. 4 mönnum ok hugganar, 681 C; hinn annar (ɔ: Hákon——hinn annarr), 681 A. 29 hit ríkasta > hin rikazta. 32 eðlum > yrmlv̄ (681 A).

horn er verða á búfè ok mold sú er þar er tekin úr jörðu ok sandr sigraz á öllum eitrkvikendum. ok þat er mörgum kunnigt ok optliga sannreynt at þessi ey er herklædd með alls konar dýrligum vopnum ógurlig óvinum. þessi ey helgaz af alls konar skipan heilagra manna — munklífum ok nunnusetrum. þessi ey hefir fjórar höfuðborgir ok þrjátigi ok í öllum byskupsstólar en í tveimr erkibyskupsstólar — annarr í höfuðborg þeirri er heitir "kaſolēſıſ". Í þessarri borg var fæddr sá maðr er Duggall hèt er sagan er af diktuð. þessi maðr var ungr at aldri, dýrligr at ætt, fríðr i andliti, blíðr í máli; en at sönnu þat sem varla er harmlaust at segja þá trúði þessi Duggall svo mjök á fegrð líkams síns ok styrk ættar sinnar at hann vanrækti alla lífsgæzlu sína ok hirti alls ekki um hjálp sálu sinnar, ok svo sem hann taldi oss sjálfr síðan opt með iðran ok tárum þá var honum angr at hverjum er hann minnti nokkut á gott at gera. hann hafnaði kirkju. jafnan mislíkaði honum at sjá fátæka menn guðs ok eigi vildi hann þeim hjálpa eða huggan veita: allar landskyldir sínar ok aðra fjárhluti hafði hann jafnan til hègómligrar dýrðar ok veraldligs skrauts. En þá er sú stund var komin er guði líkaði at ónýta hans vangæzlu ok fyrirkoma hans hörmuligum hègóma þá kallaði guð hann til sín eptir þeim hætti sem vili hans var til. þat vottuðu margir menn "koloſēſıſ" ok voru nær staddir honum er hann lá þrjá daga ok þrjár nætr líflauss. en á þeirri stundu birti guð honum allt þat er líf hans misgerði þessa heims. ok því næst endrlifnaði hann, sýndi ok sagði hvat er hann hafði þolat: hann var píndr mörgum píslum ok ótrúligum þessu lífi. En skipan þeirra písla sem hann sjálfr nefndi fyrir oss birti ek yðr at auka ok styrkja guðs vilja ok yðarn: fannst oss ok líkaði at rita þetta þeim til áminningar ok

2 eitrkvikendum, 624; eítrū, 681 A. 6 ey +. 9 kaſolēſıſ, 624; kaſelenſıs, 681 C; kaſeēſıſ, 681 A. 25 koloſēſıſ, 624; kaſolenſıſ, 681 C.

umbótar er þetta lesa eða heyra. þessi Duggall átti marga vini ok fèlaga. en einn þeirra af láni því er hann hafði lèt honum átti honum at gjalda iij hesta. en er stefnudagr skuldarinnar var liðinn þá fór hann til vinar síns ok heimti skuldina. fagnaði vinr hans honum vel ok veitti honum með góðum fagnaði þrjá daga. því næst sem skuldarnautr hans svarar með hógværum orðum at hann hefði ei föng svo skjót þá skuld at greiða þá reiddiz Duggall ákafliga ok bjóz heim at fara. en skuldunautr hans vildi hugga reiði hans ok bað hann mataz með sèr fyrr enn hann færi í burt. nú sem hann þá boð fèlaga síns ok hann hafði niðr sez ok lagit öxi sína hjá sèr ok tók at eta með húsbónda ok svo sem hann rètti hönd sína frá sèr þá fèkk hann ekki beygt hana til munnsins. en hann jafnskjótt mælti til húsbónda, fèlaga síns, 'gæt' kvað hann 'öxar minnar, því at ek er nú í andláti'. en þegar er um leið fèll líkamr hans til jarðar niðr sem aldri hefði önd í verit. því næst fèllu öll dauðamörk á hann: hár hans fèll í enni, augu hans um sneruz, nasraufar hans byrgðuz, varrar bliknuðu, haka ofan seig ok allir líkams liðir ok limir hans kólnuðu. þá hljópu þjónustumenn ok tóku burt matinn. hans menn ok svo húsbóndans grètu ok lögðu niðr lík hans ok lètu hringja fyrir sál hans. þar komu kennimenn ok allr borgarlýðr harmandi svo skjótan dauða duganda manns. ok þarf þat ekki lengra at gjöra enn frá miðjum degi miðvikudags ok til þess hins sama tíma laugardags þá lá hann dauðr svo at ekki lífsmark fannz með honum nema þat at þeir sem gjörsamligast höndluðu líkam hans fundu at nokkurr ylr var í hinu vinstra herðarblaði hans, ok fyrir því vildu þeir ekki grafa hans líkam at þeir kenndu hèr varmann.

---

8 skjót < skjótt. 9 skuldunautr (= ſkulldonaut[2]). 624; ſkulld'nautı 681 A. 12 lagit ⌣ lagt = la[t]g. 16-17 er um leið (= e" w leıd), 624; ū leıd, 681 A. 19 í enni, 624; en enní ¿rok? nadı, 681 A. 20 varrar > [r]urer (624), ua' (681 A).

ok því næst sem mikill fjöldi lærðra manna ok ólærðra var saman kominn at jarða lík hans þá fèkk hann önd sína ok andvarpaði langa stund með þungmegnum anda en allir hinir hyggnustu menn er þetta sá undruðu ok mæltu ‘fór ekki þessi önd sannliga frá mönnum at hón ‘vitjaði ekki þessa líkams í þessu lífi?’ en með því at hann leit með þröngmegnu áliti til þeirra er næstir honum stóðu þá spurðu þeir hann ef hann vildi hafa þjónustu, ok hann bendi þeim til at hann vildi gjarna. en síðan sem hann hafði bergt þá lofaði hann guð með mörgum ok miklum þökkum ok mælti svo ‘drottinn minn, meiri ‘er miskunn þín enn illska mín eðr ranglæti þó at of mikit ‘sè. miklar ok undarligar píslir sýndir þú mèr, en mildi ‘þín lífgaði mik ok leiddi mik öðru sinni þaðan í þetta ‘líf’. en svo sem hann hafði þetta mælt þá skipti hann fè sínu öllu ok gaf hálft kirkjum ok fátækum mönnum; síðan lèt hann merkja sik marki hins helga kross ok hèt því til guðs með staðföstu hjarta at hann skyldi allt sitt hit dagliga líf fyrirlata. því næst birti hann ok taldi fyrir oss allt þat er hann hafði sèt ok þolat, með þessum hætti.

‘Sem önd mín skildiz við líkam minn’ kvað hann ‘ok vissi at sönnu at hann var dauðr vissi hón ok syndir ‘sínar ok tók at hræðaz mjök ok vissi ekki hvat hón ‘skyldi at hafaz. hón vildi gjarna aptr í líkam sinn ok ‘mátti ekki inn komaz ok því vildi hón burt fara ok hræddiz ‘hvetvetna ———— ok treystiz þó á guðs miskunn. tók ‘hón þá at gráta, æpa ok skjálfa, veina ok kveina. ok ‘því næst sá hón þar koma mikinn fjölda óhreinna anda ‘svo at húsit var allt fullt ok hverr annarr staðr er tómr ‘var ok flykktuz þeir umhverfis þá hinu veslu sál at hryggja ‘hana ok angra ok mæltu þeir sín á milli ’syngjum‘ sögðu ‘þeir ’þessi veslu sálu verðugan söng dauðans því at hón er

5 önd * 624. 7 til þeirra * 624.

‘’dóttir dauðans ok móðir: hón var jafnan myrkrum unn-‘’andi ok ljós hatandi‘. en því næst sneruz þeir allir at ‘henni ok gnístu tönnum á hana ok slitu andlit hennar ‘með klóm sínum í reiði sinni ok illgirnd ok æði ok mæltu ‘’sé hèr vesöl sála herra þína ok þá sem þú hefir kosit ‘’þèr: með þessum skaltu brenna í eilífum eldi helvítis. ‘’þú vart rógs leiðtogi ok sundrþykkis elskari! hvar er ‘’nú metnaðr þinn, skart ok dramb ok hègómlig gleði? ‘’hvar er nú blátr þinn ok spottsamligt gaman? hvar er ‘’nú afl þitt ok styrkleikr er þú angraðir margan með ok ‘’svívirtir? hvar er nú augnabending þín ok ógiptusamligr ‘’“hátr” er þú hafðir viðr þinn eiginn bróður? hvar er ‘’nú fótastangan þín eða líkams reiting? hvar er nú sú en ‘’illa hugsan hjarta þíns?‘ með þessum orðum ok mörgum ‘öðrum heituðuz þeir við sálina hræddu hana ok hryggðu ‘svo at hón kveinaði ok æpti ok vænti sèr einskis af ‘þeim nema dauða ok písla svo sem þeir heituðuz við ‘hana at ekki mundu þeir dvelja sína illgjarna þjónustu’.

En vorr drottinn, mildr ok miskunnsamr, er ekki vill dauða syndugs manns heldr at hann lifi ok leiðrèttiz ok máttugr er at hjálpa ok lækna sár hins synduga, alls-valdandi, mætr ok ágætr, blíðr ok blezaðr drottinn Jesus Christus með hagligu hjálpræði sínu skipaði þá eptir vilja sínum ok minnkaði þessa vesöld; því at hann sendi engil sinn í mót þessarri sálu. ok er hón leit hann langt um, bjartan sem dagsbrún, þá hafði hón óhverfanliga ok staðfasta sýn á hann, væntandi hjálpar af honum. en svo sem engillinn nálgaðiz hana þá heilsaði hann henni með eiginligu nafni ‘heill þú Duggall’ kvað hann ‘hvat hefz þú nú at?’

---

11-12 ógiptusamligr “hátr”* (< háttr?), 624; ogıptuſamr hlatr, 681 A. 13 fótastangan (= fotaſtangan), 681 A; fotaſtadā, 624. reiting (= reıtīg), 681 A; hrærıjg, 624. 23 skipaði > ſkıpāde (624). 24 vesöld * 681 A. 26 hón óhverfanliga > ohu͗’fālıga ſȳ (624).

en hann hörmuligr, sjándi þá hina fríðu ok blíðu skepnu guðs, öllum sonum mannanna fegri ok elskuligri, en heyrði sjálfan sik nefndan eignarnafni, með hræzlu ok nýkomnum fagnaði — þá svaraði hann englinum með þessum orðum ‘vei verði mèr herra faðir’ sagði hann ‘helvítis píslir ok ‘sorgir hverfa um mik ok gildra dauðans hefir fyrir tekit ‘alla vegu mína’. þá svaraði engillinn ‘nú kallar þú mik ‘herra ok föður þinn ok virtir þú mik aldri svo virðuligs ‘nafns fyrr’. en sálin svaraði ‘hvort sá ek þik nokkru ‘sinni? eða hvenær heyrða ek þik eða þína sætu rödd fyrr ‘enn nú?’ engillinn svarar ok mælti til hennar ‘ek fylgda ‘þèr jafnan síðan er þú vart fæddr hvar sem þú vart, ok ‘vildir þú aldri mínum ráðum fylgja’ ok því næst rètti hann hönd sína at einum þeirra djöflanna er bölvaði henni optast ok mest heitaðiz við hana ‘sè nú’ kvað hann ‘þenna ‘þinn fèlaga ok ráðgjafa! hans orðum fylgdir þú, en mínum ‘vilja hafnaðir þú með öllu. nú með því at guð lætr miskunn ‘sína yfir ganga dóm sinn þá skaltu njóta miskunnar: ver ‘nú glöð ok fegin því at fár píslir skaltu þola af svo ‘mörgum sem þú værir verðug ef ei hylpi þèr miskunn ‘lausnara mannkyns. fylg mèr nú’ kvað hann ‘ok mun þat ‘allt skilvísliga er ek man sýna þèr, því at þú skalt aptr ‘fara í líkam þinn’.——————————.

Síðan gengu þau leið sína til eins undarliga mikils fjalls. þetta fjall gaf þröngvan veg öllum yfirförundum. en þeim meginn fjallsins sem vegrinn var þá vall upp hinn fúlasti daunn ok brennisteinslogi. en öðrum meginn í móti

---

2 sonum >. 5 verði (= v᷎de), 624; e[7], 681 A. 8 virtir (= v᷎t”), 624; uırd[7], 681 A. 8-9 þinn——fyrr * 624; z uırd[7] þu mıg alldrı z uırd[7] þu mıg alldrı f[2] ſua mıkılegſ nafnſ, 681 A (mıkılegſ < merkilegs?). 9 nokkru (= nockro), 624. 15 þenna, 624; þenan, 681 A. 25 yfirförundum (= yf”f[2]aondū), 624 (* 450[18] dauðamörk = dauda m[2]ak); ū forudū, 681 A. 27 brennisteins (= brenneſteīs), 624; b[°]nuſteınſ, 681 A.

var íss, frosinn snær ok hinir hvössustu vindar með hinum meinsömustum höglum. þetta fjall var búit hvorumtveggja meginn með sálna fjölda, fullt af leiðiligum djöflum er yfir voru þeim píslum svo at engi var þar vegr öruggr yfir at fara en allir djöflar er voru í þessum píslum höfðu þríkvíslaða ljóstra ok skutu í gegnum þær sálir er þar vildu um fara ok drógu þær til sín í píslir, ok sem hinar aumu sálir höfðu lengi i kvalz i brennusteinsbruna ok voru sem tíðast skotnar i gegnum með ljóstrunum ok því næst kastaðar í ísinn niðr ok í jökulinn ok þaðan undir haglvindana þá var þeim hrundit í brennusteinslogann aptr. En sem sálin sá þessi undr hræddiz hón ákafliga með miklum skjálfta ok mælti til engilsins 'ek sè berliga at mèr eru 'þessar píslir búnar því at ek komumz öngvan veg hèr 'yfir: hversu skal ek þetta þola?' engillinn svaraði 'hirð 'ei at hræðaz: fylg mèr eða gakk fyrir'. því næst gekk engillinn fram ok fylgdi hón honum sem fyrr.————.

Sem þau höfðu lengi gengit þá hvarf myrkr ok birtiz mikit ljós, ok at hræzlunni tapaðri kom í staðinn huggan ok hughreysti, ok sem sálinni hvarf hryggleikr svo at hón fagnaði þá undraðiz hón þetta umskipti hit skjóta ok mælti 'herra minn' kvað hón 'með hverjum hætti er ek 'svo skjótt um skipt? fyrir skömmu var ek sjónlaus, en 'nú sè ek; ek var ok mjök hrygg, en nú er ek glöð; 'ok um allan veg okkarn kennda ek fúlan daun, en nú 'er ekki þess konar; þá var ek hrædd ok huglaus, en nú 'er ek fegin ok örugg'. þá mælti engillinn 'blezuð sèrtu, 'undra þú ei þetta: þessi er snúning hægri handar guðs; 'nú föru vit heim um annan veg í hans ríki: en þú þakka 'guði miskunn sína ok fylg mèr'.

því næst sem þau gengu þá sá þau hávan vegg. ok fyrir innan vegginn þeim meginn sem þau voru var mikill

---

10 haglvindana (= hagl uíndana), 681 A; haglpījıga (ɔ: hagl-píningina), 624.

fjöldi karla ok kvenna undir vatni ok vindi ok voru öll hrygg ok hungruð ok þyrst: þau höfðu ljós ok öngvan illan þef kenndu þau. þá spurði sálin ‘hverir eru þessir ‘er slíka hvíld hafa?’ ‘þessir eru’ kvað engillinn ‘meðal- ‘menn, ei mjök góðir ok ei mjök illir: þessir gættu sín ‘sómasamliga en öngva miskunn gjörðu þeir af fé sínu ok ‘því skulu þeir þola nokkura stund vatn ok vind ok hafa ‘síðan hvíld góða’.————————————.

Síðan er sálin hafði sèt umhverfis sik þá sá hón mörg landtjöld af purpura, pellum ok hvítu silki, við gull ofin ok silfr ok með alls konar himneskum hagleik. í þessum búðum gengu þjótandi með margs konar hljóðum alls konar strengleikar: hörpur, gígjur, simphonia, organa, salterium, pípur með hinum sætustum hljóðum. ok sem sálin heyrði þessa söngva þá mælti hón ‘hverra sálna eru ‘þessi hin dýrligu landtjöld?’ ‘þessi hvíld’ segir engillinn ‘er ‘munka ok allra hreinlífismanna, karla ok kvenna, er vel ‘hèldu heit sín við guð ok yfirboða sína í heilagrar kirkju ‘hlýðni ok gæzlu skipana sinna ok þjónuðu guði góðfúsliga ‘ok glaðliga ok heldr kjöru at bera hlýðni enn bjóða, heldr ‘ok undirmenn at vera enn yfirboðar: þeir höfnuðu sínum ‘vilja en gjörðu góðan guðs vilja’.————————————. þá gengu þau nær ok sá inn í landtjöldunum hvorttveggja karlmenn ok konur, hreinlífismenn ok hreinlífiskonur, í engla líkneskjum, en raddir þeirra voru engla röddum líkari enn manna: ok þær sálur er þau sá fyrr með miklum bjartleik þá var þetta hit mikla ljós ok sætleikr ok ymr yfir alla þá dýrð er fyrr höfðu þau sèt. allir strengleikar gengu þar án manna höndum en þó voru raddir sálnanna fyrir öllum strenghljóðum ok var sálunum ekki starf at röddunum svo at ei hrærðiz muðr þeirra með hljóði radd-

---

1 vatni 624 (= uatnj́), 681 B (= vatní); uoſı, 681 A. 7 vatn ok vind (= uatn z uīd), 624; hregg z vīd, 681 B; uínd z hregg, 681 A.

anna nema allt gekk eptir þeirra vilja. en landtjöldin yfir höfðum þeirra skinu með miklum bjartleik ok hèngu úr þekjunni rekendr gervar af hinu skírasta gulli ok hinn hagligasti silfrþáttr í millum allra ok hèngu þar við borðker, gígjur ok hörpur ok alls háttar strengleikatól með "bīdlavgū "af gullı z gullıgum kōpáſum". í millum þessa rekenda flaug mikill fjöldi heilagra engla, allir með gullvængjum, ok umhverfis landtjöldin, með hógværu flogi, ok sungu þeir enn sætasta söng öllum á heyrundum.

---

5-6 bīdlavgū———kōpáſum, 624; lıhū ofnū af gullı z gullkūpaſū, 681 A.

# XXIII.

## GREGORII DIALOGORUM IV 26. 36.

---

1. Frá smalasveini. Í húsom ríkismanns þess es Valerianus hét vas smalasveinn nakkvarr einfaldr ok lítillátr. en es manndauþr kom í hús Valerianus þá tók sveinninn sótt. en es hann þótti mjök svá at bana kominn þá hvarf hann aptr til lífs ok heimti þangat Valerianum "hana" sinn ok mælti viþ hann 'á himni vas ek nú ok 'veit ek hverir hér mono andask ok monat þú í því flóþi 'verþa. en þat es at jarteinom at ek vas á himni at ek 'nam þar at mæla á allar tungor: þú vissir at ek kunna 'eigi "g̍zco" mæla — mæl þú nú viþ mik "gırzct" mál 'ok reyn at ek kann allar tungor mæla'. þá melti Valerianus viþ hann á grikksko; en hann svaraþi á þá tungo svá sem hann hefþi þar alinn verit. einn þjónn Valerianus vas ættskaþr af norþrlöndom ok mælti þýþesko: sá vas leiddr til ens sjúka ok mælti hann viþ hann á sína tungo;

---

2 +. 5 manndauþr = mandavþr. 6 sveinninn = ſveınī. 7 Valerianum = val⁷ıanō. 9 monat = moɴat. 12 "g̍zco" (ɔ: grizko ⌣ grízko) ɔ: grikkskū. 14 grikksko = g̍xco. 16 þýþesko = þv́þeſco. 17 leiddr = leıdr. 15-17 einn þjónn —— sína tungo ✻ In ea quoque domo prædicti Narsæ spatharius Bulgar manebat: qui festine ad ægrum deductus, ei Bulgarica lingua locutus est.

en enn sjúki svaraþi á þá tungo sem hann hefþi meþ þeiri þjóþo fœddr verit. þá undroþosk allir þeir es heyrþo, ok trúþo at hann kynni á allar tungor mela þá er þeir reyndo at hann mælti á þær ii es hann kunni eigi áþr. en andlát hans dvalþisk tvá daga. en á enom iii. degi þá œrþisk hann ok bét meþ tönnom arma sína ok andaþisk síþan. en es hann vas andaþr þá andaþisk hverr at öþrom þeira es hann hafþi sagt at andask mönde ok öngvir aþrir i því húsi en hann hafþi á kveþit at andask mönde.

---

2. Frá Petrǫ. Petrus hét einsetomunkr nekkverr ettskaþr ór Hiberia héraþi. en áþr hann gengi í einseto þá tók hann sótt ok þótti andaþr vera nekkverja stund. en önd hans kom aptr til líkams ok kvatsk sét hafa helvítis píslir ok nekkverja þessa heims metnaþarmenn í eldi, en es hann vas sjalfr leiddr at eldinom þá vitraþisk ljóssengill ok lét egi hrinda honom í logann ok mælti viþ hann ʻhverf aptr þú nú ok hygg at vanliga hverso þú skalt ʻsíþan lifa'. þá tók Petrus at lifna ok ornoþo liþir hans es hann vas allr kaldr orþinn ok sagþi hann þá hluti es of önd hans görþosk ok vas svá mikill meinlætamaþr síþan í vökom ok í föstom at atferþ hans váttaþi þat at hann hafþi sét píslarstaþi ok orþit hreddr því at almáttigr guþ veitti honom þat í dauþanom at hann skyldi eigi deyja slíkom dauþa síþan.

---

2 fœddr = fódr (* *Frpp.* 132[7]—33[1]). 6 œrþisk = órþıſc (* *Frpp.* 132[7]—33[1]). 13 ettskaþr——héraþi * ex regione ortus Iberiæ. 17 leiddr = leıdr. 18 egi ⌣ eigi. 19 vanliga ɔ: vandliga. 24 hreddr = hͤdr.

457 12, 458 4. 25 eigi = n̄.

# XXIV.

## GREGORII MAGNI IN EVANGELIA HOMILIA XXIX.

---

“Marcū.” Jesús vitraþisk upp sitjondom xi lærisveinom ok ávítaþi þá of ótrú ok harþleik hjarta því at þeir trúþo eigi þeim er þeir só hann upp hafa risit, ok mælti hann við þá ‘farit ėr of allan heim ok boþit guþspjallsorþ allri skepno. ‘sá mon hjálpask er trúir en sá fyrdœmask er eigi trúir. ‘Jarteinir mono fylgja þeim er trúa. í namni míno mono ‘þeir á braut reka djöfla ok mela nýjom tungom ok taka ‘höggorma ok þeim mon eigi granda þótt þeir drekki ‘dauþfœranda etr. hendr mono þeir leggja yfir sjúka menn ‘ok muno heilir verþa’. En er drottinn Jesús hafþi þetta mælt þá var hann upp numinn til himins ok sitr hann til hœgri handar guþs. En þeir fóro ok kenndo trú horvetna en drottinn vann meþ þeim ok styrkþi mól þeira at fylgjondom tóknom.

“GG.” Eigi var þat jamnmjök af ústyrkþ lærisveina Christi er þeir trúþo seint uppriso hans sem þat var gört til styrkþar trú várrar því at þeim er ifoþo var sýnd á marga vega upprisa hans en er vėr lesom þat ok skiljom þá styrkjomk vėr af óstyrkþ þeira. minna vetti oss María

---

2-3 +. 10 braut = bravt. 21 er +. 22 styrkjomk > ſtvrcıō.

Magdalena es fyrst trúþi en Thomas er lengst ifaþi því at hann þrefaþi of örr sára drottins en hann skar öll ótrú-sór af brjósti oro. En oss er þat merkjanda til sönnonar uppriso drottins er Lucas mælir 'át hann meþ 'þeim ok bauþ at þeir fœri eigi ór Jerusalem, en síþan 'var hann upp hafiðr at þeim sjóndom ok tók ský ljóst 'hann af augliti þeira'. muniþ ér orþin ok skilið tókn orþanna: át hann ok upp stè — at hann sýndi sik sannan mann þá er hann át ok sannan guþ þá er hann stè upp. En Marcus segir at hann ávítaþi lærisveina áþr hann stigi upp. til þess ávítaþi drottinn lærisveina sína þá er hann skilþisk viþ þá at líkams návisto at orþ þau væri staðföst í hjörtom þeira es hann mælti síþarst við þá.

'Farið ér of allan heim' kvaþ Jesús 'ok boþit guþ-'spjallsorþ allri skepno'. Hvat þurpti at boþa óvitondom hlutom eþa dumbom kykvendom, er drottinn baþ þá boþa guþspjallsorþ allri skepno? allrar skepno nafni kallask maþr í þesso atkvæþi því at hann hefir mikla glíking allrar skepno. steinar ero ok lifa eigi nè kenna sín. en grös ok viþir ero ok lifa ok kenna sín eigi: lifa grös ok viþir eigi fyr önd heldr fyr vöxt ok hráleik, svá sem Póll mælir 'þat es eroooo eigi lifnar nema fyrr deyi' (lifir ok þá allt þat er dœja má at lifni í annat sinn). kykvendi ero ok lifa ok kenna sín en skilja eigi skynsemi. helgir englar ero, lifa ok kenna sín ok skilja skynsemi. hefir maþr nakkvat af allri skepno: þat er at vera sem steinar, en lifa sem grös, kenna sín sem kykkvendi, en

---

2 at hann > at. þrefaþi = þ̊faþı (ɔ: þreifaði). skar + (* Ille etenim dubitando vulnerum cicatrices tetigit et de nostro pectore dubietatis [⌣ dubitationis] vulnus amputavit). 18 hann——glíking > hoo oooooooıacooocıng. 19 kenna > oooa. 20 grös ok >. 22 'þat——deyi' * 1 Cor. 15. 36. 23 dœja = dóıa * *Frpp.* 132⁷—33¹ (*Frpp.* 132⁶: ey — ð < ey — œ).

skilja skynsemi sem englar. allri skepno er guþspjall boþat þá er manninom er boþat því at fyr manns sakar er allt skapat ok es þeim kenning veitt er nekkverja glíking hefir af allri skepno. Allrar skepno nafni kallask ok merkjask allar þjóþir. fyrr var postolom bannat at fara á götor heiþinna þjóþa at kenna allri skepno því at þat var maklikt at þá hyrfi kenning þeira oss til hjálpar er hinir vildo eigi við taka es fyr öndverþo var kenningin send af guþi. En er drottinn sendi lærisvena sína í heim at kenna trú þá var sem hann seri korni í jörþ ok tœki mikinn ávöxt fyr trú ora.

‘Sá mon hjálpask’ kvaþ Jesús ‘er trúir ok skírþr ‘verþr en sá fyrdœmask er eigi trúir’. Verþr at því at hverr yþvarr mæli svá í hjarta síno ‘hjálpask mon ek því ‘at ek trúi’. satt segir hann ef hann sannar trú í verkom. sönn trúa er at fylla þat í siþom er maþr játir í orþom því at Johannes mælir svá ‘lýgr sá er segisk unna guþi ‘en hann heldr eigi boþorþ hans’. þá erom vèr sannliga trúir ef vèr fyllom þat í verkom er vèr heitom í orþom. á skírnardegi hètom vèr at neita öllom verkom ok öllo glysi ens forna fjanda. af því líti hverr á sjálfan sik ok hyggi at ef hann haldi þat er hann hèt í skírn, ok er hann trúr ef hann gerir svá. en ef hann heldr eigi þat er hann hèt ok hverfr hann til heims glyss eþa rangra verka, sjóm vèr þá ef hann kunni gráta þat er hann villtisk því at mildom dómanda virþisk sá eigi lyginn er aptr hverfr frá röngo verki til iþronar ok bœtir þat er hann ló því at guþ þiggr iþron ora ok fyrgefr oss í sínom dómi þat er vèr misgerþom.

‘En þessi tókn mono fylgja þeim er trúa: í namni ‘míno mono þeir braut reka djöfla ok mela nýjom tungom ‘ok taka braut höggorma ok mon þeim ekki granda þótt ‘þeir drekki dauþfœranda etr. hendr mono þeir leggja ‘yfir sjúka menn ok mono heilir verþa’. Èr görit eigi þessi tókn brœþr mínir ok hygg ek þó at èr trúið rètt.

þessi tókn váro nauþsynlig *í* upphafi kristninnar: fœþa þarf trú meþ jarteinom at hón vaxi því at vèr hellom vatni á trè þau er vèr setjom í jörþ unz þau rótfestask en þá látom vèr af at döggva þau es þau ero rótföst. en þó höfom vèr nakkvat af þessom tóknom þat er vèr skolom vandliga at hyggja. heilög kristni gerir þat andliga hvern dag er þá gerþo postolar líkamliga. þá es kennimenn veita primsigning ok skírn trúondom ok banna óhreinom öndom at byggva í hjörtom þeira, hvat gera þeir nema reka braut djöfla? þeir mela nýjom tungom er verallig orþ ens forna lífs fyrláta en þeir boþa lof skapara síns ok tókn máttar hans. þeir taka braut höggorma er í góþom kenningom sínom taka illskor af annarra hjörtom. en es þeir hœra skaþligar fyrirtölor ok láta þeygi at illra manna orþom þá drekka þeir eitr ok sakar þá ekki. þeir leggja hendr yfir sjúka menn ok ger*a* heila er styrkja meþ góþom dœmom verka sinna þeira líf er áþr ero óstyrkir í verk*om*. *þ*essar jarteinir ero mère því at þær ero andligar ok grœþask þar andir en eigi líka*mi*r. *þ*essi tókn megoþ èr gera góþir brœþr ef èr viliđ meþ guþs miskunn. andlig tókn gera krapt lífs en sýna eigi, en líkamligar jarteinir sýna stundom heilagleik en gera eigi. líkamlig tókn mego illir menn hafa en andlig tókn hafa góþir einir. sjálfr drottinn mel*ir* svá ‘*ma*rgir mono mela ‘*á* enom öfsta dómi ok degi drottins ’í namni þíno rákom ‘’vèr djöfla *á* *br*aut ok gerþom margar jarteinir í namni ‘’þíno‘ en ek mon svara þeim’ kvaþ drottinn ’eigi k*ann*

---

11 skapara = ſcapa (with superscript 7 over p). 14 hœra = hóra (✻ *Frpp.* 132⁷—33¹). 17 dœmom = dómō (✻ *Frpp.* 132⁷—33¹). 21 lífs > ⁀⁀⁀ℓ (21-22 andlig —eigi ✻ corporalia illa miracula ostendunt aliquando sanctitatem, non autem faciunt: hæc vero spiritalia. quæ aguntur in mente, virtutem vitæ non ostendunt, sed faciunt). 23 tókn mego > ^^^^ mego. 25 öfsta = øffta. drottins > dd'. rákom > recō.

''ek yþr : far*it* frá mér ér es drýgit illsko''. eigi skolot ér góþir brœþr elska þau tókn er sameigin mego vera góþom ok illom, heldr elskit ér tókn ástar ok mildi þau er góþir einir mego hafa. þau tókn ero því öruggri *sem þau ero* meirr leynd ok verþr því meira verkaup þeira fyr guþi sem minni er dýrþ þeira fy*r mönnom.*

'*En* es drottinn Jesús hafþi þetta mælt þá var hann 'upp numinn til himins ok sitr hann til hœgri handar guþs'. Í fornom bókom höfom vér heyrt at Helias var upp numinn til himins. annarr er veþrhiminn en annarr er loptríkishiminn. veþrhiminn er nærr jörþo; af því köllom vér fogla h i m i n s þá er vér sjóm flúga í lopti. yfir veþrhimin var Elias upp numinn þar es hann lifir í nekkverjom leyndom stað í mikilli hvíld líkams ok andar allt til þess er hann kömr í enda heims at gjalda skuld dauþans. því at hann dvalþi dauþann en eigi forþaþisk. en lausnari várr stè yfir dauþann en dvalþi eigi ok sýndi dýrþ upprisu sinnar þá er hann stè upp til himins. en þat es merkjanda er Helias var upp numinn í kerro því at sá er maþr at eins var mátti eigi upp stíga til veþrhimins meþ óstyrkþ öþlis síns nema hann neytti þess fararskjóta es englar sendo honom. en lausnari várr vas eigi upp numinn í kerro nè af englom því at sá stè upp yfir alla hluti meþ sínom krapti er alla hluti skapaþi. þangat fór hann es hann var áþr sjálfr því at sá stè upp at manndómi er bæþi heldr himni ok jörþo at goddómi.

---

1 frá——illsko > ∧∧∧∧∧∧∧∧∧∧*llſco* (✻ discedite a me qui operamini iniquitatem). 2 þau = þoo. sameigin = ooogin. 3 elskit——ástar > elſcooooooooooo. 5 meirr > mir ⌣ m^e^ir. verþr = v́oor. verkaup = v^7^cavp (ɔ: verkkaup). 7 es > ooo. 8 hœgri = hóg^l^ (✻ *Frpp.* $132^7$—$33^1$). guþs > doooı. 11-12 köllom vèr = collō *v*^7^. 12 flúga = flvga. veþr = v^7^þr. 14 í mikilli hvíld + (✻ i n m a g n a jam carnis et spiritus q u i e t e). 21 óstyrkþ > oſtvcþ. 26 goddómi < goðdómi.

Enoch ok Elias váro upp numnir til veþrhimins ok merkþo uppstigning lausnara várs til ens öfra himins. drottinn hafþi vátta ok fyrirboþendr uppstigningar sinnar — annan fyrir lög en annan undir lögom, en síþan kom hann sjálfr er sannliga mátti upp stíga til himins. þeir váro upp numnir til veþrhimins en hann stė upp í krapti sínom til loptríkishimins ok sýndi hann oss er á hann trúum krapt hreinlífis þann er hann lėt vaxa hverja tið frá annarri: þann vöxt hrenlífis sýndi hann í uppnumningo þrela sinna ok i uppnumningo sinni sjálfs, hverso vaxit hefir kraptr hrenlífis; því at Enoch átti bæþi kono ok börn en Elias átti hvártki. virþit ėr ok þá brœþr af uppnumningo þrela guþs ok af uppstigningo hans sjálfs hverso vaxit hefir hrenlífis kraptr á hverri tið: fyrir lög var upp hafiþr Enoch af munoþ byrjaþr ok af munoð byrjandi; undir lögom var upp numinn Elias af hjúskap byrjaþr en eigi af hjúskap byrjande; á miskunnar tið stė upp Kristr eigi af munoþ byrjaþr ok eigi af munoð byrjande.

'Ok sitr hann til hœgri handar guþs'. þat er merkjanda er Stephanus mælir 'sė ek himna opna ok son 'manns standa til hœgri handar guþs'. Hví gegnir þat er Marcus sagþi hann sitja en Stephanus sá hann standa? Vituð ėr þat brœþr at sá sitr er dœmir er sá stendr er öþrom tœr eþa bersk i orrosto. lausnari várr er upp stė til himins mon koma til ens öfsta dóms i enda heims at dœma of alla; af því sagþi Marcus hann sitja eftir uppstigning. en Stephanus sá hann standa; þvi at mildi guþs af himni vetti honom fullting at hann metti standask píslir á jörþo.

1 Enoch = Enoc. veþr = v̓þr. ok +. 2 uppstigning > up ſtigning. 6 veþr > v̓þ. 11 Enoch = Enoc. 14 hefir +. 15 Enoch = Enoc. 23 er sá < en sá (23-24 Vituð —— orrosto * Sed scitis, fratres, quia sedere judicantis est, stare vero pugnantis vel adjuvantis). 26 eftir = efftır ⌣ efftır.

ʻEn postolar fóro ok kenndo trú horvetna en drottinn ʻstyrkþi mól þeira meþ tóknomʼ. Þat er minnilikt í þesso máli at hlýþni fylgþi boþorþi en jarteinir fylgþo hlýþni. — Nú höfom vèr nakkvat mælt of skýring guþspjallsins; en þat verþr ok skylt at vèr mælim nakkvat of dýrþ þessar hótíþar.

Þess er oss fyrst leitanda hví englar sýndosk heldr í hvítom kleþom á uppstigningartíþ Krists en þá er hann var borinn; því at svá er sakt at ʻJesús hófsk upp at ʻsjóndom postolom ok tók ský hann af augliti þeira; en ʻer þeir só til himins eptir honom þá stóþo ij englar ʻhjá þeim í hvítom kleþomʼ. Af því sýndosk englar eigi í hvítom kleþom þá er Jesús var borinn en þeir vitroþosk í hvítom kleþom þá er hann stè til himins, at þá var mestr fögnoþr *engla* er guþ ok maþr stè til himins; því at hvít kleþi merkja upphafning til dýrþar heldr en læging. en í burþ Krists sýndisk goddómr lægþr, en í uppstigningo hans var manndómr upp hafiðr. í uppstigningo hans sýndosk englar í hvítom kleþom því at þá var guþ maþr upp hafiðr í dýrþ sá er lægþi sik í burþ sínom.

En þat er oss mikils virþanda at á þessom hótíþardegi er af leyst skuld fyrdœmingar várrar ok af tekit atkvæþi dauþa várs. Þat öþli manndóms fór í dag til himins er svá var fyrr við mælt ʻjörþ ert tu ok skaldu í ʻjörþ faraʼ. Fyr þessa upphafning líkams kallaþi Job drottin fogl ok mælti svá of ótrú Gyþinga ʻeigi kunno ʻþeir fogls götoʼ. drottinn er rètt kallaþr fogl því at hann

14 at þá var > ocooooo. 15 fögnoþr > fognoþoo. 15-16 himins; því at > hoooooo. 16 upphafning til dýrþar > ooooooooovrþar (16-17 því at — — læging ✻ Albæ etenim vestes exaltationi magis congruunt quam humiliationi). 17 goddómr < goððómr. 18 uppstigningo hans > upſtıgoo*ngo h*oo/. 20 guþ maþr = Gvþ $\overset{r}{\text{M}}$. 27 göto > roddo (✻ 466[1]; 26-27 eig — — göto ✻ Semitam [Judæa] ignoravit avis).

hóf upp líkam sinn til himins. þessa fogls göto kann sá eigi es eigi trúir uppstigningo hans. Of þessa hótíð mælir David ‘upp er hafit dýrþ þín drottinn yfir himna’. enn mælir hann svá ‘upp stė drottinn á hæþ ok leiddi ‘aptr þat es hernuma var ok gaf mönnom gjafar’. upp stígandi leiddi hann aptr þat es hernuma var því at hann tók af oss dauþleik várn meþ krapti ódauþleiks síns. gaf hann mönnom gjafar því at hann sendi anda sinn ofan ok veitti sumom mælsko en sumom minni sumom jarteinir en sumom at mæla á margar tungur en sumom bókspeki. Of þessa uppstigningardýrþ mælir “abbacuc” spámaþr ‘upp ‘hófsk sól ok stóð tungl í stöþo sinni’. sól merkir drottin várn en tungl kristnina. heilög kristni hreddisk heims mein áþr Kristr stigi upp til himins; en síþan er kristni styrkþisk af uppstigningo hans þá boþoþo kennimenn berliga þat er þeir trúþo leyniliga. upp hófsk sól en tungl stóð í stöþo sinni því at síþan efldisk heilög kristni til kenningar er drottinn stė upp til himins. Svá mælir ok Salomon of mikilleik verka guþs ‘sjá mon koma stór- ‘fetr í fjöllom hlaupandi yfir hóla’. vilit ėr vita góþir brœþr hver váro skrefhlaup hans af því at — — — — — —? hann kom af himni í meyjar kviþ, en af meyjar kviþi í heim, ór heimi á kross, af krossi í gröf, ór gröf stė hann upp til himins. þessi skrefhlaup sýndi hann oss at vėr mettim renna þangat hug orom sem vėr trúum hann hafa upp stigit at líkam.

Flœjom vėr jarþligar girndir því at vėr eigom drottin á himni. þat er meþ mikilli áhyggjo virþanda at sá mon ógorligr aptr koma er upp stė hóglyndr ok mon heimta at oss meþ glöggom dómi þat er hann bauþ oss

---

20-21 vilit———— — — — — — —? * Veniendo quippe ad redemtionem nostram, quosdam, ut ita dixerim, saltus dedit. Vultis, fratres carissimi, ipsos ejus saltus agnoscere? 22 kviþ +.

meþ hógværi. glœmi engi veittri tíþ iþronar ok órœki engi varþveitslo sína meþan hann má vel gera því at lausnari várr mon því görr heimta allt at oss í dómi sem hann hefir þolinmóþari verit við oss fyrir dóm. hyggit èr at þvísa góþir brœþr ok látið yþr opt í hug koma, ok setiþ akkeri vánar yþvarrar á eilífri fóstrjörþo ok festið athuga yþvarn í sönno ljósi þótt hugr reiki stundom í ókyrrleik þessa heims. vèr heyrþom nú sakt at drottinn stè upp til himins: höldom vèr því opt í hug orom er vèr trúum ok fylgjom honom meþ óst ölhuga þótt vèr sèm í hemi at nauþsynjom líkams. en sá mon eigi lengi dvelja fýsi ora þessa es oss gaf hjólp ok heilso, Jesus Christus drottinn várr sá er lifir ok ríkir meþ feþr ok helgom anda of allar aldir veralda. amen.

---

7 sönno > fog°no (* intentionem mentis in vera luce solidate). 13 Christus drottinn várr = x. d. v'. ríkir = r'. feþr = f'. 14 helgom anda = h a'. aldir = a'.

---

dd = d 466 4, 6. kk = k 459 11, 461 32, 33, 462 15 (dᵉka——ekı), 467 6. upp = Up, up, vp. ll = l 464 28. várr = var 463 17. sín = ſɪɴ 460 19. María = maʀɪa 459 22. rót = roṫ 462 3. ð = d. þeir = þ́. þeira = þ̄ra (465 2), þ́ra (461 7, 462 17), þ́a. meira = m̃a 463 5. mére = m̃e 462 18. ær = ⁊ 459 4, 18, 460 10, 11, 12, 461 9, 467 1. lausnari = lavſn̄ı, Lavſnı; lausnara = lavſn̄a. atkvæþi = at q̄þı. Jerusalem = íhrl'm 460 5. drottins = dn̄ı 460 4. eigi = Eıgı (459 18, 462 22, 463 1, 465 26), n̄ (ɔ: non).

# XXV.

## SPARMÆLI.

(1.) Svá skal mönnonom unna at þeygi sė misgörðir þeira elskaþar — svá at stoþa annarri hendi nauðsynjar andar þeira ok líkama (því at þat er ens góþa guþs skepna) en annarri hendi at vera eigi samþykkr við þat er þeir göra illa heldr hata þat ok skilja frá þeim ef má sem þeira óst sė bazt haldin sjálfra.

(2.) Enn eini guð einn er at sönno eilífr ok ódauðligr, alls skaparc, líf af sjólfom sėr lifanda. hann einn helzk þat it fulla ei at vera sem hann ei er, en þat er faþir ok sonr ok enn helgi andi. þeira öðli er eitt ok allt it sama: þat er eigi orþit svá at áðr væri þat ekki nė en heldr aukit ór því er áðr hefði verit ok eigi skapask þat svá at endr sė annan veg en endr eða stundom annan veg en stundom, sem von er at sá kraptr er fyrri er umb liðnom hlutom en fremri þeim er verþa mono — þá hefir hann ekki í sėr ýmislikt nė eyþilikt. Enn mörgom þeim hlutom er skaparaspekþin skapði sem henne líkaði er þó gefið fyr þat ofan ei at lifa; en þó hvatki er má meira eða minna vera en verit hefr þá deyr þat eða endisk í þeire hálfonni sinni er þat skapask frá. Nú verðr við þann kost ekki eilikt at heldr þat er briglikt er skapat; en þat er it sama er of valt yfir hvívetna, þat er þá guð.

2 +. * *Frpp. xciii-xcv.* 8 bazt = baztſt. 12 eitt = eit. 23 briglikt (= briglict) ɔ: brigðligt.

(3.) Mörgom hlutom frestar lengi þolinmœði ens hæsta konungs ok letr eigi brátt á sekja menn falla þunga ens rètta dóms; en þá er hans mildi þyrmir þeim mönnom er píslar væri verþir fyrir ill verk sín þá gefr hann til þess tóm at lestirnir skyli fyr farask en eigi menninir. En þat er stundom at guð hirtir hjörto mannanna með föþorligom bardaga til þess at eigi fyrfari þeim bráðliga enir grimmo bardagar sekjom. svá er heimr sjá fullr guþs mildi at þat er alls ekki er eigi dragi oss til líknar þars konungrinn ræðr til hjálpar í reiþinni sjálfre þegar ok lekniriun grœðir sár með sórum. nú reiþisk af því helzt guþs gótska at hann skyli eigi reiþask ok hefr við skamma harðýðgi til þess at egi skyli hann á fella eilífa hefn*d*.

(4.) þá játir maþr at fullo þat gott vera er hann gott lofar ef öll er röddin ein munnsens ok hjartans. en þat at mela vel ok lifa illa — þá er þat ekki annat en at fyrdœma sjálfan sik með sinni röddo, en þó sè verra bæði ok illa at mela.

(5.) Himinríkiss menn einir ok helgir menn hafa guþs óst ok náungs — þars aðrir kostir allir mego beði vera í góþra manna fari ok vándra — því at guþs óst er sú at láta meirr sèr stýra hans boþorð en munoð sina ok sú náungsens óst at unna þess alls kristnom manne öðrom sem sjólfom sèr: þá stigr hón svá umb fram of öll önnor góð verk at með öngo of flýgr til himinríkiss fyrir utan þessa tvá vængi.

---

5 þess = þeſ. fyr = fvʀ. 7 þess = þeſ. 10 konungrinn = k$^7$iɴ. 11 helzt = helſt. 14 maþr = Ψ. 18 mela > g$^7$a.

ð = d. eða_____eða = ed'_____ed' 468 21. með = md' 469 6, 11, 25. við = vd' 468 6, 23. kk = k 468 13, 18, 23, 469 9. þeir = þ̄r. þeira = þ$^7$a. þeire = þ$^7$e. meira = m$^7$a. ær = $^7$.

## XXVI.

## ÚR LÆKNINGABÓK.

---

Við svefnleysi. tak gras þat er heitir mecon ok stappa í súro víni ok ríð þat um allan líkam manns ok gef honum súrur at eta. þat gerir svefn allvel.

Við sár. tak saur ok legg við um dag ok nótt ok síþan tak svína gall eða nauta eða geita ok stappa við salt svá sem pipar ok legg við sár um kveld ok morgon í annat sinn. þat græþir einkum vel.

Við ormsbit. tak lög af læknisgrasi ok oleo ok salt ok gef honum drekka. þat hrindr eitri ór.

Við beinbrot. tak hana ok stappa allan með fjöðrum ok bitt við. þat græþir skjótaz.

Við of feitan kvið. tak rúgbrauð eigi blandað við annat korn ok brjót í vín eða ölðr ok lát standa nætr sjau enn síþan drekk af því hvern morgin ok hvern aptan of xii mánoðr. þá muntu sveingjaz.

Ef kveisa er komin í hönd þér, þá tak kött ok drep ok stikk hendi þinni í hann ef hann er varmr enn síþan bitt um til annars dags ok ger svá iiii sinnum ef þarf ok hvern dag tak kvikan katt. enn ef í öðrum stað er í holdi manns

---

2 +. 3 mecon > mıgon. 11 drekka = dreka. 16 drekk = drek. 19 stikk = ſtık. 20 annars > aNaſ.

þá bitt við varmt kattarhold nýdrepit til þess er kólnar. þat dregr út hvarvitna kveisu ór mannsholdi.

Við augnamyrkva. tak ál kvikan ok ríst hann ok tak ór honum bæþi blóð ok gall ok blanda bæþi saman ok ber í augun. þat birtir sýn manns.

Við blóðrás. tak gras þat er vex í hveitiakri með “ſínv̄” blöðum ok rauðu fræ ok stappa í víni eða öldri ok syng meðan pater noster ok gef honum drekka.

Við þá blóðrás ef sár blæþir. tak náttlauk ok stappa vel ok legg þar í sárit sem blæþir ok bitt við.

Við spenbólga. tak læknisgras ok bitt við.

Ef þú vill þik hepta at lostasemi. tak gras þat er ruta heitir ok et iþola. þá mun linaz.

Við ormsbit. tak rutam ok bitt við.

Við þat ef maðr er þostlátr. tak centauream ok stappa við vatn ok drekk flótt.

Við höfuðverk. tak rutam ok stappa við skíra oleo ok ríð um enni. þat tekr verk af ok bætir augun. þetta er opt reynt.

Við lendaverk. tak gras þat er centaurea heitir ok stappa í vatni ok drekk opt kalt.

Við sár. tak dust af því grasi er centaurea heitir ok dreif á sárit. þat græþir ok hreinsar.

Við augnaverk. tak rót af því grasi er verbæna heitir ok blöð þess grass er feniculum heitir ok stappa bæþi saman ok ber í augun.

Við augnamjörkva. tak gras þat er heitir minna pulegium ok stappa vel ok drekk þat fastandi opt. þat bætir ok birtir augu.

---

9 Við > ıð. 15 þostlátr (ɔ: þorstlátr) > þoſtlar. 16 drekk = drek. flótt (ɔ: fljótt) = flott. 22 dust > drıſt. 24 verbæna > v̄næna. 25 grass = ɢraſ. 27 minna = mīna. 28 drekk = drek.

Við tármild augu. tak skógarsúro ok blanda við fornt vín ok hirt þat í glerkeri ok neyt af því opt.

Við nasraufadaun. tak lög af mintu ok hell í. þat tekr óþef af.

Við augnamyrkva. tak malurt ok stappa vel ok egg ok sjóð hart, sker síþan í sundr ok tak ór et rauþa ok legg í staðinn malurtina stappaþa; enn þá er þú ferr sofa þá legg við utan á hvarmana sem þú mátt hafa. þat skírir ok birtir augun.

Gras þat er vitrum heitir, þurrkat ok gört at dusti — blanda þat við vín ok gef manni drekka. þat brýtr stein í blöðro manns.

Pors grænn, stappaðr vel ok blandaðr við súrt vín — þat er gott at þvá höfuð við.

Gras þat er acacia heitir legg við enda þarms ef út snýz: þá mun aptr snúaz; ok svá sár ef um vændiz.

Gras þat er rubea heitir — þat er roðagras — þat hrindr út ór ólèttri kono þó at barn sè dautt.

Jörð sú er á innsigli er lögð ok manns líkneski er á — hón er góð við orms bit ok annarra flugorma. ok ef manni er gefinn ólyfjansdrykkr þá drekki hann af þessi jörðunni: þat hrindr eitri út enn mann sakar ekki.

oo“vſt[7]” heitir forað. þat elsk í kviþi eins dýrs. þat er kiðlingi glíkt þeim er elsk á Indíalandi. þat renn saman af blóþi þess dýrs ok ystiz sem mjólk. enn þá er þat er fullvaxið þá æðiz svá dýrið at þat þolir hvergi nema renn til très eða staurs; enn þá stauraz þat svá lengi við í óviti at þat raufar á sèr kviðinn enn forað þat fellr út.

Steinn sá er “koraluſ” heitir — hann er góðr við augu ok augna myrkva.

---

3 hell í > hellı. 13 stappaðr > ſtappr. 15 heitir = ·h·. 17 rubea (= rvbea) ɔ: rubia. 21 drykkr = drýkr. 22 jörðunni > ıorð|þv̄nı. 23 oovſt[7] ⌣ oovſt'. 25 þess = þeſ. 28 forað > ſooað. 29 “koraluſ” * 434[8]. við > vooo.

Balsamum bætir myrk augun ok skírir.

Reykelsi stöðvar blóðrás hvaþan sem renn, ok þat linar saur í endaþarmi eða í öðrum stað lætr eigi vaxa. ef þat er tempraþ við mjólk ok við lagt þá er þat lækning. Dioscorides segir af grasi því er peonia heitir ‘ek ‘sá svein einn viii vetra gamlan er hafþi þat gras hengt ‘á háls sér. enn þá barsk svá at of daginn at þat gras ‘fell af honum enn þegar jafnskjótt fell sveinninn niðr ok ‘hafþi brotfall. enn þá var þat aptr hengt í annat sinn á ‘hann ok þá sakaþi sveininn ekki meðan hann hafþi þat ‘á sér. enn þá fell af honum í annat sinn enn jafnskjótt ‘fell hann í ena sömu sótt sem hann hafþi fyrr. enn þá ‘var grasit bundið á hann enn ok bættiz jafnskjótt. ok ‘samu lund fór sinn ið þriðja: spilltist er af var enn ‘batnaði er á var bundit’. Sama vitni berr Galenus, enn spakasti maðr, of þat sama gras.

Börkr af selju við súrt vín stappaðr — þat tekr af vörtor.

Svá mælti Galenus: mj*ó*lk *sú* er riþi*n* er ór selju börk þá er hón *e*r blómgoð — þat birtir enn augu ok bætir mjög.

Lögr af selju kvistum ok blómi ef hann er drukkinn — hann stöðvar blóðrás ok meinar konum börn at geta.

Minta styrkir kvið ok gerir munn vel þefaþan. *E*nn plástr görr af mintu ok salti — þat er gott við óðs hunz bit.

Gras þat er heitir elleborum, hvítt, blandat við mjólk ok tempraþ við hunang — þat drepr mýs ef eta af því.

---

2 hvaþan > hvaþōō. 5 Dioscorides > Dıaſcorıdeſ. 7 barsk > ooarſc. 8 skjótt = ſkıot. sveinninn = ſve|ınıɴ. 9 hengt > horfıt′ ⌣ horfít. 14 spilltist = ſpılltızt. 15 Galenus > Galıen’. 17 súrt >. 19 Galenus > galıen’. (20 börk = bork.) 25 plástr görr > plaſtıoo goroo. 27 Gras > ⌒⌒⌒raſ.

Enn af því blandat dust við vatn ok stökkt of hús — þat drepr flugur.

Gras þat er ciminum heitir, drukkit með víni — þat hreinsar bit flugdýra. Enn ef þat er blásit í nasraufar manns — þat heptir nefdreyra.

Lögr grass þess er chelidonia heitir — þat hreinsar ok hvessir sýn ok þunga vökva í manni þurrkar þat.

Gras þat er ruta heitir — þat drepr losta í manni ok hreinsar bit flugdýra.

Salt ok línfræ — gört af því plástr — þat hreinsar enn flugdýra bit.

Eyrsilfr drukkit — þat gerir bana; því at í hvern lim er þat renn þá skefr þat innan. Enn ef þat verþr í eld lagt þá gerir þat meinsaman reyk: þann flýja ormar ok af þeim reyk deyja flugdýr.

Malurt blandin við ufsa gall ok smurt of eyro manns — þat styrkir þau ok hrindr frá óhljóð. enn ef þat er lagt í klæþa örk þá mun mölr eigi spilla. ok ef blek verþr gört af því vatni er malurt er í — þær ritningar munu haldaz: þær þora eigi mýss skeðja.

Við hósta. tak reykelsi þat er mirra heitir ok halt lengi undir tungurótum.

Enn við þat sama. tak rót af grasi því er ligusticum heitir ok stappa við vín ok drekk.

Enn við þat sama ok svá at hreinsa lungu. tak þat er vex á viþi xi korn ok xi piparkorn ok xi af feniculo,

---

1 Enn af > Eɴ ooo. 3 Gras > raſ. ciminum ɔ: cyminum (cuminum). 6 grass = graſ. chelidonia = celıdonıa. 8 Gras > raſ. ruta > oovta. 10 Salt > Salloo. 11 flug > fooog. 12 Eyrsilfr = eẏrſılfr. 14 meinsaman reyk = ḿeıɴſamā reẏck. 16 Malurt > alvrt. smurt ∽ ſmvꝛt. 21 Við > ıð. 23 ligusticum > lıbıſtıcū (* levisticum). 24 drekk = drek. 25 tak þat < tak — — — þat.

mel þat allt í dust ok blanda við hunang ok et af þvísa hvern dag spán fullan fastandi. þessa er opt freistat.

Enn við hósta. gras þat er heitir pimpinella blanda við súrt vín ok gef honum drekka. þá mun batna.

Gras þat er heitir feniculum — stappa þat við vín. þat er gott við blöðrusótt.

Enn við þat sama. þá er þú ferr sofa tak rúgbrauð ok svíð við eld ok et þat svá sviðit með vörmu víni.

Við siklan. tak gras þat er salvia heitir ok stappa við súrt vín ok drekk. þá mun létta.

Enn við þat sama. haf báþar hendr þínar í vatni vörmu ok drekk lítið súrt vín.

Til skírrar raustar. tak pipar ok tygg ok haf í munni þér lengi ok svelg síþan hrákann niðr ok spýt út fl

---

1 ct > ooo. 2 freistat > frcooıtat. 3 heitir pimpinella > > ooo pıpınella. 9 Við siklan = vıd ſıclan. 10, 12 drekk = drec. 13 Til > ıl.

# XXVII.

## STJÖRNUMÖRK.

Tveir eru hvirflar heimsins er fornir spekingar kölluðu nöfina nörðri ok ina syðri. þat eru ij stjörnur fastar þer er himinn sýniz um veltaz sem hvel um axul. þessa stjörnu aðra sjám vér enn aðra eigi. En ner þeirre nöf er vér sjám jafnan eru þrenn stjörnumörk: þér birnur er vèr köllum vagn ok kvennavagn ok ormr sá er liggr í millum þeirra ok um þer sem krókótt á. birna horfir hvár frá annarri ok horfaz bökum at. en ormrinn gyrðir ena meiri birnu met hala sínum en met öðrum bug sínum liggr hann í ring um ena minne birnu með þeima hetti at miðr líkamr hans hrökkviz á milli ok skilr birnurnar, en höfuð ormsins sýniz upp rétt til vinstra fótar Ercules. en hann stenðr á knè öðrum fæti fyrir utan sólhvarfaring en vinstra feti stígr hann inn yfir ringinn á höfuð ormsins en snýr sínu höfði til suðrs ok tekr herðum utanverða kórónu. en sjálf kórúna nálgaz höfuð ormsins þess er serpentarius helðr. serpentarius er Girkir kalla ophiuchum er settr undir

2 +. 4 syðri = ſvðrı. stjörnur = ſtıornr. 9 krókótt > kroctot (⌣ kroccot?). 10 ormrinn = ormrın. 11 liggr = lıgr. 13 hrökkviz = hravc|vız. birnurnar = bırnrnar. 14 vinstra > hegra. 15 vinstra > hégra. 16 ringinn = rın|gín. 17 herðum > hetr (< Hercules?) herðvm. 19 ophiuchum > ophıvlcvm.

Ercule ok snýr fótum til suðrs ok treðr scorpionem undir fótum, gyrðr með ormi þeim er hann heldr á met hvárritveggju hendi. sá ormr er langr ok tekr höfuð hans allt til kórúnu sem ritað er. við bjúgar lykkjor orms þessa svá at ekki stjörnumark er á milli sýniz bootes á bak ennar meiri birnu ok snýr fótum til meyjar í zodiacum. gegnt barka ok enum fremrum fótum ennar meiri birnu standa gemini er vèr köllum breðramark í samkvámu zodiaci ok mjólkhrings. þeir hafa kerrugjeti á vinstri hlið sèr met tveimr kiðlingum — sá er gegnt höfði meiri birnu snýr höfði sínu en sýniz taka hegra fæti ið vinstra horn griðungs ner breðramarki þar er zodiacus gengr hæst. í zodiaco er cancer gegnt kviði ennar meiri birnu ok hefir á baki sèr asna (asellos) ok hvítt ský á meðal þeirra þat er vèr köllum ætu. en gegnt enum eptrum fótum birnunnar er leo á milli krabba ok meyjar í zodiaco ok hefir bootem ner sèr. undir fótum kjerrugjetis liggr taurus ok rèttir fót sinn til Orionis er undir hann er settr. Cepheus (maðr) er settr í mille liram (hörpu) ok Cassiopeam (konu) ok rèttir upp armleggi ok snýr fótum á bak minne birnu. Cassiopea sitr í lacteo circulo gegnt mestum lykkjum ins nörzta orms á milli kerrugetis ok Cephei. Andromeda, dóttir Cephei, k*ona* Persei, sitr í mjólkhring þar sem vèr köllum úlfs kjöpt í milli fiska ok Cassiopeam ok "arıecenȷ" með þríhyrningi er hún hefir

5 bootes > boetef. 6 zodiacum = zodıakv̄. 7 ennar = enar. 8 gemini > gemıne. 9 vinstri > vínſt̋. 12 er +. 14 asellos > acellof. 15 ætu ɔ: etu. 17 bootem > boetē. 18 sinn til Orionis > ſın orıonef. 19 Cepheus > Sefevf. 19-20 Cassiopeam > kaſſe|pıacı. 21 Cassiopea > Caſſepía. lacteo > laccro. 22 ins nörzta (?) ∽ ınſnoreta. 22-23 ok Cephei > ok perſeı. 23 dóttir Cephei > dottvr ſephrı. Persei > *ſce*|rſeı. í < við ⌣´fyrir sunnan. 25 Cassiopeam > kaſſepíam. "arıecenȷ" ⌣ "arıeccnȷ" < aries (ɔ: arietis) ennis.

at baki sèr ok snýr henði sinne til kviðar Pegasi (hest*s*) er yfir hana er settr. aries (rútr) er settr í samkvámo zodiaco ok jafndegrisring undir þríhyrningi. hrútr hefir undir sèr til suðrs hval. nest rútsmarki í zodiaco eru ij fiskar: annarr rèttiz til norðrs en annarr beygiz til suðrs en sporðar fiskanna knýttir saman met nokkoru bandi. inn nerðri fiskr snýz til Andromedam, en enn syðri til aquarii (vatnkals). Perseus sýniz hjá fótum Andromede ok hjá síðu Cassiopee ok hefir höfuð Gorgonis skekjo í vinstri hendi. undir vinstra læri Persei við háls tauri sýnaz pliades (vijstirni). lira (harpa) er sett á milli vinstra lérs Erculis ok Cigni (svans). en Cignus rèttir upp vengi sína sem fljúgandi fugl ok snýr enum hægra veng til hegri handar Cephei en vinstra veng til fóta Pegasi. aquarius (vatnk*arl*) er staðfestr milli fiska ok hests ok hala capricorni (steingeit) ok hellir vatni ór skjólu: renn þat vatn allt til ens mikla fisk. capricornus stendr í sunnanverðum zodiaco "þ" er hann kemr við vetrring ner sagittario (*finngálkn*) ok aquila (ara). capricornus stenðr á bak sagittario, þar sem saman koma zodiacus ok lacteus circulus, undir delfíni (*nísa*). sagittarius liggr einn saman hjá aquila undir Cigno (svan). yfir höfði capricorno er sett delfín eptir hala orms þess er serpentarius heldr.

---

1 hest*s* ⌣ hest*r*. 5 en annarr = en anaʀ. 6 knýttir > knýttar. 7 inn = Jn. enn syðri = en ſvdrı. 8 aquarii > aᵃqrıo. vatnkals ɔ: vatnkarls. Perseus > Perſeı. 9 Cassiopee > caſſepıe. Gorgonis > gorgoneſ. 10 læri ⌣ leri. háls > hala. 12 Erculis > ercule. Cigni > ſıgne. Cignus > ſıgn᾽. 14 Cephei > ſepheı. 18 sunnanverðum = ſvnanᵛ̇dv̄. 19 sagittario = ſagıtarıo. *finngálkn* = *fingalcn*. capricornus > Sagıtarı᾽. 20 sagittario > capricorno (= kaprıkorno). 20-21 lacteus circulus > lact᾽. 21 delfíni = delp|híní. sagittarius = Sagıtarı᾽. einn = eın. 22 Cigno > ſıgno. yfir > vndᵀ. capricorno > kaprıcornv. 23 delfín = delphın.

en undir fótum serpentari er scorpius í zodiaco ok horfir til suðrs undir centaurus þann er dýri heldr sem ferandi til alteris. þetta alteri kalla sumir menn sacrarium ok er sett til suðrs ok gegnt frá utanverðum hala scorpionis. en armleggr scorpionis eignaz þat stjörnumark er libra heitir: þar undir gengr sól um jafndegri á haust. hidra liggr í jafndegrisring fram rèttr met mikilli lengð ok er undir orpit höfuð hans cancer en miðr búkr hans undir leoni en hali hans undir virgine. á bak sèr hefir hann corvum (*rafn*) ok urna (skj*ó*lu). undir brjósti tauri er Orion met sverði gyrðr ok hefir leporem (hèra) undir fótum sèr. hann hefir ok ner fótum sínum hund þann er sumir kalla canicula en sumir sirium settan undir cancro. fyrir þenna hund sýniz antecanis (? "*í m̃ki*"? "hv̄dz") undir breðramarki. suðr frá hala sirii er skip þat er Argo er kallat. undir vinstra feti Óríóns renn á sú er Eridanus heitir ok fellr met bjúgri rás allt til hvals. cetus (*hvalr*) liggr undir rúti ok fiskamarki fram rèttr met löngum dretti. eptir sporð*i* ceti sýniz enn mikli fiskr undir aquario ok capricorno fram rèttr til suðrs. sunnarst þeirra stjörnumarka er vatnfall þat er rennr ór skjólu vatnkarls.

1 zodiaco > zodıací. 2 undir centaurus > v|nd[7][ler] [ler]centavrvſ. 3 alteris = alt[7]ıſ. alteri = alt[7]ı. 4 utan > ınan. 4-5 scorpionis ——scorpionis > ſcorpıoneſ——ſcorpıoneſ. 11 leporem > herıdícm (⌣ herıdǽm) ɔ: herodium, ἐρωδιόν, (✻ SVEINBJÖRN EGILSSON: Lexicon poëticum "heri"). 14 antecanis > antıcanvſ ⌣ antıtanvſ. "h̄v̄dz" ⌣ "h̄v̄dr". 15 Argo > arg'. 16 er Eridanus > e[7] ıdanvſ. 20 capricorno > Caprıcornv.

met = m[ι]n.

# XXVIII.

## FRÁ LÍFLÁTI BALDRS.

Þat er upphaf þessar sögu at Baldr hinn góða dreymdi drauma stóra ok hættliga um líf sitt. Enn er hann sagði Ásunum draumana þá báru þeir saman ráð sín ok var þat gört at beiða griða Baldri fyrir alls konar háska — ok Frigg tók svardaga til þess at eira skyldi Baldri eldr ok vatn, járn ok alls konar málmr, steinar, jörðin, viðirnir, sóttirnar, dýrin, fuglarnir, eitrit, ormarnir. Enn er þetta var gört ok vitat þá var þat skemmtun Baldrs ok Ásanna at hann skyldi standa upp á þingum enn aðrir Æsir skyldu sumir skjóta á hann sumir höggva til sumir berja grjóti. enn hvat sem at var gört sakaði hann ekki ok þótti þetta öllum mikill frami. Enn er þetta sá Loki Laufeyjar son þá líkaði honum illa er Baldr sakaði ekki. hann gekk til Fensalar til Friggjar ok brá sèr í konu líki. þá spyrr Frigg ef sú kona vissi hvat Æsir höfðuz at á þinginu. hón sagði at allir skutu at Baldri ok þat at hann sakaði ekki. þá mælti Frigg ‘eigi munu vápn eða viðir granda ‘Baldri: eiða hefi ek þegit af öllum þeim’. þá spyrr konan ‘hafa allir hlutir þèr eiða vunnit at eira Baldri?’ þá svarar Frigg ‘vex viðar-teinungr einn fyrir vestan Valhöll: sá er ‘mistilteinn kallaðr: sá þótti mèr ungr at krefja eiðsins’. Því næst hvarf konan á braut. enn Loki tók mistiltein ok

sleit upp ok gekk til þings. enn Höðr stóð utarliga í mannhringinum því at hann var blindr. þá mælti Loki við hann 'hví skýtr þú ekki at Baldri?' hann svarar 'því at 'ek sé eigi hvar Baldr er — ok þat annat at ek em 'vápnlauss'. þá mælti Loki 'görðu þó í líking annarra 'manna ok veit Baldri sœmð sem aðrir menn: ek mun 'vísa þér til hvar hann stendr: skjót at honum vendi 'þessum'. Höðr tók mistiltein ok skaut at Baldri at tilvísun Loka — flaug skotit í gögnum hann ok fèll hann dauðr til jarðar ok hefir þat mest úhapp gört verit með guðum ok mönnum. þá er Baldr var fallinn þá fèlluz öllum Ásum orðtök ok svá hendr at taka til hans ok sá hverr til annars ok váru allir með einum hug til þess er unnit hafði verkit — enn engi mátti hefna: þar var svá mikill griðastaðr. enn þá er Æsirnir freistuðu at mæla þá var hitt þó fyrr at grátrinn kom upp svá at engi mátti öðrum segja með orðunum frá sínum harmi. enn Óðinn bar þeim mun verst þenna skaða sem hann kunni mesta skyn hversu mikil aftaka ok missa Ásunum var í fráfalli Baldrs. Enn er guðin vitkuðuz þá mælti Frigg ok spurði hverr sá væri með Ásum er eignaz vildi allar ástir hennar ok hylli ok vili hann ríða á helveg ok freista ef hann fái fundit Baldr ok bjóða Helju útlausn ef hón vill láta fara Baldr heim í Ásgarð. Enn sá er nefndr Hermóðr hinn hvati, sveinn Óðins, er til þeirar farar varð. þá var tekinn Sleipnir, hestr Óðins, ok leiddr fram ok steig Hermóðr á þann hest ok hleypti braut.

Enn Æsirnir tóku lík Baldrs ok fluttu til sævar. Hringhorni hèt skip Baldrs: hann var allra skipa mestr: hann vildu guðin fram setja ok göra þar á bálför Baldrs, enn skipit gekk hvergi fram. þá var sent í Jötunheima eptir gýgi þeiri er Hyrrokin hèt. enn er hón kom ok reið

---

25 er > en (ɔ: er) 2367.

vargi ok hafði höggorm at taumum þá hljóp hón af hestinum, enn Óðinn kallaði til berserki fjóra at gæta hestsins ok fengu þeir eigi haldit nema þeir felldi hann. þá gekk Hyrrokin á framstafn nökkvans ok hratt fram í fyrsta viðbragði svá at eldr hraut ór hlunnunum ok lönd öll skulfu. þá varð þórr reiðr ok greip hamarinn ok mundi þá brjóta höfuð hennar áðr enn guðin öll báðu henni friðar. þá var borit út á skipit lík Baldrs; ok er þat sá kona hans, Nanna Neps dóttir, þá sprakk hón af harmi ok dó. var hón borin á bálit ok slegit í eldi. þá stóð þórr at ok vígði bálit með Mjölni; enn fyrir fótum hans rann dvergr nakkvarr — sá er Litr nefndr — enn þórr spyrndi fæti sínum á hann ok hratt honum í eldinn ok brann hann. Enn þessa brennu sótti margs konar þjóð — fyrst at segja frá Óðni at með honum fór Frigg ok Valkyrjur ok hrafnar hans, enn Freyr ók í kerru með gelti þeim er Gullinbursti heitir eða Sliðrugtanni, enn Heimdallr reið hesti þeim er Gulltoppr heitir, enn Freyja köttum sínum: þar kömr ok mikit fólk Hrímþursa ok Bergrisa. Óðinn lagði á bálit gullhring þann er Draupnir heitir: honum fylgði síðan sú náttúra at hina níundu hverja nótt drupu af honum átta gullhringar jafnhöfgir. hestr Baldrs var leiddr á bálit með öllu reiði.

Enn þat er at segja frá Hermóði at hann reið níu nætr dökkva dala ok djúpa svá at hann sá ekki fyrr enn hann kom til árinnar Gjallar ok reið á Gjallar-brúna: hón er þökt lýsigulli. Móðguðr er nefnd mær sú er gætir brúarinnar: hón spurði hann at nafni eða ætt ok sagði at hinn fyrra dag riðu um brúna fimm fylki dauðra manna ‘enn eigi dynr brúin minnr undir einum þèr ok eigi hefir ‘þú lit dauðra manna — hví ríðr þú hèr á helveg?’ hann svarar at ‘ek skal ríða til Heljar at leita Baldrs — eða ‘hvárt hefir þú nakkvat sèt Baldr á helvegi?’ enn hón sagði at Baldr hafði þar riðit um Gjallar-brú ‘enn niðr ok norðr ‘liggr helvegr’. þá reið Hermóðr þar til er hann kom

at helgrindum. þá steig hann af hestinum ok gyrði hann fast, steig upp ok keyrði hann sporum; enn hestrinn hljóp svá hart ok yfir grindina at hann kom hvergi nær. þá reið Hermóðr heim til hallarinnar ok steig af hesti, gekk inn í höllina, sá þar sitja í öndugi Baldr bróður sinn ok dvaldiz Hermóðr þar um nóttina. enn at morni þá beiddiz Hermóðr af Helju at Baldr skyldi ríða heim með honum ok sagði hversu mikill grátr var með Ásum. Enn Hel sagði at þat skyldi svá reyna hvárt Baldr var svá ástsæll sem sagt er — ok ef allir hlutir í heiminum, kvikvir ok dauðir, gráta hann þá skal hann fara til Ása aptr, enn haldaz með Helju ef nakkvarr mælir við eða vill eigi gráta. þá stóð Hermóðr upp; enn Baldr leiðir hann út ór höllinni ok tók hringinn Draupni ok sendi Óðni til minja; enn Nanna sendi Frigg ripti ok enn fleiri gjafar, Fullu fingrgull. þá reið Hermóðr aptr leið sína ok kom í Ásgarð ok sagði öll tíðindi þau er hann hafði sèt ok heyrt.

því næst sendu Æsir um allan heim örindreka at biðja at Baldr væri grátinn ór helju. enn allir görðu þat: menninir ok kvikvendin ok jörðin ok steinarnir ok trè ok allr málmr, svá sem þú munt sèt hafa at þessir hlutir gráta þá er þeir koma ór frosti ok í hita. þá er sendimenn fóru heim ok höfðu vel rekit sín eyrindi finna þeir í helli nökkvorum hvar gýgr sat: hón nefndiz þökk. þeir biðja hana gráta Baldr ór helju. hón svarar:

> þökk man gráta
> þurrum tárum
> Baldrs bálfarar:
> kviks nè dauðs
> nautkak karls sunar:
> haldi Hel því es hefir.

enn þess geta menn at þar hafi verit Loki Laufeyjar son er flest hefir illt gört með Ásum.

# XXIX.

## FRÁ AGLI TUNNADÓLGI.

Egill hèt son Áns hins gamla er konungr var eptir föður sinn í Svíþjóðu. hann var engi hermaðr ok sat at löndum í kyrrsæti. Tunni hèt þræll hans er verit hafði með Ána hinum gamla fèhirðir hans. enn er Áni var andaðr þá tók Tunni of lausafjár ok gróf í jörð niðr. enn er Egill var konungr setti hann Tunna með þrælum öðrum. hann kunni því stór-illa ok hljóp á braut ok með honum margir þrælar. tóku þeir þá upp lausafèit er hann hafði fólgit: gaf hann þat mönnum sínum enn þeir tóku hann til höfðingja. síðan dreif til hans mart illþýðisfólk. lágu þeir úti á mörkum enn stundum hljópu þeir í hèröð ok ræntu menn eða drápu. Egill konungr spurði þetta ok fór at leita þeira með liði sínu. enn er hann hafði tekit sèr náttstað á einni nátt þá kom þar Tunni með liði sínu ok hljóp á þá úvara ok drápu lið mikit af konungi. enn er Egill konungr varð varr við úfrið þá sneriz hann til viðtöku ok setti upp merki sitt; enn lið flýði mart frá honum. þeir Tunni sóttu at djarfliga: sá þá Egill konungr engan annan sinn kost enn flýja. þeir Tunni ráku þá flóttann allt til skógar. síðan fóru þeir aptr í byggðina

ok herjuðu ok ræntu: fengu þá enga viðstöðu. fè þat allt er Tunni tók í hèraðinu gaf hann liðsmönnum sínum: varð hann af því vinsæll ok fjölmennr. Egill konungr samnaði her ok fór í móti Tunna: þeir börðuz ok hafði Tunni sigr enn Egill konungr flýði ok lèt mikit lið. þeir Egill konungr ok Tunni áttu átta orrustur ok hafði Tunni sigr í öllum. Eptir þat flýði Egill konungr landit ok út í Danmörk á Sælund til Fróða hins frœkna: hann hèt Fróða konungi skatti af Svíum til liðs sèr: fèkk Fróði honum þá her ok kappa sína: fór þá Egill konungr til Svíþjóðar með herinn. enn er Tunni spyrr þat fór hann í móti honum með sitt lið: varð þá orrusta mikil: þar fèll Tunni. Egill konungr tók þá ríki sitt enn Danir fóru aptr. Egill konungr sendi Fróða konungi góðar gjafir ok stórar á hverjum misserum enn galt engan skatt Dönum ok hèlz þó vinfengi þeira Fróða. Síðan er Tunni fèll rèð Egill einn ríkinu þrjá vetr. þat varð í Svíþjóðu at griðungr sá er til blóts var ætlaðr var gamall ok œgr því at hann var alinn kappsamliga enn er menn vildu taka hann hljóp hann á skóg ok varð galinn ok var lengi á viðum ok var hinn mesti spellvirki við menn. Egill konungr var veiðimaðr mikill: hann reið um daga optliga á markir dýr at veiða. þat var eitt sinn at hann var riðinn á veiðar við menn sína. konungr hafði elt dýr eitt lengi ok hleypti eptir í skóginn frá öllum mönnum. þá verðr hann varr við griðunginn ok reið til ok vildi drepa hann. griðungrinn snýr í móti ok kom konungr lagi á hann ok skar ór spjótit. griðungrinn stakk hornunum á síðu hestinum svá at hann fèll þegar flatr ok svá konungr. þá hljóp konungr á fœtr ok vildi bregða sverði. griðungrinn stakk þá horninu fyrir brjóst honum svá at á kafi stóð. þá komu at konungsmenn ok drápu griðunginn. konungr lifði litla hríð ok er hann heygðr at Uppsölum. svá segir þjóðólfr:

Auk lofsæll
úr landi fló
Týs áttungr
Tunna ríki.
enn flæming
farra trjónu
jötuns eykr
á Agli rauð —

sás umb austr
áðan hafði
brúna hörg
of borinn lengi;
enn skíðlauss
skilfinga nið
hœfis hjörr
til hjarta stóð.

## XXX.

## FRÁ HARALDI OK BRŒÐRUM HANS.

---

þá sneri Ólafr konungr á Hringaríki ok görði Ásta móðir hans veizlu mikla móti honum. bar þá Ólafr einn konungsnafn í Noregi.

Svá er sagt at Ólafr konungr var á veizlunni með Ástu móður sinni at hón leiddi fram börn sín ok sýndi honum. Konungrinn setti á knė sėr Gutthorm bróður sinn enn á annat knė Hálfdán bróður sinn. konungrinn sá á sveinana: þá ygldiz hann ok leit reiðuliga til þeirra. þá glúpnuðu sveinarnir. þá bar Ásta til hans hinn yngsta son sinn er Haraldr hėt: þá var hann þrėvetr. konungrinn ygldiz á hann; enn sveinninn sá upp í móti honum. þá tók konungrinn í hár sveininum ok kippði: sveinninn tók upp í kanp konunginum ok hnykkði. þá mælti konungr 'hefnisamr mantu síðar frændi'. — Annan dag reikaði konungr úti um bœinn ok Ásta með honum móðir hans. þá gengu þau at tjörn nakkvarri. þar váru þá sveinarnir synir Ástu ok lėku sėr Gutthormr ok Hálfdán. þar váru görvir bœir stórir ok kornhlöður stórar, naut mörg ok sauðir: þat var leikr þeirra. Skammt þaðan frá við tjörnina hjá leirvík nakkvarri var Haraldr ok hafði þar trėspánu ok flutu þeir þar við land margir. konungrinn spurði hann hvat þat skyldi. hann kvað þat vera herskip sín. konungr

hló ok mælti ‘vera kann frændi at þar komi at þú ráðir ‘firi skipunum’. Þá kallaði konungr þangat Gutthorm ok Hálfdán. Þá spurði hann Gutthorm ‘hvat vildir þú flest ‘eiga frændi?’ ‘akra’ segir hann. konungrinn mælti ‘hversu ‘víða akra myndir þú eiga vilja?’ hann svarar ‘þat vilda ‘ek at nesit þetta væri allt sáit hvert sumar er út gengr ‘í vatnit’ enn þar stóðu tíu bœir. konungr sagði ‘korn ‘mætti þar mikit á standa’. Þá spurði hann Hálfdán hvat hann vildi flest eiga. ‘kýr’ segir hann. konungr spyrr ‘hversu margar kýr vildir þú eiga?’ Hálfdán svarar ‘þá ‘er þær fœri til vatns skyldu þær standa sem þykkst ‘umhverfis vatnit’. Konungr mælti ‘bú stór vildið it eiga: ‘þat er glíkt feðr ykkrum’. Þá spyrr konungr Harald ‘hvat vildir þú flest eiga?’ hann svarar ‘húskarla’ segir hann. konungr mælti ‘hversu marga vildir þú þá eiga?’ hann svarar ‘þat vilda ek at þeir æti at einu máli kýr ‘Hálfdánar bróður míns’. konungr hló at ok mælti til Ástu ‘hér mantu konung upp fœða móðir’. Eigi er þá getit fleiri orða þeirra.

---

# XXXI.

## AF HARALDI OK STÚF.

---

Stúfr hjet maðr. hann var son þórðar kattar er Snorri goði fóstraði. þórðr köttr var son þórðar Glúms sonar Geira sonar: móðir þórðar kattar var Guðrún Ósvífrs dóttir. Stúfr þórðar son var blindr, vitr maðr ok skáld gott. Stúfr fór utan af Íslandi ok kom til Noregs á dögum Haralds konungs Sigurðar sonar. Stúfr tók sjer vist með einum góðum bónda á Upplöndum: bóndi var vel til hans. þat var einn dag er menn váru úti staddir at þeir sá ríða at bænum marga menn skrautliga búna. bóndi mælti ‘ekki ‘veit ek vánir hingat Haralds konungs en mjer þykkir ‘ekki því úlíkast lið þetta at hann muni vera’. ok er liðit nálgaðiz bæinn kenndu þeir at þar var konungr. bóndi fagnaði konungi ok mælti síðan ‘beinleiki herra mun ekki ‘verða yðr veittr svá sæmiliga sem skyldi því at menn ‘vissu nú ekki vánir yðvarrar hjerkvámu’. konungr svaraði ‘þat mun þjer nú úvant gjört: vjer förum eyrinda várra ‘um land, skulu menn mínir sjálfir geyma hesta sinna ok ‘sjá fyrir reiðingi. en ek mun ganga inn’. konungr var hinn glaðasti ok fylgdi bóndi hánum í stofu til sætis. þá mælti konungr ‘gakk þú þagat bóndi sem þú vill ok gjör ‘allt í dælleikum við oss’. ‘þess mun nú neyta verða’ segir bóndi: gekk hann í brott. En konungr leit á bekkina ok sá mikinn mann sitja utar á bekkinn ok spurði hverr sá væri. ‘ek heiti Stúfr’ segir hann. konungr mælti ‘þó varð

'únafnligt; eðr hvers son erþú?' 'ek er Kattar son' sagði hann. 'enn ferr allt at einu' segir konungr 'eðr hvarr var 'sá köttrinn?' 'getþú til konungr' segir Stúfr ok hló við. 'hví hlóttu nú?' segir konungr. 'getþú til' segir Stúfr. konungr mælti 'vant þykki mjer at geta í hug þjer; en 'þat ætla ek helzt at þú myndir vilja spyrja hvart svínit 'faðir minn var en því mundir þú hlæja er þú þorðir 'þess ekki at spyrja'. 'rjett getr þú' segir Stúfr. konungr mælti 'sittu innar meir á bekkinn ok tölumz við'. hann gjörði svá. fann konungr at hann var úheimskr maðr ok þótti konungi gott at eiga ræður við hann. kom þá bóndi í stofu ok sagði at konungr mundi daufligt eiga. 'þat er 'ekki' segir konungr 'því at þessi vetrgestr þinn skemmtir 'mjer vel ok hann skal sitja fyrir ádrykkju minni í kveld' ok svá var. konungr talaði mart við Stúf ok veitti hann vitrlig andsvör. ok er menn gengu at sofa þá bað konungr Stúf vera í því herbergi sem hann skyldi sofa at skemmta sjer. Stúfr gjörði svá. en er konungr var í sæng kominn skemmti Stúfr ok kvað flokk einn; ok er lokit var bað konungr hann enn kveða. konungr vakti lengi en Stúfr skemmti. ok um síðir mælti konungr 'hversu mörg hefir 'þú nú kvæðin kveðit?' Stúfr svaraði 'þat ætlaða ek yðr 'at telja eptir'. 'ek hefi ok svá gjört' segir konungr 'ok 'eru nú þrír tigir; eðr hví kveðr þú flokka eina? kanntu 'ok engar drápur?' Stúfr svaraði 'eigi kann ek drápurnar 'færri en flokkana, ok eru þeir þó enn margir úkveðnir'. konungr mælti 'þú munt vera at því mikill fræðimaðr á 'kvæði; eðr hverjum skalþú skemmta drápunum þínum 'er þú kveðr mjer flokkana eina?' 'þjer sjálfum' segir Stúfr. 'hvenær þá?' segir konungr. 'þá er vit finnumz 'næst' segir hann. 'hví þá, heldr en nú?' segir konungr. Stúfr mælti 'því at ek vildi um skemmtan ok allt annat 'þat er mjer heyrir til at yðr virðiz því betr sem þjer 'kynniz lengr ok vitið gjörr'. 'sofa skulum vit nú fyrst' segir konungr. En um myrgininn er þeir bjugguz brott

þá mælti Stúfr til konungs ‘munþú veita mjer konungr ‘þat er ek bið þik?’ ‘hvat er þat?’ segir konungr. ‘heit-‘þú mjer áðr en ek segi’ segir hann. ‘ekki er ek því mjök ‘vanr’ segir konungr ‘en fyrir skemmtan þína munum vit ‘til þess hætta’. Stúfr mælti ‘þannig stendz á um ferð ‘mína at ek skal heimta dánarfje nökkut í Vík austr ok ‘vildi ek at þjer fengið mjer brjef yðvart ok innsigli at ‘ek næði fjenu’. ‘þat vil ek gjöra’ segir konungr. þá mælti Stúfr ‘munþú veita mjer þat er ek bið þik?’ ‘hvat er ‘þat nú?’ segir konungr. ‘heit þú mjer áðr en ek segja’. konungr mælti ’undarligr maðr erþú ok engi hefir fyrr ‘þannig málum breytt við mik, en þó skal enn til þess ‘hætta’. Stúfr mælti ‘ek vildi yrkja kvæði um yðr’. konungr mælti ‘erþú nökkut frá skáldum kynjaðr?’ Stúfr svaraði ‘verit hafa skáld í ætt minni: Glúmr Geira son var föður-‘faðir föður míns’. konungr mælti ‘gott skáld erþú ef ‘þú yrkir ekki verr en Glúmr’. ‘ekki kveð ek verr en ‘hann’ segir Stúfr. ‘ekki er þat úlíkligt’ segir konungr ‘at þú kunnir yrkja — erþú svá kvæðafróðr maðr — ok ‘vil ek leyfa þjer at yrkja um mik’. Stúfr mælti ‘mun-‘þú veita mjer þat er ek bið þik?’ ‘hvers villþú nú ‘biðja?’ segir konungr. ‘heit þú mjer áðr en ek segi’. ‘þat ‘skal nú ekki’ segir konungr ‘helzti lengi hefir þú svá ‘farit ok seg mjer nú’. Stúfr mælti ‘ek vildi gjöraz ‘hirðmaðr þinn’. konungr mælti ‘nú var vel er ek hjet ‘þjer ekki; því at ek verð þar við at hafa ráð hirðmanna ‘minna: kom þú til mín norðr í Niðarósi’. Stúfr fór austr í Vík ok greiddiz hánum vel arfr sá er hann heimti sem orðsending ok jarteignir konungs komu til. Sótti Stúfr síðan norðr til kaupangs á konungs fund ok tók konungr vel við hánum ok með samþykki hirðmanna gjörðiz Stúfr handgenginn konungi ok var með hánum nökkura hríð. Hann hefir ort erfidrápu um Harald konung er kölluð er Stúfsdrápa eðr Stúfa.

# XXXII.

## FALL HARALDS.

Mánadaginn er Haraldr konungr Sigurðar son hafði matazk ok lið hans at dögurðarborðum, þá lèt hann blása til landgöngu, býr þá ok skiptir liðinu hverir fara skulu eða eptir vera, lætr upp ganga tvá menn ór hverri sveit þar er einn var eptir. Tosti jarl býr sik til uppgöngu við sína sveit með Haraldi konungi. en eptir var til skipagæzlu Óláfr konungs son ok Eysteinn orri sonr Þorbergs Árna sonar er þá var ágætastr ok kærastr Haraldi konungi allra lendra manna: þá hafði Haraldr konungr heitit hánum Máríu dóttur sinni. Veðrit var heitt mjök af skini ok lögðu þeir eptir brynjur sínar en gengu upp með skjöldum ok hjálmum ok kesjum ok váru gyrðir sverðum ok margir höfðu skot ok boga: þeir váru kátir mjök ok hugðu nú til enskis úfriðar. ok er þeir sœkja í nánd borginni, sjá þeir jóreyki mikla ok þar undir því næst fagra skjöldu ok hvítar brynjur — sjá at þar ríðr í móti þeim mikit lið. ok þegar stöðvaði Haraldr konungr herinn, lèt kalla til sín Tosta jarl ok spyrr hann hvat liði þetta mun vera er í móti þeim ferr. jarlinn svaraði — lèt meiri von at úfriðr mundi vera ʻmá ok þat veraʼ sagði hann ʻat sè ʻnokkurir frændr várir ok muni vilja víkja til vár með ʻvægð ok vináttu ok bjóða oss traust sitt ok trúnaðʼ. konungr mælti ʻhalda munu vèr fyrst kyrru fyrir ok

'forvitnask um herinn er í móti ferr'. þeir göra svá, ok er liðit æ því meira sem meir nálgaðisk ok þeir sá görr ok allt var á at sjá sem ísmöl væri. þá mælti jarlinn 'herra, tökum nú nakkvat gott ráð ok vitrligt: ekki 'er at dyljask við at úfriðrinn er ok mun vera konungr 'sjálfr með liðinu'. þá sagði Haraldr konungr 'hvert er 'yðart ráð?' Tosti jarl svaraði 'þat er hit fyrsta at snúa 'aptr sem hvatast til skipa eptir liði váru ok vápnum, 'veita síðan viðrtöku eptir efnum, en at öðrum kosti 'láta skipin gæta vár ok eigu þá riddarar ekki vald ifir 'oss'. konungr svaraði 'annat ráð viljum vèr hafa — 'setja heldr hina skjótustu hesta undir þrjá vaska drengi: 'ríði þeir sem hvatast ok segi Norðmönnum vandann, 'munu þeir þá koma skjótt ok veita oss lið, ok fyrr skulu 'Englismenn eiga von harðrar orrustu af oss en vèr 'flýim'. jarlinn mælti 'þèr skuluð ráða þessu herra sem öllu 'öðru, ok ekki væra ek svá myklu gjarnari at flýja en 'einn hverr annarra sem þó varð ek segja hvat mèr 'sýndisk ráðligra'. Haraldr konungr lèt upp setja merki sitt er þeir kölluðu Landeyðu — Friðrekr hèt sá maðr er merkit bar — ok í öðrum stað lèt Tosti jarl upp setja sitt merki: skipa síðan liðinu undir þessi merki. þá mælti Haraldr konungr 'þá er Englar ríða at yðr skjótið niðr í 'jörð spjótshölunum en setið eigi hæra oddana en gegni 'miðjum manni ok þeir er fremstir standa hafi ok sína 'spjótshala í jörðu en odda fyr brjósti hestum þeira er 'at ríða — höfum svá allt kesjurnar firir þeim; en bog-'menn várir veri armana ok á bak fylkingum. stöndum 'fast ok miðlum ekki spor vár nema vèr munim fram'. Sem Arnórr segir:

Uppgöngu bauð yngvi
ítr með helming lítinn
sás á sinni æfi
sásk aldrigi háska;

enn umb England sunnan
öflugr herr at berjask
fór við fylki dýran:
fundusk þeir af stundu.

Olli ofrausn stillis
orma látrs þats máttit
stáls í ströngu eli
stríðir elli bíða,
sás aldrigi aldins
útams lituðr hramma
viggs í vápna glyggvi
varðrúnar sik sparði.

Ok í þessum þys ok biðum Englahersins kvað þjóðólfr skáld vísu:

Skalka ek frá, þót fylkir
falli sjálfr til vallar
(gengr sem guð vill), ungum
grams erfingjum hverfa:
skínna sól á sýnni
(snjallráðs) enn þá báða
(Haralds eru haukar görvir
hefnendr) konungs efni.

Ok er Haraldr konungr hafði fylkt liðinu þá var ok kominn herr Englanna ok staðnar oddrinn liðsins ok beið þess er eptir fór. Haraldr konungr Sigurðar son reið fyr framan fylking sína svörtum hesti blesóttum ok forvitnaðisk hversu liðit stóð ok vísaði til ef hann vildi framar í nokkvurum stað vera láta, ok í þessi reið fèll hestrinn undir konungi ok hann fram af ok mælti 'fall er farar 'heill'. þá mælti Haraldr konungr Guðina son við Norðmann einn er með hánum var 'hvárt kenndir þú þann 'hinn mikla mann er þar skaut sèr af hestinum ok hafði 'kyrtil blán ok fagran hjálm?' 'herra' sagði hann 'þar var 'Haraldr Norðmanna konungr'. þá mælti Haraldr Guðina

son 'mikill maðr ok ítarligr! ok er vænna at nú sė farinn 'at hamingju'. Því næst riðu fram xx riddarar ok firi fylking Norðmanna ok váru allir brynjaðir ok svá hestarnir. þá mælti einn riddarinn 'hvárt er Tosti jarl í liðinu?' hann svaraði 'ekki er því at leyna at þér munuð hann 'hėr finna'. þá mælti riddarinn 'Haraldr konungr bróðir 'yðarr sendir yðr kveðju ok þau orð með at þér skuluð 'hafa grið ok eignask Norðimbraland allt, ok heldr en 'þér vilið eigi til hans hneigjask þá vill hann gefa yðr 'þriðjung ríkis alls með sėr'. Tosti jarl svaraði 'boðit er 'þá nakkvat annat en svívirðing ein ok úfriðr sem fyrra 'haust var: væri þá þetta boðit sem nú er þá væri sá margr 'maðr með lífi er nú hefir misst heimkvámu ok betr mundi 'þá standa ríki Engla konungs: nú takim vėr þenna kost 'hvat vill bróðir minn þá bjóða Haraldi Norðmannakonungi 'firi sitt starf?' riddarinn svaraði 'sagt hefir konungr þar 'nakkvat frá hvers hann vill hánum unna af Englandi: 'hann skal hafa sjau feta rúm eða því lengra sem hann 'er hæri en flestir menn aðrir'. þá mælti jarl 'farið nú 'ok segið svá Haraldi konungi bróður mínum at hann búisk 'til orrustu: annat skal satt vera at segja með Norðmönnum 'en Tosti jarl fœri frá Haraldi konungi ok í fjanda flokk 'hans þá er hann skyldi berjask í Englandi til ríkis; heldr 'skulu vėr taka allir eitt ráð — deyja hėr með sóma 'eða vinna England með sigri'. þá riðu þeir aptr riddararnir. Ok eptir þat mælti Haraldr konungr Sigurðar son til Tosta jarls 'hverr var sjá hinn snjallraddaði maðr er við yðr 'mælti?' jarl svaraði 'þar var sjálfr Haraldr konungr Guðina 'son'. þá sagði Haraldr konungr Sigurðar son 'of lengi 'var ek þessu leyndr því at komnir váru þeir svá firi lið 'várt at eigi mundi nafni minn kunna at segja banorð 'várra manna'. jarl svaraði 'sám vėr þat herra at úvarliga 'fór þvílíkr höfðingi ok verða mátti þetta sem þėr segið. 'fór hann með því at hann vildi bjóða grið bróður sínum 'ok mikit vald: víst væra ek þá sannliga kallaðr verri

'höfðingi ef ek biða svá elli at ek væra banamaðr bróður 'míns, ok betra er at þiggja bana af brœðr sínum en 'veita hánum bana'. þá mælti Haraldr konungr til sinna manna 'lítill maðr var þessi sveinar ok stóð þó steigurliga 'í stigreip sín'. þat segja menn at Haraldr konungr kvæði vísu þessa:

Fram göngum vèr
í fylkingu
brynjulausir
und blár eggjar
— hjálmar skína —
hefkat ek mína:
nú liggr skrúð várt
at skipum niðri.

(Emma hèt brynja hans: hón tók í mitt bein hánum ok svá sterk at aldri hafði vápn á fest. en merki hans hèt Landeyða sem fyrr gat ek ok hafði þat svá víða verit sem þat hèt til.) ok nú mælti Haraldr konungr 'ekki 'er sjá vísa vel gör er áðr kvoðum vèr ok skulu vèr 'göra aðra betri'. þá kvað hann þessa vísu:

Krjúpum vèr fyr vápna
(valteigs) brökun eigi
(svá bauð hildr) at hjaldri
(haldorð) í bug skjaldar:
hátt bað mik þars mœttusk
menskorð bera forðum
hlakkar íss ok hausar
hjálmstall í gný málma.

Nú veita Englar atreið Norðmönnum ok verðr viðrtakan hörð: váru svá settar kesjurnar at ekki fèkk við komizk með hestana: berjask nú hvárirtveggju með hinu mesta magni ok ræðsk seint mannfallit. nú var svá mikill liðsmunr at fjölðanum at Englar riðluðu sveitirnar ok kringja allt um þá ok ganga at þeim öllum megin ok görisk nú svá sem dœmi finnask til at á ortisk um mannfallit í hvárntveggja

stað, losnar fylking ok riðlask ok fellr mjök lið Haralds konungs. Ok er konungr finnr at fast er at sótt merkjunum, þá spennir hann báðum höndum meðalkafla sverðsins ok höggr á tvær hendr, bíðr ekki merkjanna, ryðr svá stiginn firi sèr ok veitir mörgum manni bana: þat segja allir menn á eina lund at eigi hefði sèt drengiligri framgöngu ok háða með jafnmikilli hugprýði: hafði hann báðar hendr blóðgar ok gekk svá milli úvina sinna náliga sem hann œði vind ok sýndisk at hann hræddisk hvártki eld nè járn, sem Stúfr segir:

Gekk sem vind sás vækki
varðandi fjör sparði
geira regns í gögnum
glaðr orrustur þaðra:
gramr flýðit sá — síðan
sœm eru þess of dœmi
els und erkistóli —
eld nè járnit fellda.

ok þetta segir Arnórr í sínu kvæði:

Hafðit brjóst — nè bifðisk
böðsnart konungs hjarta
í hjálmþrimu — hilmir
hlítstyggr fyr sèr lítit:
þars til þarfar hersa
þat sá menn at skatna
blóðugr hjörr hins barra
beit döglinga hneitis.

Nú fær Haraldr konungr lag framan í óstinn svá at þegar kom blóðboginn út í munninn. þetta var hans banasár, ok því næst fèll hann til jarðar. Ok nú er þessi tíðindi eru orðin þá sœkja Englar svá fast at nú fellr liðit allt þat er næst hefir staðit konunginum. var þá óp mikit af Englum. ok er Tosti jarl verðr varr at konungr er fallinn þá víkr hann þegar þangat til sem hann sá merkit Landeyðu ok eggjar fast liðit, biðr enn þat sama

merki fyr sèr bera ok verðr enn snörp orrusta firi þá sök at allir Norðmenn — þá eggjar hverr annan ok aldri vilja þeir flýja. þá lèt Haraldr konungr Guðina son kalla hátt, býðr þá Tosta brœðr sínum grið ok öllu liði því sem eptir var. en þeir œpðu allir senn upp í móti ok sögðu at aldri vildi þeir grið hafa, kvoðusk vilja sigrask á úvinum sínum eða liggja þar allir um konung sinn, sem Arnórr jarlaskáld segir:

Eigi varð hins œgja
auðligr konungs dauði
— hlífðut hlenna sœfi
hoddum reknir broddar —:
heldr kuru meir hins milda
mildings, enn grið vildi,
umb fólksnaran fylki
falla liðsmenn allir.

Hefsk nú orrusta öðru sinni með því at Tosti jarl var þá fyr liðinu. ok í þessi dvöl áðr en saman sigi fylkingar öðru sinni kvað þjóðólfr vísu þessa:

Öld hefir afráð goldit
illt — nú kveð ek her stilltan;
bauð þessa för þjóðum
þarflaust Haraldr austan:
svá lauk siklings æfi
snjalls at vèr 'rum allir
— lofðungr fèkk hins leyfða
lífs grand — í stað vandum.

varð nú þessi orrusta hörð ok eigi löng ok ræðsk nú mannfallit: falla Norðmenn mjök. jarl bersk vaskliga ok fylgði merkjunum, ok áðr en lètti fèll hann þar með mikilli prýði ok góðum orðstír. Ok í því bili kom Eysteinn orri með því liðinu er at skipum hafði verit ok váru þeir allir albrynjaðir ok verðr nú orrusta hit þriðja sinn ok fær Eysteinn Landeyðu, merki Haralds konungs. þessi orrusta var einna snörpust af öllum þessum atlögum:

falla nú mjök Englismenn ok var við sjálft at hinir ensku myndi flýja. nú verða þeir Eysteinn svá óðir at þeir sœkja í ákafa ok í annan stað móðir er þeir höfðu gengit mjök langa leið undir hringabrynjum en veðrit var heitt af skini ok váru þeir nú náliga úfœrir fyr mœði sökum ok steypa nú af sèr brynjunum, ok þess getr Þorkell hamarskáld er hann orti um Eystein orra. þeir börðusk nú um hríð ok lögðu sik svá til at nú skyldu þeir fá skjótt annat hvárt bana eða sigr. en sjá orrusta fór sem von var at þeir höfðu meira hlut sem fjölmennari váru. fèll þar Eysteinn orri í þessi hríð er síðan var kölluð Orrahríð. þar fèll náliga allt stórmenni Norðmanna ok var þá hinn öfri hlutr dags. þar váru enn eigi allir jafnskeleggir þá er höfðingjarnir váru látnir ok allt stórmennit. var ok sumum auðit lengra lífs ok komusk af því undan. Styrkárr stallari komsk undan ok var hann hinn frægsti maðr. með þeim hætti komsk hann í brot at maðr skaut undir hann hesti ok reið hann svá í brot um kveldit ok görðisk á vindr nokkurr en lokit sólarhitanum en hann var í skyrtu einni klæða ok hafði hjálm á höfði ok bert sverð í hendi: þá svalar hánum er af tók mœðina. þar kömr í móti hánum vagnkarl einn ok var í kösungi síðum. þá mælti Styrkárr 'viltu selja kösunginn búandi?' hann svaraði 'eigi þèrna: þú munt vera Norðmaðr ok kenni ek þess 'á máli þínu'. þá mælti Styrkárr 'ef ek em Norðmaðr 'hvat viltu þá búandi?' hann svaraði 'ek vilda þá drepa 'þik; en nú er þó svá illa at borit um fund okkarn at 'ek hefi ekki vápnit þat er nýtt er'. Styrkárr mælti 'ef 'þú mátt eigi mik drepa búandi þá skal freista ef ek mega 'þik drepa' reiðir til hans sverðit ok setr á háls hánum svá at af fauk höfuðit, tók sèr þar kösung ok fór í, hljóp síðan á hest sinn ok fór til skipa ofan.

492 4 borðum = borþō (1009), borðv̄ (66). 496 33 fjöldanum > fioþanō (1009).

# XXXIII.

## ÚR KNYTLINGA SÖGU.

---

### A.

Úlfr jarl var þá enn sem optar í fremra lagi af mönnum Knúts konungs ok fylgði lengst flóttamönnum. hann var þá kominn í skóg nokkurn svá þröngvan at hann komz eigi ór á allri nóttinni fyrr en lýsti. þá sá hann á völlum nokkurum fyrir sèr at smali var rekinn ok sveinn nokkurr vel frumvaxta rak fèit. Úlfr jarl gekk at sveininum ok heilsaði hánum ok spurði hann nafns. hann svaraði 'ek 'heiti Guðini — eða ertu af Knúts mönnum?' Úlfr jarl svaraði 'ek em einn víst af leiðangrsmönnum hans — eða 'hversu langt er nú til skipa várra?' 'eigi veit ek' sagði sveinninn 'at þèr Danir megið vænta af oss liðsinnis ok 'hafi þèr Danir heldr til annars gört'. Úlfr jarl svaraði 'þiggja mynda ek nú þó af þèr sveinn ef þú vildir greiða 'ferð mína til skipa várra'. sveinninn svarar 'þú hefir 'beint þvers farit frá skipunum ok langt á land upp yfir 'eyðiskóga. en þèr Knúts menn eruð eigi hèr mjök þokk-'aðir af landsmönnum ok þykkir mönnum þó nokkur 'várkunn til þess, en nú er spurt í byggðina mannfall 'þat er varð í gær at Skorsteini ok muntu hvergi grið 'hafa ok engi annarra Knúts manna ef bœndr finna þik 'ok svá ef nokkurr helpr þèr: en svá líz mèr á þik sem gott mannkaup muni í þèr vera ok ætla ek þik annan

'mann en þú segir'. Úlfr jarl tók þá gullhring af hendi sér ok segir 'gefa vil ek þér hring þenna ef þú vill fylgja 'mér til várra manna'. Guðini sá upp á hann um stund ok mælti seint 'eigi vil ek þiggja hringinn en freista mun 'ek nú ef ek má koma þér til þinna manna ok vil ek 'heldr eiga undir þér launin ef ek fæ þér nökkvat við 'hólpit en ef þér verðr þetta at öngri liðveizlu þá er 'öngra launa fyrir vert. skaltu nú fyrst fara heim til feðr 'míns með mér'. þeir görðu svá. en er þeir komu til bœjarins gengu þeir til litlu stofu ok lèt Guðini setja þar borð ok var þar gefinn góðr drykkr. Úlfr jarl sá at þar var góðr húsabœr ok vel búinn. þá kom til þeirra bóndi ok húsfreyja: þau váru fríðir menn bæði ok vel búin. fögnuðu þau vel gestinum ok sat hann þar um daginn ok var hann þar í hinum bezta fagnaði. en í móti nótt váru þar búnir tveir góðir hestar með hinu bezta reiði. þá mælti bóndi við Úlf 'far þú nú vel — ok fæ ek þér 'í hendr son minn þann einn er ek á: nú bið ek ef þú 'kemr til konungsins ok megi þín orð nakkvat standaz 'þá kom þú hánum þar í þjónustu því at eigi má hann 'með mér vera síðan ef várir landsmenn spyrja at hann 'hafi þér á brott fylgt, hversu sem ek fæ undan stýrt'. Úlfr jarl hèt því at koma Guðina þar í sveit. Guðini var hinn fríðasti maðr sýnum ok vel at orði farinn. bóndi nefndiz Úlfnaðr. þeir Úlfr jarl ríða þá nótt alla. en at morni þá er ljóst var orðit koma þeir til skipa Knúts konungs ok váru menn á landi uppi; en er þeir sá jarl ok kenndu hann þá hurfu menn þegar at hánum allir ok fögnuðu hánum ok þóttuz hann ór helju heimt hafa því at hann var svá vinsæll at allir menn unnu hánum hugástum. varð Guðini þá hit fyrsta víss hverjum hann hafði fylgt. Jarl setti Guðina í hásæti hjá sèr ok hèlt hann at öllu sem sjálfan sik eða son sinn, ok er þat skjótast af at segja at jarl gipti hánum Gyðu systur sína, ok með framkvæmð Úlfs jarls ok liðveizlu þá gaf Knútr konungr

Guðina jarldóm [fyrir orð Úlfs jarls mágs síns]. Váru synir þeirra Guðina ok Gyðu: Haraldr Englakonungr ok Tosti jarl er kallaðr var trèspjót, Maurukári jarl ok Valþjófr jarl ok Sveinn jarl. Þaðan er mart stórmenni komit í Englandi ok í Danmörku ok í Svíaríki ok austr í Garðaríki — eru þat konunga ættir í Danaríki.

## B.

(1.) Eiríkr konungr görðiz ríkr höfðingi ok ágætr. hann var allra konunga vinsælastr. hann hegndi mjök úsiðu, eyddi víkingum ok vændismönnum, lèt drepa þjófa ok ránsmenn eða hamla á höndum eða fótum eða veitti aðrar stórar refsingar — svá at engi mátti vændismanna þrífaz fyrir hánum í landinu. hann var rèttdœmr ok hèlt ríkuliga guðs lög. svá segir Markúss:

Vörgum eyddi Vinda fergir;
víking hepti konungr fíkjum;
þjófa hendr lèt þengill stýfa:
þegnum kunni hann úsið hegna.
aldri frèttu at Eiríkr vildi
allrèttligum dómi halla.
hála kunni sèr til sælu
sigrs valdari guðs lög halda.

Eiríkr konungr var vitr maðr ok klerkr góðr ok kunni margar tungur at tala. hann var allra manna minngastr ok snjallr í máli. svá segir Markúss:

Hróðigr átti brynþings beiðir
bjartan auð auk frœknligt hjarta,
minni gnógt auk manvit annat
mest. fylgðu þí hvergi lestir.
alla hafði öðlingr snilli.
ungr of nam hann margar tungur.

---

31 of +.

Eiríkr vas (sás mátti meira)
mestr ofrhugi (jöfri flestum).

(2.) Brottferð Eiríks. Eiríkr konungr bjó ferð sína af landi á brott en skipaði ríkit á meðan í vald vina sinna til stjórnar meðan hann var í brottu. hann görði mönnum þat kunnigt at hann ætlaði at fara suðr til Róms ok hafði hann með sér virðuligt föruneyti en ekki mikit fjölmenni. hann gekk alla leið suðr til Róms. svá segir Markúss:

Lýst skal hitt es lofðungr fýstisk
langan veg til Róms at ganga
— fylkir sá þar friðland bálkat
Feneyjar — lið dýrð at venja.

Síðan fór hann þaðan út í Fenidí ok í Bár ok sótti marga helga staði ok gekk jafnan. svá segir Markúss:

Bróðir gekk í Bár út síðan
— bragningr vildi guðdóm magna —
(hylli guðs man hlífa stilli)
höfuðskjöldunga fimm (at gjöldum).

Eiríkr konungr sótti heim í þessi ferð marga höfuðstaði ok varði víða stórfé þar sem váru klaustr eða aðrir helgir staðir. síðan sneri hann aptr ferð sinni ok kom til Rómaborgar er hann fór sunnan. svá segir Markúss:

Stóra sótti Haralds hlýri
helga dóma út frá Rómi.
hringum varði áttkonr Yngva
auðig skrín með gulli rauðu.
mildingr fór umb munka veldi
móðum fœti sál at bœta.
sveitir kníði allvaldr utan:
Eiríkr vas til Róms í þeiri.

Eiríkr konungr dvaldiz nokkura stund í Rómaborg ok görði sér at vinum marga höfðingja þar í borginni ok víða annars staðar ok kom sér í hina mestu kærleika við þá. hann þurfti hvergi túlk fyrir sér þar sem hann

kom sem fyrr var sagt. Í þenna tíma var Paskalis páfi í Rómaborg er annarr hefir verit með því nafni. hann tók sœmiliga við Eiríki konungi ok görði hann sér kæran í vináttu. Eiríkr konungr þá lof til þess af páfanum at erkibyskupsstóll skyldi vera í Danmörk er eigi var áðr erkibyskupsstóll norðar en í Brimum á Saxlandi; svá segir Markúss:

Eiríkr náði utan fœra
erkistól umb Saxa merki:
hljótum vėr þats hag várn bœtir
hingat norðr at skjöldungs orðum.

marga hluti aðra þá Eiríkr konungr af páfa þá er nytsamligir hafa verit í Norðrlöndum. þá leyfði páfi hánum ok at taka ór jörðu helgan dóm Knúts konungs. svá segir Markúss:

Eyðisk hitt at jafnstórt ráði
annarr gramr til þurftar mannum:
leyfði allt sem konungr krafði
Krists unnanda páfi sunnan.

Síðan skildu þeir páfi ok Eiríkr konungr með vináttu ok kærleikum ok sneri konungr þaðan til heimferðar. En er hann kom til borgar þeirrar er Placentia heitir þá setti hann spítala skammt frá borginni. en er hann kom norðr til borgar þeirrar er “lıka” heitir þá gaf hann þar fė til þess at allir pílagrímar þeir er danska tungu mælti skyldi úkeypis nógt vín drekka ok heimila gisting eiga. Eptir þetta fór Eiríkr konungr heim í ríki sitt ok varð hann allfrægr af þessi ferð.

# XXXXIV.

## ÚR ÍSLENDINGABÓK.

---

(1.) Ísland byggðisk fyrst úr Norvegi á dögum Haralds ens hárfagra, Hálfdanar sonar ens svarta, í þann tíð — at ætlun ok tölu þeirra Teits fóstra míns, þess manns es ek kunna spakastan, sonar Ísleifs byskops, ok Þorkels, föðurbróður míns, Gellis sonar, es langt mundi fram, ok Þoríðar Snorra dóttur goða, es bæði vas margspök ok óljúgfróð — es Ívarr Ragnars sonr loðbrókar lèt drepa Eadmund enn helga Englakonung; en þat vas átta hundruðum ok sjau tigum eptir burð Krists at því es ritit es í sögu hans. Ingólfr hèt maðr norœnn es sannliga es sagt at fœri fyrst þaðan til Íslands þá es Haraldr enn hárfagri vas sextán vetra gamall en í annat sinn fóm vetrum síðar. hann byggði suðr í Raykjarvík. þar es Ingólfshöfði kallaðr fyr austan Minþaksayri sem hann kom fyrst á land en þar Ingólfsfell fyr vestan Ölfossó es hann lagði sína eigu á síðan. Í þann tíð vas Ísland viði vaxit á miðli fjalls ok fjöru. þá vóru hèr menn kristnir þeir es Norðmenn kalla Papa. en þeir fóru síðan á braut af því at þeir vildu eigi vesa hèr við heiðna menn ok lètu eptir bœkr írskar ok bjöllur ok bagla: af því matti skilja at þeir vóru menn írskir. En þá varð för manna mikil mjök út hingat úr Norvegi til þess unz konungrinn Haraldr bannaði af því at honum

þótti landauðn nema. þá sættusk þeir á þat at hverr maðr skyldi gjalda konungi fimm aura sá es eigi væri frá því skiliðr ok þaðan fœri hingat. en svá es sagt at Haraldr væri sjau tigu vetra konungr ok yrði áttrœðr. þau hafa upphöf verit at gjaldi því es nú es kallat landaurar. en þar galzk stundum meira en stundum minna unz Óláfr enn digri görði skýrt at hverr maðr skyldi gjalda konungi hálfa mörk sá es fœri á miðli Norvegs ok Íslands nema konur eða þeir menn es hann næmi frá: svá sagði Þorkell oss Gellis sonr.

---

(2.) En þá es Ísland vas víða byggt orðit þá hafði maðr austrœnn fyrst lög út hingat úr Norvegi sá es Úlfljótr hét — svá sagði Teitr oss — ok vóru þá Úlfljótslög kölluð (hann vas faðir Gunnars es Djúpdœlir eru komnir frá í Ayjafirði) en þau vóru flest sett at því sem þá vóru Gulaþingslög eða róð Þorleifs ens spaka Hörðakára sonar vóru til hvar við skyldi auka eða af nema eða annan veg setja. Úlfljótr vas austr í Lóni. En svá es sagt at Grímr "Geitſcor" væri fóstbróðir hans sá es kannaði Ísland allt at ráði hans áðr alþingi væri átt en honum fékk hverr maðr penning til á landi hér en hann gaf fé þat síðan til hofa.

---

(3.) Land þat es kallat es Grœnland fannsk ok byggðisk af Íslandi. Eiríkr enn rauði hét maðr breiðfirðskr es fór út héðan þangat ok nam þar land es síðan es kallaðr Eiríksfjörðr. hann gaf nafn landinu ok kallaði Grœnland ok kvað menn þat mundu fýsa þangat farar at landit ætti nafn gott. þeir fundu þar manna vistir bæði austr ok vestr á landi ok keiplabrot ok steinsmíði þat es af því má skilja at þar hafði þess konar þjóð farit es Vínland hefir byggt ok Grœnlendingar kalla Skrælinga. En þat vas es hann tók byggva landit fjórtán vetrum eða fimmtán fyrr en kristni kvæmi hér á Ísland at því

es sá taldi fyrir þorkeli Gellis syni á Grœnlandi es sjálfr fylgði Eiríki enum rauða út.

(4.) Óláfr rex Tryggva sonr, Óláfs sonar, Haralds sonar ens hárfagra, kom kristni í Norveg ok á Ísland. Hann sendi hingat til lands prest þann es hét þangbrandr ok hér kenndi mönnum kristni ok skírði þá alla es við trú tóku. en Hallr á Síðu þorsteins sonr lét skírask snimmhendis ok Hjalti Skeggja sonr ór þjórsárdali ok Gizurr enn hvíti Teits sonr Ketilbjarnar sonar frá Mosfelli ok margir höfðingjar aðrir; en þeir vóru þó fleiri es í gegn mæltu ok neittu. en þá es hann hafði hér verit einn vetr eða tvá þá fór hann á braut ok hafði vegit hér tvá menn eða þrjá þá es hann höfðu níðt. en hann sagði konunginum Óláfi es hann kom austr allt þat es hér hafði yfir hann gingit ok lét örvænt at hér myndi kristni enn takask. En hann varð við þat reiðr mjök ok ætlaði at láta meiða eða drepa ossa landa fyrir, þá es þar vóru austr. En þat sumar et sama kvómu utan héðan þeir Gizurr ok Hjalti ok þógu þá undan við konunginn ok hétu honum umbsýslu sinni til á nýja leik at hér yrði enn við kristninni tekit ok létu sér eigi annars vón en þá myndi hlýða. En et næsta sumar eptir fóru þeir austan ok prestr sá es þormóðr hét ok kvómu þá í Vestmannaayjar es tíu vikur vóru af sumri ok hafði allt farizk vel at: svá kvað Teitr þann segja es sjálfr vas þar. þá vas þat mælt et næsta sumar áðr í lögum at menn skyldi svá koma til alþingis es tíu vikur væri af sumri en þangat til kvómu viku fyrr. en þeir fóru þegar inn til meginlands ok síðan til alþingis ok gótu at Hjalta at hann vas eptir í Laugardali með tólfta mann af því at hann hafði áðr sekr orðit fjörbaugsmaðr et næsta sumar á alþingi of goðgó——————. en þeir Gizurr fóru unz þeir kvómu í stað þann í hjá Ölfossvatni es kallaðr es Vellankatla ok görðu orð þaðan til þings at á mót þeim skyldi koma allir fulltingsmenn þeirra af

því at þeir höfðu spurt at andskotar þeirra vildi verja þeim vígi þingvöllinn. en fyrr en þeir fœri þaðan þá kom þar ríðandi Hjalti ok þeir es eptir vóru með honum. en síðan riðu þeir á þingit ok kvómu áðr á mót þeim frændr þeirra ok vinir sem þeir höfðu æst. en enir heiðnu menn hurfu saman með alvæpni ok hafði svá nær at þeir myndi berjask at eigi of sá á miðli. En annan dag eptir gengu þeir Gizurr ok Hjalti til lögbergs ok bóru þar upp erindi sín. en svá es sagt at þat bæri frá hvė vel þeir mæltu. en þat görðisk af því at þar nefndi annarr maðr at öðrum vátta ok sögðusk hvárir úr lögum við aðra enir kristnu menn ok enir heiðnu ok gingu síðan frá lögbergi. þá bóðu enir kristnu menn Hall á Síðu at hann skyldi lög þeirra upp segja þau es kristninni skyldi fylgja. en hann laystisk því undan við þá at hann kaypti at þorgeiri lögsögumanni at hann skyldi upp segja en hann vas enn þá heiðinn. en síðan es menn kvómu í búðir þá lagðisk hann niðr þorgeirr ok breiddi feld sinn á sik ok hvíldi þann dag allan ok nóttina eptir ok kvað ekki orð. en of morguninn eptir settisk hann upp ok görði orð at menn skyldi ganga til lögbergis. en þá hóf hann tölu sína upp es menn kvómu þar ok sagði at honum þótti þá komit hag manna í ónýtt efni ef menn skyldi eigi hafa allir lög ein á landi hėr ok taldi fyrir mönnum á marga vega at þat skyldi eigi láta verða ok sagði at þat myndi at því ósætti verða es vísa vón vas at þær barsmíðir görðisk á miðli manna es landit ayddisk af. hann sagði frá því at konungar úr Norvegi ok úr Danmörku höfðu haft ófrið ok orrustur á miðli sín langa tíð til þess unz landsmenn görðu frið á miðli þeirra þótt þeir vildi eigi; en þat ráð görðisk svá at af stundu sendusk þeir gersemar á miðli enda hėlt friðr sá meðan þeir lifðu. ‘en nú þykkir mėr þat ráð’ kvað hann ‘at vėr látim ok ‘eigi þá ráða es mest vilja í gegn gangask — ok miðlum ‘svá mól á miðli þeirra at hvárirtveggju hafi nakkvat síns

'máls ok höfum allir ein lög ok einn sið: þat mun verða 'satt es vér slítum í sundr lögin at vér munum slíta ok 'friðinn'. en hann lauk svá máli sínu at hvárirtveggju jóttu því at allir skyldi ein lög hafa þau sem hann réði upp at segja. þá vas þat mælt í lögum at allir menn skyldi kristnir vesa ok skírn taka þeir es áðr vóru óskírðir á landi hér. en of barna útburð skyldu standa en fornu lög ok of hrossakjöts át; skyldu menn blóta á laun ef vildu en varða fjörbaugsgarðr ef vóttum of kvæmi við. en síðar fóm vetrum vas sú heiðni af numin sem önnur. þenna atburð sagði Teitr oss at því es kristni kom á Ísland. En Óláfr Tryggva sonr fèll et sama sumar at sögu Sæmundar prests: þá barðisk hann við Svein Haralds son Danakonung ok Óláf enn sænska Eiríks son at Uppsölum Svíakonung ok Eirík es síðan vas jarl at Norvegi Hókonar son.

# XXXV.

## ÚR NJÁLS SÖGU.

(1.) Njáll hèt maðr. hann ——— bjó at Bergþórshváli í Landeyjum; annat bú átti hann í Þórólfsfelli. Njáll var vel auðigr at fè ok vænn at áliti; honum vóx eigi skegg. hann var lögmaðr svá mikill at engi fannz hans jafningi: vitr var hann ok forspár, heilráðr ok góðgjarn — ok varð allt at ráði þat er hann rèð mönnum —, hógværr ok drenglyndr; hann leysti hvers manns vandræði er á hans fund kom. Bérgþóra hèt kona hans. hón var Skarphèðins dóttir, kvennskörungr mikill ok drengr góðr ok nokkut skaphörð. þau áttu sex börn: dœtr þrjár ok sonu þrjá ok koma þeir allir við þessa sögu síðan.

---

(2.) Nú skal nefna sonu Njáls. Skarphèðinn hèt hinn ellsti. hann var mikill maðr vexti ok styrkr, vígr vel, syndr sem selr, skjótr á fœti svá at hann var næsta manna fóthvatastr, skjótráðr ok öruggr, gagnorðr ok skjótorðr, enn optast vel stilltr. hann var jarpr á hár ok sveipr í hárinu, augðr vel, fölleitr ok skarpleitr — liðr á nefi ok lá hátt tanngarðrinn —, munnljótr nokkut ok þó manna hermannligastr. Grímr hèt annarr sonr Njáls. hann var svartr á hár ok fríðari sýnum enn Skarphèðinn ok var bæði mikill ok sterkr. Helgi hèt hinn þriði sonr Njáls.

hann var fríðr maðr sýnum ok hærðr vel; hann var styrkr maðr ok vel vígr; hann var vitr maðr ok stilltr vel. Allir váru þeir úkvángaðir synir Njáls————. Njáll spurði Skarphèðin ef hann vildi kvángaz. hann bað föður sinn ráða. bað hann þá til handa honum Þórhildar dóttur Rannviss ór Þórólfsfelli ok átti hann því þar annat bú síðan. Skarphèðinn fèkk Þórhildar ok var þó vistum með föður sínum. Til handa Grími bað hann Ástríðar af Djúpárbakka ok var hón ekkja ok auðig mjök. Grímr fèkk hennar ok var þó með Njáli. Ásgrímr hèt maðr. hann var Elliðagríms son————. Ásgrímr átti tvá sonu ok hèt hvárrtveggi Þórhallr. þeir váru báðir efniligir menn. Grímr hèt ok sonr Ásgríms enn Þórhalla dóttir. hón var kvenna fríðust ok kurteisust ok vel at sèr í öllu. Njáll kom at máli við Helga son sinn ok mælti 'hugat hefi 'ek þèr kvánfang frændi ef þú vilt mínu ráði fylgja'. 'þat vil ek víst' sagði hann 'því at ek veit at bæði er at 'þú vilt vel enda kannt þú vel — eða hvar hefir þú á 'stofnat?' Njáll svaraði 'vit skulum biðja dóttur Ásgríms 'Elliðagríms sonar því at sá er kostr beztr.' litlu síðar riðu þeir út yfir Þjórsá ok fóru þar til er þeir komu í Tungu. Ásgrímr var heima ok tók við þeim vel ok váru þeir þar um nóttina. enn um daginn gengu þeir á tal. þá vakti Njáll til um bónorðit ok bað Þórhöllu til handa Helga syni sínum. Ásgrímr svaraði því vel ok sagði ekki þá menn vera er hann væri fúsari við at kaupa. þeir töluðu þá um málit ok lauk svá at Ásgrímr festi Helga dóttur sína ok var kveðit á brúðlaupsstefnu. Gunnarr var at veizlu þessi ok margir aðrir hinir beztu menn————.

(3.) Þeir Grímr ok Helgi Njáls synir fóru af Íslandi ———— ————ok váru á skipi með þeim Óláfi eldu Ketils syni ok Bárði svarta. þeir tóku norðanveðr svá hörð at þá bar suðr í haf ok rak yfir myrkr svá mikit at þeir vissu eigi hvar þeir fóru ok höfðu þeir útivist langa. þá komu þeir þar er grunnsævi var mikit ok þóttuz þeir

vita at þat mundi vera nær löndum. þeir Njáls synir spurðu ef Bárðr vissi nökkvat til hverjum löndum þeir mundu næst vera. 'mörg eru til' sagði hann 'at því sem 'vèr höfum veðrföll haft — Eyjar eða Skotland eða Írland'. tveim náttum síðar sá þeir lönd á bæði borð enn boða mikinn inn á fjörðinn. þeir köstuðu akkerum fyrir utan boðann. þá tók at lægja veðrit, enn um morguninn var logn. sjá þeir þá fara þrettán skip út at sèr. þá mælti Bárðr 'hvat skal nú til ráða taka? því at menn þessir 'munu veita oss atsókn'. síðan ræddu þeir um hvárt þeir skyldu verja sik eða gefaz upp. enn áðr þeir höfðu ráðit komu at víkingar. spurðu þá hvárir aðra, hvat fyrirmenn hèti. þá nefnduz fyrirmenn kaupmanna ok spurðu í móti hverir fyrir liði þeira væri. annarr nefndiz Grjótgarðr enn annarr Snækólfr synir Moldans ór Dungansbœ í Skotlandi frændr Melkólfs Skotakonungs 'ok eru kostir tveir 'af oss görvir' sagði Grjótgarðr 'at èr gangið á land enn 'vèr munum taka fè yðvart — hinn er annarr at vèr 'munum sœkja at yðr ok drepa hvern mann er vèr fám'. Helgi svaraði 'þat vilja kaupmenn at verja sik'. þá mæltu kaupmenn 'mæl þú alls vesall! hverja vörn munu vèr 'veita? ok er fè fjörvi fyrra'. Grímr tók þat ráðs at hann œpti á víkinga ok lèt þá eigi heyra illan kurr kaupmanna. Bárðr ok Óláfr rœddu 'hyggið èr eigi at Íslendingar muni 'göra spott at látum yðrum? takið heldr vápn yður ok 'verið yðr'. tóku þeir þá allir til vápna ok festu þat með sèr at þeir skyldu aldri upp gefaz meðan þeir mætti verja sik. víkingar skutu á þá ok tókz nú orrusta ok verja kaupmenn sik vel. Snækólfr hleypr at Óláfi ok leggr í gegnum hann með spjóti. Grímr leggr til Snækólfs spjóti ok svá fast at hann fellr útbyrðis. Helgi sneri þá til móts við Grím ok ráku þeir ofan alla víkinga ok jafnan váru þeir Njáls synir þar er mest þurfti. víkingar kölluðu

---

22 fyrra * 468, 133, 309, 2870 (?), 466 (?).

ok báðu kaupmenn upp gefaz. þeir sögðu at þeir mundu aldri upp gefaz. Í þessu varð þeim litit til hafs. sjá þeir skip fara sunnan fyrir nesit ok váru eigi færi enn tíu. þeir róa mikinn ok stefna at þangat. er þar skjöldr við skjöld. enn á því skipi er fyrst fór stóð maðr við siglu: sá var í silkitreyju ok hafði gylldan hjálm enn hárit bæði mikit ok fagrt; sjá maðr hafði spjót gullrekit í hendi. hann spurði 'hverir eigu hèr leik svá újafnan?' Helgi sagði til sín ok sagði at í móti váru þeir Grjótgarðr ok Snækólfr. 'enn hverir eru stýrimenn?' sagði sjá. Helgi svaraði 'Bárðr svarti er lifir, enn annarr er látinn er Óláfr 'hèt'. 'eruð it' sagði hann 'íslenzkir menn?' 'svá er víst' sagði Helgi. hann spurði hvers synir þeir væri. þeir sögðu. þá kannaðiz hann við ok mælti 'nafnfrægir eruð èr feðgar'. 'hverr ertú?' sagði Helgi. 'Kári heiti ek, ok em ek Söl-'mundar son'. 'hvaðan komtu at?' sagði Helgi. 'ór Suðr-'eyjum' sagði Kári. 'þá ertu vel at kominn' sagði Helgi 'ef þú vilt veita oss nökkut'. 'veita slíkt sem èr þurfuð' sagði Kári 'eða hvers beiðiz èr?' 'veita þeim atlögu' sagði Helgi. Kári sagði at svá skyldi vera. lögðu þeir þá at þeim ok tókz þá bardagi í annat sinn. enn er þeir hafa bariz um hríð hleypr Kári upp á skip til Snækólfs. hann snýr í móti Kára ok höggr til hans. Kári hleypr yfir slá eina er lá um þvert skipit aptr öfugr enn Snækólfr hjó í slána svá at fal báða eggteinana sverðsins. Kári höggr til hans ok kom sverðit á öxlina ok varð höggit svá mikit at klauf frá ofan höndina ok hafði Snækólfr þegar bana. Grjótgarðr skaut spjóti til Kára. Kári sá þat ok hljóp í lopt upp enn spjótit missti hans. í því váru þeir Grímr ok Helgi komnir til móts við Kára. hleypr þá Helgi at Grjótgarði ok leggr sverði í gegnum hann ok var þat hans bani. gengu þeir þá um skip öll. menn báðu sèr þá griða. gáfu þeir þá grið öllum enn tóku fè allt. eptir þat leggja þeir skipin öll út undir eyjar——— . . ———.

(4.) þat sumar bjogguz þeir Kári ok Njáls synir til

Íslands————. láta þeir nú í haf. þeir hafa útivistir skammar ok gaf þeim vel byri ok komu við Eyrar. þeir fengu sèr hesta ok riðu frá skipi ok heim til Bergþórshvála. enn er þeir komu heim urðu allir menn þeim fegnir. þeir fluttu heim fè sitt ok rèðu skipi til hlunns. þar var Kári þann vetr með Njáli. enn um várit bað Kári dóttur Njáls ok fluttu þeir Grímr ok Helgi með honum ok lauk svá at hón var föstnuð Kára ok var á kveðin brúðlaupsstefna ok var boðit hálfum mánaði fyrir mitt sumar ok váru þau þann vetr með Njáli. þá keypti Kári land at Dyrhólmum austr í Mýdal ok görði þar bú. þau fengu þar fyrir ráðamenn enn þau váru með Njáli jafnan.——

---

(5.) Flosi stefndi sínum mönnum upp í Almannagjá ok gekk þangat sjálfr. þá váru þar komnir allir hans menn ok váru þat tíu tigir manna. Flosi mælti til Sigfúss sona 'hversu veiti ek yðr þess at málum at yðr sè skapfelligast?' Gunnarr Lamba son mælti 'ekki líkar oss annat enn þeir 'allir brœðr sè drepnir Njáls synir'. Flosi mælti 'því vil 'ek heita Sigfúss sonum at skiljaz eigi við þeira mál fyrr 'enn aðrir hvárir hníga fyrir öðrum. vil ek ok þat vita 'hvárt nökkurr er sá hèr at oss vili eigi veita at þessu 'máli'. enn allir kváðuz þeim veita vilja. Flosi mælti 'gangi nú allir til mín ok sveri eiða at engi skeriz ór 'þessu máli'. gengu þá allir til Flosa ok sóru honum eiða. Flosi mælti 'vèr skulum ok hafa handtak at því at sá skal 'hverr hafa fyrir gört fè ok fjörvi er ór gengr þessu 'máli'. ————. Flosi mælti til Sigfúss sona 'takið èr 'yðr nú höfðingja þann er yðr þykkir bezt til fallinn því 'at einn hverr man fyrir þurfa at vera málinu'. Ketill ór Mörk svaraði 'ef undir oss brœðr skal koma kjörit þá 'munu vèr þat skjótt kjósa at undir þik falli sá vandi: 'þú ert maðr ættstórr ok höfðingi mikill, harðrœgr ok 'vitr; virðu vèr ok svá at þú setiz fyrir vára nauðsyn í 'málit'. Flosi mælti 'þat er líkast at ek játumz undir þetta

'sem bœn yður stendr til. Man ek nú ok á kveða hverja 'atferð vèr skulum hafa — ok er þat mitt ráð at hverr 'maðr ríði heim af þingi ok sè við bú sitt í sumar meðan 'töðuannir eru. ek man ok heim ríða ok vera heima í 'sumar. enn drottinsdag þann er átta vikur eru til vetrar 'þá man ek láta syngja mèr messu heima ok ríða síðan 'vestr yfir Lómagnúpssand. hverr várr skal hafa tvá hesta. 'ekki man ek lið auka ór því sem nú hefir til eiða gengit 'því at vèr höfum þat œrit mart ef oss kemr vel at haldi. 'ek man ríða sunnudaginn ok svá nóttina með enn annan 'dag vikunnar man ek kominn á Þríhyrningshálsa fyrir 'miðjan aptan. skuluð èr þá allir þar komnir er eiðsvarar 'eruð við þetta mál; enn ef nökkurr er sá þá eigi þar 'kominn er í þessi mál hefir gengit þá skal engu fyrir 'týna nema lífinu ef vèr megum ráða'.—————— 'man ek nú segja yðr alla mína fyriræltan, at þá er vèr 'komum þar saman skulu vèr ríða til Bergþórshváls með 'öllu liðinu ok sœkja Njáls sonu með eldi ok járni ok 'ganga eigi fyrr frá enn þeir eru allir dauðir. skuluð èr 'þessi ráðagörð leyna því at líf várt allra liggr við. munu 'vèr nú láta taka hesta vára ok ríða heim'. gengu þeir þá til búða sinna. síðan lèt Flosi söðla hesta sína, ok riðu þeir heim ok biðu engra manna——————.

(6.) Kerling var sú at Bergþórshváli er Sæunn hèt. hón var fróð at mörgu ok framsýn enn þá var hón gömul mjök ok kölluðu Njáls synir hana gamalœra er hón mælti mart enn þó gekk þat flest eptir. þat var einn dag at hón þreif lurk í hönd sèr ok gekk upp um hús at arfasatu einni: hón laust arfasátuna ok bað hana aldri þrífaz svá vesul sem hón var. Skarphèðinn hló at ok spurði hví hón abbaðiz upp á arfasátuna. kerling mælti 'þessi arfa-'sáta man tekin ok kveykðr við eldr þá er Njáll bóndi 'er inni brenndr ok Bergþóra fóstra mín, ok berið èr 'hana á vatn' sagði hón 'eða brennið hana upp sem skjót-'ast'. 'eigi munu vèr þat göra' sagði Skarphèðinn 'því at

'fáz man annat til eldkveykna, ef þess verðr auðit, þótt 'hón sè eigi'. kerling klifaði allt sumarit um arfasátuna at inn skyldi bera enn þó fórz þat fyrir ávallt.

At Reykjum á Skeiðum bjó Runólfr þorsteins son. Hildiglúmr hèt sonr hans. hann gekk út sunnunótt þá er tólf vikur váru til vetrar. hann heyrði brest mikinn svá at honum þótti skjálfa bæði jörð ok himinn. síðan leit hann í vestrættina ok þóttiz hann sjá þangat hring ok eldslit á ok í hringinum mann á grám hesti: hann bar skjótt yfir ok hafði loganda brand í hendi; hann reið svá nær honum at hann mátti görla sjá ok var hann svartr sem bik; hann kvað vísu þessa með mikilli raust:

Ek ríð hesti
hèlugbarða,
úrigtoppa,
ills valdanda:
eldr es í endum,
eitr es í miðju —
svá es umb Flosa ráð
sem fari kefli,
svá es umb Flosa ráð
sem fari kefli;

þá þótti honum hann skjóta brandinum austr til fjallanna fyrir sik ok þótti honum hlaupa upp eldr mikill í móti svá at hann þóttiz ekki sjá til fjallanna fyrir; honum sýndiz sjá maðr ríða austr undir eldinn ok hvarf þar. síðan gekk hann inn ok til rúms síns ok fèkk langt úvit ok rètti við ór því. hann mundi allt þat er fyrir hann hafði borit ok sagði föður sínum, enn hann bað hann segja Hjalta Skeggja syni. hann fór ok sagði Hjalta. 'þú 'hefir sèt gandreið' sagði Hjalti 'ok er þat jafnan fyrir 'stórtíðendum'.

(7.) Flosi bjó sik austan þá er tveir mánuðr váru til vetrar ok stefndi til sín öllum sínum mönnum þeim er honum höfðu ferð heitit. hverr þeira hafði tvá hesta ok

góð vápn. þeir komu allir til Svínafells ok váru þar um nóttina. Flosi lèt snimma veita sèr tíðir sunnudaginn enn síðan gekk hann til borðs. hann sagði fyrir öllum heimamönnum hvat hverrgi skyldi starfa meðan hann væri í brautu. síðan gekk hann til hesta sinna. þeir Flosi riðu vestr á Sand. Flosi bað þá fyrst ekki allákaft ríða ok kvað þó hinn veg lúka mundu. hann bað alla bíða ef nökkurr þyrfti at dveljaz. þeir riðu vestr til Skógahverfis ok komu í Kirkjubœ. Flosi bað alla menn koma til kirkju ok biðjaz fyrir. menn görðu svá. síðan stigu þeir á hesta sína ok riðu á fjall ok svá til Fiskivatna ok riðu nökkuru fyrir vestan vötnin ok stefndu svá vestr á sandinn — lètu þeir þá Eyjafjallajökul á vinstri hönd sèr — ok svá ofan í Goðaland ok svá til Markarfljóts ok komu um nónskeið mánadaginn á þríhyrningshálsa ok biðu til miðs aptans. komu þar þá allir nema Ingjaldr frá Keldum ok töldu Sigfúss synir á hann mjök enn Flosi bað þá ekki ámæla Ingjaldi meðan hann væri eigi hjá ‘enn þó skulu ‘vèr gjalda honum síðar’.

(8.) Nú er til máls at taka at Bergþórshváli at þeir Grímr ok Helgi fóru til Hóla — þar váru þeim fóstruð börn — ok sögðu föður sínum at þeir mundu eigi heim um kveldit. þeir váru í Hólum allan daginn. þar komu konur fátœkjar ok kváðuz komnar at langt. þeir brœðr spurðu þær tíðenda. þær kváðuz engi kunna tíðendi at segja enn segja þó nýlundu nökkverja. þeir spurðu hverja nýlundu þær segði ok báðu þær eigi leyna. þær sögðu svá vera skyldu ‘vèr komum at ofan ór Fljótshlíð ok sá ‘vèr Sigfúss sonu alla ríða með alvæpni ok stefndu þeir ‘upp á þríhyrningshálsa ok váru fimmtán í flokki; vèr ‘sám ok Grana Gunnars son ok Gunnar Lamba son ok ‘váru þeir fimm saman — þeir stefndu hina sömu leið: ‘ok kalla má at nú sè allt á för ok á flaug’. Helgi mælti ‘þá man Flosi kominn austan ok munu þeir allir komnir ‘til móts við hann ok skulu vit Grímr vera þar sem

'Skarphèðinn er'. Grímr kvað svá vera skyldu ok fóru þeir heim. þenna aptan hinn sama mælti Bergþóra til hjóna sinna 'nú skuluð ėr kjósa yðr mat í kveld at hverr 'hafi þat er mest fýsir til því at þenna aptan man ek 'bera síðast mat fyrir hjón mín'. 'þat skyldi eigi vera' sögðu þeir er hjá váru. 'þat man þó fram koma' sagði hón 'ok má ek miklu fleira af segja ef ek vil ok man þat 'til marka at þeir Grímr ok Helgi munu heim koma í 'kveld ok ef þetta gengr eptir þá man svá fara fleira 'sem ek segi'. síðan bar hón mat á borð. Njáll mælti 'undarliga sýniz mèr nú: ek þykkjumz sjá um alla stufuna 'ok þykki mèr sem undan sè gaflveggirnir báðir enn 'blóðugt allt borðit ok matrinn'. þá fannz öllum mikit um öðrum enn Skarphèðni: hann bað menn ekki syrgja nè láta annars konar herfiligum látum svá at menn mætti orð á því göra 'man oss vandara gört enn öðrum mönnum 'at vèr berim oss vel ok er þat at vánum'. þeir Grímr ok Helgi komu heim áðr borð váru ofan tekin ok brá mönnum mjök við þat. Njáll spurði hví þeir fœri svá hverft enn þeir sögðu slíkt sem þeir höfðu frètt. Njáll bað engan mann til svefns fara ok vera vara um sik.

(9.) Nú talar Flosi við sína menn 'nú munu vèr ríða 'til Bergþórshváls ok koma þar fyrir náttmál'. dalr var í hválinum ok riðu þeir þangat ok bundu þar hesta sína ok dvölduz þar til þess er mjök leið á kveldit. Flosi mælti þá 'nú skulu vèr ganga heim at bœnum ok ganga 'þröngt ok fara seint ok sjá hvat þeir taki til ráðs'. Njáll stóð úti ok synir hans ok Kári ok allir heimamenn ok skipuðuz fyrir á hlaðinu ok var þat nær þrír tigir manna. Flosi nam staðar ok mælti 'nú skulu vèr at hyggja hvat 'þeir taka til ráðs því at mèr líz svá ef þeir standa úti 'fyrir sem vèr munim þá aldri sótta geta'. 'þá er vár 'för ill' sagði Grani Gunnars son 'ef vèr skulum eigi þora 'at at sœkja'. 'þat skal ok eigi vera' sagði Flosi 'ok 'munu vèr at ganga þótt þeir standi úti; enn þat afráð

'munu vèr gjalda at margr man eigi kunna frá at segja 'hvárir sem sigraz'. Njáll mælti til sinna manna 'hvat 'segið èr frá hversu mikit lið þeir hafa?' 'þeir hafa bæði 'mikit lið ok harðsnúit' sagði Skarphèðinn 'enn því nema 'þeir þó nú stað at þeim þykkir sem illa muni sœkjaz at 'vinna oss'. 'þat man ekki' sagði Njáll 'ok vil ek at menn 'gangi inn; því at illa sóttiz þeim Gunnarr at Hlíðarenda 'ok var hann einn fyrir: eru hèr hús rammlig sem þar 'váru ok munu þeir eigi sótt geta'. 'þetta er ekki þann 'veg at skilja' sagði Skarphèðinn 'Gunnar sóttu heim þeir 'höfðingjar er svá váru vel at sèr at heldr vildu frá hverfa 'enn brenna hann inni; enn þessir munu sœkja oss með 'eldi ef þeir megu eigi annan veg því at þeir munu allt 'til vinna at yfir taki við oss — munu þeir þat ætla sem 'eigi er úlíkligt at þat muni þeira bani ef oss dregr undan. 'em ek úfúss at láta svæla mik inni sem melrakka í greni'. Njáll mælti 'nú man sem optar at èr munuð bera mik 'ráðum synir mínir ok virða mik engis; enn þá er èr 'váruð yngri görðuð èr þat eigi ok fór yðvart ráð þá 'betr fram'. Helgi mælti 'görum vèr sem faðir várr vill: 'þat man oss bezt gegna'. 'eigi veit ek þat víst' sagði Skarphèðinn 'því at hann er nú feigr; enn þó má ek 'göra þat til skaps föður míns at brinna inni með honum 'því at ek em ekki hræddr við dauða minn'. Hann mælti þá við Kára 'fylgjumz vel mágr svá at engi várr skili við 'annan'. 'þat hefi ek ætlat' sagði Kári 'enn ef annars 'verðr auðit þá man þat verða fram at koma ok man ekki 'mega við göra'. 'hefn þú vár' sagði Skarphèðinn 'enn 'vèr skulum þín ef vèr lifum eptir'. Kári kvað svá vera skyldu. Gengu þeir þá inn allir ok skipuðuz í dyrrin. Flosi mælti 'nú eru þeir feigir er þeir hafa inn gengit: 'skulu vèr nú heim ganga sem skjótast ok skipa sem 'þykkvast ok geyma þess at engi komiz í braut — hvárki 'Kári nè Njáls synir — því at þat er várr bani'. þeir Flosi komu nú heim ok skipuðuz umhverfis húsin ef

nökkurar væri laundyrr á. Flosi gekk framan at húsunum ok hans menn. Hróaldr Özurar son hljóp þar at sem Skarphèðinn var fyrir ok lagði til hans. Skarphèðinn hjó spjótit af skapti fyrir honum ok hljóp at honum ok hjó til hans ok kom öxin ofan í skjöldinn ok bar at honum þegar allan skjöldinn enn hyrnan sú hin fremri tók andlitit ok fèll hann á bak aptr ok þegar dauðr. Kári mælti 'lítt dró enn undan við þik Skarphèðinn: þú ert vár 'fræknastr'. 'eigi veit ek þat' sagði Skarphèðinn ok brá við grönum ok glotti at. þeir Kári ok Grímr ok Helgi lögðu út mörgum spjótum ok særðu marga menn. enn þeir Flosi gátu ekki at gört. Flosi mælti 'vèr höfum 'fengit mikinn skaða á mönnum várum er margir eru 'særðir enn sá veginn er vèr myndim sízt til kjósa. nú 'er þat sèit at vèr getum þá eigi með vápnum sótta. er 'sá nú margr at eigi gengr jafnsköruliga at sem lètu. 'enda munu vèr nú verða at göra annat ráð fyrir oss. eru 'nú tveir kostir ok er hvárrgi góðr: sá annarr at hverfa 'frá ok er þat várr bani; enn hinn annarr at bera at eld 'ok brenna þá inni ok er þat stór ábyrgð fyrir guði er 'vèr erum kristnir sjálfir — enn þó munu vèr þat bragðs 'taka'. þeir tóku nú eld ok görðu bál mikit fyrir dyrunum. þá mælti Skarphèðinn 'eld kveykvið èr nú sveinar: 'hvárt skal nú búa til seyðis?' Grani Gunnars son svaraði 'svá skal þat vera ok skaltu eigi þurfa heitara at baka'. Skarphèðinn mælti 'því launar þú mèr sem þú ert maðr 'til er ek hefnda föður þíns ok virðir þat meira er þèr 'er úskyldara'. þá báru konur sýru í eldinn ok slökktu fyrir þeim. Kolr þorsteins son mælti til Flosa 'ráð kemr 'mèr í hug: ek hefi sèt lopt í skálanum á þvertrjám ok 'skulu vèr þar inn bera eldinn ok kveykva við arfasátu 'þá er hèr stendr fyrir ofan húsin'. síðan tóku þeir arfasátuna ok báru þar inn eldinn, ok fundu þeir er inni váru eigi fyrr enn logaði ofan allr skálinn. görðu þeir Flosi þá stór bál fyrir öllum dyrum. tók þá kvennaliðit

illa at þola þat er inni var. Njáll mælti til þeira ‘verðið ‘vel við ok mælið eigi æðru því at el eitt man vera; enn ‘þó skyldi langt til annars slíks: trúið ėr ok því at guð ‘er miskunnsamr ok man hann oss eigi láta brinna bæði ‘þessa heims ok annars’. slíkar fortölur hafði hann fyrir þeim ok aðrar hraustligri. nú taka öll húsin at loga. þá gekk Njáll til dyra ok mælti ‘er Flosi svá nær at hann ‘megi heyra mál mitt?’ Flosi kvez heyra. Njáll mælti ‘viltu nökkvat taka sættum við sonu mína? eða leyfa ‘nökkurum mönnum útgöngu?’ Flosi svaraði ‘eigi vil ek ’taka sættum við sonu þína ok skal nú yfir lúka með ‘oss ok eigi frá ganga fyrr enn þeir eru allir dauðir; ‘enn lofa vil ek útgöngu konum ok börnum ok húskörlum’. Njáll gekk þá inn ok mælti við fólkit ‘nú er þeim út at ‘ganga öllum er leyft er, ok gakk þú út þórhalla Ásgríms ‘dóttir ok allr lýðr með þėr sá er lofat er’. þórhalla mælti ‘annarr verðr skilnaðr okkarr Helga enn ek ætlaða ‘um hríð, enn þó skal ek eggja föður minn ok brœðr at ‘þeir hefni þessa mannskaða er hėr er görr’. Njáll mælti ‘vel man þėr fara því at þú ert góð kona’. síðan gekk hón út ok mart lið með henni. Ástríðr af Djúpárbakka mælti til Helga Njáls sonar ‘gakk þú út með mėr ok man ‘ek kasta yfir þik kvenskikkju ok falda þik með höfuð‘dúki’. hann taldiz undan fyrst enn þó görði hann þetta fyrir bœn þeira. Ástríðr vafði höfuðdúki at höfði honum enn þórhildr lagði yfir hann skikkjuna ok gekk hann út á meðal þeirra: þá gekk út þorgerðr Njáls dóttir ok Helga systir hennar ok mart annat fólk. enn er Helgi kom út þá mælti Flosi ‘sú er há kona ok mikil um herðar ‘er þar fór — takið ok haldið henni’. enn er Helgi heyrði þetta kastaði hann skikkjunni — hann hafði haft sverð brugðit undir hendi sėr — ok hjó til manns ok kom í skjöldinn ok af sporðinn ok fótinn af manninum. þá kom Flosi at ok hjó á háls Helga svá at þegar tók af höfuðit. Flosi gekk þá at dyrum ok mælti at Njáll skyldi

ganga til máls við hann ok svá Bergþóra. þau görðu svá. Flosi mælti ‘utgöngu vil ek þèr bjóða Njáll bóndi því at ‘þú brennr úmakligr inni’. Njáll mælti ‘eigi vil ek út ‘ganga því at ek em maðr gamall ok lítt til búinn at hefna ‘sona minna enn ek vil eigi lifa við skömm’. Flosi mælti til Bergþóru ‘gakk þú út húsfreyja því at ek vil þik fyrir ‘engan mun inni brenna’. Bergþóra mælti ‘ek var ung ‘gefin Njáli: hefi ek því heitit honum at eitt skyldi ganga ‘yfir okkr bæði’. síðan gengu þau inn. Bergþóra mælti ‘hvat skulu vit nú til ráða taka?’ Njáll svaraði ‘ganga ‘munu vit til hvílu okkarrar ok leggjaz niðr’. Síðan mælti hón við sveininn Þórð Kára son ‘þik skal bera út ok ‘skalt þú eigi inni brinna’. ‘hinu hefir þú mèr heitit amma’ sagði sveinninn ‘at vit skyldim aldri skilja ok skal svá ‘vera því at mèr þykkir miklu betra at deyja með ykkr ‘enn lifa eptir’. síðan bar hón sveininn til hvílunnar. Njáll mælti við brytja sinn ‘nú skaltu sjá hvar vit leggj-‘umz niðr ok hversu ek býg um okkr; því at ek ætla ‘hèðan hvergi at hrœraz hvárt sem mèr angrar reykr eða ‘bruni: mantu þá nær geta hvar beina okkarra er at leita’. hann sagði at svá skyldi vera. uxa einum hafði slátrat verit ok lá þar húðin. Njáll mælti við brytjann at hann skyldi breiða yfir þau húðina ok hann hèt því. þau leggjaz niðr bæði í rúmit ok leggja sveininn í milli sín. þá signdu þau sik ok sveininn ok fálu önd sína guði á hendi ok mæltu þat síðast. þá tók brytinn húðina ok breiddi yfir þau ok gekk út síðan. Ketill ór Mörk tók í móti honum ok kippti honum út. hann spurði vandliga at Njáli mági sínum enn brytinn sagði allt hit sanna. Ketill mælti ‘mikill harmr er at oss kveðinn er vèr skulum svá mikla ‘úgæfu saman eiga’. Skarphèðinn hafði sèit er faðir hans hafði niðr lagiz ok hversu hann hafði um sik búit; hann mælti þá ‘snimma ferr faðir várr í hvílu ok er þat sem ‘ván er — hann er maðr gamall’. þá tóku þeir Skarp-hèðinn ok Kári ok Grímr brandana jafnskjótt sem ofan

duttu ok slöngðu út á þá ok gekk því um hríð. þá skutu þeir spjótum inn at þeim; enn þeir tóku öll á lopti ok sendu út aptr. Flosi bað þá hætta at skjóta 'því at oss 'munu öll vápnaskipti þungt ganga við þá: meguð èr vel 'bíða þess er eldrinn vinnr þá'. þeir görðu nú svá. þá fèllu ofan stórviðirnir ór ræfrinu. Skarphèðinn mælti 'nú man faðir minn dauðr vera ok hefir hvárki heyrt til 'hans styn nè hósta'. Síðan gengu þeir í skálaendann: þar var fallit ofan þvertrèit ok var brunnit mjök í miðju. Kári mælti til Skarphèðins 'hlaup þú hèr út ok man ek 'beina at með þèr enn ek man hlaupa þegar eptir ok 'munu vit þá báðir í braut komaz ef vit breytum svá því 'at hingat leggr allan reykinn'. Skarphèðinn mælti 'þú 'skalt hlaupa fyrri — enn ek man þegar á hæla þèr'. 'ekki er þat ráð' sagði Kári 'því at ek má vel komaz 'annars staðar út þótt hèr gangi eigi'. 'eigi vil ek þat' sagði Skarphèðinn 'hlaup þú út fyrri — enn ek man þegar 'eptir'. 'þat er hverjum manni boðit at leita sèr lífs' sagði Kári 'ok skal ek svá göra; enn þó man sá skilnaðr með 'okkr verða at vit munum aldri sjáz síðan: ef ek hleyp 'út ór eldinum þá man ek eigi hafa skap til at hlaupa 'inn aptr til þín í eldinn ok man þá sína leið fara hvárr 'okkarr'. Skarphèðinn mælti 'þat hlœgir mik ef þú kemz 'í braut mágr at þú mant hefna vár'. þá tók Kári einn stokk loganda í hönd sèr ok hleypr út eptir þvertrènu — slöngvir þá stokkinum út af þekjunni ok fellr hann ofan at þeim er úti váru fyrir: þeir hljópu allir undan: þá loguðu klæðin öll á Kára ok svá hárit: hann steypir sèr út af þekjunni ok stiklar svá með reykinum. þá mælti maðr einn 'hvárt hljóp þar maðr út af þekjunni?' 'fjarri 'fór þat' sagði annarr 'ok kastaði Skarphèðinn þar eldi-'stokki at oss'. síðan grunuðu þeir ekki. Kári hljóp til þess er hann kom at lœk einum ok kastaði sèr í ofan ok slökkti á sèr eldinn. þaðan hljóp hann með reykinum í gröf nökkverja ok hvildi sik ok er þat síðan kölluð Kára-

gröf. Nú er at segja frá Skarphèðni at hann hljóp út á þvertrèit þegar eptir Kára. enn er hann kom þar sem mest var brunnit þvertrèit þá brast niðr undir honum. Skarphèðinn kom fótum undir sik ok rèð þegar til í annat sinn ok rennr upp vegginn. þá reið at honum brúnássinn ok hrataði hann inn aptr. Skarphèðinn mælti þá 'sèit 'er nú hversu vera vill'. gekk hann þá fram at hliðvegginum. Gunnarr Lamba son hljóp upp á vegginn ok sèr Skarphèðin ok mælti 'hvárt grætr þú nú Skarphèðinn?' 'eigi er þat' sagði Skarphèðinn 'enn hitt er satt at súrnar 'í augunum; enn svá sýniz mèr sem þú hlæir, eða hvárt 'er svá?' 'svá er víst' sagði Gunnarr 'ok hefi ek aldri 'fyrr hlegit síðan þú vátt Þráin á Markarfljóti'. Skarphèðinn mælti 'þá er þèr hèr nú minjagriprinn' — tók jaxl ór pússi sínum er hann hafði höggvit ór Þráni ok kastaði í auga Gunnari svá at þegar lá úti á kinninni: fèll Gunnarr þá ofan af þekjunni. Skarphèðinn gekk þá til Gríms bróður síns: hèlduz þeir þá í hendr ok tráðu eldinn; enn er þeir komu í miðjan skálann þá fèll Grímr dauðr niðr. Skarphèðinn gekk þá til enda hússins. þá varð brestr mikill: reið þá ofan öll þekjan: varð Skarphèðinn þá þar í millum ok gaflhlaðsins: mátti hann þaðan hvergi hrœraz. Þeir Flosi váru við eldana þar til er mornat var mjök. Þá kom þar maðr einn ríðandi at þeim. Flosi spurði hann at nafni. hann nefndiz Geirmundr ok kvez vera frændi Sigfúss sona ok mælti 'ér hafið mikit stórvirki 'unnit'. Flosi svaraði 'bæði munu menn þetta kalla stór'virki ok illvirki; enn þó má nú ekki at hafa'. Geirmundr mælti 'hversu mart hefir hèr fyrirmanna látiz?' Flosi svaraði 'hèr hefir látiz Njáll ok Bergþóra ok synir þeira 'allir, Þórðr Kára son ok Kári Sölmundar son, Þórðr 'leysingi — enn þá vitu vèr úgörla um fleiri menn þá 'er oss eru úkunnari'. Geirmundr mælti 'dauðan segir 'þú þann nú er vèr höfum hjalat við í morgin'. 'hverr 'er sá?' sagði Flosi. 'Kára Sölmundar son fundu vit Bárðr

‘búi minn’ sagði Geirmundr ‘ok fékk Bárðr honum hest ‘sinn, ok var brunnit af honum hárit ok svá klæðin’. ‘hafði ‘hann nökkvat vápna?’ sagði Flosi. ‘hafði hann sverðit ‘Fjörsvafni’ sagði Geirmundr ‘ok var blánaðr annarr egg- ‘teinninn ok sögðu vit at dignat mundi hafa; enn hann ‘svaraði því at hann skyldi herða í blóði Sigfúss sona eða ‘annarra brennumanna’. Flosi mælti ‘hvat sagði hann til ‘Skarphéðins eða Gríms?’ ‘á lífi sagði hann þá báða þá ‘er þeir skildu’ sagði Geirmundr ‘enn þó kvað hann þá ‘nú mundu báða dauða’. Flosi mælti ‘sagt hefir þú oss ‘þá hluti er oss man eigi setugrið bjóða; því at sá maðr ‘hefir nú á braut komiz er næst gengr Gunnari at Hlíð- ‘arenda í öllum hlutum. skuluð ér nú ok þat hugsa Sigfúss ‘synir ok aðrir várir menn, at svá mikit eptirmál man ‘verða um brennu þessa at margan mann man þat göra ‘höfuðlausan enn sumir munu ganga frá öllu fénu. grunar ‘mik nú þat at engi yðvarr Sigfúss sona þori nú at sitja ‘í búi sínu ok er þat þó mikil várkunn: vil ek nú bjóða ‘yðr öllum austr til mín ok láta eitt ganga yfir oss alla’. þeir þökkuðu honum.

---

# XXXVI.

## ÚR LÖGUM.

### 1. LÖGSÖGUMANNS-ÞÁTTR.

Svá es enn mælt at sá maðr skal vesa nökkurr ávallt á landi óru es skyldr sè til þess at segja lög mönnum ok heitir sá lögsögumaðr. Enn ef lögsögumanns missir við, þá skal ór þeim fjórðungi taka mann til at segja þingsköp upp hit næsta sumar es hann hafði síðast heimili í. Menn skulu þá taka sèr lögsögumann ok sýsla þat föstudag hverr vesa skal áðr sakar sè lýstar. þat es ok vel ef allir menn verða sáttir á einn mann. enn ef lögrèttumaðr nökkurr stendr við því es flestir vilja ok skal þá hluta í hvern fjórðung lögsaga skal hverfa. enn þeir fjórðungsmenn es þá hefir hlutr í hag borit skulu taka lögsögumann þann sem þeir verða sáttir á, hvárt sem sá es ór þeira fjórðungi eða ór öðrum fjórðungi nökkurum. þeira manna es þeir megu þat geta at. nú verða fjórðungsmenn eigi á sáttir ok skal þá afl ráða með þeim. enn ef þeir eru jafnmargir es lögrèttusetu eigu es sinn lögsögumann vilja hvárir þá skulu þeir ráða es byskop sá fellr í fullting með es í þeim fjórðungi es. nú eru lögrèttumenn nökkurir þeir es níta því es aðrir vilja, fái engi mann sjálfir til lögsögu ok eigu enskis þeira orð at metask. lögsögumann á í lögrèttu at taka þá es menn hafa ráðit hverr vesa skal, ok skal einn maðr skilja fyrir enn aðrir gjalda sam-

kvæði á, ok skal þrjú sumur samfast hinn sami hafa nema menn vili eigi breytt hafa. ór þeiri lögréttu es lögsögumaðr es tekinn skulu menn ganga til lögbergs ok skal hann ganga til lögbergs ok setjask í rúm sitt ok skipa lögberg þeim mönnum sem hann vill; enn menn skulu þá mæla málum sínum. Þat es ok mælt at lögsögumaðr es skyldr til þess at segja upp lögþáttu alla á þrimr sumrum hverjum enn þingsköp hvert sumar. lögsögumaðr á upp at segja sýknuleyfi öll at lögbergi — svá at meiri hlutr manna sė þar, ef því umb náir — ok misseristal ok svá þat ef menn skulu koma fyrr til alþingis enn tíu vikur eru af sumri ok tína imbrudagahald ok föstuíganga, ok skal hann þetta allt mæla at þinglausnum. þat es ok at lögsögumaðr skal svá görla þáttu alla upp segja at engi viti einna miklugi görr. enn ef honum vinnsk eigi fróðleikr til þess þá skal hann eiga stefnu við fimm lögmenn hin næstu dœgr áðr eða fleiri þá es hann má helzt geta af áðr hann segi hvern þátt upp; ok verðr hverr maðr útlagr þrimr mörkum es úlofat gengr á mál þeira ok á lögsögumaðr sök þá. Lögsögumaðr skal hafa hvert sumar tvau hundruð álna vaðmála af lögrėttufjám fyrir starf sitt. hann á ok útlegðir allar hálfar þær es á alþingi eru dœmðar hėr, ok skal dœma eindaga á þeim öllum annat sumar hėr í bóanda kirkjugarði miðvikudag í mitt þing. útlagr es hverr maðr þrimr mörkum es fė lætr dœma ef hann segir eigi lögsögumanni til ok svá hverir dómsuppsögu-váttar hafa verit. Þat es ok þá es lögsögumaðr hefir haft þrjú sumur lögsögu ok skal hann þá segja upp þingsköp hit fjórða sumar föstudag hinn fyrra í þingi. þá es hann ok lauss frá lögsögu ef hann vill. Nú vill hann hafa lögsögu lengr ef aðrir unna honum, þá skal hinn meiri hlutr lögrėttumanna ráða. Þat es ok at lögsögumaðr es útlagr þrimr mörkum ef hann kömr eigi til alþingis föstudag hinn fyrra, áðr menn gangi til lögbergs,

at nauðsynjalausu; enda eigu menn þá at taka annan lögsögumann ef vilja.

## 2. LÖGRÈTTU-ÞÁTTR.

Lögrèttu skulu vèr ok eiga ok hafa hèr hvert sumar á alþingi ok skal hón sitja í þeim stað ávallt sem lengi hefir verit. þar skulu pallar þrír vesa umbhverfis lögrèttuna svá víðir at rúmliga megi sitja á hverjum þeira fernar tylptir manna. þat eru tólf menn ór fjórðungi hverjum es lögrèttusetu eigu ok lögsögumaðr umb fram, svá at þar skulu ráða lögum ok lofum: þeir skulu allir sitja á miðpalli ok þar eigu byskopar várir rúm. þeir menn tólf eigu lögrèttusetu ór Norðlendingafjórðungi es fara með goðorð þau tólf es þar váru þá höfð es þeir áttu þing fjögur enn goðar þrír í hverju þingi. enn í öllum fjórðungum öðrum þá eigu menn þeir níu lögrèttusetu ór fjórðungi hverjum es fara með goðorð full ok forn þau es þá váru þrjú í várþingi hverju es þing váru þrjú í fjórðungi hverjum þeira þriggja; enda skulu þeir allir hafa með sèr mann einn ór þingi hverju hinu forna svá at þó eignisk tólf menn lögrèttusetu ór fjórðungi hverjum. enn forn goðorð Norðlendinga öll eru fjórðungi skerð at alþingisnefnu við full goðorð önnur öll á landi hèr. þat es ok umb þá menn alla es svá eigu lögrèttusetu sem nú vas tínt. at þeira hverr á at skipa tveim mönnum í lögrèttu til umbráða með sèr, öðrum fyrir sèr enn öðrum á bak sèr, ok sínum þingmönnum: þá verða pallar skipaðir til fulls ok fernar tylptir manna á hverjum palli. — Engir menn skulu sitja fyrir innan palla þá es lögrètta es rudd nema þeir es mál eigusk við — enn sitja ávallt þess á milli, ok á lögsögumaðr at skipa rúm þat. út frá pöllum á alþýða at sitja. þeim einum mönnum es rètt at standa upp at lögrèttu, þá es þar skal kæra lög eða lof, es umb mál manna skulu mæla ok þeim öðrum es yztir eru þeira es þar eru komnir. útlagr es hverr þrimr mörkum es

eigi görir svá, ok á sá sök es vill. Enn ef menn troðask svá mjök at lögrèttu fyrir öndkost eða göra þar hrang þat eða háreysti at fyrir því afglapask mál manna ok varðar þat fjörbaugsgarð sem öll þingsafglöpun. Ef þeir menn koma til lögrèttu es þar eigu setur enn aðrir hafa sezk í rúm þeira þá skulu þeir beiða sèr rúma ok es hinum vítislaust ef þeir ganga þá í braut. enn ef þeir híra við þá es rúms es beitt ok varðar þat þriggja marka útlegð. þá skal eigandi beiða setu sinnar með vátta ok varðar þat fjörbaugsgarð ef þá es varnat. þat eru allt stefnusakar ok skal kveðja níu heimilisbúa þess es sóttr es til fjörbaugssaka enn fimm til útlegðar. — þat es ok at lögrètta skal út fara drottinsdaga báða í þingi ok þinglausnadag ok ávallt þess í milli es lögsögumaðr vill eða meiri hlutr manna ok í hvert sinn es menn vilja ryðja lögrèttu. þar skulu menn rètta lög sín ok göra nýmæli ef vilja. þar skal beiða mönnum sýknuleyfa allra ok sáttaleyfa þeira allra es einkalofs skal at beiða ok margra lofa annarra svá sem tínt es í lögum. þat skal allt metask svá í lögrèttu sem lofat sè es engi maðr neitir sá es lögrèttusetu á enda veri engi lýriti fyrir utan lögrèttu. Hverr maðr þeira es lögrèttusetu á skal göra annat tveggja umb leyfi hvert at játa eða níta; útlagr es hann ella þrimr mörkum. Ef menn biðja lofa í lögrèttu svá at þeir menn eru úgörla þar komnir eða á braut gengnir es lögrèttusetu eigu enn þó eru fernar tylptir manna eða fleiri þá má lögsögumaðr skipa því liði í rúm þeira manna es setur eigu til fulls ok útlagask hverr es synjar þess. nú verðr miðpallr alskipaðr þá skal lögsögumaðr nefna sèr vátta 'í þat vætti' skal hann kveða 'at þessir sitja allir í 'lögrèttu at mínu ráði ok rèttir til þess at fylla lög ok 'lof: nefni ek þetta vætti at lögum hveim es njóta þarf'. enda skulu þá verða lof öll jafnföst þar sem goðar sæti sjálfir ok fyrir þeim einum skulu hinir upp rísa es áðr

sátu. — þat es ok at þat skulu lög vesa á landi hèr sem á skrám standa. enn ef skrár skilr á ok skal þat hafa es stendr á skróm þeim es byskopar eigu. nú skilr enn þeira skrár á þá skal sú hafa sitt mál es lengra segir þeim orðum es máli skipta með mönnum. enn ef þær segja jafnlangt ok þó sitt hvár þá skal sú hafa sitt mál es í Skálaholti es. þat skal allt hafa es finnsk á skró þeiri es Hafliði lèt göra nema þokat sè síðan enn þat eitt af annarra lögmanna fyrirsögn es eigi mæli því í gegn ok hafa þat allt es hitzug leifir eða glöggra es. Nú þræta menn umb lögmál ok má þá ryðja lögrèttu til ef eigi skera skrár ór. enn svá skal at því fara at beiða með vátta goða alla at lögbergi ok lögsögumann at þeir gangi í lögrèttu ok í setur sínar 'at greiða lögmál þetta 'svá sem hèðan frá skal vesa: beiði ek lögbeiðing' skal sá kveða es reyna vill. ef nökkurir þeir menn es setur eigu göra eigi ganga í rúm sín es þeir vitu at lögrèttu skal ryðja ok varðar þat fjörbaugsgarð sem önnur þingsafglöpun — enda es rètt at telja goðann þá hvern útlagan þrimr mörkum ok ór goðorði sínu; þat varðar ok allt slíkt hit sama þeim mönnum öllum es lögrèttusetu eigu at gegna at lögrèttu þeiri sem þá skylda lög til. á lengr es goðar koma í setur sínar þá skal hverr þeira skipa manni á pall fyrir sik enn öðrum manni á hinn yzta pall á bak sèr til umbráða. síðan skulu þeir menn es þar eigusk mál við tína lögmal þat es þá skilr á ok segja til þess hvat í deilir með þeim. þá eigu menn síðan at meta mál þeira til þess es þeir hafa ráðinn hug sinn umb þat mál ok spyrja síðan alla lögrèttumenn þá es á miðpalli sitja [at skýra þat] hvat hverr þeira vill lög umb þat mál. síðan skal hverr goði segja hvat lögin mun kalla ok með hvárum hverfa at því máli, ok skal afl ráða. enn ef þeir eru jafnmargir lögrèttumenn hvárirtveggju es sitt kalla lög hvárir vesa þá skulu þeir hafa sitt mál es lögsögu-

maðr es í liði með. enn ef aðrir eru fleiri þá skulu þeir ráða, ok skulu hvárirtveggju vinna vèfangseið at sínu máli ok fela undir eið sinn at þeir hyggja þat vesa lög umb þat mál sem þeir fylgja at ok kveða á af hví þat sè lög. nú es nökkurr lögrèttumaðr svá sjúkr eða sárr at sá má eigi úti vesa þá skulu þeir hvárirtveggju sœkja orð hans til búðar ok segja hvat í deilir með þeim; enn hann skal eið vinna slíkan sem aðrir ok kveða á þat með hvárum hann vill hverfa. enn ef þá es lögrèttumaðr nökkurr úmáli eða úviti eða andaðr es þessa máls þarf ok skal sá maðr í stað hans es dómnefnu átti upp at taka ef hans væri þá við misst. nú lýsa lögrèttumenn hug sinn ok verða þeir tólf eða fleiri es lið hafa minna þá skulu þeir es færi eru saman vinna eiða at sínu máli. þá verða hinir es lið hafa meira ok skyldir at vinna eiða at sínu máli svá at þeir sveri manni fleiri eða tveimr hit fæsta ef lögsögumaðr es í hinni minni sveit; enn ef þeir metask eiða við í hinu meira liði ok skulu þeir hluta með sèr nema þeir vili allir sverja. nú verða þeir færi saman enn tólf es lið hafa minna þá eru þeir þegar af sínu máli ok eru engir menn ór hinu meira liði þá skyldir at vinna eiða at móti eiðum þeira es færi eru saman enn tólf. ef þeir eru nökkurir lögrèttumenn es með hvárungi látask vesa munu eða varna þeir annarra skila umb þau mál ok varðar þat allt slíkt sem áðr vas tínt, ok á sá þeira sakar þær es þar eigusk mál við es heldr vill sœkja til fullra laga. enn ef hvárrgi vill sœkja þá á sök þá hvarr es vill. enda skal lögsögumaðr skipa rúm þeira manna es þar göra lögskil fyrir sek ok taka mann ór várþingi því es glöpin kömr ef þat má; enda varðar þá hverjum fjörbaugsgarð es synjar þess. enn ef lögsögumaðr kann þar eigi menn fyrir í þá sveit þá skal hann beiða samþingisgoða þess es skila varnar at þeir fái honum mann í stað svá at þá megi í því fylla lögrèttu ok varðar þá

slíkt þeim es þess synjar sem hinum es glöp görði. nú vill engi samþingisgoðanna skil göra þá skal beiða manna í annat þing ok í hit þriðja ef eigi fæsk áðr; enda eigu þá jafnmikit þeira orð at standask sem annarra lögréttumanna. þat es ok at (einn) hverr maðr skal tína við vátta lögmál þat es afl fæsk til enn allir skulu samkvæði gjalda á. síðan skal upp segja at lögbergi. þat es ok skylt þeim mönnum öllum es lögréttusetu eigu at fylla uppsögu ávallt es lögsögumaðr vill lög upp segja hvárt sem þat es at lögbergi eða í lögréttu ok þótt í kirkju sè ef veðr es úsvást úti. enn ef nökkurir lögrèttumenn hafa eigi tóm til þess þá skulu þeir menn tveir heyra á uppsögu fyrir hvern þeira es til þess eru teknir af þeim at sitja á pöllum í lögrèttu. nú es at hvárugi gaumr gefinn þá megu ekki standask þeira lögrèttumanna orð es svá skipa á sama sumri þar es umb þat lögmál es þrætt es þá vas upp sagt enda varðar þriggja marka útlegð ok eigu aðrir lögrèttumenn sök þá ok skal stefna at lögbergi ok kveðja til heimilisbúa fimm þess es sóttr es. Enn lögsögumaðr á at skipa lögberg ok útlagask þeir þrimr mörkum es at úlofi hans sitja þar. nú bjóða menn þau úskil lögsögumanni at láta hann eigi ná setu sinni eða þá menn es hann hefir einnefnda til þess at sitja at lögbergi með sèr ok varðar þat fjörbaugsgarð ok skal þat sœkja sem aðra þingsafglöpun. — þess es lögsögumaðr skyldr at segja öllum þeim es hann spyrja hèr lögmál bæði hèr ok heima enn esat hann framar skyldr sakráða við menn. Hann skal ok upp segja þingsköp hvert sumar ok aðra þáttu alla svá at þeir verði upp sagðir á þrimr sumrum hverjum ef meiri hlutr manna vill hlýtt hafa. föstudag hinn fyrra í þingi skal þingsköp ávallt upp segja ef menn hafa tóm til at hlýða. þat varðar allt þriggja marka útlegð lögsögumanni ef hann eysir eigi af hendi þau skil öll es hann es skyldr til at

nauðsynjalausu ok á sá maðr þá útlegð hálfa es sœkir enn hálfa dómendr. enn ef lögsögumaðr görir þau úfjöt nökkur es meiri hlutr manna vill kalla þingsafglöpun ok varðar honum þat fjörbaugsgarð. þat es ok at á því einu várþingi á hann útlegðir es hann heyr sjálfr.

3. UM ERFÐIR.

Ef maðr andask á Saxlandi eða sunnar at þat fė skal eigi láta virða áðr þat kömr til Danmarkar. enn ef þar es hætt fė hans eða fjörvi þá skal í Noregi. Ef maðr andask á Englandi eða í Eyjum vestr eða í Dýflinni at þat fė skal eigi virða áðr hann kömr þar es úhætt sė fė hans ok fjörvi. Nú kömr hann í Noreg með fėt ok es annarr maðr þar skyldri þá skal hann láta út ganga fėt at lögum. hann skal hafa ávöxtinn allan þann es orðinn es þangat til hvargi es hann tók. Ef maðr ferr út af Danmörk eða af öðrum löndum enn ór Noregi með dánarfė ok treystisk hann eigi at láta virða fėt þá skal hann heimta til skipverja þá es hann vill þegar er þeir eru í haf komnir ok segja þeim hvė mikit fė þat es ok nefna vitni at því at hann tekr fė þat til ábyrgðar, ok eignask hann þá vöxtu á fėnu slíka sem hann tœki í Noregi at lögum ef hann fær þann kvið at hann myndi virða láta fė þat ef hann kvæmi til Noregs ok vissi hann þat at hann myndi ná út at hafa fyrir Noregsmanna sökum.

# XXXVII.

## ÚR VÖLUSPÁ.

---

1. H*ljóðs bið ek allar*
*helgar kindir,*
*meiri auk minni*
*mögu Heimdallar:*
"*uıldo*" *at ek* "*ualfavþ*"
*vel fur* telja
*fornspjöll* fíra
þau es fremst *umb man.*
2. *Ek man jötna*
ár umb borna
þá es forð*um*
mik fœdda höfðu;
níu man ek heima,
níu *íviði*,
mjötvið mœran
*fur* mold neðan.
3. Ár vas alda
þar es Ýmir byggði,
vasa sandr nė sær
nė svalar unnir,
jörð fannsk æva
nė upphiminn,
gap vas ginnunga
enn gras hvergi.
4. *Áðr Burs* synir
bjöðum umb yppðu,
þeir es Miðgarð
mœran skópu:
sól skein sunnan
*á* salar steina;
þá vas grund gróin
grœnum *lauki.*
5. Sól varp sunnan,
sinni mána,
hendi hinni hœgri
*umb* himin"*ıodýr*" - - -

---

**1—16:** **RH.** 2 - - - *kındır* **R.** 5 *uıldo* ⌣ *uıldu* **R**; *villtv* **H.** *ualfavþ* § vafọdrſ **H.** 6 *fur* § fram **H.** 8 *es* § *er* ek **H.** 14 *íviði* § *ıuıdıur* **H.**

**17—24:** **RHruw.** 17 alda § halda **r.** 18 þat (þar u) er ekki var ✻ **ruw.** 20 unnir § vnd[7] u. 21 æva § ė r, ēı u. 24 gras hvergi § gras (gs — ¿ ɔ: grass? — r) ekki ✻ **Hrw.**

**25—36:** **RH.** 25 *Burs* § borſ **H.** 26 bjöðum = bıoðō **R**, bıọðū **H.** 27-28 miðgarð mœran (mœran = mọran ∽ mọtan **R**) § m⌒⌒ mıðgarð **H.** 36 of - - - ıo*dur* ⌣ of - - - ıo*dor* **H.**

6. - - - sól þat nė vissi
hvar hón sali átti,
stjörnur þat nė vissu
hvar þær staði áttu,
máni þat nė vissi
hvat hann megins átti.

7. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilug guð,
auk umb þat gættusk - - -

8. - - - nátt auk niðjum
nömn umb gáfu,
morgin hėtu
auk *miðjan* dag,
undurn auk aptan —
árum at telja.

9. Hittusk æsir
*á Iðavelli*,
*þeir* es hörg auk hof
hátimbruðu,
afla lögðu,
auð smíðuðu,
*tangir* skópu
auk tól görðu.

10. Tefldu í túni,
teitir váru,
vas þeim vettugis
vant úr gulli —
unz þrjár kvámu
þursa mayjar,
ámá*tt*kar mjök,
úr Jötunheimum.

11. Þá g. r. ——————:
hverr skyldi dverga
drótt of skepja
úr brimi blóðgu
auk úr Bláins leggjum.

12. Þar vas Móðsognir
mæztr umb orðinn
dverga allra,
enn Dúrinn annarr:

---

**37—42**: **RHruw**. 39-42 máni þ. nė v. h. h. m. á., stjörnur þ. nė v. h. þ. s. á. * **ruw**.

**43—68**: **RH**. 55-56 afls kostuðu, *alls freis*tuðu * **H**.

**69—73**: **RHruwx**. 70 * **R**, **u** (SnE. II $260_3$), **w**, **x**; at s. d. * **r**, **u** (SnE. II $260_1$); hv7er ſkýlldv du7gar **H**. 71 dooot of ſkepıa **r**, drott of ſkepıa (∽ ſkegıa) **w**, drott vf (⌣ vp) ſkeggía **x**, drot v̄ ſpekıa **u**; *drott7 ſkepıa* **H**; drotın ſcepıa **R**. 72 or b1mıſ bloðı **R**. 73 z or bla- | enſ leggıū. **w**, z ur blaenſ leggíum. **x**, ok or blaınſ (⌣ blamſ) leggıv*m* **H**, z blám8 leǵıv̄. **u**, z or blam ſleǵıv̄. **r**; z or blám (⌣ blam) leǵıō **R**.

**74—77**: **RH**. 74 þar *mot* | ſogn7 **R**. (75 orðinn * 264-65 sá es undinn salr orma hryggjum.)

þeir mannlíkun
mörg umb görðu
dvergar í jörðu,
sem Dúrinn sagði. ———
13. Mál es dverga
í Dvalins liði
ljóna *k*indum
til Ló́fars telja —
þeir es sóttu
frá salar steini
aurvanga sjöt
til Jöruvalla.
14. ——— þat man uppi,
meðan öld *lifir*,
langniðj*a* tal
*L*ófars hafat - - -
15. Unz þrír kvámu
*úr þí liði*
öflgir auk ástkir
æsir at húsi —
funðu á landi
lítt *megandi*
*Ask auk* Emblu
örlöglausa.
16. Önd þau nė áttu,
óð þau *nė* höfðu —
lá *nė* læti,
nė litu góða:
önd gaf Óðinn,
óð gaf *Hœnir*,
*lá gaf* Lóðurr
auk litu góða.
17. Ask veit ek standa —
heitir Yggdrasill
hár baðmr — ausinn
hvíta auri:
þaðan kuma döggvar
þærs í dala falla:
stendr æ yfir grœnn
Urðar brunni.
18. þaðan kuma mayjar
margs vitandi
þrjár, úr þeim sæ
es und þolli stendr - - -

---

**78—81**: **RHruwx**. 78 þeir § þar * **r**, **w** (þar), **x**. mannlíkun § manlıkan **H**. 79 mörg of (af x) görðuz * **rwx**. 80 dvergar § dūga **H**. í § or **R**. jörðu § ıorðū **w**, íordum **x**. 81 ſem þeım dýrınn kendı. **u**.

**82—109**: **RH**. 86 þeir § þm̄ **H**. 88 avrvanga *ſıavtt* **R**, ǫrvanga ſıǫt **H**. 90 man § man æ **H**. 94 þrír > þrıár (**R**), *þrıar* (**H**). 95 *þulla brud'* **H**. 96 * **R** (ástkir > aſtgır); aaſtk ok ǫflg **H**. 101 orlavg lavſa **R**, orluglauſa **H**.

**110—17**: **RHruwx**. 110-13 Ask ——— Yggdrasill, hár, borinn, heilagr, hvíta auri * **u**; A. v. ek ausinn — heitir Yggdrasill (yggd"ſılſ **r**) hár baðmr heilagr — hvíta auri * **rw**(**x**). 116 ſtendr hann ǽ yf' grvɴ **r**; ſtendr | yvır greın **u**.

**118—60**: **RH**. 120 sæ § ſal **H**. 121 und § *a* **H**.

19. Urð hètu eina
aðra Verðandi
skáru á skíði
Skuld hina þriðju:
þær lög lögðu,
þær líf kuru,
alda börnum,
örlög seggja.
20. þat man hón fólkvíg
fyrst í heimi,
es Gullveig
geirum studdi - - -
21. - - - auk í höll Hárs
hana brenndu:
þrysvar brenndu
þrysvar borna —
opt, úsjaldan;
þó hón enn lifir.
22. Heiði hana hètu,
hvars til húsa kvam,
"úolo uel ſpá":
"uıttı" hón ganda;
seið hón kunni —
"ſeıþ ho leıkın";
æ vas hón angan
illrar brúðar.

23. þá g. r. ——— :
hvárt skyldu æsir
afráð gjalda
eðr skyldu guðin öll
gildi eiga.
24. Flaygði Óðinn
auk í fólk umb skaut:
þat vas enn fólkvíg
fyrst í heimi.
brotinn vas borðveggr
borgar ása.
knáttu Vanir vígspá
völlu sporna.
25. þá g. r. ——— :
hverr hefði lopt allt
lævi blandit,
eða ætt jötuns
Óðs may gefna.
26. þórr einn þar vá,
þrunginn móði;
hann sjaldan sitr
es hann slíkt umb fregn:
á gengusk eiðar,
orð auk sœri —
mál öll meginlig
es á meðal fóru.

---

129 ǫrlǫg *at ſegıa* **H.** 133 studdi § ſtvddv **R.** 142 *ok* vǫlu vel ſpa **H.** 143 uıttı § uıtı **H.** 144 ſeıd hon hvarſ hon kunı **H.** 145 * **R** (ſeıþ ⌣ ſeıþ); ſeıð h° *hvgleı|kın* **H.** 146 angan **R**; angan*n* **H.** 147 brúðar = þıoðar (brv). (**R**), bruðar (**H**). 156 fyrst § fyʀ **H.**

**161—73: RHruw.** 162 hverr § hvır **R.** lopt allt § lopt u. 165 Óðs § ofk u. 166-73 * **RH** (vá = *vaa* **H** [* u]; v **R.** fóru * **Rru**; *voru* **H**); Á g. e., o. ok s. — m. ö. "megınlık" er á m. f.: þórr einn þar vá, þr. m.; h. sj. s. er hann sl. of fr. * u; Agengvz eıþar orð z ſære mal avll megılıg er a | meþal forv. þoʀ

27. Veit hón Heimdallar
hljóð umb fólgit
undir heiðvönum
helgum baðmi.
á sèr hón ausask
aurgum forsi
af veði Valföðrs.
vituð èr enn eða hvat?
28. Ein sat hón úti
þá es hinn aldni kvam
yggjungr ása
auk í augu leit - - -
29. - - - hvers fregnið mik?
hví freistið mín? - - -
30. Allt veit ek Óðinn
hvar þú auga falt:
í hinum mœra
Mímis brunni.
drekkr mjöð Mímir
morgin hverjan
af veði Valföðrs.
vituð èr enn eða hvat?
31. Valdi henni Herföðr
hringa auk men,
"fe ſpıoll ſpaclıg
"z ſpa | ganda" - - -
sá hón vítt auk umb vítt
of veröld hverja.
32. Sá hón valkyrjur
vítt umb kumnar,
görvar at ríða
til guðþjóðar - - -
33. Skuld hèlt skildi
enn Skögul önnur —
Gunnr, Hildr, Göndul
auk Geirskögul.
nú eru talðar
nönnur H*er*jans,
görvar at ríða
grund, valky*r*jur.
34. Ek sá Baldri,
blóðgum "tıvor",
Óðins barni,
örlög fólgin:
stóð umb vaxinn
"vollo" hæri
mjór auk mjök fagr
mistilteinn.
35. Varð af þeim meiði,
es mèr sýndisk,

---

eın þat vaɴ þrvngın moþı. hann ſıaldan ſıtr er hann | ſlıkt of fregn. r; - - - þorr æın̄ þat va (< vann) þrvngín̄ moðı hann ſıalldan | ſıtr er hann ſlıkt of fregn. w.

**174—81:** **RH.** 179 aurgum = avrgō (**R**), ǫ*rg*ū (**H**).

**182—87:** **R.**

**188—95:** **Rruwx.** 189 þú § á r. 190 í § í þeim * u; vr þeım r (* drekkr 192). 191 Mímis § mímıſ x. 192 mjöð § moð (ɔ: möð ɔ: mjöð) r. Mímir § mín⁷ x. 194 Valföðrs § v. **R**; valſfavþ u.

**196—237:** **R.**

harmflaug hættlig:
Höðr nam skjóta.
Baldrs bróðir
vas of borinn snimma:
sá nam Óðins sunr
einnættr vega.
36. Þó hann æva hendr
nė höfuð kembði
áðr á bál umb bar
Baldrs andskota.
Enn Frigg umb grėt
í Fensölum
vá Valhallar.
vituð ėr enn eða hvat?
37. Hapt sá hón liggja
undir hvera lundi
"læ|gıarn lıcı"
Loka áþekkjan.
þar sitr Sigyn
þaygi umb sínum
ver vel glýjuð.
vituð ėr enn eða hvat?
38. Á fellr austan
umb eitrdala
söxum auk sverðum:
Slıðr heitir sú - - -
39. Stóð fur norðan
á Nıðavöllum
salr úr gulli
Sindra ættar.
enn annarr stóð
á "okolnı" —
bjórsalr jötuns;
enn sá Brımir heitir.
40. Sal sá hón standa
sólu fjarri
Náströndu á —
norðr horfa dyrr:
fėllu eitrdropar
inn umb ljóra:
sá es undinn salr
orma hryggjum.
41. Sá hón þar vaða
þunga strauma
menn meinsvara
auk morðvarga

---

**238—41**: **R.** § þa kna vala víg*bond* (⌣ víg*deıld*) ⌒⌒|ua helldr v̊ harðgıor hǫft or þǫrmū **H.**

**242—45**: **RH.**

**246—57**: **R.** 251 = amþa fi̥ollō (* Gylfaginning 52).

**258—69**: **RHruwx.** 258 sá hón § *li*⌒⌒ hon **H**; veit ek * **ruw** (258 Salr veıt e^c [ſt^ndạ <] ſtendr **x**). 260 náſtravndv̄| á **u.** 261 nord² dyr horfa. **x.** 262 fėllu § falla * **Hruwx.** 266-69 Sa h́o þar —— m̄ m̈ord vargar*α* | meinſ vara z. **R**; Ser hon þar ———— m̄n meın ſvara ok morð*v* ⌣⌣|⌣⌣ **H**; — Skulu þar———— menn meinsvara ok morðvargar (mord úga x) * **rwx**; Skolv þar ————meṅ meınſvarar z morþıng*ar*. **u.**

*α*) ⌣ vargar˙·

auk þanns annars glepr
ayra rúnu - - -
42. - - - þar saug Niðhöggr
nái fram gengna;
sleit vargr vera.
vituð ėr enn eða hvat?
43. Austr sat hin aldna
í Járnviði
auk fœddi þar
Fenris kindir.
verðr af þeim öllum
einna nakkvarr
tungls tjúgari
í trölls hami.
44. Fyllisk fjörvi
feigra manna,
rýðr ragna sjöt
rauðum drayra:
svart var þá sólskin
umb sumur eptir —
veðr öll válynd.
vituð ėr enn eða hvat?
45. Sat þar á haugi
auk sló hörpu
gýgjar hirðir
"gladr egþę́r":
gól umb hánum
í gaglviði
fagrrauðr hani
sá es Fjalarr heitir.
46. Gól umb ásum
Gullinkambi:
sá vekr hölða
at herja föðrs.
enn annarr gelr
fur jörð neðan
sótrauðr hani
at sölum Heljar.
47. Gayr Garmr mjök
fur Gnípahelli.

---

**270—71:** **RH.** 271 eýrna runa **H.**

**272—73:** **RHruwx.** 272 þar § þa **r.** saug * **R** (ſv́g), **H** (ſavg); kvelr * **ruwx.** 273 gengna § gēga **r.**

**274—75:** **RH.**

**276—91:** **RHruw.** 276 sat § býr * **Hruw.** aldna § arma **u.** 277 ^^^ıarnvıðı **H**, ı ıánvıðıu **w.** 278 fœddi § fœðir * **Hruw.** 281 einna § ıma **u.** 282 tjúgari § ^^^ | *garı* **H**, t̊garı **u.** 288 svört verða sólskin * **Hruw.** 290 veðr oll ualvnd **w**, v⁷þr | avll valv̄d **r**, v⁷þr oll va. ly. **u.** 291 uıtv þ⁷ eın̄ en̄ ędr hvaı **H**; v. eınn z. h. **u.**

**292—315:** **RH.** 295 glaðr egd⁷ **H.** 296 gol ẏf⁷ - - - **H.** 297 ıgalguıdı **H.** 299 *en* ⌣ *en̄* | ^^^^ *lań heıt⁷* **H.** 300 umb § yf⁷ **H.** 302 ſa uecr havlþa at hıarar **R.** 304 gelr § ^^^ **H.** 309 Guípahelli § *gnup*^. | hellı **H.**

Festr man slitna
enn freki rinna.
Fjölð veit hón frœða,
fram sè ek lengra,
umb ragnarök
römm sigtíva.

48. Brœðr munu berjask
auk at bönum verðask.
munu systrungar
sifjum spilla - - -

49. Hart es í heimi —
hórdómr mikill,
skeggöld, skálmöld,
skildir ru klofnir,
vindöld, vargöld —
áðr veröld staypisk:
man engi maðr
öðrum þyrma.

50. Leika Míms synir
enn mjötuðr kyndisk
at hinu gamla
Gjallarhorni - - -

51. Hátt blæss Heimdallr —
horn es á lopti.
Mælir Óðinn
við Míms höfuð - - -

52. Skelfr Yggdrasils
askr standandi —
ymr hit aldna trè;
enn jötunn losnar - - -

53. - - - "*hrædaz allır*
"*a helvegū*
"*aadr* ^^^ | ^^^
"*ſ*^^^ *of gleyp*[7]".

54. Hvat es með ásum?
hvat es með álfum? - - -

---

312 frœða = froða (R). 312-13 fram̄ ſe ek lengr^^|fiǫlð kan̄ ek ſegıa H. 315 sigtíva § ſigtẏva R.

316—25: RHruw. 317 verðask § verða * Ru. 320 í heimi § með höldum * rw. 322 skeggöld = ſceɢ avld (R), Skeɢ olld (u), ſkeggǫll (H); ſkeɢıolld (r), ſkeggıǫlld (w). 323 ru klofnir (= ro klofn[7] R) § klofna u, klofnir * Hrw. 325 áðr § vndz u.

326—27: RHu. 326 man § grund[7] gıalla gıfr flıugandı man H.

328—31: RH. 329 mjötuðr = mıotvðr (R), mıǫtvðr (H). 330 hinu gamla (= hínv gamla H) § en (< enu) galla R.

332—39: RHruwx. 332 blæss § blıeſ x. 333 horn er alopt|r. 334 Mælir § mer (∽ mey) r. 335 Míms § mımıſ u, mímínſ x. 336-39 ymr ıþ aldna tre eɴ ıotvɴ loſnar ſcelfr yɢdraſılſ aſcr ſt-| andandı. R. 338 aldna § *alna* r, alna u. 339 æſır ev[7] | a þıngı. u (* 347).

340—43: H.

344—45: RHruwx. 345 hvat m; aſẏnıv̄. u. — 344-68 § 352-68, 344-51 R.

55. Gnýr allr Jötunheimr.
Æsir ru á þingi - - -
Stynja dvergar
fur steindurum
veggbergs vísir.
vituð ėr enn eða hvat?
56. Gayr nú G._____ - - -
57. Hrymr ekr austan,
hefisk lind fyri.
Snýsk jörmungandr
í jötunmóði:
ormr knýr unnir;
enn ari hlakkar —
slítr nái nefför.
Naglfar losnar.
58. Kjóll ferr austan:
kuma munu Muspells
umb lög lýðir;
enn Loki stýrir.
fara fíflmegir
með freka allir.
þeim es bróðir
"bý leipz" í för.
59. Surtr ferr sunnan
með sviga lævi:
skínn af sverði
sól valtíva.
grjótbjörg gnata
enn gífr hrata;
troða halir helveg;
enn himinn klofnar.
60. Þá kömr Hlínar
harmr annarr fram,
es Óðinn ferr
við úlf vega
— enn bani Belja

---

**346—47:** **RHrwx.** 346 Gnýr § ýmr **r.** 347 ✻ **u** 339.

**348—49:** **RHruwx.** 348 ſtyma - - - **x.** 349 steindurum § steindyrum ✻ **Hwx,** ſteinſ dyrv̄ **u.**

**350:** **RHrwx.** vegg = veɢ (**Rr**), veg (**H**), ueg (**wx**).

**351:** **RHruwx.**

**352:** **R(H).**

**353—68:** **RHrwx.** 354 hefisk = hefız (**Rrw**), *hęfız* (**H**), hefízt (**x**). 357 knýr § kyʀ **r.** 358 avrn mv̄ hlacka **r.** 359 neffölr § nıðfölr ✻ **rwx,** *¿nauðfǫlr?* **H.** 362 Muspells § mvſfelz **x.** 365 fara § þaŕo **r.** fíflmegir § fıflſ meg̃ **R.** 368 bẏ leıpz **R,** bẏle°°ız **r,** *bẏleıſtz* **H.** bẏleıſtz **w,** bẏleízt **x.**

**369—76:** **R, H,** r*αβ*, **u**(*α*), **w***αβ*, **x**(*β*). 369 Surtr § Svartr **u.** 370 lævi = lævi (**w***α*) = læ-|ví (**w***β*) = *¿levı?* (**H**) = levı (**u**) = leıvı (**r***α*) = lęfı (**R**) = læfí (**x**) = leıfı (**r***β*). 374 gífr § gvþ́ **u.** hrata § rata **R,** **r***αβ*, **w***α*, (**H**).

**377—84:** **RHrwx.** 378 harmr § hamr **rw.**

bjartr at Surti —:
þar man Friggjar
falla angantýr.
61. Þá kömr hinn mikli
mögr Sigföður
Viðarr vega
at valdýri:
lætr hann megi hveðrungs
mund umb standa
hjör til hjarta —
þá es hefnt föður.
62. Þá kömr hinn mœri
mögr "hlodyniar":
gengr Óðins sunr
við orm vega;
drepr hann af móði
miðgarðs vèurr.
munu halir allir
heimstöð ryðja.
63. - - - gengr fet níu
Fjörgynjar burr
neppr frá naðri
niðs úkvíðnum.
64. Sól tèr sortna,
sígr fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjörnur:
geisar eimi
auk aldrnari,
leikr hár hiti
við himin sjálfan.
65. Gayr nú G. ——— ---
66. Sèr hón upp kuma
öðru sinni
jörð úr œgi
iðja grœna:
falla forsar,
flýgr örn yfir
sá es á fjalli
fiska veiðir.
67. Finnask æsir
á Iðavelli

---

383 þar § þa **R**. 384 angantýr = angan | tyr **R**; angā **r**, angan̄ **wx**, ∼∼∼ **H**.

**385—404**: **Rrwx**. 385—87 * **R**; Gengr Óðins soṇ við úlf vega (* 395-96), Viðarr (= viþar **r**, viðrr **w**; — uí | d² **x**) of veg * **rwx**. 389 hveðrungs § hveðrvgſ **r**. 391 hjör § hior **r**. 393 þá kömr § Gengr * **rwx**. 394 hlodyniar **R**, *hl*odýníar **x**, hloðýníar **w**, hlǫðyniar **r**. 395-404 * **R** (orm > ulf; vèurr = uęor); — neppr af (at **r**) naðri niðs ókvíðnum (o kníd^m **x**): munu halir (hall⁷ **r**) allir heimstöð (heim ſteið **r**) ryðja, er af móði drepr Miðgarðs vèurr (veor **r**, veoꝛ **w**, u*eor* **x**) * **rwx**.

**405—12**: **RHruwx**. 405 tèr (= ter **R**) § oocr ⌣ oocr **H**, mun * **ruwx**. 406 ſigrfolldıñar. **u**. sígr § sökkr * **ryx**. í mar § uñar **x**. 408 heiðar § heiðum * **wx**. 410 viþ aldr nara **R**.

**413—25**: **RH**. 422 Finnask § Hittaz **H**.

auk umb moldþinur
máttkan dœma
auk minnask þar
á megindóma
auk á Fimbultýs
fornar rúnar.
68. Þar munu eptir
undrsamligar
gullnar töflur
í grasi finnask
þærs í árdaga
áttar höfðu - - -
69. Munu úsánir
akrar vaxa,
böls man alls batna,
Baldr man kuma:
búa þeir Höðr auk Baldr
Hropts sigtoptir
vel valtívar.
vituð ėr enn eðr hvat?
70. Þá kná Hœnir
"hlavt vıþ" kjósa - - -
auk burir byggva
brœðra tveggja
vindheim víðan.
vituð ėr enn eðr hvat?
71. Sal sėr hón standa
sólu fegra
gulli þakðan
á Gimli - -.
þar skulu dyggvar
dróttir byggva
auk umb aldrdaga
ynðis njóta.
72. Þá kömr hinn rí*ki*
*at* regindómi
öflugr ofan
sá es öllu ræðr - - -
73. Þar kömr hinn dimmi
dreki fljúgandi
naðr fránn neðan
frá Nıðafjöllum:
berr sėr í fjöðrum
— flýgr völl yfir —
Nıðhöggr nái.
Nú man hón sökkvask.

---

**426—27: H.**

**428—49: RH.** 430-33 þá munu æsir undrsamligar——í grasi finna * **H.** 439 man Baldr koma * **H.** 442 vel uelltıfar **H.** 445 hlavt vıþ **R**; hlutvıð **H.** 446 auk § er **H.**

**450—57: RHruwx.** 450 sèr hón § veit ek * **ruwx.** 452 þakðan § bet" r. 453 = agımlé. (**R**), agımle ? (r), a gımle (**H**), a gímle (w), aa | gímle (x), a gīle (u). 454 þar § þann * wx.

**458—61: H.**

**462—69: RH.** 462 þar kömr § Kemr **H.** 465 frá § ~~~ **R.** Nıðafjöllum = nıþa (∽ nıþız) fiollō (**R**); nıda - - - **H.** 469 = nv m̌ h̊ ſeycq̊z **R**, nv man hon ſǫkk | vaz **H.**

# XXXVIII.

## ÚR HÁVAMÁLUM.

---

1. Vits es þörf
þeims víða ratar —
dælt es heima hvat:
at auga bragði verðr
sá es ekki kann
auk með snotrum sitr. -

2. Hinn vari gestr
es til verðar kömr
þunnu hljóði þegir,
ayrum hlýðir
enn augum skoðar:
svá hnýsisk fróðra hverr fyri.

3. Hinn es sæll
es sèr umb getr
lof auk líknstafi:
údælla es við þat
es maðr eiga skal
annars brjóstum í.

4. Sá es sæll
es sjálfr umb á
lof auk vit meðan lifir;
því at ill ráð
hefir maðr opt þegit
annars brjóstum úr.

5. Byrði betri
berrat maðr brautu at
enn sè manvit mikit:
auði betra þykkir þat
í úkunnum stað;
slíkt es válaðs vera.

6. Vegnest verra
vegra hann velli at
enn sè ofdrykkja öls;
því at færa veit
es fleira drekkr
síns til geðs gumi.

7. Úminnis hegri heitir
sá es yfir öldrum þrumir —
hann stelr geði guma:
þess fugls fjöðrum
ek fjötraðr vask
í garði Gunnlaðar.

8. Ölr ek varð
— varð ofrölvi —
at hins fróða Fjalars:
því es öldr baztr,
at aptr umb heimtir
hverr sitt geð gumi.

9. Þagalt auk hugalt
skyli þjóðans barn
auk vígdjarft vesa;
glaðr auk reifr
skyli gumna hverr
unz sinn bíðr bana.
10. Úsnjallr maðr
hyggsk munu ey lifa,
ef hann við víg varask;
enn elli gefr
hánum engi frið,
þótt hánum geirar gefi. -
11. Hjarðir þat vitu
nær þær heim skulu
auk ganga þá af grasi;
enn úsviðr maðr
kann ævagi
síns umb mál maga. -
12. Úsviðr maðr vakir
umb allar nætr
auk hyggr at hvívetna;
þá es móðr
es at morgni kömr —
allt es víl sem vas. -
13. Úsnotr maðr
hyggr sèr alla vesa
viðhlæjendr vini:
þá þat finnr
es at þingi kömr,
at hann á formælendr fá. -
14. Œrna mælir
sá es æva þegir
staðlausu stafi:
hraðmælt tunga
nema haldendr eigi
opt sèr úgott umb gelr. -
15. Afhvarf mikit
es til ills vinar
þótt á brautu búi;
enn til góðs vinar
liggja gagnvegir
þótt hann sè firr farinn.
16. Ganga skal —
skala gestr vesa
ey í einum stað;
ljúfr verðr leiðr
ef lengi sitr
annars fletjum á. -
17. Vápnum sínum
skala maðr velli á
feti ganga framar;
því at úvíst er at vita
nær verðr á vegum úti
geirs umb þörf guma. -
18. Fèar síns
es fengit hefir
skylit maðr þörf þola;
opt sparir leiðum
þats hefir ljúfum hugat —
margt gengr verr enn varir.
19. Vápnum auk váðum
skulu vinir gleðjask —
þat es á sjálfum sýnst;
viðrgefendr auk endrgefendr
erusk lengst vinir,
ef þat bíðr at verða vel.
20. Vin sínum skal
maðr vinr vesa
auk gjalda gjöf við gjöf;
hlátr við hlátri

skyli höldar taka
enn lausung við lygi.
21. Vin sínum skal
maðr vinr vesa —
þeim auk þess vin;
enn úvinar síns
skyli engi maðr
vinar vinr vesa.
22. Veiztu ef þú vin átt
þanns þú vel trúir
auk vill þú af hánum gott geta:
geði skaltu við þann blanda
auk gjöfum skipta —
fara at finna opt.
23. Ef þú átt annan
þanns þú illa trúir,
vildu af hánum þó gott geta:
fagrt skaltu við þann mæla
enn flátt hyggja
auk gjalda lausung við lygi.
24. Þat es enn of þann
es þú illa trúir
auk þèr es grunr at hans geði:
hlæja skaltu við þeim
auk umb hug mæla;
glík skulu gjöld gjöfum.
25. Ungr vas ek forðum,
fór ek einn saman,
þá varð ek villr vega:
auðigr þóttumk
es ek annan fann;
maðr es manns gaman.
26. Mildir frœknir
menn bazt lifa —
sjaldan sút ala:
enn úsnjallr maðr
uggir hvatvitna;
sýtir æ glöggr við gjöfum.
27. Váðir mínar
gaf ek velli at
tveimr trèmönnum:
rekkar þat þóttusk
es þeir ript höfðu;
neiss es nökkviðr halr.
28. Hrörnar þöll
sú es stendr þorpi á,
hlýrat henni börkr nè barr:
svá es maðr
sá es manngi ann —
hvat skal hann lengi lifa?
29. Eldi heitari
brennr með illum vinum
friðr fimm daga
enn þá slokknar
es hinn sètti kömr
auk versnar allr vinskapr.
30. Mikit eitt
skala manni gefa —
opt kaupir sèr í litlu lof:
með hálfum hleif
auk með höllu keri
fèkk ek mèr fèlaga. —
31. Meðalsnotr
skyli manna hverr —
æva til snotr sè:
þeim es fyrða
fegrst at lifa
es vel margt vitu. —
32. Meðalsnotr
skyli manna hverr —

æva til snotr sė:
örlög sín viti
engi maðr fyri —
þeim es sorgalausastr sefi. -
33. Ár skal rísa
sá es annars vill
fė eða fjör hafa;
sjaldan liggjandi úlfr
lær umb getr
nė sofandi maðr sigr.
34. Ár skal rísa
sá es á yrkendr fą
auk ganga síns verka á vit:
margt umb dvelr
þanns umb morgin sefr:
hálfr es auðr und hvötum. -
35. Snapir auk gnapir
es til sævar kömr
örn á aldinn mar:
svá es maðr
es með mörgum kömr
auk á formælendr fá.
36. Ríki sitt skyli
ráðsnotra hverr
í hófi hafa:
þá hann þat finnr
es með frœknum kömr
at engi es einna hvatastr. -
37. Mikilsti snimma
kvam ek í marga staði,
enn til síð í suma:
öl vas drukkit,
sumt vas úlagat:
sjaldan hittir leiðr í lið.
38. Hėr auk hvar mundi
mėr heim umb boðit
ef þyrftak at málungi mat
eða tvau lær hėngi
at hins tryggva vinar
þars ek hafða eitt etit. -
39. Dayr fė,
dayja frændr,
dayr sjálfr hit sama;
ek veit einn
at aldri dayr —
dómr umb dauðan hvern.
40. Fullar grindir sá ek
fur Fitjungs sunum —
nú bera þeir vánar völ:
svá es auðr
sem auga bragð —
hann es valtastr vina.
41. Úsnotr maðr
ef eignask getr
fė eða fljóðs munuð:
metnaðr hánum þróask
enn manvit aldrigi —
fram gengr hann drjúgt í dul. -

---

47, 224 umb > *vf*, vf. 155 hvatvitna > hotvetna. 159 tveimr > tveĩ. 193-94 rísa sá > rı | ſa.

# XXXIX.

## ÚR HUGSVINNSMÁLUM.

---

1. Hlýði seggir,
þeir er vilja at sið lifa
ok góð verk gjöra,
horsklig ráð
þau er heiðinn maðr
kenndi sínum syni.

2. Ástsamlig ráð
kenni ek þèr, minn einka son:
mun þú þau eptir öll;
gálauss þú verðr
ef þú gleyma vilt
því er þarf horskr at hafa.

3. Þarflátr ok þakklátr
skaltu fyrir þínum guði
ok vammalauss vera.
föður ok móður
unn þú fróðhugaðr:
rœk þína alla ætt. –

4. Allra ráða
tel ek þat einna bezt
at göfga hæstan guð:
með hreinu hjarta
þú skalt á hann trúa
ok elska af öllum hug.

5. Ofsvefna láttu þik
ekki tæla:
kosta þú vakr at vera;
leti ok losta
verðr þeim er lengi sefr
auðit iðjuliga.

6. Ómálugr skal
ok í orðum stilltr
sá er vill guðs ást geta:
œðra krapt
fær maðr aldregi
enn sè tungu trúr.

7. Ýmissgjarn
ver þú aldregi:
sáttr ver þú við sjálfan þik;
seggja öngum
verðr sá samhuga
er sundrþykkiz við sik.

8. Ef at hölda lífi
hyggr þú vandliga
ok sèr þeirra siðu:
þat þú finnr,
er þú fíra reynir,
at fár er vamma varr. –

9. Hirð ei at senna,
þó þú satt vitir,
við hvassorða hali:
málskálp mikit
er mörgum gefit;
fár er at hyggju horskr. -
10. Öll tíðindi
þau er upp koma
rœð þú ei fyrstr með fírum;
betra er at þegja
enn þat at segja
sem lýðum reyniz at lygi. -
11. Metnað þinn
þó þik menn lofi
láttu ei miklaz til mjök:
hœlins orði
þarf ei hverju at trúa:
sjálfr kenn þú þik sjálfan. -
12. Ef þèr litla gjöf
gefr af lèttum hug
vinr sá er volaðr er,
þiggja þú skalt
ok þakklátr vera;
ást fylgir aums gjöfum.
13. Öreigu þína
lát þèr aldregi gjöra
harðan hugtrega:
hins þú minnst
er þik móðir bar
svo at þèr fylgdi ei fè.
14. Aldrlagi sínu
kvíði engi maðr
nè um þat önn ali:
dugir ei dagr
þeim er dauða kvíðir;
engi feigð um flýr.
15. Vinir þínir
þótt þèr verr dugi
enn þú þykkiz verðr vera:
þess vöid kennattu
þínum guði;
saka þú sjálfan þik. -
16. Fláráðs orðum
þótt hann fagrt mæli —
þarftu ei þeim at trúa.
glyslig orð láttu
í gegn koma:
gjaltu svo líku líkt. -
17. Einskis biðja
skaltu annan þess
er þú ekki þarft:
ósnotr maðr
biðr þess iðjuliga
er hann þarf hvergi at hafa. -
18. Gjafir skaltu launa
við góðan hug
þær er veittu vinir:
rækt ok elska helz
með rekka liði
þeirra er at þörfum dugaz. -
19. Örr af þèr ver þú
við ýta lið;
dugi þú vel vinum:
sá mun þrífaz
er þarfr gjöriz
sèr ok sínu liði. -
20. Ókunnum samir þèr
opt at duga
ef þú vilt vinsæll vera:
veldi betra

þykkir vitrum hal
at eiga víða vini. –
21. Litlu láni
fagni lýða hverr
ok hafi ei metnað mikinn:
í litlum polli
haldaz lengi skip
er síðan brýtr hregg í hafi. –
22. Til farsælu sinnar
skal maðr ei frètt reka
nè um þat önn ala:
guð veit bezt
hverjum hann giptu ann;
vitu þat ei fyrðar fyrir. –
23. Sjálfan sik skyldi
seggja hverr
lasta ei nè lofa:
þeir þat gjöra
er ógegnir eru
ok vilja þó heims skraut hafa.
24. Af hyggjandi þinni
vertu óhrœsinn
unz gjöraz þarfir þess:
opt at haldi
hefir ýtum komit
at leynaz spakr at speki.
25. Fègirni rangri
skaltu firra þik;
ljót er líkams munuð:
orðstír hærra
getr engi maðr
enn við syndum sjá.
26. Sögvísum hal
skaltu sjaldan trúa
þeim er með rógi rennr:
málugra manna
reynaz margar sögur
lýða kind at lygi.
27. Ofdrukkinn maðr —
þótt hann illt gjöri
er ei vorkunnar vert:
sjálfr því veldr
er hann svo drekkr
at síns geðs ei gáir. –
28. Margvitr maðr
er fyrir meinum verðr
láti sinn ei hryggjaz hug:
góðs at vænta
skal gumna hverr
þó hann sè til dauða dœmdr. –
29. Áts ok drykkju
neyt þú aldri svo
at þitt minnkiz megin:
afl ok heilsu
þarftu við allt at hafa;
lifattu mart at munuð.
30. Alþýðu róm
lasta þú aldregi
nè þat er lýðir lofa;
engum hugnaz
sá er öllum vill
gagnmálugr gjöraz. –
31. Draumum sínum
skulu ei dróttir trúa —
tæla þeir ýta opt:
sofanda þat þykkir
er sjálfr meðan vakir
œskir sèr eða óaz. –
32. Manndýrð meiri
getr ekki fyrir mold ofan

enn kenna gott gumnum:
fádyggt líf
mundu flestir hafa
ef engi bœtti yfir. –
33. Gott ráð nema
skuli gumna hverr
þótt kenni þý eða þræll:
ánauðgan mann
hygg ek opt vera
frjálsum fróðara. –
34. Fámálugr vera
skuli fyrða hverr
er at samkundum sitr:
manvits vant verðr
þeim er mart talar;
hljóðr er hygginn maðr. –
35. Fljóta raun skaltu
við flest hafa
þat er grunsamligt gjöriz:
leyndir lestir
þeir er lengi felaz
gjöra mörgum mein. –
36. Fávíss maðr
á firði staddr
ef getr ei beinan byr —
liðligra er honum
til lands at snúa
enn foldu frá. –
37. Heiptar orða
gjörstu ei hefnisamr;
heldr skaltu væginn vera:
af þeirri gœzku
máttu gjöra þèr
vísa fjandr at vinum. –
38. Miskunnsamr skaltu
við man vera,
ef þú átt þræla þèr:
jarðligt eðli
hygg ek jafnt hafi
þræll ok þjóðans mögr.
39. Ódyggra manna
skaltu aldregi
fagna bráðum bana:
hitt er sýnna
at munu sælir vera
dyggvir menn þótt deyi.
40. Hugsvinns mál lèt ek
fyrir höldum kveðin
ok kenndak rekkum ráð:
hyggins manns lýsta ek
hugar speki.
Hèr er nú ljóðum lokit.

---

88 kennattu > keña attu e. 174 lifattu > lıf attv e. 224 man = m. 226-27 ȷdlegd mīſtu | at ȷaſt hef (624). 235 lèt = læt.

# XL.

## ÍSLENDINGA DRÁPA.

HAUKR VALDÍSAR SUN ORTI.

---

1. Bera skal lið firir lýða
Lóðurs vinar, glóða
hrafna víns nema hafni
hneigendr "dvalns" veigum:
reyndir bið ek at randar
runnar hlustar munnum
hausa harða ljósan
haslrekka mjöð drekki.

2. Hvals mun ek hvassa telja
húðlendinga búðar
hamra vífs þá er höfðu
hoddlógendr byr gnógan,
meðan til þess (enn þessum
þögn veiti hlyn peitu
garða grundar *nirðir*)
geð deiliz mèr (seilar).

3. Hverr gekk hræddr við örvan
Hundings á Snægrundu
ár til odda skúrar
elgreynir Broddhelga,
aðr grunnungi gunnar
Geitir rèð at beita
(askr fèll álms hinn röskvi)
örlyndr föður Sörla.

4. Enn fák þann er vá víka
vagnskreytir lèt fagna
gríðar Geitis blóði
gjarn hjálmþrimu Bjarni,
ok fjallgestils flesta
fólkmeiða vá beiðir
úlfum hollr þá er ollu
orð hans föður morði.

5. Varat hreggva*n*a hyggnum
hraunatla þorkatli
(reyndr varð rimmu skyndir
rakklyndr at því) sprakka,
þótt síns föður (sónar
saddr varð í gný nadda
ofnir) eigi hefna
ættgóðr skörungr mætti.

6. Opt vann aldri svipta
elgs fenviðu Helgi;
barðiz hann við harða
herðendr þrimu sverða:
frá ek báru hlut hæra

heiðinn unz varð meiðir
dauðr enn drengi aðra
Droplaugar sun bauga.
7. “Hælgı rauð eṅ h͗ðar
“hẏġ ek mæıṅ getu ꝥra
“fẹnrıſ teðr | ıfoðrı
“fleıngalldr uølu ſkıalldar”
þá er Ásbjarnar (örnu)
erfingi hræ fingin
(frá ek nýta sèr sveita)
síns nafna lèt hrafni.
8. Hefndi Grímr, þá er geymir
gekk inn at Frey linna
foldar Fjölnis elda,
fróðr vaskliga bróður:
Njörðr lagði sá sverði
snáka stígs (af vígi
Týr varð ágætr aura
elgs) í gegnum Helga.
9. Vörðu hauðr þá er háðu
hlýrar tveir með dýrum
foldar vörð ok fyrða
fleinglygg Aðalsteini.
þollr varð aldr hinn ellri
atgeirs í för þeiri:
hrings fèll á því þingi
þórólfr hinn hugstóri.
10. Egill fèkk unda gagli
(úlfs kom hrafn at tafni;
hygg ek burguz vel varga)
verð með brugðnu sverði:
sunr rauð síðar brynjur
(sverða Freyr) í dreyra
(mildr klauf skatna skjöldu)
Skallagríms hinn snjalli.
11. Ár frá ek arfvörð Geira
(ylgr saddiz) vel fylgja
- menn vá Glúmr at *gunni* -
*Gunnhildar bör kunnu:*
*Njörðr* klauf Herjans *h*urðir
har*ða* vitr á *Fit*jum
hinn er mál *af* manni
*metins* auðar fèk*k* dauðum.

---

* * * * * * *

2 Lóðurs = loðorſ. 9 Hvals > Half (< Hᵃlſ ɔ: Hvals) * hͣſſa ɔ: hvassa. 14 þögn > þaun. 16 deiliz ∽ dæıltz. 21 grunnungi = gᷓnvngı (* SVB. EGILSSON: Lexicon poëticum “granúngr”). 25 þann (= þan) < þess. 32 orð < orðs. 52 uølu ∽ uelu. 54 fingin > fengı | (< fengī | ). 65 háðu > haðu̍ (∽ hæðu̍). 77 sunr > ſonr. 81 arfvörð > afuorð. 88 *metins* = *mætın*ᵉ.

# XLI.

## ÚR MÁRÍU DRÁPU.

---

1. Heil gleði ok mildi móðir,
máttu þrískipat váttaz
göfugt öndvegi greindra
guðdóms fararblóma:
guðs þrenning veik þann veg;
þú ert enn skipaðr hennar
höfuðkastali hæstum
hæstr manndýrðum glæstra.
2. Sendi son frá böndum
sinn með lausn at vinna
dauðans þengill þjóðir
þeyranns í kvið meyjar:
þeim bjó sú við sóma
snotr mær friðar stæri
víst heimili ok hæstum
höfuðstað frömum jöfri.
3. Þú ert Máría meira
metin allri þjóð betri
þèr sýnir guð greinir
gjarna sjóvar stjarna:
lofar þá er öllum er efri
ein (rètt í veg hreinum
Kristr skipar hjá sèr hæsta
heims drottning) lið beima.
4. Oss fel þú lasta lausa
líkn vel kennd á hendi,
komin upp á hæð himna
hjálp mín, syni þínum;
hrittu öllum ótta,
undirgrepti ok heiptum
flærða hart af fyrðum
fáröflugra djöfla.
5. Oss þungliga þröngðum
þú hlíf konungr vífa:
traust hafa menn hit mèsta
mær göfug af þèr kærust;
dragðu til drottins byggða
drottning heims ok gotn*a*
allan lýð frá illu
aptr með þínum krapti.
6. Lýtr Máríu mætri
(mátt hennar guð váttar)
dýrð öll himna hirðar,
hjörð ok fólk á jörðu.
blíð ok blezuð móðir,
blómi heilagra dóma
(dugir himna guð gumnum)
gervallra má hón kallaz.
7. Jesú geym svá at geystar
guðs orð megim forðaz

kval*ar* þinnar vèr þrælar
þrifhróðigrar móður:
vaktaðu várar sektir
verðlaust ok gef trausta
heilagr Kristr í hæstri
himins dýrð gleði fyrðum.

8. Sæl ok harðla heilug
heyr María várar
bænir, bragna pínu
bót ok synða ljótra:
höll taktu í frið fullan
fljótt miskunnar dróttins
af greypustu glæpa
grandi várar andir.

9. Skínn með sælu sannri
(sannfrètt er þat) manna
hjálpar ván ok hreinum
hæst líf guði hit næsta.
lýtr öll veruld ítri
yfir-þjóðkonungs móður.
verð er drottning dýrðar
dæmð til efri sæmðar.

---

10. Heil vertu drottning dýrðar
dags, sönn valin mönnum
líknar r*ó*t ok *læ*knir,
lýðs vegr gipt ok prýði:
heitir þú stigi ok stræti
styrkr til ljóss frá myrkrum,
grundvöllr gæzku allrar,
gimsteinn konungs himna.

11. Heil vertu drottning dýrðar
dýr, gef þú mèr at stýra
ljóss til ok frelsi fýsaz
friðar (þess ek skal biðja).
Sæll laði oss ok alla
óttlaust með sèr dróttinn
(Krists lofi herr hins hæsta
hirðvist) fíra skírða.

---

1 gleði ok = gledjz (< gled z < gledjz). 2 þrískipat = þſkıpat. 8 hæstr > hoo|ſtr. 12 meyjar ∽ meýer. 24 lið > lıdc. 28 hjálp > híal. 39 allan lýð > *alloon* ooo. 43 himna > *hm*ooo. 47 guð > *g*oo. 49 Jesú > J hū. 55 heilagr > ooooor. 59 bænir, bragna > boon ~~*g*-|na. 63 greypustu > groopuz-|tu. 74 valin = valen. 78 styrkr > ſtýrkoo. 82-83 stýra——ok > flooora líoſoooıl ook (∽ ſkýra hoſ vıl ek). 87 hins > cooſ (ɔ: enſ). 88 skírða > ſooooo.

# XLII.

## ÚR PÈTRS DRÁPU.

---

1. Gróf sá er græðgi reifir
granda "fullr" andi
brjóst — ok bar inn löstu
brúkum — mitt hit sjúka:
saman þó loðir með límí
lífs hinna fyrir innan —
þat er ván guðligs gróða
græn — fyrir Petri bænir.

2. Nú bið ek dapr af dauða
dáligum mèr sálar
miskunnar ok mönnum
milding himins gildan.
Guði næst trúast treystir
tárfelld þjóð hans móður:
hjálp er ok heimsins stólpi
hlíf styrk konungr vífa.

3. Brott ryði þyrni þèttum
þjósts sármeiddu brjósti
mær ok móðir dýrust
María guðs váru.
önd með hjálpar hendi
heilagr stjörnu deilir
seði ok sæmðum gæði
siðsterkan brag verkum.

---

4. Eneas lofi launar
lasta brjót á móti
reistr af kör ok Christum
kátr trúliga játar.
gladdiz lýðr í Lidda
leystr af villu geystri;
Petro virðing veitir
við borg þessi síðan.

* * * * * * *

---

4 brúkum = brukū. 7 gróða = g̊da. 14 tárfelld ∽ turfelld (< trúfelld ?). móður > mod[7]. 16 hlíf styrk < hlífstyrk.

# XLIII.

## ÚR ANDREAS DRÁPU.

---

1. Enn kom elsku þinnar
annarr drottins manna
fyst*r í* faðminn hæsta
frið bjóðandi þjóðum:
fèkk Andreas yndi
æztr á krossi mæztum,
lofandi guðs, í lífi
líkjari himinríkis.
2. Yfirpostolinn ástar
Andreas var með bandi
festr á kross ok Kristi
kærr miðviku nærri;
lífit lèt með gæfu
ljóss á helgum krossi
föstudag sá er fýstiz
fagnaðar guðs af magni.
3. Skært ljós, skugglaus birti,
skein yfir krossinn hreina
þá er Andreas endi
aldr með drottins valdi:
sá hann guð sjálfr í dauða
sèr bjóðandi þjóða
prýðir faðminn fríða
frægð slík himinríkis.
4. *Host*ia Jesu Christi
ágætast fèkk sæti:
Andream sèr til ynd*is*
almáttigr guð valdi.
"m*iti*ſ" má hann því heita
megin-*postolinn* kostum
*pr*ýddr "z giptv gæddj
"gvdſ æ̃ *h*" ~|~~~~~.

---

11 á kross > áá m̃; kſſ | . 13 lèt +. 28 almáttigr ∽ *al*mtíg. 30 megin = megĩn | (ɔ: meginn?).

# XLIV.

## CECILÍU KVÆÐI.

---

1. Guð minn sæti blíðki ok bæti brjóst hryggviligt
svá at ek gæti samit mæti sannfróðan dikt.
2. Máríu milda mjúkra snillda mér æski ek nú
því at ek vilda í verkum gilda vegsama frú.
3. Sætust lilja - set ek með vilja svá fellda grein -
mey Cecilja megi þat skilja mjúklát ok hrein.
4. Sjá var hin fróma fædd í Róma frúin ynnilig;
hvers kyns sóma helgra dóma hún framdi sig.
5. Berr hún bæði at burð ok æði búin þing ok glæst;
snarpt hárklæði hlaðit af mæði var vífi næst.
6. Frosti ok klungri, freistni þungri, fast pínir líf
ber með hungri bernsku í ungri blezanligt víf.
7. Erligs svanna yfir- ríkjanna -jungkæri einn bað;
falds var nanna at fýsi manna föstnuð í stað.
8. Orgán láta, öld gerir káta, at brullaups tíð;
sárt nam gráta siðuð í máta Cecilja fríð.
9. Brúðrin þekka bundin ekka bað drottinn sinn
'láttu eigi flekka lysting rekka líkama minn.'
10. Guð várr sanni geymdi í ranni flekklausa frú;
kennt gat svanni sínum manni sannhelga trú.
11. Krapta lánum klædd at vánum seims sendi bił
Valerianum viðr Urbanum fögr fundar til.
12. Brátt nam skýra burgeiss hlýra sprund spektar heim:
svá nam stýra í sælu dýra Cecilja þeim.
13. Fyrirlét ok seim fallvaltan heim - frúin olli skær;
Kristr sendi þeim kærustum tveim kórúnur tvær.
14. Guðs ríðara gerðiz víðara verk vönduð meir;
himins sníðara hald fríðara hlutu hyggnir þeir.
15. Aura vendi sjúkum sendi sannheilagt fljóð;
börn ok kvendi baz hún á hendi ok bjarglausa þjóð.
16. Illsku fús Almachius Krists kvaldi grund
ok pessimus til píslar fús ljúft leiddi sprund.

17. Bölsveitin óð bálelda hlóð at fljóð framt:
brúðr drottins stóð fyrir bjartri glóð sex dægr í samt.
18. Hvártki skæði hár nè klæði grimm gneista flaug –
sem fyrir mæði sætan stæði í listugri laug.
19. Brúðr höggvin var yfir báli þar – bauð greifinn svá
sá er "fúdít bar" ok saklausan "fkar" háls eggjar á.
20. Meðr sverði svó seggr þrysvar hjó háls helgrar frú;
enn eigi þó alþingis dó guðs gimsteinn nú.
21. Fögr mær ok fróm flutt heim í Róm var virðum af
meðr dýrðar dóm því at dauða tóm guð henni gaf.
22. Fátækt kvenna, fjöld ungmenna, fal hún páfa á hönd;
gleði nam kenna guðs hins þrenna jungfrúlig önd.
23. Sárt mun kviðja Satans "midía" sálugri önd:
þat er þín iðja at þiggja ok biðja fyrir fólgins hönd.
24. Máríu mæta milda ok sæta ljúf líknar bið –
syndir bæta, sál at gæta; svá lækniz lið.
25. Þú mátt fría frú María vel várri pín –
sæt ok pia Cecilía salmeyja þín.
26. Fagrt má glósa, heiðra ok hrósa háleitum dikt:
skær sem rosa skínn meðal drósa víf volduligt.
27. Frú Cecilja, feskust lilja, ljúf líknar ey,
hjálp at skilja, hlaðin góðvilja, manns kona ok mey.
28. Látt eigi þú hin ljúfa frú þèr flýja frá
þá er vilja' nú meðr ván ok trú þinn fögnuð fá.
29. Heldr náðumz vær, háleitust mær, í himna höll
þar er sveitin skær meðr söngum kær guð göfgar öll. AMEN.

---

559: 2 +. 3 blíðki > bliki. hryggviligt > hryguílegt. 5 snillda > fnyllda. 9 ynnilig > ıñıleg. 10 helgra > heilg (tt) (* $559^{22}$ $560^{7}$). sig > fik. 14 í ungri = jung. 19 Brúðrin ⌣ Brúðr hin = Brudr en. 25 Brátt > Srat ⌣ Sratt. 27 (ok seim < seim ok). fallvaltan > falluatañ. 29 ríðara > riddʳa. 30 hyggnir = hyggn. 33 Illsku fús > Hiñ illzfku fuf. grund < hrund. 34 sprund > fpurdd.

560: 3 gneista > neifta. 5 Brúðr ∽ Bríudr. höggvin > hoggiñ. yfir > yf. 7 svó = s. þrysvar > þryfú. 9 virðum > uýrdū. 10 dauða > doda (ɔ: döða?). 12 þrenna > þreína. 13 "midía" < smiðja. 20 volduligt > uollldulegt. 21 feskust * fystr 558 s. 23 Látt = Latt. 25 Heldr > Melldr. háleitust > haleítūz. höll > holld.

